# ODYSSEIFS-KVÆÐI,

GEFIÐ ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGI.

# HÓMERS

# ODYSSEIFS-KVÆÐI,

GEFIÐ ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGI.

---

SVEINBJÖRN EGILSSON

ÍSLENZKAÐI.

---

KAUPMANNAHÖFN.

Í PRENTSMIÐJU *S. L. MÖLLERS*.

1854.

Þareð líklegt er að lesendur þessarar bókar vili vita hvernig á henni stendur, skulum vèr skýra frá því í fám orðum.

það er alkunnugt á Íslandi, að Sveinbjörn Egilsson hafði sèr handgengin kvæði Hómers Forn-Grikkja skálds framar öllum öðrum kvæðum, tók hann snemma að snúa Ilíonskvæði í íslenzk ljóð, með fornyrðalagi, og liggja eptir hann brot af því; en Odysseifskvæði sneri hann í sögumál, og er það prentað, sem kunnugt er, í boðsritum frá Bessastaða skóla 1829 til 1840. Á seinustu árum æfi sinnar sneri hann Ilíonskvæði á sama hátt, og er það til eptir hann óprentað.

Um haustið 1851 sendi Sveinbjörn Egilsson Rafni etazráði sýnishorn af Odysseifskvæði, sem hann hafði snúið í íslenzk ljóð; það var tuttugasta og þriðja kviðan, og hafði hann skrifað undir það nafn sitt og dagsett 3. Augustmán. 1851. Eg fèkk þetta sýnishorn að láni, og las það, og nokkrir fleiri Íslendíngar; leizt okkur öllum svo ágætlega á það, að við óskuðum að eiga þannig öll Hómers kvæði á íslenzku snúin. Eg skrifaði því til deildar bókmentafèlagsins á Íslandi, og stakk uppá við hana, að samið yrði við skáldið um að snúa á íslenzku öllu Odysseifskvæði, og prenta það á fèlagsins kostnað; tók deildin því vel, og forseti hennar, prófessor Pètur Pètursson, samdi fèlagsins vegna svo vel og greiðlega við höfundinn, að prentan kvæðisins varð byrjuð um sumarið 1852, og fyrri helmíngurinn kom út alprentaður um vorið 1853; hafði fèlagið á áliðnu sumri 1852 fengið þrjá hluta hinnar íslenzku útleggíngar, en á þeim sama tíma fèll skáldið í þann sjúkdóm, sem dró hann til bana 17. August 1852, var hann þá búinn að öllu með átján kviðurnar og hafði ort 135 vísur framan af hinni nítjándu. Benedikt sonur hans tókst síðan á

hendur að halda áfram kvæðinu, hefir hann snúið því sem eptir var af nítjándu kviðu, og tekið til á 136. vísu; síðan hefir hann snúið öllum þeim kviðunum er á eptir koma, og lagað sem líkast eptir því, sem faðir hans hafði byrjað; en tuttugustu og þriðju kviðuna, sem áður var getið, höfum vèr tekið eins og hún var, því þó hún sè nokkuð ólík hinu, þareð hún er nokkru orðfærri að tiltölu og bragarháttur nokkuð lítið frábrugðinn, þá ætlum vèr hún muni þykja góð sem hún er, og vildum vèr heldur halda henni óbreyttri, en að láta víkja henni við, eða snúa henni á ný, jafnvel þó vèr vitum, að höfundurinn mundi hafa vikið henni við, ef hann hefði lifað, til þess hún hefði að öllu sama lag sem hinar.

Til þess að bók þessi yrði aðgengilegri lesendum, hefir cand. phil. Jón Þorkelsson tekizt á hendur fyrir fèlagið að semja nafna registur, og svo registur orða þeirra og kennínga, sem helzt kynni virðast sjaldgæf eða þúngskilin þeim sem ekki eru alkunnugir skáldamálinu, einnig yfirlit yfir efni kvæðisins. Þetta allt lýsir sèr sjálft og virðist ekki nauðsyn til að skýra gjörr frá því.

Kaupmannahöfn 30. Marts 1854.

*Jón Sigurðsson.*

# YFIRLIT EFNISINS

í

# ODYSSEIFS-KVÆÐI.

---

**Fyrsta Kviða.** Goðastefna. Hvöt Aþenu við Telemakkus.

Skáldið biðr saunggyðjuna at kveða um hrakníngа ok heimkomu Odysseifs (1-4). Hefr hann þar frásöguna, er Odysseifr hafði lengi dvalizt á ey nokkurri hjá Kalypsó. Er þat þá ákveðit á goðastefnu, at Kalypsó skuli veita Odysseifi heimleyfi (5-35). Tekr Aþena þá á sik líki Mentes Taffeyínga konúngs, er var gestvinr Odysseifs, ok ferr til Íþöku á fund Telemakkus. Var þar fyrir fjöldi biðla, er hugðu til ráðahags við Penelopu ok eyddu eigum Odysseifs. Aþena ræðr Telemakkus at kveðja til móts, ok bjóða biðlunum at fara hverjum til síns heima, fara síðan til Nestors ok Meneláss at spyrjast fyrir um föður sinn (36-115). Síðan brá Aþena sèr í fugls líki ok fló brott. Gjörði Telemakkus sik þá djarfan við biðlana, ok býðr þeim at fara á braut ok sækja aðrar veizlur (116-177).

**Önnur Kviða.** Mót Íþökumanna. Utanför Telemakkus.

Næsta dag kveðr Telemakkus til þíngs, ok kvartar yfir ágángi ok ofstopa biðlanna (1-38). Þá svarar Antínóus, einn af biðlunum; kveðr hann Penelopu eina valda þessarri óhamíngju, ok muni biðlarnir eigi fyrr á braut fara en hún giptist einhverjum þeirra (39-59). Telemakkus kveðst ei munu láta móður sína frá sèr fara, ok hótar biðlunum hörðu ef þeir hafi sik eigi brott. Sendi þá Seifr tvo örnu; flugu þeir yfir þíngvöllinn ok horfðu í höfuð mönnum. Kvað Aliþerses þá boða biðlunum óhamíngju ok Odysseif munu heim koma ok veita þeim bana. Evrýmakkus kveðr ekki mark vera at spádómi hans (60-96). Biðr þá Telemakkus biðlana at fá sèr skip, at fara á til Spörtu ok Pýlusborgar; svara þeir illu einu, slítr hann þá mótinu (97-117). Heitr Telemakkus þá á Aþenu, kemr hún þegar ok er í Mentors líki, hvetr hann til fararinnar, ok kveðst munu fara með honum. Fær hún skip hjá Nóemoni ok fara þau af stað um kveldit (118-195).

**Þriðja Kviða.** Dvöl Telemakkus í Pýlusborg.

Þau koma til Pýlusborgar ok fá þar góðar viðtökur, ok spyrr Telemakkus Nestor eptir föður sínum (1-48). Veit Nestor ekki frá honum at segja, en

segir mörg tíðindi frá Trójuborg ok heimför annarra Grikkja (49-111). Síðan segir Nestor frá vígi Agamemnons, ok at Órestes vo Egistus föðurbana sinn. Varar hann Telemakkus við at vera lengi brott frá heimili sínu, ok ræðr honum at fara á fund Menelásar konúngs í Lakedemon (112-152). Síðan fló Aþena burt sem örn; Nestor þekkir hana ok lofar at færa henni fórnir. Telemakkus gistir hjá Nestor um nóttina (153-187). Morguninn eptir er kvíga blótuð Aþenu. At því búnu ferr Telemakkus af stað, ok fylgir Písistratus Nestorsson honum; koma þeir um kveldit til Díókles konúngs í Feruborg ok eru þar um nóttina (188-229).

## Fjórða Kviða. Dvöl Telemakkus í Lakedemon.

Kveldit eptir koma þeir til Lakedemonar. Hittist þá svo á, at Menelás heldr brúðkaup barna sinna; tekr hann vel á móti þeim Telemakkus. Menelás talar um þrautir Grikkja ok segir, at enginn hafi þolat svo margar þrautir sem Odysseifr (1-47). Þá fékk Telemakkus eigi tára bundizt, ok grunaði þá Menelás hverr hann mundi vera. Í því kemr Helena í höllina, ok þekkir hún þegar Telemakkus. Hún byrlar þeim óminnis-öl, gleyma þeir þá hörmum sínum. Menelás ok Helena segja frá framaverkum Odysseifs í Trójulandi (48-136). Morguninn eptir spyrr Telemakkus Menelás, hvort hann viti nokkut um föður sinn, ok segir honum frá ofstopa biðlanna. Segir Menelás þá frá hrakníngum sínum, ok hvat sæguðinn Próteifr hafi sagt sèr um lát Ajants Eyleifssonar ok Agamemnons, ok um dvöl Odysseifs hjá Kalypsó (137-274). Nú víkr sögunni til biðlanna. Fá þeir njósn um farir Telemakkus ok taka þat ráð, at gjöra honum fyrirsát. Kallarinn Medon segir Penelopu frá ráðagjörð biðlanna; verðr hún ákaflega hrædd, en Aþena birtist henni í svefni, í líki Iftímu, ok huggar hana. Biðlarnir gjöra Telemakkus fyrirsát við eyna Asteris (275-394).

## Fimta Kviða. Floti Odysseifs.

Guðirnir eiga fund. Seifr sendir Hermes til Kalypsóar ok býðr henni at láta Odysseif fara heim. Odysseifr smíðar sèr trjáflota á fjórum dögum; síðan siglir hann í seytján daga, ok sèr Feakaland á átjánda degi (1-134). Þá kemr Posídon frá Eþíópum ok sèr siglíng Odysseifs, verðr hann þá afar reiðr ok sendir ógurlegan storm, ok brýtr flotann í spón. Hafgyðjan Ínó kemr til Odysseifs, ræðr honum at synda til lands, fær honum höfuðblæju sína ok segir honum at binda henni um brjóst sèr, muni hann þá eigi á sundi mœðast. Odysseifr syndir í land, ok leggr sik til svefns (135-235).

## Sjötta Kviða. Koma Odysseifs til Feaka.

Aþena birtist í svefni Násíku, dóttur Alkínóus Feakakonúngs, ok segir henni at aka til strandar ok þvo klæði (1-23). Násíka ferr til strandar með

þernum sínum; þvo þær klæði í ánni, þar í nánd við sem Odysseifr svaf. Hann vaknar, ok biðr Násíku ásjár. Hún gefr honum mat og klæði (24-115). Hún biðr hann at fylgja sèr til Aþenu-lundar, ok bíða þar til þess er hún sè heim komin; síðan skuli hann koma á fund föður síns. Odysseifr fylgir henni til Aþenu-lundar, gengr inn í lundinn ok heitr á Aþenu (116-154).

## Sjöunda Kviða. Odysseifr kemr í höll Alkínóus.

Odysseifr gengr til borgarinnar. En er hann er kominn á miðja leið, mœtir Aþena honum í meyjar líki, bregðr yfir hann helgum myrkva, svo enginn sèr hann, ok fylgir honum inn í borgina (1-37). Aþena hverfr á brott, en Odysseifr gengr inn í höll Alkínóus, leggr hendr um knè Aretu drottníngar, ok biðr hana ásjár ok fararbeina; síðan sezt hann í ösku at arni, en Alkínóus reisir hann upp ok setr hann í hásæti (38-108). Odysseifr segir frá því, at Seifr braut skip hans, ok at hann var átta ár á Ógygsey hjá Kalypsó. Alkínóus heitr honum fararbeina; hann sefr af um nóttina (109-169).

## Áttunda Kviða. Viðskipti Odysseifs við Feaka.

Morguninn eptir stefnir Alkínóus konúngr þíng, ok segir frá því, at Odysseifr œski flutníngs til heimkynnis síns, ok lætr búa Odysseifi skip (1-21). Síðan býðr hann höfðíngjum til veizlu; kveðr þá saungmaðrinn Demódókus um deilu Odysseifs ok Akills. Odysseifr dregr skikkjuna yfir höfuð sèr ok grætr, enginn nema Alkínóus tók eptir því. Síðan gánga menn til leika, vinnr Odysseifr sigr í steinkrínglukasti (22-124). Síðan hefja menn dansleik, stendr Demódókus á miðju leiksviðinu ok sýngr um ástir þeirra Ares ok Afródítu; þótti Odysseifi unun at heyra þat (125-173). Evrýalus gefr Odysseifi silfrneglt sverð. Síðan gánga menn til borða. Kveðr þá Demódókus um trèhest þann er Epeus smíðaði, ok eyðíng Trójuborgar. Odysseifi stökkva tár. Alkínóus verðr þess varr, ok býðr Demódókus at láta af hörpuslætti. Skorar hann þá á Odysseif at segja hverr hann sè ok hví hann gráti (174-276).

## Níunda Kviða. Ferðasaga Odysseifs ok um Kyklópa.

Odysseifr segir frá hverr hann sè ok hvar hann eigi heima, hversu hann sigldi frá Ilíonsborg til Kíkónalands ok braut Ismarusborg, en lèt sex menn af hverju skipi (1-30). Þaðan sigldi hann til Lótófagalands, þaðan til Kyklópalands; bjó þar eineygr jötunn, er Polýfemus hèt (31-73). Hann var mannæta, ok át hann 6 af fèlögum Odysseifs. Odysseifr gaf jötninum vín ok gjörði hann drukkinn; lagðist jötuninn þá til svefns, en Odyseifr rak loganda staur í auga honum ok blindaði hann, ok komst síðan á brott (74-276).

## Tíunda Kviða. Um Eólus, Lestrýgóna ok Kirku.

Hèr segir Odysseifr frá því, at hann sigldi til Eólseyjar. Þar rèð fyrir Eólus vindguð. Gefr Eólus Odysseifi belg, voru í honum innibyrgðir allir vindar, nema hagstœðr vestanvindr, því þann vind lèt Eólus blása á eptir Odysseifi. Siglir Odysseifr þá í níu nætr ok níu daga, en á tíunda degi kemr hann í landsýn við Íþöku. Þá leystu fèlagar hans frá belgnum, því þeir hugðu gersimar fólgnar í honum. Þustu þá út allir vindarnir; rekr þá Odysseif aptr til Eólseyjar. Verðr Eólus styggr við ok vísar Odysseifi á braut (1-39). Þaðan sigldu þeir til Lestrýgóna, en þeir drápu marga af mönnum Odysseifs (39-65). Síðan komu þeir til Eyjar. Þar bjó gyðjan Kirka; var hún fjölkunnig ok brá hálfri skipsögn Odysseifs í svína líki (66-124). Hermes vísar Odysseifi á gras eitt, til at verjast töfrum Kirku. Ferr hann síðan á fund hennar, vill hún bregða honum í svínslíki, en hann ógnar henni ok neyðir hana til at gjöra fèlaga sína aptr at mönnum (125-196). En er hann hafði dvalizt eitt ár hjá Kirku, fýsti hann heim; en hún býðr honum at fara fyrst til Hadesar at leita frèttar hjá spámanninum Tíresías (197-274).

## Ellefta Kviða. Undirheimsför.

Odysseifr kemr til Kimmería. Grefr hann þar gröf ok sker hrút ok á í gröfina; flykkjast þá vofur kríngum gröfina ok vilja drekka blóðit, en Odysseifr leyfði engum þat, fyrr en hann hafði fregit Tíresías (1-45). Síðan kemr Tíresías, ok segir Odysseifi forlög sín (46-75). Antíklea móðir hans segir honum hvernig ástatt sè heima (76-114). Odysseifr sèr þar margar kappa-konur ok dætr, þar á meðal Týró, Antíopu, Alkmenu, Ledu (115-168). Agamemnon segir Odysseifi hversu Egistus vá hann, ok spyrr hvort Órestes son sinn sè á lífi (169-232). Þá koma þeir Akkilles, Patróklus, Antílokkus ok Ajant. Kveðst Akkilles heldr vilja vinna fyrir kaupi hjá fátækum kotúngi á jörð uppi en drottna yfir öllum dauðum draugum í undirheimum. Þar at auki sèr Odysseifr Mínos, Óríon, Títýus, Tantalus ok svip Herakles, því sjálfr Herakles er hjá guðunum. Hverfr þá Odysseifr aptr (233-313).

## Tólfta Kviða. Sírenur. Skylla. Karybdis. uxar Helíus.

Odysseifr kemr aptr til Eyjar. Kirka tekr vel á móti honum ok spyrr hann tíðinda. Hann býst til heimferðar. Kirka varar hann við Sírenum, Sogdraungum, Skyllu ok Karybdis (1-68). Odysseifr stígr á skip ok siglir fram hjá Sírenum. Skylla þrífr sex af mönnum hans ok etr þá (69-123). Þaðan koma þeir til Þrínakríu. Liggja þeir þar veðrfastir ok verða vistalausir. Slátra þeir þá uxum Helíus sólarguðs sèr til matar (124-191).

Verðr Helíus þá svo reiðr, at hann hótar at stíga niðr til Niflheims ok lýsa þar dauðum draugum. Lofar þá Seifr at hefna þessa illvirkis, ok brýtr hann skip Odysseifs, ok drepr alla menn hans. Odysseifr kemst á skipsflaka til Ógýgseyjar; þar bjó Kalypsó (192-216).

**Þrettánda Kviða.** Brottsiglíng Odysseifs frá Feökum ok heimkoma til Íþöku.

Feakar gefa Odysseifi góðar gjafir at skilnaði ok flytja hann sofanda til Íþöku (1-47); leggja þeir hann upp á landit, ok fjárhlut hans, og skilja svo við hann (48-60). En á heimleiðinni gjörir Posídon skip þeirra at steini (61-90). Þá er Odysseifr vaknar, kennir hann eigi fóstrjörð sína. Kemr þá Aþena til hans í hirðis líki; spyrr Odysseifr hana hvar hann sè staddr, en hún kveðr hann vera kominn á Íþöku (61-146). Sveipar þá Aþena braut hulu þeirri, er hún hafði brugðit yfir Odysseif, kennir hann þá landit ok verðr mjök glaðr (147-168). Aþena hjálpar honum til at fela gripi sína í helli nokkrum; ráðgast þau um, hvernig ráða skuli biðlana af dögum. Hún bregðr honum í förumanns líki, svo hann skyldi eigi þekkjast. Síðan ferr hún til Lakedemonar at sœkja Telemakkus (169-205).

**Fjórtánda Kviða.** Fundr þeirra Odysseifs ok Evmeus.

Odysseifr kemr á fund Evmeus svínahirðis; tekr Evmeus vel við honum, gefr honum mat ok drykk ok segir honum frá yfirgángi biðlanna (1-54). Þeir talast við um Odysseif; segir förumaðr, at hann muni bráðum heim koma ok hefna ójafnaðar á biðlunum, en Evmeus trúir því eigi; segir hann at biðlarnir veiti Telemakkus fyrirsát ok muni drepa hann, ok muni þannig öll ætt Odysseifs líða undir lok (55-94). Evmeus biðr þá förumann at segja sèr glöggva grein á, hverr hann sè. Odysseifr kveðst kynjaðr frá Krítarey ok segir af sèr lánga sögu (95-193). Síðan taka þeir kvöldverð ok gánga til hvílu. Kemr þá á hvassviðri ok verðr förumanni kalt. Segir hann þá sögu af sèr ok Odysseifi í Trójulandi. Kveðst hann þá hafa verit mikils metinn, en nú sè hann óvirðr, því hann hafi vond klæði. Varp þá Evmeus á hann miklum möttli; sváfu þeir svo af um nóttina (193-250).

**Fimtánda Kviða.** Telemakkus heimsœkir Evmeus.

Aþena birtist Telemakkus í svefni, býðr honum at hverfa heim aptr ok varar hann við fyrirsát biðlanna (1-21). At skilnaði leysa þau Menelás ok Helena Telemakkus út með góðum gjöfum. Seifr sendir honum jarteign mikla, ok leggr Helena hana svo út, at annathvort sè Odysseifr þegar heim kominn eða muni bráðum heim koma ok hefna sín á biðlunum (22-85). Næstu nótt gistir Telemakkus hjá Díókles konúngi í Feruborg. Síðan koma þeir til Pýlusborgar; skilr þá Telemakkus við Písistratus. Kemr þá Þeó-

klýmenus til hans ok biðr hann ásjár. Telemakkus tekr við honum ok stígr á skip (86-142). Nú víkr sögunni til Íþöku. Rœðast þeir við Odysseifr ok Evmeus. Segir Evmeus honum, at Laertes sè enn á lífi, en kona hans hafi dáið af helstríði eptir son sinn Odysseif. Síðan segir hann frá, hversu feniskir kaupmenn rændu honum sjálfum í Sýrey ok seldu hann Laertesi (143-240). Telemakkus kemr til Íþöku ok finnr Evmeus (241-271).

**Sextánda Kviða.** Telemakkus þekkir Odysseif.

Evmeus verðr glaðr við komu Telemakkus ok leiðir hann inn. Sèr Telemakkus þá Odysseif, en þekkir hann eigi, því hann er í förumanns líki. Hann sendir Evmeus til Penelopu, at segja henni frá komu sinni (1-69). Aþena kemr til Odysseifs, snertir hann með sprota sínum ok gjörir hann úngligan ok vöxtuligan. En er Telemakkus sèr þessa breytíngu á honum, hyggr hann Odysseif vera einn af guðunum. Segir þá Odysseifr til sín. Taka þá feðgarnir ráð sín saman, hvernig skuli fyrirkoma biðlunum (70-142). Skip Telemakkus kemr til borgarinnar. Kemr þá um sama leyti herkallari frá skipinu ok Evmeus, ok segja þeir báðir Penelopu, at sonr hennar sè heim kominn (143-152). Skip biðlanna kemr at svo búnu úr fyrirsátinni. Ræðr þá Antínóus til at taka Telemakkus af lífi, en Amfínómus letr þess (153-183). Kallarinn Medon lætr Penelopu vita, at syni hennar sè bani ráðinn. Gengr hún þá inn í höllina til biðlanna, ok átelr Antínóus. Evmeus kemr aptr um kveldit til Odysseifs (184-218).

**Seytjánda Kviða.** Aptrkoma Telemakkus til Íþaksborgar.

Telemakkus kemr heim til borgarinnar, ok fagna þær honum Evrýklea fóstra hans ok Penelopa móðir hans (1-40). Telemakkus segir frá ferðum sínum, en Þeóklýmenus spáir Odysseifi heimkomu (41-80). Odysseifr ok Evmeus fara til borgarinnar. Á leiðinni mœta þeir Melanþíus geitahirði; atyrðir hann mjök Odysseif (81-123). En er þeir koma til hallarinnar, sjá þeir Argus, hund Odysseifs; hann deyr þegar, er hann kennir herra sinn (124-160). Odysseifr kemr inn í höllina, gengr milli biðlanna ok biðr þá beininga; gefa þeir honum allir, nema Antínóus; hann atyrðir Odysseif ok verpr at honum fótskemli. Hinir biðlarnir átelja Antínóus (160-239). Penelopa gjörir Odysseifi boð, at koma á sinn fund; vill hún spyrja hann um mann sinn. Odysseifr biðr hana bíða, unz sól setist í œgi. Evmeus ferr heim til sín um kveldit (240-295).

**Átjánda Kviða.** Hnefaleikr Odysseifs ok Írus.

Förumaðrinn Írus kemr inn í höllina ok atyrðir Odysseif. Ríss þá deila mikil milli förukarlanna, ok býðr Írus Odysseifi í hnefaleik. Odysseifr vinnr sigr í hnefaleiknum (1-52). Þeir Amfínómus ok Odysseifr talast við, segir

Odysseifr, at biðlunum muni feigð búin (53-76). Penelopa kemr inn í höllina til biðlanna ok telr á son sinn fyrir illa meðferð á Írusi (77-118). Biðlarnir gefa Penelopu ágætar gjafir (119-148). Ambáttin Melanþó hrakyrðir Odysseif, ok Evrýmakkus verpr fótskemli at honum. Telemakkus átelr biðlana, ok býðr þeim at fara heim (149-206).

## Nítjánda Kviða. Fundir þeirra Odysseifs ok Penelopu. Evrýklea kennir hann.

Odysseifr ok Telemakkus bera öll vopn úr höllinni, svo biðlarnir skyldi eigi hafa neitt at verjast með (1-27). Melanþó atyrðir aptr Odysseif, en Penelopa átelr hana; hún lætr Odysseif setjast á stól hjá sèr ok spyrr hann frètta (28-82). Segir þá Odysseifr af sèr lánga sögu: kveðst hann heita Eþon, ok vera ættaðr frá Krít. Kveðst hann hafa sèð þar Odysseif, þá er hann fór til Trójulands, ok gefit honum gestgjafar (83-105). Þá grætr Penelopa, ok spyrr hvernig Odysseifr hafi verit klæddr. Odysseifr lýsir nákvæmlega klæðum hans; segist hann hafa heyrt í Þesspróta landi, at Odysseifr sè á lífi ok muni hann bráðum heim koma (106-156). Evrýklea gjörir Odysseifi fótlaug. Þekkir hún hann af öri, er hann hafði á fœti. Biðr Odysseifr hana at þegja yfir því. Penelopa segir Odysseifi draum sinn. Hún ræðr þat af, at gánga at eiga þann af biðlunum, er bogsterkastr sè ok beinskeytastr (157-293).

## Tuttugasta Kviða. Atdragandi at biðlavígunum.

Um nóttina liggr Odysseifr vakandi ok hugsar um dráp biðlanna, unz Aþena svæfir hann (1-24). Hann vaknar við harmatölur konu sinnar; biðr hann þá Seif at láta sik heyra orðheill nokkra, ok veitir Seifr honum þat (25-56). Telemakkus ríss úr rekkju ok gengr á þíng. Evrýklea lætr fága höllina, því næsta dag var hátíð mikil. Evmeus, Melanþius ok Fíletíus koma með blótfè. Fíletíus ok Evmeus biðja guðina at láta Odysseif heim koma (57-108). Biðlarnir ráða Telemakkus bana, sjá þeir þá tákn mikit, ok hætta fyrirætlun sinni. Gánga þeir síðan til hallar ok setjast at veizlu. Ktesippus verpr þjórsfœti at Odysseifi, en hann veikst undan (109-149). Þeóklýmenus spáir biðlunum feigð, en þeir reka hann á brott úr höllinni (150-175).

## Tuttugasta ok fyrsta Kviða. Bogatak.

Penelopa lætr sœkja boga Odysseifs og leggja hann fram fyrir biðlana; kveðst hún munu gánga at eiga þann af biðlunum, er hœgast fái dregit upp bogann ok skotið í gegnum tólf axa augu (1-50). Telemakkus freistar þrisvar at draga upp bogann, en fær eigi gjört þat. Standa þá biðlarnir upp hvorr at öðrum, ok freista at draga upp bogann, en fá eigi at gjört (51-88). Odysseifr, Evmeus ok Fíletíus gánga út; segir Odysseifr þeim þá hverr hann

sè, ok hvat þeir skuli gjöra (89-113). Evrýmakkus freistar bogans, en fær eigi upp dregit; biðr þá Odysseifr biðlana at leyfa sèr at freista bogans. Antínóus ok Evrýmakkus synja þess; en Telemakkus lætr Evmeus fœra honum bogann. Evrýklea ok Fíletíus loka hurðum (114-192). Odysseifr dregr upp bogann ok skýtr gegnum öll axa augun (193-207).

## Tuttugasta og önnur Kviða. Biðlavíg.

Odysseifr vegr Antínóus. Lætr hann þá biðlana vita hverr hann sè, ok hótar þeim bana. Evrýmakkus býðr fyrir sik bœtr, en þat tjár eigi ok vegr Odysseifr hann. Telemakkus vegr Amfínómus. Telemakkus sœkir herklæði, ok herklæðast þeir Odysseifr, Telemakkus, Evmeus ok Fíletíus (1-60). Melanþíus sœkir vopn til handa biðlunum í innklefa, sem Telemakkus hafði gleymt at loka. Þeir Evmeus ok Fíletíus binda Melanþíus (61-99). Aþena kemr til Odysseifs í líki Mentors ok eggjar hann. Nú falla þeir Demotólemus, Evrýades, Elatus ok Písander; Amfímedon særir Telemakkus. Síðan falla biðlarnir hvorr at öðrum (100-163). Odysseifr gefr saungmanninum Femíus ok kallara Medoni líf. Ambáttirnar bera út líkin ok þvo höllina (164-224). Odysseifr lætr hengja þær af ambáttunum, sem óhlýðnar höfðu verit. Síðan er höllin hreinsuð með brennusteini (225-247).

## Tuttugasta ok þriðja Kviða. Penelopa kennir Odysseif.

Evrýklea segir Penelopu, at Odysseifr sè heim kominn ok hafi vegit biðlana. Penelopa kemr í höllina, ok sezt gagnvart Odysseifi, en kennir hann eigi. Odysseifr lætr halda dansleik í höllinni, svo engan skuli gruna um víg biðlanna (1-40). Penelopa kannast við Odysseif, er hann lýsir rekkju þeirra, sem hann hafði sjálfr smíðat. Odysseifr segir Penelopu frá þraut þeirri, er spámaðrinn Tíresías lagði fyrir hann. Síðan gánga þau til sængr ok segir hann henni frá hrakníngum sínum. Morguninn eptir fara þeir Odysseifr ok Telemakkus at finna Laertes (41-102).

## Tuttugasta ok fjórða Kviða. Friðr.

Hermes fylgir vofum biðlanna til undirheima. Hitta þeir þar Akkilles, Ajant ok Agamemnon. Agamemnon segir frá greptrun Akkillis. Amfímedon segir Agamemnoni frá biðlavígunum (1-96). Odysseifr ferr at hitta föður sinn Laertes, ok finnr hann þar er hann gróf um trè í aldingarði sínum. Spyrr hann Laertes, hvort hann sè at Íþöku kominn, ok segist vera gestvinr Odysseifs. Laertes grætr, ok eyss mold yfir höfuð sèr. Segir þá Odysseifr til sín, ok verðr fagnafundr. Síðan gánga þeir til veizlu (97-195). Evpíþes, faðir Antínóus, safnar liði ok ferr með her á hendr þeim Odysseifi ok Laertes. Laertes vegr Evpíþes. Aþena slítr orrustunni ok kemr á friði (196-260).

# ODYSSEIFS-KVÆÐI.

## FYRSTA KVIÐA.

INN frá manni mèr,
mærðar gyðja,
víðförlum, er varð
víða ratað,
þá er hafði hann
ena heilögu
Trójuborg
brotna látið.

2. Sá hafði halr
hölda margra
heimkynni sótt
ok hugi kannat:
ok mannraun
marga þolat
hugum sárr
í hafi miðju:
þá er lífs sèr
ok liðum sínum
apturkomu
árna vildi.

3. Fèkk hann þó eigi,
at feginn vildi,
sinna fèlaga
fjörvi borgit;
því at eiginn þeim
óverknaðr
hyggjulausum
til heljar kom:
er þeir yxn
alskínanda
álfröðuls
of eta skyldu;
ok þá æsktum
apturkomu
dags faðir
degi nam.

4. Seg, gyðja, mèr,
Seifi borin,
einnig eitthvat
af efni þvísa.

---

5. Nú vorú kappar
komnir allir
heim úr hildi
ok hafs volki,
þeims óvægum
undan stýra
auðit varð
aldrtila.

6. Honum einum hèlt
háleit gyðja,
vegleg vættr,
í víðum helli,
Kalypsó,
konu bæði

ϱ. I, 1-14.

ok heimfarar
fúsum næsta,
ok hann at ver sèr
vildi kjósa.
7. Liðu misseri
mörg af hendi,
unz um síðir
ár þat kom,
þá er höfðu goð
honum ætlað
aptur heim komast
Íþöku til.
Nè hann þar var þó
þrautum horfinn,
at hann með vinum
væri kominn.
8. Öll aumkuðu
upphimins goð
prúðan Odysseif.
nema Posídon:
sá var síreiðr
sókndjörfum gram,
unz hann fót gat fest
á föðurjörðu.
9. En nú var farinn
fylkir hafstrauma
Eþíópa til,
þeir er öðrum fjarri
hlutu ból tvenn
und heimsjaðri:
þar er sæl sezt
sól at kveldi,
ok þars ár morguns
aptr um rís.
10. Hugnuðust horskum
hilmi lagar
hundraðsblót hrúta
ok helgra þjóra;
sat þar at sumbli,
sèr vel undi,
var-a gamans vant
í góðveizlu.

---

11. En hin önnur goð
á Ólympi
söfnuðust saman
í Seifs höllu.
Tók þá til máls
manna ok guða
faðir fyrstr
með fróðum tívum;
kom honum í hug
horskr Egistus,
þann er víðfrægr
vegit hafði
Órestes, arfi
Agamemnons:
12. "Er-a þat hæft,
at heilög skuli
gumar dauðlegir
goð um saka,
ok ills völd
oss um kenna;
þar sem sjálfir þeir
sjálfs böl auka
um fram örlög
með illsku verkum".
13. "Svo lèt Egistus
um örlög fram
eiginkvon átta
Atreifssonar,
ok hilmi heimkominn
til heljar sendi,
en þótt vissi sinn
vísan bana".
14. "Höfðum vèr til hans
Hermes sendan,
allskygnastan
Argusbana,

ρ. I, 14-38.

ok Egistus
áðr bannat
meinráð við brúði
ok morð þjóðkonúngs:
"því Órestes"
(kvað Argusbani),
"þá hann færist aldur yfir,
"hefna mun,
"ef hann heimfúss gjörist,
"ítrs Atreifssonar".
15. "Þó gat ei Hermes
með hollum ráðum
talit hughvarf
heimskum manni.
Því hafa gjöld
fyrir glæpsku stóra
öll í einu
yfir hann komit".
16. Gegndi Aþena
hin augum-glæja,
ok honum aptur
annsvar greiddi:
"Heyr, vor faðir
himinbúa,
æðstr öðlínga,
arfi Kronusar!"
17. "Víst hefir sá
at verðleikum
bana morðgjarn
maðr fundit.
Sömu afdrif ok
sèrhverr hreppi,
er slík verk
vinna þorir".
18. "En hugr mèr hvarflar
harmi deildr
til Odysseifs
hins ítrspaka:
vesals manns,
er vinum fjarri
á ey einni
ángr um bíðr".
19. "Sú er ey vaxin
viðar björkum,
hrönn um horfin,
út í hafsauga;
þar kná gyðja
görðum stýra,
borin Atlanti
hinum bölvísa":
20. "Sá er sèrhvers
sjávar kennir
ála alla
og undirdjúp;
heldr hann á lopti
hávum súlum,
jarðar dvergum
ok upphimins".
21. "Hans dóttir hjá sèr
heldr veslum
Odysseifi
óhugganda:
ginnir hann ok glepr
gælíngar orðum,
at hann Íþöku
skuli aptr gleyma".
22. "En Odysseifr
óðfúss þráir,
at hann at eins
aptr megi
lands síns líta reyk
í lopt upp stíga;
vill-at leingr lifa
lofðúngs kundr".
23. "Þrátt fyrir þat
þèr hrærist eigi,
hilmir ólympskr,
hjarta í brjósti.
Gazt þèr þá ei at,
er hjá gnoðum Argverja

ϱ. I, 38-61.

færði þrávalt þèr
þarflátr Odysseifr
heilög töfn
í Trójulandi?
Hví þú, Seifr, svo
siklíngi reiðist?"
24. Sagði þat Seifr,
sjóli skýbólstra,
ok henni aptr
annsvör greiddi:
„Hvat er þat máls,
er þèr af munni leið!
Hví þú svo, dóttir,
hagar orðum?"
25. "Hversu mætta ek
mærum gleyma
Odysseifi,
þeim er allra manna
vitrastr er,
ok valit hefir
fórnir flestar
ok fríðust blót
ódauðlegum
uppheims goðum?"
26. "Nei, æ ok ávallt
er honum reiðr
máttugr Posídon,
miðgarðs vörðr,
fyrir þá sök
at hann firti sýn
Polýfemus
prúðan krapti,
ámáttkastan
allra jötna".
27. "þann gat þósa,
þekkileg dís,
í hveldum helli
við hafsdrottni,
dóttir Forkunns,
er frjólausum

ρ. I, 61-86.

eyja hríng
yfir stýrir".
28. "Fyri því hrekr
hafstrauma guð
ítran Odysseif
ættjörðu frá
lángar leiðir
um lagar geima,
en honum lífs
ljær at hvoru".
29. "Heilir svo allir,
er hèr erum!
Afrekum heimför
hröktum manni!
Leggja skal heipt sína
Landa-skelfir;
því ei mun honum tjá
at etja kappi
einum við alla
uppheims guði".
30. Gegndi Aþena
hin glóeyga,
ok honum aptr
annsvör greiddi:
„Heyr, vor faðir
himinbúa,
æðstr öðlínga,
arfi Kronusar!"
31. "Sè þat samráð
sælla guða,
at skuli hilmir
inn hugumsnjalli
aptur heim komast
til hallar sinnar":
32. "þá skulum senda
sendigoð vort
Ógýgseyjar til,
Argusbana,
boð at bera
bjartri gyðju

um stadt ráð
ríkra guða,
at sè hugsterkum hilmi
heimleyfi veitt".

33. "En ek mun árna
Íþöku til
ok son hans
sjálfan hitta,
dug honum drýgja
ok dirfð í brjósti,
ok enn fram eggja
til áræðis":

34. "At hann Akkea
alþíngs kveðji,
ok biðlum öllum
á burt vísi,
þeim er búfè hans
ok bjúghyrnd naut
drjúgum drepa
með degi hverjum".

35. "En sjálfan son hans
ek senda vil
prúðan til Spörtu
ok Pýlusborgar,
at hann föður síns
fari á leit,
ef hann gott orð
geta knætti".

---

36. Lèt þá Aþena
ilskó gullna,
himneska, fagra,
sèr und fætur bundit;
þeir báru sólar
sæla gyðju
yfir láð ok lög,
sem lèki vindr.

37. Greip hún í hönd sèr
geir eirbryddan,

stinnan ok sterkan,
stóran, þúngan;
þeim drepr geiri
Þrúðvalds dóttir
rekka sveitir,
ef hún reið gerist.

38. Fór hún brunandi
fram af hávum
Ólymps tindum,
ok til Íþöku kom;
gekk at garðshliði,
geir í hendi,
fyrir fordyri
fylkis hallar,
glík grams fornum
gestavini,
tiggja Mentesi
Taffeyínga.

39. Fann þar göfga
fyrir dyrum
biðla leikandi
brúðar-kotru:
uppi þeir sátu
á uxa húðum,
þeirra er sæfða
sjálfir höfðu.

40. Kallarar þeim
ok karskir sveinar
vatni blönduðu
vín í skaptkerum;
en aðrir gljúpum
gjörðu fága
skutla vandlega
vöttum Njarðar,
slógu fram borðum,
ok slátur margs konar
brytjuðu vel,
ok verð deildu.

---

ρ. I, 86-112.

41. Leit hana fríðr
fyrstr allra
Telemakkus,
þar hann tvistr sat
í flokki biðla,
ok um föður hugði,
ef hann at kynni
einhverstaðar
bera, ok biðlum
á brautu stökkva,
en tign sína
taka sjálfr
ok einn um ráða
eignum sínum.
42. Meðan hann hèr um
huga leiddi,
þar í samsæti
sat með biðlum,
kom hann auga á,
hvar úti stóð
dular-gyðja
fyrir garðshliði.
43. Þótti honum þat
þeygi sæma,
at gestr dveldi
í dyrum leingi;
fram gekk þegar
forsal gegnum,
ok þar at fram,
sem Aþena stóð;
ok um hönd henni
ina hægri greip,
tók við geiri,
ok við gyðju mælti:
44. „Heill þú, gestr,
hjá oss vel kominn!
Sezt at sumbli,
ok seg oss erindi".
45. At því mæltu
hann á undan gekk,
en úngleg Aþena
eptir fylgdi.
46. En er þau bæði
voru inn komin
í háreista
hilmis stofu,
bar geir hennar hann
at hárri súlu,
ok í geirstokki
glæstum reisti,
þar er geðsnjalls
geirar margir
Odysseifs
inni stóðu.
47. Leiddi hann hana
at hástóli,
þar dýr blæja
breidd var undir,
ok fótaskör
fyrir neðan;
sèr bað hana þar
sæti velja.
48. Handa sjálfum sèr
setti hann stól
glæstan, allnærri
gyðju sessi,
en út frá sætum
annara biðla.
49. Gerði hann þat,
svo gestr eigi,
glapinn háreysti
háværra manna,
feingi viðbjóð
á veizlukrásum,
ef með ofstopum
ætti dvalar;
ok svo feingi hann
fjarrveranda
föður sínum
fregnat eptir.

ϱ. I, 113-135.

50. En herbergismær
handlaug færði
vænum, gullnum
í vazkalli,
ok yfir mundlaug
úr mæru silfri
vatni af hellti
til handaþvottar;
ok hún fágat borð
fram þar setti.
51. Ok heiðvirð
húss matselja
brauð fram bar,
ok á borð lagði;
miðlaði matar
mörgum rètti,
hugul veitandi
þat fyrir hendi var.
52. En hvers kyns hlaðna
hóf upp kjöti
borðdiska bryti,
ok á bjóð setti,
ok hjá skötnum lèt
skálar gullnar;
en kallari
á kreiki var,
veizlumönnum
vín at skeinkja.

---

53. Inn komu biðlar
ok á bekki settust
hverir at öðrum,
ok hástóla;
ok á hendur þeim
helltu vatni
til handaþvottar
þjónustumenn.
54. En húsþernur
hlóðu karfir
brauði með,
ok á borð settu:
ok skaptker
skærum drykk
borðsveinar
á barma fylltu.
55. Nú rèttu halir
hendr sínar
at framreiddum
rètta gnægtum.
En er lýðir
lystíng höfðu
úti byrgt
áts ok drykkjar:
hugr at öðru
hneigðist biðla,
at hljómfullum
hljóðfærasaung
ok dansleik, veizlu
vænstri prýði.
56. Ok hörpu
í hendr fèkk
kallari fagra
Femíusi;
varð hann viljalauss
með vöskum biðlum
hátt vel kveða
hverjum stundum.
Ok nú hóf hann
hörpu leikandi
fagran saung
firða kindum.
57. En Telemakkus
tók at mæla
augum-glæja
Aþenu við;
hneigði til hennar
höfði sínu,
at eigi heyra
aðrir mætti:

ϱ. I, 136-157.

58. "Muntu, gestr, mik
máls of kunna,
ef ek eitt við þik
orð um mæli?
þat er geðþekkast
þessum mönnum,
hörpuslåttr
ok hljóðalist".

59. "Auðfeingit gaman,
er þeir annars manns
eignum bótalaust
eyða knegu,
þess er nú munu
í þeyviðri
fúna bein
á foldar svæði,
eðr um velkjast
í unnar bylgjum".

60. "Ef þann mann
þessir liti
aptr heim kominn
Íþöku til,
mundu þeir allir
sèr æskja heldr
fráleiks fóta,
en fullar hafa
gaupnir sèr
gulls ok klæða".

61. "En nú hefir hann
með hætti slíkum
illan of beðit
aldrtila;
nè huga vorum
huggunar ljær,
þó höldar hans
heimvon teli.
Hans er heimkomu
horfinn dagr".

62. "Heyr nú, herm mèr,
ok herm með sanni:

Hverr ertú,
ok hvaðan af löndum?
Hvar er borg þín,
ok þeir þik borit hafa?
Á hverju skipi
ertu hèr kominn?"

63. "Hví þik skipmenn
híngat fluttu?
Hvat látast þeir
lofða vera?
Vík ek svo orðum,
því víst muntu ei
híngat á fæti
farit hafa".

64. "Seg mèr enn satt,
at ek til sanns viti:
Ertu frumferill
til foldar hèr,
eða fornvinr
föður míns?
því at annars
eigi allfáir
verar vitjuðu
vorrar hallar,
alls hann mannblendinn
maðr of var".

---

65. Gegndi Aþena
hin glóeyga,
ok orðum hans
annsvör veitti:
"Ek skal þá inna
allt af lètta:
Mentes menn
mik of kalla,
arfa allspaks
Ankíalus;
en ek ræsir emk
enna róðrar frömu

**ρ. I, 158-181.**

tírargjarn
Taffeyínga".
66. "Kom ek hèr á kneri
með kría mína,
um lög líðandi
til landa fjarra,
Temesborgar til,
at taka eir
fögru við járni,
er ek flyt með mèr".
67. "Lenda ek kneri
lángt frá borg
hinnig við hauðr
í Hreiðruvogi,
neðarla undir
Nejonsmúla".
68. "Við erum báðir,
ef þik vita lystir,
ættvinir fornir
at öndverðu.
Vitnað þat getr
vitr Laertes,
öldúngmenni,
þann er ekki framar
kveða bragnar
til borgar koma":
69. "Heldr aldr ala
aldraðri hjá
á landsbygð úti
lauka Freyju,
sú honum fæðu
færir ok drykk,
þá hann af erviði
er örmagnaðr,
bjúgr vafrandi
um vínmóa
frygðarfullu
frjólendi á".
70. "En ek kom hèr,
því at kváðu vera
lýðir föður þinn
í land kominn;
hitt mun þó heldr,
at hamla munu
fylkis för
framir guðir".
71. "Því at ekki mun
enn þá vera
lofsæll Odysses
á landi dáinn;
heldr mun hann
útí hafi víðu
á ey einni
umflotinni
sitja, kyrrsettr
af seggjum trylltum,
þeirs honum hjá sèr
halda nauðgum".
72. "En ek ætla nú
einu at spá,
sem mèr í brjóst
blása guðir,
ok sem ek hygg
muni eptir gánga;
er-a mèr þó spáleiks
speki gefin,
nè fuglspáar
fræði veitt":
73. "Hann mun víst eigi
hèr eptir leingi
(nè þótt járnfjötrar
jöfur hèldi)
sinni fjarrkominn
fóstrjörðu,
þeirri er ann hann
af öllum hug;
hyggja mun hann
á heimför sína,
alls hann ráð hefir
und rifi hverju".

74. "Heyr nú, herm mèr,
ok herm með sanni,
ef þú sjálfs Odysseifs
sonr um ert,
svo vænn maðr
ok vöxtulegr.
Mjök ertu honum
til höfuðs líkr,
ok augu jafnfögr,
sem í jöfri voru".
75. "Svo opt hittumst við,
hann ok ek
áðr hann í her
á hafskipum fór
Trójulands til
með týhraustustum
afarmennum
Argverja lýðs.
Upp frá því mik
hefir-a Odysseifr,
nè ek hann
augum litið".

---

76. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok orðum hans
annsvör veitti:
"Glögglega, gestr,
skal ek greina slíkt:
Mik kveðr móðir
mög hans vera;
sjálfr nè veit ek,
því at sjálfr kann
ætt sína einginn
alda sona".
77. "Sæll ek þá hygðumst,
ef ek hefða verit
einhverjum alinn
auðnumanni,
þann er sitjanda
at sjálfseignum
ellidagar
knætti yfir líða".
78. "En ek emk,
þess er allra varð
giptuminnstr
manna á foldu,
sonr of sagðr;
sagt hef ek mitt eðli".
79. Gegndi því Aþena
hin augum-glæja,
ok honum aptur
annsvör greiddi:
"Eigi munu goð
ættstuðil þinn
tírarlausan
láta verða,
alls þik slíkan
at atgjörvi
prúðlynd ól
Penelopa".
80. "En heyr, herm mèr,
ok herm með sanni:
Hvat er þat gildis?
Hvat er þat fjölmennis?
Hver gerist þèr þörf þess?
Er til mannboðs búit,
eða brúðkaups drykkju?
Kná-a slíkt vinaboð vera".
81. "Svo mèr sýnast
seggir at veizlu
óhófs fullir
ok ofstopa.
Svinnra hverjum,
er slíkan liti
ósóma allan,
mundi ofbjóða".
82. "Talaði inn horski
Telemakkus,

ok orðum hans
annsvör veitti:
"Er-a dælt, gestr,
at dylja þess,
er þú forvitnast
ok frèttir eptir".

83. "Mátti hús þetta
at hagræðum
ok auðsælu
ágætt verða,
ef innan lands
allar stundir
hefði halr sá
heima dvalit".

84. "En grimmráðir
guðir lètu
annat á baugi
uppi verða,
er þeir hal þann
hverfa lètu
ok ósýnan verða
öllum mönnum".

85. "Betr munda ek
mildíngs láti,
enn þótt ángraðr,
unat hafa,
ef með tryggum
í Trójulandi
fèlögum sínum
fallit hefði;
eða hefði hann
heima látizt
at vunnu stríði
í vina höndum".

86. "Þá mundi haug
at hilmi dauðan
alþjóð Akkverja
orpit hafa,
ok sjálfr ágæts
at sik látinn
orðstírs aflat
arfa sínum".

87. "Nú hafa sviplegir
sviptibylir
buðlúng frægðarlaust
burtu hrifit:
horfinn er hann,
hvergi sèðr,
ok eingi frètt
af honum geingit".

88. "Mèr hefir hann
harma sára
ok ángr eitt
eptir látið.
Nè hann einan ek
ángraðr græt,
mèr hafa böl bönd
búit annat:"

89. "Því allir þeir,
er eyjum ráða,
dýrstir drottnar,
Dúlikseyju,
Sámsey, myrkviði
Sakyntseyjar,
ok Íþöku
afarbrattri".

90. "Minnar þeir allir
móður biðja,
ok búsifjar
bágar veita;
en hún hvorki
hvimleiðum gerir
ráðahag níta,
nè raun á vinna".

91. "En þeir upp eta
eigur mínar,
ok okkru
eyða búi;
ok meirr mèr
munu sjálfum

ρ. I, 230-251.

bráðum í heima
báða sýna".

---

92. Þá varð gyðju
gramt í skapi,
únglegri Aþenu,
ok til orða tók:
"Heyr á undur!
Allmikil þörf
er þèr á Odysseifs
aptrkomu;
sá mundi halr,
ef heima væri,
at biðlum bölvísum
beygja krummur".
93. "Væri nú heim
til hallar kominn
Odysseifr,
ok í stæði
fremsta fordyri
faldinn hjálmi,
skjöld á hlið,
sköpt í hendi tvö";
94. "Ok væri slíkr,
sem ek sá hann fyrst,
þá í höll hann
harðla glaðr
vorri veigar drakk,
ok vel sèr skemti,
er hann aptr um kom
frá Effýru,
þars arfi Mermers
Ílus ríkti".
95. "Hafði inn ágæti
Odysseifr
á fljótri snekkju
farit þángat
eptir mannskæðu
ólyfjani,

örvar at rjóða
eiri bryddar".
96. "Fèkk-at hann eitr
Ílusi hjá,
því sá óttaðist
eilífa guði;
en hann fèkk þat
hjá föður mínum,
því hann vinr hans
var hinn bezti".
97. "Ef Odysseifr,
orðinn, sem þá,
birtist með biðlum,
brátt mundu þeir
feigum fótum
foldu sporna
ok beisklega
brúðför geta".
98. "En því rík regin
ráða knegu,
hvort honum eigi
auðit verða
hefna á biðlum
harma sinna,
eðr ok ekki,
innan hallar".
99. "Ræð ek þèr nú,
at þú á ráð hyggir,
hversu þú megir
úr höll stökkva
biðlum hrekkvísum.
En þú hlusta til,
ok mínum góðan gef
gaum at orðum".
100. "Skaltu á morgun
til móts kveðja
alla akkneska
öldurmenn.
Lát öllum uppi
erindi þitt.

ρ. I, 251-273.

Veri goð vitni
verka þinna".
101. "Bjóð þú biðlum,
at þeir á braut fari,
hverir heim
til húsa sinna.
En móður þinni
mun ek ráð gefa,
ef hennar til gjaforðs
hugir standa".
102. "Fari hún aptr
til föður síns,
þars hann með ríki
ræðr auðsölum.
Þá munu þeir,
sem þar eru,
ráðahag ríkrar
ráða sjálfir,
ok mund út greiða
svo mikinn næsta,
sem ástsælli mey
á at fylgja".
103. "En sjálfum þèr
ek segja mun
hagleg ráð,
ef þú hlýða vildir:
skaltu tuttugu
skipa ræðum
byrðíng þann,
er beztan hefir".
104. "Far svo á vit
föður þíns,
er leingi hefir
úr landi verit:
ef frètt hjá fróðum
finna knættir,
eða spáraust heyrir
frá spökum Seifi,
sú er vitorð bezt
veitir mönnum".
ϱ. I, 273-293.

105. "Fyrst skaltu fara
ok að frèttum spyrja
prúðan Nestor
í Pýlusborg.
Þaðan til Spörtu
sporna leiðir,
Menelás
mildíng hitta;
hann eirbrynjaðra
Akkverja kom
síðastr allra
til síns heima".
106. "Ef þú föður þinn
frèttir á lífi,
ok heimvon hans
heyrir sagða:
heilt ár enn,
þó atþreyttr sèrt,
þolinmóðr þú
þreyja skalt".
107. "En ef heyrir hann
úr heimi liðinn,
ok eigi leingr
lífs á foldu:
þá skaltu lykkju
á leið gera,
ok heim aptr fara
til föðrlands";
108. "Ok haug verpa
hilmi frægum,
ok fjöld fjár
fylgja láta,
slíkt er siklíngi
slíkum hæfi.
Giptu svo manni
móður þína".
109. "En sem þú hefir
þetta unnit
ok látið öllu
til loks komit:

þá skaltu horskr
hverfa þínum
hug ok hjarta
at hefndar ráðum:"
110. "Hversu þú megir
í húsi þínu
biðlum bölvísum
bana veita,
hvort sem vinna vilt
með vèl huldri,
eðr ofríki
opinberu".
111. "Sæmir nú eigi,
at sýnir þú
á þèr æði
úngra manna:
þar sem þú ert
þeygi leingr
á úngmennis
aldrs skeiði".
112. "Hefir-a þú heyrt,
hvílíkan prís
ítr Órestes
öðlazt hefir
um öll lönd
hjá ýta kindum:
er hann felldi
sinn föðurbana,
vèlráðan Egist,
er vegit hafði
föður hans,
frægstan manna".
113. "Ok þú, vinr,
er svo vænlegr ert
ok ítr álits
í augum mínum,
dreingr þú veri,
at í degi síðan
unni þèr orðlofs
alda synir".
ρ. I, 291-312.

114. "En ek mun nú
ofan fara
knarar til
ok knía minna,
þar er mína
þreyja komu
leiðir lángbiða
liðar mínir".
115. "Veit nú áhuga
efnum þínum,
ok vert atgeyminn
orða minna".

---

116. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok orðum hennar
annsvör greiddi:
"Mælir þú, gestr,
af góðum hug
þessi orð,
er þú nú ræddir,
sem mundi faðir
megi sínum.
Skal ek aldrei þeim
orðum gleyma".
117. "Heyr nú, hjá mèr enn
hríð nokkra dvel,
þóttú fúss mjök sèrt
fara þinna.
Laugar tak,
ok lát af stundu,
gestr, gert þèr
glatt í hjarta".
118. "Þá skaltu gánga,
gladdr í huga,
með vingjöf valda
vazta blakks til,
dýra og væna,
er þèr vera skal

í minníng mína
menjagripr.
Svo skal vin vinr
veita gjafir".
119. Gegndi Aþena
hin augum-glæja,
ok honum aptr
annsvar veitti:
"Halt mèr eigi nú
hjá þèr leingr,
alls ek farar
fúss em næsta".
120. "En gjöf þá,
er mèr gefa bað
hjarta þitt
it hugaðláta,
inna mèr skalt,
þá ek aptr um fer,
at ek með mèr heim hafi.
Fagra þú vel,
því hún þèr vænna skal
aptr iðgjalda
frá mèr orka".
121. Þá er Aþena
þetta hafði,
glóeyg gyðja,
gert at mæla,
hvarf hún á braut,
ok hátt fljúgandi,
fugli líkt,
at lopti sveif.
122. Komit hafði hún
hugar móði
ok djörfúng gnógri
í gnegg honum:
ok enn meiri
minníng föðurs
vakit í brjósti,
en verit hafði.

123. En þá varð,
er hann vissi þetta,
hjarta fylkis niðs
fángit hræðslu:
því hann hugði,
at hulin gyðja
í vers líki
verit hefði.

---

124. Þá til biðla
at bragði gekk
tíva jafníngi
Telemakkus.
Saung þar saungmaðr
sætum hljóðum,
en þeir hljóðir sátu
ok hlustuðu.
125. Kvað hann um heimför
hörmulega,
þá er frá Tróju
tírargjörnum
úngleg Aþena
Akkverjum skóp.
126. En prúðlunduð
Penelopa,
ítrum borin
Íkaríus,
ofan úr loptsal
undir niðri
heyrði saungmanns
helga róma.
127. Hún ofan steig
stiga hávan
herbergis síns,
henni fylgdu tvær
(þeygi var hún ein)
þjónustumeyjar.
128. En er buðlúngs brúðr
til biðla kom,

nam hún staðar
við stofudyr
veglegs sals,
ok fyrir vaungum sèr
höfuðblæju hèlt
harðla fagri.
129. Sín til hvorrar
handar stóð
hugkvæm henni
herbergismær.
En hún orðum varp
á unaðsfullan
saungvamann,
ok sáran grèt:
130. "Mart kanntu annat
um at kveða
skötnum, Femíus,
til skemtunar:
mæt afreksverk
manna ok guða,
þau er víðfrægja
versa smiðir".
131. "Sýng þú, sitjandi
hjá svinnum biðlum,
um einhver slík
ágætisverk;
en þeir siti
ok þöglir hlýði,
ok drekki af kerum
dýrar veigar".
132. "Hætt þú hvimleiðum
harmsaungi þeima,
er mitt ávallt svo
ángrar hjarta,
þar sem mik mest
manna allra
sáran tekr slíkt
sorgarefni".
133. "Dýrt er þat höfuð,
er ek döpr þrái,

ρ. I, 333-354.

mikill maðr sá,
er ek minnist æva:
hans lifir orðstír
ok ágæti
alls Grikkjalands
enda millum".

---

134. Talaði orð þat
Telemakkus,
horskr í hyggju:
"Hví þú, móðir,
annt ei saungmanni
svo at skemta,
sem honum sjálfum
segir hugr?"
135. "Eigi saungmönnum
sorgafullt er
yrkisefni
um at kenna.
Nei, Seifr sjálfr
er saka valdr,
því hann súrt ok sætt
at sinni vild
byrlar brjálsömum
börnum manna".
136. "Eingi má firna
Femíus um þat,
þó Danáa inni
frá óförum:
því at bezt geðjast
gumna eyrum
kvæði þat, er heyra
kveðit nýjast".
137. "Uni hjarta þitt
ok hugr bæði
harmaljóð við,
þó hrygðar valdi:
því ei hefir einn
Odysseifr

heimkomu tapað
í Trójulandi;
heldr hafa þar
helfarar ok
kappar allmargir
aðrir beðit".

138. "Hverf heldr aptr
herbergis til;
lát hug þinn hneigðan
at hannyrðum,
vef ok snældu:
bið til verka gánga
þjónustumeyjar
þínar allar".

139. "En ræður reisa
ok ráðagerðir
heyrir karlmönnum
hvervetna til:
helzt þó mèr,
því at hinnig lúta
yfirráð öll
innan hallar".

140. Hnykti við hvítri
hilmis brúði,
ok aptr hvarf
til herbergis:
því at sonar síns
siklíngs beðja
horskleg orð
á hjarta lagði.

141. En er í loptsal
upp var komin,
með herbergis
horskum meyjum:
grèt hún Odysseif,
ástkæran mann,
unz blundi sætum
á brár henni
Aþena varp
hin augum-glæja.

142. Höfðu hátt
horskir biðlar
í skata sal
skuggaríkum:
því biðla hverr
á beð vildi
gánga með ljósri
lofðúngs brúði.

143. Vakti þá máls,
ok meðal þeirra
talaði horskr
Telemakkus:
"Heyrit, minnar
móður biðlar,
ofgángs fullir
ok ofstopa!"

144. "Gerum oss glaða
at gamansveizlu,
en hvers kyns hverfi
hávaði braut.
Því annan eins
er unað at heyra
saungmann, ok þenna,
er sætum rómi
líkr æðstum er
uppheims goðum".

145. "Skulu vèr á morgun
til móts gánga
ok á samkomu
setjast allir;
þá mun ek yðr
út af höllu
skírum orðum
skipa gánga".

146. "Sækja verði þèr
veizlur aðrar,
ok eigur eta,
er eigit sjálfir,
hús af húsi
heimsækjandi

hverir hjá öðrum
at heimboðum".
147. "En ef yðr þat
æskilegra
þykir, ok sæmra
sýnist vera,
at eins manns
endrgjaldslaust
eigur eyðist —
þá eyðit þeim!"
148. "En ek skal þá
á alla heita
guði eilífa,
sem aldrei deyja:
vita, ef Seifr
vorra mála
einhvern tíma
uppreist veiti.
Þá munut þèr,
ef þat verðr,
ógildir falla
innan hallar".
149. Biðlar allir
bitu á varrar,
er svo talaði
Telemakkus;
ok undruðust,
at hann orðum skyldi
mæla dirfast
svo djarflegum.
150. Þá kvað Antínóus
Evpíþes son,
ok á hann varp
orðum þessum:
"Kann ek þat sjá,
at þèr kennt hafa
tívar sjálfir,
Telemakkus,
hátt at stefna
stórum orðum

ϱ. I, 375-395.

ok mæla djarft
í dreingja flokki".
151. Óskanda væri,
at ei þik gerði
kundr Kronusar
at konúngi
á Íþaksey
unnum kríngdri,
sem þú ætt til átt
ok arftöku".
152. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok honum aptr
annsvör greiddi:
"Hvort muntu mik
máls of kunna,
Antínóus,
ef ek eitt þèr segi?"
153. "Æskja munda ek
at öðlast slíkt,
ef mèr þess Seifr
unna vildi.
Eða hyggr þú eingan
hlut með mönnum
verri vera,
en vísis tign?"
154. "Er-a kostalaust,
konúngr vera:
"Auðr honum þróast
innan húss,
áðr lángt um líðr;
ok sjálfr hann
sæmd um getr
æðri, en áðr hafði".
155. "Eru ok aðrir
ekki fáir
á Íþaksey
unnum kríngdri
konir Akkverja
konúngbornir,

ýngri bæði
ok eldri menn.
þeirra nokkurr
mun þetta öðlast,
alls af lífi
Odysseifr,
seifborinn
sjóli, hvarf".
156. "En ek skal
eigandi vera
at húsi voru
ok heimaþrælum:
mani því, er rænti
mèr til handa
ítrborinn
Odysseifr".
157. Annsaði honum
aptr á móti
arfi Polýbus,
Evrýmakkus:
"þat mun vera
þó á valdi
tíva ríkra,
Telemakkus,
hverr á Íþaksey
unnum kríngdri
öðlast konúngdóm
af Akkverjum".
158. "En þú munt
þínum sjálfs
eignum halda
ok húsum ráða;
því óskanda er,
at einginn maðr
komi, sá er þik
svipti eignum
óviljugan
með ofríki,
meðan Íþaksey
enn byggist".
ϱ. I, 395-415.

159. "Vil ek nú við þik,
vinr bezti,
inna til um hal,
þann er áðan kom:
Hvaðan er sá halr?
Hvaða landi frá
kveðr hann sik
kominn vera?
Hvar er foreldri hans
ok feðra jörð?"
160. "Hvort færir hann þèr
fregn nokkura,
at faðir þinn
sè á för híngat?
Eða er þat
eiginna vegna
erinda hans,
at hann er hèr kominn?"
161. "Eitt mik undrar,
hve upp hann spratt
skyndilega,
ok skauzt í burtu,
beið-at boða,
at sik bragnar kenndi.
Var þó verr sá
vasklegr at sýn".
162. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok honum aptr
annsvar greiddi:
"Er föður míns,
Evrýmakkus,
horfin með öllu
heimkomu von".
163. "Trúig-a frèttum,
þó fregn nokkur
einhverstaðar at
ýtum berist;
nè ek gaum gef
at goðaspám,

þó móðir mín
mann framvísan
híngat til sín
í höll kalli,
ok forvitin
frèttar leiti".
164. "En hinn atkomni,
er um þú spyrr,
til vor er
frá Taffey kominn;
er hann okkarr
ættvinr forn
ok gestfèlagi
föður míns".
165. "Hann Mentes sik
mundi kalla,
arfa allspaks
Ankíalus;
en hann ræsir er
enna róðrarfrömu
tírargjarn
Taffeyínga".

---

166. Talaði þannig
Telemakkus,
þó hann viss
vera þættist,
at þat gyðja
ódauðleg
í manns líki
mundi vera.
167. Hvörfuðu biðlar
at hjartanlega
sætum saung
ok snúðgum dansi;
gömnuðu sèr
ok glaðir biðu
þess, at kvöldrökkur
kæmi yfir.
ρ. I, 415-432.

168. Ok glöðum
gamnendum sèr
skuggsýnt rökkur
of skarar dróst;
ok þá sèrhverr
svefns of lystr
heim at húsi
til hvíldar gekk.
169. Ok Telemakkus
tvistu brjósti,
margs of hugsi
mundi gánga
rekkjurúms til,
þar er reistr var
hvílusalr honum
hátimbraðr,
í forgarði
fagrlegum
svæði víðsýnu
settr á.
170. En Evrýklea
Óps dóttir
Písenorssonar,
prúð í lyndi,
með dýrum gekk
döglíngs syni,
ok blys brennanda
bar í hendi.
171. Fyrir fè sitt
forðum hafði
hraustr Laertes
hana keypta,
frumvaxta þá,
ok fyrir hana
uxa tuttugu
út nam greiða.
172. Virði hann hana
í húsi sínu
blíðlyndri jafnt
beðju sinni;

samrekkt hafði hann
henni aldreigi,
því hann reiði sást
rúnu sinnar.
173. Hún fylgði nú
fylkis niðja,
ok blys brennanda
bar í hendi;
unni honum allra
ambátta mest,
því hann upp um ól
á æsku skeiði.
174. Hann hurð upp lauk
á hagsmíðuðu
svefnherbergi,
ok settist á rúm;
fór úr kyrtli,
ok fèkk í hendur
hrund aldinni
hugaðsamri.
175. Kyrtil braut í brot
brúðr aldin
ok listulega
lagði saman;
heingdi á nagla,
er nálægt var
hagsamskeyttu
hvílurúmi.
176. Hún gekk at þat
út úr hvílusal,
ok með hurðarhríng
(hann var úr silfri)
hurð at dró,
ok hleypiloku
lèt leypt fyrir
með lokubandi.
177. Hèr lá grams niðr
gjörvalla nótt,
mjúkum faldinn
feldar röggum;
ok hug um leiddi
lángferð þá,
er rík Aþena
ráðit hafði.

# ÖNNUR KVIÐA.

En er árrisul
rósinfíngra
birtist mönnum
Morgunskæra:
þá reis úr rekkju
ok í ript of fór
Odysseifs
ástkærr sonr.
2. Lagði um öxl sèr
laufa bitran,
ok fagra sóla
und fætr batt;
úr svefnsal
síðan skyndi,
glíkr ásýnis
guða nokkrum.
3. Snemma hann bauð
snjallrómuðum
köllurum, at þeir
kveddi til þíngs

hári prúðra
her Akkverja;
en þeir þjóðmögum
á þíng stefndu:
komu skjótt saman
skatna dróttir.
4. En er þeir
allir voru
safnaðir í sveitir
ok saman komnir:
þá gekk á þíng
þeingils arfi,
darr eirrekit
dúði í hendi.
5. Nè einn var-at
öðlíngs niðr,
honum fótfráir
fylgðu rakkar.
Jós Aþena
yfir jöfra kund
ódauðlegum
yndis ljóma.
6. Á hann störðu
allir lýðir,
er hann inn gekk,
ok undruðust.
Settist siklíngs burr
í sæti föðurs,
en öldúngar
undan viku.

---

7. Mál hóf fyrstr
á móti rekka
öldurmaðr
Egyptíus;
sá var af elli
orðinn bjúgr,
ok fjöld vissi
fróðra spjalla.
ϱ. II, 7-26.

8. Hafði sonr hans
í her farit
með ítrbornum
Odysseifi
upp til auðugrar
Ilíonsborgar
breiðhúfuðum
brimdýrum á.
9. Sá Antífus
sverðbrjótr hèt,
hels of kvaddr
í helli víðum;
þann lèt jötunn
ámáttkastr
síðastan búit
sèr til matar.
10. Þrjá átti öldúngr
aðra sonu:
sást einn þeirra
í sveit með biðlum,
Evrýnómus;
en aðrir tveir
á óðalsjörðum
arfar bjuggu.
11. Gleymdi þó eigi,
þeim er glatazt hafði,
grátinn, harmandi,
góðr faðir.
Tók nú til orða,
tár um hrundu,
Egyptíus,
ok við ýta mælti:
12. "Heyrit orð mín,
Íþökumenn,
þau er ek mun nú
uppi láta:"
13. "Eingan höfum vèr
alþjóðar fund,
nè ráðstefnu átt
ríkismanna,

síðan úr landi
á lagar dýrum
ítrborinn fór
Odysseifr."
14. "Hverr hefir yðr þá
híngat stefnda?
Hverr enna ýngri
eða eldri manna
er af sárri neyð
svo atþreyngdr?"
15. "Hefir hann sanna
hersögu frètt
öðrum fyrr,
oss at segja,
at sè fjandmenn
á för híngat?
Eða hefir hann annat
upp at bera
alþjóðlegt mál,
ok um at ræða?"
16. "Vænlegr sá virðist
(vel segir mèr hugr)
ok giptusæll gumi.
Gott æ honum!
Láti Seifr,
hvert er leikr honum
heillaráð í hug,
til hags vel snúast!"

---

17. Svo hann mælti
en sonr gladdist
Odysseifs
við orðheill þessa;
sat-a nú leingr
í sæti kyrr,
því honum málsfýst
at munum lèk.
18. Gekk hann mitt á mót,
en í mund honum
veldissprota varp
veglegr Písenor;
sá var kallari
kunnugr gjörla
margvitrlegum
manna ráðum.
19. Vèk sèr til öldúngs
vísis niðr,
ok orðum fyrst
á hann varp:
20. "Sjá hèr, öldúngr,
allnærri þèr
þenna mann,
er þú munt kenna:
ek sá emk,
er upp hefi kvadt
þenna lýð
þíngstefnu til;
því mik strá flest
stínga vilja".
21. "Hefka ek sanna
fregit hersögu
öðrum ýtum fyrr,
yðr at kynna,
at sè fjanda herr
á för híngat;
nè ek annat hefk
upp at bera
alþjóðlegt mál,
ok um at ræða".
22. "Nei, eigin þörf er þat,
sem þrýstir mèr:
harmslög hættleg,
er húsi mínu
til hefir fallit
með tvennu móti".
23. "Eitt er böl þat,
er mik bítr sárla,
at ek mista'k minn
mætan föður,

þann er eitt sinn
yðarr var
hilmir hölda,
sem hèr erut,
ok yðr gafst
sem góðr faðir".
24. "Hitt er mein annat
miklu stærra,
þat er bráðum mun
búi mínu
gjörvöllu steypa
í grunn niðr
ok aleyða
eigum mínum":
25. "Veita yfirgáng
óviljugri
móður minni
margir biðlar:
megir ástkærir
manna þeirra,
er ríkastir eru
ríkis þessa.
26. Mjök er mönnum þeim
móti skapi,
föður at finna
fríðrar konu,
Íkaríus,
at hann ástkæra mey
geri úr garði
ok gipti manni,
þeim er hugr hans
helzt stendr til,
ok honum er sjálfum
hugþekkastr".
27. "Sínar heldr venja
vaskir biðlar
komur híngat
hverjum dögum:
uxum slátra
ok aligeitum,
ok margan sauð
sèr til munns leggja:
gildi gera,
ok í gegndarleysi
skærast vín
af skálum drekka".
28. "Flestr er á förum
forði búss;
því nú er annars eins
eingi kostr
atgervimanns,
sem var Odysseifr,
áfelli slíku
af at lètta".
29. "Víst em ek eigi
þess umkominn,
áfelli slíku
af at lètta;
verðum ok síðar meir
vanfærir þess
ok með öllu
til orkulausir".
30. "Munda'k þó hönd mèr
fyrir höfuð bera,
ef ek þrek til þess
ok þrótt hefda'k;
er-a nú við vært
þessi verk leingr,
nè hóf á framar,
hve hús mitt eyðist".
31. "Sjáit sjálfir nú,
hve sómir illa
athæfi slíkt,
ok fyrir öðrum skammizt
grönnum yðrum,
er í grennd búa,
ok reiði óttizt
ríkra guða;
því at ill verk þeim
illa hugna,

ρ. II, 46-67.

ok ráðast reiðir
í gegn ribböldum".
32. "Fyrir Seifs sakir,
siklíngs ólympska,
bið ek, ok þemisar,
beztrar gyðju:
þeirrar er samkomur
setr manna
ok bragna ráðstefnum
brugðit lætr!"
33. "Látið af, vinir!
Látið einan mik
harmslög harðri
háðan vera;
nema framit hafi
faðir minn,
öðlíngr inn góði
Odysseifr,
í hermdar hug
við hali akkneska
illverk nokkur
nokkru sinni:
þá í hermdar hug
hefnit þess,
gjaldit illt illu,
ok æsit þessa!"
34. "Sæja'k þó heldr,
at þèr sjálfir eyddit
gripum mínum
ok gánganda fè.
þá munda'k þess,
ef þèr nytið,
einhverju sinni
iðgjöld finna;"
35. "þá munda ek
út um þessa borg
fyrir hvern fara
fjár beiðandi,
ok aptr allra
eigna minna
biðja, unz allt mèr
væri aptr greidt".
36. "En í þess stað
þèr látið nú
hug minn harðsnúnum
hörmum spenntan".
37. Reiðr svo ræddi
ræsis niðr,
ok á völl varp
veldissprota.
Tár honum hrundu,
en halir allir
kenndu í brjósti
um konúngs son.
38. Bundust nú orða
allir lýðir,
ok eingi einn
á sèr bærði;
nè hörðum orðum
hölda nokkurr
til Telemakkus
tala þorði,
utan einn
Antínóus;
hann orð um fann
við öðlíngs máli:

---

39. "Ofrmálugr þú
ok ofskapsmaðr,
Telemakkus, ert,
er þú talar þannig,
atyrðandi oss;
ok eigi muntu
unna smárrar oss
óvirðíngar".
40. "Víst eigi má
vaska biðla,
sonu Akkverja,
fyrir sökum hafa.

ϱ. II, 67-87.

Ein veldr móðir þín
öllu bölvi,
margkyndugust
kvenna allra".
41. "Er nú umliðit
ár hit þriðja,
ok hit fjórða senn
á förum er:
sízt móðakarn
mögum Akkverja
glepr glysmálug
í geðkneri".
42. "Boð hún gerir
bragna kindum,
ok gefr góða von
gumna hverjum;
fögru lofar,
en flátt hyggr:
sú býr um hverfan
hug menskögul".
43. "Margar hefir víf
vèlar fundit
sèr í sefa;
sú er einna nokkur:
hafði hún vef uppi
í vífs sölum
ummáls mikinn
ok allsmágjörvan".
44. "Var þar at, og vaf
vísis rúna,
ok þau ávallt oss
annsvör veitti":
45. ""Sveinar böðvitrir,
"biðlar mínir!
"Með því ítrborinn
"er Odysseifr
"horfinn til heljar,
"þá hvatið eigi
"brúðkaupi mínu,
"en bíðit heldr:

ϱ. II, 88-108.

46, "Unz ek voð fæ
"vafna til loks,
"at ei verði mèr
"veftr at eingu,
"náklæði lofsæls
"Laertesar,
"þegar hann skapanorn
"skæð á síðan
"flatan leggr
"við foldar þröm;
47. "At mèr eigi
"hèr innan lands
"akknesk kona því
"kasti í nasir:
"at fjölskrúðugr svo
"fólknárúngr
"líkblæjulaus
"liggi með öllu"".
48. "Svo mælti snotr
siklíngs brúðr,
en vèr tryggir trúðum
tölum hennar.
Vaf hún svo enn mikla
vef um daga,
en á nóttum
við nætrblys
aptr upp rakti,
þat er ofit hafði".
49. "Þannig vèl duldist
þrjú misseri,
at einkis Akkverjar
urðu vísir.
Fram liðu stundir,
kom hit fjórða ár;
innti þá ein kona
allt hit sanna:
sú vissi vel
vèlar allar,
allar vèlar
öðlíngs rúnu".

50. "Ok þá hittum vèr
hilmis brúði,
er hún vef fagran
var at rekja.
Varð hún svo nauðug,
þótt vildi eigi,
loks at voðvirkja
vef byrjaðan".
51. "Nú mun ek inna
ályktar svör,
þau er veita þèr
vaskir biðlar:
svo sjálfr þú
skynir gjörla,
ok öll þat viti
Akkverja þjóð:"
52. "Vísa úr garði,
ok giptast bið
móður þína
manni nokkrum,
þeim er bezt líkar
brúðar föður,
ok henni sjálfri
er helzt at skapi".
53. "En ef enn ljær hún
lángar stundir
ángrs efni
sonum Akkverja,
ok hug sinn
hneigðan lætr
at listum þeim,
er lènti henni
Aþena um fram
aðrar konur".
54. "Hannyrðir kunna
harla fagrar,
ok hugvits hafa
haglega gnótt,
ok vèlræði
vita flest

ϱ. II, 109-127.

lángt um fram aðrar
armbaugs þellur".
55. "Höfum vèr eigi
heyrt, at slíka
kunnat hafi
konur akkneskar
vèlræða fjöld,
þær er fyrri voru
Freyjur falda
í forneskju".
56. "Eigi Alkmena,
eigi Týró,
nè Mýkena,
mæztar kvenna,
hugvit til líka
hafa knáttu
við prúðlundaða
Penelopu;
þó henni þetta
at þessu sinni
kænsku bragð eigi
kæmi í hag".
57. "Því búa munu biðlar
búi þínu,
ok eigum eyða
alla þá stund,
meðan heldr hún
á hyggju slíkri,
er henni bönd nú
í brjóst leggja".
58. "Sèr at sönnu hún
sjálfri aflar
frægðar hjá fróðum
fíra börnum;
en þú munt eiga
aptr á móti
mörgum bitlíngum
á bak at sjá".
59. "Því vèr munum eigi
til vorra heima

aptr hverfa,
nè annat nokkut,
fyrr en góð brúðr
gefast lætr
einhverjum Akkverja,
þanns hana eiga lystir".

---

60. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok honum aptr
annsvör greiddi:
"Má ek ei móður,
er mik um ól,
Antínóus,
ok upp um fæddi,
fyrir nokkurn mun
frá mèr reka".
61. "En faðir minn
fjarstaddr er
í útlöndum
einhverstaðar;
hvòrt hann lífs er,
eða lífi minnr,
má eingi
maðr vita".
62. "Er ok ærit þúngt
ofa fè mikit
Íkaríusi
aptr greiða,
ef minni ek
móður geri
viljugr frá mèr
vísa á braut".
63. "Eigi mun ek gott
eiga í vændum,
þar sem minn of er
móðurfaðir.
Þó mun annarr mèr
at auki þessa

ϱ. II, 127-144.

skerfr skamtaðr
af skapadómi".
64. "Því at móðir mín
mun ákalla,
áðr heiman fer,
hefndar nornir
hvimleiðar höldum,
en ek hafa mun
á mèr ámæli
allra manna".
65. "Mun ek því aldreigi
ėrindi slíkt
við móður mína
á munni hafa.
En ef unit ei
við þau erindislok,
þá hafit yðr hèðan
úr húsum mínum".
66. "Sækja verði þèr
veizlur aðrar,
ok eigur eta,
er eigit sjálfir,
hús af húsi
heimsækjandi
hverir hjá öðrum
at heimboðum".
67. "En ef yðr þat
æskilegra
þykir, ok sæmra
sýnist vera,
at eins manns
endrgjaldslaust
eigur eyðist —
þá eyðit þeim!"
68. "En ek skal þá
á alla heita
guði eilífa,
sem aldrei deyja:
vita, ef Seifr
vorra mála

einhvern tíma
uppreist veiti.
þá munut þèr,
ef þat verðr,
ógildir falla
innan hallar".

---

69. Hætti tölu
Telemakkus.
En alskygn Seifr
örnu sendi
honum af hæðum
hvasseyga tvo,
ofan fljúgandi
af fjalls tindi.
70. Fyrst þeir flugu,
sem færi vindr,
hvorr við hlið annars
hvatskeytlega,
ok vítt á flugi
vængi þöndu.
71. En þegar þeir
yfir þíngvöll miðjan
(þar var ómr stórr)
ofan komu,
flugi þeir breyttu
ok fóru í hríng,
ok harðla títt
hristu vængi.
72. Niðr horfðu þeir
í höfuð öllum,
brögnum bendandi
bana vísan;
hálsa ok vánga
hvorir öðrum
kníðum klóruðu
klóm umhverfis.
73. Hægri handar til
hús í gegnum

ok borg bragna
báðir þutu.
Felmtr kom yfir
firða lið,
er þeir örnu
augum litu.
74. Mart flaug í hug
móteflendum,
vættu verar þess,
er verða skyldi.
Hóf þá ræðu
á rekka fundi
aldinn Mastors son
Alíþerses.
75. Sá einn fróðleik
feingit hafði
yfir jafnaldra
alla sína,
spáfygli kenna,
spár at rekja.
Heill í hugum
hann orð um kvað:
76. "Heyrit orð mín,
Íþökumenn,
þau er ek mun nú
uppi láta;
en einkanlega
skal erindi mitt
bendíngu nokkra
biðlum gefa".
77. Því at þúng mjök
yfir þeirra höfðum
allra vofir
óhamíngja.
Því eigi mun leingi
Odysseifr
fjarvistum vera
frá vinum sínum".
78. "Heldr mun hilmir
heima sínu

ρ. II, 141-161.

nokkurstaðar
í nánd vera,
ok aldrtjón
öllum búa
höldum þeima,
sem hèr eru".
79. "Mun ok mildíngr
mörgum af oss
óvísagestr
öðrum verða,
þeim er allvíðsýn
úti í hafi
Íþakseyjar
óðul byggjum".
80. "Sjám nú ráð til,
áðr svo fari,
at vèr sett fáim
seggi þessa;
er þó hitt í bráð
hollara þeim,
ef þeir sjálfir sik
setja vildi".
81. "Em ek fullspakr
spáförum í,
nè ek spádóm rek
at raunarlausu;
því allt hygg ek við fylki
hafa fram komit,
þat ek forðum honum
fyrir spáða'k:"
82. "Þá er Argverjar
endr um fóru
Ilíonsborgar til
at járna leiki;
ok í för með þeim
hinn fjölráðugi
Odysseifr
unnir kníði;"
83. "Kvað ek hann í raunir
rata mundu
margar, ok missa
sitt mannval allt:
ok ókenndan
öllum sínum
á ári tuttugta
aptr koma.
Mun nú allt þetta
eptir gánga".

---

84. Annsaði honum
aptr at móti
arfi Polýbus,
Evrýmakkus:
"Heima at búi
börnum þínum
spágaldr þú gal,
gamli maðr,
at ekkert þeim
eptirleiðis
hamíngjuleysi
at höndum beri".
85. "Þó um þetta
en þú miklu
spakari em ek
spár at telja".
86. "Mart er á flugi
fugla kyns
í Eyglóar
ítrum bjarma;
er-a þó furða
und fjöðr hverri,
nè Urðar orð
und öllum væng".
87. "Er-at yggjanda,
at Odysseifr
týndr er lángt
í löndum úti.
Væri óskanda
at þú ásamt honum

hefðir í fjarska
fjörtjón beðit".
88. "Mundir þú þá
þeygi svo mörg
spjöll spámannleg
spjalla á þíngum:
nè heipt-teknum
Telemakkus
upp svo hleypa
með orðum þínum,
á von sitjandi,
at frá veum hans
muni gjöf nokkur
þèr í garð renna".
89. "Eitt vil ek þèr segja
í alvöru;
þat skal sagt orð
at sönnu verða".
90. "Ef þú, sem ert
í allmörgum,
fornum fróðr vel
fíra spjöllum,
eggjanar orðum
upp til reiði
æsa gerir
þèr ýngra mann:"
91. "Þá er þat fyrst,
at þess manns hagr
verri verða skal,
en verit hefir;
en því næst þat,
at vèr þèr munum
sektagjald gera,
gamli maðr,
er þú hit versta
munt við una,
ok allþúngt veita
upp at lúka".
92. "En Telemakkus
vil ek trúleg gefa

ráð, svo allir
rekkar heyri:
bjóði hann mætri
móður sinni
aptr heim fara
til föðurhúsa".
93. "Þá munu þeir,
sem þar eru,
ráðahag ríkrar
ráða sjálfir,
ok mund út greiða
svo mikinn næsta,
sem ástsælli mey
á at fylgja".
94. "Því þeygi hygg ek,
fyrr en þat verðr,
mögu Akkverja
af munu láta
heldr bágbærum
brúðarmálum;
með því alls eingan
óttumst vær,
hvorki Telemakkus,
þótt tali mart,
nè gaum gefum,
gamli maðr,
spádóm þeima,
er þú spjallar um;
mun hann aldreigi
eptir gánga,
en þú enn verða
óvinsælli".
95. "Upp skulu eigur
etnar verða
illum atgángi,
án allra bóta,
svo leingi drottníng
drótt Akkverja
dýr á ráðahag
við sik dregr".

ϱ. II, 183-205.

96. "En vèr munum hèr
í húsum bíða,
oss vel una
alla daga,
ok um fríðrar
fegurð keppa;
nè til annara
árna munum
brúða, þótt sèrhverjum
sæmdi at eiga".

---

97. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok orðum hans
annsvör veitti:
"Evrýmakkus,
ok aðrir þèr,
gefit gaum máli,
göfgir biðlar!"
98. "Erindi þetta
ek eigi munk
bón um fara,
nè framar ræða;
því gjörla þat nú
guðir vita,
ok öllum kunnugt
gert Akkverjum".
99. "Fáit mèr skútu
þá er skríða kunni,
ok tvo tugi
tryggra sveina,
þeir er flyti mik
um fleyja völl
hèðan ok aptr
heim í land".
100. "Lystir mik til Spörtu
leiðir kanna,
ok sjóveg prófa
til Pýlusborgar,
um för at forvitnast
föður míns,
er leingi hefir
úr landi verit:
ef frètt hjá firðum
finna mætta'k,
eða spáraust heyra
frá spökum Seifi,
sú er vitorð bezt
veitir mönnum".
101. "Ef ek föður minn
frètti á lífi,
ok heimvon hans
heyri sagða:
heilt ár enn,
þó atþreyttr sják,
þolinmóðr
ek þreyja vil".
102. "En ef heyri'k hann
úr heimi liðinn,
ok eigi leingr
lífs á foldu:
þá mun ek lykkju
á leið gera,
ok heim aptr fara
til föðrlands".
103. "Ok haug verpa
hilmi dánum,
ok fjöld fjár
fylgja láta,
slíkt er öðlíngi
slíkum sæmi;
ok mína svo manni
móður gipta".

---

104. Settist hann niðr
at svo mæltu.
Reis þá Mentor upp
meðal þeirra,

ρ. II, 205-225.

ágæts Odysseifs
aldavinr,
þeims hilmir hafði,
áðr á herskip gekk,
hússtjórn gjörvalla
á hönd falit;
105. Skyldu öldnum hal
allir hlýða
ok hann með umsjá
alls vel gæta,
svo at ekkert færi
at forgörðum.
Heill í hugum
hann orð um kvað:
106. "Heyrit orð mín,
Íþökumenn!
þau er ek mun nú
uppi láta".
107. "Nú skyldi einginn
af alhuga
vísir sprotvaldr
votta framar
mildi ok blíðskap
börnum þjóðar,
nè sanngirni ala
sèr í brjósti;
heldr ávallt
hörku beita,
ok guðlaus verk
gjarna drýgja:"
108. "Með því eingi nú
minnist framar
ágæts Odysseifs
allra þeirra,
er hann eitt sinn
yfir rèð,
ok þeim gafst
sem góðr faðir".
109. "At vísu ann ek þess
vöskum biðlum,

þó þeir verk vinni
af vèlafullri
undirhyggju
ofríkisfull:
sjálfir þeir líf sitt
leggja í háska,
er þeir bú Odysseifs
í bessa leyfi
uppeta, ok ætla,
at hann aldrei muni
heim aptr hverfa
til húsa sinna".
110. "En lýð hinum öðrum
ek lái meir,
at þèr allir svo
einu hljóði
þegjandi sitið,
ok þaggit eigi
nè aptr haldit
horskum biðlum,
svo margir menn
mönnum fám".

---

111. Annsaði Leokrítus
Evenorsson,
ok orð um fann
við öldúngs máli:
"Heiptfúss þú ert
ok hnugginn viti,
at þú, Mentor,
skulir mæla slíkt,
er þú eggjar, oss
aptr at halda".
112. "Eigi mun allhægt
við ófá menn
um veizluhald
vopnum deila".
113. "Því þó sjálfr
væri í sal kominn

Íþakseyíngr
Odysseifr,
ok hrekja hygðist
úr höll sinni
göfga biðla
frá borðhaldi:"
114. "Lítt mundi kona hans
komu fegin,
þótt þrái þeirrar fast,
þeingils verða.
Mundi hann þegar,
ef þyrði vega
einn við margmenni,
til moldar hníga.
Hefir þú eigi mælt
hyggilega".
115. "Nú skal hèr lýða
lokit stefnu;
stundi hverr heim
til starfa sinna.
En hans munu
þeir Mentor greiða
allskjótt farar
ok Aliþerses:
alls þeir eru
frá öndverðu
fornir vinir
föður hans".
116. "En ek ætla þó,
at í Íþöku
sýna stund
hann sitja verði,
ok frètta fregna;
því för þessa
mun hann aldreigi
afrekat fá".
117. At því mæltu
hann móti sleit
heldr skjótlega;
en halir skildu,
ϱ. II, 246-267.

fór heim hverr
til síns heimilis;
en biðlar heim
til hallar geingu
Odysseifs
hins ítrborna.

---

118. Sveif af þíngi
ok at sjávarströnd
týframr vendi
Telemakkus;
þvoði hendr
í hafs löðri,
ok til ítrar
Aþenu bað:
119. "Heyr mál mitt,
hinn mildi guð,
er í gær komst
at garði mínum,
ok mèr bauðst
á byrðíngi
um kolblátt haf
kanna leiðir,
för at forvitnast
föður míns,
er leingi hefir
úr landi verit".
120. "Tálma nú Akkverjar
allri þeirri
fyrirætlan,
ok færa í trega
en þó biðlar
allra mest,
illsku fullir
ok ofstopa".
121. Sú var bæn hans,
en at bragði kom
til hans Aþena
in tignarlega;

var þá at vexti
vegleg gyðja
ok í málrómi
Mentori lík.
122. Hún mildíngs son
at máli tók,
ok hann óðhröðum
orðum kvaddi:
"Mun-a vant þèr
vits nè hreysti,
Telemakkus,
þá er tímar líða".
123. "Ef föður þíns
er fræknleikr þèr
ok huggæði
í hjarta lagit;
ok ef þú öllum
í atferðum
verka ok orða
við hann jafnast:
þá mun þèr eigi
þessi verða
ónýt för
nè afrekslaus".
124. "En ef eigi þú
ödlíngs sonr
ok prúðrar ert
Penelopu:
von er mèr eingi,
at til vegs þú komir,
því er í hyggju
hefir þinni;
því fáir synir
við feðr jafnast,
verða flestir
feðrum síðr,
en feðrbetrúngar
fæstir verða".
125. "En með því eigi
áleingdar mun
verða vant þèr
vits nè hreysti;
ok þú ei hefir
við Odysseifs
meginráðleitni
á mis farit:
þá er meiri von,
at munir þú
áleiðis koma
ætlun þinni".
126. "Skaltu því eigi
skeyta ráði
biðla óvitra,
nè æði þeirra;
þeim er hvorki
í hjarta lagit
sanngjarnt ráð,
nè rètt hyggja".
127. "Vita þeir eigi,
at vofir þeim
dauði fyr dyrum
ok döpur feigð,
ok at öllum þeim
á einu dægri
skal auðit verða
aldrtila".
128. "En för sú,
er þik fara tíðir,
eigi skal leingi
undan dragast:
sá em ek alhuga
ættvinr þinn,
at ek skip þèr skal,
þat er skríða kunni,
búa, ok sjálfr þèr
síðan fylgja".
129. "Heim nú gakk
til hallar þinnar,
ok hafst við
með horskum biðlum.

Ver þèr í útvegum
um veganesti,
ok í ílátum
allt vel geym:
vín skal láta
á leirbrúsa
ok kröptugustu
karlmanns fæðu,
byggmjöli koma
í belgi þètta".

130. "Skjótt vil ek safna
af skatna liði
fúsum til farar
fylgdarmönnum;
en á Íþaksey
unnum kríngdri
gnóg eru skip,
gömul sem ný".

131. "Í þarfir þínar
mun ek þat velja,
er allbezt er
af öllum þeim.
Skulu við skjótla,
þá er skip er búit,
hugum heilir
í haf leggja".

---

132. Svo kvað Aþena,
Seifi borin.
Nè Telemakkus
tafar drýgði,
er hann gyðju raust
gat at heyra.

133. Hryggr í huga
hann til hallar gekk,
ok göfga í höll
hitti biðla;
flógu þeir geitr
í garði úti,

ρ. II, 289-310.

ok svörð sviðu
svínum öldum.

134. Hlægjandi gekk
honum móti
Antínóus,
ok til orða tók;
greip um hönd honum,
hugði at máli:

135. "Telemakkus,
þú er talar djarft
ok ofrhugi ert
til áræðis!
Orða nè verka
þèr ekki lát
afla áhyggju
innan hugar.
Vel þèr heldr,
þat er vildara er,
at þú et ok drekk,
sem áðr fyrri".

136. "En öllu hinu,
sem þú ætlast fyrir,
munu Akkverjar
áleiðis koma:
skip til fá
ok skipmenn velja
fólkum færasta,
at þú fljótt komist
prúðrar til
Pýlusborgar,
fregn at frètta
af föður þínum".

137. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok orðum hans
annsvar greiddi:

138. "Alls ekki má ek,
Antínóus,
sitja með yðr
sumbli at,

ofstopamönnum,
orða vanr,
nè ángrlauss
yndis njóta".

139. "Er-a gnógt þat,
göfgir biðlar!
at þèr ávallt mínum
at undanförnu
mörgum góðum
hafit gripum eydt,
meðan ek enn þá
úngmenni vark?"

140. "Nú em ek roskinn,
ok rekka annara
orðræður heyri
af afspurnum;
ok meir ok meir
magnast tekr
mèr í hyggju stað
hugar þróttr".

141. "Nú skal ek reyna,
ef römmum mega'k
frá Pýlusborg
bananornum
at yðr stefna,
eða í stað hèðan
sendar láta
úr landi þessu".

142. "Fara skal ek,
ok verða farþegi
(eigi skal eyðast
ákveðin för):
alls mèr skips er varnat
ok skipara;
hefir yðr svo
hentara þótt".

143. At því mæltu
úr Antínóuss
hendi kippti hann
hendi sinni

ρ. II, 310-332.

hægu móti með;
en at matreiðslu
störfuðu biðlar
í buðlúngs sal.

144. Ok úngmenni
ofstopa full
snotran svívirðu
siklíngs arfa;
ok einhverr þeirra
at öðlíngs syni
spottsamlegum þeim
spjöllum beindi:

145. "Yfir vorum nú
víslega býr
aldrtila
Telemakkus;
ok sèr ætlar nú
annat tveggja
prúða liðsmenn fá
frá Pýlusborg,
eða sporgaungumenn
frá Spartverjum;
svo er hann óðr nú
í áhuga".

146. "Eða hann ætlar
Effýru til
frjólands fara,
ok færa þaðan
urtir banvænar,
eitri blandnar,
at hann þeim skjóti
í skaptkers lög,
ok oss banadrykk
byrli öllum".

147. Ok enn annarr
úngra manna
gerði gabb þat
at grams syni:

148. "Hverr veit, nema hann,
ef á haf siglir,

villr velkist,
ok vinum fjarri
bíði andrán,
sem Odysseifr?

149. "Þá mundi oss,
ef þat yrði,
heldr en ekki
aukast starfi:
því þá mundu vèr eigum
öllum deila
vor á meðal,
en móður hans,
ok þann hal,
er hennar feingi,
konúngs húsum
halda láta".

---

150. Svo þeir sögðu,
en siklíngs arfi
í undirklefa
ofan gekk;
var háþaktr
ok harðla víðr
klefi sá, er átti
Odysseifr.

151. Þar ægis eldr
unnvörpum lá,
ok eirmálmr
orpinn í kesti,
klæði í kistum
ok kostr gnógr
vel ilmanda
af viðsmjöri.

152. Stóðu þar tunnur
strandleingis með
herbergis hlið,
hvor við aðra,
fornum vínberja
fullar safa
ljúffeingum lagar.
Lystugr sá
gekk næst drykkr
goða veigum.

153. Voru veigar þær
vísi geymdar,
Odysseifi,
ef hann aptr um kæmi
einhverju sinni
frá útlöndum,
mörgum afstöðnum
at mannraunum.

154. Voru á húsi því
hurðir læstar,
vel samfelldar
vængjahurðir.

155. Þar hafði umgáng
öllum stundum
dygg matselja,
daga ok nætr;
ok þar alls gætti
með umsjá góðri
Evrýklea,
Ópi borin
Písenorssyni,
hin prúðlundaða.
Hana bað kóngsson
til klefa gánga,
ok orðum þeim
ávarpaði:

156. "Lát mèr ljúffeingt vín
á leirbrúsa,
þat er vildast er
ok þeim veigum næst,
er þú guma geymir
gómtamastar
veslum, er þú æ
eptir væntir:
Odysseifi
hinum ítrborna,

ef hann einhverstaðar
utan úr löndum
úr helju heimtr
kann heim at komast".
157. "Tólf skaltu, fóstra,
fylla vínbrúsa,
ok bitt lok
yfir brúsa hvern.
Byggmjöli kom þú
í belgi þètta,
malaðs byggkorns
mælum tuttugu".
158. "Þetta skal allt
á þinnar einnar
vitorði vera,
nè þat viti annarr;
ok þat allt saman
þú skalt láta,
þá til skal taka,
til taks vera".
159. "Því ek mun koma
ok í kvöld þat sækja,
í þat mund er mín
móðir geingr
svefns of lyst
í loptsal upp".
160. "Því nú lystir mik
leiðir kanna
prúðrar Spörtu til
ok Pýlusborgar,
ef ek um farar
föður míns
fregn einhverja
finna mætta'k".
161. Hrein þá hástöfum
ok hljóða tók
Evrýklea,
ástkær fóstra;
klökk hún mjök
ok kveinaði sáran,
ok hann óðhröðum
orðum kvaddi:
162. "Hví hefir slíkt
þèr til hugar komit,
sonr sæll?
Hvert villt þú sinna,
einka mögr
ok ástfólginn son,
um váng víðan
ok veraldar geim?"
163. "Ok ítrborinn þó
Odysseifr
liggr lífs vana
í landi ókunnu,
sinna fjarkominn
feðra jörð".
164. En þik munu biðlar
beita vèlum,
ok fjörráð fremja,
meðan á för þú ert,
ok öllum meðal sín
meiðmum deila".
165. "Ver kyrr heldr hèr
at heima þínu,
ok einn at eigum
ok óðulum sit.
Er-a þörf þèr,
um þrömmúngs slóðir
hrakníngi sæta
nè hafvillum".
166. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok henni annsvar
aptr greiddi:
"Kvíð-attu, fóstra,
förum þeima,
er-a ráðnar þær
án ráði guðs".
167. "En þú eið mèr vinn,
at vilir eigi

minni fór þessa
móður segja
dýrri fyrr,
en dagar eru
liðnir ellefu
ok liðnir tólf;
eða mín hún sjálf
sakna geri,
ok fregn of fái
um farar mínar.
Vilk-a ek, at móðir
af móðgum gráti
síns ens ljósa
of litar missi".

168. Sór þá in aldna
Evrýklea
dýran eið
við uppheims goð.

169. En sem hún svo
svarit hafði
ok eiðstaf
unnit gjörstan:
víni hún jós
á vínbrúsa,
ok byggmjöli
í belgi steypti.

170. En Telemakkus
hinn tírargjarni
til svinnra biðla
inn í sal of gekk.

---

171. Hafði Aþena
hin augum-glæja
annat ráð
enn með höndum:
gekk hvervetna
um gjörvalla borg,
í líki Telemakks
ins tírargjarna.

ϱ II, 373-395.

172. Ok gyðja gekk
at gumna hverjum
ok uppskátt lèt
erindi sitt,
bað þá safnast
hit sama kvöld
at örskreiðu
unnar dýri.

173. Þá fór glóeyg
gyðja at hitta
frægan Nóemon
Froníusson;
bað hann skips,
þess er skríða kynni,
ok hann ljúft til þess
leyfi veitti.

174. Vèk sól til viðar,
ok á vegum öllum
skuggsýnt gjörðist. —
Skaut þá gyðja
fari á flot,
ok farvið allan,
þann er þurfa skip,
á þiljur lagði.

175. Lèt hún lagt kneri
í legu mynni.
Söfnuðust þángat
sveitir vaskar
en framleg gyðja hvern
ferðar hvatti.

176. Öðru lèt Aþena
enn við komit,
glóeyg gyðja,
góðu ráði.
Sveif hún á leið
ok til salar skyndi
Odysseifs
hins ítrborna.

177. Lèt hún þar yfir
alla biðla

sætan svífa
svefn á augu;
gerði hún reikandi
rekka við drykk,
lèt þeim úr höndum
hrjóta skálar.
178. Sátu seggir eigi
í sætum leingi,
er þeim síga tók
svefn á brár;
risu ur rúmum,
reikuðu um bæ
náttstaða til,
náðir at taka.
179. Ok Aþena
hin augum-glæja
við Telemakkus
tali hreifði;
var þá at vexti
vegleg gyðja
ok í málrómi
Mentori lík:
180. "Sitja rekkar
til róðrs kvaddir,
Telemakkus,
ok týgjum búnir,
atkvæða þinna
allir bíða,
at ferð á leið
lyptir þinni".
181. "Förum af stað,
ok frestum eigi
för þeirri leingr,
er fyrir liggr".

---

182. At því mæltu
mjök í skyndi
úngleg Aþena
á undan gekk;
en framlegr
fylkis niðr
í fótspor gyðju
feta rèð.
183. Komu til sjávar
ok sunda mars,
fundu á ströndu
fagrhára
þópta sína,
en til þeirra kvað
öðlíngs arfi,
sá er afli trúði:
184. "Komit, fèlagar,
farnest sækjum!
Er til gjörs at gánga
í garði mínum.
Dulin geingr móðir,
duldar salkonur
(veit víf eitt)
vorra ráða".
185. Fór þá fyrir
fylkis niðr,
en þeir allir samt
eptir fylgðu;
báru faung ofan
ok fluttu á skip,
sem burr Odysseifs
um boðit hafði.
186. Steig þá á skip
stillis arfi,
en Aþena
á undan fór;
settist í lyptíng
lofsæl gyðja,
en við hlið hennar
hilmis kundr.
187. Leystu landfestar
liðar snjallir
ok skutstreingi
skips upp heimtu;

ϱ. II, 395-418.

stigu síðan
á streingja mar,
ok þrekramir
á þóptur settust.
188. Þá lèt Aþena
hin augum-glæja
byr blásanda
brögnum sendan,
vestanvind hvassan,
er vængi þeytti
of dimmblám
dynjanda sæ.
189. Bauð þá Telemakkus
hinn tírargjarni
seggjum sjódjörfum
til segls taka;
bað þá ríkt
á reipum halda,
ok höldar honum
hlýddu bráðla.
190. Lyptu furutrè
fírar rakkir,
höndum hófu
ok hátt reistu:
stúngu siglu fæti
í stall holan,
ok stögum festu
fram ok aptr.
191. Og með harðsnúnum
hráskinns ólum,
dúka drifthvíta
drógu við húna;
ϱ. II, 419-434.

en óþrotlegr
elris rakki
bólgnum hvoptum
blès í voð.
192. Þá við stefni,
at stærðum skrið,
mórauð hafalda
hátt of glumdi;
en ráhjörtr
rennandi fór
lábrostna leið
leiðar sinnar.
193. En er rekkar
reip á húna
blakki blökkum
bundit höfðu:
þeir skaptker
af skæru víni
barmafull
á borð um settu.
194. Goðum eilífum
ódauðlegum
dreyptu dreypifórn
dýrir rekkar;
mest þó allra
meyju Seifs,
gyðju glóeygri
gumar dreyptu.
195. Skar glæs götur
gjörvalla nótt
marar málfeti
ok morgun gerstan.

# ÞRIÐJA KVIÐA.

---

Sveif Helíus
úr svölu díki
ljósfagrs lagar,
ok lètt sèr varp
upp á eirfast lopt,
öllum at lýsa
ódauðlegum
uppheims goðum
ok moldbúendum
und miðgarði.
2. Þá kom fagrt fley
fjölsettum at
bólstað Neleifs,
borg Pýlverja;
sæfðu þar seggir
í sónarblót
svartbláhærðum
á sævarströndu
þjóra alsvarta
Jarðarskelfi.
3. Sáust á ströndu
setpallar níu,
ok á setpöllum
sátu hverjum
hundruð fimm
fórnheyjenda;
ok hlautrjóðendr
í hverjum stað
þrenna þrjá gerðu
þjóra til.
4. En er þeir iðrar
etið höfðu
ok brennt lærbita
lagar drottni:
glóeyg gyðja
ok grams sonr
beittu brimdýri
beint til hafnar.
5. Ok segl seggir
á siglu mari
hefluðu við rá
ok hleyptu niðr;
lögðu til lægis
löðrsveittu
lagar dýri,
ok á land stigu.
6. Steig af skipi
stillis arfi,
en Aþena
á undan fór.
Varp þá orðum fyrr
á öðlíngs nið
Aþena gyðja
hin augum-glæja:
7. "Er-a fellt framar,
fylkis son, nú,
at þú með öllu
óframr sèrt;
því hins vegna þú hefir
um hafleiðir siglt,
at þú frètt fáir
um föður þinn,
hvar hann grænni muni
grundu orpinn,
ok hverjar helfarar
hafa kannat".
8. "Far nú fram beint
á fund Nestors,
ræsis niðr,
hins reiðtama.
Vitum, hvert vísir
vitrlegt ráð

ϱ. III, 1-18.

hafi at hirða
í hyggju ranni".

9. "Bið hann segja þèr
sannleik gjörstan;
mun-at hann markleysu
mælta láta,
alls hann vera
vitrastr er".

10. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok orð um gat
við gyðju máli:
"Hve má ek, Mentor,
fyrir mæríng gánga?
Hve má ek mildíng
máls of kveðja?

11. "Emk-a ek enn
í orðum snjöllum,
nè ræðum reyndr
röksamlegum.
Óframlegt þikkir,
ef skal úngr gumi
orðum deila
við eldra mann".

12. Gegndi Aþena
hin augum-glæja,
ok orðum hans
annsvar greiddi:

13. "Sumt mun, siklíngs burr,
þèr sjálfum hugsast,
sumt munu guðir þèr
gjörla kenna;
því eigi hygg ek þik
vera upp fæddan,
nè í gras kominn
án guða vilja".

---

14. At því mæltu
mjök í skyndi

úngleg Aþena
á undan gekk;
en framlegr
fylkis niðr
í fótspor gyðju
feta rèð.

15. Kom öðlíngs son
ok uppheims gyðja
samkundu at
ok setpöllum
manna pýlverskra,
en þar mæríngr sat,
prúðr Nestor
með niðjum sínum.

16. Blótveizlu bjuggu
bragníngs sveinar
umhverfis mildíng,
ok matreiddu;
ok sumblsamir
sumt kjöt steiktu,
en upp á teina
öðru stúngu.

17. En er þeir litu
aðkomumenn,
geingu allir samt
gestum móti,
heilsuðu þeim
með handa bandi,
ok setjast báðu
samkundu at.

18. Fyrstr hinn prúði
Pisistratus,
Nestors niðr,
at nýkomnum gekk;
tók í hönd hvorum,
ok hvorum tveggja
valdi at veizlu
veglegt sæti.

19. Frægum föður hjá
ok frömum hlýra,

þrasímedesi,
þá hann setti;
sátu þar ríkir
á röggvarfeldum
megin-mjúklegum,
marbeðjum á.
20. Skerf hann þeim býtti
af blót-iðrum,
ok vín skeinkti
á vínker gullit,
drakk til Aþenu,
dóttur Seifs
ægisskjalda,
ok orðum kvaddi:
21. "Bið til guðs, gestr,
ok ger þitt heit
dýrum Posídon
drottni vorum;
því í þess guðs
þèr hafit nú
helgiblót hitt,
er híngat komut".
22. "En er hefir þú
heit fram borit,
ok dreypifórn dreypt,
sem dreingmönnum ber:
þá skaltu þeim,
er þar sitr,
heilagt vínker hal
í hönd selja".
23. "Dreypi dreingr sá
dreypifórn ok;
hygg ek, at hann ok
heita vili
ódauðlega á
uppheims guði:
því öllum er gumum
á guðum þörf".
24. "En því fæ ek þetta
þèr vínlagar
gulli fágat far
fyrr, en honum,
at hann ýngri er
at aldri, en þú,
ok samaldra mjök
við sjálfan mik".
25. Kvað svo buðlúngs burr,
ok borðker víns
háleitri gyðju
í hendr seldi;
en veglegri Aþenu
vænt um þótti
rèttvíst atferli
hins ráðvitra manns:
26. Er hann fríðri fèkk
fyrr, en hinum,
fágat fofnis beð
far vínlagar.
Hún bæn upp hóf
hjarta ok munni,
veglegum Posídon,
virða drottni:
27. "Heyr, Posídon,
hilmir lagar,
miðgarðs verjandi
máttugastr!
Unn öllum oss,
er á þik heitum,
at þessi verk vor
til vegs snúist".
28. "Veit fyrst Nestori
veg ok frama,
snjöllum siklíngi,
ok sonum hans;
en öllum því næst
öðrum Pýlverjum
ágæts aðalblóts
iðgjöld þekk".
29. "Veit meirr mèr,
marar drottinn,

ok tírargjörnum
Telemakkus,
erindi okkart
at afreka,
áðr heim hverfum
hafskipi á!"
30. Bað svo böðvitr,
ok bænarorð
sín lèt sjálf
at sönnu verða;
fèkk svo í hendr
himnesk gyðja
Telemakkus
twíker fagrt;
ok sömum baðst
bænarorðum
Odysseifs fyrir
ástkærr sonr.

---

31. Nú sem krofstykki
steikt of höfðu,
ok af teinum tekit
tryggir rekkar,
skamta þeir deildu
skatna fjöld,
ok drótt um drýgðu
dýrðarveizlu.
32. En er lýðir
lystíng höfðu
á bug ekit
áts ok drykkjar:
ræðu hóf fyrstr
reiðar stjóri,
Nestor gerenski,
í gumna fjöld:
33. "Nú er svo komit,
at sæmra er,
hverir gestir sè,
gerr at frètta,

ϱ. III, 60-81.

ok um nýsast
eðli þeirra,
alls þeir matar
of mettir eru".
34. "Hverir eru þèr,
halir atkomnir?
Hvaðan siglit èr
svalar unnir?
Eigit èr erindi
eitthvert híngat?"
35. "Eða rekizt èr
of refils stigu,
óvísa vargar,
sem víkíngar,
er um haf hvarfla,
hætta lífi,
ok mönnum útlenzkum
mein of vinna?"
36. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok orð um fann
við jöfurs máli,
einarðr orðinn,
því Aþena hafði
innrætt djörfúng
döglíngs syni,
at hann fylki frètti
um föður sinn,
þann er leingi hafði
úr landi verit:
37. "Frèttir þú, Nestor,
Neleifs arfi,
akkneskra manna
ítrlaukr,
hvaðan vèr sèm,
en ek hæga má
eptirspurn þinni
úrlausn veita".
38. "Ýttum vèr eik
frá Íþaksborg,

nálægri bröttum
Nejonsmúla.
Mitt ek sjálfs gerik
mál of reka,
nè ek með almanna
erindi ferk".
39. "Fer ek at fregna
um föður minn
víða vega,
ef ek vitorð feingi
um Odysseif
hinn ítrborna,
hal hugsterkan
í hverjum þrautum".
40. "Menn þat mæla,
at hann með þèr hafi
Týs leik háit
við Trójumenn,
ok borg þeirra
brotna látið".
41. "Höfum vèr af hverjum
hinna kappa,
þeim er Týs leik háðu
við Trójumenn,
afspurn öðlazt,
hvern aldrtila
bragna hverr
of beðit hafi".
42. "En hans lát hefir
himins jöfurr
lýðum ófregit
látið verða;
nè með vissu kann
vera nokkurr
inna, hvar öðlíngr
hafi andar mist";
43. "Hvort hann hafi
á hauðri víðu
meðal óvina
andrán beðit:
eðr hafi hann
á hafi bana
beðit í bylgjum
Blóðughöddu".
44. "Kem ek því nú
at knjám þínum,
bljúgr biðjandi,
buðlúngr, híngat:
at þú, hilmir, mèr
herma vilir
hörmulegum
hans dauða frá";
45. "Ef þú með eigin
einhverstaðar
hefir sjónum sèð
á siklíngs dauða;
eða fregn of feingit
um fylkis lát
af manni nokkrum
marlíðenda.
Hefir hans móðir
hann um alit
öðrum vesalla
jarðarbyggjum".
46. "Mýk ei harmsögu
af hlífð við mik,
nè máli halla
af meðaumkun:
heldr seg sögu
svo fram gjörla,
sem þèr sjálfum hefir
fyrir sjónir borit".
47. "Bið ek, þeingill, þik,
ef þèr minn faðir
Odysseifr
hinn ítrgóði
hefir nokkut þèr
nokkru sinni
játt ok efnt
orðs eða verks".

48. "Þá er þèr týmart
í Trójulandi
urðut, Akkverjar,
ángr bera:
þá lát mik þess nú
frá þèr njóta,
ok mèr sögu seg,
sem sannast veizt".

---

49. Ræddi þá ríkr
reiðar stýrir,
gerenskr Nestor,
ok við grams son kvað:
50. "Mik þar minnir þú,
mildíngs arfi,
margra mannrauna,
er máttum þola
akkneskra manna
arfþegar vèr
þróttum-öflgir
í þvísa landi".
51. "Margan áttu vèr
of myrkblátt haf
leiðángr lagðan
lángskipum á;
fórum ránsfarir
furðu víða,
þars hamramr Akkilles
herjum stýrði".
52. "Hjuggum hjörvi
ok hjálma klufum
kríngum Brjáms konúngs
borg allmikla;
urðu verar þar
vorra manna
hugum snjallastir
hníga í gras".
53. "Þar liggr Ajant,
öflgastr manna:
þar er Akkilles
orpinn sandi;
ok þar Patróklus
prúðr liggr,
ríkum tívum
í ráðsnilli jafn".
54. "Þar liggr hraustr
ok hjartaprúðr
ástkærr arfi minn
Antílokkus;
sá var halr
á hlaupi frár
ok orustumaðr
einn hinn bezti".
55. "Mart hèr á ofan
mein vèr biðum.
Hverr má þat manna
mennskra telja?"
56. "Þóttú dveldir hèr,
ok dæma spyrðir,
fimm misseri,
ok misseri sex:
eingi mundi þó
allar fá sagt,
þær er þar biðu
þrautir Akkverjar.
Mundirðu, leiðr
á lángsögum,
fyrr heim fara
til þíns föðurlands".
57. "Höfðum harðleikit
við heiptmögu
fjögr full
ok fimm misseri;
brögðum beittum,
böl mart unnum;
seint lèt Seifr oss
sigrs um auðit".
58. "Mátti þar manngi
í mannjöfnuð

ϱ. III, 100-120.

um ráðleitni
rekkr of fara
við Odysseif
hinn ítrborna:
því í bragðvísi
bar af öllum
ok volegra
vèlræða fjöld
faðir þinn
hinn fjölráðugi";
59. "Ef þú reyndar ert
afspríngr hans;
stórum undrumst ek,
er ek á þik horfi.
Svo eru orðræður
allar þínar
viti valdar,
at varla mundi
einhverr alls
enna ýngri manna
jafnspaklega
spjöllum deila".
60. "En okkr, alla þá
ófriðar stund,
aldrei á greindi,
Odysseif ok mik,
hvorki á hermanna
höldnum fundum,
nè á húsþíngum
höfuðsmanna".
61. "Sammála vorum
ok samhuga,
ok með heilum hug
ok hollum ráðum
lögðumst á eitt,
at Akkverja mál,
sem vænst mátti vera,
viðgáng tæki".
62. "En er vèr háva
höfðum í eyði
Brjámsborg lagða
ok brotið niðr:
þá lèt Seifr
sonum Argverja
heldr hættlega
heimför búit".
63. "Því ei voru allir
orir landar
reyndir at hyggju,
nè rèttvísir;
því var þat,
at þeirra margir
ill afdrif hrepptu
ok ófarar".
64. "Þat af heipt hlauzt
háskasamlegri
meyjar Ginnregins
ennar glóeygu:
kom hún mitt
á meðal beggja
þrætu atsamri
Atreifssona".
65. "Lètu konúngar
kapps of lystir
alla Akkverja
alþíngs kveðja.
Hætti var brugðit,
hugat var þat illa:
þá var sæl sól
sezt í ægi;
geingu svo miklum
miði tældir
á samkomu
synir Akkverja".
66. "Þat var þíngstefnu
þessar efni,
at Menelás alla
Akkverja bað
á heimför hyggja
ok hverfa á leið

ϱ. III, 120-142.

yfir breiðfeldar
brautir humra".

67. "Hugnaði þat ráð
hilmi ríkum
Agamemnoni
með eingu móti.
Vildi hann hermönnum
halda kyrrum,
ok heilög efna
hundraðsblót:"

68. "Svo at feingi hann
fárramlega
ríkrar Aþenu
reiði mýkta;
hitt eigi vissi
vanhygginn maðr,
at ríkti ríkt heipt
reiðrar gyðju:
því at eilífra
uppheims goða
skammbragðs eigi
skipast hugr".

69. "Þannig voldugir
innan vebanda
skiptust skatar við
skörpum orðum.
En hermenn akkneskir,
hlífum búnir,
upp með geysi gný
gerðu spretta:
drógst seggja sjót
í sveitir tvær,
nè allir urðu
á eitt sáttir".

70. "Hvíldum nótt þá,
voru hugir deildir,
lítt var til friðar
liðs í milli:
höfðum illt í hug
hvorir öðrum,

ϱ. III, 142-163.

því Seifr hefnd harða
hermönnum bjó".

71. "Settu til sjávar
sumir af oss,
ok fleyjum flotuðum,
at frömum morni;
fluttum kostgripi
á knarar borð
ok fagrbeltaðar
fylgikonur".

72. "Herkonúngi hjá
helmíngr liðs,
Agamemnoni
Atreifssyni,
eptir hýrðist;
en hljóp á skip
helmíngr annarr,
ok í haf lètum".

73. "Geingu fast gnoðir,
því goða nokkurr
lög láslèttan
lagit hafði.
Tókum Tenedus,
ok tívum sælum
fríð fórnarblót
færa knáttum".

74. "Heim oss lysti,
en heimkomu lèt
Seifr oss ei enn
auðit verða,
því sá grimmi guð
gerði vekja
illa ósátt
enn af nýju".

75. "Snèri þar aptr
snekkjum borðrónum
lofsæll lofðúngr
með liða sína,
Odysseifr,
sá er eigandi var

mannvits mikils
ok margra ráða".
76. "Fór þeingill þá
til þjóðhöfðíngja,
Agamemnons
Atreifssonar;
gerði þat til geðs
gram þjóðmærum
horskr hilmir
at hverfa aptr".
77. "En ek flýða'k,
sem ek fremst kunna'k,
með fley þau öll,
er fylgðu mèr;
því ek vita þóttumst,
at voleg nokkur
óhamíngja
mundi yfir vofa".
78. "Flýði jafnframt
ok farar kníði
tiggi týhraustr,
Týdeifs arfi;
ok mærr Menelás
miðlúngi síðar,
bleikhárr buðlúngr,
á bak oss kom".
79. "Lágum við Lesbey,
þá er oss lofðúngr hitti,
ok fángaráðs feingum
um farar ossar:
hvort vèr klettóttri
Kíey ofar,
hana hafandi
til handar vinstri,
á Spyrey leið
sporna skyldum;
eða klettóttri
Kíey neðar
fram hjá Múnanti
fleyjum halda".

ϱ. III, 163-183.

80. "Vèr tákns vilnuðumst,
en hinn virki guð
vísbendíng veitti
um vorar farar:
bauð hann oss brimla
brautir skera
Evbeyjar til,
svo undan feingim
skotizt sem skjótast
skaða búnum".
81. "Tók þá brátt blása
byrvindr hvass,
en fley fljótt runnu
of fiska brautir,
ok af lægi komu
til lands um nótt,
þar er Gerestus
gotnar kalla".
82. "Ok sem of ægi
afar breiðan
höfðum hleypt svölum
hlunna dýrum:
fjöld vèr til fórnar
fríðra þjóra
lærbita lögðum
lagar drottni".
83. "Dýrr var á lopti
dagr enn fjórði,
þá er við ítra
Argverja borg
tryggs Díómedes
Týdeifssonar
fèlagar fleyjum
í festar komu".
84. "En ek rádýra
rakleiðis hèlt
stefnu til prúðrar
Pýlusborgar;
nè byr blásanda,
þann er blása lèt,

af tók aldreigi
upphimins guð".
85. "Þannig sonr sæll,
sveif ek híngat,
fás of fróðr
ok frètta vanr:
nè ek heyrða'k,
hverir þeirra
af komust Akkverja,
eðr andrán biðu".
86. "Hitt má ek herma,
sem hæfilegt þykir,
nè þess dreingr skal
duldr gánga,
hvat er ek sitjandi
í sölum vorum
numit næst hefik
nýrra spjalla".
87. "Kveða heim aptr
með heilu komna
Myrmídóna
málmrógs-hvata,
þeim er Akkils
arfi frægr
í her stýrði
ins hugum-stóra".
88. "Heim kveða aptr
með heilu kominn
frægan Peantsson
Fílóktetes;
ok Ídómeneifr
öllum hefir
komit til Krítar
knífum sínum,
þeim er úr hildi
heilir komust;
nè einn sveina hans
sædauðr varð".
89. "En einnig þið
af Atreifssyni

*ϱ.* III, 183-203.

fregn hafit feingit,
þótt ið fjarri búit:
hve hann heim um kom,
ok hve Egistus
dapran döglíngi
dauða of bjó".
90. "Þó hefir þessi
þess illvirkis
hefnd grimmlega
at gjöldum tekit.
Sè þú, hve sælt er,
at sonr lifi
eptir geinginn guma!"
91. "Því hans sonr
sín um hefndi,
ok sinn felldi
föðurbana,
vèlráðan Egist,
er vegit hafði
föður hans,
frægstan manna".
92. "Ok þú, vinr,
er svo vænlegr ert
ok ítr álits
í augum mínum,
dreingr þú ok verir,
at í degi síðan
unni þèr orðlofs
alda synir".

---

93. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok orð um fann
við jöfurs máli:
"Heyr þú, Nestor,
Neleifs arfi,
akkneskra manna
ítrlaukr!"
94. "Bæði er þat,
at burr hans hefir

föðurhefnd framit,
enda frægð munu hans
verar akkneskir
víða reiða,
svo aldir ókomnar
munu af spyrja".
95. "Þess munda'k æskja
at þrek slíkan
guðir mèr veitti
til verka stórra,
at ek yfirgángs
hins óþolanda
biðlum hrekkvísum
hefna mætta'k,
þeim er sárri með
svívirðíngu
ok ofríkis atferð
á mèr níðast".
96. "En mínum föður
nè mèr hvorki
hugat þat hafa
hamíngjulán
guðir eilífir.
Ek því gjörva verð
þreyja ok þola
þessar raunir".
97. Ræddi hinn ríki
reiðar stjóri
Gerenskr Nestor,
ok við grams son kvað:
"Enn vil ek, vinr,
við þik ræða,
alls þú máls þess mik
minntan hefir
ok orði á komit,
er þik um varðar".
98. "Mæla þat menn,
at margir biðlar,
ills of lystir,
at þèr óspurðum

ρ. III, 203-223.

gaungur sínar
í garð þinn veni,
ok á munum sè
við móður þína".
99. "Seg mèr, hvort þú
sjálfviljandi
lætr á bug akast
ok bognar fyrir,
eða fjóna þik
fyrðar í landi,
raust rækjandi
ríkra tíva".
100. "Hverr of veit,
nema heim um komi
Odysseifr
einu sinni,
ok alls ofríkis
á þeim hefni,
einn eða allir
Akkverjar samt?"
101. "Ef þèr Aþena
hin augum-glæja
eins vildi unna,
ok hún Odysseifi
týði týfrömum
í Trójulandi,
þars vèr Akkverjar
ángr um biðum".
102. "Því enn hefek eigi
unna manni
sæla guði sèð
svo berlega,
sem honum berlega
á hlið aðra
úngleg Aþena
ávallt stóð".
103. "Ef hún eins þèr
unna vildi
ok önn um ala
af öllum hug:

þá mundi margr
meðal biðla
gleyma giptíngar
girndarráði".

104. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok honum aptr
annsvar greiddi:

105. "Ætla ek orð þat,
er þú mælir,
aldinn öðlíngr,
aldrei muni
framgáng fá
til fullnustu,
nè áhríns at
orði verða".

106. "Mikit býr undir
máli þínu!
Stórum undrast ek.
Ok eigi mák
hluti slíka
mèr í hug gera,
nè svo þótt væri
vili guða."

107. Gegndi Aþena
hin augum-glæja,
ok honum annsvar
aptr veitti:
"Enn at orð slíkt þèr
skuli af líða,
Telemakkus,
af tanna hvarfi!"

108. "Auðveldlega
má hinn almáttki guð,
ef hann vill þat vinna,
af fári frelsa
fíra hvern,
þótt sè firr um farinn".

109. "Heldr vilda ek
þat vinna til,

ϱ. III, 221-212.

í mótgáng
margan rata,
ef ek til húss kæmist,
ok heimkomu minnar
liti ljósan dag
á lopt upp renna;"

110. "En at ek heim kominn
of höggvinn væra'k
örendr at arni,
sem Agamemnon,
er með Egistus
ok eiginnar konu
vondum vèlum
varð af ráðinn".

111. "Megu-t þó guðir
mann sèr kæran
undan allsherjar
heli þiggja,
þá er skapanorn
hin skaðvæna,
hels ráðandi,
hal of tekr".

---

112. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok annsvar gaf
gyðju máli:
"Ræðum ei, Mentor,
meirr um þetta,
harmr er í hug
hvorum okkrum".

113. "Því nú er þat sèð,
at nein ei framar
viss fregn fæst
um farleingd hans,
heldr hafa goð
honum ætlað
dauða dapran
ok dimma feigð".

114. "Nú vil ek annars
orðs um leita,
ok nýrra spjalla
Nestor frètta;
því hann mannvit kann
miklu betr
ok háttu hvers konar
hverjum manni".

115. "Mæla menn, at hann
mannsaldra þrjá
stýrt hafi löndum
ok lýðum ráðit.
Er hann því eins
fyrir augum mèr,
sem einhverr væri
uppheims goða".

116. "Heyr, Nestor, nú
Neleifs arfi!
Seg sögu mèr,
sem þú sannast veizt:
Hverjum dauðdaga
dó hinn ríki
Agamemnon
Atreifs sonr?"

117. "Hvar var Menelás?
Hvern of bjó
ítrum öðlíngi
aldrtila
vèlráðr Egistus,
er hann vega skyldi
miklu sèr
mann vaskara?
Hvat dirfði hann
at drýgja slíkt?"

118. "Var þá Menelás
eigi viðstaddr
í Argverjalandi
hinu akkneska?
Var hann á flakki
fyrða meðal
í öðrum löndum
einhverstaðar?"

119. Ræddi hinn ríki
reiðar stýrir,
gerenskr Nestor,
ok við grams son kvað:
"Þèr vil ek þat,
er þú um spyrr,
sonr, allt segja
með sannleik fullum;
máttu þèr þó
þetta sjálfr
í grun gera,
hve gerzt hafi".

120. "Ef Menelás,
mögr Atreifs,
bleikhárr buðlúngr,
frá borg Tróverja
aptr kominn,
Egist hefði
heima hitt
í höll lifanda:"

121. "Þá mundu þeygi
þegnar akkneskir
hafa dauðan hann
haugi ausit;
heldr leggjanda
lángt frá Argverja
borg í brautu
á berum vángi
hundar slitið
ok hræfuglar;
nè víf akknesk
örendan grátið
þenna stórvirka
stórglæpamann".

122. "Meðan vèr sátum
ok margan háðum
Týs leik snarpan
um Trójuborg:

ϱ. III, 243-263.

sat hann makráðr,
ok sèr vel undi,
innst í afdölum
Argverja lands".
123. "Þar lèt hann ófám
Agamemnons
glapit glysmálum
göfga konu.
Lèt þó fyrst kostsöm
Klýtemnestra
(góða hafði hún
hyggju þegit)
sett syn fyrir,
nè sinna vildi
vondslegu verki
ok vansæmanda".
124. "Sat hjá svinnri
saungmaðr einn.
Honum hafði,
áðr heiman fór
Trójuborgar til,
tírar framr
Atreifs arfi
umboðit ríkt
bezt at gæta
beðju sinnar".
125. "En er nauðlegr
norna dómr
saungmann fjörvaltan
fjötrað hafði,
þá lèt Egistus
óðgöfgan hal
út á eyðiey
eina flytja,
ok listamann
lofsælan þar
hræfuglum verða
at hernámi".
126. "Hafði nú Egistus
heim til sín
lostigr lostiga
linnveingis Bil;
ok blótbita
brenndi marga
ginnheilögum á
goða stöllum;
ok heingdi upp
á hofsþili
gersema fjöld,
gulls ok klæða:
því nú verk stórt
vunnit hafði,
þat er vinna hann
vændist aldreigi".
127. "Brugðu för bragnar
frá borg Tróju.
En við tveir sigldum
ok samflot höfðum
Atreifsson ok ek,
aldavinir;
unni hvorr öðrum
ástsamlega".
128. "Komum siglandi
til Súníuness,
yzta útskaga
Aþenumanna;
þá lèt Appollon
ört sèr brugðit
at stjórnarmanni
Menelásar".
129. "Ok hægum með
hvítmýlíngum
andlát hægt
honum veitti,
meðan höndum hèlt
um hjálmunvöl
skips skríðanda
skatna vinr".
130. "Sá hèt Frontis
fleyja stýrir

Onetors son,
allra manna
fimastr fundinn
fleyi at stýra
voveiflegum í
vinda hviðum".

131. "Drýgði því dvalar
döglíngr hèr,
þótt hann fúss væri
farar næsta,
at haug yrpi
at hal dauðan,
ok helför veitti
virðulega".

132. "Ok lofsæll
lofðúngr hèðan
húfum hveldum
í haf lagði.
Hlupu hart snekkjur,
ok hratt komu
at Malíu-fjalls
múla hávum".

133. "Þá var heill horfin,
því hraklegar gerði
alskygn Seifr
siklíngs farar,
hleypti á hvössum
hvini vinda,
hleypti upp haföldum
harla digrum,
feikna stórum,
sem fjöll væri".

134. "Sundraði Seifr
siklíngs flota
ok keyrði sum skip
Kríteyjar til,
þar er Kýdónar
karskir bjuggu
ok í jarðmen fellr
Jarðans straumr".

ρ. III, 282-302.

135. "Þar hár hamarr
í himin gnæfir,
mænir á mar fram
meitilberg þat,
við Gortúns
grundar enda
út við kolblán
Krítar baug".

136. "Útsynníngr þar
at einu skeri
vestanvert
rekr vogs öldu
Festus-borg gegnt,
ok bægir þar
lítill steinn
stórri báru".

137. "Á skeri því
skip sum lendu:
varð mart til meins,
áðr mannbjörg yrði;
en skip sjálf
við skers flúðir
brutu bláfaldar
brúðir Ránar".

138. "En unnar dýr
hin önnur fimm,
blám of stafna
steini dregin,
ráku hvöss veðr
ok hafstraumar
at Egypta
ægum straumi".

139. "Þar Menelás
mikla gat
gulls of gnótt
ok gersema;
varð víða
vísir frægr
meðal útlendra
manna flækjast".

140. "En Egistus,
meðan á því stóð,
harmbrögð hryggileg
heima drýgði,
er hann Atreifsson
öndu rænti,
ok allan lýð
undir sik braut".

141. "Ok gullauðugri
garpr ríkti
misseri sjö
yfir Mýkenu;
en á áttunda
of kom honum
volegr vogestr,
veglegr Órestes".

142. "Kom Órestes
frá Aþenuborg,
ok sinn felldi
föðurbana,
vèlráðan Egist,
er vegit hafði
föður hans,
frægstan manna".

143. "Vel lèt hann veitt,
þá er vegit hafði,
erfi Akkverjum
ok öldrykkju
at hina meingjörnu
móður sína
ok Egist
eljanlausan".

144. "Sigldi í land
þessu samdægris
ræsir hinn ráðsvinni,
rómsterkr Menelás;
báru gnoðir hans
gull ok hodda,
sem mest máttu,
ok meiðma fjöld".

ϱ. III, 303-322.

145. "Varast ok, vinr,
at vera á ferðum
leingi lángt frá
landsbúm þínum.
Mart áttu hodda
hallar innan,
marga stórbokka
í stofu þinni".

146. "Á er mèr uggr,
at ofjarlar þeir
allar upp eti
eigur þínar
ok milli sín öllum
meiðmum deili;
verði svo för þín
at fararleysi".

147. "Hins vil ek ráða,
ef þú hlýða villt,
at þú Menelás
mæríng hittir;
hann er nýkominn
úr heimum utan,
ýmsum fólkum frá,
yfir fjarska haf".

148. "Eingi þarf ætla
á aptrkomu,
sá er fárhörðum
fellibyljum
hrjáðr hrekst af leið
í hafsgeim þann,
afarmikinn
ok ógurlegan".

149. "Svo er haf þat
harla mikit,
geysi-grimmúðugt
ok geigvænlegt,
at eigi fær þar
á fullu misseri
fugl fljúgandi
flogit yfir".

150. "Skunda nú skjótt
með skip þitt ok menn,
ef þú hinnig villt
of haf stefna;
en lángi þik heldr
á landi fara,
skaltu fáka fá
ok ferðavagn".

151. "Senda skal ek með
sonu mína,
þeir skulu fylgð þèr
fúsa veita
til Lakedemonar
ennar lýðhelgu,
þars bleikhárr Menelás
byggir sali".

152. "Bið þú hann sjálfan
at hann segi þèr
vísar sagnir
ok sannleik gjörstan.
Mun-at hann markleysu
mælta láta,
alls hann vera
vitrastr er".

---

153. Sagði þat siklíngr,
en sól til viðar
rakleiðis rann,
ok rökkr of kom.
Mælti þá mitt
á móti rekka
Aþena gyðja
hin augum-glæja:

154. "Eptir efnum
hefir þú atburði þessa,
aldinn öðlíngr,
upp um sagða.
Bryti nú blóttúngur
bragnar gjörva,
ok vín at venju
vatni blandi".

155. "Vèr skulum láta
lagar drottni
dreypifórn dreypt
ok díum öðrum:
hyggja á hvíld
ok til hvílu gánga;
er nú fyrir höndum
háttatími".

156. "Er und skör jarðar
skriðljós himins
niðr skriðit
í nætrdimmu.
Gaungum á brautu!
At goða veizlu
sæmir-a sitja
seggjum leingi".

157. Sagði þat gyðja,
Seifi borin;
en boðum hennar
bragnar hlýddu;
ok á hendr
helltu vatni
þegnum til þvottar
þjónustumenn.

158. Ok skaptker
skærum drykk
borðsveinar
á barma fylltu;
skeinktu á skálar
hið skæra vín,
ok dreingjum deildu
til dreypifórnar;
ok þeir á eld
urpu túngum,
upp um stóðu,
ok yfir dreyptu.

159. Ok er dreypt höfðu
ok drukkit af kerum,

svo sem lyst til lèk,
lýða dróttir:
þá vildi Aþena
ofan til skips
ok týværin gánga
Telemakkus.

160. Vildi't vísir þeim
á veg sleppa,
ok á þá varp
orðum þeima:

161. "Láti þat Seifr
ok sælir aðrir
uppheims guðir
aldrei verða,
at þit frá mèr
farit hèðan,
ok skjótt til skips
skulut gánga".

162. "Fjarri er, at frá mèr
fara skylit,
sem væra'k fjár vani
ok fatnaðar,
hefða'k hvorki
í húsi mínu
auðgnótt dúka
nè yfirhafna".

163. "Nè mætta'k sjálfr
á mjúkri sofa,
nè góða sæng
gestum bjóða.
Hvorugt er þetta,
því at hefik dúka
auðlegð gnóga
ok yfirhafna".

164. "Skal aldreigi
öðlíngs þessa
ástkærr arfi,
Odysseifs,
þilju-blakks
á þiljum niðri
húinn leggjast,
meðan á lífi emk".

165. "At mèr önduðum,
ossum görðum
mínir megir
munu ráða.
þeir skulu veita
vel ok beina
gestum greiða,
þeim er at garði koma".

166. Gegndi Aþena
hin augum-glæja,
ok orð um fann
við öðlíngs máli:

167. "Góð eru orð þau,
er þú mælir,
ástkærr öldúngr,
ok er því skylt,
at Telemakkus þeim
tölum sinni
ok vel boðins
vel of neyti".

168. "Mun hann því eptir
með þèr vera,
svefns at njóta
í sölum þínum.
En ek skjótla mun
til skips gánga,
dugnað dreingjum
ok dáð at veita".

169. "Em ek skatna,
er á skipi eru,
elztr einn
allra vorra;
eru ýngri mèr
aðrir liðar,
ok af vináttu
veita fylgi;
þeir 'ru allir
at aldrs sökum

ρ. III, 312-364.

jafnir týhraustum
Telemakkus".
170. "Stíga mun ek hèðan
ok stundarhvíld
náttlángt nema
niðri við skip.
En ár morguns
mun ek fara
Kákóna til
kappsnúinna;
þeir 'ru skyldir mèr
skaðabóta,
þeygi nýrra,
nè þó svo smárra".
171. "En með því halr sá
er í hús þitt kominn,
fá þú honum vagn
ok til fylgðar son;
fá þú honum ok
fararskjóta,
þá er frásta á fæti
ok færasta átt".

---

172. Mælti þat Aþena
hin augum-glæja,
ok sveif burt sviplega,
sem sævarörn;
en allir urðu,
þeir er á horfðu,
felmtri fángnir
ok frá sèr numdir.
173. Öldnum öðlíngi
þat undrunar fèkk,
er hann augum leit
atburð þenna;
tók hann í hönd
Telemakkus
upp hóf erindi
ok þau orð um kvað:
ϱ. **III, 361-384.**

174. "Von erumk, vinr,
at þú verðir eigi
andvanr orku
ok eljanlauss,
alls þèr guðir,
svo úngum manni,
föruneytis ljá
ok fylgju sinnar".
175. "Því eingi var þetta
annarr guða,
þeirra er Ólymps
inni byggja,
nema hin trúfasta
Trítógenía,
dásamlegasta
dóttir Seifs;
sú er frægum
föður þínum
sæmdar unni
með Akkverjum".
176. "Heyr, lafði mín,
líkna þú mèr!
veit virðíng,
veg ok sóma
sjálfum mèr
ok sonum mínum
ok bljúgvirðri
beðju minni!"
177. "Á ek eina mèr
árs of gamla
kvígu óþjáða
krúnubreiða;
þeirri hefir enn
eingi maðr
úngri kvígu
und ok komit".
178. "Hennar skal ek horn
hrannar eldi
fögrum fága
ok fórna þèr".

Sú var bæn buðlúngs,
er hann baðst fyrir,
en úngleg Aþena
orð hans heyrði.
179. Gekk þá hinn ríki
reiðar stýrir
gerenskr Nestor
til glæsilegrar
hallar heim,
en hilmi fylgðu
dýrir synir hans
ok dætramenn.
180. En er heim þeir
til húsa komu
dásamlegra
dróttar stýris,
settust í röðum
á salar bekki
ok hástóla halir,
hverr at öðrum.
181. Ok er konúngs höll
kappar snjallir
skipat höfðu,
í skaptkeri
aldinn öðlíngr
enn af nýju
blandaði vínveig
vörrum þæga.
182. Á því víni
þá hafði fyrst
tekit ráðsnotr
ráðakona,
ok vínkers njórun
veiga karmi
á ári ellepta
umböndum sprett.
183. Af víni því
vatni blöndnu
skati skýrr
skaptker fyllti:
bað til Aþenu
allþarflega,
víni dreypandi,
dóttur Seifs.
184. En sem dreypt
ok drukkit bæði,
sem lyst til lèk,
lofðar höfðu,
þá sèr hverir
hvíld at fánga
svefns of lystir
til sala geingu.
185. En þar í höll
þæga hvílu
gerenskr Nestor
grams syni fèkk,
reiðar stýrir,
á renndum bekk,
þars ómr umdi
í útsvölum.
186. Þar fèkk hann rekkjunaut
ræsis syni
Pisistratus
hinn prúðlundaða;
þann átti öðlíngr
arfa sinna
enn einn ókvæntan
í auðsölum.
187. Sjálfr svaf hilmir
í svefnherbergi
innst í hárrar
hallar sölum;
þar með honum hans
hvílubrögðum
rúna rík
ok rekkju deildi.

---

188. En er árrisul,
rósinfíngra,

ϱ. III, 385-404.

birtist mönnum
Morginskæra,
þá reis úr rekkju
reiðar stýrir,
gerenskr Nestor,
ok gekk úr sal.
189. Settist stillir
á steina skafna
fyrir framan dyr
fylkis hallar;
hvítir þeir voru
ok hála glæir,
sem viðar feiti
fáðir væri.
190. Sat á steinum þeim
stillir forðum,
ríkum tívum
í ráðsnilli jafn,
mærr Neleifr;
en í myrkheima nú
feigð fjötraðr
var fylkir geinginn.
191. Nú sat stillir
á steinum þessum,
gerenskur Nestor,
gætir Akkverja.
Í vísis hendi var
veldissproti,
en kríngum konúng
komnir úr sölum
allir söfnuðust
synir tiggja:
192. Ekefrón, Stratíus,
Aretus, Perseifr,
ok þekkilegr
Þrasýmedes;
þá kom hinn sjötti
sveit at fylla
prúðr öðlíngs burr
Pisistratus.

ϱ. III, 404-424.

193. Með sèr leiddu þar
listum búnir
tiggja synir
Telemakkus,
ásýnis áþekkan
uppheims goðum,
ok honum sess
hjá sèr völdu.
194. Ræddi þá ríkr
reiðar stjóri,
gerenskr Nestor,
ok við gumna kvað:
195. "Skundit sýslega,
synir ljúfir,
ok unnit heit
efnit skjótla,
at ek Aþenu
allra goða
mega'k fyrsta
í frið þiggja,
sú er bersýn
í blótveizlu
dýrlega hitti,
þá er híngat kom".
196. "Fari einn yðar
út í haga
eptir kvígu,
at hún komi skjótt;
en hana skal
híngat reka
sá er hjörð nauta
hefir at geyma".
197. "Fari enn annarr
ofan til skips
Telemakkusar
ens týhrausta;
sá skal skipverja
sækja alla,
eptir skulu vera
einir tveir".

198. "Þá skal hinn þriði,
at þinnig komi,
gullsmið Laertes
gánga kalla,
at hann bæði horn
á blótkvígu
eldrauðum sveipi
ægis ljóma".

199. "En þèr aðrir
verit eptir hèr
allir ásamt,
ok innan hallar
segit salkonum,
hvat sýsla skal;
bjóðit dýrlega
búa veizlu,
sæti sækja,
safna viði,
ok hreint vatn
til hallar bera".

200. Sagði þat siklíngr,
en siklíngs arfar
allir ákafa
ótt sèr flýttu.
Kom kvíga úr haga,
komu frá skipi
liðar týframs
Telemakkus.

201. Kom þar smiðr,
ok smíðartólum,
efnum íþróttar,
á nam halda,
hamri, steðja
ok staðgóðri taung;
þau voru gögn góð
til gullsmíðar.

202. Kom ok Aþena
hin augum-glæja,
búin at gánga
at blóti sínu.

ϙ. III, 425-445.

203. En aldinn gramr
gull til lagði,
Nestor, hinn ríki
reiðar stjóri.
Ok gullsmiðr
gulli sveipti
kvígu horn,
ok haglega bjó:
at góð gyðja
gleðjast mætti
af dýrðargrips
dávænni sjón.

204. Leiddu kappar tveir
kvígu á hornum,
ítr Stratíus
ok Ekefron;
en ágætr
Aretus kom
hendi færandi
út af herbergi.

205. Bar hann í annari
blómum pentaða
skál með skæru
skírsluvatni;
en í hinni mund
hèlt hann á
körf með byggi
til blótvígslu.

206. Var þar viðstaddr
hinn vígrammi
Þrasýmedes,
ok þveitu bitra
hafði í hendi,
til höggs búinn.
Traustr Perseifr
á trogi hèlt.

207. En Nestor, ríkr
reiðar stjóri,
aldinn buðlúngr,
blót nam vígja:

blótbyggi dreifði,
blótvatni stökkti,
bað allþarflega
Aþenu til;
ok höfuðhár kvígu,
hefjandi blót,
varpaði öðlíngr
í eld vígðan.

208. En er bænræknir
of beðit höfðu,
ok blótbyggi
bragnar dreift,
þá gekk þegar at
Þrasýmedes,
kynviðr Nestors,
ok kvígu hjó;
sneið hárbeitt öx
hnakka-sinar,
ok fjörleysta
frenju svæfði.

209. Hrinu þá hástöfum
horskar dætur,
sonakonur
ok siklíngs brúðr,
eiginkvon Nestors,
Evrýdíka,
öðlíngs Klýmenus
elzta dóttir.

210. Hófu upp höggna
frá hauðri víðu,
ok hóglega
hèldu á lopti,
meðan prúðlyndr
Pisistratus,
höfðíngi herja,
hálsundir skar.

211. En er blóð dökkt
var úr benjum runnit,
ok líf liðit
líffæðum úr,
limuðu lofðar
lífsvanan kropp.

212. Ok blótbita
at blótsið rèttum
þegnar úr lærum
þegar skáru,
huldu mörlaga
milli tveggja,
ok hèr ofan á
hrátt of lögðu.

213. Ok blótbita
brenndi aldinn
skati á skíðum,
ok skæru víni
yfir dreypti;
en úngir sveinar
teinum fimmyddum
framlega hèldu
við hilmis hlið
í höndum sèr.

214. En er blótbitar
brunnir voru,
ok iðrar etnar
ýtar höfðu,
brytjuðu blótkjöt
bragnar annat
ok á steikara
stúngu teina,
steiktu á eldi,
ok steikarteinum
í höndum hèldu
hvassodduðum.

---

215. Laugaði týhraustan
Telemakkus
prúð á meðan
Polýkasta;
sú var döglíngs
dóttir ýngsta,

ϱ. III, 445-465.

aldins Nestors
Neleifssonar.
216. En er lofðúngs son
laugat hafði
ok smurt viðsmjörs
viðar feiti,
kápu kostuga
ok kyrtil lagði
öðlíngs dóttir
yfir öðlíngs son.
217. Þá var grams sonr
goðum líkr
er hann af laugu
lèt um stigit;
gekk til Nestors,
ok niðr settist
háaldraðs við hlið
hölda stýris.
218. En er krofstykki
steikt of höfðu
ok af teinum tekit
teitir rekkar,
settust at veizlu,
en vaskir sveinar
á skálar gullnar
of skeinktu vín.
219. En er lýðir
lystíng höfðu
á bug ekit
áts ok drykkjar,
ræðu hóf ríkr
reiðar stjóri
gerenskr Nestor,
ok við gumna kvað:
220. "Leiðit híngat,
ljúfir synir,
fáka faxprúða
ok fyrir beitið
vagn týspökum
Telemakkus,
at hann farit fái
ferðar sinnar".
221. Svo kvað siklíngr,
en siklíngs burir
föðurs orðum
fúsir hlýddu,
ok skjótlega
skeiðfrá hesta
und ok færðu
ok fyrir beittu.
222. En ráðsnotr
ráðakona
vín ok brauð
í vagn upp lèt,
ok sufl þat,
er sælir eta
sifjúngar siklínga,
Seifi bornir.
223. Steig á kerru
stundar fagra
Telemakkus
hinn tírargjarni,
ok við hlið
hilmis kundar
prúðr Nestors son
Pisistratus
upp sèr varp
í vagnsæti,
ok tauma
tók með höndum.
224. Hann til hlaups keyrði
hesta fráa,
en þeir viljugir
út á völl flugu,
ok í hvarf liðu
háreistum frá
portum prúðrar
Pýlusborgar.
225. Höfðu okhrínga
á hálsum sèr,

ϱ. III, 465-486.

ok allan dag
oktrè skóku,
uns sæl rann
sól á víðu
ok skugga brá
of brautir allar.
226. Ok fylkis synir
til Feruborgar
óku, ok hinnig
til hallar komu,
þars dýrr Díókles
dróttum stýrði
Orsilokksson
Alfeussonar.
Hann um nótt gistu
niflúngs arfar,
ok af gram góðan
gátu beina.
227. En er árrisul,
rósinfíngra
birtist mönnum
Morgunskæra,
hestum fótfrám
fyrir beittu,
ok á vagn stigu
vísa niðjar.
228. Keyrði fylkis son
fáka til hlaups,
en þeir viljugir
út á völl flugu.
Sóttist skjótt leið,
þar er snæfrir runnu
of hauðrs veg
hveitifrjóvan.
229. Ok marir móðugir
moldveg spornuðu,
uns sæl settist
sól í ægi
ok skuggsýnt varð
of vegu alla.

# FJÓRÐA KVIÐA.

KOMU kostsamir
at kveldi dags
til Lakedemonar
lofðúngs synir;
sú var björgum kríngð
borg umhverfis,
hálsum horfin
ok hömrum studd.
2. Óku til hallar
jöfra megir
Menelásar
hins meginfræga;
ok svo á hittu,
at alda stýrir
mörgum hollvinum
í hallar sölum
brúðkaups veitti
veizlu dýra
dýrrar dóttur
ok dyggs sonar.
3. Sendi siklíngr
sína dóttur
ógndjarfs Akkils
arfa ríkum;

ϱ. III, 486-497.

hafði hilmir fyrst
henni lofat,
ok trúnað til selt,
í Trójuborg.
4. Nú lètu rík goð
ráð þau takast;
því hana vísir nú
á vagni sendi
til borgar mætra
Myrmídóna,
þars Akkils arfi
eignum stýrði.
5. En dóttur Aktors,
dyggs Spartverja,
Megapentesi
mildíngr gaf;
þann hafði arfa
áttan síðla
hilmir við hrund
hernuminni.
6. Því Helenu lètu
hollir tívar
einskis afkvæmis
auðit verða,
eptir at hilmis kvon
Hermíónu,
dóttur ástkæra,
alit hafði;
sú glík mær
gulli prýddri
Afrodítu
í ásýnd var.
7. En týhraustr
Telemakkus,
ok Nestors
niði frægr,
ok mèlgreypir
marir stóðu
fyrir fordyrum
fylkis hallar.
ϱ. IV, 6-32.

8. Gekk fram göfugr,
ok gesti leit,
Eteóneifr,
eðli borinn;
sá var þeingils
þjónustusveinn
vaskr, Meneláss
hins margfræga.
9. Hann skjótlega
skyndi um sal,
gesta komu
gram at segja;
gekk at fylki
ok frammi stóð,
ok hann óðhröðum
orðum kvaddi:
10. "Hèr 'ru gestir tveir
at garði komnir,
ítr Menelás,
ástmögr Seifs!
Sýnast gumar þeir
góðkynjaðir
báðir af ætt vera
hins æðsta Seifs".
11. "Seg, buðlúngr,
hvort beita skulum
undan oktrè
akjóm þeirra,
eðr eigum vèr
á annars manns
beina þeim
braut at vísa".
12. Bystr varð buðlúngr
hinn bleikhári,
mærr Menelás,
ok máls of vakti:
13. "Var-attu áðr svo,
Eteóneifr,
bernskr í bragði,
Bóetusson.

En nú mælir þú,
sem þú mæla vildir,
ef á úngmennis
aldri værir".

14. "Margan höfðu vèr,
áðr híngat komumst,
hjá brögnum útlendum
beina þegit.
Svo láti Seifr oss
á síðan verða
slíkrar af auðit
óhamíngju,
sem þú beit fáka frá
ferðamanna
ok inn leið sjálfa
til aptansverðar".

15. Stillir þat mælti,
en stökk í skyndi
sveinn út úr sal,
ok sèr til fylgðar
afreks ágæta
aðra kvaddi
þjónustumenn,
er þar voru.

16. Fáka leystu þeir
löðrsveitta,
ok akjóm undan
oki beittu;
bundu við byrzlur
bitil-hreina,
urpu einkorni
í etustall,
ok bleiku byggi
blendu þar við;
hölluðu hógreiðar
hleypi-skútu
upp við fagrfá
forsals-veggi;
en gesti leiddu
inn í glæstan sal.

ρ. IV, 32-51.

17. Undruðust ítrir,
er þeir inn komu
í öðlíngs sal,
ástfóstra Seifs;
því svo var at sjá
í siklíngs höllu,
sem sæll lýsti
sólar bjarmi,
eða skini máni
skírr á nóttu.

18. En öðlíngs synir
um lituðust
ok unaðs
augum feingu;
stigu niðr at þat
í stórvel skafin
laugarker,
ok lauguðu sik.

19. Ok sem þernur þá
þvegna höfðu
ok smurða
smjörvi viðar,
ok skjólgóða
skikkjumöttla
ok lètti-kyrtla
lagt of herðar:
á hástóla
halir settust
megi Atreifs hjá,
Menelási.

20. En herbergismær
handlaug færði
vænum, gullnum
í vazkalli,
ok yfir mundlaug
úr mæru silfri
vatni af hellti
til handaþvottar,
ok borð fram
fágat setti.

21. Ok heiðvirð
húss matselja
brauð fram bar
ok á borð lagði,
miðlaði matar
mörgum rètti,
hugul veitandi,
þat fyrir hendi var.
22. En hvers kyns hlaðna
hóf upp kjöti
bryti borðdiska
ok á bjóð setti,
ok hjá gumnum lèt
gullnar skálar.
Ok bleikhárr bað
buðlúngr gesti
velkomna vera,
ok vakti ræðu:
23. "Neytið verðar,
njótið heilir!
Munum enn meirr,
er mettir erut,
ætt ykkra alla
ok eðli kanna.
Er-a þó ættarmót
ykkr um horfit;
dylst-a manns mót
mannsefnum á".
24. "Á sèr, at erut
eðlis fremra,
konir konúnga,
kynstafir höfðíngja;
því atgervi slík,
sem eru þit,
myndu-t ættlerar
alit hafa".
25. Gat þess gramr
ok fyrir gesti lagði
kjötstykki steikt
ok stundar-feitt,
uxahryggjar,
er öðlíngi sjálfum
kosit höfðu kappar
at kjörskamti.
26. Rèttu nú halir
hendr sínar
at fram reiddum
rètta gnóttum;
ok matlystíng
málmþíngs boðar
ok drykkjar fýst
drjúgum eyddu.
27. En tírargjarn
Telemakkus
við Nestors nið
nam at ræða;
hneigði til hans
höfði sínu,
at eigi heyra
aðrir mætti:
28. "Hygg, vinr, at,
vildastr mèr,
arfi Nestors,
ok augum leið
ljósan ljóma,
er lýsir alla,
líkt sem lopteldr,
lofðúngs sali".
29. "Glóir rauða gull
í grams húsum,
fílsbein fágat,
fagr eirmálmr;
af ægis eldi
logar öðlíngs höll,
ok af handar mjöll
hilmis salir".
30. "Gefst mèr at undri
gersema fjöld
inni ótalleg
í auðsölum.

ρ. IV, 55-73.

Slík mun sjóndýrð
á Seifs vera,
öðlíngs ólympska,
aðalbóli".

31. Varð víss, hvat mælti
vísis arfi,
bleikhárr Menelás,
ok brá til orðum:

32. "Við Seif sjálfan,
synir ljúfir,
dugir-a dauðlegum
dróttum keppa;
því hans eru himnesk
húsakynni,
ok auðlegð ódauðleg
alla daga".

33. "Hitt ek veitk-a,
hvort vili nokkurr
málmbjóðr við mik
menjum deila,
eðr hvorttveggja
mik hafa láta,
auð ok ófögnuð
at óskiptu".

34. "Því mannraun marga
munda'k þola
ok hrakníngum
hörðum sæta,
áðr með auð fjár
á unnar hestum
aptr á áttunda
ári of komk".

35. "Flæktumst til Kýprs
ok Feníkalands,
Egipta jarðar
ok Eþíópa;
sá ek Eremba
ok Sídonsmenn,
ok Libýu
láð kannaða'k".

ρ. IV, 74-95.

36. "Á landi því
lömb upp vaxa
harla hratt,
ok horn um geta;
því þar lands
þrisvar bera
ær á ári
ávallt hverju".

37. "Er-a vant þar
verði sauða
nè hverjum
hjarðar drottni
kjöts ok kjúkna
kostar at gnógu,
nè munntamra
mjólkr-nytja;
því ær þar
ár í gegnum
jafnan mjólk
úr júfrum gefa".

38. "Meðan um ek fór
í þeim álfum lands,
bróður myrði minn
maðr annarr
leynt, óvörum,
með lævèlum
illskufullrar hans
eiginkvonar".

39. "Svo em ek sízt
með sæld at kominn
auðræðum þeim,
er ek nú yfir ræð'k.
Munut þessar þit,
af þeim, er eigit,
feðrum frètt hafa
fregnir gjörva".

40. "Því ratað hefir ek
í raunir margar,
ok horft á hús þat
hrjáð ok eydt,

er framlega var
fyrrum setið,
ok góðgripi marga
geyma knátti".
41. "Una munda'k,
þótt at eins byggja'k
við þriðjúng þess fjár
í þeima húsum,
ef lofðar lifði,
þeir er lètust þá
týhraustir menn
í Trójulandi,
ættjörð Argverja
alllángt í frá".
42. "Sárt vèr syrgjum,
sáran tregum
alla þjóðmæra,
er þar fèllu.
Sitjum sútfullir
í sölum vorum,
högum ýmissum
harma brögðum".
43. "Seðjum eina stund
á sorg huga,
þreyjum aðra
þurrum tárum;
því svalt gerir mönnum
sorg í brjósti,
skjótt á sorg svalri
seðst manns hjarta".
44. "En eingan allra
eins ek trega,
þó mik sár taki
sorg til hinna,
svo sem einn,
er svefn ok mat
mèr of leiðir,
er ek minnumst hans".
45. "Því at eingi einn
af Akkverjum
þrautir jafnmargar
þolat hefir,
sem ítr undir gekk
Odysseifr,
ok þrekramr
þreyta knátti".
46. "Varð svo í sköpum
at honum skyldi verða
sárra rauna
sjálfum auðit,
en seinfyrnds mèr
sorgar trega
um útivist hans
all-lángæa;
nè vitum vèr
með vissu neinni,
hvort lifir döglíngr,
eða dauðr er".
47. "Nú munu siklíng
sáran trega
ítr Laertes,
öldúngmenni,
ok prúðlunduð
Penelopa,
ok Telemakkus
hinn tírargjarni,
þann er öðlíngr
eptir skildi
heima nýfæddan
í húsi sínu".

---

48. Mælti þat Menelás,
ok mildíngs syni
tregafýstar fèkk
um föðurs sökum.
49. Þá tár hrundu
Telemakkus,
er hann góðs föðurs
um getið heyrði;

ϱ. IV, 96-114.

hóf upp skikkju,
hèlt fyrir augum
hárauðri hann
höndum báðum.
50. Vissi þá vísir,
hverr vera mundi,
ok hug um leiddi,
hvort láta skyldi
sjálfan son föðurs
síns of minnast,
eðr fyrst hans freista
ok fregna sjálfr.
51. Meðan hugr hans
var á hvörfum um þat,
horsk Helena
úr herbergis kom
ánganda sal
allháþöktum,
Artemisi glík
gullinsnældu.
52. Þrjár voru meyjar
með þeingils brúði:
setti Adrasta
setstól fagran,
Alkippa mjúkan
bar ullardúk,
en kostsöm Fíló
körf af silfri.
53. Þá hafði körfu
gefit konúngs brúði
prúð Alkandra,
Polýbus kvon;
sá bjó þengill
í Þebu egipzkri,
þars geymast í húsum
gripir flestir.
54. Hann gaf mildíngi
Menelási
laugarker tvö
af ljósu silfri;
ok tvo katla
hann konúngi gaf,
ok vættir tvær
af Vala málmi.
55. En hilmis kvon
hèr at auki
gaf góðri Helenu
gjafir fagrar:
snældu, gerva
af gulli rauðu,
ok körf botnbjúga
af bleiku silfri,
voru gulli búnir
barmar hennar.
56. Kom með kostgrip þann
konúngs þerna,
ok setti horskri hjá
hilmis brúði;
full var körf sú
en fagrgerva
þræði þelsmám,
en þar lá efst
snælda ofan á
með ull blárauðri.
57. Settist í hástól
hilmis rúna
ok á fótskemil
fætr lagði;
orðum viturt víf
ver sinn kvaddi,
ok alls of frètti
ítarlega:
58. "Vitu vit nokkurri
með vissu þat,
öðlíngr Menelás,
óskmögr Seifs!
hvat manna menn þeir
muni vera,
er nú heimsækja
hallir vorar?"

ę. IV, 115-139.

59. "Mun ek hègóma
mæla beran,
eða satt vera,
þat ek segja mun'k?
Þó vil ek orð þat
uppi láta,
er mèr um býðr
í brjósti hugr".
60. "Hefi'k aldreigi
augum litið
mann nè konu
svo meginlík
öðrum út í frá
at allri sýn
(stórum undrast ek,
er ek á hann lít)":
61. "Sem sjá maðr
er í sjón líkr
hjartprúðs Odysseifs
horskum arfa,
Telemakkus,
er tiggi nýfæddan
heima lèt eptir
í húsi sínu":
62. "Þá er þèr, þróttkir
þegnar Akkverja,
í Týs leik fórut
til Trójuborgar,
minna vegna,
meyjar ósvinnrar,
herskjöld at hefja
hildiramman".
63. Annsaði Menelás
orðum hennar,
bleikhárr buðlúngr,
ok við brúði kvað:
"Svo mèr sýnist ok
sjálfum vera,
sem þú, góð kona,
í getur leiðir".
ρ. IV, 140-159.

64. "Slíkir, sem á þeima,
voru siklíngs fætr,
slíkar, sem á þeima,
sjóla hendr;
slíkt var augnaráð,
er hann augum renndi;
slíkt var höfuð hilmis
ok háralag".
65. "Ok sem ek áðan
á öðlíng minntist,
ok frá ítrum innta'k
Odysseifi,
hve marga mannraun
hann minna vegna
þróttugr þoldi,
ok þrautir drýgði":
66. "Þá lèt hann beiska
undan brúna hvolfum
harmdögg hnípinn
hníga niðr,
hóf upp skikkju,
hèlt fyrir augum
hann hárauðri
höndum báðum".
67. Annsaði prúðr
Pisistratus,
arfi Nestors,
öðlíngs máli:
"Höfðíngi herja,
horskr Menelás,
Atreifs arfi,
óskmögr Seifs"!
68. "Svo er sannlega,
sem þú mælir;
hann er Odysseifs
arfi sannr:
forsjáll maðr,
ok sín fyrirverðr,
hègómlegt hjal
at hafa á gómi

fyrir þèr frammi,
hit fyrsta sinn
er híngat hann
til húss kemr,
þar sem orð þín oss
unað veita,
ok gamna mál,
sem goða nokkurs".
69. "En híngat mik
horskr sendi
gerenskr Nestor,
gætir reiðfara,
fylgð at veita
fylkis arfa.
Var hann fúss fara,
ok þik finna lysti
til fulltíngis sèr
ok framra ráða".
70. "Berr er á baki,
ok böli margs konar
sonr of sætir
í sínu ranni,
ef hann einga á
aðstoðarmenn,
ok sè faðir hans
í fjarvistum".[1]
71. "Svo er um Telemakk,
tiggja arfa,
at firr um farinn
er faðir hans,
nè hann aðra á
innanlands-menn,
þá er böli hans
bægja kunni".
72. Annsaði orðum
öðlíngs sonar
bleikhárr Menelás,
ok mælti svo:
73. "Gott er í efnum
er arfi horskr
hefir heimsótt mik
hollvinar míns,
þess er margs konar
minna vegna
örlög drýgði
ok orrustur".
74. "Hafða'k þat hugsat,
ef okkr heimkomu
yfir haf hefði
á hröðum snekkjum
alskygn Seifr unnt,
ólympskr guð:
at ek aptrkomnum
ástvin mínum
öllum Akkverjum
öðrum fremr
feginsamlega
fagna munda'k".
75. "Borg honum byggja
á bjöð Argverja,
ok höll hátimbra
háva skylda'k;
ok frá Íþaksey
eigur hans flytja,
borglýð allan
ok einka son".
76. "Eina borg skylda'k
þeim öllum rýma
byggíngar til,
af borgum þeim,
er á bóli hèr
bygðar eru,
ok ek einn á
yfir at ráða".
77. "Þá skyldum báðir hèr
búa samtýnis,
ok vinir tveir
opt vera saman;
ekki nema hel
æva skyldi

ρ. IV, 160-180.

skilja vináttu
ok skemtun okkra".

78. "En farsælu þá
mun fyrirmunat
sjálfr oss hafa
sjóli himna:
þar sem einan hann
án aptrkomu
veslan mann
hefir verða látið".

79. Innti svo öðlíngr,
ok öllum þeim
sorgartrega fýsn
sára vakti.
Grèt þá Helena,
getin Seifi,
drottníng Argverja,
dýrum tárum.

80. Grèt Telemakkus
hinn tírargjarni,
grèt ok Menelás,
mögr Atreifs.
Nè brátúngl
und brúna himni
táralaus Nestors
niðja voru.

81. Þá hann minntist
í munar grunni
ágæts hlýra síns,
Antilokkus,
þann er vegsæll
of vegit hafði
mögr mærrar
Morginskæru.

82. Minntist mildíngs son
á mög þenna,
ok hann þau orð
alls fyrst um kvað:
"Ávallt er áttu vèr
um þik ræða,

ϱ. IV, 180-203.

ítr Atreifs son,
ok á þik minntumst,
þik kvað öðlíngr,
aldinn Nestor,
vitrastan vera
af virðum öllum".

83. "Bið ek þik, buðlúngr,
bænar einnar,
veit mèr, vísir, þá,
ef þess verð þykir:
kannk-a ek kveinstöfum
at kvöldverði,
koma mun dagr
eptir kvöld þetta".

84. "Fjarri hefir
at ek firna nokkurn,
þótt dáinn hal
dapr gráti.
Þat eitt vegsmark veitist
þeim veslum mönnum,
at höldar hár skeri
ok harmtár felli".

85. "Minn er ok hlýri
til moldar geinginn,
Antilokkus,
sá er alls eigi var
öðrum óknárri
Argverja lýð.
Muntu betr mèr
mög þann kenna".

86. "Sjálfr nè sák-a,
nè ek sjálfr hitta'k.
Hann kveða virðar
verit hafa
vera vakrastan
í víghlaupum
ok orrustumann
einn hinn bezta".

87. Annsvar gaf orðum
öðlíngs sonar

bleikhárr Menelás,
ok mæla rèð:
88. "Mælt hefir þú,
mildíngs sonr,
þat er vitr maðr
mæla knætti,
ok vitr maðr
vinna mundi,
ok þótt öllu þèr
ellri væri".
89. "Fræg er ætt þín,
föður áttu spakan;
áttu til þess varit,
attú vitr orð mælir".
90. "Mjök er auðkennt
afkvæmi manns,
þeim er himins guð
hamíngju skóp
fyrst at upphafi
á fæðíngar stund,
ok blessaði brúðfáng
á brúðkaups degi".
91. "Tvennt hefir Nestori
njóta gefit
allan aldr sinn
uppheims drottinn:
sæla elli
í sjálfs húsi,
vitra sonu
ok hina vopnfimustu".
92. "Hættum nú gráti,
gumnar allir;
látum af harmi
og hugar trega!
Mál er, málsverðar
minnast af nýju.
Vatni of helli
á hendr mönnum!"
93. "En tal með okkr
Telemakkus
morguns bíða skal
ok at morgni hefjast.
Þá skulum senna
saman báðir
ok málum miðla
meðal okkar".
94. Innti svo öðlíngr,
en Asfalíon
vatni of hellti
á hendr mönnum;
sá var þeingils
þjónustusveinn
oflèttr, Meneláss
hins meginfræga.
95. Beini var til reiðu,
á borð fram settr,
en menn mærir
til matar tóku.

---

96. Hafði þá Helena
hróðrbarn Seifs,
raunvitrlegt
ráð með höndum:
varp hún í vín,
þat er verar drukku,
urt ángrbót,
ógeðsfróa,
óminnisurt
allra meina.
97. Hverr er af grasi því
of gat at drekka,
ef því varpat var
vínferil í,
lèt-a sá hagl harma
halr dagleingis
stökkva af kinnum,
þó stopalt geingi;
98. Þótt móðir hans
til moldar hnigi,

eða faðir hans
færi helvega,
nè þótt sjálfr fyrir sèr
sjónum leiddi
vopnum veginn
vin eða bróður.
99. Slík kostgrös
of knátti geyma
dýr döglíngs brúðr,
dóttir Seifs;
en hin egipzka
eiginkona þóns,
dýr Polýdamna,
gaf drottníngu þau.
100. Því lyfjagrös flest
á landi þvísa
lætr alfrjó jörð
upp um spretta,
mörg góð grös
til gætibóta,
mörg meingrös
at manna bölvi.
101. Kunnu þar öllum
öðrum betr
læknis list
lofðar allir,
alls þar allir eigu
ættir sínar
halir prúðir
til Peons rekja.
102. Lèt lyfjum þeim
í lög varpat
skír brúðr skata,
ok skeinkja bað.
Ok mann sinn
máls of kvaddi
ítr öðlíngs kvon
enn af nýju:
103. "Kveð ek þik, Menelás,
mildíngr dýrr,

ϱ. IV, 224-244.

afspríngr Atreifs,
óskmögr Seifs!
Kveð ek hali þá,
er hèr eru,
manna göfugra
göfga sonu"!
104. "Úthlutar Seifr,
upphimins guð,
ymsum ýmist
alda börnum:
gefr hann gott sumum
(því hann getr allt),
en öðrum böl býr
bragna kindum".
105. "Siti nú seggir
í sal kátir,
verðar neytið
ok veizlu njótið!
Gamnit yðr
með gamanræðum!
Segja vil ek sögu
sennilega".
106. "Öll má ek eigi
upp of telja,
nè öllum frá skýra
framaverkum,
þeim er inna rèð
Odysseifr,
maðr meginþróttigr,
því hann mörg of vann".
107. "Eitt mun ek mark
af mörgum inna,
þat er þróttöfligr maðr
þreytti ok vann
Trójulandi í,
þar er tryggir of reyndut,
megir Akkverja,
mannrauna fjöld".
108. "Sjálfr sjálfan sik
siklíngr þá

ljótum limlesti
lemstrar sárum,
varp of herðar sèr
vondum tötrum,
leiðum önnúngi
líkr gerðist".
109. "Stumraði svo stillir
á stræti inn
háreistrar borgar
vorra heiptmaga.
Duldist döglíngr
ok drengi öðrum
glíkan sik gerði
gramr, en var".
110. "Var nú fylkir líkr
förumanni.
Eingum var öðlíngr
ólíkari
þá er bláskrúði böðvar
brynjaðr stóð
hnárr hjá akkneskum
hlunna mörum".
111. "Svo var í hátt
hollvinr lofða,
er hann torg um tróð
Trójumanna.
Voru grómlausir
gumnar allir;
ein bar ek kennsl á
ógndjarfan gram".
112. "Ein bar ek kennsl
á ógndjarfan gram,
þótt látum ok líkjum
leyndi sínum.
Margs tók ek frètta
mæríng horskan,
en hann undan veikst
með orðvèlum".
113. "Þá nam ek lauga
lýða þeingil,

ϱ. IV, 245-262.

þá nam ek hann smyrja
smjörvi viðar;
ok ek í flíkr hann
færða'k aptr,
ok eið allstyrkan
öðlíngi vann":
114. "At eigi tjá skylda'k
Trójumönnum,
at ek þar Odysseif
orðit hefða'k,
fyrr en til skriðskjótra
skipa væri
ok herbúða aptr
hilmir um kominn.
Þá fyrst lèt öðlíngr
uppi við mik
umráð öll Akkverja
ok ætlan gjörsta".
115. "Lèt þar af lífi
lofðúngr tekit
Trójumenn marga
mækis eggjum,
ok við þat aptr
til Argverja komst;
hafði gram orðit
gott til njósnar".
116. "Þá voru tvistar
Trójukonur,
hjúfruðu sáran,
hátt kveinuðu;
en hjarta mitt
heldr kættist,
því mèr landmunir
leika tóku".
117. "Hneigðist mèr hugr
til heimfarar,
aptr tók mik lánga
í átthaga mína;
illt varð mèr við ólán þat,
er mik Afrodíta

hafði brögðum beitt
bölvafullum,
þá er hún teygði mik
til Trójuborgar
ættjörðu minni
ástkærri frá".
118. "Eptir lèt ek heima
horska dóttur,
drottníngar sal
ok dýrstan ver,
þann er eingra var
eptirbátr
fyrir vænleiks sakir
nè vitsmuna".

---

119. Annsaði bleikhárr
beðju sinni
Menelás mildíngr,
ok mæla rèð:
"Hefir þú sagða
sögu þessa,
sem eru til efni,
ástkær kona".
120. "Margs hefi'k freistað
ok farit víða,
hefi'k móðugr
á mart land komit;
reynt hefi'k ráðsnild
rekka margra,
ok hugi kannat
hreystimanna".
121. "Hefi'k þó aldrei enn
augum litið
slíkan at afreki
ágætismann,
sem var at hreysti
ok hugar prýði
Odysseifr
hinn ítrsnjalli".
ϱ. IV, 262-281.

122. "Eitt má til marks
af mörgu segja,
þat er dáðsæll jöfurr
drýgja náði:
þá er vèr í hesti
hátimbruðum
allir inni sátum
enir ágæztu
kappar argverskir,
kapps of lystum
búnir Tróverjum
tjón at veita".
123. "Þá bar þik þar at,
en þángat hefir
eflaust einhverr þèr
auðnu-guð stefnt,
sá er týhraustum
Trójumönnum
hefir veita viljat
veg með sigri".
124. "Þar var í för með þèr
þeingils niðr,
díum áþekkr
Deífobus.
Gekkstu þrisvar þá
um þelli-málfeta,
ok höndum hvervetna
fórst um hola vèl".
125. "Hagaðir þú hljóðum,
sem þèr hent þótti,
gerðist þú hæfileg
hermikráka,
stilltir vel röddu
ok stæltir eptir
allra Argverja
eiginkonum,
nefndir með nafni
ena nýtustu
dreingi Danáa,
ok djarft kallaðir".

126. "Sátum vit mitt
á meðal þeirra,
ek ok týhraustr
Týdeifs arfi
ok Odysseifr
hinn ítrsnjalli,
ok heyrðum, hversu þú
hátt kallaðir".

127. "Voru vit tveir þá
á tveim áttum,
ok fram á flugstig
fremsta komnir,
annathvort óðum
út at stökkva,
eðr ákalli þínu
annsvar gefa,
ef ákafa okkrum
Odysseifr
aptr haldit
ok aptrað hefði-t".

128. "Höfðu nú allir
hljótt um sik
Akkverjar aðrir,
ok á sèr bærðu-t;
en Antiklus einn
fèkk sik ekki stillt,
vildi orðum yppa
ok annsvar veita".

129. "En Odysseifr
öflgum höndum
fèkk um munn honum
ok fast of kreisti,
ok tökum einart
aflramr hèlt,
uns þik blíð Aþena
burtu leiddi.
Svo öllum Odysseifr
Akkverjum barg".

130. Talaði hinn horski
Telemakkus,
ok orð um fann
við jöfurs máli:
"Horskr Menelás,
herja stýrir,
Atreifs arfþegi,
óskmögr Seifs!"

131. "Gat-a þó hugrekki
nè hjartaprýði
döprum dauða frá
dýran frelsat;
nè frelsa mundi,
þótt feingit hefði
hugar korn hvast
af hörðu járni
sèr í brjóst lagit;
sárt er þat at vita".

132. "Heyrit nú, horsk tvö!
í hvílu búna
látið oss leiða
lángferðamenn:
at sætum sigraðir
svefni mættim
ángri af hyggja
ok unaðs njóta".

133. Kvað þat siklíngs son,
en salkonur bað
dýr Helena,
drottníng Argverja,
legubekk setja
í svölum frammi,
ok purpuradúkum
dýrum búa,
ok ábreizl þar
yfir breiða,
ok loðkápur leggja
á legurúmi.

134. Síðan salkonur
út af sal geingu,
blys brennanda
báru í höndum,

sæng upp bjuggu,
en báða gesti
þjónustu sveinn
út af sal leiddi.
135. Ok þar til hvíldar
hvorrtveggi gekk
í framhúsi
fagrar hallar:
Telemakkus
hinn tírargjarni
ok Nestors
niði frægr.
136. En Atreifs son
innsta hvíldi
hárrar hallar
herbergi í.
Gekk siklíngs rúna,
síðmöttluð Helena,
bragr kvenna,
á beð með honum.

---

137. En er árrisul
rósinfíngra
birtist mönnum
Morgunskæra:
þá reis úr rekkju
ok í ript of fór
ræsir Menelás
hinn rómsterki.
138. Lagði um öxl sèr
laufa bitran,
ok fagra sóla
und fætr batt;
úr svefnsal
síðan skyndi,
glíkr ásýnis
guða nokkrum.
139. Tók tiggi sess
hjá Telemakkus,
ok mildíngs son
máls of kvaddi:
"Hver hefir nauðsyn þik
knúðan, niflúngs son,
Telemakkus
hinn tírargjarni,
til lofsællar
Lakedemonar
yfir lagar geim
leið at kanna?
Hefir þú alþjóðlegt
(inn mèr gjörla)
eðr eigit erindi
upp at bera?"
140. Talaði hinn horski
Telemakkus,
ok orðum jöfurs
annsvör greiddi:
"Horskr Menelás,
herja stillir,
Atreifs arfþegi,
óskmögr Seifs!"
141. "Kom ek, konúngr,
ef þú kynnir mèr
færa fregn nokkra
af föður mínum.
Upp er hús etið
ok eigur mínar,
farin sáðlönd
ok frjóvir akrar".
142. "Full er höll mín,
full herbergi
illfúsra manna
ok óvinhollra,
er búfè mitt
ok bjúghyrnd naut
drjúgum drepa
með degi hverjum;
þeir eru minnar
móður biðlar

ρ. IV, 301-321.

illsku fullir
ok ofstopa".

143. "Kem ek því nú
at knjám þínum,
bljúgr biðjandi,
buðlúngr, híngat:
at þú, hilmir, mèr
herma vilir
hörmulegum
hans dauða frá".

144. "Ef þú með eigin
einhverstaðar
hefir sjónum sèð
á siklíngs dauða;
eða fregn of feingit
um fylkis lát
af manni nokkrum
marlíðenda.
Hefir hans móðir
hann um alit
öðrum vesælla
jarðarbyggjum".

145. "Mýk ei harmsögu
af hlífð við mik,
nè af meðaumkun
máli halla;
heldr seg sögu
svo fram gjörla,
sem þèr sjálfum hefir
fyrir sjónir borit".

146. "Bið ek, þeingill, þik,
ef þèr minn faðir,
Odysseifr
hinn ítrsnjalli,
hefir nokkut þèr
nokkru sinni
játt ok efnt
orðs eða verks;
þá er þèr týmart
í Trójulandi

ϱ. IV, 321-311.

urðut, Akkverjar,
ángr bera;
þá lát mik þess nú
frá þèr njóta,
ok mèr sögu seg,
sem sannast veizt".

147. Gramt varð í skapi
skata ríkum,
bleikhárum Menelási
ok við buðlúngs son kvað:

148. "Undrumst ek, at ýtar
eljanlausir
ok hugum hnuggnir
skuli hafa viljat
bæla sik í bóli
böðvarstyrks manns,
þess er hug harðan
hefir í brjósti".

149. "Svo hjartkolla,
áðr í haga rásar,
kálfa nýgotna
niðr bælir
meginþykkum í
myrkviðar runni,
þars dýr it óarga
á sèr fylgsni".

150. "En meðan hún
hálsa kannar
ok lauki grónar
lautir fjalla,
hleypr hrammsterkr
í hreysi sitt,
ok geldr gotúngum
grimmlegt víti".

151. "Svo mun þeim biðlum
bráðskeytlega
aldrtjóns orka
Odysseifr".

152. "Gefi þat Seifr,
gumna faðir,

augnskær Aþena
ok Apollon,
at hann orðinn væri,
sem hann áðr var,
þá er í Lesbey
leik nam heyja".

153. "Gekk þar konúngr
í kappsglímu
við Fílómelídes
firna ramman,
ok jöfri sterklega
jarðvarpaði.
Urðu þá Akkverjar
allir fegnir".

154. "Ef Odysseifr,
orðinn, sem þá,
birtist með biðlum,
brátt mundu þeir
feigum fótum
foldu sporna
ok brúðfarar
beiskar geta".

155. "En um spjöll þau
er þú spyrja vannst,
ok úrlausnar um
af mèr beiddist,
munk-a ek vafníngum veifa
nè víðáttu svörum,
nè þik hègóma-
hjali gabba".

156. "Segja skal ek allt,
er mèr sannspár þuldi
unnardjúps-álfr
aldri vorpinn;
skal ek eingu þar af
orði leyna,
ok orð þar af
ekki dylja".

157. "Lá ek enn stríðum
stormum heptr
út við ármynni
Egipta fljóts.
Heim lysti mik
leið at kanna,
en förum hömluðu
harðir tívar".

158. "Sú var sök til þess,
er sælir guðir
lömðu ferð mína
ok farar tálmuðu:
at ek fróðum tívum
fórnarblóta
vammalausra
of varnat hafða'k".

159. "Liggr eyland eitt
unnum þvegit
út á brimsollnu
belti jarðar,
undan fram þar,
er fellr at vogi
(kalla Farey fírar)
fljót Egipta".

160. "Svo liggr lángt
undan landi þat,
sem frátt dælu dýr
á degi hleypr,
þegar á skutraung
skríðanda fleys
hvass byrvindr
blæs í voðir".

161. "Hèr er lægi ljúft
lagar dýrum,
ok hagfellt hèðan
í haf at leggja:
þá er altært vatn
ausit hafa
marblakks ýtendr
at munum sínum".

---

ϱ. IV, 341-359.

162. "Hèr hèldu mèr,
á hólma þessum,
daga tuttugu
tívar ríkir,
svo at sást aldreigi
yfir sæ líða
byrir blásandi,
þeir er brimdýrum
of flatvöll fleyja
farir greiða".

163. "Mundi vista vant
vorðit hafa,
ok þróttr þegna
at þrotum geingit,
ef mik ein hefði-t
álheims gyðja
aumkat, ok lífi
líknat mínu".

164. "Sú hèt unnar dís
Ídóþea,
dóttir Próteifs
hins dáðumrakka;
því at henni höfðu helzt
harmar vorir
runnit til rifja
ok raunir harðar".

165. "Hitta ek eitt sinn
horska gyðju,
ok hug hennar
hrærða í brjósti:
þá ek einn um ey
öðrum fjarri
reikaði ráðlauss
rekkum mínum".

166. "Hvarflat höfðu þá
í hríng um ey
fèlagar mínir,
ok fiska veiddu;
keipuðu bognir
bjúgum aunglum
(svarf sultr at)
í sjávardjúpi".

167. "Þá kom góð gyðja
ok gekk til mín,
ok orðum þeim
á mik varp:"

168. "Er þèr óvizka
ein at meini,
halr inn ókunni,
ok hyggjuleysi?
Eða vafir þú at vilja
verknaðarlauss,
ok gerir gaman þèr
af grætum þínum?"

169. "Alls þú á ey hèr
athafnarlauss
drýgir lángdvalar
dögum öllum;
verðr þèr ekki
at úrræðum,
en fellst fèlögum
fjör ok hjarta".

170. "Gettist þess gyðja,
en ek gegnda henni,
ok hana orðum þeim
aptr kvadda'k:"

171. "Heyr þú, holl vættr,
hver sem þú ert.
Satt skal ek segja
of sakar mínar.
Er-a þat vorðit
at vilja mínum,
at ek hèr dapr dvelst
dvölum laungum".

172. "Ætlan mín er,
at ek afgert hafa
ódauðlega við
uppheims guði.
Veit mèr úrlausn
þess mik vita lystir,

ρ. IV, 360-379.

því guðir alls skyn
gjörla kunna".
173. "Hverr hefir goða
hept mèr farar,
ok fjötur um lagðan
á fætr mína?
Hversu má mèr
yfir mar víðan
aptr heimkomu
auðit verða?"
174. "Vann ek orð þat innt,
en mik aptr þeim
gyðja ódauðleg
orðum kvaddi:
Grein skal ek gera,
gestr, á því,
ok sjálfum þèr
sannleik inna".
175. "Sveimar hèr sannspár
í sjávar djúpi
undirdjúps-álfr,
aldri vorpinn;
álfr egipzkr,
ódauðlegr;
en hann prúðir menn
Próteif kalla".
176. "Sá sèrhvers
sjávar kennir
ála alla
ok undirdjúp,
þjónn lagar lávarðs;
en lofðar kveða
fróðir föður þeim
vera fædda mik".
177. "Set þú fyrirsát
sjávar álfi,
ger hann handtekinn
á hverja lund:
at hann inni þèr
alla för þína,
ok uppi leiðarleingd
láti gjörsta,
ok hversu megi þèr
of mar víðan
aptr heimkomu
auðit verða".
178. "Ok enn inni þèr,
óskmögr Seifs,
ef þú vita villt
vissu þína,
allt hvat gerzt hefir,
bæði gott ok illt,
í fjarvist þinni
á för lángri
ok háskasamlegri,
at heima þínu".
179. "Gettist þess gyðja,
en ek gegnda henni,
ok hana aptr
orðum kvadda'k:"
180. "Seg nú sjálf þú,
hversu setja skal
fyrirsát öldúngi
ódauðlegum,
síðr hann mik fyrir sjái,
nè hann mik fyrir viti,
ok gángi hann mèr svo úr greipum.
Er-a dælt
fyrir dauðlegan mann
guð ódauðlegan
at yfirstíga".
181. "Vann ek orð þat innt,
en mèr aptr þeim
gyðja ódauðleg
orðum kvaddi:
Grein skal ek, gestr,
gera á því,
ok sjálfum þèr allan
sannleik inna".

ϱ. IV, 379-399.

182. "Gáng hvern er geingr
glófögr mær
of himins miðmunda
Mundilföra,
þá úr sæ sannspár
of svífr upp
undirdjúps-álfr
aldri vorpinn".

183. "Ok svalbrjóstaðr
svífa lætr
undan útnyrðíngs
anda köldum,
ok at landi líðr
und lagar brún,
hulinn dimmsvörtu
drafnar gráði".

184. "Stiginn í land
lagar álfr
und holan leggst
hamarskúta.
Sofa hann sundfimir
selar umhverfis
hundmargir hamfagrar
Halósydnu,
á grund upp geingnir
af gráum sæ
daunraman deynandi
djúpsævar þef".

185. "Á morgun, er ljómar
ljós dagsbrúnar,
skal ek þángat þik
þegar leiða,
ok ból þèr búa
með beimum þínum;
því þrjá skaltu með þèr
þegna velja,
þá er hraustasta hefir
hjá hlunnmörum".

186. "Nú munk minna þik
á meinbrögð öll
undirdjúps-álfs
aldri vorpins:
hann mun fyrst telja
fjarðar kálfa,
ok gegnum gánga
þann grúa allan".

187. "En er hann á alla
hefir orpit tölu
ok sem bezt skoðat
brimla meingi:
þá mun hann mitt
á meðal þeirra
sem hirðir leggjast
í hjarðar flokki".

188. "Nú jafnskjótt ok þèr
aldinn sjáit
brimleiðar bólm
á ból um lagztan,
þá sè yðr annt
orku at neyta,
ofreflis alls
ok allra krapta".

189. "Þèr skulut hafdjúps Hrym
halda föstum,
hvegi sem hamast
ok hyggst at sleppa;
því ýmissa bragða
mun hann í leita,
at úr læðíng yðrum
leysast megi".

190. "Öll mun hann kvikinda
kanna líki,
þeirra er fótum feta
ok um fold skríða,
hvoptvíðs hrótgarms
hátt gínanda,
ok vatns veltanda
of váng jarðar".

191. "Þèr skulut af afli
átök knýja

ok höldnum hapt
hvergi vægja;
heyit heldr leik
hóti snarpara,
látið aflsmunar
ótæpt kenna".

192. "En er mars álfr
mæla tekr,
ok á þik orði
ort um lætr,
ok þú sèr hann
í sama líki,
sem þú leizt hann í,
er hann lagðist fyrst".

193. "Þá skulu nauðatök
niðri liggja,
þá skal aflraunum,
öðlíngr, lokit;
þá skaltu leysa
læðíngi úr
undirdjúps álf
aldri vorpinn".

194. "Þá skaltu spáleiks álf
spakan frètta,
hverr þèr reiðr of sè
ríkra tíva,
ok hversu megi þèr
of mar víðan
aptr heimkomu
auðit verða".

195. "Sagði þat gyðja,
ok í svip einum
niðr sökkti sèr
í sjávar bylgju.
En ek leið lagða,
at loknu tali,
flæðar fáka til,
er í fjöru stóðu.
Gjörðist gnegg mèr
á gaungu þeirri
iðanda, órótt,
ýmiss-hugsa".

196. "En er ek kom
at kjalar dýrum
út við úrsvala
ægis ströndu,
til aptansverðar
vèr efnuðum skjótt,
ok at kvöldverði
kátir sátum".

197. "Drógst þá heilög nótt
á himin upp,
góð guðs gjöf,
yfir gumna sveitir;
hnè þá til hvíldar
hölda lið,
þar er lagar lá
lèk við steina".

198. "En er árrisul
rósinfíngra
birtist mönnum
Morginskæra,
þá fór ek fram
at flæðar bakka,
þar er unnir blár
eybarm þógu".

199. "Fór ek þángat
með fèlaga þrjá,
er til áræðis
alls bezt treysta'k;
ok þá alla ek
uppheims guði
bljúgr biðja tók,
ok beygða knè".

200. "Kom þá marþöll
upp úr marar skauti,
ítr unnardís,
Ídóþea;
flutti nýflegnar
fjórar utan

ϱ. IV, 419-436.

af söltum sæ
sela húðir;
spann hún fláræði
föður sínum".

201. "Lèt látr oss
lægis gyðja
grafit greiðlega
á gjálfr-ströndu,
sat svo sjálf ok beið,
en vèr sveitúngar fórum
fjórir fljótlega
á fund gyðju".

202. "Lèt þá lagar dís
í látr oss
hverjum annars
við hlið komit;
ok yfir hvern vorn
hún lèt varpat
selshúð seggja
í sellátri".

203. "Sú var oss sveitúngum
seta hin versta,
nè ek argari
aðra vissa'k;
því oss ángraði
óhollastr
þefr sárt sela
sæborinna".

204. "Hverr mundi mennskra
manna geta
sofit hjá skepnu,
er í sæ lifir?
En göfug gyðja
oss gjörva barg,
ok hit hollasta
hjálpráð veitti".

205. "Hún ódáinslyf
oss um færði,
ok hverjum vorum
fyrir vit of lèt;

þau gáfu ángan
ilmsætasta,
ok sævardýrs daun
drápu niðr".

206. "Þreyðum þolgóðir
þann morgun allan.
Komu selar úr sæ
sveitum stórum,
lögðust í látr
við lágarða,
hverr við hlið annars,
hafs á ströndu".

207. "Þá kom úr mar
at miðjum degi
undirdjúps-álfr
aldri vorpinn;
fann hann fullfeita
í fjöru sela,
ok fjarðar hjörð
fullkannaði".

208. "Varp hann þá tölu
á vöðu-bræðr,
ok oss fyrsta taldi
í flokki þeirra;
grómlauss hann var,
ok grand ei uggði,
lagðist at loknu því
í leg sjálfr".

209. "Allir æpandi
upp þá stukkum,
ok á lagar Lopt
lögðum hendr.
En undirdjúps-álfr,
aldri vorpinn
fjölkynngi gleymdi-t
flærðartamri".

210. "Fyrst tók hann ljóns líki
loðinkinna,
þá varð hann at dreka
dreyra rauðum;

ϱ. IV, 436-457.

vandi hann sik flekkudýrs
feikna æði,
ok geysi-stórs galtar
grimmum látum;
varð hann eina stund
vatn fljótanda,
aðra stund at eik
allaufgaðri".
211. "En vèr af afli
átök knýðum
hvergi slökuðum
höldnum tökum;
bilaði-t hugr
í brjóstum vorum,
þoldum þrálega,
þeigi mæddumst".
212. "En er mæðast tók
hinn meinráðugi,
aldinn undirdjúps
álfr kunngi,
á mik orðum þeim
ort hann lèt,
ok leikleiðr
of lypti máli":
213. "Hverr hefir römm ráð
ríkra tíva,
Atreifs arfi,
á lagt með þèr,
at mèr fyrisát skyldir
fyrst of vinna,
ok mik viljalausan
á vald þitt fá?
Hvat er þèr á höndum?
Hvers er þèr vant?"
214. "Aldinn undirdjúps
álfr svo kvað,
en ek orð um fann
við öldúngs máli:
Aldinn álfr,
hví þú mik atspyrr slíks,
ok lætr í veðri vaka
sem vitir eigi?"
215. "Veiztu, at ek dapr hèr
dvelst til leingi
á ey þessi,
örþrifráða.
Þverrar mèr þróttr,
en þú mèr seg,
því guðir alls skyn
gjörla kunna:"
216. "Hverr hefir guða
hept mèr farar,
ok á fætr mína
fjötr um lagðan?
Hversu má mèr
of mar víðan
aptr heimkomu
auðit verða?"
217. "Vann ek orð þat innt,
en mèr aptr gegndi
undirdjúps álfr
aldri vorpinn:"
218. "Seifi áttir þú
ok öðrum guðum
fórnir færa,
áðr fórst af stað:
at þú hvatlega
yfir hafsgeim dimman
feingir fram komizt
til þíns föðurlands".
219. "Því fyrr á þèr eigi
auðit verða
ástvini þína
augum líta,
til húss heim komast
ok hugum þreyða
aptr feðra fold
fótum sporna":
220. "Fyrr en þú aptr
til Egipta fljóts,

ϱ. IV, 457-477.

himinrunnins
hauðrs dreyra,
fer, ok færir þar
fórnir helgar
ódauðlegum
uppheims goðum.
Þá munu þá för,
er þèr er í huga,
góð ginnregin
greidda láta".

221. "Aldinn undirdjúps
álfr svo kvað.
Þá varð hjarta mitt
harmi lostið,
er hann mèr aptr
til Egipta fljóts
bauð, of myrkva
marar vega,
lángar ok strángar
leiðir kanna".

222. "Eigi at síðr
ek aptr lèt
aldræns álfs
orðum svarat:
Þetta vil ek víst
til vegar færa,
þannig sem þú mèr
þat um býðr".

223. "En seg mèr hitt
ok með sannleik inn:
Hafa heim allir
með heilu komizt
skatnar akkverskir
á skútum sínum,
þeir er naddgöfugr
Nestor ok ek
skildumst við,
er skeljúngs lètum
traðir lið troða
frá Trójulandi"?

ϱ. IV, 477-497.

224. "Eða hafa nokkrum
helfarar veitt
sköp skelfilegar
á skipum sínum,
eða at háðum
hildar leiki
látið við skiljast
fyrir vina brjóstum"?

225. "Lèt ek orð þau innt,
en mèr aptr gegndi
undirdjúps álfr
aldri vorpinn:
Hví þú, óðgöfugr
Atreifs niði,
þeirra fregnar mik
fróðra spjalla?"

226. "Væri-a hollt þèr
hugþokka minn
ok vilja allan
at vita ok heyra.
Mun-a þèr, lofðúngr,
leingi vera
grátlaust í geði,
ef þú gjörva heyrir".

227. "Allmargir þeirra
andrán biðu,
allmörgum leingra
lífs varð auðit.
Ei vil ek um ræða,
þat er í orustu gerðist
ok á vígvelli:
vartu sjálfr þar".

228. "En á heimleið
herforíngjar
tveir einir týndust
tírargjarnir
Akkverjum af
eirbrynjuðum:
Ajant Eyleifsson
ok Agamemnon;

lífs er hinn þriði
þeingill nokkurr
heptr heimfarar
á hafi víðu".

229. "Varð Ajant
andar missa
ok skip hans öll
við sker brotna.
Fleytti Pósídon
prúðum jöfri
allra fyrst
upp at Gýrum
(heita hamrar svo,
hávir næsta)
ok af sæ sjóla
sjálfan frelsti".

230. "Ofsókti Aþena
öðlíng snjallan;
þó hefði hilmir
undan heli sloppit,
ef ei hefði hann
hrokafullum
stóryrðum hreytt,
ok stórum syndgazt".

231. "Kvaðst af sjálfs krapti
komizt hafa
yfir ægis geim
afar víðan,
at fornspurðum
fróðum tívum,
ok þeim öllum
at þakkarlausu".

232. "Þau heyrði stóryrði
stórvirkr Pósídon,
ok þreif þegar flein
þríángaðan
greipum ginnsterkum,
ok á Gýrhamar laust,
ok klett kvernharðan
klauf í sundr".

ϱ. IV, 498-516.

233. "Helmíngr hamars
þar hímdi eptir,
en hinn helmíngr
í haf steyptist,
þeims áðr á setið
Ajant hafði,
þá er hann guðlaus orð
gerði mæla".

234. "Færði feikna bjarg
feigan hilmi
niðr í ólgusjó
afarvíðan.
Þar svalg siklíngr
saltan ægi,
þar dó döglíngr
dauða slíkum".

235. "Barg háleit Hera
hlýra þínum,
ok heilum halp
hilmis flota;
ók öðlíngi
undan örlögdómi,
nè framlyndr fylkir
feigr mundi-t".

236. "En er skýrr skati
skammt eitt átti
at Malíufjalli
feikna hávu,
þá komu volegir
vinda bylir,
ok með sèr þjóðkonúng
þrifu snjallan".

237. "Keyrðu þeir konúng
á kólgu slóðir,
þar er fiskar
í fylgsnum sveima;
þá varp öðlíngr
öndu þúngan,
ok sorgfullr
sáran stundi".

238. "Uns öðlíng bar
at útskaga lands,
þars fyrr þýestes
þeingill bygði,
en í þat mund þar
þýestis son
fláráðr Egistus
fletjum stýrði".

239. "þá lètu ljúf regin
lofðúngi í hag
vinda hjóli velt
ok veðri snúit:
bar heimbyrr hægr
hilmis flota,
þángat sem öðlíngr
átti ríki".

240. "þá varð glaðr
gumna stýrir,
er hann föðurfold
fótum studdi;
fèll fram fylkir
á feðra grund
ok mjúka minntist við
móðurjörðu".

241. "þá varð fegit
fylkis hjarta,
er hann augum varp
yfir foldu:
þá leystust ljósar
lindir hvarma,
þá flutu fögr
fagnaðar tár".

242. "Sat njósnari nokkurr
á njósnar bergi;
þann hafði vitavörð
vèlafullr
Egistus sett,
setu at halda,
ok sjálfr segg upp leidt
á sjónargnípu".

ϱ. IV, 517-532.

243. "Kaup skaltu hafa
(kvað Egistus),
ok at launum taka
tvær vættir gulls. —
Var á verði
ok vöku hèlt
málmþíngs meiðr
misseri tvö".

244. "Nótt hann vakti
ok nýtan dag,
at ei óvörum
öðlíngr skyldi
til landa leggja,
því ljóst honum var,
at var fángs von
at frekum úlfi".

245. "Sá hann nú ofan
af sjónar hvoli,
at var lofðúngr
á land stiginn.
Hvatt gekk til hallar
hölda stýris,
honum at herma
hilmis komu".

246. "Var þá Egisti
vèlræði í hug,
brá við brögðum
beitti vèlum:
valdi í fyrisát
ena fræknustu
setrverjenda
seggi tuttugu".

247. "En á öðrum stað
Egistus bað
vísi nýkomnum
veizlu búa;
fór síðan sjálfr
siklíngi bjóða,
Agamemnoni,
alda stýri,

fákum fráum,
fljótum kerrum,
hafði í hyggju
harmbrögð mikil".
248. "Fylgði hann ítrum gram
upp til borgar,
alls óvörum
aldrtila,
vóg hann at veizlu,
svo sem verar láta
uxa af látinn
hjá etustalli".
249. "Fèllu þar fèlagar
fylkis allir,
þeir er ítrum fylgðu
Atreifs syni;
fèllu allir ok
Egistus menn,
niðr höggnir
í hallar sölum".
250. "Aldinn undirdjúps
álfr svo kvað.
Þá varð hjarta mitt
harmi lostið.
Sat ek á sandi
ok sáran grèt.
Vildak-a, döglíngs son,
degi leingr
líta ljós sólar,
nè lífi una".
251. "En er ek grátið hafða'k,
sem ek gjarnast vilda'k,
ok ek velzt hafða'k,
sem mèr vænst þótti,
þá mèr spáspakr
spjöll þau sagði
undirdjúps álfr
aldri vorpinn:"
252. "Grát-attu, Atreifsson,
aldr gjörstan,
þrátt ok þrálega
þrúngin dægr!
Eigi hnuggins hag
harmr bætir,
nè grátins guma
geingi þróast".
253. "Freista sem fyrst,
at fáir komizt
á ættjarðar þinnar
aðalstöðvar.
Verðr þá uppi
eitt af tvennu,
at þú á lífi
Egist hittir":
254. "Eða Órestes hefir
orðit hóti
fyrri at bragði
ok honum bana veitt;
ok megir þú svo
á móðurjörðu
bróðurbana þíns
bálför sækja".
255. "Aldinn undirdjúps
álfr svo kvað.
Hýrnaði mèr þá,
þótt harmþrúnginn væra'k,
hjarta í brjósti
ok hugr it sama;
ok ek unnar álf
orðum kvadda'k":
256. "Þessa ek þekki,
en þú mèr nefn
þeingil hinn þriðja
er þú um ræddir,
at enn sè á lífi
einhverstaðar
heptr heimfarar
á hafi víðu".
257. "Lèt ek orð þau innt,
en mèr aptr gegndi

ϱ. IV, 533-554.

undirdjúps álfr
aldri vorpinn:
Sá er lofðúngr
Laertes son,
ok á Íþaksey
óðul byggir".
258. "Þeim sá ek öðlíngi
á ey nokkurri
fögr flóð tára
til foldar hníga,
þar er Kalypsó
kostulegum,
vegleg vættr
veum of ræðr;
sú heldr hilmi
hjá sèr nauðgum".
259. "Kná-at konúngr
komast aptr
ættjarðar sinnar
ok óðala til:
er honum skipa vant,
er skríða kunni,
ok fèlaga vant,
er hann flytja knegi
yfir ægis flöt
afar-víðan".
260. "En þèr ei sköp skópu,
skatna vinr,
ítr Menelás,
óskmögr Seifs,
andlát bíða
ok æfi ljúka
á enu hagfaldna
hauðri Argverja".
261. "Þik munu góðir
guðir flytja
at jarðar yztu
endimörkum,
til Ódáins-akrs,
þars unir lífi
rekkr ráðsvinnr
Radamantus".
262. "Þar lifa lífi
lofða kindir
unaðsfullu
alla daga.
Hvorki snjór þar,
nè snarpr vetr,
nè kaldar koma
krapa skúrir".
263. "Sendir þar heims haf,
þat er hverfr um jörð,
frá sèr snúðgan blæ
snjallt þjótanda;
andar útræna
í álfum þeim,
svalar æ ok æ
ýta kindum".
264. "Hèr skaltu, öðlíngr,
æfi njóta,
ok aldri una
alla daga,
af því þèr Helena
hvílir á armi,
ok þú dótturmaðr ert
ens dýrsta Seifs".
265. "Svo kvað sæálfr,
ok í svip einum
niðr sökkti sèr
í sjávar bylgju.
En vèr örkuðum
at svo gjörvu
fèlagar fjórir
at flæðar mörum.
Gjörðist gnegg mitt
á gaungu þeirri
iðanda, órótt,
ótalhugsa".
266. "Ok er komum vèr
at kjalar dýrum

ϱ. IV, 554-573.

út við úrsvala
ægis ströndu:
efnuðum vèr skjótt
til aptans verðar,
ok kveldverðar
kátir neyttum".

267. "Drógst þá heilög nótt
á himin upp,
góð guðs gjöf,
yfir gumna sveitir.
Ok vèr hvatt þá
til hvíldar geingum,
þar er lágar lá
lèk við steina".

268. "En er árrisul
rósinfíngra
birtist mönnum
Morginskæra,
settum vèr á sjó
sunda mari,
lögðum segl upp í
ok siglutrè".

269. "Stigu þá seggir
á streingja jó,
ok þrekramir
á þóptur settust;
sat hverr þeirra
í sínu rúmi,
ok unnir blár
árum kníðu".

270. "Hèlt ek svo aptr
til Egipta fljóts,
himinrunnins
hauðrs dreyra,
stagstjórnmörum,
ok stofna rèð
fórnir fullkomnar
fróðum tívum".

271. "En er mýkt hafða'k
mikla reiði

ϱ. IV, 573-594.

ódauðlegra
uppheims goða:
Agamemnoni,
at ávallt skyldi
minníng haldast hans,
haug ek varp".

272. "Hèlt ek heim á leið
heimkynna til,
sendu mèr blíð bönd
byrvind góðan,
ok för fljótlega
til föðurlands
greiddu guðir mèr
gæzkuríkir".

273. "En heyr þú, hjá mèr dvel
í húsum mínum
til dags hins ellepta
ok dags hins tólpta.
Þá mun ek fá þèr
fararleyfi
ok gjöfum þik
góðum sæma".

274. "Skal ek fáka þrjá
ok fagra kerru,
ok borðker gefa
glæsilegt þèr:
at jafnan minnist mín,
mildíngs arfi,
er þú dreypiförn dreypir
dýrum goðum".

---

275. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok honum aptr
annsvör greiddi:
"Dvel mik ei, lofðúngr,
lánga tíma,
Atreifs arfi,
at inni þínu".

276. "Leiðast mundi-t mèr,
þótt misseri tvö
með þèr, döglíngr,
dvelja skylda'k,
nè sala sakna,
siklíngr, minna,
nè móður in heldr,
eða míns föðurs".

277. "Slíka mèr orð þín
unun veita;
svo hefi'k gaman
af sögum þínum.
En liðum mínum
leiðast tekr,
þeim er í Pýlusborg
prúðri bíða.
Ok þó vill mèr hilmir hèr
halda leingi".

278. "Góð ok geðþekk
skal mèr gjöf hver vera,
er þú, öðlíngr,
villt unna mèr;
dýr skal mèr gjöf sú,
er þú gefr mèr,
ok menjagripr vera
í minníng þína".

279. En jóa munk-a,
er mèr, jöfurr, bauðst,
út í Íþaksey
of unnir flytja.
Þá vil ek lofðúngi
láta sjálfum
ágætis til
ok unaðsbótar".

280. "Því at, þeingill, þú
í þvísa landi
víðum of ræðr
ok völlum slèttum;
þær 'ru grónar
grundir fagrar

ϱ. IV, 595-612.

fáka forgóðu
fóðrgresi".

281. "Þar gnótt grasa
grær á völlum,
stór ilmstör
ok steinsmæra;
vex einkorn þar
ymsum stöðum,
hveiti ok blaðbygg
bleikt á vángi".

282. "En á Íþaksey
eru hvorki
víðir skeiðvellir,
nè vaxin eingi;
þar er geitkropp gott
í gnúpum uppi,
en heldr til hálent
hestum at gánga".

283. "Því eingar 'ru eyjar,
þær er í unnum liggja,
hestreiðum hentar,
nè hrossa beit;
er þó Íþaksey
öllum fremri
eyjum öðrum
ok ágætari".

284. Ræddi þat ræsis son,
en hinn rómsterki
brá við brosu
buðlúngr Menelás;
hendi klappaði
hilmis arfa,
upp hóf erindi
ok orð um kvað:

285. "Lýsa því orð þín,
ástkærr sonr,
at ertu ágætu
eðli borinn.
Því skal ek á þessu
at þínum munum

umskipti inna;
emk um kominn þess".
286. "Gjöf þá, grams son,
skal ek gefa þèr,
er fegrst ok fjöldýrst
fundin verðr
gjafa þeirra,
er geymdar liggja
mínum sölum í,
sem menjagripir".
287. "Skal ek þèr, skilfíngs son,
skaptker gefa,
allt ítrvandat
ok alsilfrat,
en barmar þess
búnir gulli;
þat er hagvirki
af Hefasti gert".
288. "Þann mèr grip gaf
göfugr kappi,
Fedímus, siklíngr
Sídonsmanna,
þá er ek hilmi gista'k
á heimferð minni.
Þann vil ek grip gefa,
grams sonr, þèr".
289. Þannig ræddust við
þeir ræsis sonr
ok horskr harri
í hilmis sölum.
Geingu þá veglegir
veizlugestir
dýrlegs döglíngs í
dýrar hallir.
290. Sauðfè með sèr
sjálfir höfðu
verar veglegir
ok vínfaung báru;
en brúðir bragna
brauð of sendu

ρ. IV, 612-633.

fagrfaldaðar
fírum heiman.
Efnuðu svo ítrir
til aptansverðar
grams gæðíngar
í gylva sölum.

---

291. Stórráðir biðlar
urpu steinkrínglum,
sköptum skutu,
ok skemtu sèr
steingólfi á
fyrir stofudyrum
öðlíngs Odysseifs,
þar er áðr fyrri
firniverka fjöld
framit höfðu.
292. Hèr sátu höfuðsmenn
horskra biðla,
Antínóus
ok hinn ítrfagri
Evrýmakkus,
þeir er öðrum biðlum
at frama ok frækleik
fremri voru.
293. Þar framlyndr
á fund þeirra gekk
fullspakr Nóemon,
borinn Froníusi;
varp hann orði á
Antínóus,
ok hann frètta gerði
fróðra spjalla:
294. "Vitu vèr víst,
eða vitum eigi,
Antínóus, þess
onir nokkrar,
hve nær Telemakkus
hinn tírargjarni

frá Pýlusborg aptr
muni út koma?"
295. "Hann á fari fór,
er hann fèkk hjá mèr,
en mèr þess nú
þarfar gerast.
Vilda ek of unnir
til Elealands
(þar geingr stóð mitt)
stefna flausti".
296. "Á ek tólf þar
traustar hryssur;
undir merrum þeim
gánga múlfolar,
þolnir, óþjáðir;
þeirra nokkurn
heim vilda'k taka
til tamníngar".
297. Hnykkti við horskum,
er þeir heyrðu slíkt.
Kom þeim sízt í hug,
at kóngsson mundi
til borgar Pýlverja
sèr brugðit hafa.
Hitt þeir hugðu,
at hann hefðist við
á útbúi sínu
einu hverju,
at salverði svína
eða sauða hirði.
298. Þá kvað þat Antínóus
Evpíþesson:
"Seg mèr satt frá,
nè þú svik mælir:
hve nær hóf hann ferð
hèðan úr landi?
Hverir fylgja honum
horskir sveinar?"
299. "Er þat einvalalið
af eyjarmönnum?

ϱ. IV, 633-656.

eða karlar þeir,
er hann á kosti sjálfr,
heimaþrælar hans
ok húsmenn leigðir?"
300. "Grein mèr ok glöggt,
at ek gjörla vita:
Tók hann frá þèr fley,
at þèr fornspurðum?
eða lèðir þú lostigr,
er hann láns beiddi?"
301. Aptr annsvör þau
ítrum greiddi
frægr Nóemon
Froníusson:
"Lostigr lèða'k,
því lángar þrár
mæddu mann þann.
Hve mátta'k annat?
Mundi svo maðr hverr
manni slíkum.
Heldr hart væri
honum fars synja".
302. "Þeir fylgja dreingir
döglíngs syni,
er hèr með oss
eru hraustastir.
Var Mentor formaðr
farar þeirrar.
Hann sá ek stíga
á streingja mar,
nema goða
nokkurr hafi
iðglíki Mentors
á sik tekit".
303. "Hitt ek undrumst,
at ek hèr á gángi
göfgan Mentor
í gærmorgun sák;
en sák hann þá
á þramdýr stíga,

búinn brautfarar
til borgar Pýlverja".
304. Gat þess Nóemon,
ok gekk á braut,
ok heim hvarf
til húsa föðurs.
Heldr brá í brún
biðlum tveim,
Antínóus
ok Evrýmakkus.
305. Settust biðlar þá
á samkomu,
rèðu launráðum,
leikum hættu.
Upp hóf erindi
allra fyrstr
Antínóus
Evpíþesson.
306. Sárt var þeingli
í þeli niðri,
svall af megnum móð
mærings hjarta.
Brunnu buðlúngi
und brúna himni,
sem logandi eldr,
leiptr hvarma:
307. "Þó hefir tírfylginn
Telemakkus
stóru stórhugaðr
af stað komit:
farit för þessa
(firn eru slíkt mikil),
er vèr aldreigi ætluðum
at hann orka mundi";
308. "Flotað fleyi,
ok til farar ráðit
hali hraustustu
hèrlandsmanna,
geingit úngr greppr
úr greipum svo margra,
ϱ. IV, 656-675.

í allra óleyfi,
sem ekki væri!"
309. "Af stofni þeima,
þá er stundir líða,
mörg römm róg
rísa munu.
Drepi megin hans
hinn máttki Seifr,
áðr hann geig oss
um gjörvan fái!"
310. "Fái mèr nú skip,
þat er skríða kunni,
ok tvenna tugi
traustra manna.
Fyrisát vil ek gjöra,
ok fyrir liggja
honum á heimleið
híngat í land".
311. "Í sundi mun ek sitja,
er Sámseyjar milli
inn um geingr
ok Íþöku.
þá skal för hans
á vit föður síns
ok siglíng snúast
til svívirðíngar".
312. Orð kvað þat Antínóus,
en allir guldu
samkvæði sitt
at svo gjöru.
Stóðu upp at þat
af stundar þíngi,
ok siklíngs Odysseifs
í sal geingu.

---

313. Var-a lángt frá því,
uns vissi allar
prófut at prýði
Penelopa

ráðagerðir þær,
er ríkir biðlar
hreifðu heimuglega
í hugar fylgsni.
314. Heyrði þau köld ráð
kallari Medon,
ok sjálfri sagði
siklíngs brúði.
Hafði hann falizt
forgarðs utan,
meðan innan garðs
yptu vèlum.
315. Gekk hann um sali,
svikræði lögð
prúðri at birta
Penelopu.
En er þegn steig
yfir þröskuld húss,
á hann orðum varp
öðlíngs brúðr:
316. "Hvers erindis
þik híngat sendu,
kænn kallari,
karskir biðlar?
Skaltu nokkut segja
salkonum Odysseifs
verkum hætta,
ok þeim veizlu búa?"
317. "Komi þó aldreigi
þeir kvonbænamenn
híngat optar
í hallir vorar!
Hendi þat nú
í hinzta sinni,
at þeir vort borð við
verðar neyti!"
318. "Híngat safnizt èr
hverjum stundum,
matvælum miklum
ok munum eyðit,

ϱ. IV, 676-697.

eigum þeim, er á
í arfhluta sinn
týspakr taka
Telemakkus".
319. "Frágut èr eigi
af feðrum yðrum,
meðan úngir vorut
ok í uppvexti:
hve ítr at ágæti
var Odysseifr
frægr of fundinn
með feðrum yðrum;
hve eingum ýta
hann órètt gerði;
hve til einkis manns
illt rèð mæla?".
320. "Sá er siklínga
siðr dýrra,
einum dátt unna,
við annan hatast.
En Odysseifr
aldreigi vann
meingerð minnstu
manni nokkrum".
321. "Hitt er sèð,
at þèr sýnan gerit
ofstopa yðvarn
ok eigit skap;
nè verðr áleingdar
af yðvarri hálfu,
þat sem gott er gjört,
góðu launat".
322. Annsaði orðum
öðlíngs brúðar
margvitr Medon
ok mælti svo:
323. "Óska vilda'k,
at ekki væri,
vitr vísis kvon,
verra þessu.

Annat er böl
bölvi verra,
ok mein meira
meinum öllum".

324. "Illt hafa biðlar
böl í huga;
láti-a Seifr þat
á lopt koma!
Hyggja þeir horskan
á heimleið sinni
Telemakkus
at taka af lífi".

325. "Því öðlíngs sonr
er utan farinn
til prýði skreyttrar
Pýlusborgar
ok goðum ljúfrar
Lakedemonar,
fregnir at fá
um föður sinn".

---

326. Medon þat mælti,
en þá megin of þraut
knè ok hjarta
hilmis brúði:
orðlaus hún varð
jafnlánga stund
ok túngl hvarma
tárum fylltust.

327. Leið stund sú,
áðr leysta feingi
af fjötri ómegins
fagra röddu;
þá vann hún annsvar
endr um veitt
kænum kallara,
ok kvað at orði:

328. "Hví er mèr son minn
horfinn á braut?

Var-a þörf þó
at hann á þilju reiðar
stökkvakrar stigi,
þær er steðja knegu
yfir víðlenda
völlu Ránar".

329. "Á reiðum þeim
rosknir aka
þegnar þara láð,
sem þurt land væri.
Eða hvarf hann, svo hyrfi
úr heimi gjörva
nafn hans með niðjum
nýtra rekka?"

330. Annsaði orðum
öðlíngs brúðar
margvitr Medon,
ok mælti svo:

331. "Veitk-a ek víst,
hvort vea nokkurr
hafi heillat hann,
eða hugr sjálfs
hefir hvattan hann
heimanfarar
prýðiborgar
Pýlverja til":

332. "At hann fregnir
um föður sinn
hjá fróðra nokkrum
finna knegi,
hvort á heimför sè
híngat í land,
eða hverjum dauðdaga
of dáit hafi".

333. At mæltu þvísa
fór Medon á braut,
ok út gekk aptr
um Odysseifs sal.

334. En lífkaldr
lofðúngs brúði

ρ. IV, 698-716.

harmr hvítri
um hjarta smó;
nè haldast mátti
horsk í sessi;
var þó gnógt sæta
í sal gullbjartrar.

335. Þá settist þeingils kvon
á þröskuld niðr
sjáligs salar,
ok sáran grèt.
Æptu allar,
úngar ok gamlar,
umhverfis horska
húss-ambáttir.

336. Hóf hástöfum
harma-tölur
sorgmóð kona
meðal salkvenna:

337. "Heyrit, ljúfar,
lagit hefir mèr
guð ólympskr
ærnar raunir,
öllum fremr,
þeim er ásamt mèr
ólust ok uppfæddust,
armbaugs þellum".

338. "Fyrst ek mann mista
mæztan á foldu,
hugum hvatara
hverjum gumna,
alls konar framarr
búinn atgervi
dreingjum dáðrökkum
Danáa lýðs".

339. "Nú hafa ofviðri
arfa ljúfum
sviplega svipt
úr sölum mínum
hróðrs örvana,
nè ek hafa knátta'k
afspurn nokkura
af utanför hans".

340. "Heldr er yðr harðr
hugr í brjóstum!
Gjörla vissut þèr,
nær hann gekk á skip;
þó kom eingarri
yðar í hug
vara við gera
ok vekja mik".

341. "Hefða ek för hans
fyrir vitað,
skyldi hann heima kyrr
hafa setið,
en þótt fúss farar,
ella fjörvana mik
eptir heima
í húsum skilit".

342. "Kalli þræl minn
þerna nokkur,
aldinn Dólíus
allskjótt híngat;
þann gaf mèr faðir,
áðr færa'k hinnig;
hann eikagarðs míns
á at gæta".

343. "Hann skal hjá lofsælum
Laertesi
setjast, ok segja upp
sögu alla;
má þá, at mæríngr
af munar grunni
reki ráð þau,
er at ráði verði";

344. "Fari hjúfrandi
ok friðar biði
ýta, þá er ætla
láta aldauða

ϱ. IV, 716-740.

afspríng sjálfs hans,
ok sundr brjóta
ættstaf Odysseifs,
öðlínga jaðars".

345. Annsaði orðum
öðlíngs brúðar
ástkær fóstra,
Evrýklea:

346. "Eingu skal ek þik
orði leyna,
drottníng in dýra,
eða dylja nè eins,
hvort sem þú höggr mik
hvössu sverði,
eða mik hjara lætr
í húsi lífs".

347. "Vissa ek þessar
vèlar allar;
fèkk ek honum allt,
er hann fá vildi,
brauð ok vín bæði,
sem hann beiðast gerði;
en hann eið allstyrkan
af mèr tók:"

348. "At eigi skylda'k þèr
þetta segja,
fyrr en dýrr kæmi
dagr enn tólpti,
eða þú sjálf sonar
sakna gerðir,
ok fregn af feingir
um farar hans,
svo þú bölgrátin
brjóst nè lystir,
nè harmþrúngin
hörund meiddir".

349. "En þú kerlaug tak,
far í klæði hrein,
ljúf lafði mín,

ρ. IV, 741-761.

ok í loptsal upp
þú með þínum gakk
þjónustumeyjum".

350. "Bið þú allþarft
til Aþenu,
dóttur æðsta Seifs
ægisskjalda;
sú mun syni
á síðan þínum
heilum heim koma,
þótt úr helju væri".

351. "Ángr-attu ángrátt
öldúngs hjarta;
því svo með öllu
af sælum guðum
hykk-at ek hataða
nè háða fjónum
ætt Arkisíus
erfinytja".

352. "Heldr mun enn
af ætt þeirri
einna nokkurr
uppi verða,
sá er háþöktum mun
höllum stýra
ok arðsömum
útbúm ráða".

353. Þá varð sorg svæfð
siklíngs brúðar,
þá lètti harmskýi
af hvarma gnípum.

354. Kerlaug þá tók,
fór í klæði hrein
ljós lofðúngs rúna,
ok í loptsal upp
þýð með þekkum gekk
þjónustumeyjum;
lèt blótbygg
bleikt í körfu,

ok allþarflega
til Aþenu bað:
355. "Heyr mik, afspreingi
hins æðsta Seifs
ægisskjalda,
Atrýtóna!"
356. "Hafi niflúngr
nokkru sinni
Odysseifr
í öðlíngs sölum
vèlráðugr
til vegs þèr brennt
lærbita uxa
ok ásauðar:"
357. "Þá lát mik þess
frá þèr njóta,
ok kom heilum heim
hnefa mínum,
en bæg biðlum frá
bölva fullum,
þeim er illan oss
ágáng veita".
358. Hátt hún bað,
hástöfum æpti,
heyrði góð gyðja
grams kvonar bæn.

---

359. Höfðu hátt um sik
horskir biðlar
í skilfíngs sal
skuggaríkum.
Einn ok annarr þá
til orða tók
ofstopafullum
af úngmennum:
360. "Býr nú brullup
(bregzt-a þat) oss
biðilsæl biðlum

ϱ. IV, 761-780.

buðlúngs rúna.
Veit-a hitt horsk
hilmis beðja,
at bani bur hennar
of búinn er".
361. Margr svo mælti,
manngi þat vissi,
hví hún svo hagaði
háttum sínum.
Þá orð upp hóf
Antínóus,
ok mælti mál þat
meðal þeirra:
362. "Ærir eru þèr
ok örvita,
er þèr orð slík
uppi látið.
Af látið öllum
ofdrambs ræðum,
síðr í sal berist
til siklíngs brúðar".
363. "Höfum hljótt heldr,
hratt upp rísum,
ok til vegs vendum
vèlræði því,
er oss öllum leizt
ofraðar bezt,
ok öllum virðist
vinna sæmst".
364. Valdi hann tvo tygi
tryggra manna,
þeir er hraustastir
halir um voru,
ok þángat skyndi,
er þóptu dýr
stóð í stöðvum
á strönd sævar.
365. Settu sessrúmni
til sævar fram,

lètu segl upp í
ok siglutrè,
árar lögðu
í ólarhömlur.
Báru vopn til viggs
vaskir sveinar.
366. Ok á grunnlá
garpar lögðu
fley við festar,
er flotað höfðu;
upp í stigu,
ok aptansverð
tóku karskir,
ok kvelds biðu.

---

367. En prúð at viti
Penelopa,
lofðúngs kvon, lá
í loptsal uppi;
vön var hún matar,
vön var hún drykkjar,
hafði-a hóti bergt
harmsfull kona.
368. Hitt var í huga,
hvort horskr mundi
aldrtjóni
undan stýra
arfi hennar,
eða andrán bíða
af biðla völdum
vonzkufullra.
369. Ósköp hugsar,
ef sitt óvænna sèr,
ljón meginmekt,
í manna flokki,
þá er skaðvænan
um skógar jöfri
hjörleiks-hvatir
hríngleik of slá.
ρ. IV, 781-804.

370. Svo var hugsandi
sorgmóð kona,
þegar sætr svefn
á sjáldr rann.
Hallaðist horskt víf,
hægt sofnaði,
urðu lèmagna
limir allir.
371. Hafði þá hyggilegt
með höndum ráð
Aþena, gyðja
hin augumglæja:
svip til bjó
í brúðar líki,
Iftímu, dóttur
Íkaríus;
sú var Evmelus
eiginkona,
þess er í Feruborg
fletjum stýrði.
372. Sendi svip þann
sjáleg gyðja
í hús Odysseifs
hins ítrsnjalla,
at grátinnar
grát of hepti,
ok harmþrúnginnar
harm of stillti.
373. Sá fór svipr
í svefnhús brúðar,
liðugt líðandi
með lokubandi;
stóð of höfði
hilmis rúnu,
ok á ángrátt víf
þeim orðum varp:
374. "Sefr þú, prúðlynd
Penelopa,
harmi of þrúngin
ok í hjarta sár?

Vilja-t hóglífir
himins búar,
at þú hvarma vætir,
nè harm drýgir".

375. "Heill á hófi
mun heim um komast
aptr arfi þinn
ok enn lifa;
því ekki hefir hann
at ángri gert,
eða sælum guðum
til saka unnit".

376. Þá kvað þat prúðlynd
Penelopa,
ok orðum systur
annsvar veitti,
sætum svefni
sofandi vært
drottníng dýr
á drauma þíngum:

377. "Hví þú leið leggr,
ljúf systir, hinnig?
var-a fyrr títt
at þú færir svo;
alls þú alla leið
frá álfum vorum
byggir heimili
hèðan fjarri".

378. "Hví þú mik hvetr
af harmi láta,
ok af höndum hrinda
hugrauna fjöld?
Því at margir mitt
morgun hverjan
hjarta ok hug
harmar stínga".

379. "Fyrst ek mann mista
mæztan á foldu,
hugum hvatara
hverjum gumna,
alls konar framarr
búinn atgervi
dreingjum dáðrökkum
Danáa lýðs".

380. "Nú bar nýlega
nauð at hendi:
ástkærr arfi
á unnar skíði
braut er strokinn,
barn at aldri,
eljun óvanr
ok orðræðum".

381. "Fleiri harmtár
fyrir hans sakar
væta mèr kinnr,
en fyrir vers sökum;
hans vegna hrollir mèr
hugr í brjósti,
hans vegna hjarta mitt
hrellir kvíði:"

382. "At hann ófall
eitthvert hitti,
annattveggja
á unnum blám,
eða í landi
lýða þeirra,
er hann á fleyi
fór at sækja".

383. "Því at menn margir
mótviljaðir
vèlar gegn honum
grimmar setja,
vilja grams sonar
glata lífi,
áðr til ættjarðar
fái aptr komizt".

384. Svipr dauflegr
döglíngs brúðar

ϱ. IV, 805-821.

orðum aptr nam
annsvar veita:
"Hugr þèr dugi,
nè þú til hræðslufull sèr,
nè sorg of alir
of sakar slíkar!"
385. "Því ein hjálpvættr
honum fylgir,
máttug mjök
til meginbjargar;
þá meginstoð
(því hún máttug er)
hafa allir sèr
ýtar kosit".
386. "Úngleg Aþena
er aðstoð hans.
Geingr henni nær,
er hún þik grátna sèr.
Hefir því sent mik
hugsjúk gyðja,
at ek þèr allt þat
inna skylda'k".
387. Þá kvað þat prúðlynd
Penelopa,
ok hana aptr
orðum kvaddi:
388. "Ef þú sjálf ert
at sönnu gyðja,
ok gyðju raust
hefir gjörla heyrt:
heil svo, þá herm mèr
af hal þeima
auðnu vönum,
hvort hann enn lifir,
eða er hniginn hann
ok til heljar geinginn".
389. Svipr dauflegr
döglíngs brúðar
orðum aptr nam

ρ. IV, 824-845.

annsvar veita:
"Eigi munk allskýrt
á þat kveða,
hvort hann á lífi,
eða of látinn er.
Er-at hæft, herma
hègómamál".
390. Sagði þat svipr,
ok sveif á braut,
leið í lopt upp
hjá lokubandi.
Brá þá blundstöfum
buðlúngs rúna,
Íkaríus
eingadóttir.
391. Fljótt fylkis kvon
á fætr spratt;
þá var hjarta kátt
hilmis brúði,
er beran draum
of borit hafði
fyrir lauka Lofn
um lágnætti.

---

392. Nú stigu biðlar
á streingja mar,
ok votar sigldu
víðis brautir;
höfðu í hyggju
halir veita
bráðan bana
buðlúngs syni.
393. Þar er ey ein,
ekki mikil,
hömrum horfin,
í hafi úti,
á sundi því,
er Sámseyjar milli

inn um geingr
ok Íþöku.
394. Ey þá Asteris
ýtar nefna;
þar 'ru liðtækar
leguhafnir,
ok inngaungu
ósar tvennir.
Lágu þar á legu
lýðir akkneskir,
ok siglíng sættu
siklíngs burar.

---

# FIMTA KVIÐA.

Reis úr rekkju
rósfögr dís
frá mærum Títon,
Morginskæra,
sú er ófeigum
uppheims goðum
ok feigum ljós færir
foldbyggendum.
2. Áttu þá samfund
sælir guðir;
þeirra meðal var
enn mikli Seifr,
hann er þrumurödd
þeytir sterka
ok mátt hefir goða
mestan allra.
3. Tjáði þá fyri tívum
trygg Aþena
minnug Odysseifs
margar raunir;
var henni hugleikit
um hilmi frægan,
þars hann góðrar gisti
í gyðju ranni.
4. "Kveð ek föður Seif
(kvað Aþena),

ϱ. IV, 845-847.

kveð ek alla eilífa
uppheims guði"!
5. "Nú skyldi eingi
af alhuga
visir sprotvaldr
votta framarr
mildi ok blíðskap
börnum þjóðar,
nè sanngirni hafa
sèr í brjósti":
6. "Heldr ávallt hann
hörku beiti,
ok guðlaus verk
gjarna drýgi:
með því eingi nú
minnist leingr
ágæts Odysseifs
allra þeirra,
er hann eitt sinn átti
yfir at ráða,
ok þeim gefast vann
sem góðr faðir".
7. "Liggr hann, ok heyr
harðar raunir,
á ey einni
ok ángr um bíðr,

þar er Kalypsó
kostulegum,
vegleg vættr,
veum of ræðr;
sú heldr hilmi
hjá sèr nauðgum".
8. "Kná-at konúngr
komast aptr
ættjarðar sinnar
ok óðala til;
er honum skipa vant,
er skríða kunni,
ok fèlaga vant,
er hann flytja knegi
yfir ægis flöt
afarvíðan".
9. "Ok nú ætla menn
hans ástkæran son
hjörvi höggva
á heimleið sinni;
því öðlíngs arfi
er utan farinn
til prýði skreyttrar
Pýlusborgar
ok goðum ljúfrar
Lakedemonar,
at hann fregn fái
um föður sinn".
10. Sagði þá Seifr,
sjóli skýbólstra,
ok henni aptr
annsvar veitti:
"Hvat er þat máls,
er þèr of munn líðr!
Hví þú svo, dóttir,
hagar orðum!"
11. "Hafðir-a þú sjálf
í hyggju áðr
ráðit ráð þat,
at ræsir skyldi
Odysseifr heim
aptr um koma,
ok sinna harma
hefnd of vinna?"
12. "En þú farar greið
fylkis arfa
vel ok víslega,
því þú vitr ert:
at hann með heilu
heim um komist
ættjarðar sinnar
ok óðala til,
en hverfa hljóti
horskir biðlar
aptr, erindi
ekki fegnir".
13. Innti þat Seifr
Aþenu við,
ok Hermes, son sinn
síðan kvaddi:
"Heyr þú, Hermes,
því at þú hvervetna ert
sendisveinn goða,
ef þeim svo líkar!"
14. "Boð skaltu bera
gyðju bjarthaddaðri
um stadt ráð
ríkra tíva:
at hilmir hugsterkr
skuli heim um komast
sinnar aptr
ættjarðar til".
15. "Skal-at hann goða
geingi hafa,
nè mennskra in heldr
manna fylgju,
heldr týmargar
á trjáflota
þola mannraunir
margsamskeyttum".

ρ. V, 14-33.

16. "Skal hann í svarðfrjórri
Skereyju land
taka á dægri
tuttugasta.
Þá Feakar
fold of byggja,
gumar gagnsælir,
goðum nánir".

17. "Þeir munu hilmi
af hjarta virða,
ok gram göfga,
sem goða nokkurn;
þeir munu fylkis fljótt
farar greiða,
ok honum far fá
til föðurlands,
ok gylva gefa
gersema fjöld,
gnótt eirs ok gulls
ok góðra klæða".

18. "Aðra eins aldreigi
mundi Odysseifr
í Trójuborg
of tekit hafa
gersema fjöld,
þótt of getið hefði
sinn hlut herfángs
ok heill brott komizt".

19. "Svo á öðlíngi
auðit verða
ástvini sína
augum líta,
háþaktrar til
hallar of komast,
ættjarðar aptr
ok óðala".

---

20. Svo kvað Seifr,
en senditívi
var-at ógegninn,
Argusbani.

21. Lèt hann í svip sèr
sóla gullna,
himneska, fagra
und fætr bundit;
þeir báru sólar
senditíva
yfir láð ok lög,
sem lèki vindr.

22. Tók sèr í hönd
töfrsprota,
er hann heillar með
hvern er hann vill:
sjónir of svæfir
sigrvaldenda,
ok af svefni vekr
sofanda hvern.

23. Hèlt á högnuði
ok hratt til vegar
varp sèr allstyrkr
Argusbani,
stefndi á prúðra
Píera land,
ok sèr úr hálopti
á haf fleygði.

24. Þaut hann þá
yfir þara slóðir,
mávi líkr
lèttfleygasta,
þeim er á fjörðum
fiska veiðir
ok vætir vængi
í vatni söltu.

25. Hart fór Hermes
með hætti þeima,
ok yfir ótal ók
álheims bárur,
uns at eyju kom
ítrar gyðju,

harla fjarri
undir hafs jaðri.
26. Steig þar á storð
stórmáttugr
upp af dimmblám
drafnar fleti;
gekk yfir grund
frá græðis ströndu,
uns at helli kom
harla víðum.
27. Þar þekkileg,
í þeima helli,
brúðr bjarthödduð
bústað átti.
Hitti svo á hollr
hagsælda guð,
at heima var at húsi
háleit gyðja.
28. Logaði á arni
eldr mikill,
brunnu þar á bjarkir
balsámsríkar,
seðrusviðr
sætt ilmandi,
auðkleyfar ilmbjarkir
ánganfullar;
lagði um ey alla
ilm dásætan.
29. Inni í helli
heilög gyðja
var at ok vaf,
ok fyri vef nam gánga,
haglega hrælandi
hræli gullnum
svaslega sýngjandi
sætum rómi.
30. Umhverfis helli
hár skógr vóx:
alþrosknir apaldrar
í ítrum blóma,
ρ. V, 55-74.
þar elrir um óx,
þar ösp um vóx,
þar sýpresviðr vóx
vel ilmandi.
31. Hèr sik hreiðraði
í hávum viði
fiðrvarin fjöld,
flug beinandi:
sátu þar uglur,
sátu valir,
sátu sækrákur,
hugðu at sjófángi.
32. Hellis hvelfíngu
háva kríngum
vatt sik víntrè
vexti þrútið,
þat var hagvirkum
höndum tamit,
ok af blómlegum
berjum þrúngit.
33. Runnu fjórar fram
fagrar lindir,
hver við hlið annarar,
úr hellis bergi;
lètu lækir þeir
ljósu vatni,
til sinnar handar hverr,
hverft um grundir;
en eingjar ljómuðu
á lækja bökkum
af fagri steinselju
ok fjólu mjúkri.
34. Svo voru staðir þeir
stöku prýddir
unaðs eðli
ok yndis ljóma,
at jafnt máttu undrún
óðauðlegum
ok gaman gleðilegt
goðum veita.

35. Stóð, ok starsýnt varð
á stöðvar þessar
upphimins ár,
Argusbana;
hann um litaðist
alla vega,
allt undraðist,
er fyrir augu bar,
ok sjónfegrð
saddr þeirri
inn í helli gekk
harla víðan.

36. Kenndi Kalypsó,
kostsöm gyðja,
upphimins ár,
er hún í augu leit;
því ei eru ókunnir
öðrum hverir,
þótt heims vistum
hvar fjarri sè,
eðlis eigendr
ódauðlegir.

37. Fann-at uppheims árr
Odysseif
í helli heima
inn hugumstóra;
því at siklíngr
á sjávarströndu
sorgfullr sat,
ok sáran grèt.

38. Var vanr þar
hinn vesli maðr
sárum hörmum
hjarta mæða:
einart gráta,
öndu verpa,
á haf út horfa,
hvarma væta.

39. Þá lèt Kalypsó,
kostsöm gyðja,
heilagan Hermes
á hástól setjast
fágaðan, skínanda,
fagrglæstan;
orðum nam yppa
ok at erindi frètta:

40. "Hví þú, Hermes,
híngat leiðir,
gullinsproti,
gerir kanna?
Góð er gests koma,
gleði at vina fundi.
Var-a fyrr títt,
at þú færir svo".

41. "Inn mèr uppskátt,
hvat þik árna lystir.
Erumk lyst, því
til leiðar koma,
ef ek erindi þitt
afreka mætta'k,
ok ef verðr því
til vegar komit".

42. En er góð gyðja
þess getið hafði,
fagrfágat borð
fram hún setti,
fyllti þat ódáins
fæðu ljúfri,
ok drykk ódáins
dreyrrauðan blett.

43. En er uppheims árr,
Argusbani,
hafði hjarta styrkt
ok hóflega neytt
matar ok mungáts,
máls hann kvaddi
gyðju ágæta,
ok til orða tók:

44. "Biðr þú gyðja guð,
gest nýkominn,

ϱ. V, 75-97.

at ek inni þèr
erindi mitt.
Inna skal ek þèr
allt af lètta,
skýrt ok skorinort,
alls þú skorar á mik".
45. "Bauð mèr Seifr
at sinna híngat.
Vark-a ek fúss mjök
farar þeirrar.
Hverr muni svo stóran
saltgeim lostigr
ok ómælilegan
yfir renna?"
46. "Er-a þar í nánd
á þeima leiðum
bygð mennskra manna,
þeirra er megi færa
fórnir fríðar
ok fullgild blót
ódauðlegum
uppheims goðum".
47. "En alls ekki má
ákveðit ráð
himna jöfurs
und höfuð leggjast
guð eða gyðja,
nè á glæ kasta
ætlan alföðurs,
ægisskjalda".
48. "Kveðr hann hjá þèr
hal einn kominn,
vesalstan allra
vera þeirra,
er um Brjámsborg
börðust leingi,
ok orustur áttu
um ár níu".
49. "Unnu þeir sigr
á ári tíunda,

ϱ. V, 97-116.

ok borg breiða
brutu at velli.
Hèldu heim at þat,
en á heimleið sinni
urðu þeir alsekir
Aþenu við".
50. "Lèt þá gröm gyðja
gegn þeim æsast
illt ofviðri
ok öldur hávar.
Lètust þar allir
liðar þeirra,
svo at heimkomu
halir mistu".
41. "En hann hófu
hávar bárur
ok vágu vindar
at veum þínum.
Þann býðr hal þèr
himna jöfurr
bráðafángs
á brautu senda".
52. "Því ei hafa sköp skapat
skata ríkum
þann norna dóm
nauðulegan:
at hann ástvinum
öllum fjarri
skuli einmana
andrán bíða".
53. "Heldr á öðlíngi
auðit verða
ástvini sína
augum líta,
háþaktrar til
hallar of komast,
ættjarðar aptr
ok óðala".
54. Hrolldi hugr,
harmr vaknaði,

gyðju kostsamrar,
Kalýpsóar.
Varp hún orðum á
erindreka
horskan himins,
ok hóf svo mál:
55. "Harðr er yðr
hugr í brjósti,
guðir, ok grimmt
gefit hjarta.
Öllum erut þèr
öðrum fremr
öfundar fullir
ok ábrýði".
56. "Eigi unnit èr
ítrum gyðjum,
at við mennska menn
munuð drýgi:
ef þeirra einhver
ástgan hefir
vin sèr valit
vitanlega".
57. "Svo lèt Oríon
af ást forðum
mæran mær numit
Morgunskæra.
En eigi gátu þèr,
guðir hóglífir,
augum óskjálgum
á þat litið".
58. "Ok Artemis
í Ortygíu,
heilög gyðja,
gullinstóla,
fór, ok frægum lèt
fjörlöst veittan
hægan hægum með
hvítmýlíngum".
59. "Svo Jasíoni
jörp of unni
Demetra, máttkum
muni sigruð:
þá er lofsælum lèt
lofsæl gyðja
yndi sitt allt
ok ástir í tè;
ok munarfús
mæríng horskan
þýddist á ekru
þrisvar plægðri".
60. "Var-a lángt til þess,
at vissi Seifr
munaðar mál
manns ok gyðju.
Þá lèt hann lofðúng
lostið í hel
hyrfleini himins
hvítglóanda".
61. "Svo nú samvista,
sælir guðir,
meinit þèr mèr
við mann at njóta,
þann er ek frelsta
í fári staddan,
þar er hann aleinn
ók á kili".
62. "Þá hafði skip hans
skotið Seifr
hyrfleini himins
hvítglóanda,
ok rennanda
ráhjört sundr
heilan klofit
í hafi miðju".
63. "Þar dýrmennis
dóu allir
fræknir fèlagar
í fárviðri;
en sjálfan hann
sjávar bárur

híngat hófu
ok hörð veðr".
64. "Tók ek virkta vel
veslum manni,
hjúkraða'k háliga
ok hugla nærða'k;
ódáins æfi
hèt ek ítrum hal,
ok eilífum
æsku blóma".
65. "Nú með því alls ekki
ákveðit ráð
hilmis himna má
und höfuð leggjast
guð eðr gyðja,
nè á glæ kasta
ætlan alföðurs,
ægisskjalda:"
66. "Hverfi hann þá hèðan,
alls honum svo býðr
ok farar fýsir
fylkir himna!
Hröklist hann á haf,
þars hvergi er vært,
en sjálf skal ek aldrei
hann senda þángat".
67. "Ák-a ek skip
í eigu minni
árum skiput,
þau er skríða kunni;
hefk-a ek fèlaga,
er hann flytja megi
yfir ægis flöt
afarvíðan".
68. "En holl í hugum
vil ek heil ráð leggja
ógæfúngi þeim,
ok eingu leyna,
at hann heill á hófi
megi heim komast

ættjarðar sinnar
ok óðala til".
69. Innti svar orðum
ítrar gyðju
upphimins árr,
Argusbani:
70. "Send hann svo frá þèr,
sem þú mælir nú.
Reit ei til reiði
hinn ríka Seif,
at hermdar hugr
himna jöfurs
þèr ei síðar meirr
sorgir vinni".
71. Brott gekk máttugr
at mæltu þvísa
upphimins árr,
Argusbani.

---

72. En er heyrt hafði
himna jöfurs
boðskapi kynnta
Kalypsó sèr,
þá fór á fund
fylkis Odysseifs
háleit gyðja
ins hugumstóra.
73. Fann hún siklíng
á sævarströndu.
Sat hilmir hèr
hvarmdögg sleginn;
þat náði-t þorna
af þeingils augum
ár nè síðla
úr brávallar.
74. Gramr grátandi
gerði þreyja
heimför sína,
því hilmi leingr

ϱ. V, 134-153.

gat ei getizt at
gyðju spakri.
Svo flaut líf lofðúngs
laust í tárum.
75. Hvíldi nauðugr
nætr allar
und há hvolfi
hellis salar
gramr hjá gyðju
góðviljaðri,
viljalauss
viljugri hjá.
76. En daga alla
döglíngr sat
sjávarhömrum á
við sævarströndu;
mændi munarfúss
út á meginhaf,
ok jafnharðan
jós út tárum.
77. Gekk at konúngi
kostsöm gyðja,
ok þeim á hann nam
orðum verpa:
78. "Lát ei leingr hèr
líf þitt fljóta,
börr bölþrúnginn
braut í tárum,
nè í ángri eyðast
æfi þína;
vil ek nú fús þèr
gefa fararleyfi".
79. "Lát þèr lángstokka
lètt til höggna,
timbra þèr með tólum
traustan flota,
hátt upp af honum
hástólpa rek,
at yfir kolblátt haf
þik kunni bera".
ρ. V, 153-174.

80. "Færa skal ek þèr fæðslu
á flota breiðan,
at þik húngri veri
ok hug þinn styrki:
vatn skal ek veita,
vín skal ek færa,
brauð skal ek bera
á breiðan flota".
81. "Færa skal ek þik
í fögr klæði,
ok byr blásanda
á bak þèr senda,
at heill á hófi
heim um komist
ættjarðar þinnar
ok óðala til:"
82. "Ef þèr guðir þess
góðir unna,
þeir er víðbláinn
víðan byggja;
þeir miklu mèr
meiri eru
framkvæmdum í
ok fyrirhyggju".
83. Hrolldi hugr
harmr vaknaði,
Odysseifi,
þeim er ymsu vandist;
ok at gyðju
góðviljaðri
lèt hann vænghröðum
vikit orðum:
84. "Annat býr eitthvat
undir orðum þínum,
en gera, gyðja, mèr
greiðar farar:
er þú á flotafari
mèr fara býðr
yfir græðis geim
geisivíðan".

85. "Harla hræðilegt
er hafs megin,
ok örðugt við ægi
afli deila.
Megu-t jafnvel
jafnbyrð komast
hafskip yfir hann
hratt skríðandi,
þótt byr hagstæðum
hrósa eigi".
86. "At óvilja þínum
ek aldreigi mun
á flotafar
fæti stíga,
nema þú treystist,
tignargyðja,
mèr allstyrkan
eið at vinna:
at þú í hyggju
hafir eigi
böli at bæta
á böl mitt ofan".
87. Ræddi þat ræsir
hinn ráðsvinni.
Brosti Kalypsó,
kostsöm gyðja,
klappaði hendi
hilmi frægum,
upp hóf erindi
ok orð um kvað:
88. "Nú er þat sýnt,
at þú sefa of átt
við vèl slúnginn,
ok vitra hyggju:
er í hug þèr
hvarfla skyldi
mál þat mæla
af munar grunni".
89. "Viti þat jörð,
viti þat upphiminn,
viti þat vatn Stýgar,
er veltr niðr
undirheima til
(sá er eiðr mestr
ok svardagi svarrastr
með sælum guðum):"
90. "At ek í hyggju
hefik eigi
böli at bæta
á böl þitt ofan;
heldr hygg ek þat
ok hyggja munk,
sem ek sjálfri mèr,
ef ek sams hlut ætta'k,
hyggja vilda'k
ok hyggja munda'k".
91. "Er mèr góðfúst geð
ok gegn hyggja
ok sanngjarn sefi
sjálfri laginn.
Armvitug ek emk
ok aumhjörtuð,
nè ek hjarta hefk
hart af járni".
92. At mæltu því
mjök í skyndi
ágæt eyjardís
á undan gekk;
en öðlíngr,
ángri bitinn,
í fótspor gyðju
feta rèð.
93. Komu at hveldu
hellis rjáfri,
gyðja góðviljuð
ok grátinn maðr.
Á hástól þar
nam halr setjast,
þeims áðr Hermes
hafði á setið.

ρ. V, 175-196.

94. Margs var kyns fæðsla
er fram lèt borna
ſtrum öðlíngi
eyjar-gyðja:
vist þá, er at verði
of vanir eru
mennskir menn
sèr til munns leggja.
95. Gyðja sjálf sèr
sæti valdi
öndvert ágætum
Odysseifi;
en ódáins-fæðu
ok ódáins-veig
settu henni hjá
hellis-þýjar.
96. Rèttu svo hendr
halr ok gyðja
at veittum vistum,
vel fram reiddum.
En er mett voru
matar ok drykkjar,
kvaddi Kalypsó,
kostsöm gyðja,
öðlíng orðum,
ok alls fyrst um kvað:
97. "Lofsæll lofðúngr,
Laertesson,
mærr Odysseifr,
hinn margráðugi!"
98. "Villtu, vísir,
at svo vöxnu máli
á veg venda
ok við mik skilja,
ok hèðan halda
heim nú þegar
ættjarðar þinnar
ok óðala til?
Þóttú frá mèr farir,
far þú heill samt!"
ϱ. V, 196-213.

99. "En ef þú, öðlíngr,
allar vissir,
þær er þola skalt,
þúngar raunir
norna dóms,
áðr náir komast
ættjarðar þinnar
ok óðala til:"
100. "Þá mundir þú
á þessari ey
eptir verða
ok una lífi,
hvergi fara
frá húsi þessu,
ok ódauðleik eignast
alla daga".
101. "En mjök þráir þú,
þeingill, at sjá
brúði bjarthadda,
beðju þína;
saknar þú sætu
sólbjartan dag,
ok dýra dreymir
á dimmri nóttu".
102. "Þikkjumst ek þó
þeirri vera
hrínga hildi
hvergi síðr,
hvorki at vexti,
á velli at sjá,
nè at vænleik
ok vaxtar prýði".
103. "Því alls ekki megu
mennskar konur,
feigum fæddar af
fíra börnum,
um fegrð keppa
ok fríðleiks kosti
ódauðlegar við
uppheims gyðjur".

104. Annsvar ítri gaf
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
"Eigi máttu mik
máttug gyðja,
þótt ek þreyja mjök,
þess um kunna".
105. "Veit ek fullgjörla,
hví fróðri of sè
prýðivant við þik
Penelopu,
ok hví þèr síðr sè
í sjón allri
at vexti ok vænleik
víf it snjalla".
106. "Dauðleg hún er,
en þú, dýr gyðja,
ódauðleg ert
ok ellivana.
Em ek áviljaðr
eigi at síðr,
ok óðfúss æski
alla daga,
þann at sjá dýrðar
dag upp renna,
at ek heim komist
hýrrar brúðar til".
107. "Ok þó einhverr mèr
uppheims goða
á myrkblám unnum
mótgáng veiti,
þreyja skal ek við
með þolinmæði,
þrótt í brjósti
ok þrek minn geyma".
108. "Því marga hefir ek
mannraun þolat,
ok þrautir ófár
þúngar unnit
ϱ. V, 214-233.

í hættri hildi
ok í hafs bylgjum.
Má ok þetta þá
þar til koma".
109. Sagði þat siklíngr,
en sól til viðar
rakleiðis rann,
ok rökkr of kom.
Geingu þá góð tvö
ok glöddu sik,
maðr ok gyðja,
gamni munaðar;
hvort öðru hjá
hægt sèr undi
innst und hellis
hveldu rjáfri.

---

110. En er árrisul,
rósinfíngra
birtast mundi
Morgunskæra,
þá í kyrtil sik
ok kápu færði
ítr öðlíngr
Odysseifr.
111. Hjúpaði horsk sik
hafseyjar dís
möttli miklum,
mjök smágjörvum,
sjálegum, silfrbjörtum,
ok sik miðja
gyrði gull-linda
glæsilegum.
112. Brá of höfuð sèr
blæjudúki,
skein skært faldr
á skarar fjalli.
Þá tók at hugsa
háleit gyðja

um heimför hilmis
ins hugumstóra.
113. Fèkk hún buðlúngi
bolexi mikla,
honum handhæfa,
af hörðu járni;
gein gini tvennu
gríðr stofna,
studdi skógar skass
skapt allfagrt,
vel fellt, af viðsmjörs
viði seigum.
114. Því næst handexi
hilmi of fèkk
væna, vel fágaða,
við at slètta.
Gekk svo gyðja fyrir,
en gramr fylgði,
fram á úteyjar
yzta skaga,
þars hæst uxu
hávar eikr.
115. Elrir ok ösp
þar óx á nesi,
fura til foldar
fjörnis mændi,
eikr alþurrar
orðnar laungu;
flaut viðr sá
á vatni lètt.
116. Ok er vegleg dís
vísat hafði
hilmi, hvar yxi
hæstar eikr,
heim til hellis vèk
ok húsa sinna
Kalypsó aptr,
kostsöm gyðja.
117. Gramr tók nú til
trè at höggva,
gekk verk þat vel fram
vísa fræknum.
Trè alls tuttugu
nam tiggi fella,
ok með bolexi
beittri ryðja.
118. Handexi trè þau
horskr slètti
þeingill fimlega,
ok þráðbein gerði.
En Kalypsó,
kostsöm gyðja,
nafra niflúngi
nam at færa.
119. Boraði þá buðlúngr
bjálka alla,
ok felldi haglega
hvern við annan.
Negldi flotafar
fylkir nöglum,
hrukkum ok hnökkum
hart saman rak.
120. Svo botnbreiðan
sem byrðíng lætr
gumi gagnhagr
gjörvan verða,
sá er tiltök öll
trèsmíða-listar
ok hög hagleiks brögð
hefir numit,
beint til at mynda,
breiðan gerði
farflota sinn
frægr jöfurr.
121. Hleypti hilmir
hástólpum upp,
ok lèt þèttum þá
þverslám bundit;
lauk svo loptpalli,
en laungum borðum

seinast súðaði
sævarflota.
122. Siglutrè siklíngr
svo nam smíða,
ok seglrá,
er siglu hæfði;
stýri bjó stillir
at stýra mætti
fram um fiska láð
flota breiðum.
123. Kom þá Kalypsó,
kostsöm gyðja,
ok döglíngi
dúka færði
seglvoða til,
en siklíngr sneið
segl, ok saumaði
af svinnri hyggju.
124. Festi aktauma,
festi dragreip,
festi klær fylkir
á flota breiðum.
Ýtti öðlíngr
með ásum síðan
fram á flæðar djúp
flota gjörvum.
125. Liðu fjórir
af lopti dagar,
þá var fullframit
fylkis smíði.
Sendi Kalypsó
konúng frá ey,
dáðrík dís
á degi fimta.
126. Laugaði lofðúng
lofsæl gyðja,
ok klæðum klæddi
konúng ilmsætum.
Bar hún belgi tvo
á borð flota,
vínbelg vísi
ok vatnsbelg fullan.
127. Farnest færði
fylki gyðja
ljúf í leðrmal,
en hún látið hafði
í mal margs konar
muntamt koma
sufl, gram góðum
til gætibótar.
128. Lofðúngi lèt hún
undan landi sendan
hagstæðan bæði
ok byr mjúkan.
Gladdist þá gramr
hinn göfugláti,
ok við byr breiddi
bleikar voðir.
129. Sat stöðugt stillir
við stjórn á flota,
lèk stýri liðugt
í lofðúngs hendi;
hèlt á heiðan hann
himin sjónum,
nè svefn of sveif
á siklíngs augu.
130. Horfði hilmir
hátt á sjöstirni,
sá á Boótes,
þann er síðla rennr;
beindi bjartar
á Björn sjónir,
þann er Vagn kalla
virða kindir.
131. Veltist Björn svo
á vagna láði,
at hann æ hefir augu
á Oríoni,
ok er svo einn stjarna,
at hann aldreigi

ϱ. V, 253-275.

laugast lætr
í lagar straumi.
132. Hafði Kalypsó,
kostsöm gyðja,
boðit buðlúngi,
áðr á borð hann steig,
at hann Vagn sèr
til vinstri skyldi
handar hafa,
er hann um haf sigldi.
133. Sigldi siklíngr
í seytján daga
fleyja flatslóðir
á flota breiðum;
en á átjánda
upp skaut degi
bergtindum blám
úr blá djúpi.
134. þau voru fjöll
á Feaka storð,
þat honum láð lá
landa nær mest.
Svo var af lægi
til lands at sjá,
sem sýndist skjöldr
á sæ fljóta.

---

135. Nú kom aptr
frá Eþíópum
meginmáttugr
miðgarðs skelfir.
Gat hann áleingdar
ofan líta
siglíng af fjöllum
Sólýma hám.
136. Sýndist honum sjóli
sýnu fjarri
yfir saltan sæ
á siglíng vera.
ϱ. V, 275-294.

Svall þá móðr meirr
miðgarðs skelfi,
höfuð hristi,
ok í hug sèr kvað:
137. "Víst hafa horskir
himins guðir
aðra eptir á
á ætlan brugðit
(eru slíkt undr)
um Odysseif,
meðan at Eþíópum
átta-k dvalar".
138. "Ok nú er hann kominn
í námunda við
fold Feaka,
þar sem fylki skal
auðit verða,
þeim er á hann sækja,
loksins leysast af
laungum nauðum.
Hitt ek hugsa,
at hann harmkvæla
at leiks lokum
leiðr of verði".
139. þreif þá þrúðvaldr
þrífork höndum,
sópaði í bólstra
saman skýjum;
hrærði haf upp
frá hafs grunni,
öllum upp hleypti
ofsabyljum
hvers konar vinda
úr hverri átt.
140. Hann hríðfeldum
huldi skýjum
haf umhverfis
ok hauðr it sama.
Af himins hvolfi
hnè þá niðr

svipljótt svartnætti,
sorta þrúngit.
141. Brast á fárviðri
af fjórum áttum,
áfjátt af austri,
ótt af suðri
volega vestan
vindr of blès,
heiðvindi norðan
hreifði stórbárum.
142. Þá meginmóðgum
magnþrota varð
hnè ok hjarta
hölda stýri.
Ok siklíngr sagði
sáru brjósti
við hjarta sitt
it hugumstóra:
143. "Sè harm harðan!
Hvat mun þá loks
af veslum mèr
manni verða?
Uggir mik, at allar,
þær er eyjargyðja
spök mèr spáði,
spár komi fram".
144. "Kvað hún mik í raunir
rata mundu
hættulegar
í hafi úti,
áðr fóstrjörð
finna knætta'k.
Mun nú allt þat
eptir gánga".
145. "Hefir hár Seifr
himin gjörvallan
skýbólstrum skipat
skelfilegum,
haf upp hrært,
en háskabylir
æða hart at
allra veðra.
Nú er mèr hel
við hlið aðra,
ok bráðlega búinn
bani víss".
146. "Sannsælir eru
synir Danáa,
ok sælum sælli,
þeim er svelta varð
auðit, í vil
Atreifssonum,
týframir seggir,
í Trójulandi".
147. "Óska vilda'k,
at ek auðar hefða'k
ok dauða orðs
dag þann feingit,
þá er um prúðan
Peleifs arfa
á mik eirrekin
afarmargir
dörr dólgmegir
drífa lètu".
148. "Þá munda'k eptirgerð
öðlazt fagra
ok helfarar hafa
heiðarlegar,
ok orðstír minn
með alda börnum
verar akkverskir
víða borit.
En nú hafa nornir
þá nauð mèr skapat,
dauða at deyja
daprlegum".
149. En er orð þau
hafði öðlíngr mælt,
kom hræðilegr
úr hálopti

stórsjór, er steyptist
yfir stilli ofan,
ok í hríng snèri
hröktum flota.
150. Flaug þá fylkir lángt
af flota braut,
ok hjálmunveli
úr höndum sleppti;
en vindbylr
voðalegr
samblandinna
sviptiveðra
á skelfdum skall
skyndiflota,
ok siglu þvera
í sundr braut;
ok seglvoð
með siglurá
hvar fjarri hraut
út í hafs bylgjur.
151. Hèlt lofðúngi
lángan tíma
kólga köld
í kafi niðri;
nè skata skjótt upp
gat skotið aptr
fyrir sogsömu
sjávar afli:
því niðr þýngdu,
þau er þeingli hafði
kostsöm Kalypsó
klæði gefit.
152. Var-a skömm bið,
áðr skaut úr kafi
aptr öðlíngi
öldumóðum;
þá rann saltr sær
af siklíngs höfði,
þá busti beiskt vatn
af buðlúngs munni.
ϱ. V, 313-333.

153. Gleymdi-t þeingill þó,
at þrekaðr væri,
í fúlu fárviðri
flota breiðum.
Svam gegn gramr
í geistu flóði
eptir fars flaki,
ok fèkk því náð.
154. Settist þá mildíngr
á miðjan fleka,
var hann fúss fjörs
at firrast dauða,
en brimbára
breiðan reiddi
flota hèr ok hvar
með hafstraumi.
155. Þirla þyrnum
ok þistlum feykja
um víðan völl
veðr norðan
á haustdegi,
en hverr við annan
loða þistlar þó
ok þyrnar saman.
156. Báru svo vindar
breiðan flota
híngat ok þángat
um haf innan:
ýmist varp honum
vindr sunnan
nöprum í nasir
norðanvindi,
ýmist vestan varp
veðri í fáng
austanvindr
til eltíngar leiks.

---

157. Kom þá á konúng
Kadmus dóttir

Ínó auga
hin öklafríða.
þá kalla halir
Hvítagyðju
dýra dís
í djúpum víði.
158. Sú var mennsk mær
á mold forðum,
ok mál mælti,
sem maðr annarr.
Nú hafði sæl dís
í söltum víði
heiðr of hlotið
horskra guða.
159. Nú sem hilmis hún
hrakninga leit,
ok sorgmóðs Odysseifs
sárar raunir,
aumkvaðist hún,
ok upp nam setjast
á meið margnegldan,
ok mæla tók:
160. "Hví er við þik svo,
vesall maðr,
reiðr ramlega
ríkr Posídon,
miðgarðs skelfir,
at svo mörg skuli
örg illindi
at þèr færa?"
161. "þeygi skal hann þó
þèr fá komit
í hels hendr,
þótt hann helzt þess fýsi.
Far heldr fram því,
er ek fyrir legg.
Virðist-a þú vera
verr ósnotr".
162. "Kasta þú klæðum,
konúngr, þeima.

ε. V, 333-351.

Lát farflota
feinginn verða
vindum í vald,
at velkist leingi
hreggi höggvinn
um haf innan".
163. "Hend sund, halr,
höndum sveima,
ok keppst at komast til,
ef kostr gerist,
foldar Feaka;
því fyrir hugut
er þèr undankoma
til eyjar þeirrar".
164. "Tak, halr, himnesku
við höfuðbandi,
ok bitt þèr um brjóst
blæju þessa.
Skal-a þèr mæði,
nè mein of granda,
nè þú í hafs hyl
hel munt kanna".
165. "En er þú hauðr fær
höndum tekit,
þá skaltu leysa,
lofðúngr, þèr
blæju af brjósti,
ok í blásvart haf
lát henni lángt
frá landi kastað.
En sjálfum þèr þú,
meðan þat gerir,
áttu, öðlíngr,
undan snúa".
166. En er þau hafði
þýð orð talað
við horskan hilmi
Hvítagyðja:
þá lèt hún leysta
af lesni fríðu

himneska sèr
höfuðblæju,
ok í hönd seldi
harra frægum.

167. Varp sèr þá varrdís
af víðum flota,
ok aptr sökkti sèr
í sjávar bylgju,
líkt ok blesönd,
en luktist saman
blásvört bára
yfir bjartrar höfði.

---

168. Hvarf nú í hug mart
horskum tiggja,
Odysseifi,
þeim er ymsu vandist.
Sagði þá siklíngr,
sútum horfinn,
við hjarta sitt
it hugumstóra:

169. "Sè harm harðan!
Hræddr ek gjörumst,
at mèr enn nokkurr
ódauðlegra
glettur of geri,
þars mik gánga bað
af farflota ofan
farlands gyðja".

170. "Munk-at ek horskrar enn
hlýða ráðum,
því ek lángt í braut
land þat eygik,
þar er háleit kvað
hafdjúps vættr
undankomu mèr
auðít mundu".

171. "Mun ek mínum
með móti öðru

ϱ. V, 351-368.

háttum haga,
en hún um mælti.
Heillaráð eitt
mèr til hugar kemr,
þat er sýnu vænst
mèr sýnist vera".

172. "Meðan í hnökkum
haldast megu
timbrstokkar
á traustum flota,
þar vil ek þruma
ok þreyja kyrr,
ok þrautir þola
þolinmóðr".

173. "En er haföldur
hávan flota
leyst hafa í liðu
ok lamit sundr,
þá mun ek til sunds
á sæ leggjast.
Fæk-a ek fángaráð
fundit betra".

174. Meðan í hug hreifði
ok hjarta prúðu
ræsir hinn ráðsvinni
ráðum slíkum:
þá lèt stórsjó einn
stórvirkr Posídon
mikinn upp rísa,
miðgarðs skelfir.

175. Sú var ógurleg
ógnarbára,
voðaleg viðbragðs
ok viðreignar;
hátt slútti holgeyfla,
ok hart fram steyptist,
fleygðist á fylki,
þars hann á flota stóð.

176. Svo sem sáðhrúgum
svipar þurrum

stríðr stormbylr
í straungu veðri,
ok sáðum feykir
sundrlausum
í allar áttir
ymsa vega:
177. Svo sundraði
sævar drottinn
laungum trjám
lagar flota;
en Odysseifr upp
á einn um steig
timbrstokk,
ok honum tvívega reið,
sem reiðmaðr reiðhesti
ríðr fráum.
178. Fór þá konúngr
af klæðum þeim,
er honum góðfús
of gefit hafði
kær Kalypsó,
kostsöm gyðja;
ok um brjóst sèr batt
blæju himneska.
179. Lèt þá lofsæll
á lög fallast
gramr á grúfu,
ok greip til sunds.
Leit þat máttugr
miðgarðs skelfir,
hristi höfuð
ok við hug sinn kvað:
180. "Rekstu nú þannig
við raunir margar
ok hörð harmkvæli
um haf innan,
uns þú fundi náir
fíra mennskra.
Hykk-at ek þik þó
þurfa munu

ϱ. V, 368-390.

hraknínga frýja,
nè hrellínga".
181. At mæltu því
miðgarðs skelfir
á faxprúða
fáka keyrði;
unnir þeir óðu
til Ægistúna,
þar átti djúps drottinn
dýrar hallir.

---

182. Hafði í hyggju
heillaráð enn
sæl Aþena,
Seifi borin:
hepti för allra
annarra vinda,
ok þá hætta bað
ok hvíld taka.
183. Útnyrðíng hvassan
lèt hún á koma,
ok breka braut
fyrir buðlúngi,
at úr hels höndum
ok heljarmeyja
komast kynni
konúngr Odysseifr
róðrarframra
Feaka til.
184. Hèr tvær nætr
tiggi velktist
ok daga tvo
í digrum bárum.
Sá opt fyrir
siklíngs hjarta
aldrtjón öndvert,
opinn bana.
185. En er bjarthödduð
of birtast lèt

dagsbrúnar dís
dag enn þriðja:
þá Hræsvelgr
hætti blástrum,
ok vindlaust varð
á víði logn.

186. Lyptist hátt lofðúngr
á lognöldu,
horfði hilmir fram,
hvesti sjónir.
Sá þá siklíngr
sèr nærri land;
þá varð frægs fylkis
fegit hjarta.

187. Svo verða fegnir
ef faðir lifnar
við úr sárri sótt,
synir úngir;
því þjáníng hafði
þolat harða,
sárr ok sjúkr
í sæng legit.

188. Leingi hann kramdist
því hann kvalinn var
af meinvætti
meginrömmum.
Sárfeginn verðr
hinn sjúki maðr,
þá hann fári frá
frelsa guðir.

189. Eins varð feginn,
þá er fagrlima
ok landjörð leit
lofðúngr Odysseifr.
Svam þá at landi,
því hann lystr var
fætr at festa
á föstu láði.

190. En er ströndu svo
stillir nálgaðist,
at hljóð í land
heyrast mátti:
þá heyrði hilmir
hátt við kletta
drafnar drynja
dunur þúngar.

191. Brakaði brimalda,
ok brunandi gaus
(þat var ógurlegt)
upp á grundu.
Undirlendi allt
enda millum
saltri sveipaðist
sjávar froðu.

192. Voru-t hafnir hèr,
hollar viggjum,
nè lognmildir
leguvogar;
lágu útskagar
við opnu hafi,
klettar klúngróttir
ok klapparnef.

193. Þá meginmóðgum
magnþrota varð
hnè ok hjarta
hölda stýri;
ok siklíngr
sáru brjósti
kvað við hjarta sitt
it hugumstóra:

194. "Vesall em ek leiks,
er mèr í landsýn þessa
allvaldr upphimins
óvænt of kom,
ok at einn hefik
til enda þenna
græðis djúpan geim
gegnum ristan:"

195. "Með því hvergi hèr
er hægr kostr

ϱ. V, 390-410.

landtöku greiðrar
af græði utan,
því klúngr kletta
ok klakkar hvassir
hèðan hvervetna
til hafs skaga".

196. "Gnýr brimbára
fyri barði jarðar,
mænir í lopt upp
meitilstapi;
er marbeðjum með
mikit dýpi,
hvergi fótfesta,
nè frelsis von".

197. "Em ek uggandi,
ef ek uppgaungu hèr
á land leita'k,
at mik lá hremmi,
ok á hamraberg
hátt upp reki,
verði svo til ónýts
áræði mitt".

198. "En ef ek leingra fram
með landi sveima'k
í leit landtöku,
ef ek líta mætta'k
strendr aflendar
í stað nokkrum,
vík eða vog
af víði gánga:"

199. "Þá er háska von
á hendr tvær:
at mik ótt jel
æðivinda
aptr reki
út á reginhaf
nýrra nauða til
ok norna dóms;"

200. "Eða stórfiski nokkrum
stefni úr djúpi
einhver meinvættr,
mèr at grandi,
af þeim óskepnum,
er í unnum fræg
elr ærna fjöld
Amfitríta.
því ek veit víst,
at vill mik feigan
mætti margstuddr
miðgarðs skelfir".

201. Meðan hreifði í hug
ok hjarta prúðu
ráðagerð þessi
ríkr skati:
þá reis at ræsi
reginbára,
ok keyrði at ókærri
kletta ströndu.

202. Þar hefði mildíngr
fyrir meiðslum orðit,
ok brotnað beina hvat
í buðlúngi:
ef ei hefði Aþena
hin augumglæja
honum hollt ráð
í huga lagit.

203. Bar nú gram bára
upp at bröttum kletti;
hremmdi bjarg hilmir
höndum báðum,
ok við ofraun ærna
uns ólags bylgja
fram hjá fór,
sèr föstum hèlt.

204. Þannig frá þeim sjó
þeingill um bargst;
en með útsogs
aptrkasti
skall á skata
skelfíngar bára,

ϱ. V, 410-431.

ok lofðúng laust
lángt út á sjó.

205. Svo sem mikil mergð
malarsteina
á klóm kolkrabba
ok körtum loðir,
þá er hann, dreginn
úr dimmri holu,
öllum aungum
af afli beitir:

206. Svo hrufluðust
á hraunklettum
hilmi harðmóðgum
hendr djarfar;
ok þá luktist
yfir lofðúngs höfði
(meiddr var mæríngr)
meginbára.

207. Þar hefði ósæll
Odysseifr
um örlög fram
andrán beðit,
ef ei hyggit vit
hefði lagit
glóeyg gyðja
í grams brjósti.

208. Nú sem öðlíngi
skaut upp úr kafi,
svam hann atgætinn
á útborða við
löðr lágarða,
er at landi fèllu,
ok inn til lands
augum renndi.

209. Hugði at hilmir,
horfði til augum,
ef hann á landi
líta knætti
unnar afhvarf
einhverstaðar,

ϱ. V, 431-449.

strönd aflenda
í stað nokkrum.

210. Þar fleytti á ein
einhverstaðar
at flæði fram
fögru vatni.
Upp at ósi þeim
öðlíngr svam;
leizt þar landtaka
lofðúngi bezt.

211. Þar var hamralaust
hauðr fyrir,
ok hlè haglegt
fyrir hvèrjum gusti.
Varð varr hilmir
vatns rennanda,
ok í brjósti sèr
baðst svo fyrir:

212. "Heyr mik, lávarðr,
hverr sem þú ert!
Heita margir menn
á miskunn þína.
Kem ek af hafi,
híngat flúinn
fyrir hafsdrottins
heiptarorðum".

213. "Sjá aumr á
ýta hverjum
einnig ódauðleg
upphimins goð,
ef þeir hraktir
ok hrjáðir koma
til þeirra í nauðum,
sem ek nú til þín".

214. "Kem ek lítt staddr
at straumi þínum,
kem ek kostalauss
til knjá þinna.
Mart hefir mein
mik um ángrat,

ok marga þraut
ek þolat hefk.
Mèr, minn lávarðr,
miskunna þú,
þikkjumst ek þurfi
þinnar hjálpar".

215. Bað svo fylkir,
en fljótsguð bráðla
stöðvaði straum sinn,
stillti bylgju,
gerði logn lásléttt
fyri lofðúngi
ok öðlíngi heilum
upp í árgrunn kom.

216. Beygði buðlúngr
bæði sín knè,
beygði buðlúngr
báðar hendr.
Sárt var siklíngs negg
af sjávar volki,
var þeingils líkamr
þrútinn allr.

217. Mikill rann marr
af munni ok nösum
ítrum öðlíngi,
ok hann í ómegin hnè:
lá hann mállauss,
magni sneiddr,
lá hann andalauss,
orku numinn.

218. En er andrúms
varð aptr kostr,
ok fjör fylki
færðist í brjóst
þá leysti buðlúngr
af bríngu sèr
gyðju hvítrar
höfuðblæju.

219. Lèt lofðúngr
ljósa blæju

ϱ. V, 449-469.

í fljót falla,
er til flæðar rann;
ok höfuðband
hvítrar gyðju
flutti forstreymis
fallhörð bára.

220. Tók hratt háleit
með höndum sínum
Ínó við ítrum
ennidúki.
En framlyndr fylkir
upp frá fljóti gekk,
ok sorgmóðr
í sefi lagðist.
Þar kysti konúngr
kornfrjóva jörð.

221. Ok siklíngr
sárum huga
kvað við hjarta sitt
it hugumstóra:
"Sè harm harðan!
Hvat mun þá loks
af bölmóðum mèr
manni verða?"

222. "Illt er at vaka
úti á nóttu
(fátt segir af einum)
hèr á fljótsbakka;
ervitt mèr gerist
um andardrátt:
illt var aungvit,
þat er ek áðan hafða'k".

223. "Óttumst ek,
at mik yfir þirmi
næm nátthèla
ok nöpr dögg;
því fljóti frá
fyrir óttu
andar úrsvöl
eitrnepja".

224. "Hitt er ráð annat
at ek á hollt upp gángi,
ok dvalar drýgi
í dimmum skógi;
mætta'k þar þá
í þèttum runnum
niðr leggjast
ok náðir taka".

225. "Ef ek svefn mætta'k
sætan fánga,
lúa leystr frá
ok leiðum kulda.
Óttumst ek þó þá,
at ek þar verði
villidýrum
at veiðifángi".

226. Nú sem hilmir þar
hug um leiddi,
fann þat fángaráð
fylkir of bezt:
til skógar gánga,
en hann skamma leið
upp frá vatni var
á víðsýnum hól.

227. Voru hríslur tvær
á hollti þvísa
upp um vaxnar
í einu saman,
viðsmjörsviðar björk
ok villismjörs trè.
Inn í runna þá
nam ræsir gánga.

228. Mátti ei þeirra
milli blása
þítt þjótandi
þeyvinda megn,
nè álfröðull
þar inn á meðal
skært skínandi
skjóta geislum.

ϱ. V, 470-489.

229. Nè regnhríðir
gegnum runna þá
þèttum skúrum
þreyngja knáttu;
svo voru á víxl
vaxnir saman
ok þètt samgrónir
þessir runnar.

230. Hèr kraup inn undir
Odysseifr,
hilmir harmsleginn,
hríslur þessar.
Sópaði sèr
með sínum höndum
buðlúngr bóli
breiðu saman.

231. Þar var á láði
laufbíngr stórr,
svo at vel máttu
á vetrar degi,
hversu hart sem var,
í hrúgu þeirri
skatnar tveir hafa
skýli, eða þrír.

232. Glaðr varð buðlúngr,
er hann þann bólstað sá
ítr Odysseifr,
sá er ángri vandist.
Lagðist lofðúngr
í laufbíng miðjan,
ok blöð yfir sik
breiddi fallin.

233. Svo til at mynda
sem maðr hylr
brand brennanda
í blakkri ösku
akrjarðar á
yzta jaðri,
einbúi, öðrum
ýtum fjarri.

234. Geymir sèr þar gumi
glóðar neista,
at ei þurfi til annars manns
eld at sækja.
Í mynd mælta
mildíngr breiddi
á sik ofan lauf
Odysseifr.

235. Þá lèt Aþena
öðlíngi þjáðum
sætan síga
svefn á augu.
Breiddi sik blundr
á brár þjóðkonúngs,
ok líkams skjótt
lúa eyddi.

# SJÖTTA KVIÐA.

ÞANNIG hilmir hèr
hvíldi sofinn,
ítr Odysseifr
sá er ymsu vandist,
lofðúngr lèmagna
af líkams þreytu,
mildíngr máttvana
mjúkum svefni.

2. En augnskær Aþena
til aðalbygða
Feaka fór
ok frægrar borgar.
Þeir bjuggu bragnar
breiðfeldum í
Hýperíu
hálfum fyrri.

3. Sátu seggir þar
samtýnis við
kunnan at ofríki
Kýklópa lýð.
Þeir voru Feökum
framar af afli,
ok illan þeim
ágáng veittu.

4. Brá bygð Feaka
buðlúngr Násíþóus,
ok þegna á braut
þaðan flutti;
setti hann skatna
í Skerey niðr
lángt frá ásælnum
afarmennum.

5. Hlóð hann borgarvegg
borg í kríngum,
ok hús gerði
hölda kindum.
Hann hof goðum
hátimbraði,
ok akrlöndum
út nam skipta.

6. Var nú í myrkheim
mæríngr liðs,
feigð fjötraðr,
farinn laungu;
en þá ríki rèð
í ráðsnilli jafn
Alkínóus
uppheims goðum.

7. Til hans hallar
háleit of kom
Aþena, gyðja
hin augumglæja,
ítrum at árna
Odysseifi
heimkomu, hilmi
enum hugumstóra.

8. Ok gyðja gekk
at glæsilegum
svefnhúss-sal,
en þar svaf inni
mæt Násíka,
borin mæríngi
Alkínóus
enum ítrsnjalla.

9. Var hún at vexti
ok vænleik jöfn
ódauðlegum
uppheims gyðjum.
Tvær henni hjá
hvíldu salkonur,
sínu megin hvor
við herbergis staf.

10. Þær höfðu þegit
af Þokkagyðjum
fegrð alla
ok fríðleik gjörstan.
Voru glæsilegar
á grams dóttur
herbergis-sal
hurðir læstar.

11. Leið ljúf gyðja
at legurúmi
vænnar meyjar,
sem vindgola;
staðar nam
yfir stillis dóttur
horskrar höfði,
ok hana kvaddi.

ρ. VI, 13-32.

12. Þá var í líki
lofsæl gyðja
dóttur Dýmants
hins dáðumrakka;
sú var jafnaldra
jöfurs dóttur
ok hilmis jóði
en hugþekkasta.

13. Í þeirrar líki
þeingils meyju
kvaddi Aþena
hin augumglæja:

14. "Hví þik, Násíka,
nýt móðir ól
hyskna svo
ok hirðulausa?
Liggja klæði þín
hin kostulegu
óhrein, án allrar
umhirðíngar".

15. "Brátt eru brullaups
þèr búnar vonir.
Þá skaltu, björt brúðr,
búast um vel;
þá skaltu klæði
kostuleg fá
beimum, er á braut þik
leiða til brúðguma".

16. "Þar af, mær, muntu,
mildíngs dóttir,
gott orð geta
hjá gumna fjöld;
þar af mun gleðjast
góðr faðir,
ok heiðvirð móðir þín
at hófi sama".

17. "Förum til lauga,
þegar lýsa tekr;
fara skal ek með
ok þèr fylgi veita,

at þú brátt búin,
brúðr verðir.
Munt-attu leingi
mær ógefin".
18. "Því nú þín biðja
í þessu landi
halir ágæztir
allra Feaka;
er ok ætt þín
ok eðli hèr
ítrast ok ágæzt
allra manna".
19. "Bið þú á morgun
mætan föður,
fríð fylkis mær,
at hann fái þèr
vagn ok múla,
at þú vega megir
linda til laugar,
lín ok möttla".
20. "Er ok sjálfri þèr
sæmra miklu,
at þú farir svo
ferðar þinnar,
en at á fæti
farir þinnig,
því lángt er til lauga,
lín gulls, hèðan".
21. Sveif sæl á braut
at svo mæltu
Aþena, gyðja
hin augumglæja
upp til Ólymps,
þar er uppheims goða
bústað eilífan
bragnar kveða.
22. Verða-t ve þau
vindum skekin,
regni slegin,
nè snævi drifin;
hverfr um utan
alla vega
skírr skatyrnir
skýjum efri,
ok leikr ljóss yfir
ljóma bjarmi.
23. Þar gamna sèr
guðir sælir,
ok yndis njóta
alla daga.
Þángat Glóeyg gekk,
er við grams dóttur
hafði holl gyðja
hagat málum.

---

24. Kom brátt, akandi
kerru dýrri,
mær Morginskæra,
ok af mjúkum svefni
vakti Násíku,
námdúks hildi.
Undraðist dýr drós
drauma sína.
25. Hljóp hilmis mær
um hallar sali
foreldrum sínum
frá at inna,
móður mætri
ok mærum föður,
því er í drauma
hafði dýrri borizt.
26. Fann björt brúðr
bæði heima.
Sat at arni
í sal hávum
þeingils rúna
með þjónustumeyjum;
spann hárautt band
hilmis brúðr.

27. Mætti mildíngs jóð
miðrar brautar
sínum föður,
er hann úr sal of gekk.
Kallat höfðu hann
á höfðíngja fund
frægir Feakar
til fremdar ráða.
28. Gekk konúngs dóttir
at kærum föður,
ok þeim orðum nam
á hann verpa:
29. "Muntu, at mínum
munum, vilja,
faðir, hvelvagn mèr
hávan búa,
at fram at fljóti
flytja mega'k
klæði þau, er hrein lítt
heima liggja?"
30. "Hæfir höfðíngja
höfuðborgar
klæði sjáleg
á sjálfum bera,
þá er ríkstum með
ríkismönnum
ráðum ræðr
á ríkisfundi".
31. "Áttu ok sonu fimm
í sölum þínum;
eru af þeim tveir
eiginkvæntir;
ókvæntir eru enn
aðrir þrír,
úngir efnismenn
á aldri bezta".
32. "Þeir vilja ávallt
úngir fírar
hrein klæði hafa,
hála þvegin,
er þá hríngdanz
heyja lystir.
Öll slíks á mèr
önn um liggr".
33. Mælti svo munarfús
mildíngs dóttir;
fyrirvarð fríð sik
við föður nefna
fegins-giptíngu,
en grunum leiddi
fylkir atvik öll,
ok við ítra mælti:
34. "Hvorki meina'k þèr
múla, dóttir,
nè hlut annan,
er þik hafa lystir.
Far þú! þèr skulu
þjónar búa
hvelvagn hávan
með hæfum laupi".
35. Mælti þeingill þat,
ok á þjóna kallaði,
en þeir buðlúngi
bráðla gegndu:
hallar utan
hvelvagn bjuggu
vendu at múlum,
ok fyri vagn beittu.
36. Bar hin horska
hilmis dóttir
klæði glæsileg
út úr geymslusal,
ok á velskafinn
vagn um lagði.
37. En móðir meyjar
mat alls konar
kom í skrín eitt
kostulegum,
sufl í lèt,
ok sætu víni

ϱ. VI, 53-77.

á geitbelg
gerði hella.
38. En er væn mær var
á vagn upp stigin,
fèkk henni móðir
flösku gullna
viðsmjöri með
vatni blöndnu,
at þeingils dóttir
ok þernur hennar
smyrði líkam sinn
at laugar teknar.
39. En siklíngs mær
svipu of tók,
ok glæsilega
greip um tauma;
keyrði til hlaups,
en þá heyra mátti
hávan hlym hlymja
hófskúaðra.
40. Þrömmuðu þrálega
þolnir múlar,
klæði drógu
ok döglíngs meyju.
Var-at öðlíngs mær
ein í sinni,
fóru þernur með
fótgángandi.

---

41. Kom þeingils dóttir
ok þjónustumeyjar
fagr-rennanda
fljótsstraumi at.
Þar voru lystugar
laugardælir
ár bakka á,
er aldrei þurru;
þar fagrs vatns
flóðu gnóttir;
ρ. IV, 78-99.

þar þvo mátti
þvott vergastan.
42. Þjónustumeyjar
múlhryssur þar
frá hvelvagni
horskar leystu,
ok fram ráku
með fljóti straungu,
þar er gnótt var góðs
grass, at bíta.
43. Hófu með höndum
af hvelvagni
ok klæði báru
niðr í kolblátt vatn.
Ok drósir þvott
í dælum tróðu,
kapps kostuðu,
karskar voru.
44. En er þvott þvætt
ok þvegit höfðu,
ok öll burt numit
óhreinindi,
breiddu þær fáguð föt
í flæðarmáli,
þar er marr þó
möl við bakka.
45. Þá lauks lofnir
laugar tóku,
ok smurðust viðsmjörs
viðar feiti;
kveldverð því næst
kátar námu
freyjur falda
fljótsbökkum á:
biðu þess, at þvegin
klæði þornuðu
svinnar í sólskini
seima þellur.
46. En sem af mat
mettar voru

þeingils dóttir
ok þernur hennar,
urpu þær af höfðum sèr
höfuðdúkum,
ok knattleik lèku
við lagar strauma.
Ok Násíka
nam upp hefja,
hrund hvítörmuð,
hnattleik fagran.

47. Svo bar af öllum
ógefin mær,
þýð þeingils dóttir
þernum öðrum,
svo sem Artemis
hin örum-glaða,
þá er hún ofan ferr
af fjallshrygg víðum.

48. Ferr leikandi
lofsæl gyðja
at skjótum hjartkollum
ok skæðum göltum
á Taygets
tindum hávum,
eða Erýmants
upp á hæðum.

49. Fylgja landvættir,
ok leik um heyja,
Seifi alnar
ægisskjalda,
með veglegri
veiðigyðju;
verðr Letó þá
lètt um hjarta.

50. Hefir horsk Artemis
höfuð yfir
ok enni hátt
allar vættir;
auðkennd er,
þó at allar sè,
vegleg veiðidís,
vænar aðrar.

51. Svo bar af öllum
öðlíngs dóttir,
mær ógefin
öðrum þernum.

52. En er lánga tók
lofðúngs meyju
sjáleg klæði
saman brjóta,
múlum vökrum
fyrir vagn beita,
ok heim halda
til hallar aptr:

53. þá af hyggjandi
heillaráð fann
Aþena, gyðja
hin augumglæja,
at ítrborinn
Odysseifr
blundstöfum brygði,
bjarta mey liti,
ok at björt mær
buðlúngi veg
til frægra vísaði
borgar Feaka.

54. Knetti kastaði
konúngs dóttir
at þernu einni,
ok þeirrar misti.
Stökk hnöttr á hyl,
en hræddar þýjar
hljóðuðu hátt upp.
Hrökk þá af svefni
Odysseifr upp,
jaðarr öðlínga,
lofðúngr lèmagna
í laufbíngi.

55. Settist upp siklíngr
ok í sínu hreifði

ϱ. VI, 99-118.

hugsun hjarta
ok hug slíkri:
56. "Sè harm harðan!
Hverra manna
em ek ættjörð á
aptr kominn?
Munu verar vera
villimenn þeir,
ofstopa fullir
ok órèttvísi:
eða gestrisnir
við gumna þjóð,
ok í hug hræddir
við himins búa?"
57. "Bar fyrir eyru mèr
blíða raust meyja,
líka rödd landvætta,
er hjá lindum vatna
ok á bröttum búa
bjarga tindum,
ok una grösugum
eingja teigum".
58. "Mun ek nokkut
í nánd vera
mæltum mönnum
fyrir mold ofan?
Heill svo, heill svo,
vil ek hèðan gánga,
sjálfr reyna
ok sjá gjörva".
59. At mæltu því
mildíngr kraup
Odysseifr út
úr eikarunni;
ok með þrekinni
úr þykkum skógi
hendi hríslu braut
hilmir nakinn,
karlmanns skapnaði
at skýla sínum.
ρ. VI, 118-139.

60. Fór af stað fylkir,
líkr fjalla ljóni,
óarga dýri,
því er á afl sitt trúir,
ok hart hleypr
hreggi slegit,
vindi skekit
ok veðrbarit,
brenna því blys hvarma
und brúna hvolfum.
61. Leitar ljón uxa,
leitar sauða,
leitar hjartkollna
á heiðar vángi;
þrýstir sárr sultr
soltnum vargi
inn í læst fjárhús
leita bráðar.
62. Svo varð Odysseifr
ógnsnarr leita,
en þótt klæðlauss
konúngr væri,
á fund fljóða
fagrlokkaðra;
þrýsti þörf brýn
þeingli horskum.
63. Ógrligr þeim
í augum varð
siklíngr, sjávar
seltu sleginn.
Urðu at gjalti
góðhjörtuð fljóð,
hrædd hörfuðu
híngat ok þángat
á annes út
við ægis ströndu.
64. Nema ein Násíka,
niflúngs dóttir
Alkínóus,
var eptir kyr;

því hugar djörfúng
hafði Aþena
blíðri buðlúngs mey
í brjóst um lagit,
ok hræðslu hverja
frá horskri numit:
stóð gagnvart stilli
stillt jöfurs mær.

65. Þá var á áttum tveim
Odysseifr um þat,
hvort hann knèfánga
konúngs dóttur,
ok svo bjarta mey
biðja skyldi;
eða áleingdar,
þaðan er öðlíngr stóð,
brúði biðja
blíðum orðum,
at sèr grams jóð
gæfi klæði
ok veg vísaði
til virða borgar.

66. Nú sem hilmir þar
hug um leiddi,
leizt ríkum ræsi
ráðlegast þat:
brúði bjarta
blíðum orðum
áleingdar biðja,
þaðan er öðlíngr stóð,
at hann geð gremdi-t
góðrar meyjar,
ef um knè tæki
konúngs dóttur.

67. Kvaddi þá konúngr
kænum orðum
ok mjúku máli
mildíngs dóttur:
"Lýt ek þèr, lafði,
líkna þú mèr,
hvort sem guða ert
eða gumna ættar!"

68. "Ef þú gyðja ert,
goða ættar,
þeirra er víðbláin
víðan byggja,
álíkust þú ert
í augum mínum,
at vexti ok vænleik
ok vaxtar prýði,
ítri Artemis,
óskmeyju Seifs".

69. "En ef ert þú
af ættum komin
mennskra manna,
þeirra er miðgarð byggja,
þá er þrísæll
sá er þik um gat,
þá er þrísæl
sú er þik um ól,
þá eru þrísælir
þínir bræðr".

70. "Muntu ávallt
unaðs mikils
ok fagnaðar fá
frænda hjörtum,
er ættkvist
svo afbragðs fríðan
líta í túni
teitir vaxa".

71. "Þó er fíra sá
fullsælastr
ok giptumestr
guma á foldu,
er þik heim getr
til húss leiða,
ok með brúðgjöfum
beztum vinna".

72. "Því aldreigi hefir ek
augum mínum

ϱ. VI, 139-160.

slíkan lítið
lýða nokkurn,
hvorki meyjar mög,
nè manns konu.
Stórum undrumst ek,
er ek á þik horfi".

73. "Sá ek í Deley
á dögum fyrrum,
nálægt Appolons
ítrum stalla,
svo prýðilegan
pálmviðar três
úngan afspríng
úr jörð of sprottinn".

74. "Bar mik eitt sinn
at bygðum þeima,
ok mèr fylgði fólks
fjöldi mikill.
Þat var í þeirri,
at þrautir harðar
auðit mèr varð
í at rata".

75. "Eins var í þat sinn,
er ek þann kvist sá,
at ek á hann starði
með undrun leingi;
því enn hefir aldrei
úr Ýmis holdi
viðarteinúngr
vaxit slíkr".

76. "Svo ek með undrun
á þik horfi,
armbaugs þella,
ok at þèr dáist.
Firnum firrumst ek
ok fyrirverð mik,
knè þín biðjandi
bljúgt at faðma.
Hefir harðr mik
harmr sóttan".

ϱ. VI, 161-180.

77. "Hraktist ek híngat
(hart var ek leikinn)
daga tuttugu
yfir dimmblátt haf.
Frá Ógýgsey
alla þá stund
bára mik bar
ok bylir snarir".

78. "En í gærdag mèr
gagnholl nokkur
hèr á hauðr upp
hjálpvættr varp.
Munu mein fleiri
mín hèr bíða;
hykk-at ek harma
hèr við lenda;
búa guðir mèr
græti at fleiri".

79. "Líkna mèr, lafði,
lángþjáðr ek emk,
hefi ek mjök marga
mannraun þolat.
Þik fèkk ek fyrsta
fíra mennskra
híngat kominn hitt
á hauðri þvísa;
nè ek þessa lands,
nè þessa bygða
sèð hefk annan einn
innbyggenda".

80. "Virzt mèr vísa þú
veg til borgar;
veit mèr verju nokkra,
at ek varpi of mik,
af þeim umbúðum,
er utan um klæði
heiman hafðir þú,
þá er híngat komt".

81. "En þèr gefi guðir
gott hvatvetna,

þess er æskir þú
þèr í huga:
veiti ver þèr,
veiti hús þèr,
veiti holla þèr
hjúskapar sátt!"

82. "Því ekki fær yndis
annat meira,
nè bætir betr hag
börnum fíra,
en þá verr ok víf
í væru ranni
sefa samlyndum
saman búa".

83. "Sút er óvinum
sáttir hjóna,
samfarir góðar
gleðja vini;
þar af þau sjálf
þó hafa bezt:
sátt ok samlyndi
er sæld hjóna".

84. Nam Násíka
niflúngs orðum,
svanni svanhvítr,
svör at inna:
"Ert-attu, gestr,
eðlum horfinn,
nè grannvitrum
gumum líkr".

85. "Veitir sjálfr Seifr,
siklíngr himins,
hverjum manni
sitt hamíngjulán:
rekkum óríkum,
sem ríkum, hann veitir
sitt lán sèrhverjum
at sínum vilja".

86. "Af hans þú hefir
hendi þenna
hlutskamt hlotið,
er þú hafa knátt;
áttu böl bera,
uns böli linnir:
allt illt um síð
enda tekr".

87. "En með því þik hefir
til þessa lands
ok beint borit
til bygða vorra:
skal hvorki þik
skorta klæði,
nè hluti aðra,
er þú hafa þarft.
Sæmir-a rekkum,
er í raunum hittast,
bjargar þurfum
beina synja".

88. "Vísa vil ek þèr
veg til borgar,
ok þjóðar heiti
þar með inna:
Feakar heita,
þeir er fold verja
ok í bygð hèr
búum ráða".

89. "En ek dóttir emk
dróttar stýris,
hugar eiganda
Alkínóus;
sá Feaka
fylkir ræðr
fastri fold
ok fólkum stýrir".

90. Svo kvað siðföst
siklíngs dóttir,
ok á hrundir hèt
hörvi glæstar:

91. "Hvert flýit þèr,
hræddar þýjar

ϱ. VI, 181-199.

(hlaupit hvergi brott!),
fyrir hal þeima?
Ei skulut ætla
at einhverr sè
af drótt dólgmanna
dreingr þessi".
92. "Er-a fæddr sá
á fjörgynju
fíra nokkurr,
nè fæðast mun,
sá er híngat nái
á hauðr komast,
Feaka foldar
friði at spilla;
því at verar þar
eru vinir kærir
ódauðlegra
uppheims goða".
93. "Búum vèr hinzt
und heims jaðri,
gyrðir brimsollnu
belti jarðar,
fólkum fjarri,
nè fíra nokkurr
híngat kemr,
oss heim at sækja".
94. "Nú er halr sjá,
hlaðinn raunum,
híngat kominn
af hrakníngi.
Hann er hjálpþurfi,
en oss hjúkra ber
naðels boða,
þann er nauð um stendr".
95. "Því at farandi gestir
ok fátækir menn
undir eiði Seifs
allir standa.
Ljúf er gjöf lángþurfum,
þótt lítil sè,
verðr opt litlu
vesall feginn".
96. "Gefit mat ok drykk
manni komnum
(þörf er honum þess),
þjónustumeyjar!
Laugit mæddan mann
í móðu straumi,
þar sem afdrep er
undan vindi".
97. Þat kvað þeingils jóð.
Þernur við stóðu,
ok hèt hver
hvatt á aðra.
Báðu Odysseif
í afdrep setjast,
svo sem bjarthödduð
um boðit hafði
nýt Násíka,
niflúngs dóttir,
Alkínóus
hins ítrsnjalla.
98. Lögðu hjá horskum
hilmi kyrtil
ok yfirhöfn,
í at fara,
feingu fylki
flösku gullna
með viðsmjörvi
vatni blöndnu.
99. Laugast láta
lofðúng báðu
fagrrennanda
í fljóts straumi.
Þá kvað ágætr
Odysseifr,
ok við ambáttir
orð nam mæla:
100. "Farit frá, þernur,
svo fjarri nokkut,

ϱ. VI, 200-218.

at ek af herðum mèr
hèlu þvoak
salta sjávar,
ok síðan mik
allan smyrja'k
með smjörvi viðar;
því hörund mitt
harla leingi
smyrslum eingum
hefir smurt verit".

101. "En yðr ásjándum
ek eigi munk
laugast láta;
því at lofna gulls
blygðumst ek mjök
bjarthaddaðra
nökkviðr standa
návistum í".

102. Þat kvað þeingill,
en þernur geingu
burt frá buðlúngi,
ok brúði sögðu.
En Odysseifr
hinn ítrsnjalli
líkam sinn þó
úr lagar straumi.

103. Þó sjávar seltu
siklíngr gjörva
brott af baki sèr
ok breiðum herðum;
strauk ríkr stillir
stemda leingi
hèlu hafs
af höfði sèr.

104. En er sik öðlíngr
hafði alþvegit
ok smurt viðsmjörs
viðar feiti,
fór hann í föt þau,
er honum feingit hafði
mildíngs dóttir,
mær ógefin.

105. Þá lèt Aþena,
alin Seifi,
veglegan verða
vísi snjallan:
gerði hún siklíng
sýnu hærra
ok hóti þreknara
und hendi at sjá;
lèt af skör skilfíngs
skarar lokka
hrokkna, hrafnblá,
hrynja niðr.

106. Fegrð frábærri
sveip fíra gætis
höfuð ok herðar
háleit gyðja:
sem þá er eldrauðum
ægis ljóma
hjúpar hvítt silfr
hugvitsmaðr.

107. Sá er af Hefasti
hefir numit
ok margfróðri Aþenu
mentir ófár,
íþrótt alls konar,
allar listir,
ok á gjörva hönd leggr
gersema smíð.

108. Sveif brott siklíngr
ok settist niðr
sýnu fjarri
á sjávar ströndu.
Fegrð frábærri
fylkir ljómaði.
Varð starsýnt mjök
stillis dóttur.

109. Ok buðlúngs mær
bjarthaddat man

ϱ. VI, 218-238.

ítr orðum þeim
á nam verpa:
"Heyrit, hússmeyjar
hvítarmaðar,
mun ek mál eitt
af munni rekja".
110. "Er-at at óvilja
allra goða,
þeirra er víðbláin
víðan byggja,
at gumi sjá á grund
goðumlíkra
híngat Feaka
hrakinn of komst".
111. "Áðr þótti mèr
at áliti
mjök ómætr
sá maðr vera;
nú er sá guðum gumi
of glíkr orðinn,
þeim er víðbláin
víðan byggja".
112. "Óska munda'k,
at mann slíkan
at áliti ætta'k
örmum verja:
ok at á ey þessi
hann ætti bygðir,
ok ávallt hèr
yndi lífi".
113. "Gefit nú mat ok drykk
manni komnum
(þörf er honum þess),
þjónustumeyjar!"
114. Svo kvað siklíngs jóð,
en salkonur hlýddu,
ok boðum brúðar
bráðla gegndu.
Ok mat ok drykk
meyjar prúðar
fyrir Odysseif
ítran settu.
115. Neytti drjúgt drykkjar,
neytti drjúgum matar
Odysseifr,
sá er ymsu vandist.
Naut freklega
fylkir verðar,
því at matar mist
hafði mjök leingi.

---

116. En Násíka,
niflúngs dóttir,
á annat hugði,
hvítörmuð mær:
hún saman braut
sjáleg klæði,
ok upp í fagran
farvagn of lèt.
117. Hún múlhryssum
hófasterkum
fyrir beitti,
ok á farvagn steig.
Hèt á Odysseif
öðlíngs dóttir,
upp hóf erindi,
ok þat orð um kvað:
118. "Rístu nú, gestr,
ok gákk til borgar,
skal ek fylgja þèr
til föður míns;
muntu í svinns sjóla
sölum hitta
fíra göfgustu
Feaka lýðs".
119. "Skaltu haga svo
háttum þínum,
ok svo förum fara,
sem ek fyrir mæli.

ϱ. VI, 238-258.

Ert-attu ósnotr
at áliti mínu,
sýnist mèr þú svinnr
í sefa vera".
120. "Meðan ökum vèr
um akra grundir,
þar er andvirki
ýta standa,
þá skaltu þramma
með þjónustumeyjum,
ok eptir múlvagni
mínum gánga".
121. "Ek skal fyrir fara
ok ferðum ráða,
uns vèr höfuðborg
háva nálgumst.
Sú er ræsis borg
reistum turnum
horfin hvervetna
ok hávum veggjum".
122. "Hverfa fagrir inn
hafnarvogar;
hvorstveggja megin
höfuðborgar;
liggr mjór þar
milli voga
vegr at veglegu
vísis setri".
123. "Standa veg þann við
á váng upp dregin
beit borðróin,
beggja vegna;
því halr á sèr hverr
höfuðborgar
nausthús nokkurt
á nánum ströndum".
124. "Þar er þíngstöð
þegna borgar
hof umhverfis
hafs lávarðar,
garði gyrð
af gneggjum foldar,
steinum jarðföstum
ok stórgrýti".
125. "Þar farvið allan
fyrðar smíða
svartfágaðra
siglu dýra,
snúa landfestar,
gera lauka voðir,
árar telgja,
öldu sveipa".
126. "Fá-at Feökum
fyrirhyggju
örva malir,
nè álmbogar;
er þeim um árar annt
öldu jóa,
hátrè húna
ok haffær skip:
því halir hróðugir
hlunndýrum á
bleikhaddaðar
bárur skeiða".
127. "Nú vil ek firrast
fíra þeirra
(er mjök áleitin
alþjóð manna)
gems ok gautun,
at guma eingi
illt mèr á síðan
álas veiti".
128. "Því ef maðr mèr
mætir nokkurr,
þá er ek heim hèðan
til hallar ekk,
lastmálasamr
ok af lægri stigum,
orðum mun við mik
mæla þessum:"

129. "Hverr er verr hinn væni
ok vöxtulegi,
er nú fylgir Násíku,
gestr nýkominn?
Hvar hefir hrund þann
hal of fundit?
Sá mun víst verr hennar
verða síðarr".

130. "Annathvort hefir hún
hal útlendan
hrakinn heim með sèr
frá hafskipi flutt;
því hèr mun öðlíngs jóð
eingan finna
hal sèr hæfan
heima fyrir:"

131. "Eða hefir híngat
af himni nokkurr
fyrir meyjar bæn
margþráðr guð
ofan stigit,
sá er alla daga
öðlíngs brúði mun
örmum verja".

132. "Sæmra væri sætu
sjálfri gánga
ok ver sèr velja
frá veum öðrum;
því fljóð Feaka
fyrirlítr,
þá er hèr í landi
horskrar biðja,
margir göfgir menn,
mildíngs dóttur".

133. "Þau munu brigzl mèr
bragnar mæla,
þat munu gabb gera
gumnar at mèr".

134. "Hverri annarri
er sèr hagaði líkt,
lofn linnveingis
lá ek munda'k,
ef hún framlega,
án föðurs ráði
ok mætrar móður,
mann of þýddist,
fyrr en fljóðs berlega
fest væri ráð".

135. "En þú gjörla ger,
gestr, heyra
orð þau ek inni,
ok at þeim hygg,
at þú sem fljótast
hjá föður mínum
flutníng fáir heim
ok farar beina".

136. "Muntu allskammt frá
akbraut vorri
fagran finna
fagrlima,
öspum alsettan
Aþenu lund;
rennr lind þar
ljós um grundir
ok eru umhverfis
eingjar fagrar".

137. "Er þar föður míns
eigin-teigr,
ok víngarðr vænn
í vaxtar blóma,
svo frá buðlúngs borg
á brautu kominn,
sem hljóð má heyra,
ef hóat er".

138. "Hèr skaltu setjast,
ok sýna stund
dvalar eiga
í dýrðarlundi,
uns vèr til hárrar
höfuðborgar

ϱ. VI, 276-296.

ok húsa föður míns
erum heim um komnar".
139. "En er þú oss
hefir ætlat stundir,
ok oss hyggr heim
til húsa komnar:
þá skaltu, gestr,
á þik gaungu taka,
ok til borgar Feaka
brautir kanna".
140. "Hèr skaltu fyrir
um föður míns spyrjast
hús, Alkínóus
ins hugumstóra.
Auðkennd þau eru
ýta hverjum,
jafnvel úngbarn má
á þau vísa".
141. "Því allra annarra
inni Feaka
ólík eru,
ok eigi megu
við í samjöfnuð
salir þeirra
atsetr komast
jöfurs Alkínóus".
142. "En er þik herbirgt hafa
húsakynni,
ok þú inn ert geinginn
í öðlíngs höllu,
þá skaltu svífa brátt
sal í gegnum,
uns þú til móður
minnar kemr".
143. "Sitr við súlu
siklíngs rúna
ágæt, at arni
í elds birtu;
spinnr brúnrautt band
bragr kvenna,
fáð í skelfiskjar
fögru blóði,
undrfagrt band
á at líta.
Sitja salkonur
bak við siklíngs brúði".
144. "Hèr stendr hástóll
hilmis fræga
mikill við máleld,
míns of föður;
þar sitr þrifhróðugr
þegna drottinn,
ok drekkr dýrt vín,
sem væri día nokkurr".
145. "Þú skalt fram fara
hjá föður mínum,
ok at móður
minnar rètta
hendr þínar hnjám,
ok hjálpar æsta:
at þú fagnandi
megir fljótt líta
eptir æsktan dag
þinnar aptrkomu,
en þótt lángt sèrt at
úr löndum kominn".
146. "Ef þèr holl hún
í hugum verðr
ok viljuð vel,
vísis rúna:
þá er meiri von,
at munir þú
ástvini þína
ná aptr líta,
ok heim um komast
at húsi þínu,
ættjarðar þinnar
ok óðala til".
147. At mæltu því
múlhryssur sló

ϱ. VI, 296-316.

konúngs dóttir
með keyri fögru;
en þær brátt við brugðu,
ok bráðla hlupu
fljóts straumi frá
fagrrennanda;
vakrt þær runnu
ok vel sik báru,
tóku títt hófa
ok tifuðu fótum.

148. Hèlt taumum haglega
hilmis dóttir,
svo at ambáttir
ok Odysseifr,
er á fæti fóru,
fylgja knættu;
kom hún við kænlega
keyris höggum.

149. Þá seig sæl
sól til viðar,
er þau at ljúfum
lundi komu,
helgum Aþenu.
Hèr nam setjast
öðlínga jaðarr
Odysseifr.

150. Bar bæn fram
buðlúngr frægr
fyrir milda mey
ens mikla Seifs:

151. "Unn mèr áheyrslu
Atrýtóna,
afkvæmi Seifs
ægisskjalda!
Frægra Feaka
lát mik fundi ná,
ok hjá þeim meðaumkun
ok miskunn finna".

152. "Andvörp áðr mín
aldrei heyrðir,
þá er skip mitt
skeldi sundr
máttugr á mar
miðgarðs skelfir,
ok mik hart hrakti.
Heyr mik þó nú!"

153. Þeim bað buðlúngr
bænarorðum,
en úngleg Aþena
heyrði öðlíngs bæn.
Gekk hún þó enn ei
í augsýn sjálf
bragníngs berlega,
því beig of hafði
sínum frægum af
föðurbróður.

154. Því hristir heimskrínglu
hafði megna
á horskum hilmi
heiptarreiði,
Odysseifi,
uns öðlíng gat
loks fót um festan
á föðurjörðu.

ϱ. VI, 316-331.

# SJÖUNDA KVIÐA.

ÞAR baðst þannig fyr,
sá er þrautum vandist,
jaðarr öðlínga,
Odysseifr.
En múlar drógu
meginsterkir
dýrt döglíngs jóð
til dýrrar borgar.
2. En er heim um kom
hilmis dóttir
at dýrs föðurs
dýrri höllu,
lèt farvagn
at forgarðs dyrum
staðar nema
stillis mær.
3. Stóðu um sæla
siklíngs meyju
góðir bræðr,
goðum líkir;
beittu hófdýrum
hvelvagni frá,
ok kostsöm inn
klæði báru.
4. Gekk göfuglát
grams dóttir inn
í herbergi sitt.
En herbergismær
kveykti eld upp
aldri vorpin,
Evrýmedúsa
frá Apíru.
5. Höfðu frá Apíru
hana fyrrum
beit borðróin
brottu flutta,
ok konúngi,
sem kjörgrip, völdu
auðnorn ýtar
Alkínóus.
6. Fyrir þá sök
at Feaka var
öðlíngr allra
yfirþeingill,
ok landslýðr
lofðúngi þeim
gegndi góðum,
sem væri goða nokkurr.
7. Hafði uppfóstrað
aldin kona
nýta Násíku
í niflúngs sölum;
sú nú eld upp
inni kveykti,
ok kveldverð bjó
konúngs dóttur.
8. Bjóst þá buðlúngr
til borgar gánga
Odysseifr;
en Aþena,
holl í hugum
hilmi frægum,
myrkva miklum
yfir mildíng brá.
9. At eingi skyldi,
ef einhverr Feaka
mætti mildíngi
mikillátra,
meinsyrðum móðga
mæríng snjallan,
nè frètta, hvat fíra
fylkir væri.

ϱ. VII, 1-17.

10. En beint er buðlúngr,
af brautu kominn,
inn í fagra borg
feta skyldi,
mætti mildíngi
miðra vega
Aþena, gyðja
hin augumglæja.

11. Þá var mær gyðja
í meyjar líki
vænnar, úngrar,
hèlt á vatnskrukku,
stóð fyri gram,
en stillir frètti
únga, Odysseifr
hinn ítrsnjalli:

12. "Muntu, dóttir, mèr
mega vísa
á hetju hraustrar
húsakynni,
Alkínóus,
er með öðlíngs nafni
þessarrar borgar
þegnum ræðr?"

13. "Emk híngat kominn
hjálpar þurfi,
vanr vobölum,
vesall maðr,
frá landi liggjanda
lángt braut hèðan.
Emk ókunnr
öllum mönnum,
þeim er í borg þessi
bygðir eiga,
ok lands þessa láta
lendur ortar".

14. Orðum hans aptr
annsvör veitti
Aþena, gyðja
hin augumglæja:

ϱ. VII, 18-38.

15. "Vísa vil ek þèr,
þau er þik vita lystir,
gestr sæll
á salakynni;
því at þau liggja
þeygi fjarri
húsum föður míns
hins frægðar kunna".

16. "Haf þú hljótt um þik,
ok halt svo fram;
vil ek veg þèr
vísa á undan.
Þú skalt á eingan
augum vísa,
nè mann in heldr
at máli frètta".

17. "Því leiðir 'ru mönnum
í landi þvísa
gestir ókunnir,
er at garði koma;
fagna-t þeir fírum,
nè fögnuð veita
ýtum atkomnum
frá öðru landi".

18. "Þeir skriðskjótum
skipum treysta,
ok of sjávar geim
sigla víðan;
þat hefir lán lèð
lýði þeima
meginmáttkastr
miðgarðs skelfir;
eru skip skatna
svo skjót á vatni,
sem fugl á flugi
eða firða hugr".

19. At mæltu því
mjök í skyndi
úngleg Aþena
á undan gekk,

en framlyndr
fyrða stýrir
í fótspor gyðju
feta rèð.
20. Nè Feakar,
förum vanir,
varir við urðu,
er vísir of gekk
þar um þvera borg
þeirra meðal;
máttu-a mærir
mann um kenna.
21. Því holl í hugum
háleit gyðja
sjónir villti
virðum snjöllum:
brá Aþena,
bjarthödduð dís,
of höfuð hilmis
helgum myrkva.
22. Undraðist ítr
Odysseifr
lægi lýða
ok lángskip fögr;
dáðist döglíngr
at dýrum torgum
beitnárúnga
í borg miðri.
23. Þat enn öðlíngi
at undri gafst,
veggir lángt lagðir
um lýða borgu,
hárcistir, hávum
horfnir staurum.
Varð stilli starsýnt
á stórvirki þat.
24. En er þau komu
til konúngshúsa
meginfrægra,
maðr ok gyðja,

ϱ. VII, 38-58.

þá upp hóf erindi
ok orð um kvað
Aþena, gyðja
hin augumglæja:
25. "Þetta er þat hús,
er þú mik baðst,
álmtýr atkominn,
þèr á vísa.
Þar muntu döglínga
at dýrri veizlu
sitjendr sjá,
Seifs ástmögu".
26. "Inn þú gákk,
ok vert ófeiminn;
hugr höldum
dugir hvervetna.
Einörðum manni
láta öll verk betr,
en þótt víðum sè
af vegum kominn".
27. "Fyrst skaltu drottníng
dýra hitta,
heitir Areta,
í hallar ranni;
sú er af forellri
sömu borin,
sem alinn er öðlíngr
Alkínóus".
28. "Nýtan átti fyrst
Násíþóus
máttugr Posídon,
miðgarðs skelfir,
prúðlundaðri við
Períbeu;
sú var vör gulls
vænni vífum öðrum".
29. Sú var dýr dís
dóttir ýngsta
Evrýmedons
hugar eiganda;

sá nam alvaldr
ofrhuguðum
Gígöntum ráða
gramr forðum;
glataði hann gjörva
guðlausum lýð,
ok sjálfr fórst
at sama hófi".
30. "Þýddist Posídon
Períbeu,
ok við góðri gat
góðan arfa,
Násíþóus,
nýztan at hug,
sá er Feökum
fylkir stýrði".
31. "Gat Násíþóus
niðja tvo:
einn var Alkínóus,
annarr Rexenor;
þann skaut sonlausan
í sal nýkvæntan
sjálfr Appolon
silfrinbogi".
32. "Lèt Rexenor
at sik látinn
eina dóttur
eptir barna;
sú hèt Areta,
ágæzt kvenna;
hana gekk at eiga
Alkínóus".
33. "Virði hann víf,
svo at víf er ekki
jafnvirt Aretu
á jörð annat,
vífa þeirra,
er und valdi eru
bænda sinna
ok búum ráða".
ϱ. VII, 59-78.

34. "Svo hefir virt víf
verit jafnan,
ok er enn svo,
af innsta þeli,
bæði af eignum
börnum hennar,
ok öðlíngi sjálfum,
Alkínóus".
35. "Virðir landslýðr
ljósa brúði,
ok horfir á hana,
sem helga gyðju;
heilsa drottníngu
hjartaglaðir,
er um stræti stígr
stórrar borgar".
36. "Er-a vant vænni
vísis málu
vitsmuna góðra
ok vitra ráða:
svæfir hún sakar
ok sefa lægir
horskum höldum,
er hún holl reynist".
37. "Ef þèr holl hún
í hugum verðr
ok viljuð vel,
vísis rúna:
þá er von meiri,
at munir þú
ástvini þína
ná aptr líta,
ok heim komast
at húsi þínu,
ættjarðar þinnar
ok óðala til".

---

38. Nú sem Aþena
hin augumglæja

erindi sínu
hafði af lokit,
hvarf hún á braut
yfir hafs auðnir,
ok skildi við Skereyjar
skemtilegt land.

39. Kom mær gyðja
til Maraþons
ok borgar Aþenu
breiðra stræta;
þar glóeyg gyðja
gánga nam
inn í allramlegt
Erekþeifs hof.

40. En Odysseifr
til öðlíngs gekk
aðalhallar
Alkínóus;
mörgu hann hreifði
í huga sèr,
margopt staðar
hann mundi nema,
áðr at yzta kom
eirþröskuldi.

41. Því svo var at sjá
í siklíngs höllu
hugar eiganda
Alkínóus,
sem sæll lýsti
sólar ljómi,
eða skini máni
skírr á nóttu.

42. Geingu eirveggir
at endlaungum sal
allt frá þröskuldi
þeingils hallar,
hvorrar handar til
inn at hússgafli;
var brún umhverfis
af blástáli.

43. Voru gullhurðir
fyrir grams höllu
allramgjörri
at innanverðu;
á eirþröskuldi
ofan stóðu
dyrustafir
af steyptu silfri.

44. Yfir uppi
var ofdyri,
af hvítum gert
handar snjóvi;
en hurðar hríngr
hála glóði
eldrauðum af
ægis ljóma.

45. Til hvorrar handar
hundar voru,
af gulli gervir
ok grá silfri;
þá hafði hunda
með hagleik miklum
ok hyggjuviti
Hefastr gert.

46. Þeir skyldu hundar
hallar gæta
Alkínóus
hins ítrsnjalla.
Grandar-a greyjum þeim
gamals aldr,
grandar-at andrán
alla daga.

47. Stóðu hástólar
strandleingis með
hallar veggi
til handa beggja,
allt frá þröskuldi,
endlángan sal,
ok at hinzta inn
hallar gafli;

ϱ. VII, 78-96.

þar voru dúkar
dýrir breiddir,
vofnir vandlega,
velsmátt unnir,
handbragð haglegt
horskra vífa.
48. Á þeim hástólum
horskir sátu
frægra Feaka
forráðamenn;
matar neyttu,
mungát drukku,
var-a vant gæðíngum
vista gnótta.
49. Stóðu sveinar
á stöllum fögrum,
gulli glóanda
gervir allir;
brunnu blys þeim
björt í höndum:
lýstu log þau
um lángar nætr
veizlu vinnendum
í vísis sölum.
50. Voru fimm tygir
í fylkis höllu
ánauðugra
önnúngsþýja.
Mólu konur þær
á kvern sumar
gulli litkaðan
gróða jarðar.
51. Höfðu vef uppi,
vófu dúka,
brúðir aðrar,
ok band spunnu;
sátu í dýngju
drósir fagrar,
sem laufblöð á ösp
lángvaxinni;

rann út af rifs
reiðiskýjum
viðsmjörs fljótandi
viðar feiti:
var svo voð sú þètt,
er víf um ófu.
52. Svo sem Feakar
fyrðum öllum
hugvit ok handlag
hafa framarr
skjótt skríðandi
skipum at róa
fram um fleybrautir
firna lángar:
53. Svo eru kurteisar
konur þeirra
alls kyns völundar
vefnaði í;
því listir þeim
lèntar hefir
Aþena umfram
aðrar konur,
hannyrðir kunna
harla fagrar,
ok hugvits hafa
haglega gnótt.
54. Þar forgarðs utan
allmikill var
nærr inngángi
eikagarðr,
við stakksvöllu
á vídd átta,
girðr umhverfis
garði víðum.
55. Þar upp eikr
uxu hávar,
bjarkir blómfagrar,
í buðlúngs garði:
þar prúðar perur,
prúðar kjarnhnotir,

ϱ. VII, 96-115.

þar epli uxu
æ glófögr,
ok fíkjur þar
furðu sætar
ok viðmjörs ber
væn of grèru.
56. Ávöxtr eika
aldrei þverrar,
dvínar ei vetr
nè varmt sumar,
því hèr alla stund
ár í gegnum
andar útrænu
allmjúkr blær,
sá er út ávexti
einum klekr,
en aldin annat
gerir alþroska.
57. Þar pera vex,
þá er pera fyrnist,
þar fíkja vex,
þá er fyrnist önnur;
þar epli vex,
þá er annat fellr,
þar vínber vex
á vínber ofan.
58. Hèr í grams garði
er gróðrsettr
vænn víngarðr
með vexti frjóvum.
Þornar þerriflötr
í þeima garði
á slèttri grund
fyri geislum sólar.
59. Saman safna
á sólfleti þeim
berjum þornuðum
þegnar kátir;
ok enn önnur
aðrir fótum
vínber í vínþraung
verkmenn troða.
60. En fyrir framan
flöt þann vaxa
vínmuðlíngar
á viðarkaunglum;
þeirra nokkrir þá
þegar taka
blómi at skjóta,
en blána aðrir.
61. Er í jöfurs garðs
jaðri yzta
grasgarðr, gróinn
grösum vænum;
skína þar skrúðbúnar
í skreyttum reitum
urtir alls konar,
ár í gegnum.
62. Líða þar ljósar
lindir tvær fram;
veltr ein lind
at vegum ymsum
um eikagarð allan,
en önnur sèr
und forgarðs þröskuldi
farveg greiðir.
63. Sú rennr síðan
til siklíngs hallar,
ok at vatnsbóli verðr
virðum borgar.
Svo höfðu öðlíngs
Alkínóus
guðir gjöfum höll
glæstum skreytta.

---

64. Stóð, ok starsýnt varð
á stöðvar þessar,
Odysseifr,
sá er ymsu vandist.

ϱ. VII, 115-133.

65. En er um litazt
alla vega,
ok allt undrazt
öðlíngr hafði,
þá skyndilega
skilfíngr gekk
yfir þröskuld upp
inn í höllu.
66. Fann fylkir þar
forráðamenn
frægra Feaka
ok foldar stjóra;
dreyptu dreypifórn
dýrir rekkar
allskygnustum
Argusbana:
þeim dreyptu dýrir
dýrra goða
seggir síðustum,
áðr sofa geingi.
67. Gekk í gegnum sal
gramr hinn ítri,
Odysseifr,
sá er ymsu vandist;
miklum var mæríngr
myrkva hulinn,
þeims ausit Aþena
of öðlíng hafði.
68. Uns konúngr kom
þar er kát of sátu
Areta ok jöfurr
Alkínóus;
þá lèt horskr
hendr of lagðar
um knè Aretu
Odysseifr.
69. Lyptist þá upp
af lofðúngs höfði
hulinshjálmr,
sá er hilmi skygði.
ϱ. VII, 134-152.

Urðu allir
í öðlíngs höllu
hljóðir höldar,
er þeir hal litu.
70. Ok hljóðir halir
hölda stýri
undruðust ítran,
er þeir á litu.
Þá nam bljúg bera
bænarorð fram
jaðarr öðlínga,
Odysseifr:
71. "Kveð ek þik, Areta,
ítrum borna
rögna jafníngja,
Rexenori.
Kem ek til vers þíns,
vesall maðr;
kem ek kostavanr
at knjám þínum;
kem ek til vera
virðulegra,
þeirra er hèr í höll
halda veizlu,
maðr margþjáðr
mörgum þrautum!"
72. "Gefi guðir
yðr, gæðíngum,
aldrs njóta,
una lífi,
óðul erfíngjum
eptir leifa
ok heiðrsgjöf þá,
er höldar gáfu!"
73. "En þèr flutníng
ok fararbeina
heim til föðurlands
fljótt mèr veitið;
því verit hefir ek
vinum fjarri,

ok leingi þolat
lángar raunir!"
74. At mæltu því
mildíngr settist
í ösku at arni
við eld ljósan.
Allir hljóðir,
orða bundust,
mælti mál
manngi þaðra.
75. Uns um síðir
Ekeneus,
aldinn öðlíngr,
orð nam hefja;
sá var Feaka
flestum ellri,
ýtum öllum
orðsnjallari,
ok fjöld vissi
fornra spjalla.
Heill í hugum
hann orð um kvað:
76. "Eigi þat sæmir,
Alkínóus,
nè hilmis tign
hæfilegt er,
at gestr útlendr,
atkominn hèr,
í ösku at arni
á jörð liggi.
Hika sèr höfðíngjar,
þeir er hèr eru,
ok atkvæða þinna
allir bíða".
77. "Reis þú gest, gramr,
af glóðar stalla,
ok set í hásæti
silfri naddat.
Bjóð borðsveinum
blanda veigar
í ölkerum
enn af nýju".
78. "Skulu vèr einnig
enn at lesti
dreypifórn dreypa
dýrum Seifi,
þeim er handleiðslu
ok holla fylgju
veitir líknsamr
líknarþurfum".
79. "En matselja
mætum gesti
aptansverð veiti
af vista faungum!"
80. En er orð þau
öðlíngr heyrði,
afli afrendr
Alkínóus,
tók hann í mund
margráðvitrum
hugvits eiganda,
Odysseifi.
81. Ok öðlíng upp
frá arni reisti,
ok á hástól setti
harla glæstan;
þoka bað son sinn
fyrir svinnum gesti
Láodamant,
ljúfastan sèr,
nýtan arfa,
er honum næstr sat.
82. En herbergismær
handlaug færði
vænum, gullnum
í vatnskalli,
ok yfir mundlaug
úr mæru silfri
vatni af hellti
til handaþvottar;

ϱ. VII, 152-174.

ok hún fágat borð
fram nam setja.
83. Ok heiðvirð
húss-matselja
brauð fram bar
ok á borð lagði;
miðlaði matar
mörgum rètti,
hugul veitandi,
þat fyrir hendi var.
84. Neytti matar,
neytti drykkjar
ítr Odysseifr,
sá er ymsu vandist.
Kvaddi þá kallara
konúngr orðum,
afli afrendr
Alkínóus:
85. "Blanda þú, prúðr
Pontónóus,
vín í skaptkeri,
ok veigar öllum
deil í höllu
dýrum rekkum:
at einnig vèr
enn at lesti
dreypifórn dreypim
dýrum Seifi,
þeim er handleiðslu
ok holla fylgð
líknsamr veitir
líknarþurfum!"
86. Gramr þat kvað,
en gómsætt vín
prúðr blandaði
Pontónóus,
skeinkti á skálar,
ok skötnum ríkum
deildi dýrt vín
til dreypifórnar.
ρ. VII, 174-193.

87. En er dreypt höfðu
ok drukkit af kerum,
svo sem lyst til lèk,
lýða dróttir,
upp hóf erindi
Alkínóus,
góðr konúngr,
í gumna fjöld:
88. "Hlýðit til, horskir
hölda stjórar,
Feaka foldar
forráðamenn,
at ek mæla mega'k,
þat er mèr um býðr
hugr í brjósti
brögnum inna".
89. "Nú sem neytt hafit
náttverðar þèr,
haldit til húsa
ok til hvíldar gángit.
En at morgunmáli
vèr munum fleiri
horska höfðíngja
híngat kalla".
90. "Þá skulum gesti
góðum fagna
ok veizlu veita
í vorum sölum:
ok fríðar fórnir
færa í ranni
ódauðlegum
uppheims goðum".
91. "Síðan skulu vèr
samtal eiga
um flutníng gests
ok farargreiða:
at fagnandi fljótt,
fyrir flutníng vorn,
megi heill hann
heim um komast

föðurfoldar til,
þótt hann fjarlægum sè
úr löndum utan
lángt at kominn".

92. "Ok at einginn
alla þá leið
geigr gesti
of granda megi,
nè mein mæta,
uns móðurjarðar
stígr fótum fold
feginn sinnar".

93. "Þar mun hann njóta,
þess er nornir skópu,
ok á daga drífa,
þat er dísir unnu,
þá er undu þær
örlögþáttu
megi nýfæddum
fyrir móður knjám".

94. "En ef einhverr er
uppheims goða
niðr af himni
híngat stiginn:
þá hafa breytt,
þeims belldu fyrrum,
holl regin háttum,
hvatki er veldr".

95. "Því ávallt oss
at undanförnu
hafa bönd birzt
í bersýnni mynd,
þá er vèr helgar
hundraðsfórnir
efnum ágætum
uppheims goðum."

96. "Svífa þá at sumbli
sælir tívar,
ok með oss mat eta,
manna sonum,
sitja í sessi
hjá sjálfum oss
ok bekk of deila
með bragna kindum".

97. "Ok þó aleinn þeim
einhverr mæti
farandi maðr
á förnum vegi,
þeir dulkofrum
dyljast eigi,
nè hulizhjálmi
höfuð falda".

98. "Því vèr nákomnir
næsta erum
at ætt ok eðli
uppheims búum,
svo sem Kyklópar,
kynsmenn þeirra,
ok Gígantar,
grimmar þjóðir".

99. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
"Annat áttu þèr,
Alkínóus,
höfuð höfðíngja,
í hug gera".

100. "Emk-at ek orðinn
ódauðlegum,
þeim er víðbláin
víðan byggja,
at vexti ok vænleik
veum líkr,
heldr dauðlegum
dróttum manna".

101. "Jafnat munda'k mèr
mannraunum í
við mæðumenn
mestu geta,

ρ. VII, 193-212.

þá er vissit èr
vera allra
raunir rammastar
rataꝺ hafa".

102. "Meirr munda'k enn
mega telja
nýrra nauꝺa
en nokkurr annarr,
ef ek þrautir allar,
er ek þola hlautk
at rögna ráꝺi,
rekja vilda'k".

103. "Láti menn mik
matar neyta
(nauꝺ mèr nær stendr)
náttverꝺi at.
Er-a nokkurr hlutr
nágaungulli
húngri hvimleiꝺu
hölda kindum."

104. "Harꝺri hendi
hölda rekr
sultr sárr
sín at minnast,
jamvel mann þann,
er mæddr er
ok harm hvassan
í hjarta geymir".

105. "Svo er ok varit
um sakar mínar:
ber ek harm hvassan
í hjarta mèr;
biꝺr mik eta,
biꝺr mik drekka
húngr hvast,
þótt ek hörmugr sják."

106. "Segir mèr sultr
sorgum gleyma,
bölvi hverju,
er ek bíꝺa vann;
hvetr húngr mik,
húngr svæfa,
segir sultr mèr,
seꝺjast láta".

107. "En þèr, höfꝺíngjar,
hvatt viꝺ bregꝺit,
þegar er ljós dags
á lopt upp rennr,
ok margþjáꝺan mik
ok mann veslan
flytiꝺ fljótt heim
til föꝺurgrundar".

108. "Líꝺi þá líf mitt
(þá er lifat nóg),
ef ek at eins
fæ augum litiꝺ
eigur mínar
ok ánauꝺugt man
ok hús it mikla
ok háræfraꝺa".

---

109. Svo kvaꝺ siklíngr,
en seggir gjörva
rómuꝺu ríkir,
þat er ræsir mælti:
báꝺu gests gera
greiꝺar farar,
kváꝺu hal hafa
hóts vel talaꝺ.

110. En er dreypt víni
ok drukkit bæꝺi,
svo sem lyst til lèk,
lofꝺar höfꝺu,
þá sèrhverr
svefns of lystr
heim at herbergi
til hvíldar gekk.

111. Eptir varꝺ einn
í öꝺlíngs stofu

ϱ. VII, 212-230.

Odysseifr
hinn ítrsnjalli.
Sat hjá hilmi
horsk Areta
ok Alkínóus
hinn afbragðs fagri.
Voru þekkar at
þjónustumeyjar,
ok borðbúnað
af borðum tóku.
112. Þá kvað Areta
armhvít brúðr,
ok þau alls fyrst
orð um vakti,
því at skýr skikkju
skilfíngs rúna
ok kyrtil kenndi,
er hún klæði leit.
113. Hafði sjálf þau
siklíngs beðja
kostuleg klæði
með konum unnit.
Mildíngs mála
þá til máls of tók,
ok þeim Odysseif
orðum frètti:
114. "Spyrja vil ek þik,
spillir bauga,
ok þik, gestr, fyrst
gjörva frètta:
Hvat manna ertu?
Hvaðan af löndum
hefir þik á hauðr
híngat borit?"
115. "Hverr þessi þèr,
er þú nú berr,
hefir kostuleg
klæði gefit?
Kvattu þik eigi,
karl, fyr stundu
yfir haf híngat
hafa rekizt?"
116. Annsaði ítri
Odysseifr,
sá er aldrei varð
örþrifráða:
"Er-a dælt, drottníng,
drjúgum allar
þèr at þylja fram
þrautir mínar".
117. "Mèr hafa marga
meginharma
himins búar
á hendi bundit.
Inna vil ek þèr
allt af lètta,
þaztú forvitnast
ok frèttir eptir".
118. "Liggr ey ein
all-lángt hèðan
(heitir Ógýgsey)
í unnum blám.
Þar Kalypsó
kostsöm gyðja,
borin Atlanti,
bygðum ræðr".
119. "Er-at aldæla
ítr gyðja;
brúðr bjarthödduð
er brugðin vèlum.
Fara eingir
at finna hana
mennskir menn
eða máttkir guðir.
Mik, ver veslan,
at veum hennar
einhverr ólánsguð
einan leiddi".
120. "Þá hafði skip mitt
skotið Seifr

ϱ. VII, 230-250.

himins hyrfleini
hvítglóanda,
ok rennanda
ráhjört sundr
heilan klofit
í hafi miðju".

121. "Lètust allir þar
liðar mínir,
fræknir fèlagar
í fárviðri.
En ek utan um
unnar viggs kjöl
báðum höndum hèlt,
ok hèlt mèr fastla".

122. "Dreif ek svo döpr
í dægr níu,
en á tíunda
tívar ráku
mik at Ógýgsey
upp um nóttu,
þars kostsöm gyðja
Kalypsó bjó.
Tók mèr virkta vel
víf bjarthaddat,
hjúkraði hálega
ok hugla nærði".

123. "Hún mèr æfi
ódauðlegri
ok eilífum hèt
æsku blóma;
mátti þó eigi
munarfús dís
telja mèr hughvarf,
því mik heim fýsti".

124. "Sat ek í sífellu
sjö misseri
á Ógýgsey,
ok allar stundir
heitum döggvaða'k
hvarma skúrum
klæði kostuleg,
er mèr Kalypsó gaf".

125. "Uns líðanda
landfúsum mèr
kom áttunda
ár at hendi.
Þá bað mik horsk dís
heim at venda,
ok farar sjálf
fýsti minnar.
Hefir hugr snúizt
henni sjálfri,
eða Seifr sjálfr
sent til þess boð".

126. "Mik á farflota
hún fara lèt
mjök margnegldum,
ok marga hluti
góða mèr hún gaf,
gott vín ok brauð,
ok mik klæðum klæddi
kostulegum;
ok hún lèt mèr
frá landi sendan
hagstæðan bæði
ok byr mjúkan".

127. "Siglda ek svo
í seytján daga
fleyja flatslóðir
á flota breiðum:
en á átjánda
upp skaut degi
bergtindum blám
úr blá djúpi".

128. "Þat voru fjalltindar
foldar yðvarrar;
varð þá gnegg mèr
glatt í brjósti.
En ek vesall vark;
því vandræða stórra

ρ. VII, 250-270.

átti enn mèr
auðit verða".
129. "Stefndi móti mèr
meinum stórum
máttugr Posídon,
miðgarðs skelfir,
hleypti upp hörðum
háskabyljum,
æsti upp ægi,
ógn var at líta".
130. "Hann mèr farbann lèt
feingit gjörva,
ok stælti svo
stórsjó megnan,
at ek fèkk-at
á flota breiðum
(hörð raun var þat)
haldizt viðr".
131. "Síðan sundraði
sævar drottinn
á víð ok dreif
viðarflota;
en ek sjálfr
sunds kostaða'k,
ok ramt regindjúp
rista'k gegnum,
uns mik vindar
ok vatnastreingir
upp um óku
at yðvarri strönd".
132. "Ef ek hèr landtöku
leitað hefða'k,
mundi skafl báru
mik skellt hafa,
at hávum hömrum
hart upp borit,
ok keyrt at ókærri
klettaströndu".
133. „Hvarf ek þá hèðan,
ok hóglega svam

ϱ. VII, 270-290.

aðra leið aptr
inn með landi,
uns mik at einu
ármynni bar;
þar mèr af lægi leizt
landtaka bezt".
134. „Þar var hamralaust
hauðr fyrir,
ok hlè haglegt
fyrir hverjum gusti.
Herða'k huga
ok at hauðri svam;
gekk þá guðblíð nótt
of gumna sjót".
135. "Gekk ek gegnt upp
af græðis ströndu,
himinrunnum frá
hauðrs dreyra.
Lagðist ek lúinn
í laufgum runni,
ok blöð breidda,
sem ek bezt kunna".
136. "Lèt þá einhverr guð
á mik falla
svefn allsherjar
óþrotlegan.
Lá ek leingi,
laufi huldr,
sútum sollinn,
sárr í huga".
137. "Svaf ek alla nótt,
uns tók morna,
svaf ek morgun með
ok miðjan dag.
En er halla tók
hveli fögru,
sætr svefn af brám
svífa náði".
138. "Sá ek salmeyjar
á sjávarströndu

drýgja leik dýrrar
dóttur þinnar.
Sák hana sjálfa
í flokki salmeyja,
gyðju glíka
göfuglegri".

139. "Leitaða'k líkna
hjá linnveingis bil,
en hún góðleiks síns
gætti vandla.
Muntu sjaldan sjá
svo mann ýngra
við mann ókunnan
málum skipta:
því æ er úngra ráð
óvitrlegt".

140. "Gaf hún brauð mèr
gnógt at eta,
gaf hún vín mèr
gnógt at drekka,
laugaði mik
í lagar straumi,
ok góðklæði
gaf mèr þessi".

141. "Sagt hef ek þèr,
þat er sannast vissa'k;
sárr er mèr hugr,
þó ek satt eitt mælta'k".

---

142. Annsaði jöfurr
Alkínóus
mildíngs máli,
ok mæla rèð:
"Eitt lást þó eptir
ítri dóttur,
gestr, er gera
góðri sómdi".

143. "Er hún sjálfan þik
sjálfgi leiddi
með salkonum sínum
til sala minna,
þar sem þú þó
í þörf hafðir
líknar hjá ljósri
leitað fyrstri".

144. Annsaði ítrum
Odysseifr
mæríngr mildíngi
margráðugr:
"Kunn-attu, konúngr,
knía fremstr,
dýra dóttur
af dæmi þvísa".

145. "Bauð mèr hin fríða,
at ek fylgjast skylda'k
þýðum hennar með
þjónustumeyjum
heim til hallar,
en ek hvergi vilda'k
svinnra salkvenna
í sinni vera".

146. "Á var mèr uggr,
at af því mundi
gremjast, gramr,
geð þitt at mèr,
ef í meyja meingi
mik þú litir;
feiminn verð ek,
ef ek með fljóðum sèsk".

147. "Mjök vèr, manna börn,
mislynd erum,
mögr, sem mær,
er á mold fæðumst;
eru geð guma
gjörn á reiði
fljóða, sem fíra,
er foldu byggja".

148. Annsaði öðlíngr
Alkínóus

ρ. VII, 291-308.

mærings máli,
ok mæla rèð:
149. "Er-a geðleysi mèr
gestr í skapi,
at ek reiðumst
af rökum eingum.
Sómir sæmt hvat
seggja hverjum,
er í hvívetna
hóf it bezta".
150. "Gefi þat Seifr,
gumna faðir:
veiti þat Aþena
hin augumglæja:
efni þat Appollon,
örva slaungvir:
at áhríns orði
verði ósk mín sú:"
151. "At annarr, eins ok þú,
at atgervi,
ok í lund mèr líkr
lofða vinr
yrði mágr minn
ok mína geingi
dóttur at eiga,
ok dveldi hèr".
152. "Gefa, gestr, þèr
gjarna munda'k
hús ok eignir,
sem þú hafa vildir,
ef þú í átthögum
orum knættir
yndi festa
ok una lífi".
153. "En óviljugum þèr
skulu aldreigi
Feakar halda
á foldu þessi.
Þat bið ek banni
bragna faðir,

ϱ. VII, 308-326.

Seifr, ok sèr ei
sóma láti!"
154. "Læt ek ákveðinn
at öðrum degi,
svo þú, gestr, þat
gjörla vitir,
flutníng allan þèr
ok farargreiða,
í mund þetta
at morni næsta".
155. "Þú skalt í þat mund,
svo sem þèr er hægst,
sætum sigraðr
svefni hvíla;
en rekkar í rúmum
róa skulu
leið í logni
yfir láslètt haf".
156. "Uns þú þángat kemr,
er þèr er kærst,
ættjarðar þinnar
ok innis til;
ok þótt leið væri
leingri þángat,
en til Evbeyjar
frá orum stöðvum".
157. "Telja Evbey
allra landa
leingst braut hèðan
landar vorir,
þeir er eitt sinn
ey þá litu,
er þeir Radamant
ríkan fluttu;
þá er bleikhárr
buðlúngr vildi
heimsækja Titýus,
hróðmög Jarðar".
158. "Ok alla leið þángat
á einum degi

þrautlaust þá
þegnar rèru,
ok samdægrs
til síns heima
eins ángrlaust
aptr komust".

159. "Skaltu víss verða
ok vita gjörla,
hve skip vor skjótari
eru skipum öllum,
ok hve ríkula
ræðar vorir
á árablöðum
ægi þveita".

160. Gat þess gramr,
en þá glaðr varð
Odysseifr,
sá er ymsu vandist.
Bar þá buðlúngr
bænarorð fram,
upp hóf erindi,
ok þat orð um kvað:

161. "Gefi þat Seifr,
gumna faðir,
at Alkínóus allt
efna megi,
þat er þeingill
at þessu sinni
ágætr orti
upp at kveða".

162. "Þá mun orðstír hans
óþrotlegr
hvarfla hvervetna
und himinskautum;
þá mun ek ok
aptr um komast
ættjarðar minnar
ok óðala til".

163. Þannig ræddust við
í ræsis sölum

ϱ. VII, 326-344.

ítr Alkínóus
ok Odysseifr.

164. En Areta
armhvít kvaddi
þjónustumeyjar,
at þær of skyldu
legubekk setja
í svölum frammi,
purpuravoðir
vænar leggja,
dýra yfir
dúka breiða,
ok loðkápur
láta koma
efst ofan á
til yfirbreiðslu.

165. Salmeyjar síðan
út af sal geingu,
blys brennanda
báru í höndum.
Ok beð bjuggu
beztum faungum
mærar meyjar,
mjök sèr flýttu.

166. Geingu at þat
fyrir Odysseif,
stóðu frammi,
stilltu orðum:
"Rístu nú, gestr,
ok gákk til hvílu;
nú er þèr sæng búin
í svölum frammi".

167. Inntu þær ekki
orð it fleira.
Varð hilmir hvílu
harðla feginn.

168. Þar svaf öðlíngr
hinn ítrsnjalli,
Odysseifr,
sá er ýmist reyndi,

lista vel gerðum
legubekk á
ómanfullum í
útisvölum.
169. En Alkínóus
öðlíngr svaf
innst í hárrar
hallar sölum;
ok horsk hjá honum
hvílu gerði
ok blæju breiddi
buðlúngs rúna.

---

# ÁTTUNDA KVIÐA.

EN er árrisul,
rósinfíngra
birtist mönnum
Morginskæra,
þá reis úr rekkju
ræsir snjallr,
afli afrendr
Alkínóus.
Ok þá borgbrjótr
af beð nam stíga
afspríngr alföðurs,
Odysseifr.
2. Árnuðu ítrir,
undan nam gánga
Alkínóus,
sá er afli treysti;
komu á þíngvöll
þjóðmæríngar,
þann er Feakar
hjá fleyjum áttu.
Settust þar skjöldúngar
á skafna steina,
hverr við hlið annars,
horskir jöfrar.
3. En úngleg Aþena
um endlánga borg
greitt nam gánga
meðal gumna þjóðar,
kallara lík,
er konúngr átti,
öðlíngr alsvinnr,
Alkínóus.
4. Vildi hún árna
Odysseifi
hilmi heimkomu
inum hugumstóra;
gekk til hvers manns
háleit gyðja,
upp hóf erindi
ok orð um kvað:
5. "Horskir höfðíngjar
heilir svo, komit,
frægra Feaka,
ok forráðamenn!
Farit fljótlega
fólkstefnu til,
glöggva grein at fá
um gests komu".
6. "Halr er nýla
til hallar kominn
öðlíngs alsvinna
Alkínóus,

orðinn sæhafa
á sjót hinnig,
glíkr í vexti
guða nokkrum".

7. Eggjaði Aþena
orðum þeima
hug ok hjarta
hverjum manni.
Söfnuðust seggir,
sæti skipuðust,
fylltist þíngheimi
þíngstöð bráðla.

8. Undruðust allmargir,
er þeir á litu,
svinnhugaðan
son Laertess.
Hafði Aþena
herðar stillis
fegrð himneskri
ok höfuð sveipat,
ok hilmi gert
í hölda augum
und hendi þreknara
ok hærra á velli.

9. Feingu Feakar
á fylki allir
(olli því Aþena)
ástarþokka;
tignarlegr varð
tiggi í allra
ok bljúgvirðr gestr
gumna augum.

10. Vildi Aþena
at vísir frægr
fjöld íþrótta
fremja mætti
Feökum hjá,
ef þeir freista kynni
ítrs Odysseifs
í afreksverkum.

ϱ. VIII, 14-33.

11. En er Feakar
allir höfðu
safnazt í sveitir,
ok saman komu,
innti erindi
Alkínóus,
ok ræðu upp hóf
á rekka fundi:

12. "Hlýðit til, horskir
hölda stjórar,
Feaka foldar
forráðamenn,
at ek mæla mega'k,
þats mèr um býðr
hugr í brjósti
brögnum inna".

13. "Sjá er sæhafa
til sala minna
gestr of orðinn,
nè ek gjörla veitk,
hvaðan úr heimi
hann er kominn,
vegum austrænum
eða vestrsölum".

14. "Æstir hann flutníngs
ok farargreiða,
ok beinan biðr
þar bug á gervan.
En vèr, sem vandi fyrr
verit hefir,
skulum fljótt farar
fírum greiða".

15. "Eigi skal einn,
sá er til orra kemr
seggr sæhafa
salakynna,
dvelja hèr dapr
dögum laungum
eptir flutníngi
ok fararbeina".

16. "Hrindum heilir,
horskir jöfrar,
út á marar hyl
megindjúpan
svörtum sessrúmni,
er á sjó aldreigi
flotað fyrr hafa
flotnar karskir".
17. "Tveir ok fimmtíu
fírar skulu
sjálfir af seggja
sjót um veljast,
þeir er fyrr hafa
at fræknleik verit
alkunnastir
í oru landi".
18. "Þèr skulut allir,
þá er árar hafit
bundit haglega
við hafskips þóptur,
af skipi gánga
ok skunda bráðla
híngat heim
til hallar minnar".
19. "Þar skulut snarlega
snæðíng búa;
veita skal ek vel
virðum öllum.
Þann læt ek flotnum,
er fara skulu
yfir báru braut,
boðskap kynntan".
20. "En valdshöfðíngjar
víki aðrir
heim til sjónfagra
sala minna.
Þar skulum gesti
í glæstu ranni
fegnir fagna
með fegins veizlu.
Má-at maðr þar
mælast undan".
21. "Kallit ok saungmann
sælan þinnig
(Demodókus þann
dróttir nefna);
þeim gaf greppi
guða nokkurr
kvæði kveða,
ok köppum skemta,
svo sem hugr hvatti
til hárra saungva".

ϱ. VIII, 34-53.

---

22. Innti svo öðlíngr,
ok undan gekk;
fylgðust höfðíngjar
með hilmi frægum.
En kallari,
at konúngs boði,
saungmann andríkan
sækja fór.
23. Tveir ok fimmtíu
fírar valdir
braut, sem buðlúngr
um boðit hafði,
geingu til græðis,
þar er gnoðir rekka
stóðu í stöðvum
á strönd sævar.
24. En er þeir komu,
þar er kjalar hjörtr
hvíldi á hlunni
hafs ströndu við,
settu þeir sessrúmni
at sævar djúpi,
lètu segl upp í
ok siglutrè.
25. Árar lögðu
í ólarhömlur,

kunnu þeir sjóliða
sið gjörvallan,
ok af rámúlum
röktu voðir.
Ok á grunnlá
garpar lögðu
fley við festar,
er flotað höfðu.

26. Hèr næst halir
til hallar geingu
öðlíngs alsvinna
Alkínóus;
fylltust forgarðar,
fylltust svalir,
fylltust herbergi
hölda sveitum.

27. Sauði skar tólf,
en svín átta,
ok uxa tvo
Alkínóus;
flógu teitir
ok til gerðu,
efnuðu dróttmegir
til dýrrar veizlu.

28. Kom kallari,
ok kæran lýðum
saungmann í sal
með sèr leiddi.
Þeim var unnandi
öðrum framar
mönnum manni
mærðar gyðja.

29. Nam hún gjöf góða
greppi veita,
ok óskmög sínum
ángr um vinna:
brá hún björtum hals
brúna ljósum,
en saung sætan
sjónlausum gaf.

ϱ. VIII, 54-74.

30. En prúðr setti
Pontónóus
hástól við háva
hallar súlu
silfri naddaðan,
handa saungmanni,
mitt í víðum hríng
veizlumanna.

31. Lèt af nagla
niðr hánga
beint yfir höfði
höfuðskáldi
hörpu hljómfagra
horskr kallari,
ok myndaði til
manni blindum,
hvar hendi hitta
hörpu mætti.

32. Lèt hann hjá ljúfum
listamanni
körf með brauði
ok borð fagrt;
setti þar skál á
með skæru víni,
at dýrt vín drykki,
þegar drekka lysti.

33. Rèttu nú halir
hendr sínar
at fram reiddum
rètta gnóttum;
ok lystíng
lýðir frægir
á bug óku
áts ok drykkjar.

34. Hvatti þá hug skálds
hróðrar gyðja
ágæt verk ýta
orðum frægja.
Var saga sú
saungmanns efni,

er þá hæst hvarflaði
með himinskautum.
35. Kvað hann um deilu
dýrs Odysseifs
ok prúðlynds Akkils
Peleifssonar,
er þeir eitt sinn
orðum hvössum
deildu í dýrri
día veizlu.
36. þá varð geð glatt
í grams brjósti,
aldar oddvita
Agamemnons,
er akkneskra ýta
ítrmenni
illdeilum etjast
öðlíngr sá.
37. Hafði þann hilmi
í helgri Pýþó
spakr Appollon
spádóm kynntan,
þá er stórgeðr
of steinþröskuld gekk
vefrèttar leita
vörðr þjóða.
38. því at upphaf alls
ófagnaðar
drógst þá of höfuð
Danáa lýðs
ok tírargjarnra
Trójumanna,
eptir ráðstöfun
hins ríka Seifs.
39. þat var höfuðskálds
ins herjumkunna
yrkisefni.
En Odysseifr
möttul hinn mikla
mundum sterkum,

prúðr hilmir, tók
purpurarauðan.
40. Dró of skör sèr
skikkju dýra
ítr öðlíngr,
ok andlit huldi.
því fyri Feökum
fyrirvarð sik
trúfastr tiggi
tár at fella.
41. Hvert sinn er hætti
hörpuslætti
saungmaðr dýrr
ok saungva hreimi,
þá af sèr þeingill
þerraði tár,
ok dýra skikkju
dró af höfði;
ok þá tiggi tók
tvíker fagrt,
ok dreypti dreypifórn
díum ríkum.
42. En er upp hóf óð
aptr af nýju,
ok kæran saungmann
kveða báðu
frægstir foríngjar
Feaka lýðs
(því skemtun var skötnum
at skáldmanns óði);
þá of skör aptr
skikkju breiddi
siklíngr sèr,
ok sáran grèt.
43. Varð-at varr þess
virða nokkurr,
at tár of hrundu
tiggja frægum,
nema Alkínóus einn
eptir því tók,

ϱ. VIII, 74-94.

ok þess varr varð,
því hann hjá vísi sat.
44. Ok öðlíngr
ítr heyrði,
hve þeingill þar
þúngan stundi.
Mælti þá mildíngr
í manna fjöld
róðrs framra
Feaka til:
45. "Hlýðit til, horskir
höfðíngjar lýðs
frægra Feaka,
ok forráðamenn!"
46. "Hefir nú huga
hölda kættan
veizla vel skömtuð
í vorum sölum;
hefir hug vorn kætt
harpa fögr,
mjök vel samrýnd
mannfagnaði".
47. "Út skulum gánga
greitt úr sölum,
ok oss í íþróttum
alls kyns reyna:
at horskr gestr,
þá heim of kemr,
sínum vinum frá
segja kunni":
48. "Hve vèr höldum
hverjum framar
erum alls konar
at íþróttum,
hnefum at leika,
hvatt at glíma,
lángt at stökkva,
lètt at renna".
49. Gekk at mæltu því
gramr fyrir,

ϱ. VIII, 94-114.

en ýtar aðrir
eptir geingu.
50. Hörpu hljómfagra
heingdi á nagla
horskr kallari,
ok í hönd nam taka
Demodókus,
dýrum greppi,
ok höfuðskáld
út úr höll leiddi.
51. Ítr kallari
óðsmið frægan
leiddi leið sömu,
ok lýðir geingu,
fremstir Feaka
fólknárúngar,
þeirs horfa vildu
á höfuðleika.
52. Geingu gæðíngar
ok greitt fóru
uns út á torg
ítrir komu;
fylgðist með fræknum
fjöldi manna,
urmull ýta liðs
ótallegr.
53. Upp þá allmargir
úngir risu
atgervimenn
eljunfræknir;
upp reis Akronás
ok Ókýalus,
Anabesínás
ok Aukíalus.
54. Elatreifr, Náteifr
ok Eretmeifr,
Próreifr, Ponteifr,
Prymneifr, Þóon;
þar enn upp reis
Amfíalus,

prúðum borinn
Polýneus,
þeim er týframs var
Tektons arfi.
55. Þá reis ítr upp
Evrýalus,
líkr mannmyrði,
morðgjörnum Aresi.
56. Nam enn upp rísa
Nábolídes,
at vexti ok vænleik,
þegar vaskan leið
Ládamant,
lofðúngs niðja,
frægra Feaka
fremstr allra.
57. Þá risu þrír upp
þeingils arfar,
öðlíngs ágæts
Alkínóus:
Ládamant einn,
annarr Halíus,
kostsamr þriði
Klýtóneus.
Þeir fyrst þreyttu
þrír ástmegir
skrautgjarns skilfíngs
skeið at renna.
58. Tóku á rás rekkar
renniskeið lángt
heldr hvatlega
frá hlaupstíu
ok allir í einu
áfram þutu,
sem fugl flygi,
furðu skjótlega,
huldir moldryks mokk,
yfir miðjan völl.
59. Hvatastr hlýra
á hlaupi var
Klýtóneus,
hinn kostum búni.
60. Eins lángt ok ómæðnir
á ekru múlar
arðr uxum
undan draga:
svo lángt fram frá
frændum sínum
kostsamr of komst
Klýtóneus;
gekk svo gagnsæll
í gumna flokk,
en hinir hlýrar tveir
hindri voru.
61. Sik enn aðrir
í örðugum
glímuleik
garpar reyndu;
þeirri íþrótt í
af öllum bar
ágætismönnum
Evrýalus.
62. Var Amfíalus
allra fremstr
leikmanna annarra
lángt at stökkva;
en Elatreifr
allra fíra
í steinkrínglu kasti
knástr of var;
en Ládamant
í leik hnefa,
ágætr arfi
Alkínóus.
63. En er skatnar allir
sèr of skemt höfðu
íþróttir við
ok aðalleika,
þá lèt Ládamant
í lýða fjöld

ϱ. VIII, 114-132.

orð þau innt, arfi
Alkínóus.
64. "Spyrjum gest þenna,
góðir vinir,
hvort hann íþrótt nokkra
inna kunni,
eða hvort leik nokkurn
hann numit hafi.
Víst er-at vesallegt
vaxtarlag hans:
sterkleg læri,
leggir stinnir,
háls harðvaxinn,
hendr þreklegar,
ok styrkleiks afl
stundar mikit;
nè honum aldr enn
er at meini".
65. "Þó er hann þjáðr
af þrautum mörgum,
ok miklum mæddr
mannraunum af.
Ætla'k eingan hlut
afli sævar
verra vera
viðreignar".
66. "Rík er Rán,
ramr er ægir,
má eingi við þau
afli deila.
Kreista þau kjark
úr karlmanns brjósti,
þótt hann þrek hafi
þeygi svo lítinn".
67. Annsaði orðum hans
Evrýalus:
"Satt var orð þat,
er sagðir þú.
Gákk nú sjálfr
við gest mæla,
ok til íþrótta
á hann skora".
68. En er ítr
þau orð nam heyra
arfi alsvinns
Alkínóus,
gekk hann fram,
þar er fylkir sat,
ok Odysseif
orðum kvaddi:
69. "Heill svo, gestr sæll,
híngat þú gákk,
reyn þik, sem aðrir,
í íþróttum,
ef þú nokkra
numit hefir.
Sæmir þèr, einhverja
íþrótt kunna".
70. "Af eingu fremr
frægð of getr
maðr, meðan hann
á moldu lifir,
en ef íþrótt hann
inna knegi
mundum með
eða meiðum ilja".
71. "Heill svo, hritt brott
úr huga þínum
raunum ríkum:
Reyn, hvat þú mátt!
Mun-a för þín
frestast leingr:
fley er fram sett
at flæði sævar,
ok fylgðarmenn
til farar búnir".
72. Annsaði honum
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:

ρ. VII, 132-152.

"Hví mik hvetið
með hæðnisglettni,
Láodamant,
til leiks at gánga?".
73. "Liggja meirr mèr
mein á hjarta,
harmar í huga,
en heyja leika.
Mart hefi'k böl
beðit fyrrum,
marga móðugr
mannraun þolat".
74. "Sit ek nú sorgmóðr
á samkundu
(leika mèr landmunir)
lýðs Feaka,
buðlúng biðjandi
bráðrar líknar,
beina biðjandi
borglýð allan".
75. Aptr annsaði
Evrýalus,
ok atyrði hann
í augum lýða:
"Mák-a ek, gestr,
þèr við mann líkja,
þann er íþróttir
inna kunni,
eða leika fremja
lýðum tama,
þeir er mönnum með
margir tíðast".
76. "Því ertu líkr,
at um lög breiðan
þráriðit hafir
þilju mörum,
ok farmanna
foríngi verit,
þeirra er með verzlun
víða fara".
77. "Volkar þú vilja
um vörufarma,
verðr varníngr
þèr vel í augum,
glepr geð þitt
gróða hugr.
Ólíkr ertu
íþróttamanni".
78. Reiðr varð hinn ráðsvinni,
ok með reiðisvip mælti
Odysseifr aptr
til Evrýalus:
"Orðum ósvinnum
lætr þú at mèr vikit.
Er í þèr ofarla
ójöfnuðr".
79. "Gerr-at guð jafnt
gumna sonum
ástgjafir sínar
öllum veita;
hvorki vöxt verum,
nè vit fírum,
nè mælsku mærum
manna kindum".
80. "Einn er álitum
(eru þess dæmi)
heldr feinglítill
í firða augum;
þó gefr guð þess
guma orðum
fegrð frábæra,
fírum þekka".
81. "Horfa höldar
á hal með gleði
þá hann með röksemi
ræðu flytr,
mildri mærð,
mjúkri blygðan,
viðmóti viðfeldnu,
á virða fundi".

82. "Frábærr sá finnst
fremr öðrum
maðr málspakr
í manna fjölda.
Stara á stíganda
um stræti borgar
garpar guma,
sem væri goða nokkurr".

83. "Aptr er annarr
at ásýnd líkr
ódauðlegum
uppheims goðum,
en orð hans eru ei
utan sveipin
yndislegum
unaðs þokka".

84. "Eins hefir unnt þèr
allvaldr goða
at ytra áliti
afbragðs prýði;
nè hann gert mundi geta
meiri gersemi:
þó er þèr vits vant,
þat er vel dugi".

85. "Orð mæltir þú,
þats eigi skyldi;
hefir þú hug minn
harðla móðgat.
Er-a satt þat,
er sagðir þú,
at ek íþróttum
óvanr sják".

86. "Hitt ek hygg,
at ek hafa verit
fremstr fíra
fimleikum í,
meðan æsku aldri
una knátta'k,
ok axllima
afli treysta'k".

ϱ. VIII, 172-192.

87. "Nú em ek þjáðr
þúngu böli,
miklu mótlæti:
hefi ek mart þolat,
orustur áttar
ok örlög drýgt,
ok kannat hafs öldur
hættufullar".

88. "En þótt ek þolt hafa
þrautir margar,
vil ek þó fimleika
freista minna.
Sárt beit svar þitt,
sárr er mèr hugr;
hefir þú hvatt mik
með hnæfilyrðum".

89. Varp sèr upp vísir,
varpaði-t skikkju,
þreif upp steinkrínglu
stundar víða,
stórum stinnari,
stærri, þykkvari,
en fóru með Feakar,
þá er frækleik inntu.

90. Veifði snart steini
stillir í hríng,
ok lèt hart hrökkva
úr hendi sterkri.
Hvein harðsteinn
hátt í lopti,
umdi ægilega
í andfari.

91. Felmtruðu Feakar
fleyjum kunnir,
óuðust ýtar,
árum vanir;
beygðu sik bjúgir
at bjöð niðr
fyrir steinflugi
stórkostlegu.

92. Stökk snart steinkríngla
úr stillis hendi,
ok yfir öll mörk
óðlega flaug.
Þar mark reisti,
ok var í manns líki,
úngleg Aþena,
ok orð um kvað:

93. "Mundi mark þetta
maðr blindr,
frá öðrum mörkum,
ef hann um þreifaðist,
gestr, glögglega
greina mega;
svo er lángt mark þat
frá mörkum öðrum".

94. "Óhræddr þú vert
fyrir íþrótt þessi,
mjök er mörkum öllum
mark þitt framarr.
Eingi mun fleygt fá
af Feaka lýð
kríngla, þessi jafnt,
eða komizt leingra".

95. Gat þess gyðja,
en þá glaðr varð
Odysseifr,
sá er ymsu vandist.
Feginn varð fylkir,
er hann fèlaga sá
sèr velviljaðan
á virða móti.
Varð nú lofðúngi
lètt um hjarta,
ok við Feaka kvað
í fjölda lýðs:

96. "Kastið nú, sveinar,
kríngla annarri,
ok kapps um kostið
at komast at þessi.
Brátt mun ek sjálfr
síðarr kasta
annarri jafnlángt,
eða leingra nokkuru".

97. "Komi hverr, heill svo,
híngat Feaka,
sá er hug hefir
ok hjarta í brjósti:
hnefleiks freisti
ok fimrar glímu;
eða þó reyna vili
á renniskeiði,
mun ek eigi því
undan skorast,
alls þèr til reiði
mik reittan hafit".

98. "Einn læt ek allra
undan skilinn
Láodamant,
lofðúngs arfa,
því at hann gerzt hefir
gestvinr minn.
Hverr mun gestvin við
vilja keppa?".

99. "Ósnotr þikkir,
er með ýtum kemr,
ok verðr vettugis
vera hverr sá,
er kappfúss lætr
til kappleiks boðit
lánargesti
í landi ókunnu.
Stríðir sjálfum sèr,
ok sínu gerir
geingi gagnspilla
gumi slíkr".

100. "Eingum annarra
ek undan skorast,
nè ek frá vísa
fírum öðrum;

fýsir mik seggi
sjónum leiða,
fýsir mik við rekka
raun um kanna".

101. "Emk-a ek ónýtr
alls um reyndr
íþróttum í,
er með ýtum tíðast.
Kann ek kænlega
kappsvel skafinn
höndum herboga
hvötum leika".

102. "Munda'k mann hæfa
manna fyrstr
öru með
í óvina her
þótt mjök margir
mèr nær staði
fèlagar horskir,
ok hæfíng gerði
dreingir drjúgum
dólgmögum at".

103. "Einn mik sigraði
seggja allra
Fíloktetes
í fimi boga,
þá er vèr týframir
í Trójulandi
ýtar akkneskir
örum skutum".

104. "Öllum öðrum lángt
í örva leiki
kveð ek mik framarr
fírum vera,
þeim er mat eta
á moldar þröm,
ok nú eru ýtar
uppi á foldu".

105. "Hitt skal mèr hvergi
til hugar koma,
í mannjöfnuð fara
með fyrrum mönnum,
hvorki við Herakles
inn hugum prúða,
nè hinn Eykalska
Evrýtus við,
þeirs í örva leik
við ódauðlega
himins búa
halir kepptu".

106. "Vegna þess varð ok
voveiflega
Evrýtus mikli
öndu ræntr:
vegna þess varð-at
vísi auðit
elli bíða
í eignum sölum".

107. "Því at reiðr varð
rekka stjóra
ítr Appollon,
ok hann öndu rænti:
af því buðlúngr
bogfimi þreyta
á skotvanan guð
of skorat hafði".

108. "Svo læt ek skarpla
skotið spjóti,
sem annarr ör skýtr
af ýboga.
Eitt þat uggir mik,
at mèr einhverr muni
á fæti Feaka
fram hjá renna".

109. "Því at margir mik
mæddan hafa
svart ok sárlega
sjávar brekar.
Var-a vista kostr
nè viðrgjörða,

ϱ. VIII, 213-232.

sem ek á sætrjám
sitja næða'k.
Því er mèr þróttr
at þrotum kominn,
ok lèmagna
limir vorðnir".
110. Innti svo ítr
Odysseifr,
en ýtar allir
orða bundust:
allir hljóðir
innan fjölda,
nè mál mælti
maðr þaðra.
111. Einn annsvörum
upp nam halda
Alkínóus,
ok orð um kvað:
112. "Ei gezt oss illa
at orðum þeima,
er þú, gestr, með oss
gerir mæla.
Sýnist oss sæma,
þóttú sýna vilir
atgervi þína,
sem er þèr lagin";
113. "Ok þó reiddist þú,
at rekkr þessi
mælti þèr móðsyrði
í mannfjölda,
at atgervi þína
eingi skyldi
maðr á moldu
mega lasta,
sá er skilin orð
skynja kynni
ok mæt orð mæla
af munar grunni".
114. "Heill svo, heyr nú,
ok hug við legg
orð, þat ek inni,
at þú öðrum megir
segja seggjum frá
ok svinnum köppum,
þá er þú heima
í húsi þínu
með beðju þinni
ok börnum sitr
matborði at,
ok mönnum skemtir
orðræðum með
ok æfintýrum".
115. "Þá knáttu kynna
kindum fíra
atgervi vorri
ok íþróttum frá,
þær er Seifr oss
setti at fremja
allt í frá upphafi
áa vorra".
116. "Eingir eru vèr
afburðarmenn
í hörðum hnefleikum
eða hvatri glímu.
En skjótir eru vèr
skeið at renna,
ok frágerðarmenn
í förum sævar".
117. "Á æ við oss vel
veizlur at halda,
hörpu at slá,
hreifa danzleikum,
kost at hafa
klæða gnógan,
vær hvílurúm,
varmar laugar".
118. "Sláit nú danzleik,
dreingir Feaka,
er fimlegast kunnit
fótum leika,

ϱ. VIII, 232-251.

at sanna sögu
sínum vinum
gestr heim kominn
herma kunni:"

119. "Hve vèr öllum erum
öðrum framar
seggjum sævönum
sjóförum í:
hve vèr á skeiði
skatna dróttir,
í danzi ok saung,
sigrum allar".

120. "Einhverr skjótlega
sæki skáldmanni
Demodókus
dýra hörpu;
hún mun inni
í herbergjum
orum liggja
einhverstaðar".

121. Mælti svo gylvi
hinn goðum-líki,
Alkínóus,
en þá upp um reis
gegn kallari,
gekk at sækja
hörpu hvelda
til hallar grams.

122. Ok níu þá
námu upp standa
lýðkjörnir alls
leiksjáendr;
þeir hlut hverjum
haga skyldu
lofðar með list
leiksviðum á:
þeir danzendum
danzsvið jöfnuðu,
þeir rúmvöll rýmdu
rekka sveitum.

ϱ. VIII, 251-270.

123. Var-a leið laung,
leið kallari
hörpu hvella með
hinnig aptr
handa Demodókus,
dýrum saugmanni.
Lèt hann þá á mitt
leiksvið geingit;
stóðu í hríng um hann
horskir í danzi
sveinar frumvaxta,
fríðir sýnum.

124. Drýgðu þar danzleik
dásamlegan,
fimum fótum
fold stígandi.
Horfði á Odysseifr,
ok at undri gafst
furðu bragðfljótr
fótaburðr.

---

125. Hóf þá saungmaðr,
hörpu leikandi,
fagran saung
firða kindum,
um ástir Aresar
ok Afrodítu,
fagrbeltaðrar
frygðargyðju.

126. Áttu þau ástar fund
einu sinni
Hefasts á laun
herbergjum í.
Ares góðri gaf
gjafir margar,
hjónalags sæng
ok helga rekkju
hagvirks Hefasts
harðla svívirði.

127. En hratt Helíus
Hefasti bar
njósn um nýmæli,
þat er nú var orðit;
hafði hann sèð,
er þau saman komu
elskulegra til
ástafunda.
128. En er Hefastr
heyrði slíkan
ófögnuð allan
ok ángrsögu,
steig hann til smiðju,
stórt nam at feta,
var guði geði næst
grand at vinna.
129. Hann steðja stórum
í stokk hleypti;
sló hann fjötur,
fast hamraði.
Mátti-a drótt þann
dróma brjóta,
máttu-a gumar þann
gleipni leysa;
átti sá Aresi
ok Afrodítu
fjötur um æfi
föstum halda.
130. En er vèl hafði
vandla búit
reiðr Aresi
ógnhagr guð,
hvarf hann úr smiðju
herbergis til,
þar er hvílurúm
hans nam standa.
131. Brá hann um rúmfætr
böndum í hríng
ósýnilegum
alla vega;
mörg ok margbrugðin
frá miðju rjáfri
ofan röktust
um rekkju sjálfa.
132. Var fjötur sá,
þeim er í fjallskorum
kaungrvafa vaf,
vefi glíkr.
Þeim voru brögðum
bönd um slúngin,
at mátti þau eingi
augum berum
gumi greina,
nè guða nokkurr.
133. En er vel hafði
vèlafullum
böndum brugðit
um beð allan,
brá hann því á,
at sèr bregða vildi
lystilegrar til
Lemnusborgar;
því at Lemney var
landa allra
hagsmíðum Hefasti
hugarþekkust.
134. Andvara á sèr
Ares hafði,
gullintauma guð,
ok gætur miklar,
þá er sá hann
úr sölum brottu
hagvirkan Hefast
horfinn vera.
135. Gekk þá rómu guð
til glæsilegrar
hallar Hefasts
ins hugvitsfræga;
óðfuss hann var
til ástafunda

ϱ. VIII, 270-288.

við lindgöfga
lostagyðju.
136. Sínum föður frá,
enum furðusterka
Kronussyni
komin mundi
nýt dís nýla,
ok niðr settist.
þá gekk Ares inn
endlángan sal,
tók í hönd henni,
hugði at máli,
ok orðum þeim
á hana varp:
137. "Kom með mèr, kæra,
komum bæði,
gaungum til hvílu,
gamans njótum.
Breiðum blæju
bæði saman
ok lèttlega
líni verjum,
eigum ángrlaust,
yndis njótum.".
138. "Nú er Hefastr
heima þeygi.
Get ek, at hann
of gerðar hafi
farar sínar
Sintía til,
lýða harðmæltra,
er Lemney byggja".
139. Innti svo Ares,
en ástargyðja
hugði sèr gott
til hvílubragða.
Ok þau bæði tvö
á beð einn stigu,
saman sváfu,
ok sofna gerðu.
ϱ. VIII, 288-307.

140. þá bönd brugðust,
brögðum slúngin,
hugvitsams Hefasts
um hvílendr tvö.
Máttu þá eigi
hin munarfúsu
liðu hræra,
nè legg hefja;
sá þá síðan,
þó um seinan væri,
at ekki var afhvarf
til undankomu.
141. þá kom þar at þeim,
er þau þannig lágu,
Fótlamr frægr,
farinn var hann hvergi;
því at hann hafði
horfit aptr,
áðr til Lemneyjar
leið rèð kanna.
Hafði Helíus
haldit njósnum,
ok eldguði innt
alla sögu.
142. Stóð funa Freyr
fordyri í,
hafði heipt hvöss
hug hans tekit.
Æpti eldguð
ógrlega,
svo guðir gjörvallir
gjörla heyrðu:
143. "Faðir Seifr,
ok sælir aðrir
uppheims guðir,
er æ lifit,
komit híngat,
at þèr horfa megit
á illt athæfi
ok athlægilegt".

144. "Æ mik vanvirðir,
því ek vanfærr emk
alin Seifi
Afrodíta,
en megin-meingjörnum
morðs vinnanda
Aresi ann
ástfús gyðja".

145. "Honum hún ann,
því at heilfættr er
ok ítr álitum
ímun-tívi;
en mik antignar,
því ek endr um vark
visinn ok vanfærr
í veröld borinn".

146. "Er þar öðrum ei
um at kenna,
utan móður minni
ok mínum föður.
Betr væri,
at þau borit hefði
híngat mik
í heim aldreigi".

147. "Senn munut sjálfir
sjá með augum,
hve þau, á beð minn
bæði stigin,
örmum um vefjast
ok una lífi.
Má ek ángráðr
á þat horfa".

148. "En mik onar þó,
at allskamma stund,
enn þótt allákaft
elskist bæði,
lánga muni ljúf tvö
at liggja svo.
Mun þeim báðum brátt
blundr leiðast".

ρ. VIII, 308-326.

149. "Því at þeim skal
þessi mín vèl
ok blýbönd
báðum halda,
uns mund mèr
meyjar faðir
allan at fullu
aptr greiðir".

150. "Þá er ek ítrum
aura selda'k,
ok ek ítrum
aura talda'k,
þá er ek laungu
leggja gerða'k
mey ósvífa
mèr at armi.
því at dóttir hans,
þótt dáfögr sè,
heldr hverfum
yfir huga býr".

151. Svo kvað Hefastr,
en hollir guðir
geingu allir
í eirfastan sal.
Þar miðgarðs veorr kom,
máttugr Posídon;
þar Hermes of kom,
hagsælda guð,
ok þar kom fjarvirkr lávarðr
Febus Appollon.
En fríðar gyðjur
sik fyrirurðu,
var kyr heima hver
at húsi sínu.

152. En guðir, gjafar
góðra hluta,
frammi stóðu
fordyrum í.
Hófst þá hlátr
(hlógu leingi

svart ok dátt)
með sælum goðum,
þá er vear sá
vèlar allar
haglegar Hefasts
ins hugvitsama.

153. Sást til sælir,
sagði hverr öðrum:
"Munu hèr mætast
mál in fornu:
at ill verk jafnan
at illu reifa,
ok hendir hvatan
halr inn seini".

154. "Hefir nú Hefastr,
sem er haltr ok seinn,
brögðum beittan
ok með brögðum feingit
Ares, hann sem er
allra tíva
hvatfærastr,
þeirra er himinn byggja.
Á því Hefasti,
höltum guði,
snarr snerruguð
snáps gjöld inna".

155. Guðir sögðu svo
sín í milli,
en Appollon,
óskmögr Seifs,
þannig við Hermes
hagaði orðum:

156. "Heyr þú, Hermes,
hróðmögr Seifs,
gjafari gæða;
goða árr!
Mundir þú í sæng
sofa vilja
gullbjartri hjá
gyðju frygðar,

ϱ. VIII, 326-346.

Afrodítu,
ef þú eins sterkum
blýböndum
of bundinn lægir?".

157. Annsaði ítrum
Appolloni
upphimins árr,
Argusbani:

158. "Óska munda'k
mèr yndis þess,
fjarra fleina guð,
fólkvaldr Appollon,
gullbjartri hjá
gyðju frygðar,
Afrodítu,
einni hvíla!"

159. "Þá mættu þróttröm
þrenn slík mèr
blýbönd bundnum
á beð halda;
þá mættu guðir
ok gyðjur fríðar
öll í einu
á mik horfa".

160. Hermes þat mælti,
hlógu þá allir
ódauðlegir
uppheims guðir.
Einn var allra
sá er ekki hló,
máttugr Posídon,
miðgarðs skelfir.

161. Hann hagvirkan
Hefast beiddi
einart ok ávallt,
at hann Ares leysti.
Ok loga lávarð
lagar drottinn
óðhröðum þeim
orðum kvaddi:

162. "Lát hann lausan,
en ek lofa því,
at hann, eins ok þú
á villt kveða,
gjöld upp inna skal
öll at fullu,
í allra návist
uppheims goða".
163. Innti aptr
ok annsvar veitti
frægr Fótlamr
foldar skelfi:
164. "Mátt-attu mik þess
máls of biðja,
máttugr Posídon,
miðgarðs vörðr.
Sannast mælt mál,
mun ek þess geta:
valt er fyrir vesla
í veð at gánga".
165. "Hve um mætta'k þik
miðgarðs skelfir,
böndum binda
með blíðum goðum,
ef Ares
undan stryki
bótum ok böndum
ok brottu hlypi?"
166. Innti aptr
ok annsvar veitti
máttugr Posídon,
miðgarðs skelfir:
167. "Ef þat verðr,
at Ares strjúki
undan bótum
ok á brott hlaupi,
þá skal ek bótum,
sem beiðist þú,
uppi, Hefastr,
halda sjálfr".
ϱ. VIII, 347-366.

168. Innti þá aptr
ok annsvar greiddi
frægr Fótlamr
foldar skelfi:
"Sæmir-a slíks boðs
synjun gera,
nè ek orði þínu mák
afsvar veita".
169. Svo kvað Hefastr,
inn hyrjar rammi
loga lávarðr,
ok leysti fjötra.
Losnaði læðíngr,
laus voru tvö
úr ástar blýböndum
býsna sterkum.
170. Stukku strax upp,
ok steðjuðu braut.
Þurði Ares þaðan
til Þrakverja lands;
en ástarbrosmild
Afrodíta
til Kýprs nam
kanna leiðir.
171. Þar Baffa
borg ein heitir;
átti blótlund þar
blíðhuguð dís
ok blótstalla
blítt ilmanda.
Þógu gyðju þar
þokkadísir.
172. Smurðu mæra
smjörvi viðar,
goða eilífra
ellilyfjum;
klæddu kostsama
klæðum sjónfögrum,
ítrum blikandi
yndis ljóma.

173. Yrkisefni þat
öldum kunnr
samdi saungmaðr
í sínum óði.
Þótti Odysseifi
unun at heyra,
skemti sèr skati
við skáldmanns saungva.
Gaman þótti görpum
á grepp at hlýða
frægum Feökum,
farmönnnum alkunnum.

---

174. Sonu sína bað
saman danza
alls eina sèr
Alkínóus:
látprúðan Halíus
ok Láodamant;
því við þá eingi
þorði keppa.
175. Tóku hnött einn
í hendr sèr
horskir hlýrar
harðla fagran,
purpurarauðan,
en þann Polýbus hafði
hlýrum hugvitr
hnött um gervan.
176. Beygðist bróðir annarr
á bak aptr,
ok í hálopt varp
hnetti fögrum;
en hinn hlýri
hátt frá jörðu
lyptist lètt upp,
ok á lopti hendi
áðr fótum nam
foldar kenna,
hnött hrapanda
at hauðri niðr.
177. En er hnattfimi
hlýrar sína
höfðu ýtum innt
í uppvarpsleiki,
stigu þeir danz
á storðu slèttri,
tíðlega víxlandi
vökrum fetum.
178. Stóðu um leiksvið
lystir sveinar,
klöppuðu kátir
(kváðu við strendr)
lof í lófa
leikurum tveim.
Glumdi glaumr,
gnýr var at heyra.
179. Mælti þá Odysseifr
hinn ítrsnjalli
til Alkínóus,
ok þat orð um kvað:
"Yfirkonúngr
Alkínóus,
skörúngr allra
skatna á foldu!"
180. "Hvorttveggja er,
at þú hrósa gerðir,
at dreingi ættir
danzfimasta,
enda eru rèttar
þess raunir orðnar.
Stórum undrumst ek,
er ek á þá horfi".
181. Gat þess gestr,
en þá glaðr varð
afli afrendr
Alkínóus.
Fljótt kvað þá fylkir
Feaka við

ϱ. VIII, 366-386.

róðrartama
á rekka móti:
182. "Hlýðit til, horskir
höfðíngjar lýðs
frægra Feaka,
ok fólknárúngar!
Svo gezt mèr, gumar,
at gesti þeima,
sem maðr mjök vitr
muni vera.
Heyrit, heilir svo,
honum látum
vingjafir gefnar,
þær er gestum sæmi".
183. "Finnast framlyndir
á fold þessi
öldurmenn tólf,
öðrum fremri;
þeir landráðum
ok lýðum stýra,
em ek þrettándi
þeirra sjálfr".
184. "Þessa höfðíngja
hverr yðar skal
kápu hreina
ok kyrtil góðan
híngat hafa,
ok hèr at auk vætt
gesti gefa
af gulli dýru".
185. "Gjafir gjörvallar
vèr gesti skulum
allir í einu
ört fram bera:
svo handhafa orðinn
hárra gjafa
kátr komi
kveldverðar til".
186. "En Evrýalus skal
með orðum góðum

ϱ. VIII, 386-406.

gest í frið þiggja
ok gjöf nokkurri;
því hann hefir eigi
hagat orðum
gestmannlega
í gumna fjöld".
187. Innti svo öðlíngr,
en allir guldu
samkvæði sitt
at svo gjöru.
Ok hverr höfðíngja
heiman sendi
guma, gesti
gjafar færa.
188. En Evrýalus
annsvar veitti
ítrum öðlíngi,
ok til orða tók:
"Yfirkonúngr
Alkínóus,
skörúngr allra
skatna á foldu!"
189. "Fúss em ek gest
í frið at þiggja,
svo sem sjálfr þú
sagðir fyrir.
Vil ek gjöf honum
gefa fagra,
sú mun gestgjöf
þikkja gersemi".
190. "Eirsverð eineiríng
vil ek ítrum gefa,
meðalkafla með
úr mæru silfri.
Er umgerð þess
utan sveipin
nýju fílsbeini
fagrsorfnu".
191. At mæltu því
í mund gesti

seldi sverð fagrt
silfri naddat.
Upp hóf erindi
ok óðhröðum lèt
á Odysseif
orðum varpat:
192. "Heill, gestr sæll,
hafi orð nokkurt
vart viðrkvæmlegt
af vörrum liðit,
svipti því bylir
ok burtu feyki
snart ok snögglega,
snúist í gleymsku!"
193. "Veiti þèr vear,
at þú víf þitt líta
náir, ok ættlands til
aptr komast:
alls þú vel leingi
vinum fjarri
þrautir þúngar
of þolat hefir".
194. Annsaði orðum hans
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
"Heill þú ok, vinr,
heill framlega!
Gott gæfulán
þèr guðir veiti!"
195. "Grip þú mèr gafst,
ok mik góðum náðir
friðarmálum
í frið kaupa.
Þess vil ek óska,
attú þeirrar gjafar
síðar aldreigi
iðrast þurfir".
196. Lauk svo máli,
lèt sèr of herðar
silfri nödduðu
sverði varpat.

---

197. Nú er sæl sól
seig í ægi,
komu döglíngi
dýrar gjafar;
þær kallarar
kænir báru
til öðlíngs sala,
Alkínóus.
198. Tóku þar við þeim
þekkir arfar
öðlíngs ágæta,
Alkínóus,
ok gestgjafir
til geymslu lètu
hjá móður sinni
meginfagrar.
199. Fylgði heim frægum,
fór á undan,
afli afrendr
Alkínóus.
Settust sælbornir,
er til sala komu,
horskir höfðíngjar
á háva stóla.
200. Þá nam at inna
Aretu við
Alkínóus,
sá er afli trúði:
201. "Kom híngat, kona,
með kistu væna,
þá er bezta getr
í buðlúngs ranni.
Legg þar niðr í
nýtar gjafir,
kápu hreina
ok kyrtil góðan".

ϱ. VIII, 406-426.

202. "Setið eirketil
yfir eld heitan,
látið varmt verða
vatn í katli.
Þá skal ljúfr gestr
laugar taka,
ok at gjörvu því
gjafar skoða".
203. "Skoða, hve gjöfum,
þeim er göfgir híngat
færðu Feakar,
er fyrir komit.
Þá skal gestr sèr
gamna at veizlu,
ok glaðr hlýða
hreimi saungva".
204. "Gefa skal ek gesti
gullker eitt,
þat sem ek hèr á,
hit ítrfagra:
at hann hvert sinn hug
hinnig renni
ok minna minnist
mildiverka,
þá er heima hann
í húsi sínu
Seifi dreypir
ok díum öðrum".
205. Svo kvað öðlíngr
Alkínóus,
en Areta
til ambátta kvað:
bað þær sem fyrst
yfir funa setja
ketil þrífættan
þeygi lítinn.
206. Ok ambáttir
yfir eld loganda
laugarvatns ketil
ljúfar settu;
þar í horskar
helltu vatni,
eldskíð tóku,
undir kyndu;
lèk sèr logi
ljóss um ketils
víðan botn,
en vatn tók hitna.
207. En, meðan þetta var,
þeingils rúna
bar út af geymslusal
í gests þarfar
örk allfagra,
ok þar í lèt koma
lýða gestgjafir
glæsilegar.
208. Þar lèt hún klæðnað
kostulegan,
ok gull þat, er gesti
gáfu Feakar;
þar lèt hún kápu
ok kyrtil góðan,
ok við Odysseif
þau orð um kvað:
209. "Hygg nú allvel at
arkar loki,
bregð skjótt um bandi,
ok bitt at knút,
at þik á heimleið
eingi ræni,
meðan þú blundar blítt
á borða mari".
210. En er ítr þau
orð nam heyra
Odysseifr,
sá er ymsu vandist:
allbrátt arkar lok
yfir nam láta,
brá skjótt um bandi,
batt at knút

ρ. VIII, 426-447.

margbrugðinn, þanns
máttug forðum
Kirka konúngi
of kenndan hafði.

211. Ríkilát ræsi
ráðakona
bað at bragði
í bað at gánga.
Feginn varð fylkir,
er hann fèkk at líta,
at honum von var
varmra lauga.

212. Því hilmir hafði,
sízt úr húsum fór
kostsamrar gyðju,
Kalypsóar,
sjaldan beinleika
slíks of notið.
En í þann tíma
er hann þar var kominn,
ávallt alls beztu
atlota naut
gramr, sem væri
goða nokkurr.

213. En er þernur
þveginn höfðu
ok smurðan gram
smjörvi viðar,
ok lofðúngi
lagt of herðar
kápu fagra
ok kyrtil góðan:
þá stè landreki
af laugarkeri,
ok inn of gekk
í öðlíngs sal,
þar er verlýðir
vín of drukku.

214. Stóð Násíka,
stillis dóttir,
við dyrustaf stofu
stórvel gjörrar;
sú hafði forkunnar
fríðleiks prýði
gullhlaðs gná
af goðum þegit.

215. Undraðist fögr
falda nanna,
er hún Odysseif
augum leiddi;
upp hóf erindi,
ok orðum snjöllum
öðlíng alvitran
á nam verpa:

216. "Heill vertu, gestr,
haf á síðan
mik í minni
á mold feðra.
Mèr áttu fyrstri
manna allra
fjörlausn launa
ok lífgjöf þakka".

217. Annsaði ítri
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
"Nýt Násíka,
niflúngs dóttir
Alkínóus
hins ítrsnjalla!"

218. "Svo mèr veiti
Seifr inn æðsti,
lávarðr Heru,
sá er í lopti dunar,
heim til húss
heilum komast
ok aptrkomu dag
æsktan líta:"

219. "Sem ek þar skal þik
þægum bænar

áheitum ákalla
alla daga,
svo sem þú gyðja
göfug værir:
því þú, ljós brúðr,
líf mèr gafst".

220. At mæltu því
mæríngr settist
hjá yfirkonúngi
Alkínóus.
En matsveinar
mat skömtuðu,
ok í skaptkeri
skært vín blendu.

221. Kom kallari,
ok kæran firðum
saungmann í sal
með sèr leiddi,
Demodókus,
dýrum virðan
(var-a laung leið)
lýða kindum.

222. Fèkk í sal sæti
svinnr kallari
meginmálspökum
mærðar föður
í hríng miðjum
hallargesta,
ok sess valdi
við súlu háva.

223. Kvaddi kallara
kænn í ráðum
Odysseifr,
við ýmist brugðinn;
skar spikfeitt
spjalli gumna
stykki af svínshrygg,
er sjóla deildu,
hafði þó eptir
hlut inn meira:

224. "Tak við, kallari,
kjötstykki þvísa;
sel þat til snæðíngs
snillifrömum
Demodókus.
Dapr í huga
læt ek kært kvaddan
kvæða stilli".

225. "Því meðr öllum
alda börnum,
þeim er í víðri
veröld byggja,
lotníng ljúf
ljóðkveðöndum
ok virðíng verð
veitist skáldum".

226. "Kennir mildirík
mærðar gyðja
ljóð hvers konar
ljóða smiðum;
ann elskurík
óðar gyðja
ítrum ættstuðli
óðsnillínga".

227. Færði kallari,
sem konúngr bauð,
ok í hönd seldi
höfuðskáldi.
Nam Demodókus
dýrr við taka;
þá varð glatt hjarta
göfugmennis.

228. Rèttu nú halir
hendr sínar
at fram reiddum
rètta gnóttum.
Ok matlystíng
mildíngs vinir
ok drykkjar fýst
drjúgum eyddu.

ϱ. VIII, 467-485.

229. Mælti þá Odysseifr
hinn margráðugi
við Demodókus,
dýrstan skálda:
230. "Lángt of alla fram
leyfi ek þik,
Demodókus,
hali dauðlega.
Þik hefir óðardís,
óskmær Seifs,
þik hefir Appollon
óði gæddan".
231. "Mjök eptir efnum
um þú kveðr,
þau er Akkverjar
örlög drýgðu;
hver verk vunnu,
hvert vos unnu,
hverja þraut þoldi
þjóð Akkverja,
rètt sem værir þú
at raun um kominn
af sjón sjálfs
eða sögn annarra".
232. "Seg nú söguþátt
seggjum annan:
kveð um hit trausta
trèhests smíði,
hest þann er Epeus
einu sinni
með hjástoð Aþenu
hátimbraði".
233. "Um vèl þá, er öðlíngr
Odysseifr
lèt endr í háborg
hátt upp leidda,
fyllta stálklæddum
stríðkviðjöndum,
þeim er aleyddu
Ilíonsborg".
ϱ. VIII, 486-503.

234. "Ef þú atvik öll
innir gjörla
ok satt fram segir
sögu þeirrar,
þá skal ek þinni
fyri þjóðum öllum
orð á gera
óðar snilli".
235. "Þá skal ek inna
fyrir alda börnum,
hve þèr góðr guð
af gæzku sinni
lèði andagipt
öðrum framar,
ok himneska veitti
hróðrar snilli".

---

236. Þá varð hrifinn
hróðrar smiðr
gipt guðs anda,
er þat gramr mælti;
óð upp um hóf,
óði fullr,
hörpu nam hreifa,
hátt nam kveða.
237. Byrjaði brag þar
bragr skálda,
er Argverjar
eldi í búðir
skjótla skutu,
á skip stigu,
ok á branda jóm
brautu sigldu.
238. En hersveitir
ins herjumkunna
Odysseifs
um þat leyti,
holum huldar
í hests búki

sátu mitt í múg
manna tróverskra;
því sjálfir Trójumenn
þat tól bölva
hugðu hátt upp
í háborg draga.
239. Stóð þar berr bituls,
en borgar hárrar
hest umhverfis
halir sátu;
mart var mælt,
mál var á reiki,
þrennt var á baugi
þeirra ráða.
240. Vildu sumir seggir
sundr höggva
trèhest holan
hvössu sverði;
aðrir halir
upp á háborg draga,
ok af hömrum þar
hrinda niðr.
241. Þá vildu þriðju
þeirra manna
veglegt stórvirki
verða láta
eptir í borg,
ok uppi standa
til griðamarks
ok goða fórnar.
242. Þat vildi nauðugr
norna dómr
ríkt ráð láta
at raunum verða;
því þat skyldi Trójuborg
tál um vinna,
ef hún herbergði
hest inn mikla,
trjáviði timbraðan,
er týhraustustu

ϱ. VIII, 503-522.

í sátu Argverja
afarmenni,
tjón ok tálsnara
Trójumanna.
243. Kvað hann um þat,
er kappar akkverskir
steyptust úr styrs jó
stórtimbruðum,
ok lausir látnir
launsátri úr
eyddu alla borg
enda millum.
244. Kvað hann auðga borg
ymsum stöðum
ymsum akkneskum
ýtum rænta;
en Odysseif,
líkan Aresi,
meginfrægum með
Menelási
svifit hafa
til salakynna
Deífobus
hins dáðumrakka.
245. Kvað hann þar konúng
kostasaman
víg volegast
vakit hafa,
ok gagn getið
gjörst of síðir
fyri hjálp Aþenu
innar hugumstóru.
246. Þetta var höfuðskálds
ins herjumkunna
yrkisefni.
En Odysseifr
viknaði við,
vöknuðu kinnr,
hrundu títt tár
af tinnum hvarma.

247. Svo grætr sáran
sorgmóð kona
yfir ástkærum
eiginmanni,
er fyrir föðurborg
fèll til jarðar,
börnum til bjargar
ok borgarmönnum.

248. Lítr ver sinn víf
veginn til bana,
fallinn til foldar,
fjörbrotum í;
flatri sèr fleygir
yfir fjörvaltan hal,
hljóðar hástöfum,
hugsár kona.

249. En djarfir dólgmegir
dörrum ljósta
brúði bölsjúkri
bak ok herðar;
draga dýrt víf
díblissu í
harmkvæla til
ok harðrar þjánar.

250. Þá verða daprar
drósar kinnr
aumkunarlegum
af ángrs trega:
svo af augna brám
Odysseifi
aumkunarleg tár
ofan drupu.

---

251. Varð-at varr þess
virða nokkurr,
at tár of hrundu
tiggja frægum;
nema Alkínóus einn
eptir því tók,
ok þess varr varð,
því hann hjá vísi sat.

252. Ok Alkínóus
ítr heyrði,
hve þeingill þar
þúngan stundi.
Mælti þá mildíngr
í manna fjöld
róðrs framra
Feaka til:

253. "Hlýðit til, horskir
höfdíngjar lýðs,
frægra Feaka
fólknárúngar!"

254. "Nú skal Demodókus
dýrr af láta
hvellum hörpuslætti;
því at eigi er öllum
jafnt at skapi
þats hann þylr nú".

255. "Frá því vèr komum
kveldverðar til,
ok saungmaðr saung um hóf,
hefir gestr sjá
gráti aldreigi
aumum af látið;
er víst hjarta hans
harmi vafit
ok miklum móðtrega".

256. "Hætti því höfuðskáld,
hörpuslætti;
öllum skal skemta jafnt:
jafnt gestgjöfum
ok gesti sjálfum;
jafnt er jafnan bezt".

257. "Þat er gests vegna,
at vèr gervan höfum
ok vandat viðbúnað mjök:
flutníng framdan,

ϱ. VIII, 523-545.

færðar gjafar,
ok gefit af góðum hug".
258. "Manna hverr,
er mannvit hefir
ok næmt í brjósti negg,
virðir sèr veslan hvern
ok ver ókunnan
borinn í bróður stað".
259. "Því skalt þú eigi
þess er ek spyrr
dularfullr dyljast;
annspjöllum mínum
skaltu annsvar veita.
Bezt er beint at segja".
260. "Seg, hverju nafni
þik nefndu þaðra
faðir ok mær móðir:
hve þik hètu
höldar í borg
ok nábúar nýtir".
261. "Er-a nafnlauss nokkurr
nýtra manna,
frá því fyrst hann fæðist,
hvort sem af göfugri
of getinn er,
eða ógöfugri ætt:
því nafni nokkuru
nefna foreldrar
arfa hvern alinn".
262. "Seg mèr land þitt,
ok þá er land byggja,
svo ok föðurborg fríða:
at megi vigg vor
viti stefna
þángat, ok þik flytja".
263. "Því einga Feakar
formenn hafa
stafnmörum at stýra;
hafa-t þeirra,
sem hafskip önnur,
stagstjórnmarir stýri".
264. "Heldr hafa
hafskip þeirra
hölda vit ok hyggju:
akrlönd þekkja
allra manna,
ok borgir bragna hverra".
265. "Hlaupa þau hvatlega,
sem hugr manns,
yfir sjávar djúp sollit,
mjörkva hulin
ok meginþoku,
drjúgt í dimmu vaða".
266. "Er-at þeim uggr,
at einhver þeim
verði vá at meini;
þurfu-t þau óttast,
at á þvinnils leiðum
brekar þau of brjóti".
267. "Þó heyrða'k föður minn
forðum daga
segja sögu eina:
kvað Násíþóus
nýtan Posídon
reiðan oss um orðinn,
alls vèr öllum greiðum
ýtum farar
meinalausar mjök".
268. "Kvað hann máttkan
miðgarðs skelfi
fyrir Feökum
fley eitt mundu
á dimmblám
drafnar vegum
ljósta á leið heim
úr leiðsögu;
ok um borg vora
bröttum hlaða

ϱ. VIII, 545-569.

háva í hríng
hömrum bjarga".
269. "Spáði því hinn spaki,
en spá þá mun
guð framgeinga gera,
eða aldrei láta
til leiðar færast,
svo sem hann sjálfr vill".
270. "Heyr nú, gestr,
herm mèr frá
ok ljósa grein á ger:
hver hefir þú lýða
lönd um kannat?
Hvert þú hrakizt hefir?
Seg mèr frá sjálfum
seggjum þeima,
ok borgum, er bygðu halir".
271. "Hverir ofstopamenn
ok órèttvísir
ok hverir villimenn voru?
Hverir góðir voru
við gesti komna?
Hverir guðhræddir gumar?"
272. "Seg mèr ok, hví þú
sáran grætr;
hví er þèr harmr í hug,
er þú argverskra Danáa
heyrir örlög sögð
ok ófarir Ilíonsborgar?"
273. "Þat hafa böl bönd
brögnum feingit
ok á líf þeirra lagit,
svo at ókomnum
alda börnum
verði at yrkis efni".
274. "Hefir teingdr þèr
í Trójulandi
maðr til moldar hnigit?
Dó þar dýrr þèr
dótturmaðr,
eða teingdafaðir trúr?"
275. "Því opt sifjúngar
seggjum verða
ástkærastir ýta,
náfrændum næst
ok náúngum
sömu bergi brotnum."
276. "Eða hefir hollvinr þinn
hugum þekkr
þar of bana beðit?
því vitr vinr
verri þikkir-a,
en bróðir borinn væri".

---

# NÍUNDA KVIÐA.

ANSAÐI öðlíngi
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
"Yfirkonúngr
Alkínóus,
skörúngr allra
skatna á foldu"!

ρ. VIII, 569-586.

2. "Segja mun ek,
þat er mèr satt virðist,
at ágæt er unun
á at hlýða
saungmann slíkan,
er sætum rómi
líkr æðstum er
uppheims goðum".

3. "Því einga ek ætla
ofar moldu
unun algjörri
með ýtum finnast:
en þegar lýðr
í landi allr
fullsælu fagnar
ok friðar nýtr".

4. "Þegar sessmegir
sitja kátir
hverr við annars hlið
í hallar sölum,
hörpu hlýðandi
hljómi fögrum
ok saungmanns
sætum rómi".

5. "Þegar borð bogna
af brauði og kjöti,
vistum alsett
í veizlu ranni;
þegar af skaptkeri
hit skæra vín
byrlari eyss
ok brögnum færir";

6. "Ok af vínkönnu
veigar fagrar
skeinkir á skálar
skatna dróttum:
þá sèr ek sýn
sjónfegrsta,
veitk-a ek annat
unað meira".

ϱ. IX, 3-21.

7. "Hneigist þèr hugr
harma mína
upp at rifja,
ok eptir frètta,
at ek enn óðar
öndu verpi,
at ek enn tíðar
tár um felli".

8. "Hvar skal ek hefja
harma sögur?
Hvar skal ek enda
ángrtölur?
Því mik mannraunum
mörgum gerðu
háðan háleitir
himins búar".

9. "Fyrst mun ek nafn mitt
nefna lýðum,
at einnig þèr þat
þekkja megit,
ok svo ek yðarr,
ef ek undan stýri
döprum dauða,
dýrr á síðan
gestvinr verði,
þótt vega lánga
heimili mitt sè
hèðan brautu".

10. "Emk Odysseifr,
arfi Laertes,
em ek alkunnr
ýta kindum
meginbrögðum af
margvíslegum,
hvarflar hróðr minn
með himinskautum".

11. "Á ek í Íþöku
aðalbygðir,
ey auðkenndri
öllum mönnum.

þar Nerítonsfjall
nemr við ský,
ok limi laufguðu
í lopti hreifir".
12. "Liggja þar allmargar
eyjar í kríng,
hver annarri
harðla nánar,
Dúliksey, Sámsey
á djúpum víði,
ok faldin Sakyntsey
fagrlima".
13. "Liggr Íþaksey
lágt mót vestri,
eyja yzt allra
úti í hafi, —
en aðrar horfa
at upprás sólar,
ok dýrrar lúta
dagsbrúnar átt". —
14. "Klúngrótt er hún
ok klettum horfin,
elr þó knáa
ok karska dreingi.
Nè annat ek
inndælla mák
augum líta,
en þá ættjörð mína".
15. "Hèlt mèr Kalypsó
kostsöm gyðja,
hjá sèr horsk,
þar er heima átti.
Hèlt mèr Kirka,
kunn at vèlum,
Eyjardís,
at inni sínu".
16. "Mèr þó hug hneigja
nè hjarta máttu-ð
máttkar gyðjur
at munum sínum.

ϱ. IX, 21-43.

þannig foreldrum
ok föðurlandi
inndælla ekki
er á jörðu".
17. "Því fíra hverr,
sá er fjarrkominn er
foreldrum sínum
ok feðra grundu,
þó auðugt hús eigi
í öðrum löndum,
foreldra saknar
ok föðurjarðar".
18. "Nú skal ek rekja
raunir allar,
ok hörmúngar þær,
er á heimför minni
sendi mèr Seifr,
er ek sigla gerða'k
Tróju túnum frá
yfir tröð reyðar":

---

19. Bar mik byrvindr
at þjöð Kíkóna,
til Ísmarus,
frá Ilíonsborg.
Þá lèt ek borg
brjóta niðr
ok borgarmönnum
bana veita.
20. Hertókum brúðir
borgarmanna,
ok fjárhluti
feingum gnóga.
Skiptum skaplega,
at skatna hverr
sinn hlut herfángs
of hljóta mætti.
21. Þá bauð ek brögnum
at vèr braut þaðan

halda hvatlega
á haf skyldum.
En heimskir halir
mèr hlýða gerðu-t.
Fýsti þá feingins
fjár at neyta.
22. Lifðu menn mínir
at munum sínum,
drukku dagleingis
dýrar veigar;
slátruðu sýslega
á sjávar ströndu
sauðum ok uxum,
sátu at veizlum.
23. En aðrir á meðan,
þeir er undan komust,
Kíkónar kölluðu
Kíkóna til,
nábúa sinna,
er í nánd bjuggu,
furðu fjölmennir
ok fræknir næsta.
24. Bjuggu bragnar þeir
í bygð it efra,
hraustir halir
ok herskap vanir,
hvort sem á vögnum
vega skyldi,
eða fólkvíg
á fæti eiga.
25. Komu mannmargir
morguns árla,
sem birkibrum
á björkum sprettr,
eða vallar blóm
vordegi á;
svo var fjöld mikil
fíra þeirra.
26. Vofði þá yfir oss
veslum mönnum
skelfilegr Seifs
skapadómr;
átti enn oss
auðit verða
mein ok mannraunir
margar þola.
27. Fylktu sèr fjandr,
ok fólkorustu
háðu snarplega
hjá snekkjum vorum;
drifu drjúgum
dörr eirrekin
hart úr herliði
hvorratveggju.
28. Meðan mest leið
morgun fagran,
ok dagr vaxandi
drógst með himni,
vörðumst vasklega
ok viðnám gerðum
fjöndum vorum,
þótt fleiri væri.
29. En er Glens beðja
gerði hníga
at brún brattri
Bölverks kvonar:
þá fyrir Kíkónum
kníar mínir
undan óku
ok ógagn biðu.
30. Lètust sex þar
liðar mínir,
skýrir skatnar,
af skipi hverju;
en vèr aðrir
undan sluppum
aldrtila
ok örlögdómi.

---

ρ. IX, 43-61.

31. Sigldum svo þaðan
svala vegu
á leið fram leingra
í lyndi hryggvir:
fegnir vorum,
fjörlausn þiggja,
daprir vorum,
dreingja at missa.
32. Nè borðróin
beit mín knáttu
á brim bíta
brautu leingra,
fyrr en feigra
fèlaga hvern
höfðum þreyjandi
þrisvar kallat,
þeirra er at foldu
fallit höfðu
fyrir Kíkónum
á kesju fundi.
33. Lèt þá á skipum
skella vorum
voldugr Seifr,
vindbýsna guð,
hræsvelg harðan
úr hánorðri
með fárviðris byl
feiknlegasta.
34. Hann hríðfeldum
huldi skýjum
haf umhverfis
ok hauðr it sama.
Af himins hvolfi
hnè þá niðr
svipljótt svartnætti
sorta þrúngit.
35. Stúngust á stafna
í straumgötum
fyrir snarvindum
snekkjur vorar.
Svipti sundr
í sega marga
volegt vinds megin
voðum lauka.
36. Lètum segl síga
at sessum niðr
því bana vorn vèr
vísan hugðum;
rèrum ramlega
á rakka hjörtum,
ok til lands lögðum
lagar skíðum.
37. Þar tvær nætr
ok tvo daga vèr
samfleytt sátum
á sjávar ströndu;
lágum lúnir
af leiðu volki,
hrjáðum hug vorn,
hörmum mæddir.
38. En er bjarthöddduð
of birtast lèt
dagsbrúnar dís
dag enn þriðja,
siglutrè reistum,
ok við siglu húna
dúka dripthvíta
draga knáttum.
39. Sátum svo,
ok sýttum vætki,
á hafskipa
hávum þiljum.
Sem veðr vildi,
vænar lètum
skeiðir skríða,
ok skipstýrendr.
40. Munda'k þá heill heim
hafa komizt
ættjarðar minnar
ok óðala til,

ϱ. IX, 62-79.

hefði ei hafalda
ok harðir straumar
ok hræsvelgr hamlat
hvass af norðri.

41. Hann stökkti mèr
frá stefnu rèttri,
ok frá Kýþeru
kveitti fleyjum,
þá er ek marblakk
fyrir Malíuhöfða
súðum þaktan
of svífa lètk.

42. Þrenna þrjá
ek þaðan hröktumst
daga um djúpar
drafnar slóðir,
hættulegum
hvassviðrum í;
nè vèr land litum
lánga tíma.

43. Uns á tíunda
tókum degi
land á láði
Lótófaga;
svo heita lýðir,
er land þat byggja
ok á blómfæðu
bergja sætri.

44. Þar á láði
þurt land stigum,
ok vatn jusum
í vorar þarfar;
ok kveldverð
karskir tóku
hjá lagar laupmörum
liðar mínir.

45. En er matar vèr
mettir vorum,
ok drýgt höfðum
drykkju þaðra,

ǫ. IX, 80-97.

valda ek vera tvo
vorra manna;
til fylgðar fírum tveim
fèkk ek kallara.

46. Sá var hinn þriði;
þessa ek senda
þar á land upp þrjá
þegna á njósn;
skyldu vísir verða
vorir liðar,
hvat lifði lýða
á landi þvísa.

47. Geingu gumar
frá gnoðum þegar,
ok á fund komu
foldar byggja;
nè Lótófagar
liða vorra
lètu við leitað
lífi týna.
Seggjum þremr,
er sendir voru,
buðu þeir bergja
á blómviði.

48. En hölda hverr,
er hunángsætum
blómviðar berjum
bergja náði,
sá heim aptr
hverfa vildi-t,
nè til naustblakka
njósnir bera.

49. Vildu höldar heldr
hýrast þar eptir,
ok í landi lifa
Lótófaga,
blómviðar berjum
bergja sætum,
ok hót eigi hyggja
heimfarar til.

50. Harðhendilega
nam ek hölda reka
græðis galta til,
en þeir grètu sáran.
Skaut ek skötnum
undir skips þóptur,
ok í bönd keyrða'k
við kjöl niðri.

51. En mæta mína
menn aðra bað'k
skynda sem skjótast,
ok á skip stíga,
at af blómviði
skyldi bergja eingi,
nè hug hverfa
frá heimför sinni.

52. Stigu þá stinngeðir
á streingja mari,
ok þrekramir
á þóptur settust.
Sat hverr seggja
í sínu rúmi,
ok unnir blár
árum kníðu.

---

53. Stefndum svo þaðan
stála hreinum
á leið fram leingra,
í lyndi hryggvir.
Komum, þars kappsnúin
Kyklópa þjóð
lögmálslaus
land um bygði.

54. Hafa halir þeir
á himins búum
ódauðlegum
ávallt þat traust,
at þeir akrvinnu
eingri skeyta,

ϱ. IX, 98-119.

grund ei erja,
nè gróðr setja.

55. Því at regnskúrir
ins ríka Seifs
láta hvítt hveiti
á hauðri ósánu,
ok bleikt bygg
í bjöð óplægðri,
ok víntrè vaxa
þrúngin vínberjum.

56. Hafa-t rekkar þeir
ráðastefnur,
nè landsvenjur
lögum bundnar.
Hafast þeir við
í hellum bjarga
uppi á fjalls gnípum
feikna hávum.
Börnum ok konum
ræðr bragna hverr;
virðir vettugis
verr annan.

57. Lángs fyrir laungum
leguvogi
liggr lítil ey
í landi Kýklópa,
hvorki fjarrkomin
foldar barmi,
nè svo nærkomin
nánum ströndum.

58. Sú er þakin ey
þángi hlíðar,
ok fögrum faldin
fagrlima.
Vaða þar um váng
villigeitr,
má maðr eingi
þá mergð of telja.

59. Þeygi styggjast þær
á þvísa landi

af fóta förum
ferðamanna.
Nè veiðimenn,
þeir er vanir eru
yfir fjöll fara
ok í foldar skógum
vosi venjast,
venja þángat
til feingjar fánga
farar sínar.
60. Hvorki fjárflokkar
fold þá yrja,
nè arðrjárn
eybarm rista;
er jörð ósáin
öll misseri,
ok óarin
um aldr daga.
61. Þar er auðn ýta,
en einar geitr
bíta blóm vallar
ok barr af viði;
því at knarra
Kýklópum er,
ok hafskipa vant
hlýrroðinna.
62. Nè þeir smiðu hafa
er smíða kunni
sessum skipaðar
skútur fagrar,
þær er nauðsynjar
nýtar kynni
at bústöðum bragna
ok borgum flytja;
svo sem ýtar opt
á öldu jóm
hvorir til annarra
yfir haf sækja.
63. Mætti, ef slíkra
væri manna kostr,

ǫ. IX, 119-140.

allbyggileg
ey sú verða.
Er-at hún ókostug,
ok ávallt kynni
alls kyns ársgróða
af sèr gefa.
64. Liggja eingjar
lög um runnar
ok mjúklendar með fram
marar bökkum.
Á þeim eingjum
ár ígegnum
víntrè sífrjó
vaxa knætti.
65. Er þar ok allslètt
akrlendi;
mætti þar akr
mjök hávaxinn
æ upp skera
á árstíð hverri,
alls jörð allfeit er
undir niðri.
66. Þar er leguvogr
með lendíng góðri;
þurfu-t fírar þar
festa skipum,
hvorki af stafni fram
stjórum varpa,
nè af skut aptr
skutfestum slá.
67. Megu meinalaust
menn þar skipum
við land leggja,
ok láta fljóta,
uns farmenn farar
fýsir aptr,
ok byrr blásandi
at baki kemr.
68. Vogsmynni við
undan víðum helli

veltir vatnslind fram
vatni skæru;
ok um ljósan lög
á lægis ströndu
algrænar umhverfis
aspir vaxa.
69. Hèr at landi lagt
lètum fleyjum.
En guða nokkurr
í níðamyrkri
sagði leið um lög,
því til lands grillti
eigi, svo augum
yrði á komit.
70. Lá þykkr um skip
þoku mökkr,
lýsti-a máni
af lopti niðr,
vafinn hann var
voðum skýja;
nè ey einginn
eygja kunni.
71. Nè vèr háva,
er at hauðri veltust,
lángarma sjói
líta kunnum,
fyrr en grunns kenndu
gnoðir vorar,
ok fley upp renndu
á fjöru sanda.
72. En er lagar dýr
land könnuðu,
öll vèr ofan segl
allir tókum;
stigum sjálfir
streingmörum af,
þar er flóð fèll
at fjöru storðar.
73. Hèr vèr lögðumst
á lagar ströndu,
ok mjúkt blunduðum
marbeðjum á.
Ok er fullan svefn
feingit höfðum,
mærrar biðu vèr
Morgunskæru.

---

74. En er árrisul
rósinfíngra
birtist mönnum
Morgunskæra,
gafst oss at undri,
er vèr ey litum,
varð oss víða þar
um völlu reikat.
75. Lètu þá landvættir,
ljúfar dætr
hins æðsta Seifs
ægisskjalda,
á fætr reist
fjallageitr,
dreingjum at drýgja
dagverð gnógan.
76. Tókum boga,
þá er á beitum voru,
ok lángskept spjót
með laungum fölum,
í þrjár sveitir
því næst skiptumst,
urpum örum
af álmbogum.
Gaf guð oss bráðla
gnóga veiði.
77. Fylgðu mèr í för
fjögr þrenn skip,
hlaut hvert geitr
í hlut níu.
En tólf mèr
tryggir liðar

at afnámsfè
einum völdu.
78. Þannig sátu vèr
þann dag allan,
uns sæl sól
seig til viðar:
gnógt kjöt snæddum,
gott vèr áttum,
drukkum dásætt vín
af drykkjarkerum.
79. Var-at enn með öllu
upp um geingit,
þat er á viggjum var,
vín hit rauða;
því hverr vorr hafði,
þá er helga tókum
borg Kíkóna
birgðir gnógar
látið víns ausit
á leirbrúsa.
80. Gafst oss at líta
land Kyklópa
allnærri oss,
ok upp þar sáum
stóran reyk stíga
stundar nærri;
raust vèr heyrðum
rekka sjálfra,
heyrðum sauðajarm
ok hauðnur kumra.
81. En er sæl sól
seig í ægi,
ok of sjót rekka
rökkr um sveif:
þá vèr hvatlega
til hvíldar geingum,
þar er lagar lá
lèk við steina.
82. En er árrisul,
rósinfíngra
birtist mönnum
Morginskæra,
fund með fèlögum
fróðum átta'k,
ok í áheyrn allra
til orða tók:
83. "Þèr skulut eptir
aðrir vera,
tryggir fèlagar,
hjá fleyjum niðri.
Sjálfr vil ek skunda
á skipi mínu,
ok með fèlögum
fara á njósn,
hvat hölda byggi
á hauðri þvísa".
84. "Hvort villimenn sèu
verar þeir,
ofstopa fullir
ok órèttvísi,
eða gestrisnir
við gumna þjóð,
ok í hug hræddir
við himinbúa".
85. Þá lèt ek þegar,
at því mæltu,
á fley upp farit,
ok fèlögum bauð
á streingmar stíga,
streingi leysa,
ok skutfestar
skjótt upp heimta.
86. Skatnar skjótlega
á skip stigu,
ok þrekramir
á þóptur settust.
Sat seggja hverr
í sínu rúmi,
ok unnir blár
árum knúðu.

ρ. IX, 160-180.

87. Lètum fley fljóta
farsund yfir,
ok á nes komum,
þat er næst of var.
Þaðan á útskaga
einn vèr litum
helli í hömrum
hafströndu við.

88. Sá var hár hellir,
ok hvelfdr ofan
laufgaðs lárviðar
laungu rjáfri.
Krökt var í krá hverri
af kvikfènaði,
lá þar geitsauðr,
lá þar ásauðr.

89. Hár umhverfis
var hlaðinn garðr,
studdr stórgrýti,
steinum jarðföstum,
feitum furutrjám
feikna laungum,
ok hávum eikum
allaufguðum.

90. Hèr hvíldi halr,
hræðilegt tröll.
Einn sèr, öllum
öðrum fjarri,
var vanr sá
hinn vondi seggr
hjarðir at hirða
hverjum stundum.

91. Hafði-a samgáng
við seggi aðra
afarmenni þat,
heldr öðrum fjarri
stundaði stórræði,
því hann stórum var
ferlegri ferlíki
foldar hverju.

ϱ. IX, 181-201.

92. Var-at hann mennskum
manni líkr,
heldr hátindi
hárra fjalla,
skógi skrúðbúnum,
er skagar í lopt
yfir alla einn
aðra tinda.

93. Þá bað ek alla
aðra mína
trygga fèlaga,
er mèr fylgðu þángat,
hjá öldu jó
eptir vera,
at þeir skips skyldu
skatnar gæta.

94. En ek sjálfr tólf
af seggjum valda'k
hali hraustustu,
er hafa knátta'k.
Fór svo af stað,
en ek fullan hafða'k
með mèr geitbelg
af góðu víni.

95. Þat gaf Maron mèr,
mögr Evanþess,
hofgoði Appollons,
Ísmara-goðs;
því sjálfum honum
ok syni hans
ok ljúfri beðju
höfðu vèr líf gefit.

96. Virðu vèr ver þann,
því hann í veglegum bjó
Febus Appollons
eikilundi.
Hann mèr gjafar gaf
glæsilegar:
gaf mèr goði
(skal-at gjöfum leyna)

af gulli vel skíru
vættir sjö,
ok enn skaptker eitt
af alsilfri.
97. Lèt því næst
á leirbrúsa
heilagr hofgoði
helgum ausit
vökva vínberja,
veig aldýrri,
mærri, muntamri,
mætasta drykk.
98. Þat vín vissi
í vers húsi
eingi húskvenna,
nè herbergismeyja,
utan einn hann
ok ástkær beðja,
ok hússmatselja
horsk, en þriðja.
99. Þegar þau tvö
þat vín drukku,
veig hárauða
ok hunángsæta,
tugum tveim
taldra mæla
eina vínskál við
af vatni hann blett.
100. Þá nam af skaptkeri
skjótt upp leggja
ángan ilmsæta,
unaðsfulla;
ok þá allauðvelt
eigi mundi
veigar veglegrar
við at bindast.
101. Slíkt var mungát þat
er ek með mèr hafða'k;
fyllta'k belg stóran
af bjóri þeima.

ρ. IX, 202-222.

Ok með mèr
í mal at auki
fararnest
flytja gerða'k.
102. Því hvatt hugr minn
hneigjast gerði
meginkröptugan
mann at hitta,
grepp grimmúðgan,
er gumnum tama
siðu sæmdi-t,
nè sann rèttan.

---

103. Komum hvatlega
at helli víðum,
hittum-a heima
hellisbúa.
Hann í haga var
heiman geinginn,
hjörðum hagvönum
hèlt þar á beit.
104. Um lituðumst,
ok með undrun stórri
horfðum á hvatvetna,
er í helli komum:
svignuðu ostgrindr
af ostakjúkum,
voru krær lömbum
ok kiðum troðnar.
105. Allt var út af sèr
inni byrgt þar:
var frumbornu sèr
feinginn staðr,
ok mið miðbornu
markat sama,
nutu næðis sèr
nýbæríngar.
106. Hafði hraustr þar
hellisbúi

til búverka sinna
byttur ok trog.
Voru búsgögn öll
búin hagla,
öll í mysu
flutu ílát þau.
107. Báðu mik tryggir
tveggja bæna
fèlagar mínir:
sú hin fyrsta var,
at osta nokkra
á braut hefðim,
ok úr helli svo
hyrfim aptr.
108. Sú var bón önnur,
at af bragði tækim
út úr króm bæði
kiðlínga ok lömb;
skjótlega þat
til skipa rækim,
ok yfir salt vatn
sigldim á braut.
109. En ek eigi fór
at orðum þeirra,
hefði þó hlýdt þat
hálfu betr.
Heldr segg þann sjá
sjálfr vilda'k,
vita, ef gestgjöf mèr
gæfi nokkra.
110. Átti þó ekki
auðit verða
(rèð því nauðugr
norna dómr),
at fèlögum mínum
yrði fagnaðar sýn,
segg þann svipillan
sjónum leiða.
111. Kveyktum bál bjart,
at blóti feingum,

ϱ. IX, 222-241.

osta at höfðum,
en átum suma.
Settumst í helli,
ok svo þess biðum,
at úr haga heim
halr um kæmi.
112. Heim kom úr haga,
hjörð nam at reka,
bar á baki sèr
byrði mikla
vindþurs viðar,
er vera skyldi
eldkveykju til
at aptans verði.
113. Varp utan hellis
viðarbyrði,
varð dýnkr drjúgr
er hún datt á jörð.
Hræddir urðu vèr
ok heldr smeykir,
hrukkum hart undan
inn at hellis gafli.
114. Þá rak mylkt fè
mellu kundr
allt í helli inn
afar víðan.
Lèt hann í garði
geldfè vera,
hrúta ok hafra,
utan hellis dyra.
115. Hóf hátt frá jörð
hellu stóra
drápfúss dólgr
ok fyri dyr lagði.
Þat var feikna-bjarg
furðu mikit;
mátti-a maðr slíkt
frá moldu hefja.
116. Knætti-t á lopt því
lypta bjargi

tveir ok tuttugu
traustir vagnar,
þótt hart fram hlypi
á hvelum fjórum,
ok um váng vylti
vagna bezt.
117. Svo var hellubjarg þat
harðla mikit,
er helreginn hóf
fyrir hellis dyr.
118. Settist síðan
sjóli bjarga,
geitr ok ær
gerði mjólka;
hann alla rètt
atferð kunni,
ok lamb hvert
lagði á spena.
119. Lèt helmíng hratt
hamra vísir
hvítrar mjólkr
at hlaupi verða;
vann hlaup hóglega
höndum samit,
ok geymdi gálega
á grindum riðnum.
120. En hinn helmíng
hilmir bjarga
ílátum í
upp nam setja;
þat var þrúðgelmis
þorstadrykkr
ok aukageta
at aptansverði.
121. Var hraðvirkr
hellis gramr,
ok búverkum
brátt nam ljúka.
Kveykti eld upp,
ok oss augum leit,
ok þeim orðum lèt
á oss varpat:
122. "Hverir eru þèr,
halir atkomnir?
Hvaðan siglit èr
svalar unnir?
Eigit èr erindi
eitthvert híngat,
eða rekizt èr
ráðlauslega
yfir virvils völl,
sem víkíngar,
er um haf hvarfla,
hætta lífi,
ok mönnum útlendum
mein of vinna?"
123. Mælti svo meingjarn
manna dólgr.
Þá varð hjarta vort
hræðslu lostið.
Skaut oss skelfíngar
skelk í bríngu
ramlegt regintröll
ok rödd ámáttleg.
124. Hafða'k þor þó
þeingli hamra
annsvar veita,
ok þat orð um kvað:
125. "Komnir eru vèr,
kappar akkverskir,
tírar kunnir
frá Trójulandi,
hraktir hvers konar
hörðum veðrum
yfir ægis geim
afar víðan".
126. "Erum á heimleið
híngat komnir,
fluttir afleiðis
fjarra vega.

ϱ. IX, 241-262.

þá hefir ríkr
at ráði sínu
Seifr farleingd oss
fyrir setta".
127. "Hermenn eru vèr
(hrósum vèr því)
Agamemnons
Atreifssonar;
sá er fylkir
frægstr allra,
hans ferr hróðr hæst
með himinskautum".
128. "Sá hefir brotið
þá borg at velli,
er mest er orðin
und miðgarði.
Á mörgu landi
hefir hann mæki roðit,
ok bragna fjöld
at bana vorðit".
129. "Komnir 'ro vèr
at knjám þínum,
laðar þurfar
ok líknar þinnar,
ef oss gestgjöf
gefa vildir,
eða vingjöf
veita knættir.
Þat er gestvina
góðra kynni".
130. "Ódauðlegum lát
lopthjálms búum,
ljúfasti, ljúfa
lotníng veitta;
því at þik vèr
í þrautum vorum
nálgumst nauðstaddir,
ok á náðir flýjum".
131. "Seifr gestaguð
gestum fylgir
virðulegum
á veg jafnan.
Hann rèttar rekr,
þess rángt er gert
miskunar þurfum
ok mönnum ókunnum".
132. Svo ek sagða,
en þá svara vann
gætir gljúfra sals
af grimmu brjósti:
133. "Ert-attu horskr,
halr ókunni,
eða lángt ert at
úr löndum kominn,
er þú mèr annathvort
at óttast guði,
eða rögna ræðr
reiði forðast".
134. "Því vèr Kýklópar
oss kærum þeygi,
þótt ofri Seifr ótt
ægisskildi.
Sút vèr sízt ölum
um sæla guði,
því máttr vorr er miklu
meiri, en þeirra".
135. "Hvorki mun ek hót
þèr hlífa sjálfum,
nè líf spara
liða þinna,
þóttú ægir mèr
með ægisskjalda,
nema sjálfs mèr sefi
segi annat".
136. "En lát mèr lýst,
hvar þú lenda knáttir
byrðíngi barmfögrum,
er þik bar upp híngat.
Var þat við sjálft,
at ek vita mega'k,

ϱ. IX, 262-280.

eða á andnesi
einu hverju?"
137. Mælti svo miðjúngr,
mín freistaði;
flekaði-t mik fláráðr,
því ek fleira kunna'k.
Lèt ek viðmæli
vèlafullu
aptr orpit
á óvægan hal:
138. "Keyrði knör minn
at klettum hamra
máttugr Posídon
miðgarðs skelfir;
upp at útskaga
öldu jó rak,
ok sundr muldi
mjöli smærra".
139. "Þat var yðvars lands
á endimörkum.
Bar vigg veðr
af víði utan.
En menn þessa
ok mik sjálfan
undan bana bar
bráðskeytlegum".
140. Þeim lèt ek orðum
aptr svarat;
en mèr grimmr gaurr
gerði-t annsa,
heldr hljóp upp
í heiptar æði,
ok á knía mína
krummur lagði.
141. Þreif hann þegna tvo,
ok þeim niðr sló
hart við hauðri,
sem hvolpar væri.
Hauss rifnaði,
heili flaut á jörð,
varð láð litað
legi hjarna.
142. Lið fyrir lið
limu sundraði,
ok menn mína
til munns sèr lagði.
Át hann þá upp,
sem hit óarga dýr,
þat er á fjöllum
fæðist uppi.
Bein nam at bryðja,
beit sundr kjöt,
át upp innifli,
ekki nam at leifa.
143. Hvarf oss hugr,
hljóðuðum upp,
er þau grimdarverk
gátum líta;
hófum upp hendr
til himna jöfurs;
var-a kostr neinn
nýtra ráða.
144. En er hamramr
holdi fyllta
hafði hít sína
hamra búi,
ok manna kjöt
mest um etið,
ok teygat á ofan
tæra mjólk:
lagðist hann endlángr
innan helli,
ok meðal búfjár
býfur rètti.
145. Stökk þá eitt mèr
stórræði í hug
(varð mèr þreklyndis
þrot aldreigi),
hendi til taka,
ok tíðla bregða,

þeims á hlið mèr hèkk,
hjörvi bitrum.
146. Vaða at volegum
vallar dólgi,
ok beittum brandi
fyrir brjóst leggja,
þars lifr liggr
í loptsal þindar.
En því ráði ráð
renndi annat.
147. Því þá mundu vèr,
ef ek þat gerða'k,
bana bráðan
of beðit hafa:
alls vèr aldreigi
orkat hefðim
hellustein hefja
frá hellisdyrum.
148. Því handmegni með
máttu vèr eigi
hrinda brott höfgu
hurðar bjargi.
Þreyðum því þar
með þúngu skapi,
ok biðum bölmóðir,
uns birta tæki.

---

149. En er árrisul,
rósinfíngra
birtast mundi
Morgunskæra,
jötunn ámáttkr
eld nam kveykja,
ok mylkan fènað
mjólka gerði;
hann alla rètt
atferð kunni
ok lamb hvert
lèt á spena.
ϱ. IX, 300-319.
150. Var hraðvirkr
hellis gramr,
ok búverkum
brátt nam ljúka.
Þá lèt hann þegna
þrifit aptr tvo,
ok þá menn mína
til munns sèr lagði.
151. En er mettr var
mellu kundr,
hann úr helli fè
hvatt nam reka;
ok frá færði
án fyrirstöðu
hurðar hellu
frá hellis munna,
ok svo lètt aptr
lagði fyrir,
sem fyrir örstokk
ypti loki.
152. Hátt nam hóa
hveðrúngs mögr,
er til fjalls stökkti
feitum sauðum.
Sat ek eptir
með sárum hug,
hreifða'k harmbrögðum
í hyggju fylgsni.
153. Hugða'k á hefndir,
ef mèr heilög vildi
Aþena sigrs
ok sæmdar unna.
Hvarf þá í hug mèr
heillaráð eitt,
er mèr vænlegast
vera þótti.
154. Lá kylfa ein,
er Kýklópr átti,
helliskró hjá,
heldr mikil,

græn ok glæný,
af góðu efni,
viðsmjörsviðar björk
vænni tekin.
155. Hafði höggvit sèr
hellisbúi
afli treystandi
trèlurk þenna,
at í hendi sèr
hafa knætti,
þegar sem þat trè
væri þurt orðit.
156. Sýndist öllum oss,
er vèr á litum,
svoli sá vera
sem siglutrè
í tvítugsessu
týskipaðri,
byrðíngi breiðum,
er brautir humra
veðr út ok inn
enda milli.
Svo var svoli sá
sýnum lángr,
svo var svoli sá
sýnum gildr.
157. Fór ek þá til,
ok feðmíng næsta
kylfu efnis af
enda ek hjó.
Þann fèkk ek fèlögum
faðmslángan bút,
bað þá til telgja
ok tývel slètta.
158. Telgðu menn mínir
meið hinn græna,
en ek oddhvassan
í enda gerða'k;
tók svo trèbút þann
ok tíðlega snèra'k

ϱ. IX, 320-338.

í glóðheitum
garmi viðar.
159. Fól ek svo fimbultrè
í fastri mykju,
ok und gólfskán
geymdi vandla;
því at þykk var
ok þètt hvervetna
mykjuskán mikil
um myrkvan helli.
160. Lèt ek þá alla
liða mína
hlutum verpa,
sem mèr hægst þótti,
hverr þeirra hugborð
hafa knætti
stóran meðr mèr
meið upp hefja,
ok í auga jötuns
óðum snúa,
þá er á brár bölverks
blundr of rynni.
161. Hljóp út hlutr
hölda fjögra,
þeirra er minna manna
mest of kysa'k;
en ek þar sjálfr
í þeima flokki
maðr hinn fimti
munda'k talinn.
162. Kom at kveldi dags
kaldráðr jötunn
heim at helli
með hjarðir sínar;
ok feitt fè
fljótt nam reka
allt í helli inn
afarvíðan.
163. Nè hann liggja lèt
lagðprúða hjörð

utan hellis
í hellisgarði;
hefir hann annathvort
eitthvat grunat,
eða hefir guð hann svo
gjöra látið.
164. Hóf hurðarbjarg
hátt frá jörðu
drápgjarn dólgr,
ok fyri dyr lagði.
Settist síðan
sjóli bjarga,
geitr ok ær
gerði mjólka;
hann alla vel
atferð kunni,
ok lamb hvert
lèt á spena.
165. Var hraðvirkr
hellis gramr,
ok búverkum
brátt nam ljúka.
Þá lèt hann þegna
þrifit enn tvo,
ok þá menn mína
til munns sèr lagði.
166. Þá lèt ek hógla
í hönd mèr tekit
viðvindils skál
víni fulla.
Staðar ek nam
hjá stórum risa,
ok hann orðum þeim
á nam verpa:
167. "Tak víni við,
vörðr bjarga,
mýk þèr í munni
eptir mannahold.
Þá munt finna fá,
fjallgeiguðr,

ϱ. IX, 338-356.

hve veigar þær
eru vörrum þægar,
er farkostr vorr
of fela knátti".
168. "Lèt ek þessar þèr
þægar veigar,
hamra Freyr, fært,
til fórnar dreypa,
ef þú á mèr sjá
aumr vildir,
ok til hags snúa
heimför minni".
169. "En þú óðs manns
æði drýgir,
er-a þolanda
þetta leingr.
Hve þik hèr eptir,
má hölda nokkurr,
greppr hinn grimmi,
at garði sækja,
er þú verk þau
vinna svífist,
er vinna sæmir-a
seggjum snotrum?"
170. Svo ek sagða,
en sjóli bjarga
brátt við bjóri tók,
ok til botns af drakk.
Þótti geysi gott
gæti fjalla
drykk dásætan
djarft at súpa,
ok mik aptr bað
öðru sinni:
171. "Skeink mèr enn í skál
skatna vinr,
ok mèr nafn þitt nefn
nú at bragði.
Skal ek gestgjöf þèr
gefna láta,

at þú, góðr gumi,
gleðjast megir".
172. "Þróast vínlögr
á vángi Kýklópa
vökvafullum
vínberjum í;
ok regnskúrir
hins ríka Seifs
veita vöxt þeim
ok viðgáng fullan".
173. "En þessi lögr,
er þú mèr skeinktir,
undanrenníng er
ódáins lagar,
ok ódáins feitar
afrás sönn".
174. Kvað svo Kýklópr,
en ek kátum aptr
skeinkta'k skrými
hit skæra vín.
Þrisvar ek skeinkta'k,
þrisvar ek færða'k,
þrisvar þurs drakk
í þinkuleysi.
175. Sveif sætt vín
at sal hjarna,
ok ráð risa
í reikuð færði.
Varp ek svaslegum,
er svo var komit
orðum á ölvan
urðar þrjót:
176. "Spyr þú um nafn,
er nefna lýðir
(þat er knúum kunnt),
Kýklópr, mitt?
Herma skal ek,
hve mik heita dróttir;
en þú gestgjöf gef,
er mèr gerðir heita".
ϱ. IX, 356-375.

177. "E i n g i n n ek heiti,
E i n g i n n er nafn mitt;
kalla mik E i n g i n
allir lýðir.
Kallar E i n g i n faðir,
E i n g i n móðir,
E i n g i n kalla mik
allir vinir".
178. Svo ek sagða,
en mèr svara vann
greppr gagnölr
af grimmum hug:
179. "E i n g i n efstan
skal ek etinn láta
fèlaga þeirra,
er fylgja honum;
aðra skal ek áðr
etið hafa.
Sú skal gestgjöf þèr
gestr vera".
180. Innti svo óglaðnir,
ok í einu valt
opinn upp í lopt
aptr á bak;
sveigði sinn á hlið
svíra digran,
og marflatr lá
á mykjugólfi.
181. Sveif á hann svefn,
hinn er sigrar alla.
Vall þá vín upp
vèlindi úr,
hrukku manna holds
úr munni bitar,
ældi öldrukkinn
óhófs svelgr.
182. Þá lèt ek stauri
stórum skotið
inn í eimyrju
afarheita,

ok þar liggja lèt
lánga stund þá,
uns endr um hitna
allr næði.
183. Þá lèt ek orðum
upp of hvatta
alla fèlaga
frækna mína:
bað þá hug herða,
ok hvergi láta
áræði bila,
nè undan hvika.
184. Lá loks við sjálft,
at í laungum mundi
viðsmjörsviðar staur,
þótt verit hefði
grænn ok glænýr,
af glóð um kvikna;
gerðist glóhvítr
gegnum næsta.
185. Bar ek brand þá
úr bráðum funa,
halir hugdjarfir
í hríng um stóðu.
Blès þá í brjóst
bragna hverjum
áræði öflgu
einhverr guða.
186. Viðsmjörsviðar staur
vaskir tóku
ótt oddhvassan,
ok í auga ráku.
Hófst ek at lopti,
hátt upp seildist,
snèra'k snarlega
snúðgum meiði.
187. Svo til at mynda
sem maðr bori
stórskipatimbr
með stórviðarbor,
en tveir niðri
tveggja vegna
sveinar standi,
ok í streing togi;
snýst svo í snarkrínglu
snúníngi vökrum
rennibor beittr,
ok braut sèr ryðr.
188. Svo vèr hríngsnèrum
með handa afli
aski oddbrenndum
í auga miðju;
en brennheitt blóð
brand í kríngum
hart hlaupanda
hvervetna flaut.
189. Brár stiknuðu,
brýnn sviðnuðu
af brennheitri
bruna svælu;
soðnaði brunnit
sjáldr auga,
umdi eldsuða
í augarótum.
190. Svo til at jafna,
sem járnsmiðr einn
herði handexi
í herzlustokki,
eða bolexi
brigðastórri
brennheitri bregði
niðr í blákalt vatn;
því at þat getr
þolgóðan stað
járni eldbornu
aptr feingit:
svo suðaði
sjáldr auga
smuglan í kríngum
smjörviðar brodd.

ρ. IX, 376-394.

191. Háöskraði
hamra drottinn
(þat var ógurlegt),
svo undir tóku
hellis hamrar;
en vèr hræddir urðum,
ok allir senn
undan stukkum.

192. Alblóðugum
úr auga sínu
brandi bölverkr
brottu kippti,
ok hart af hendi
heljar broddi
frá sèr fleygði
í feikna æði.

193. Kallaði Kýklópr
Kýklópa á
ákaft aðra,
þá er umhverfis
híbýli höfðu
í hellum bjarga
út um víðskaga
veðrblásna.

194. Heyrðu hljóð jötnar,
ok hvaðanæfa
drifu óðum at
úr átt hverri.
Í hríng um helli
hávan þyrptust,
ok eptir frèttu,
hvat hann ángra gerði:

195. "Hver þik pína svo,
Pólýfemus,
ángrar, at ákaft
skulir æpa svo
um nótt nýta,
at náim eigi
náða njóta
nè nokkurs svefns?"

ϱ. IX, 395-414.

196. "Hvort rænir þik
rekka nokkurr
móti sjálfs þíns vild
sauðfè þínu?
Hvort sjálfan þik
seggja nokkurr
með vèl deyða,
eða valdi ríku?"

197. Annsaði úr helli
aptr jötunn,
krapti prúðr
Pólýfemus:
"Vill mik, vinir,
með vèl deyða
E i n g i n n, ok eigi
með ofrvaldi".

198. Aptr önnsuðu
urðar þrjóti
jötnar ámáttkir,
ok til orða tóku:
"Ef þèr ofríki
einginn veitir,
þá er sjúkleikr,
þat er særir þik".

199. "En sjúkleik má
manngi forðast,
þann Seifr sendir
sonum alda.
Lát ljúfan föður
líknar beðinn,
máttkan Posídon,
í meinum þínum".

200. Inntu svo jötnar,
ok aptr snèru.
Hló þá hjarta mèr
hátt í brjósti,
er heiti hugvitslegt
ok mitt hyggilegt ráð
trygglaust tröll
á tálar dróg.

201. Stundi stórverkr
stunum þúngum,
hörðum harmkvæla
hríðum stúnginn.
Ofraði örmum,
um nam at þreifast,
ok hellustein hóf
frá hellis munna.

202. Settist síðan
siklíngr bjarga
við hellis dyr,
ok höndum fálmaði,
at handsamat gæti
hölda nokkurn,
ef með ásauðum
rèði út at gánga.

203. Hugði hann mik svo
í hyggju setri
vitsmuna sljóvan
vera mundu.
En ek drýgða dáð
ok djúpt lagðist,
hvert ek fángaráð
fá kynna bezt.

204. Leitaða'k lausnar
liðum mínum
ok sjálfr sjálfum mèr
úr sýnum dauða.
Hundrað ráða,
hundrað vèla
hugða'k, sem líf mitt
leysa skylda'k.

205. Því nú var nálægr
norna dómr,
vofði hálf Hel
yfir höfðum vorum.
Hvarf þá í hug mèr
heillaráð eitt,
þat er mèr vænlegast
vera þótti.

ϱ. IX, 415-435.

206. Þar voru sauðir
í sal þursa
fagrir, feitir,
í fullu reyfi,
mórauðir á ull,
miklir vexti;
fè fèlegra
fann ek aldreigi.

207. Gekk ek í val
valdra sauða,
hafða'k hljótt um mik,
ok hverja þrjá
með velbrugðnum
víðitágum
lèt ek sýslega
saman bundna;
á þeim tágum lá
tröll hit mikla,
risi, sá er rètt
rækti eingan.

208. Lèt ek miðsauð hvern
mann einn bera,
en á hlið hvora
til hlífðar þeim
töltu tveir sauðir,
tókst svo þremr
sauðum minna hvern
manna bera.

209. Þar var hrútr einn
í hjarðar flokki,
of lángt ágæztr
allra sauða.
Tók ek í bak ofan
bekra loðnum,
ok vatt mèr vörpulega
und veðurs kvið.

210. Lá ek þar í hnipri,
en hendr báðar
lèt ek læstar fast
í loðnu reyfi;

hèlt mèr hnálega
hnipraðr saman,
þreyða'k þolgóðr
und þykkum röggum.
211. Biðum svo búnir
í björgólfs ranni,
var oss ómótt mjök,
uns morna tók.
212. En er árrisul
upp nam stíga
dagsbrúnar dís
yfir dróttmögu:
út rèðu ryðjast
rosknir sauðir,
lysti þá úr helli
í haga gánga.
213. Ær voru eptir
ómjólkaðar
læstar í hávum
hellis stíum;
jörmuðu jafnharðan,
því júfr voru
þrútin ok þrúngin
þúngum stálma.
214. Hjarðar eigandi
hellis búi,
hörðum harmkvælum
haldinn dála,
blindr á auga,
á bökum tók
allra ásauða,
er þeir upprètt stóðu.
Hittki hann hugði,
því hann heimskr var,
at ásauða
ullreyfaðra
bundnir und bríngum
bragnar voru.
215. Hinztr gekk sauða
at hellis dyrum

ϱ. IX, 435-453.

hrútr inn harðvaxni,
er hèlt mèr uppi;
þúngaðr var hann
af þèttu reyfi,
ok af mèr, manni
margráðugum.
216. Greipaði breitt bak
bekra loðins
prúðr at afli
Pólýfemus,
ok þeim orðum hrút
á nam verpa:
217. "Hví þú, hrússi minn,
hokrar þannig
hinztr sauða
úr helli mínum?
Vart-attu svo
vanr fyrrum
síðastr fara
sauða minna".
218. "Ferr þú lángfyrstr,
ok fetar stórum,
grænt gras bíta
um grundir fagrar.
Fyrstr þú framm
at fljóti rennr,
þar er vatn veltr
um völlu græna".
219. "Fýsir þik fara
fyrstan allra
á kvíaból aptr
at kveldi dags.
Nú ertu ásauða
efstr í för,
orðinn einn allra
eptirbátr".
220. „Hvort er sök sú,
at þú sakna gerir
hollrar hvarmsólar
hússbónda þíns,

þann er E i n g i n n,
hinn illi seggr,
sætu sjónepli
svipta náði?"
221. "Fylgðu at fádýrir
fèlagar hans,
en hann mik víni vann
viti firðan.
Hykk-a þó E i n g i n
enn þá sloppinn
undan óförum
ok örlögdómi".
222. "Ef þú jafnt hygðir,
sem jeg geri,
ok á mik orpit
orði gætir,
ok mèr sjálfum sagt,
hvort sá seggr hafi
ofríki ossu
undan horfit:"
223. "Þá skylda'k níðíngi
niðr við slá
hart við hellur,
svo at heilaslettur
hrjóta skyldu hans
um hellis álfur
allar ok ýmissar
enda millum".
224. "Mundi mèr þá skjótt
meina batna
harðsnúinna,
er hjarta mínu
E i n g i n n aflaði,
ölmusa sú".
225. At mæltu því
mellu kundr
hleypti hrút út
um hellis dyr.
226. En er skamt vorum
skatnar komnir

ϱ. IX, 453-471.

frá höll harðverks
ok hellisgarði,
fyrstr ek losaðist
undan loðnum hrúti,
ok svo aðra leysta'k
liða mína.
227. Skjótt vèr skunduðum,
ok til skips rákum
sauði feitlagna,
fótum hraða.
Opt vèr urðum
ásauð styggvan,
áðr til knarar komumst,
kríngum fara.
228. Fegnir urðu
fèlagar vorir,
er þeir lífs oss
líta gerðu.
Hina þeir hörmuðu
harmi sárum,
er helfarar höfðu
í helli kannat.
229. En ek bannaða
bragna hverjum,
harmhljóð til sín
heyra láta.
Bendíng beina
ek með brúnum gaf:
gráts at bindast,
bindast kveinstafa.
230. Bauð ek bráðlega
bragna sveitum
ullfögru fè
upp í fley varpa.
Skatna skjótlega
bað ek á skip gánga
ok sigla sýslega
yfir saltan mar.
231. Stigu stórúðgir
á streingja mar,

ok þrekramir
á þóptur settust.
Sat seggja hverr
í sínu rúmi,
ok unnir blár
árum knúðu.

232. En er ek svo var lángt
út á sæ kominn,
at hljóð í land
heyrast mátti,
þá lèt ek á jötun
ámáttlegan
ertíngar orðum
orpit þeima:

233. "Hefir-a þat alsendis
verit ölmusa,
Kýklópr, karl sá,
er þú karska lèzt
fèlaga fyrir
frekt í helli
etið með ofbeldi
afarvíðum".

234. "Þau hin vondu verk
víst hlutu þèr
í koll niðr
koma síðar,
greppr hinn grimmi,
er gesti komna
eta sveifst-attu
at sjálfs þíns heima.
Því hefir sjálfr
Seifr of hefnt
á þèr illgjörða,
ok aðrir guðir".

235. Svo ek sagða,
en seggr hinn grimmi
fylltist afarheipt
enn þá meiri.
Reif hann upp fjallshnúk
feikna stóran,

ok mèr sendíng þá
senda gerði.

236. Hraut hnúkr fjalls
úr hálopti
beint fyrir framan
fagrsteint skip.
Ygldist Ægir,
espaðist Rán,
brustu boðar,
er bjarg kom niðr.

237. Fluttu boðaföll
fley at landi
óðfluga aptr
í einum svip.
Rak röst hörð
úr regindjúpi
flaust fagrbúit
at fjöruborði.

238. Þá lèt ek fork einn
furðu lángan
höndum hrifit,
hart við spyrnda'k;
ýtta'k frá landi,
ok á nam heita
alla fèlaga
frækna mína.

239. Hljótt nam ek hvetja,
höfði nam ek benda,
bað ek alla ótt
á árar fallast,
at úr vanda vèr
voveiflegum
næðim allir ört
undan stýra.

240. Rèru af ríki
rekkar mínir,
ok á árar fram
allir fèllust:
hristust háir,
hömlur tognuðu,

beystu bakföllum,
borð við skulfu.
241. En er tvíslíkt
á tröð báru
orum út komnir
undan landi,
vilda'k á blindan
bjarga gæti
orði enn aptr
einu verpa.
242. En mèr öptruðu
allir mínir
fræknir fèlagar,
er á fleyi voru.
Báðu bragnar mik
blíðum orðum,
sat þó seggja hverr
í sínu rúmi:
243. "Hví viltu egna,
ofrhugi,
rekk ramtrylltan
til reiði á ný?
Hann oss nú híngat
á haf út sendi
sendíng frá sèr
af sævarströndu".
244. "Rak hann fley vort
til foldar aptr,
svo oss sjálfum var
sýndr dauði,
ef hann heyrt hefði
hljóð af stundu,
eða orð einhvern
af oss mæla".
245. "þá hefði haus hann
hvers vors klofit,
ok með hrufóttu
hamra bjargi
mölvat skip vort
mjölvi smærra;
svo lángt hendir hann
hörðum steini".
246. Mæltu svo mærir
mínir liðar;
knáttu-at mèr hughvarf
halir telja.
Ok jötun aptr ek
ámáttkan lètk
kvadt í hermdarhug
heiptarorðum:
247. "Ef þik einhverr
óglaðnir, spyrr
mennskra manna
fyrir mold ofan:
hví þú hafir
svo háðulega
verit sjón sviptr,
þú svara skalt:"
248. "Mitt hefir auga
Odysseifr
borgabrjótr
of blindat látið.
Sá er lofðúngr
Laertesson,
ok á Íþaksey
óðul byggir".
249. Svo ek sagða,
en mèr svara vann
hilmir hamra,
hljóðaði sáran:
"Eru slíkt undr!
Á mèr sjálfum
spakra spádóma
spjöll nú rætast".
250. "Hèr var á hauðri
halr nokkurr,
verr vasklegr
ok vaxtarmikill,
Telemus, Evrýms
arfi kenndr,

ρ. IX, 490-509.

allra spakastr
spádómsmanna.
Sá spár sagði
sjót Kýklópa
allt á efstu fram
æfidaga".

251. "Kvað hann allt þetta
eitt sinn mundu
á mèr rætast,
sem raun nú sýnir,
at ek Odysseifs
einhvers munda'k
minnar af völdum
missa sjónar".

252. "En ek ávallt hèlt,
at einhverr mundi
vænn at áliti
ok vöxtulegr
hraustr hermaðr
híngat koma,
ok afreks afli
ítru búinn".

253. "Nú hefir sjón minni
sviptan mik
liðleskja ein
ok lítilmenni,
auvirðismaðr,
eingu nýtr
ok mik ölvaðan
áðr um gert".

254. "Heyr, Odysseifr,
híngat þú snú!
Vil ek gestgjöf þèr
gefa nokkra,
ok máttkan biðja
miðgarðs skelfi,
at hann fljótt greiði
farar þínar.
Hann er faðir minn,
hrósa ek því;
em ek arfi hans,
þat er öllum kunnt".

255. "Hann mun at heilu,
ef hann svo vill,
minn geta geisla
græddan hvarma;
nè því annarr einn
of orka má
mennskra manna
nè mildra guða".

256. Mælti sjóli svo
salar fjalla,
en ek orðum hans
annsvar veitta'k:

257. "Óska vilda'k,
at ek eins mætta'k
í Niflhel þik
niðr senda,
aldri sviptan,
öndu ræntan,
lífi firðan,
fjörvi numinn:
sem þitt eigi mun
auga lækna
máttugr mega
miðgarðs skelfir".

258. Svo ek sagða,
en sjóli bjarga
höndum fórnaði
til himins upp,
ok máttkan Posídon
miðgarðs skelfi
þeima bljúgr bað
bænarorðum:

259. "Heyr bæn mína,
bláhærði guð,
máttugr Posídon
miðgarðs vörðr!
Sè ek at sönnu
son þinn orðinn,

ϱ. IX, 509-529.

fái ek þik at fullu
föður kallat:
unn mèr, at eigi
Odysseifr,
hrjóðr háborga,
nái heim um komast".

260. "En ef honum á
auðit verða
ástvini sína
aptr líta,
ok til húss aptr
heim um komast,
ættjarðar sinnar
ok óðala til:"

261. "Missi hann þá allra
manna sinna,
aptr heim komi
illa ok seint,
fyrða útlendra
farkosti á,
ok harmböl hvers konar
heima finni".

262. Svo bað siklíngr
salar fjalla,
heyrði bæn hans
hinn bláhærði guð.

263. Þá hóf aptr upp
öðru sinni
miklu stærra stein
stillir bjarga,
varp sèr úr hendi,
veifði í hríng,
tók hamramr
á heljarafli.

264. Hraut höfuðbjarg
úr hálopti
fyrir skut aptan
skipi blásteindu;
var vilgi mikils
vant, at næði

ϱ. IX, 529-550.

steinn stórhöfugr
stýris hæli.

265. Æstist Ægir,
espaðist Rán,
brustu boðar,
er bjarg kom niðr.
Flutti breka fall
fley áleiðis,
ok flaustri fleytti
at fjörusandi.

266. Komum til eyjar,
þars önnur stóðu
fagrbúin fley
í fjölda saman.
Sárt vor söknuðu,
sátu ok grètu,
fræknir fèlagar
flaust í kríngum.

267. Lendum knerri,
er vèr komum þar,
á flæðarströnd
við fjörusanda.
Stigum sjálfir svo
af segla hirti,
þar er lagar lá
lèk við steina.

268. Tókum ásauð upp,
er átti Kýklópr,
úr húflaungu
húna dýri.
Skiptum skaplega,
at skatna hverr
sinn hlut herfángs
of hljóta skyldi.

269. En fèlagar mínir,
þá fèi var skipt,
brynhosum búnir
brigða fögrum,
hugum hollir
hrút inn góða

gáfu einum mèr
at afnáms fè.
270. þann lèt ek hrút
á hafströndu
Seifi blótaðan,
guði svartskýja,
arfa Kronusar,
honum er öllu ræðr,
ok lærbita brenda
blótstalla á.
271. Sinnti-a Seifr
blóti signuðu,
lèt á hitt hneigðan
hug sinn allan,
hve gjörvöllum
of glata mætti
fèlögum mínum
ok fögrum snekkjum.
272. þannig sátu vèr
þann dag allan,
uns sæl sól
seig til viðar:
gnógt kjöt snæddum,
gott vèr áttum,
drukkum dásætt vín
af drykkjarkerum.
273. En er sæl sól
seig í ægi,
ok rökkr drógst
yfir rekka sjót,
þá vèr hvatlega
til hvíldar geingum,
þar er lagar lá
lèk við steina.
274. En er árrisul,
rósinfíngra
birtist mönnum
Morginskæra,
bauð ek fèlögum
á borð stíga,
skutfestar leysa,
ok skjótt upp heimta.
275. Stigu á streingmar
stórhugaðir,
ok þrekramir
á þóptur settust;
sat seggja hverr
í sínu rúmi,
ok unnir blár
árum kníðu.
276. Stefndum svo þaðan
stála hreinum
á leið fram leingra,
í lyndi hryggvir:
fegnir vorum
fjörlausn þiggja,
daprir vorum,
dreingja at missa.

---

# TÍUNDA KVIÐA.

RUNNU rásvakrir
rakka hirtir
Eólseyjar til,
en þar óðulum
arfi Híppótess
Eólus rèð,
ástvinr eilífra
uppheims goða.

ϱ. IX, 550-566.

2. Sú er all-tíð ey
ægis hestum;
en um utan
alla geingr
eirveggr ey þá
óbrotlegr;
gnæfir hátt í lopt
hamarr slèttr.
3. Átti Eólus
afkvæmi tólf
hjá sèr heima
í hallar sölum:
sex voru synir,
sex voru dætr,
þau gaf sex saman
siklíngr hjón.
4. Sitja synir
hjá sínum föður
daga alla,
ok dýrri móður,
vaskir at veizlu;
er valdra krása
fjöld á borð borin
bræðrum dýrum;
geingr glaumr hár
gegnum sjóla
húsagarð
ok höll ilmandi.
5. En um nætr
nýtir sofa
konúngs arfar
hjá konum sínum:
blæjur breiða,
blunda á dúni,
hvíla haggjörvum
hvílbeðjum á.
6. Bar oss at borg
bræðra þessa,
ok föður þeirra
fögrum sölum,
Mèr hann virkta vel
veita mundi
mánuð heilan,
margs nam at frètta.
7. Innti hann eptir
um Ilíonsborg,
herskip argnesk,
heimför Akkverja.
En ek um allt,
er at nam frètta,
sagða'k sjóla,
þat er sannast vissa'k.
8. En er orlofs
öðlíng beidda'k,
ok ek fylki bað
um fararbeina,
þeygi siklíngr
synja mundi
(greiddi gramr för)
þess er gerða'k biðja.
9. Fló, ok fèkk mèr,
fylkir ríkr
af nauti níu vetra
nýfleginn belg.
Þar átti öðlíngr
inni byrgða
rásir vinda
vítt þjótendra.
10. Því kundr Kronusar
konúng hafði
ráðamann sett
ríkra vinda:
vind at kyrra,
veðr lægja,
vind at vekja,
at vilja sínum.
11. Batt belg jöfurr
á báru hreini
glæstri festi,
var gjör af silfri.

ϱ. X, 3-24.

Bað-at hann gjósa
gust um smugu,
nè blæ blása
um boru nokkra.
12. Lèt á bak breiðum
báru dýrum
vind frá vestri
vísir blása;
sá skyldi fleyja
ok förunauta
yfir fiska fold
farir greiða.
13. En eigi átti
auðit verða
lofðúngi, því
til leiðar koma;
því af vanvizku
vorra sjálfra
hamíngja brast,
en heill nam bila.
14. Sigldum sædrifnum
sunda mörum
níu nætr samt
ok níu daga.
Skaut upp feðra fold
úr fiska geimi
(sá var dýrr dagr)
dag tíunda.
15. Sám vèr nálægt
af nausta blökkum
vitavörðu
vorrar foldar.
Þá seig sætr mèr
svefn á augu;
þjáði þreyta mik
þeygi lítil.
16. Því seglkló sífellt
sjálfr ek hèlt,
nè þar hlítta'k til
höldum öðrum:

ρ. X, 24-44.

at vèr því fyrr
til föðurjarðar
komast knættim
af karfa laugum.
17. Þá lèt fávíssa
förunauta
hjali hreift
hverr við annan;
hugðu mik hafa
heim meðferðar
gnótt gersema,
gulls ok silfrs.
18. Ætluðu auð þann
frá Eólus vera
Hippótessyni
inum hugumstóra.
Sást til seggir,
sagði hverr öðrum,
náinn nánum,
námu mæla:
19. "Undrum sætir,
hve hjá öllum lýðum
mikils er maðr sjá
metinn ok kærr,
hverja borg sem hann
hitta náir,
ok hvar landa sem hann
leiðir kannar".
20. "Fjöld hann flytr
fagra gripa,
tók þá at herfángi
í Trójuborg.
Fóru vèr fèlagar
för hina sömu,
ok höldum þó heim
með hendr tómar".
21. "Enn hefir Eólus
ofan á þetta
veitt honum veglegt
vináttu mark,

ok gjöf marga gefit
gramr honum
(bregzt oss þat eigi)
í belg þeima".
22. "Förum til, fèlagar,
ok fljótt sjáum,
hvat hèr í djúpi
dyljast kunni:
hver sè gnótt geymd
gulls ok silfrs
(brögð munu at því)
í belg þeima".
23. Svo mæltu seggir,
ok sannaðist hèr,
at verðr opt ríkra
ráð hit verra.
Belg þeir leystu,
ok af bragði þá
þustu óðir út
allir vindar.
24. Hreif harðr bylr
hölda í skyndi,
ok rekka rak
út á reginhaf.
Farinn var fögnuðr,
fírar grètu;
fjarri varð feðra
fold hin dýra.
25. Hrökk ek við hvin þann
hratt af svefni.
Þá var á hvörfum
hugr minn um þat,
hvort ek á haf hlaupa
af hástokk skylda'k,
ok láta svo ljúfu
lífi farit:
26. Eðr ek þegja
ok þreyja skylda'k,
ok lifa lífi enn
með lifönduin.

ϱ. X, 44-63.

Rèð ek af at lifa,
rèð ek af at þreyja,
breidda'k á mik blæju,
ok á borð lagðist.
27. En vindbylr
voðalegr
knörru rak
yfir reginhaf,
ok Eólseyjar til
aptr keyrði;
var þá kurr illr
í knúum mínum.
28. Lètum á land þar
af lægi stigit,
ok vatn jusum
í vorar þarfar.
Ok snarlega
snæðíng tóku
hjá skjótum skipum
skatnar mínir.
29. En er af mat
mettir vorum,
ok drukkit höfðum,
sem drekka lysti:
einn manna minna
með mèr ek tók,
ok kallara annan
kaus til fylgðar.
30. Gekk ek til dýrrar
döglíngs hallar,
þars Eólus
í öndvegi sat.
Hitta ek sjóla,
þar hann sat at veizlu
með blíðri beðju
ok börnum sínum.
31. Svifum til salar,
ok settumst niðr
á þröskuldi
þeingils hallar

dyrustaf við.
En döglíngs arfar
urðu forviða,
ok frètta gerðu:
32. "Hví ertu, Odysseifr,
aptr um kominn?
Hver rekr alda þik
illrar skepnu?"
33. "Vikumst þó vel
undir vandræði þín,
ok för þína
framla greiddum,
attú þángat kæmist,
er þèr væri kært,
ættjarðar þinnar
ok óðala til".
34. Svo þeir sögðu,
en ek svara vann
aptr ángráðr
orðum þeirra:
35. "Ollu bölvísir
bragnar sumu,
mèr ok mein gerði
meinlegr svefn.
Bætið oss, vinir,
baga þenna,
því þèr mátt mikinn
ok megin hafit".
36. Svo ek sagða,
lèt ek sjóla kvaddan
ok mildíngs mögu
mjúkum orðum.
Þeir orði nè einu
annsa gerðu-t,
en faðir þeirra
fèkk mèr svarat:
37. "Haf þik burt hèðan,
sem hraðast máttu,
þú, seggja und sólu
svívirðíng stærst!
Er-at hæfilegt,
hjúkrun veita
guma goðleiðum,
nè greiða farar
þeim, er hatast við
himins búar".
38. "Haf þik braut hèðan,
híngat þú kemr
öllum óþekkr
uppheims goðum".
39. Svo mælti siklíngr,
ok úr sölum oss
braut vísaði;
bót fèkkst eingi.
Varð ek harmþrúnginn
hverfa þaðan,
sárr var mèr hugr,
sáran stunda'k.

---

40. Stefndum svo þaðan
stála hreinum
á leið fram leingra,
í lyndi hryggvir.
Fór mönnum mínum
at mæðast hugr,
þreytast tóku þeir
af þúngum róðri.
Horfin var höldum
heimkomu von,
guldu vèr harðlega
heimsku vorrar.
41. Klufum haföldur
húfum köldum
sex nætr í samt
ok sex daga,
en á sjöunda
súða marir
hèldu til hárrar
höfuðborgar.

ϱ. X, 63-81.

42. Sú var í landi
Lestrýgóna
borg, Telepýlus
tjáð at nafni,
ok við Lamus kennd,
lofðúng fornan.
43. Hirðir hirðis
hèr kallar til,
sá er inn ferr,
þess er út geingr;
ok hinn hirðir
hinum gegnir,
sá er út geingr,
þeims inn of ferr.
44. Hèr seggr sá,
er svefnlauss væri,
verkkaup tvenn
sèr vinna knætti:
verkkaup eitt
með vörzlu nauta,
verkkaup annat
með vörzlu sauða;
svo eru nánir
nætr-vegum
vegir dags
á vángi þeima.
45. Hèr vèr hafnarvog
hittum góðan;
liggr þar umhverfis
inn at botni
brattr berghamarr
beggja vegna;
en höfðar tveir skaga
hvoru megin
hvorr gegnt öðrum
í hafnar mynni,
er þar allmjótt sund
inn at fara.
46. Inn á vog þann
viku allir
lángskipum sínum
liðar mínir,
ok öldu jóm festu
í innanverðum,
hvern öðrum hjá,
hafnar polli.
47. Var vindlauss
vogr þessi,
ok hvítalogn
of höfn alla,
ok þar ósjór inn
aldreigi komst,
hvorki brimalda,
nè báruskot.
48. Lèt ek einn lagit
lúngi mínu
við höfða sjálfan
fyrir höfuð utan,
ok skutfestar
skips um bundit
við hamar einn
í hafnar mynni.
49. Hátt nam ek klífa
í hamar brattan,
sást um standandi
á sjónarbergi.
Sáust hvorki þar
sáðlönd arin,
nè mannvirkja
merki nokkur;
nè vèr annat þar
ekki sáum,
en í lopt upp leggja
af landi reyk.
50. Valda'k vera tvo
vorra manna;
til fylgðar fírum þeim
fèkk ek kallara,
sá var hinn þriði;
þessa ek senda

þar á land upp þrjá
þegna á njósn;
skyldu vísir verða
vorir liðar,
hvat lifði lýða
á landi þvísa.
51. Geingu af skipum
skatnar valdir
upp á fold forna,
fóru veg slèttan;
þann er við verar
á vögnum óku
heim til borgar
af hám fjöllum.
52. Hittu harðvaxna
hilmis dóttur
Antífatess
utan borgar,
lýða þeingils
Lestrýgona.
Var mær vöxtuleg
vatn at sækja.
53. Gekk allstór ofan
til Artakíu
(þat er lindar nafn)
lofðúngs dóttir.
Lèt ljóst vatn ausit
úr lind þeirri,
ok til borgar borit
borgarlýðr.
54. Geingu þeir mæra
mey at spyrja,
orði á ortu,
ok eptir frèttu,
hverr væri þeingill
þarlandsmanna,
ok hverir halir,
er hann of rèði.
En þrekin mær
þegar vísaði

ρ. X, 103-120.

á hilmis höll
hátimbraða.
55. Geingu garpar inn
í garð jöfurs,
ok hússfreyju
heima fundu.
Hún var hávaxin,
sem háfjalls tindr.
Reis höldum hugr
við hamra Freyju.
56. Kallaði á torg út
kyrmis beðja
á Antífates,
eiginmann sinn.
Hann í hyggju
hafði at veita
dauða dapran
dreingjum mínum.
57. Greip hann einn þegar
orra liða,
ok þann mann minn
sèr til munns lagði.
Stukku hinir upp,
struku á braut,
flýðu felmtraðir
til fleyja vorra.
58. Rak þá org upp
Antífates,
svo um borg alla
berast mundi.
Heyrðu hamramir,
ok hvaðanæva
þustu óðum at
úr átt hverri.
59. Lýðir í landi,
Lestrýgónar
þustu þúsundum,
þeygi líkir
mennskum mönnum
fyrir mold ofan,

heldr hávöxnum
hamra tröllum.
60. Köstuðu knáir
af klettum ofan
meir en mannstaki
mundar-steinum.
Upp risu ótt
á unnar dýrum
yfrin óhljóð
ok illr gnýr.
61. Æptu ýtar,
þá er andar mistu,
brökuðu brestir,
þá er brotnuðu skip.
Staunguðu stálbroddum
stórir jötnar
fíra, sem fiska,
ok á fjöll upp vógu,
kost ókjörlegan
til krása sèr.
62. Meðan meingjarnir
manna dólgar
dreingi drápu
á djúpum vogi,
hjörvi ek brá,
er á hlið mèr var,
ok skips skutfesti
skar í sundr.
63. Nam ek hvatt hvetja
hölda mína,
bað ek alla ótt
á árar fallast,
at oss vanda
voveiflegum
auðnast næði
undan stýra.
64. Rèru ramlega
rekkar allir,
ok þreklega
þeystu vörru.

ϱ. X, 120-140.

þóttust verar
í voða staddir,
ugðu ófarir,
ákaft rèru.
65. Rann rakka hjörtr
á rúmsjó fram
(þá varð ek feginn)
undan flugabjörgum.
En allir aðrir
orir týndust
þar í jötna þraung
þóptu marir.

---

66. Stefnðum svo þaðan
stála hreini
á leið fram leingra
í lyndi hryggvir:
fegnir vorum
fjörlausn þiggja,
daprir vorum
dreingja at missa.
67. Komum til Eyjar,
en þar Kirka bygði,
brúðr bjarthödduð,
breiða sali,
manna máli gædd,
máttug gyðja,
bölvíss Eetess
borin systir.
68. Bæði þau syskin
of borin vóru
dóttur Ókeans,
dýrri Persu,
ok ítrum Helíus,
er of heim allan
dauðlegum lýsir
ljóna kindum.
69. Þar vèr at landi
lögðum snekkju

(höfðum hljótt um oss)
í hafnarvogi.
Þann veg vísaði
vea nokkurr
lúngi lagar
at landi ókunnu.
70. Tvær nætr þar
ok tvo daga
samfleytt sátum
á sjávarströndu;
lágum lúnir
af leiðu vosi,
hrjáðum hug vorn
hörmum mæddir.
71. En er bjarthödduð
of birtast lèt
dagsbrúnar dís
dag enn þriðja,
þá lèt ek geir minn
greipum spenndan
ok mæki málfán
í mund of tekit.
72. Gekk ek hvatlega
frá hlunna dýri
upp á víðsýnt eitt
varðar leiti,
ef mannvirki
mætta'k líta,
ok manna mál
mætta'k nema.
73. Stóð ek, ok sá ek
af sjónarbergi
þykkvan skóg
ok þètta runna.
Sýndist þá svartr
úr sölum Kirku
af röstum jarðar
reykr stíga.
74. Hvarf mèr í hug
hinnig gánga,
er ek rísa sák
reyk af foldu.
Lèk í mun mèr
meirr at fara,
njósn at nema
nýrra spjalla.
75. En er ek hlut þann
hug um leidda'k,
leizt mèr ráð annat
ráði betra:
ofan fyrst fara
at foldar þremi,
þars á ströndu stóð
streingja hjörtr.
76. Ok fèlögum
fræknum mínum
dagverð drýgja
at máli dagverðar.
Hugða'k þaðan,
at því gjöru,
nýtra nokkurn
á njósn senda.
77. Fór ek fljótt ofan
um farinn veg,
ok skammt skeið átta
at skipi niðr;
þá gerði góðr
guð mèr líkna,
þars ek einmana
ofan stefnda'k.
78. Gekk í greipar mèr
(en því guð olli)
hjörtr háhyrndr,
harðla mikill,
veik í veg fyri mik
á vángi slèttum.
Var móðr mjök
af magni sólar
horngöfugr, ok hljóp
ofan úr hagkvisti

ϱ. X, 140-159.

fram á vatnsbakka,
vatn at drekka.
79. Hjört þann í hrygg
á hlaupi lagða'k
geiri munduðum
á miðju baki;
óð eirfjöðr
allt í gegnum,
ok út um yddi
annars vegar;
kvað við hjörtr hátt,
hneig til moldar
lagvopni lagðr,
leið burtu fjör.
80. Drap ek fæti
á dýr it fallna,
ok eirspjóti
úr undu kippta.
Lagða ek lagvopn
at láði niðr,
ok þar liggja lèt
litla stund þá.
81. Fór ek frá líttað,
ok úr fold upp sleit
valda kvistu
ok víðitágar;
ok taug tvíbrugðna
af tágum þeim
fullt faðms lánga
flètta gerða'k.
82. Batt ek fætr
á feikna stóru
foldar dýri
fjóra saman.
Hóf á herðar mèr,
ok á herðum bark
(þat var bakbyrðr)
til brimdýrs ofan.
83. Steig ek á storðu,
studdist geirskapti.
Var skógs sköput mjök
skepna þessi;
á öxl annarri
með einni hendi
máttak-a dýri
svo miklu valda.
84. Varp ek af baki mèr
byrði þúngri
fyrir framan fley
á fold niðr.
Gekk ek til manns hvers
minna liða,
ok blíðum orðum hvern
bragna kvadda'k:
85. "Vafir-a vorum,
vinir kærir,
skapadægr enn
yfir skarar fjöllum.
Munu vèr enn ei
ofan gánga
í heim Hadesar,
þótt oss harmr ángri".
86. "Heilir svo, hressum
hugi vora!
Neytum, meðan má,
matar ok drykks!
Látum-a húngr
oss hugraun skapa,
meðan gæða gefst
gnótt á knerri".
87. Svo ek sagða,
en mèr seggir hlýddu,
ok ógleðisfeldum
af sèr vurpu.
Undruðust horfendr
hjört á ströndu,
því skógs var skepna
sköput mjök sú.
88. En er á horft
ýtar höfðu,

ρ. X, 159-181.

ok gnógs feingit
gamans augum,
hendr sèr þógu
halir snjallir,
og dagverðar drýgðu
dýra veizlu.
89. Þannig sátu vèr
þann dag allan,
uns sæl sól
seig til viðar:
gnógt kjöt snæddum,
gott vèr áttum,
drukkum dásætt vín
af drykkjarkerum.
90. En er sæl sól
seig í ægi,
ok rökkr of drógst
yfir rekka sjót,
þá vèr hvatlega
til hvíldar geingum,
þar er lagar lá
lèk við steina.
91. En er árrisul,
rósinfíngra
birtist mönnum
Morgunskæra,
fund með fèlögum
fróðum átta'k,
ok í áheyrn allra
til orða tók:
92. "Heyrit, fèlagar,
þèr er harðla bíðit,
orð þau ek inni,
ærnar raunir".
93. "Vitum-a, vinir,
hvar verðr ljóss
upprásar ætt,
eða undirgaungu;
vitum-a, hvar Helíus
hnígr í sjá,
eða hvar upp ríss
af ægis straumi".
94. "Því skulum hvatla
hug um leiða,
ef oss auðit ráðs
enn má verða.
Hykk-at ek úrræði
annat vænna,
en þats ek nú mun
ýtum telja".
95. "Sá ek af bröttu
bergi sjónar,
er ek áðan kleif,
yfir eyju þessa:
er hún umhverfis
alla vega
endalausum læst
landa dróma".
96. "Liggr hún lágt,
ofan af leiti at sjá;
en af miðjum upp
eyjar fleti
stíga sá ek
fyrir stundu áðan
reyk gegnum þètta
runna skógar".
97. Svo ek sagða,
en seggja urðu
hjörtu harðlega
hræðslu slegin:
minntust lofðúngs
Lestrýgona,
Antífatess,
illskuverka;
minntust ofríkis
hins ofrhugaða
Kýklóps, mannætu
megingrimmrar.
98. Gjallr var grátr
til gumna at heyra,

ϱ. X, 181-201.

fèllu tíð tár
af túnglum hvarma.
Höfðu seggir þó
at sök ekki,
at þeim hryndi tár
harmi þrúngin.
99. En ek öllum lèt
albrynjuðum
fèlögum mínum
framlega skipt
eptir tiltölu
í tvær sveitir,
ok lèt formann fylgja
flokki hvorum:
var ek sjálfr
fyrir sveit einni,
en fyrir annarri
Evrýlokkus.
100. Lètum hluti
í hjálm koma
eiri gjörvan,
ok ótt hristum.
Hljóp út hlutr
ins hugumstóra
Evrýlokkus
úr eirhjálmi.
101. Hèlt hann af stað,
en honum fylgðu
tveir ok tuttugu
tryggra liða.
Geingu grátendr,
ok við grátna skildu
oss hina aðra,
er eptir vorum.
102. Þeir fögrum uppi
fjalldölum í
kynni kunnugrar
Kirku fundu.
Þau voru hlaðin
höggnum steinum,

ϱ. X, 201-221.

ok á víðsýnum
velli stóðu.
103. Umhverfis horskrar
húsakynni
voru fjallaljón
ok frekir úlfar.
Þau hafði illdýri
ógnfróð gyðja
tamit torgætum
töfralyfjum.
104. Nè dýr þau
á dreingi rèðust,
þá er at kynni
komnir voru;
heldr upp stóðu,
ok afarlaungum
hölum dínglaðu
hóglátlega.
105. Svo flaðra hundar
at húsbónda sínum,
þá er heim kemr
hann frá gildi;
af því vanr er
frá veizlu kominn
eitthvert hnossgæti
hundum gefa.
106. Svo lèku ljón sèr
ljúft í kríngum
atkomumenn,
ok úlfar klósterkir;
dínglaðu hölum,
en dreingir hræddust
ógurleg illdýri,
er þeir á litu.
107. Geingu at garði,
ok gyðju stóðu
fagrhaddaðrar
fordyri í;
ok í sal inn
sætri röddu

Kirku kveða
kappar heyrðu.
108. Hafði vef uppi
háleit gyðja
himin-kynjaðan,
harla mikinn;
því allt er glæsilegt,
þat er gyðjur vinna,
fagrt sýnum
ok furðu smátt.
109. Upp hóf erindi
ýta fyrstr
horskr höfðíngi,
hèt Polítes;
manna minna þeim
mest ek unna,
manna minna þann
mest ek virða:
110. "Einhver inni hèr
hefir uppi vef,
gyðja eða kona,
góðir vinir;
sýngr svaslega
sætum rómi,
svo at salargólf allt
samkveð geldr.
Heilir svo, hvatlega
gefum hljóð af oss!"
111. Mælti svo Polítes,
en mætir halir
gáfu hljóð af sèr,
hurðar kvöddu.
En gyðja greiðlega
gekk fram úr sal,
ok lauk upp hurðum
harðla glæstum.
112. Inn bauð hún ýtum,
en allir fylgðu
horskri gyðju;
hugat var þat illa.
ϱ. X, 221-241.

Evrýlokkus einn
eptir dvaldist,
hugði svik mundu
á seiði vera.
113. Inn leiddi hún seggi,
ok þá sitja bað
hvílbeðjum á
ok hávum stólum.
114. Blett þeim milskudrykk
margvís gyðja:
bleikt hunáng,
byggmjöl ok ost
við vín pramneskt
vel nam hræra;
ok í hræríng þann
hella gerði
mörgum töfrum
meinafullum,
at atkomnir
með öllu skyldu
feðra fóstrjörð
fírar gleyma.
115. Ok gyðja gaf
gjörva milsku
ýtum öllum,
ok þeir af drukku.
Þá lèt hún lofða
lostið sprota,
ok í svínstíum
síðan læsta.
116. Skör báru skatnar
með skál á trýni,
rumdu rýtandi,
reistust bustir;
var valbassalegt
vaxtarlag allt,
ok þó vit heilt,
sem verit hafði.
117. Sveimuðu um stíur,
sáran grètu,

átu akörn,
eitla, mýla;
því hafði Kirka
til kostar orpit
fyrir framlynda,
fæða var þat svína.
118. En Evrýlokkus
ótt nam skunda
ofan at hraðfærum
hlunna mari,
fregn fèlögum
færa vildi
af illum óförum
orra manna.
119. En hann ekki fèkk
orð fram borit,
þótt hann fram bera
feginn vildi.
Var hjarta hans
harmi lostið,
voru túngl hvarma
tárum þrúngin,
brauzt um grátstafr
í gneggi neðst.
120. En er allir vèr
undrast tókum,
ok hann ítarla
eptir frèttum,
þá lèt hann tjáðar
ok taldar fram
illar ófarir
orra manna:
121. "Geingu vèr, ítr
Odysseifr,
at skipun þinni
um skógar runna,
ok fögrum uppi
fjalldölum í
fögr hittum hús,
hála búin.

ϱ. X, 241-263.

122. Einhver inni þar
hafði uppi vef,
ok saung sætlega
snjöllum rómi,
gyðja eða kona.
Gáfu hljóð af sèr
dýrir dreingir,
ok dyra kvöddu.
123. Gyðja greiðlega
gekk fram úr sal,
hurðir opnaði
harðla glæstar.
Inn bauð hún ýtum,
ok allir fylgðu
halir horskri;
hugat var þat illa;
nema einn ek
nam eptir dveljast,
hugða'k svik mundu
á seiði vera".
124. "Hurfu svo halir
hverr með öðrum,
at þeir sást framar
síðan aldreigi;
sat ek þó leingi
ok svipaðist eptir
seggjum sýna stund
af sjónarhvoli".

---

125. Hann svo hermði,
en ek of herðar mèr
silfrnegldu lèt
sverði varpat,
þat var gagnstórt,
gert af eiri;
lagða'k á bak mèr
boga sterkan.
126. Bauð ek honum
af bragði þegar

mèr aptr fylgja
um farinn veg.
En hann um hnè mèr
höndum báðum
tók, ok bljúgum bað
bænarorðum:
127. "Lát-attu aptr,
öðlíngr, mik
leiddan leið þá,
er mik lystir eigi.
Emk-at ek fúss
farar þessar.
Lát mik heldr hèr
hýrast eptir".
128. "Hvorki munt þú sjálfr
(hugr mèr segir)
ofan aptr
at ægi komast,
nè nokkurn numit
úr nauðum geta
fèlaga þinna,
eða af fári leyst".
129. "Látum oss óðast
undan flýja,
allir, sem erum
hèr eptir staddir.
Má enn vera,
at megim framar
illum óförum
undan stýra".
130. Orð nam þau inna
Evrýlokkus,
en ek annsvar honum
aptr greidda'k:
"Hýrstu hèr þá,
alls þú hèr ert kominn,
ángrlauss eptir
á ægis ströndu".
131. Máttu mat eta
ok mungát drekka,
Evrýlokkus,
hjá unnar dýri.
Einn skal ek árna,
þó mèr eingi fylgi,
alls mik brýn nauðsýn
beiða gerir".
132. Ek at mæltu því
marbeðjum frá
upp nam árna,
ok ægis hesti.
Fór ek um fagra
fjalla dali,
uns ek gyðju garð
gerði líta.
133. En er ek Kirku
kunnugrar vark
hart nær kominn
at hávu ranni,
mætti mèr Hermes
miðrar brautar,
er ek at garði gekk,
gullinsproti.
134. Var hann í eðli,
sem úngr maðr
í broddi lífs
blómfegrsta;
nýlega var
á vaungum sprottinn
skýrum ættar lauk
skógr hlýra.
135. Tók í hönd mèr
halr enn úngi,
upp hóf erindi,
ok þat orð um kvað:
136. "Hví vafrar þú,
vesall maðr,
ókunnugr
í álfum þeima,
alls einmani,
sem optar fyrr,

ϱ. X, 263-282.

yfir hálendar
heiðar fjalla?"
137. "Þar (skaltu vita)
í þeima húsum
kunnugrar Kirku
kníar þínir
læstir 'ru inni
í líkjum svína,
ok í launkrám liggja
lokuðum vandla".
138. "Ertu hèr kominn,
at horska megir
leysa úr nauðum
liða þína?
Mun-at þèr auðit
aptrkomu;
þar sem þeir eru
munt þú ok gista".
139. "Heyr nú, fra hörðum
harma bölum
vil ek þik leysa
ok láta frelstan".
140. "Tak þú við grasi
góðu þvísa,
geym þat, ok gákk svo
at garði Kirku.
Þat mun frá höfði
hverfa þínu
sorgum hvers konar,
sút gjörvallri".
141. "Allar skal ek þèr
inntar láta
meinvèlar Kirku
meginrammar:
mun hún þèr, mæríngr,
milsku búa,
ok drykk þinn, tiggi,
töfrum blanda".
142. "Þó mun hún þeygi
þik fá töfrat
meinvèlum með,
ok mun því valda
gras þat it góða,
er ek þèr gefa munk.
Nú skal ek enn fremr
allt þèr kynna".
143. "Þá er þik Kirka
hin kýngiláta
tamsvendi lýstr,
ok þik töfra vill,
þá skaltu skjótla,
skati, bregða
sverði sárbeittu,
er þú við síðu berr".
144. "Fram skaltu vaða,
sem í vígahug,
at fjölkunnugri
Freyju töfra.
Þá mun hrædd verða
hundvís gyðja,
ok þèr á beð sinn
boðit láta".
145. "Þú þeygi skalt,
ef þess er leitað,
samlags synja
svinnri gyðju,
at hún lausa láti
liða þína,
ok sóma sjálfum þèr
sýna vili".
146. "Þó skaltu bjóða
bjartri gyðju
svarran svardaga
sælla guða
vinna þèr, vísi,
at hún vili eigi
böli bæta
á böl þitt ofan,
nè þik dreingskap
ok dáðum firra,

ϱ. X, 282-301.

er þú verjulauss
of vorðinn ert".
147. Innti svo ítr
Argusbani,
ok gras hit góða
úr grund upp dró;
síðan sjálfum mèr
seldi í hendr,
ok mèr eðli þess
allt rèð kynna.
148. Rennr upp gras þat
af rót svartri,
ok fullvaxit
á foldu stendr
mjólkrhvítu með
meginblómi;
gras þat geirlauk
guðir kalla.
149. Mennskum mönnum
um megn veitir,
gras þat grafa
úr grundu fastri.
En ódauðlegum
uppheims goðum
eingi hlutr er
ómáttugr.
150. Til háss Ólymps
Hermes þá sveif
yfir ey, orpna
aldinskógi.
En ek í garð gekk
gyðju bjartrar,
órór innan brjósts,
ótalhugsi.
151. Nam ek staðar
stórum nærri
gyðju dyrum
glóhaddaðrar.
Hátt nam ek kalla,
en heyra knátti
gyðja ríkilát
röddu mína.
152. Gekk greitt fram
góðlát úr sal,
hurðir opnaði
harðla glæstar.
Bauð mèr inn blíð,
en ek brúði fylgði.
Þá var mèr óglatt
innst í hjarta.
153. Hún mik inn leiddi,
ok hástóli á
silfri nödduðum
sæti valdi.
Fagr var stóll sá,
fágaðr vandla,
ok fótaskör
fyri neðan.
154. Gaf gyðja
í gullnu keri
milsku bland
mèr at drekka;
kom þar í töfrum
kunnug vættr,
illt hafði hún
í hyggju niðri.
155. Drakk ek til botns,
þats mèr drekka bauð,
en mik böltöfrar
bíta gerðu-t.
Þá lèt spök dís mik
sprota lostið,
ok þeim orðum mik
á nam verpa:
156. "Svíf nú til svína
í svínastíum,
ok leggst þar með öðrum
liðum þínum!"

ρ. X, 301-320.

157. Talaði orð þau
ógnfróð gyðja.
En ek hvössum hjör
frá hlið mèr brá.
Vann ek, sem vega
víg ek hygða'k,
fram at kunnugri
Kirku vaða.
158. Hræðast gerði,
hátt nam at æpa,
hljóp undir högg,
ok um hnè mèr tók.
Ok hljóðandi
hröðum orðum
lèt mik á varpat
ógnhrædd gyðja:
159. "Hverr ertú?
Hvaðan af löndum?
Hvar er borg þín,
ok þeirs þik borit hafa?
Undrs mèr fær,
er þú ólyfjan drakkt,
at skyldir-a skjótla
skipta líkjum".
160. "Hefir-a maðr fyrr
svo máttugr verit,
at slíkt ólyfjan
of standast mætti,
ef þat um varrar
veg of fyndi,
ok dreingr þat
drekka næði".
161. "Víst muntu vera
sá hinn víðförli
Odysseifr,
þann er ávallt kvað
unnar eldsproti
Argusbani
híngat á knerri
koma mundu,
þá er týframr
frá Trójuborg
aptr heim hèldi
um humra brautir".
162. "Biðja vil ek þik
bænar einnar:
at þú sverð slíðra,
en síðan skulum
bæði tvö samt
á beð minn stíga,
saman hvíla,
samlags njóta.
Blæjur breiðum,
blítt oss gerum,
trygðir seljumst,
trúnað festum".
163. Inna nam orð þau
ógnfróð gyðja,
en ek aptr henni
annsvar veitta'k:
"Hví þú, Kirka, mik
kærleiks æstir?
Hví þú blíðskapar
af mèr beiðist?"
164. "Þar sem þú hefir
í þínum sölum
sveitúnga mína
at svínum gerva,
hèr mèr heldr
hjá þèr sjálfum,
brögðum bellir
ok beitir svikum".
165. "Hvetr þú mik
til hvílu gánga,
ok mèr býðr
á beð þinn stíga,
at mik dreingskap
ok dáð um firrir,
er ek verjulauss
of vorðinn emk".

ϱ. X, 321-341.

166. "En ek ásamt þèr
aldreigi munk
blæju breiða,
nè á beð þinn stíga,
nema þú treystist,
týspök gyðja,
mèr þess allstyrkan
eið at vinna,
at þú í hyggju
hafir eigi
bölvi at bæta
á böl mitt ofan".
167. Svo ek sagða,
en sverja gerði
eið alvitr,
sem ek á rèð kveða.
168. En er svardaga
sagðan hafði
ok eiðstaf
unnit gjörstan,
þá lèt ek Kirku
kýngifullrar
brigða fagran
á beð um stigit.
169. Áttu annríkt
um allt þetta
herbergismeyjar
í húsum fjórar;
þjónustu þæga
þessar veittu
horskri gyðju
hallar innan.
170. Þjónustumeyjar
þessar eru
lindum ljósum,
lundum fögrum
ok helgum bornar
himinvötnum,
þeim er fögr falla
fram til sævar.
ϱ. X, 342-361.

171. Ábreiður fagrar
ein af þessum
á hástóla
horsk nam leggja;
efstan purpura
yfir breiddi,
lagði línblæjur
ljósar neðst.
172. Önnur borð
af björtu silfri
fyrir hástóla
framan setti;
lèt þar á karfir
kostulegar,
eldrauðum orpnar
ægis ljóma.
173. Þá nam hin þriðja
þægan vörrum
vínberja safa
sætan blanda
skaptkeri í
af skæru silfri;
gat hún hæfilega
hagat gullkerum.
174. Fór hin fjórða
fram at brunni
velborin mær
vatn at sækja;
kveykti hún eld
undir katli stórum
vilgi lítinn,
tók vatn at hitna.
175. En er vella var
á vatn komin
í eirkatli
alskínanda,
lèt hún mik setjast
í laugarker,
ok heitan lög
hæft rèð tempra.

176. Þó mèr höfuð
ok herðar bæði
úr hóglega
heitu vatni,
uns hvít hrund
hafði numit
lúa leiðan
úr limum mínum.
177. En er lauks lofn
mik laugat hafði,
ok smurt viðsmjörs
viðar feiti,
lèt mèr hin ljúfa
lagt of herðar
kápu fagra
ok kyrtil vænan.
178. Hún mik inn leiddi,
ok hástóli á
silfri nödduðum
sæti valdi;
sá var fagr stóll
ok fágaðr vandla,
var fótskemill
fyrir neðan.
179. Bað mær mik
matar neyta,
en ek áts lystíng
einga hafða'k.
Sat ek alls áni,
annars hugsi,
óaði mik enn
fyrir illu nokkru.
180. Varð þess vör Kirka
af vitru sinni,
hve ek sorgfullr
sat ok þrumda.
Gerðak-a mundir
at mat rètta,
harðr var sá harmr,
er hug minn spendi.
ę. X, 362-386.

181. Gekk til mín gyðja
ok gerði mæla
at mèr óðhröðum
orðum þeima:
182. "Hví þannig þú
þögull sitr,
Odysseifr,
ok orð ei mælir,
hrjáir huga þinn
harmi sárum,
bergir eigi mat,
ok bindst drykkjar?"
183. "Uggir þú enn nú
aðrar vèlar?
Er-a þörf þèr
þær at óttast:
alls ek áðan þèr
ei fyrir laungu
eið allstyrkan
inna gerða'k".
184. Innti svo gyðja,
en ek aptr vann
orðum alsnotrar
annsvar veita:
"Er-a kyn, Kirka,
þótt ek kenna harms
ok ek matar lítt
mega'k neyta".
185. "Hverr mætti horskra
hefja drykki
sèr til munns
ok matar neyta,
fyrr en fèlaga
frelsta sína
ánauðum úr
augum liti?"
186. "En ef gott geingr
þèr, gyðja, til,
at þú mat mèr
ok mungát býðr,

þá lausa lát,
at ek líta mega
fèlaga augum
alla mína".

187. Ek nam inna svo,
en út rèð skynda
Kirka svinnhuguð
sali gegnum,
hèlt í hendi sèr
á högnuði;
hrukku hurðir upp
hárrar stíu.

188. Rak hún rekka út
úr ranni galta,
sýnum áþekka
alisvínum,
þeim er ár níu
innan stíu
hafa á akarni
alin verit.

189. Stóðu þeir frammi
fyrir gyðju,
en hún innan um
þá alla gekk,
ok sèrhvern um leið
seggja töfrum
öðrum, en áðr,
á nam ríða.

190. Fèllu hörð hár
af hölda limum,
þau er áðr fyrr
höfðu upp vaxit,
þá er Kirka
hin kýngifulla
megin-meintöfrum
menn drykkjaði.

191. Feingu manns líki
mærir aptr,
urðu únglegri,
en áðr voru,

ϱ. X, 387-405.

fríðri miklu
ok fegri sýnum,
ok vöxtulegri
á velli at sjá.

192. Kenndu mik gjörla
kappar snjallir,
ok hverr hölda
í hönd mèr tók.
Ok saknaðar tregi
í seggja brjóstum
ángrblíðr ótt
upp nam stíga.

193. Glumdi salr allr
við gjöllum harmi,
svo at vikna nam
vegleg gyðja.
Aumkaði oss,
ok at mèr gekk
máttug megin-dís
ok mæla gerði:

194. "Lofsæll lofðúngr,
mögr Laertess
Odysseifr
hinn ítrsnjalli!
Nú skaltu, fylkir,
fara þegar
sunda mars til
á sjávarströndu".

195. "Skulut alls fyrst
unnum taman
þóptu mar
á þurt land setja;
fjármuni skulut
færa í hella,
ok ránar dýrs
reiða allan".

196. "Þá skaltu sjálfr
at því gjöru
hvatlega aptr
híngat venda,

ok fèlaga þína
fylgisama
heim með þèr hafa
híngat alla".

---

197. Mælti þat Kirka
máttug gyðja,
hneigðist hugr minn
af hennar orðum.
Lèt ek fljótlega
fetum snúit,
þángat er far flaut
við flæðarbakka.
198. Þar, at hraðfærum
hlunna mari
fann ek fèlaga
fylgisama.
Sáran treguðu,
sárt var at heyra,
felldu fögr tár
fyrðar snjallir.
199. Sem þá at fjósi
frenju burir
móðugir móti
mæðrum stökkva,
ok kýr í kríngum
kátir leika,
þá er grasfullar
at garði koma.
200. Brjótast úr básum
bústnir kálfar,
halda-t byrzlur þá
belju sonum;
hlaupa í gáska
gráðúngs megir
sínar um mæðr
síbaulandi.
201. Svo brá fèlögum
fræknum mínum,

ϱ. X, 405-424.

er mik aptr kominn
augum litu.
Allt var á iði
allir þraungðust,
ok feginstárum
fírar grètu.
202. Svo varð gumnum þá
glatt í hjarta,
sem komnir væri
kníar mínir
Íþakseyjar til,
þar er alnir voru
ok fæddir upp
at feðra kynnum.
203. Töluðu tregfullir,
þó teitir væri,
ok á mik urpu
orðum þeima:
204. "Svo erum fegnir
fólka stýrir,
aptrkomu
orðnir þinni,
sem vèr at feðra
fóstrgrundu,
Íþakseyjar til
værim aptr komnir.
Heyr nú, herm oss frá
hinna annarra
vina vorra
veslum kostum!"
205. Svo þeir sögðu.
en ek svara vann
blíðr í bragði,
ok við bragna mælti:
206. "Skulum alls fyrst
unnum taman
þóptu mar
á þurt land setja.
Fjármuni skulum
flytja í hella,

ok ránar dýrs
reiða allan".
207. "Skynda sýslega
sjálfir skulut,
ok mèr fljótlega
fylgja allir
til heilagra heim
húsa Kirku.
Þar munut sjá,
hve í sölum hennar
alls gnótt hafa,
eta ok drekka,
fèlagar vorir
er vèr fyrr þráðum".
208. Svo ek sagða,
en seggir hlýddu
allir ólega
orðum mínum.
Evrýlokkus einn
aptra vildi
öðrum ýtum,
ok til orða tók:
209. "Hvert vilit halda,
höldar veslir?
Hví hrapit þèr svo
í hel opna,
at yðr Kirku
kýngifullrar
fýsi herbergi
heim at sækja?"
210. "Hún yðr mun
öllum bregða
í líki svína,
ljóna, úlfa;
munum svo mega
í miklum garði
gyðju gista,
þótt gott þikki-t".
211. "Svo fór ok,
þá er sveitúngar vorir

ρ. X, 424-445.

fylgðu ofdjörfum
Odysseifi
í helli hamra grams,
ok hlutu bana
fyrir heimsku þrótt
hilmis þessa".
212. Innti svo ofhræddr
Evrýlokkus,
en mèr hitt hvarfla
í hug gerði,
beint af bragði
bráðeggjuðum
brandi bregða,
er ek bar við hlið.
213. Höfuð af höggva,
ok til hauðrs láta
höggvinn haus fjúka
af hal þeima,
enn þótt væri sá
verr mèr sjálfum
nánum nauðleytum
næsta bundinn.
214. En mèr öptruðu
aðrir frá því
horskir halir
hermdarverki.
Bað mik bragna hverr
blíðum orðum,
sagði hverr seggja
í sínu rúmi:
215. "Látum þegn þenna,
ef þèr svo lízt,
lofsæll lofðúngr,
hjá lagar dýri
hýrast eptir hèr,
ok hafa gætur
stagstjórnmars
á ströndu sævar.
En þú, landreki,
leið oss vísa

heilagra Kirku
híbýla til".

216. At mæltu því
mærir geingu
upp frá sunda mar
ok sævaröndu.
Nè Evrýlokkus
eptir dvaldist
einn hjá uppsettu
unnar dýri:
fylgðist hann með,
því fáröflug mín
hótunaryrði
hræðast gerði.

---

217. Meðan þat gerðist,
máttug Kirka
hölda hina
í húsum sínum
laugaða lèt
með ljúfum virktum
ok smurði viðsmjörs
viðar feiti,
lèt of herðar þeim
lagðar verða
kápur kostsamar
ok kyrtla fagra.

218. Fundu vèr alla
fèlaga vora
at veizlu sitjandi
í sölum gyðju.
Sárt grètu gumar
(nam í sal glymja),
er þeir á sást
ok í augu horfðust.

219. Nam nær mèr gánga
ok nema staðar
gyðja goðborin,
of greiddi mál:

ρ. X, 445-466.

220. "Lofsæll lofðúngr,
Laertesson,
fylkir Odysseifr
hinn fjölráðugi!
Nú skulut eigi
eptir þetta
tíðan með tárum
trega leiða!"

221. "Veit ek fullvel,
hve á vögnu leiðum
hafit mannraunir
margar þolat,
ok hve óvinir
illir hafa
mart yðr búit
böl á landi".

222. "Minnizt fæðslu,
matar neytið,
drekkit af kerum
dýrar veigar,
uns hug heilan
ok hraustleik slíkan
aptr heimt hafit,
sem höfðut áðr,
þá er fyrst fórut
úr föðurlandi,
frá Íþaksey
urðvarinni".

223. "Nú erut hugar
ok hreysti vanir,
hafit æ í hug
hrakför yðra.
Verðr geð yðvart
glatt aldreigi
af þrautum þeim,
er þolat hafit".

224. Mælti svo Kirka
máttug gyðja,
hneigðist hugr vorr
af hennar orðum.

225. Drýgðu vèr dvöl þar
dögum öllum
ár endilángt
allt í gegnum:
sátum at gildum,
gnógt kjöt snæddum,
drukkum dásætt vín
af drykkjarkerum.
226. En er af höndum
hurfu misseri,
ok ár á enda
eitt var liðit,
þá mik fèlagar
fylgisamir
út kölluðu,
ok til orða tóku:
227. "Haf þó, mæríngr,
í minni þèr
fóstrland þitt
ok feðra grundu,
ef þèr um síðir
mætti auðit verða,
heilum á hófi
heim at komast
ættjarðar þinnar
ok óðala til".
228. Mæltu svo mærir
mínir liðar,
en mèr hugr hneigðist
af hölda orðum.
229. Þannig sátu vèr
þar gjörstan dag,
uns sæl sól
seig til viðar:
gnógt kjöt snæddum,
gott vèr áttum,
drukkum dásætt vín
af drykkjarkerum.
230. En er sæl sól
seig í ægi,
ϱ. X, 467-488.

ok rökkr of drógst
yfir rekka sveitir,
halir hvatlega
til hvíldar geingu,
svefns of lystir,
í salar skugga.
231. En ek á Kirku
kostulegan
bjarthaddaðrar
beð nam stíga.
Kæru kunnuga
knè-fángaða'k,
heyrði mál mitt
máttug gyðja.
232. Tók ek at heita
á horska gyðju,
ok alvitra
þeim orðum kvadda'k:
233. "Ef mèr, Kirka
(kvað ek til hennar),
orð þat er eitt sinn
mèr inna gerðir:
hèztu at greiða
heimför mína,
en mèr landmunir nú
leika taka".
234. Leika ok landmunir
liðum mínum.
Sárt er mèr um hjarta,
sárara verðr,
er þeir kríngum mik
kveina grátnir
ávallt, er eigi
ertu nærri".
235. Svo ek sagða,
en mèr svara vann
goðborin gyðja,
ok gerði mæla:
"Lofsæll lofðúngr,
mögr Laertess,

mærr Odysseifr
hinn margráðugi!"
236. "Skulut èr nauðgir
nú ei leingr,
halir, dvelja
í höllu minni.
Þó verði þèr,
áðr þaðan leysizt,
alla aðra leið
enn at kanna".
237. "Til híbýla Hadess
ok hræðilegrar
Persefónu fyrst
fara verðit,
trausts at leita
hjá Tíresíass
þjóðkunns vofu
hins þífneska".
238. "Blindr er sá
bragr spámanna,
en heilli heldr þó
hyggju sinni.
Þann hefir vitugri,
þótt vyrði dauðr,
öndu prýddan
Persefóna:
hann einn hefir skyn,
en hinar vofur
flögra fjörlausar,
sem fölvir skuggar".
239. Mæla svo gerði
máttug gyðja.
Þá varð hjarta mitt
harmi knosat:
sat ek á hvílbeð,
ok sáran grèt:
vildak-a, döglíngr,
degi leingr
líta ljós sólar,
nè lífi una.
ϱ. X, 488-508.

140. En er ek grátið hafða'k,
sem ek gjarnast vilda'k,
ok ek velzt hafða'k,
sem mèr vænst þótti,
þá lèt ek þeim
þekka gyðju
annsvars-orðum
aptr kvadda:
241. "Hverr kenna kann,
Kirka, leið þessa,
ok veg vísa
at veum þeima?
Því enn hefir eingi
um ægi sóttan
Hadesar heim
á hlunna dýri".
242. Svo ek sagða,
en mèr svara vann
goðborin gyðja,
ok gerði mæla:
"Lofsæll lofðúngr
Laertesson,
mærr Odysseifr
hinn margráðugi!"
243. "Hirð-attu, hilmir,
hugsa fyrir
leiðsögumanni
á lagar dýri.
Siglutrè reis,
ok sundr slegit
láttu dripthvítum
dúkum húna.
Niðr svo sezt,
en sýju landa
mun blakk bera
blær af norðri".
244. "En er hefir þú
hlunna vagni
yfir Jarðarstraum
ekit djúpan,

þá mun fyrir þèr,
fylkir, verða
strönd láglend
ok lundar myrkvir:
þat eru aspir
afarhávar
ok pílar frjóverpir
Persefónu".

245. "Hèr skaltu lenda
lagar dýri
við hyljóttan
hafstraum jarðar;
en sjálfr skaltu,
siklíngr gánga
dimmra Hadesar
heimkynna til".

246. "Þar Kókýtus,
sem kvísl er ein
af Stýgar
straungu vatni,
ok Pýríflegeþon
falla báðir
í Akkeron
um undirheima;
þar er hamarr sá,
er höfuðfljót tvö
stríðum vatnsstreingjum
steypa saman".

247. "Þá er þar í nánd,
þeingill, kemr,
skaltu fram fara,
því er ek fyrir segi'k:
gröf skaltu grafa
á greindum stað
einnar álnar
á alla vega".

248. "Hjá gröf þeirri,
gramr, þú skalt
dreypifórn dreypa
draugum öllum:



hunángsblöndu
at hóti fyrsta,
svo í sinn annat
sætu víni,
þá í þriðju grein
þægu vatni;
þar yfir bleiku
skalt byggmjöli sá".

249. "Þú skalt á drauga,
dróttar stýrir,
dauða, dugvana,
drjúgum heita,
at þú, aptr kominn
Íþöku til,
gelda kvígu,
þá er gólegust sè
heima í höll þinni,
höggva skulir
brennifórnar til,
ok á bál hlaða
góðum gripum,
gripum völdum".

250. "En tírarfrömum
Tíresías
út af fyrir sik
einum saman
sauð alsvartan,
sauða beztan
allra yðvarra,
skaltu, öðlíngr, gefa".

251. "En er þú, buðlúngr,
beðizt hefir
bænrækinn bljúgum
bænarorðum,
ok heitið, hilmir,
á her gjörvallan
dauðra drauga
draugheimum í:"

252. "Þá skaltu á einni
blóta alsvartri

ok hrút, harri,
ok hverfa báðum
myrkheimi mót,
en at móðustraumi
sjálfr fram snúa
ok sjá undan.
Þá munu vofur
þángat flykkjast
dauðra drauga
draugheimum úr".
253. Þá skaltu fèlögum
fræknum þínum,
buðlúngr, bjóða
ok brýnt á leggja,
at þeir fè taki,
þat er á foldu liggr
eirvopni undat
afargrimmu".
254. "Skulu þeir fè flá
ok á funa brenna,
ok nýt heit nefna
niflheimsgoðum,
hamrömum Hadesi
ok hræðilegri
Persefónu,
á pöllum heljar".
255. "En sjálfr skaltu
frá síðu þinni
bitrum brandi
brugðit láta.
Sezt niðr svo,
siklíngr, þar
(gæt alls glögglega)
á grafar þremi".
256. "Sjá við, at heilagt
hlaut ei nálgist
dauðra, dugvana,
drauga vofur,
fyrr en þú fróðan
of fregit hefir
Tíresías
hinn tírarframa".
257. "Mun-a lángt líða,
lofða stýrir,
áðr spakan þar
spámann berr at.
Hann mun alla för
inna þína,
ok uppi leiðarleingd
láta gjörsta,
ok hve megi þèr
of mar víðan
aptr heimkomu
auðit verða".

---

258. Mælti þat Kirka,
mætti göfgut.
Leið-a lángt frá því,
áðr liði fram
göfug gyðja dags
á gullnum stóli.
Klæddi mik þá klæðum
kunnug gyðja,
kyrtli ok kápu
kostulegri.
259. Hjúpaði horsk sik
hafseyjar dís
möttli miklum,
mjök smágjörvum,
sjálegum, silfrbjörtum,
ok sik miðja
gyrði gull-linda
glæsilegum;
brá of höfuð sèr
blæju-dúki,
skein skært faldr
á skarar fjalli.
260. Sveif ek um sali
sællar gyðju,

ok til guma hvers
gánga munda'k
minna manna,
ok mjúkum orðum
horskra hölda
hvern rèð eggja:
261. "Liggit-a leingr
á legubekkjum!
sofit-a sætan
svefn á dúni!
Búumst farar,
því farar hvattan
mik hefir Kirka,
máttug gyðja".
262. Svo ek sagða,
en seggir hlýddu,
ok á búnaði
bráðla hèldu.
Knátta'k þó eigi
þaðan heldr
heilum braut koma
hölda sveitum.
263. Þar var Elpenor
einn í liði,
ýngstr allra
orra manna,
hvorki mjök hraustr
í hildar leiki,
nè hyggju horskr
í hugar fylgsni.
264. Sá hafði halr
í helgum sal Kirku
niðr lagzt öðrum
ýtum fjarri.
Víndrukkinn hann var,
ok vildi liggja
þar er svalt var í sal,
seggr ölmóðr.
265. Hark var í húsum
ok háværr glaumr,
þá er fèlagar
til ferðar bjuggust.
Vaknaði Elpenor
í öli sínu,
þaut upp þysslega,
þeygi var hann gáðr.
266. Gleymdist þá at gánga
guma drukknum
ofan aptr
stiga endlángan.
Fèll beint út
af flatri þekju
halr hyggjulauss,
höfuð varð undir.
267. Bognaði svíri,
brustu sinar,
snaraðist háls hart
hálsliðum úr.
En önd hals
alla götu
niðr til Hadesar
híbýla sveif.
268. En er gumar
voru á gaungu komnir,
nam ek orðum þeim
á þá verpa:
269. "Víst þèr nú hyggit,
at vèr heim skylim
árna ástkærrar
ættjarðar til.
En Kirka,
kunnug gyðja,
aðra leið
oss ætlað hefir".
270. "Til híbýla Hadess
ok hræðilegrar
Persefónu fyrst
fara verðum,
trausts at leita
hjá Tíresíass

þjóðkunns vofu
hins þífneska".
271. Svo ek sagða,
en seggja minna
varð harmi hörðum
hjarta lostið.
Niðr þar settust,
sáran grètu,
reyttu hár halir
af höfðum sèr.
Höfðu seggir þó
at sök ekki,
at þeim hryndi tár
harmi þrúngin.
272. Allir svo áfram
ofan hèldum
til sunda mars
á sjávarströndu.
Sá var harmr
í huga vorum,
hrundu oss tíðlega
tár af augum.
273. Hafði á meðan
heilög Kirka
ofan svifit
á sjávarströndu,
ok hrút einn hjá
húna dýri
ok svarta á
saman bundit.
274. Gat hún oss óvörum
auðveldlega
fram hjá farit
á förnum vegi.
Hverr getr guma
litið guð sjálfan
augum dauðlegum,
ef hann dyljast vill,
hvort sem fram eða aptr
fara tíðir?

---

# ELLEFTA KVIÐA.

En er vèr komum
at kjalar dýri
út við úrsvala
ægis ströndu,
þá var þat fyrst,
er vèr þegnar gerðum,
settum flaust fram
at flæðar djúpi.
2. Þá vèr siglutrè
upp í sæmeið blakkan,
ok lagðar lètum
lauka voðir.
Tókum blótfè,
er til blóts var ætlað,
á ok hrút,
ok upp í lètum.
3. Lètum síðan
sjálfir stigit
upp á ægis hest
unnum taman.
Hnóf hjarta vort
hugar kvíði,
felldum tíðlega
tár af augum.

ϱ. X, 565-574.

4. Kirka hvíthöddut
hyggju slúngin,
manna máli gædd,
máttug gyðja,
byr blásanda
á bak oss sendi
eptir stafnblám
streingja mari:
5. Beztan leiðtoga
lagar dýrum,
fríðstan förunaut
fleyvángs runnum;
sá lèt hátt hafnar
húna blæjur
bólgnar standa
á bylgju ljóni.
6. En er innan borðs
öllu reiði
hagrædt höfðum
á hlunna dýri,
sátu vèr sorglausir,
sýttum vætki,
á hafskips
hávum þiljum;
sem vindr vildi,
væna lètum
skeið fram skríða,
ok skipstýrandi.
7. Gekk gnoð áleiðis
gjörvallan dag;
vefr vel þaninn
vönd nam sveigja:
uns sæl sól
seig í ægi,
ok skuggsýnt varð
á vegum öllum.
8. Þá kom dælu dýr
at djúpum straumi,
þeim er heimskrínglu
hverfr kríngum.

ϱ. XI, 6-24.

þar er bygð ok ból
bragna þeirra,
er Kimmería
kalla þjóðir.
9. Þeir 'ru halir
huldir skýjum
ok þykkum þaktir
þoku mjörkva.
Nè seggi þá
sinni nokkru
glöð Glens beðja
geislum lítr:
10. Hvorki þegar hýr
himins brúðr
upp á stirnt stígr
stræti vagna:
nè þá sèr hverfir
af himni niðr
ofan at vindkers
víðum botni.
11. Gnapir grimmlegt
yfir gumum veslum
heljar húm
í hálfum þeima.
Híngat vèr komum,
hèr vèr lètum
lagar dýri lagt
at lægis ströndu.
12. Tókum upp blótfè
úr búlka skíði,
ok storð stigum
fram með straumi jarðar,
uns koma knáttum
þars oss Kirka hafði
vísat stefnustað
við storðar þröm.
13. Þar blótsauðum
báðum hèldu
ítr Perímedes
ok Evrýlokkus.

En ek bráðlega
bregða gerða'k
sverði sárbeittu,
er ek við síðu bark.
14. Gröf nam ek grafa
á greindum stað
einnar álnar
á alla vega.
Þá lèt ek gjörva
gröf í kríngum
dreypifórn dreypt
draugum öllum:
15. Hunángs blandi
at hóti fyrsta,
svo í sinn annat
sætu víni,
þá í þriðju grein
þægu vatni;
þar yfir bleiku
sera'k byggmjöli.
16. Nam ek á drauga
drjúgum heita
dauða, dugvana,
dáðum horfna,
at ek, aptr kominn
Íþöku til,
gelda kvígu,
þá er gólegust væri
heima í höll minni,
höggva skylda'k
brennifórnar til,
ok á bál hlaða
góðum gripum,
gripum völdum.
17. En tírarfrömum
Tíresías,
út af fyrir sik
einum saman,
sauð alsvartan,
sauða beztan,

ϱ. XI, 24-42.

hèt ek at gefa,
hjarðar vorrar.
18. En er ek bljúgr
beðit hafða'k
bænrækinn beztum
bænarorðum,
ok heitið hálega
á her gjörvallan
dauðra drauga
draugheimum í:
19. Þá tók ek blótfè,
er bragnar hèldu,
hrút og á,
ok á háls skar bæði.
Ok geysilega
í gröf niðr
dökkr dreyri
dynjandi fèll.
20. Þá rèðu vofur
vítt at-flykkjast
dauðra drauga
neðan úr draugheimi:
brúðir, sveinar,
beimar aldnir,
mæddir mannraunum
margvíslegum.
21. Þar voru únglegar
ýngismeyjar,
hugum sárar
af harmi nýjum.
22. Þar fjöld flykktist
fram á bakka
vera vígdauðra,
vopnbitinna;
þeir knáttu halir
á herðum bera
skrúða darraðar
dreyra stokkinn.
23. Hvörfuðu um gröf
hvaðanæva

úr ymsum áttum
ymsar vofur,
gnauðuðu geysla,
gnýr var at heyra;
þá varð hjarta mitt
hræðslu fángit.
24. Þá bauð ek þegar,
er þar var komit,
fèlögum mínum,
ok fast eggjaðak:
at þeir fè tæki,
þat er á foldu lá,
eirvopni undat
afarhörðu.
25. Bað þá fè flá,
ok á funa brenna,
ok nýt heit nefna
niflheims goðum:
hamrömum Hadesi
ok hræðilegri
Persefónu,
á pöllum heljar.
26. En ek sjálfr
frá síðu mèr
bitrum brandi
bregða gerða'k.
Settist síðan
(sverði ofraða'k
drauga grúa gegn)
á grafar bakka.
27. Bægða'k brandi,
blóð at nálgast,
dauðra, dugvana
drauga vofum,
fyrr en ek fróðan
of fregit hefða'k
Tíresías
hinn tírarframa.

---

ρ. XI, 42-60.

28. Gekk fyrst fram
förunauts míns
önd, Elpenors,
á eggþröm grafar;
hafði-t enn halr
haugi grænum
vorpinn verit
á vallar grundu.
29. Því lík hans lètum
liggja eptir
kunnugrar í
Kirku sölum,
gráts andvana
ok greptrunar,
alls önn annarri
áttum gegna.
30. Varð mèr ángrátt
ok aumt í brjósti,
hnè hvarmdögg,
er ek hal um leit.
Þá lèt ek veslan
ver um kvaddan,
ok á hann óðhröðum
orðum varp:
31. "Hversu, Elpenor,
varð auðit þèr
í niflheim dimman
niðr koma?
Vartu fyrri í för
fótgángandi,
en ek á árfljótu
unnar skíði?"
32. Svo ek sagða,
en svaraði mèr
halr hörmugr,
hjúfraði sáran:
"Lofsæll lofðúngr,
Laertesson,
fylkir Odysseifr
hinn fjölráðugi!"

33. "Ofdrykkja öls
ok óhamíngja
mèr at meini varð
meginþúngu,
þars ek í sölum
sællar Kirku
lagztr lèmagna
á lopti vark".
34. "Gleymdist mèr at gánga
(gáðr var ek þeygi)
ofan aptr
stiga endlángan;
fèll ek fram beint
af flötu þaki,
helzt til hyggjulauss;
höfuð varð undir".
35. "Svíri bognaði,
brustu sinar,
snaraðist háls hart
hálsliðum úr,
en önd mín
alla götu
niðr til Hadesar
híbýla sveif".
36. "Þik bið ek, þeingill,
fyrir þeirra sakir,
er eptir urðu
ok ei eru hèr:
konu kærrar
ok kærs föðurs,
er þik upp um ól,
þá er úngr vart,
ok sakir tryggorðs
Telemakkus,
einka arfa þíns,
er þú endr um skildir
eptir heima
í húsi þínu".
37. "Veit ek, vísir,
at þú viggi munt

ϱ. XI, 61-80.

aptr til Eyjar
öldu beita,
þá er til mannheima
myrkheimi frá
ok híbýlum Hadesar
halda gerir".
38. "Þik bið ek þá,
er þángat kemr,
at mín, mildíngr,
minnast vilir.
Lát-attu ógrátinn
nè ógrafinn mik
eptir verða,
er þú árnar þaðan,
síðr þú, mærr jöfurr,
af mínum sökum
guði góða
gremir at þèr".
39. "Brenn mik, buðlúngr,
með böðvar skrúði,
ok hervopnum þeim,
er ek hefi borit.
Ok til minnis mèr,
manni veslum,
lát haug orpinn
á ægis ströndu".
40. "Veit mèr bæn þessa,
er ek beðit hefk,
ok reis öldusveip
upp af leiði,
þanns í lifanda lífi
ek lófum dróg,
er ek með fèlögum mínum
í förum vark".
41. Svo hann sagði,
en ek svara vann
aptr orðum þeim
Elpenori:
"Þessa skal ek þèr,
þegn hinn vesli,

víst bæn veita,
ok til vegar koma".
42. Svo við sátum
sorgmóðir tveir,
ok móðug spjöll
af munni röktum.
Sat ek mín megin
á moldar bakka,
ok hjörvi hèlt
yfir helgum dreyra.
En hörmugs hals
hins vegar sat
vesæl vofa,
ok við mik ræddi.
43. Því næst andaðrar
önd nam koma
móður minnar
á moldar bakka,
Antíkleu,
sú er alin var
ítrhuguðum
Átolýkus.
44. Hún var á lífi,
þá er ek í leiðángr fórk
Trójuborgar til,
Týs leik heyja.
Tár mèr hrundu,
er ek tryggva sák;
þá varð hjarta mitt
harmi slegit.
45. Lètk-a þó leyft
ljúfri móður
dreyra nálgast,
þótt ek dapr væra'k,
fyrr en ek fróðan
of fregit hafða'k
Tíresías
hinn tírarframa.

---

ϱ. XI, 80-99.

46. Þá gánga gat
at grafar bakka
tírarframs
Tíresías
þjóðkunns vofa
hins Þífneska.
Spendi spámaðr
sprota mundum,
eldrauðum orpinn
ægis ljóma.
47. Þekkti mik þegar
þegn alvitr,
ok þeim orðum lèt
á mik vorpit:
"Lofsæll lofðúngr,
Laertesson,
mærr Odysseifr
hinn margbrögðótti!"
48. "Hví þú híngat ert kominn,
halr inn vesli
ok úr ljóssheimum liðinn?
Hví dauða drauga
ok þenna hinn dapra heim
lysti þik, jöfurr, at líta?"
49. "Gákk þú frá gröf,
ok frá gröf þú hverf
bitrum benja röðli,
at ek af dreyra
drekka mega'k,
ok spáleiks spjöll svo inna."
50. Mælti svo spakr
spáleiks maðr,
en ek hvatt á hæl
hörfa gerða'k,
ok silfri naddaðan
sára röðul
lèt ek í skeiða
skýjum fólginn.
51. En er spádóma
spjalli vitr

dreyra dökkvan
of drukkit hafði,
þá lèt þessum
þegn margfróðr
orðum alsvinnum
at mèr vikit:
52. "Leitar þú, ágætr
Odysseifr,
eptiræsktrar
aptrkomu,
en guð eigi greiðar
þèr gera mun
farar til fríðrar
föðurjarðar".
53. "Hykk-a þik máttugs
miðgarðs skelfis
undan heiptar hug
hörðum stýra.
Þèr of reiðr er
Ránar drottinn,
er þú bur hans
blindaðan lèzt".
54. "Þó munut þèr,
enn þótt við þrautir miklar
ok hörð harmkvæli,
heim um komast,
ef þú sjálfs þíns,
sjóli, vildir,
ok hug hepta
hölda þinna".
55. "Þegar loksins þik,
þeingill frægr,
berr úr blásvörtum
bylgju röstum,
þá muntu þínu
við Þrínaksey
lenda laupmóðu
lagar dýri".
56. "Þar munut sjá
sauði feita,

ϱ. XI, 99-118.

ok uxa í grænum
gánga högum;
þær á Helíus
hjarðir fagrar,
hann er allt of sèr
ok allt of heyrir".
57. "Ef þú fè þat
í friði lætr,
ok hyggr, hilmir,
á heimför þína:
þá munu þèr,
en þótt við þrautir miklar;
til Íþakseyjar
aptr um komast".
58. "En ef þú grandar
gripum þeima,
fari þínu, fylkir,
ok förunautum
tjóni ek spái;
ok þó þèr, tiggi, sjálfum
auðnist ógæfu
undan sleppa:"
59. "Muntu þó allra missa
manna þinna,
ok aptr heim komast
illa ok seint,
firða útlendra
farkosti á,
ok heima hitta
í harmböl mikit".
60. "Hitta muntu heima
hali ódæla,
eta þeir upp eigu
alla þína;
vilja menn þeir fá
málu þinnar,
ok á brúði bera
brúðfè mart.
Þó muntu, hilmir,
harma þinna

á ofríkismönnum
illum hefna".
61. "En er þú biðlum
banat hefir
heima, harri,
í höllu þinni,
hvort sem þú, hilmir,
hyggst at beita
vopni vel brýndu,
eða vèl leyndri:"
62. "þá skaltu, gramr,
gaungu hefja,
ok ár hagtelgda
í hönd þèr nema,
uns þú seggi hittir,
þá er sjó nè kenna,
nè bergja mat
blöndnum salti,
nè hlýrroðin
hafskip þekkja,
nè borðvængi
báru gamma".
63. "Mun ek mark þèr,
mildíngr, segja
auðkennilegt,
skal þik ei þess dylja:
ef þèr á gaungu
gumi mætir,
sá er segir þik,
er hann sèr á ár,
axbrodda spilli
um öxl þèr reiða;
þá skaltu, skilfíngr,
skjóta í jörð
ár, er á heldr,
ok þar upp reisa".
64. "þá skaltu helgar
heyja fórnir
máttkum Posídon
miðgarðs skelfi,

hrút horngöfgan,
heilagan þjór,
ok gölt gólegan,
gyltu maka".
65. "Heim á leið skaltu
hverfa síðan,
ok hundraðs blót
heilög stofna
eptir rèttri röð
rögnum öllum,
þeim er víðbláinn
víðan byggja".
66. Mun-attu sædauðr,
sjóli, verða,
þóttú unnir blár
yfir skeiðir;
heldr mun hægasta
at hendi þèr
andlát, öðlíngr,
eitt sinn bera".
67. "Mun dauði þik,
döglíngr, þá
saddan sækja
sælli elli;
en landsmenn lifa
lífi góðu
(sú er sönn spá)
þik, sjóli, í kríngum".
68. Mælti svo spakvitr
spámanns vofa,
en ek aptr henni
annsvör veitta'k:
69. "Svo munu guðir
sjálfir hafa,
týspakr, til sett,
Tíresías.
Vil ek enn einu
eptir frètta,
sèr ek til sannra
svara frá þèr":

ϱ. XI, 118-140.

70. "Þar sèr ek móður
minnar vofu,
þeirrar er önduð var
áðr fyrri;
sitr orðlaus,
ok ekki mælir,
móðir dýr
hjá dreyra blökkum".

71. "Gerr-at hún son sinn
sjónum leiða,
nè orði á hann
einu verpa.
Inn mèr öðlíngr,
atvik gjörla,
hve hún megi mik
mög sinn kenna".

72. Svo ek sagða,
en mèr svara vann
spakvitr aptr
spámanns vofa:
"Er mèr allauðvelt
at inna þèr,
þat er, vísir, þik
vita lystir".

73. "Hverr sá, lofðúngr,
er þú leyfa gerir,
dauðra drauga,
at dreyra koma,
sá mun spakmálug
spjöll þèr inna,
ok sannleik, sjóli,
segja gjörstan".

74. "En dauðra hverr,
er þú, döglíngr, eigi
annt, at dökkum
dreyra koma,
sá mun þèr, siklíngr,
svara þeygi,
ok orðlauss aptr
undan hörfa".

ϱ. XI, 141-158.

75. En er vofa
viti borins
Tíresías
þat talat hafði,
hún at spádóms þeim
spjöllum inntum
inn í Hadesar
híbýli sveif.

---

76. Nam ek enn dvelja
all-lánga stund
þeygi vel glýjaðr
á grafar bakka,
uns móður loks
mína bar at,
ok dreyra dökkvan
drekka náði.

77. Kunni skil kona
á kundi þegar,
er hún sveita sylg
solgit hafði.
Ok hjúfrandi at mèr
hörmug móðir
orðum vænghröðum
víkja gerði:

78. "Hve varð kvikum þèr,
kundr, auðit
niðr í dimman
niflheim stíga?
Er ógurlegt
um at litast
lýðum lifendum
á landi dauðra".

79. "Þar er á vegi
þúngar ógnir,
móður miklar,
megnir straumar.
Verða fírar fyrst
at fara yfir

hauðrs hafgerðíng
hræðilega".
80. "Má-at miðgarðs straum
mennskra nokkurr
á fæti fara
foldar búa,
nema naglfara
nýtum eti
yfir jórmungand
ógurlegan".
81. "Hvort ertu nú fyrst,
nefi, híngat
með far þitt kominn
ok förunauta
Trója fold frá,
ok farit glapstigu
um lög lábrostinn
lánga tíma?"
82. "Ertu enn eigi
aptr kominn
ættjarðar þinnar
Íþöku til?
Hefir þú enn eigi
augum litið,
sonr, í sölum
sæta beðju?"
83. Mælti svo móðir,
en ek máli hennar
aptr orðum þeim
annsvar veitta'k;
84. "Nauðr, móðir mín,
mik um beiddi,
í heim Hadesar
hverfa niðr,
trausts at leita
hjá Tíresías
þjóðkunns vofu,
hins þífneska".
85. "Frá því fyrst at ek
fylgja gerði

ϱ. XI, 158-175.

Agamemnoni
æðstum jöfra
Trójuborgar til,
Trójumönnum
meingjörnum móti
mæki bera;"
86. "Hefi ek enn aldrei
jörð akkneskri
í nánd komit
nokkru sinni,
nè fæti á feðra
fold um stigit,
heldr hrakizt ok hrekst æ
hamíngjulauss".
87. "En ek einu vil
eptir frètta,
sèr ek til sannra
svara frá þèr:
Hverr dauðdagi
hefir dýra þik
látið til moldar,
móðir, hníga?"
88. "Láttu karlæg
í kröm lángri?
Eða fór Artemis
hin örum-glaða,
ok lèt fjörlöst þèr
fríðri veittan
hægan hægum með
hvítmýlíngum?"
89. "Lifir Laertes?
Lát mèr þat innt.
Lifir arfi minn,
er ek eptir skilda'k?
Hafa þeir frændr enn
fullkomin ráð
kjörgjafar minnar
ok konúngdæmis?"
90. "Eða hefir nú
hölda nokkurr,

annarr út í frá,
þar á eigu kastað,
ok ætlar, at aldrei
aptr framar
muna'k á föður fold
fótum stíga?"

91. "Birt mèr, hvat beðja mín
berist fyrir,
ok hvern hug ali
í hyggju ranni.
Er hún enn kyr
hjá arfa sínum?
Gætir hún alls enn
svo ekki ferst?"

92. "Eða hefir akkneskra
ýta nokkurr,
guma göfgastr
á grund þaðra,
fljóðs fagrglóa
feingit ástir,
ok bjartrar brúðar
á beð um stigit?"

93. Svo ek sagða,
en svo nam aptr
mínu máli mín
móðir svara;

94. "Víf at vísu
við enn þá hefst,
ok þrey þolinmótt,
í þínum sölum;
en sorgmóð kona,
sútum vafin,
laugar andlit æ
unnum hvarma:
líða svo daprar
döpru sprundi
dimmar nætr
ok dagar ljósir".

95. "Hefir enn ekki
ýta nokkurr
eigu kastað á
kjörgjöf þína.
Sitr í friði
at sjóla búum
Telemakkus
hinn tírargjarni".

96. "Ferr at skamtveizlum
skilfíngs arfi,
þeim er höfðíngjar
halda skulu
dýrum döglíngi,
dóms valdendr;
bjóða ræsis bur
bragnar allir".

97. "En faðir þinn
fær sèr dvalar
at búm úti,
nè til borgar kemr;
hefir-at legurúm,
nè loðkápur,
nè dúka dýra
döglínga niðr".

98. "Sefr á vetrum
konr siklínga
með þrælum öðrum
í þýjaskála,
við máleld,
á moldu berri;
venst vondum flíkum
virða spjalli".

99. "En um frjótt sumar
ok frumhausts brum
finnr hann flet sèr
á föllnu laufi,
því er út dreift
alla vega
um víngarð liggr
vaxtar frjóvan".

100. "Þar liggr þeingill,
þjáðr sútum,

ϱ. XI, 175-195.

ok sorg sára
gerir sárari,
er þitt hlutfall hann
harmar grátinn.
Leggst þúngt elli
á lofðúng snjallan".
101. "Beint hit sama
mèr bana voldi,
ok fjörláti
flýtti mínu".
102. "Hvorki hæfin
í hallar sölum
Örum-glöð
at mèr skyndi,
nè fjörlöst mèr
færa knátti
hægan hægum með
hvítmýlíngum;"
103. "Nè mik sótt sú
sækja gerði,
er lífi leiðri kröm
lýða eyðir.
Annat, alframr
Odysseifr,
aldrtjóni
olli mínu".
104. "Þat ljúfu lauk
lífi mínu,
at ek varð, son minn
þèr sjá á bak,
at ek um þik bar
aldrtrega,
at ek góðleik þínum
gleyma nè mátta'k".
105. Mælti svo móðir,
en mèr í brjósti
fýst ákafleg
upp nam stíga,
andaðrar minnar
móður vofu

ϱ. XI, 195-215.

örmum umfaðma,
örmum spenna.
106. Í þrjár reisur
rèðumst ek til
(vorumk ljúf lyst)
ljúfa at faðma;
en þrisvar móðir mèr
úr mundum leið,
skugga lík
eða lausum draumi.
107. Þá sárr harmr
sveif at hjarta
miklu mèr
meir en áðr.
Ok móður mína
ek máli kvadda,
ok orðum óðhröðum
at nam víkja:
108. "Hví þú, móðir mín,
mín ei bíðr,
er ek höndum þik
hyggst at spenna,
at vit í Hadesar
híbýlum ok
megim hvort annat
mundum faðma,
ok at megim svo,
mæðgin bæði,
okkr svala
á svölum harmi?"
109. "Hvort hefir svip þenna
sent mèr híngat
tignar prýði prýdd
Persefóna:
at ek enn tíðar
tár um fella'k,
at ek enn óðar
öndu verpa'k?"
110. Svo ek sagða,
en svo nam aptr

mínu máli mín
móðir svara:
"Áví, arfi minn,
allra manna
munarlausastr
fyrir mold ofan!"

111. "Eigi prettar þik
Persefóna,
Seifi borin,
nè svikum gabbar.
Er eðli slíkt
allra manna,
fíra dauðlegra,
þá er dánir eru".

112. "Því at þá halda
þeygi framar
holdi saman
ok sinar beinum;
því at ofrmagn
elds brennanda
beinum ok holdi
bráðla eyðir".

113. "En jafnskjótt sem
jarðgöfugt fjör
úr bleikum beinum
braut er liðit:
flýgr önd fljótt,
fugli skjótara,
ok líkt sem draumr
líðr á braut".

114. "En þú leið legg
ljóssheima til
sem fyrst, ok allt þetta
fest í huga,
at þú síðarr meir
segja kunnir
konu þinni frá,
er þú kemr heim".

---

ϱ. XI, 215-234.

115. Þannig mæltumst við,
móðir ok sonr,
mæðgin tvö,
á moldar bakka.
Þá komu konur,
þærs kýnstór sendi
tignar prýði prýdd
Persefóna.

116. Þat voru kappa
konur frægra,
ok dýrra dreingja
dætur horskar.
Þustu þær at
í þyrpíngum,
ok flokkum flykktust
um fölvan dreyra.

117. Þá rèð ek, ræsir,
ráðs at leita,
hve ek sèr hverja
svars of bæða'k.
Hvarf þá í hug mèr
heillaráð eitt,
þats mèr vænlegast
vera þótti.

118. Brá ek bjartloga
böðvar skýja
lángeggjuðum,
er ek við lær mèr bark;
ok öllum í samt
ekki leyfða'k
drósum at drekka
dreyra blakkan.

119. Geingu fram at gröf
gullhlaðs nönnur,
hver at annarri,
hver fyrir sik;
sagði mèr sèr hver
sitt of eðli,
en ek þær allar
at nam frètta.

120. Sák þar Týró
svanna fyrstan,
sú var af frægum
föður alin;
kvaðst af göfgum
getin vera
siglis nanna
Salmoneifi.

121. Kvaðst kynsæl
Kreteifs vera
eiginkvon
Eólssonar.
Hún nam fljótsguð
fagran þýðast,
Enípeif,
ok ástum leiða.

122. Þat rennr fegrst
fljót um grundir
fljóta allra,
er of foldu renna.
Varð gulls gefn
geingit optla
fram at Enípeifs
fögrum straumum.

123. Þá ljóss Enípeifs
í líki brást
máttugr Posídon
miðgarðs skelfir,
ok sveipótts fljóts
í fögrum ósum
með brúði hvíldi
bjarthaddaðri.

124. Stóð mórauð,
mikil sem fjall,
hjú umhverfis
háreist alda.
Hvelfdist holgeyfla,
ok huldi bæði
krapti kunnan guð
ok konu mennska.

ϱ. XI, 235-254.

125. En þá er lokit
lagar dróttinn
ástar atlotum
öflgr hafði:
hann í hönd tók
hvítri meyju,
upp hóf erindi,
ok þat orð um kvað:

126. "Heil sèrtu, in hvíta,
hjúnskapar vors,
sæl samlaga,
sólfögur mær!
árángrslausar
eigi verða
síðarr samfarir
sælla guða".

127. "Muntu, mær björt,
er á misseri líðr
fram, fagra tvo
fæða sonu.
Þá skaltu mögu,
mær, upp fæða,
hirða ok hjúkra,
sem hæft þikkir".

128. "Heim þú nú gákk
at húsi þínu;
vert sjálf þögul
ok seg eingum.
Vita skaltu víst,
at hèr verit hefir
máttugr Posídon
miðgarðs skelfir".

129. At mæltu því
miðgarðs skelfir
niðr í sæ sèr
saltan steypti.
En hvít hrund
af hafguðs völdum
prúðan Neleif
ok Pelías ól.

130. Urðu báðir tveir
bræðr þessir
þjónar meginmáttkir
ens mikla Seifs.
Bjó Pelías jöfurr
í Jólkusborg,
ok sauð margan
sèr þar græddi;
en Neleifr
nána söndum
borg Pýlverja
prúðr bygði.

131. Enn ól aðra
ítra sonu
drottníng kvenna
Kreteifi við:
Eson einn,
ok Amýþáon
fólk-kerrufiman,
ok Feres þriðja.

132. Þá sá ek enn
í undirheimi
Antíópu
Asópsdóttur.
Hrósa hún ok,
at hefði blundat
Seifs fólkvalda
faðmlögum í.

133. Ól ítr mær
arfþega tvo,
Amfíon einn,
annan Zeþus:
þeir bygðu bræðr
bragna fyrstir
þífi, með hliðum
þrem ok fjórum.

134. Trausta á veggjum
turna reistu;
því virkislausa
varða knáttu-t
þífi þeir,
þótt þrekmenn væri,
bræðr breiðfelda
borg á velli.

135. Þar Alkmenu
því næst ek sá,
Amfitrúons
eiginkonu.
Hana nam háleitr
himna jöfurr,
Seifr hinn almáttki,
örmum verja.
Ok horsk hrund
Herakles ól,
mann þráþolinn
ok þrúðhugaðan.

136. Þar Megöru
mæra ek leit,
Kreons dóttur
ins djarfhugaða;
hennar fèkk arfi
Amfitrúons,
þeim er aflfátt
aldreigi varð.

137. Þar sá ek fljóð eitt
fagrvarit,
Epíköstu,
móður Eydípus;
sú stóran glæp
stofna gerði
af helzt til hárri
hugar blindi.

138. Giptist móðir
megi sínum,
en mögr hana
at myrðum föður
eiga gekk;
en þat guðir bráðla
gerðu alkunnugt
alda börnum.

ǫ. XI, 255-274.

139. Rèð svo Eydípus
einn í þífi,
yfir Kadmúngum,
unaðsfullri.
Ríkar raunir
hann rata vann
fyrir röm ráð
reiðra tíva.

140. En Epíkasta
af ángri hugar
banasnöru batt
við bita hávan,
ok til hamrams
Hadesar fór,
hans, er hart lokar
hurðum sínum.

141. Eptir áleingdar
lèt hún Eydípusi
ærnar raunir,
raunir þúngar,
svo sem móður mega
mest í hefndir
refsinornir
reiðar vinna.

142. Sá ek þar enn
í undirheimi
kurteisa Klóris,
kvenna prýði;
hennar forðum fèkk
af fríðleiks sökum
fyrir brúðfjár fjöld
fylkir Neleifr.

143. Sú var Amfíons
ýngsta dóttir,
jöfra jaðars,
Jasus sonar;
þess er ríkula
ríki Minýa
í Orkómenus
eitt sinn stýrði.

ϱ. XI, 274-293.

144. Ríkti blíð brúðr
í borg Pýlverja,
ok nýta sonu
Neleifi ól:
Nestor, Krómíus,
ok næstan þeim
Períklýmenus
hinn prúðlundaða.

145. Ól hún auk þeirra
ítra Peró,
undrsjón ýta,
afbragð kvenna;
hennar nýztir allir,
er í námunda
bragnar bjuggu,
biðja gerðu.

146. Vildi-a Neleifr
nè einum gefa
bjarta brúði,
nema bragna þeim,
er uxa Ífíkles
hins afarsterka
frá Fýlaksborg
feingi sótta.

147. Þeir voru uxar
ennibreiðir,
hornum bjúgir
hvergi dælir;
þorði eingi þá
þángat sækja,
utan spámaðr
hinn spjöllum frægi.

148. En fróðleiks frömuðr
fjötraðr varð
af skörpum guðs
skapadómi.
Var hann af hjarðsveinum
hilmis tekinn,
hèldu honum höpt
ok harðir fjötrar.

149. Liðu mánuðir,
liðu dagar,
leið ár eitt
á enda gjörst,
uns árstíðir
aðrar komu,
ok ný misseri
at mundum bar.

150. Þá lèt spakan
spámann lausan
jöfurr Ífíkles
hinn afarsterki,
því hann spádóms mörg
spjöll sagði fyr;
varð svo ráð framgeingt
hins ríka Seifs.

151. Ok Ledu þar
leit ek fagra,
Tyndareifs
trygga beðju,
sú tvo gat
við Tyndareifi
harða hlýra
ok hugumsterka,
Kastor knáan,
hinn kerrufima,
ok hnefleiksprúðan
Polídevkes.

152. Þeim heldr enn
hlýrum báðum
fjörgyn fjörvænleg
í faðmi sínum;
ok jafnvel þeir
fyri jörð neðan
heiðr hljóta
af hæstum Seifi.

153. Lifa þeir dag einn
ljóssheimi í,
deyja dag annan
í dauðra heim.
Ok hlýrar heiðr
hljóta jafnan
ódauðlegum
uppheims goðum.

154. Hèr næst sá ek
í heimi neðra
Ifímedeu,
konu Alóeifs;
sú kvaðst und blæju
búit hafa
máttugs Posídons
miðgarðs skelfis.

155. Gat sonu sú
siglis gná tvo,
var skömm báðum
sköput æfi:
Ótus var einn,
jafníngi tíva,
alfrægr annarr
Efíaltes.

156. Þeir voru bræðr
bragna stærstir,
þeirra er kornfrjó jörð
upp klakit hafi,
ok fríðastir
fyrða allra,
þegar ágætan
Óríon leið.

157. Níu vetra
níu álna
voru bræðr þeir
á breidd fundnir.
Níu vetra
níu faðma
fullra fundust
frændr á hæð.

158. Þeir hótanir
höfðu drjúgar
ódauðlega við
uppheims guði,

ϱ. XI, 294-313.

at þeir hernaðar
harða rimmu
skyldu á Ólympi
upp um hefja.
159. Ætluðu Ossafjall
á Ólymp setja
ok laufkvikan Pelíon
leggja á Ossa.
Þótti þá vera,
at því gjöru,
á himin upp
hægt at stíga.
160. Þeir hefði þat ráð
til þrautar lagt,
ef aldr frumvaxta
of feingit hefði.
En báðum banaði
burr alföðurs,
þanns lokkfögr hafði
Letó alit.
161. Þá var þeygi
þeim bræðrum enn
varra barr vænlegt
á vaungum sprottið,
nè blómlegt
of búit hafði
kotún kjálka
kinnr þeirra.
162. Þá sá ek Feðru
þá sá ek Prókris,
undirheimum í,
ok Aríöðnu;
sú var falda fold
fagrglóa
borin Mínosi
hinum bölvísa.
163. Vildi Þeseifr
þessa forðum
frá Krítarey
kneyf gullþráðar
heim með sèr hafa
heilagra til
Aþenuborgar
aðalstöðva.
164. Varð-at auðit þess
öðlíngs syni;
því lauka lindi
af lífi tók
Artemis áðr,
fyrir orða vætti
Díónýsus, í Díey
dröfn um kríngdri.
165. Þá sá ek Mæru,
ok mæta Klýmenu,
ok Erífýlu,
öldum leiða;
sú tók við dýrum
drafnar loga
gullhlaðs gná,
ok sinn guma rèð.
166. Máka ek, gramr,
gjörva lýsa,
nè á nafn nefna,
niflúngr, allar
eiginkonur
ok ítrar dætr
ágætra öðlínga,
er ek þar augum leit.
167. Fyrr mun heilög
hverfa gríma,
ok ljóss dagr
á lopt upp koma,
en ek inna mega'k
allt þat ek sá
undirheimum í
undrsjóna.
168. Nú er ok mál mèr
at ek til míns fari
flæðar dýrs
ok förunauta,

ϱ. XI, 313-331.

eðr ok hèr
í hallar sölum
náða njóti
ok náttstað taki.
Yðr ek fel
með aðstoð goða
flutníng minn
ok farargreiða".

---

169. Innti svo öðlíngr
Odysseifr.
Allir hljóðir,
orð ei mæltu;
sátu agndofa
unaðfángnir
halir í dimmum
hallar sölum.
170. Innti þá Areta,
armhvít brúðr,
upp hóf erindi
í ýta fjöld:
171. "Von er, þótt, Feakar,
fái yðr
maðr sjá undrunar
eigi smárrar.
Vænn er hann álits
ok vaxtarmikill,
geymir hug horskan
í hyggju ranni".
172. "Sjá gumi, gumar,
er gestvinr minn.
Tel ek sóma mèr
at slíkum gesti.
En í sóma þeim,
sem sýndr er mèr,
tekr hverr yðvarr
hlut jafnan".
173. "Því skulut þèr
þess manns eigi
bug brautfarar
bráðan gera,
nè gjafar grenna
við gest þurftugan,
alls yðr gnótt gripa
guðir veittu".
174. Þá mál mælti
meðal rekka
aldinn öðlíngr
Ekeneus;
sá var Feaka
frægra allra
öðrum ellri
öldurmanna:
175. "Er-at víslega
vinir góðir,
vonum fjarri
nè vöxtum mála,
þat er dáðum dýr
drottníng ræðir;
þó er und öðlíngi
Alkínóus
úrslit orða
öll um fólgin".
176. Annsvar veitti
öldúngs máli
Alkínóus,
ok til orða tók:
177. "Svo sannarlega
sem ek lifi
ráðandi Feaka
róðrs framra,
stadt skal standa
ok stöðugt vera
þetta, á þann hátt
sem þat er rædt".
178. "En gestr þreyi
ok þol við hafi,
enn þótt farar hann
fúss sè næsta,

ok dvöl drýgi
til dags at morni,
uns ek greidt fram get
gjafar allar".

179. "En flutníng fremja
ok fararbeina
heyrir hverjum til
hèrlandsmanna,
en helzt þó mèr,
því at hinnig mest
landráð lúta
með lýðum þessum".

180. Annsaði öðlíngi
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
"Yfirkonúngr
Alkínóus,
skörúngr allra
skatna á foldu!"

181. "Þótt èr, bragnar, mèr
byðit árleingis
dvalar enn eiga
á yðrum stöðvum;
ef þèr för at eins
fremðit mína,
ok gjafar gæfit mèr
glæsilegar:"

182. "Munda'k gjarna þat
gera vilja;
því þat miklu mèr
væri makara,
aptr heim koma
hjartkærrar til
fullum höndum fjár
fóstrjarðar".

183. "Þat vinsælla
hjá virðum öllum
ok virðíngarvænna
verða mundi,

ef seggir mik
sæi þannig
aptr heim koma
Íþöku til".

184. Aptr annsaði
öðlíngs máli
Alkínóus,
ok til orða tók:
"Þú í augum oss
eigi svo verðr,
Odysseifr,
at vèr ætlim þik
líkan virðum þeim,
er með vèlar fara,
ok skollvísir
skröki samna".

185. "Því gefast gumar
á grænni jörðu
víða mjök margir
mannheimum í,
þeir er lævísir
lygar semja
ok sannleiks blæ
sveipa fríðum".

186. "Ert-attu líkr
lýðum þeima;
býr vizka þèr
ok vit í brjósti,
ok orð þín eru
utan sveipin
hjúpi haglegum,
er hölda kætir".

187. "Sögur segir þú
svo með snilli,
sem skáldmaðr
skilvíss mundi.
Allra Argverja,
ok einnig sjálfs,
svo þú rètt raktir
raunasögu".

188. "Seg mèr enn eitt,
ok inn með sanni:
Sáttu snjallra nokkurn
sveitúnga þinna,
þeirra er upp til
Ilíonsborgar
með þèr fylgðust,
ok þar fjörtjón biðu?"
189. "Enn er all-laung stund
eptir nætr,
nè háttatími
í höll enn kominn.
Lystir mik at heyra,
hvattú, lofðúngr, sátt
undrsjóna enn
í undirheimum".
190. "Mundi-a mèr,
þótt til morguns sæta'k,
leiðast at heyra,
ok hlýða á þik,
ef þú hug til hefðir,
í hallar sölum
þínar fram þylja
þúngar raunir".
191. Annsaði öðlíngi
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
"Yfirkonúngr
Alkínóus,
skörúngr allra
skatna á foldu!
Tími er at telja
tölur lángar,
tími er at njóta
nætrhvíldar".
192. "En ef þik enn lystir
á at hlýða,
undan skorast
ek eigi munk,
sögur at segja
sorgafyllri
þeim, er þèr áðr
ek þulit hefk,
herbræðra minna
harðar raunir,
þeirra er síðar
svelta náðu".
193. "Varð þeim auðit, lífs
undan sleppa
úr Týs leik skæðum
Trójumanna;
en á heimleið hel
höldar biðu
af umstillíngum
illrar konu".

---

194. En er sannheilög
sundrat hafði
í ymsar áttir
alla vega
á vángi víðum
vofum bleikum
prúðra kvenna
Persefóna:
þá kom at vofa
vilgi glýjuð
Agamemnons
Atreifssonar.
195. Flykktust í flokkum
fylki kríngum
vofur vera
vopnbitinna,
bragna, er bana
of beðit höfðu
í Egists inni
eiginsölum.
196. Kunni döglíngr
deili á mèr,

ϱ. XI, 370-390.

er hann sveita sylg
of solgit hafði.
Þá grèt hástöfum
hilmir frægr
ok jafnharðan
jós út tárum;
arma báða
breiddi ríkr
öðlíngr út,
ok at mèr seildist.
197. En nú var-at afl
óskert framar
þrekr nè þróttr,
þjóðhöfðíngja,
þann er áðr fyrr
eignazt hafði
í liðugum limum
lofða stýrir.
198. Sá ek aumr á
öðlíng ríkum,
hrundi mèr hvarmdögg,
er ek hilmi leit.
Ok vænghröðum
á vísi snjallan
lèt ek orðum þeim
orpit verða:
199. "Atreifs arfi,
ýta frægstr,
aldar oddviti,
Agamemnon!
Hverr dauðdagi
hefir dýran þik
látið, mæríngr,
til moldar hníga?"
200. "Æsti upp Posídon
jarðar skelfir
argan áblástr
óðra vinda,
ok þèr, skilfíngr,
á skipi þínu

ϱ. XI, 390-411.

fjörtál færði
í feikna veðri?"
201. "Eða drap þik, döglíngr,
dólga meingi
landjörðu á,
er þú ræntar lèzt
hjarðir sjálegar
sauða og uxa,
eða barðist til borgar
ok brúða ljósra?"
202. Svo ek sagða,
en siklíngr mèr
aptr annsaði
orðum þeima:
"Lofsæll lofðúngr,
Laertesson,
mærr Odysseifr
hinn margráðugi!"
203. "Hvorki æsti upp
jarðar skelfir
argan áblástr
óðra vinda,
nè mèr, skilfíngr,
á skipi mínu
fjörtál færði
í feikna veðri".
204. "Nè mik líftjóni
landjörðu á
bragnar bölvísir
beita knáttu;
heldr illráðr
Egistus mèr
bana bjó
ok bráðan dauða".
205. "Hann bauð mèr heim
til hallar sinnar,
ok með bölvafullri
beðju minni
vó mik at veizlu,
sem verar láta

uxa af látinn
hjá etustalli".
206. "Hreppta ek þannig
it hörmulegsta
dánardægr,
en dreingir mínir
voru hlífðarlaust,
hverr at öðrum,
niðr höggnir,
sem hráviði".
207. "Höggnir voru þeir,
sem hvíttennt svín
í stórveizlu
stórhöfðíngja,
brúðkaups veizlu
eða vinaboði,
eða mannfagnaði
megindýrum".
208. "Hefir þú allmargra
at undanförnu
viðstaddr verit
víg málmgauta,
þeirra er einir sèr
urðu drepnir,
eða á fold fèllu
í fólkorrustu".
209. "Þó mundi þèr,
ef þú hefðir sèð,
blöskrat, buðlúngr,
ballast hafa,
hve vèr um skaptker
skatnar höggnir
ok hlaðin borð
í höll lágum,
ok gólf gjörvallt flaut
í gumna blóði".
210. "Þat ek óp hefi
aumlegast heyrt,
er æpti Kassandra,
kóngs Brjáms dóttir,

þá er kyndug
Klýtemnestra
horska við hlið mèr
til hjarta lagði".
211. "Þá lá ek aumr,
at fram kominn,
jöfurr, á jörð
í andarslitrum.
Þó vilda'k hefja upp
hendr mínar,
ok um hjör grípa
grimmrar konu".
212. "En ósvífit
undan hörfaði
víf hit vonda,
ok vèk sèr á braut,
nè nábjargir
nennti veita
hrund mèr á hvössum
heljar þremi".
213. "Svo grimmt ekki
gefst at jöfnu,
nè jafnósvífit,
jarðar hvergi,
sem fljóð þat,
er fremja nennir
annan óverknað,
eins ok þenna".
214. "Svo sem sjá kona
semja knátti
illt athæfi,
þat er aldrei skyldi,
þar sem illskufull
eignum veri
reið rínar málms
ráðbani varð".
215. "Hafða'k þat hugat
er ek heim kæma,
at fólk allt
mundi fegit verða,

bæði börn mín
ok beðja it sama,
aptrkomu minni,
ok ánauðugt man".
216. "En fárgjarnt fljóð,
fullt bölstafa,
bæði sjálft sik
svívirða nam,
svo ok svanna þá,
er síðar koma,
enn þótt valin víf
vera kunni".
217. Svo mælti öðlíngr
Agamemnon,
en ek aptr honum
annsvar veitta'k:
218. "Heyr á undr,
hve upphafi frá
hefir of ætt Atreifs
óhamíngju
Seifr látið leidt,
sá er í lopti dunar,
af kvenna ráðum
ríkilátra".
219. "Hlutu vèr margir
of Helenu sök
at foldu falla,
frægir kappar,
en kyndug
Klýtemnestra
bjó þèr banaráð,
meðan brottu vart".
220. Svo ek sagða,
en siklíngr mèr
aptr annsaði
orðum þeima:
"Því skaltu eingum
of eptirlátr,
konúngr, vera,
nè þótt kona þín sè".
ϱ. XI, 431-453.

221. "Skal-attu birta
beðju þinni
leyndarmál öll,
er þú, lofðúngr, veizt.
Sumt máttu segja
svinnri rúnu,
en annat þú lát
á leyndum vera".
222. "En eigi mun þèr,
Odysseifr,
verða bani búinn
af beðju þinni;
þar til of vel er
at eðli búin
ok viti prúðlynd
Penelópa,
Íkaríus
einga dóttir".
223. "Þá var beðja þín
brúðr nýgefin,
er vèr heiman hèldum
hjörstefnu til.
Var þá burr úngr
á brjósti hennar,
sá er nú mun sess eiga
með seggjum fulltíða".
224. "Þann tel ek sælan
son ok föður,
er faðir heim kominn
fær son líta,
en sonr föður sinn
faðma náir
ástúðlega,
sem eðli býðr".
225. "En mín kona
mèr ei unni
yndis þess,
at ek augum líta
arfa ástfólginn,
því áðr sjálfan

mik myrðan lèt
morðgjarnt höfuð".
226. "Mun ek heilræði
hollt þèr kenna,
en þú hollt ráð
á hjarta legg:
Lenda á laun,
lofðúngr, skalt
flausti, er þú ferr
til fóstrjarðar".
227. "Á allra vitorði,
vísir, ei skalt
fari þínu lenda
á feðra grundu;
því at eingi má
eggleiks hvötuðr
freyjum flæðar báls
framarr trúa".
228. "En ek einu vil
eptir frètta,
sèr ek til sannra
svara frá þèr:
Hafi þèr spurt,
hvort spakr muni
arfi minn uppi
enn á lífi?"
229. "Annathvort í borg
Orkómenus,
eða í prúðra
Pýlverja borg,
eða hjá mærum
Menelási,
þar er Spartverjar
sporna völlu;
því at eigi mun enn
á jörð hafa
ítr Órestes
andrán beðit?"
230. Svo mælti öðlíngr
Agamemnon,
ρ. XI, 453-471.
en ek aptr honum
annsvar veitta'k:
231. "Hví þú mik spyrr
at spjöllum þeima,
arfi Atreifs,
er ek ekki veitk,
hvort hann á lífi
eða of látinn er.
Er-a hæft, herma
hègómamál".
232. Svo vit móðug spjöll
af munni röktum,
halir tveir,
hvorr við annan.
Stóðum báðir,
stóðum hryggvir,
fögr tár báðum
til foldar hnigu.

---

233. Þá kom vofa
á velli þángat
prúðlynds Akkils
Peleifssonar.
Þar kom ok prúðlynds
vofa Patróklus,
ok Antílokkus
hins ítrsnjalla.
234. Þar kom og ítrs
Ajants vofa,
þess er at vænleik var
ok vaxtar prýði
allra Danáa
ágætastr,
þegar prúðan leið
Peleifs arfa.
235. Ok fóthvats
fljótlega mik
á bar önd kennsl
Eaks niðja.

Ok hjúfrandi at mèr
hörmug vofa
orðum vænghröðum
víkja gerði:
236. "Lofsæll lofðúngr,
Laertesson,
mærr Odysseifr
hinn margbrögðótti!
Hví þú, stillir
inn stórhugaði,
á stórvirki enn
stærri hyggr?"
237. "Hví þèr, hilmir, gat
til hugar komit,
í heim Hadesar
hverfa niðr,
þars skyni skroppnir
skuggar búa,
svipir fjörlausra
feigra manna?"
238. Svo mælti prúðr
Peleifs arfi,
en ek aptr honum
annsvar veitta'k:
"Mærr Akkilles,
mögr Peleifs,
allra Akkverja
ítrlaukr!"
239. "Finna mik fýsti,
ok finna þurfta'k,
Tíresías,
trausts at leita,
hve til sæbrattrar,
sjóli, mætta'k
Íþakseyjar
aptr komast".
240. "Hef'ek enn aldrei
jörð akkneskri
í nánd komit
nokkru sinni,
nè fæti á feðra
fold um stigit,
heldr ávallt átt
við illt at búa".
241. "En eingi þèr,
Akkilles, finnst
maðr sælli
fyri mold ofan,
hvorki af fírum
fyrri alda,
nè svo af þeim,
er síðar urðu".
242. "Því í lifanda
lífi vèr þik
Argverjar virðum,
sem vea nokkurn.
Nú ertu hèr,
ok með hávu valdi
dauðra drottnar
yfir drauga fjöld.
Áttu því eigi
ángrast láta,
þóttú, Akkilles,
andaðr sèrt".
243. Svo ek sagða,
en siklíngr mèr
aptr annsaði
orðum þeima:
"Dýrr Odysseifr,
dauða mèr ei
lát á nafn nefndan
nokkru sinni!"
244. "Heldr vilda ek
á váng uppi
kotúngi hjá
fyrir kaup vinna
fátækum nokkrum,
ok ei fjölskrúðugum,
en dauðum drottna
yfir draugum öllum".

ϱ. XI, 472-491.

245. "Heyr nú, herm mèr,
hilmir, frá því,
er þú sannast veizt
af syni mínum.
Fór hann í fólk,
í flokki at vera
frægra frumherja,
eða fór hann hvergi?"
246. "Seg mèr ok Peleifi
prúðlyndum frá
sögu, siklíngr,
er þú sannspurt hafir.
Heldr hann enn
hilmis valdi
yfir margfrægra meingi
Myrmídóna?"
247. "Eða fyrirlíta hann
fyrða kindir
í Helluborg
ok hárri Fiðju,
af því skilfíngi
Skrýmis fóstra
heldr harðlega
á hendi standi?"
248. "Emk-at ek framarr
á fold uppi
í sólar heims
sælum bjarma,
eptirgaungu
ok aðstoð veita
ítrum öðlíngi
ellimóðum".
249. "Nè ek enn emk,
þats ek endr um vark
á tröð breiðri
Trójumanna,
þá er ek Argverjum
aðstoð veitta'k,
ok her hraustastan
á helveg senda".
ϱ. XI, 492-510.

250. "Ef ek nú þrek hefða'k,
þanns ek þá hafða'k,
ok í höll föðurs
hverfa næða'k,
þá skyldi afl mitt
ok æfar hendr
ofbjóða ýta
einum hverjum,
þeim er mildíngi
misbjóða nú,
ok varna virðíngar
vitrum jöfri".
251. Svo mælti prúðr
Peleifs arfi,
en ek aptr honum
annsvar veitta'k:
"Hef'ek um prúðan
Peleif þeygi
feingit fregn nokkra
frásagna til".
252. "En nýtan um
Neoptólemus,
arfa þinn,
er þú annt svo mjök,
segja skal ek þèr
sannleik gjörstan
svo sem þú, mæríngr,
of mælist til".
253. "Því son þinn sjálfr
ek sækja gerði
á báru jó
breiðhúfuðum
Skyreyjar til,
ok á skipi flutta'k
albrynjaðra
Akkverja til".
254. "Nú, í sinn sèrhvert,
er vèr seggir áttum
kríngum Trójuborg
tölustefnur,

mál hóf hann fyrstr
á fundi jafnan,
ok málsenda
mjök nam hitta.
Var-a nokkurr, nema
Nestor ok ek,
er í orðspeki
hann yfir stigi".

255. "En í sinn sèrhvert,
er vèr sundra knáttum
törgur á velli
Trójumanna,
eirði hann aldrei
innan fjölda,
nè kyrr í mannþyrpíng
mátti standa".

256. "Heldr hljóp hann fram
fyrir hölda lángt,
halr inn hugdjarfi,
ok hvergi vægði.
Lèt hann margan mann
til moldar hníga
róstusömu á
randa þíngi".

257. "Mák-a ek, gramr,
gjörva telja,
nè nafngreina,
niflúngr, alla
fíra, þás hann falla
til foldar lèt,
því vörn Argverjum
hann veitti mikla".

258. "Eitt mun ek inna,
er hann Evrýpýlus
tók af lífi,
Telefusson,
hetju hrausta,
með hörðum málmi,
kappa keyptan
með konugjöfum".
ρ. XI, 511-532.

259. "Þann sá ek fegrstan
fíra allra,
þegar Memnon leið,
mæríng fríðan.
Fèllu kríngum hann
kappar margir
Ketumanna
á kesju fundi".

260. "En er í styrs jó
vèr stigum niðr,
hinn er Epeus
hátimbraði,
hraustustu Argverja
ítrmenni,
þars mèr umsjá var
öll um falin":

261. "Þá sá ek marga
mærínga liðs
ok dýra Danáa
dróttar stjóra
fögr tár af sèr
tíðum þerra,
ok af felmtri mjök
fætr skjálfa".

262. "En þat gat ek aldrei
augum litið,
at burr þinn
blikna gerði;
varð-a litverpr
lofða stýrir,
nè hvarmdögg
af hlýrum þerði".

263. "Opt fèkk hann mækis
á meðalkafla,
ok greipa gerði
geir eirrekinn;
bað mik leyfis
úr lúngi stíga,
fýsti hann Tróverjum
tjón at vinna".

264. "En er vèr Brjáms borg
brotið höfðum,
ok hallir háreistar
hrynja látið:
hann til gnoðar gekk
með gott hlutskipti,
ok hafði heiðrsgjöf
hlotið fagra".

265. "Var-at hann skotinn
skörpum geiri,
nè hjörvi höggvinn
í höggorrustu,
svo sem alltítt er
at járna leiki,
þars óættfróðr
Ares geisar".

266. Svo ek sagða,
en sveif á braut
fóthvats önd
Eaks-niðja.
Stórum stikaði
stillir frægr
um gullrótar
grösugt eingi;
varð glatt í geði,
er ek grams arfa kvað
yfirbát vera
annarra manna.

---

267. Stóðu harmandi
hinar aðrar
dauðra drauga
daprar vofur;
tjáði hver fram
tvistar raunir,
þærs haft höfðu
í heimi efra.

268. Ein stóð önd sèr
öðrum fjarri
tírargjarns Ajants
Telamonssonar.
Var mèr reiðr ræsir
af rimmu þeirri,
er við áttum tveir
hjá unnar dýrum.

269. Deildum dýrir tveir
hjá dælu hjörtum
um veglegs Akkils
vopn hin dýru.
Hafði leik þann lagt
hans lofsæl móðir;
bar ek þar frá borði
beinan sigr.

270. Betra hefði þó
brögnum verit,
at ek leik þann
látið hefða'k;
því vopna vegna
varð at jörðu
höfuð dýrsta dreings
dautt at hníga.

271. Því at Ajant var
at álits prýði
ok afreksverkum
öllum framarr
dreingjum dáðrökkum
Danáa lýðs,
þegar prúðan leið
Peleifs arfa.

272. Lèt ek á ágætt
afarmenni
orðum blíðlega
orpit þeima:

273. "Máttir þú eigi
til moldar geinginn,
Ajant, Telamons
arfi ins fræga,
gremi þinni
gleyma við mik,

um vopn þau hin volegu,
er verða skyldu
eptir ráðstöfun
ríkra guða
at ángrs efni
Argverja lýð?"
274. "Slíkan mistu vèr
máttarstólpa
í þèr, Akkverjar,
at vèr ávallt þik
liðinn hörmum,
sem vèr látinn grátum
Akkil hinn prúða,
Peleifs arfa".
275. "En þar eingum er
um at kenna,
utan einum Seifi,
er illum fjónum
rakka Danáa
reka knátti,
ok skapadómi því
skyndi þínum".
276. "Heyr mèr nú, hilmir,
híngat þú kom,
attú orð mitt
ok ávarp heyrir.
Tem hugar móð,
hildíngr, þinn,
ok geyst geð
í grunni munar".
277. Svo ek sagða,
en hann svara vann
eingu orði mèr,
ok aptr gekk
í myrkheim inn,
þars manna dauðra
dvöldust í dimmu
daprar vofur.
278. Mundi ræsir
enn þótt reiðr væri,

ρ. XI, 554-575.

á mik ort hafa,
eða ek á hann,
ef værimk-a fýst
föst í brjósti,
andir andaðra
aðrar líta.

---

279. Sák þar Mínos,
mæran arfa
alda föðurs,
ins æðsta Seifs.
Hèlt gramr göfugr
á gullnum sprota,
dæmdi dauðum rètt
á dæmistóli.
280. En dauðir menn
um dýrum jöfri
sögðu sakar fram
fyrir siklíngi;
sátu sumir,
sumir stóðu,
í Heljar hallar
hliðum víðum.
281. Gat ek at líta
grami næstan
Óríon
hinn afarmikla,
hafði í hendi
háva kylfu,
alla af eiri,
óbrotlega.
282. Rak dýr saman
dáðframr veiða
um gullrótar
grösugt eingi:
dýr þau, er sjálfr
of drepit hafði
áðr fyrr uppi
á eyðifjöllum.

283. Sá ek Titýus
risa tröllaukinn,
arfa Jarðar
öldum kunnrar,
þars stórvaxinn
stakksvöllu þrjá
undir sik lagði,
er hann lá á grund.

284. Á hlið hvora
honum sátu
gammar tveir,
grófu netju,
lifr hjuggu,
nè með limum axla
vörgum volegum
hann verjast knátti.

285. Vildi Titýus
hina tignarlegu
Letó smána,
lagskonu Seifs,
þá er til Pýþóar
um Panópsborgar
væna völlu
vegleg dís gekk.

286. Sá ek Tantalus,
tiggja auðgan,
sá hafði hilmir
harða kosti:
stóð í tjörn einni
stillir ríkr,
tók í höku honum
hauðrs dreyri.

287. Myndaðist til
móðr af þorsta,
en drykkjar eingum
dropa náði;
opt beygði sik
buðlúngr aldinn,
laungum laut,
lysti drekka.

ϱ. XI, 576-595.

288. En í hvert sinn hvarf
hauðrs dreyri
(var-a þat sjálfrátt)
ok sogaðist niðr.
Sást í svarta mold
und sjóla fótum,
því vættr einhver
vatn upp þerði.

289. Hèngu ávextir
yfir höfði sjóla
af blómlegum
björkum niðr:
kjarnhnotir, perur
af kostugum trjám,
epli glóíögr
af apöldrum,
fíkjur fagrar,
furðu sætar,
ok viðsmjörs ber
af viði grænum.

290. En í sinn sèrhvert,
er sjóli aldinn
eptir ávöxtum
upp rèð seilast,
svipaði svipvindi
sætum gróða
upp at hamdökkum
himinskýjum.

291. Sá ek Sisýfus,
sjóla ríkan,
sá hafði hilmir
harðar raunir:
stein stórmikinn
stillir skyldi
hefja á hauðri
með handa afli.

292. Mjök mæríngr
magns kostaði,
höndum knúði
ok í hauðr spyrndi,

ok upp eptir
einni brekku
móðr mjakaði
meginbjargi.
293. En er upp velta
ægum steini
á brekku brún
buðlúngr vildi,
hratt höfgi snöggt
hnullúngi aptr,
valt svo volegt bjarg
á völl niðr.
294. Aptr ok aptr
öðlíngr velti
meginbjargi svo,
magns nam at kosta.
Bogaði sviti
af buðlúngs limum,
reis upp rykstroka
af reikar fjalli.
295. Sá ek Herakles
svip hins sterka;
því sjóli sjálfr
með sælum guðum
sitr at sumbli,
ok silfrbjarta
Hebu únglega
örmum vefr.
296. Gnauðuðu vofur
geiskafullar,
fuglum líkar,
fylki kríngum,
undan þutu
í átt sína hver;
var glíkr gramr
grímu dimmri.
297. Bar buðlúngr
barr í hendi
álm afhjúpað an
ǫ. XI, 596-617.

ör var á streingi;
varp augum í kríng
voðalega,
sem hann æ ok æ
mundi öru hleypa.
298. Lá sverðfetill
um siklíngs bríngu,
ógurlegr mjök
á at líta;
þat var laugat band
lindar eldi,
ok fáit fátíðum
furðuverkum.
299. Voru birnir
ok villigeltir
ok glaseyg ljón
ger á bandi:
ísarnhríðir
ok orrustur,
víg ok manndráp
in megingrimmu.
300. Mundi-t gumi sá,
er gerði smíða
fetil þenna
með fögrum myndum,
grip sams konar
gera mega
jafnfagran þeim
eða þekkilegra.
301. Vissi döglíngr
öll deili á mèr,
jafnskjótt ok hann mik
augum leiddi.
Ok hjúfrandi at mèr
hilmir frægr
orðum vænghröðum
víkja gerði:
302. "Lofsæll lofðúngr,
Laertesson,

mærr Odysseifr
hinn margbrögðótti!"
303. "Muntu meinsköpum,
maðr inn vesli
einnig einhverjum
orðinn háðr,
svo sem ek sjálfr
í sólarljóss
heimi hissig opt
hlaut at þola".
304. "Þó Seifs burr værak,
sonar Kronusar,
hörmúng hundmarga
hlaut ek þola.
Vark miklu minna mèr
manni háðr,
sá mèr þrautir þegn
þúngar lagði".
305. "Hann mik híngat
til Heljar sendi,
til at ná hèðan
niflheims rakka;
hugði þraut mik
þeirri verri
hvergi jarðar
hafa mundu".
306. "En ek Heljar hund
hvatt upp færði,
ok frá Hadesar
heimti sölum.
Þá Hermes mèr
holla fylgju
ok glóeyg Aþena
geingi veitti".
307. Hann at mæltu
máli þvísa
inn í Hadesar
híbýli sveif.

---

ϱ. XI, 617-638.

308. Beið ek enn kyrr
á barmi grafar,
ok þrávallt þreyða,
ef þángat enn kæmi
einhverr ágætra
afrekskappa,
þeirra er fyrr höfðu
fjörtjón beðit.
309. Munda'k menn þá,
er mik til lysti,
af fornmönnum hafa
feingit líta,
ef ótallegr
eigi hefði
drauga sægr
drifit at mèr.
310. Þá varð geysi-gnýr,
gnauðuðu vofur;
skaut mèr þá skelfíngar
skelk í bríngu,
at mèr neðan frá
neðstum mundi
prúð Persefóna
pöllum Heljar
senda Gorgóar
grimmlegt höfuð,
illrar óvættar
ok ógurlegrar.
311. Lèt ek þegar þá
þaðan geingit
til flausts ofan,
ok fèlögum bauð,
á streingmar stíga,
streingi leysa,
ok skutfestar
skjótt upp heimta.
312. Skatnar skjótlega
á skip stigu,
ok þrekramir
á þóptur settust.

Sat seggja hverr
í sínu rúmi,
ok unnir blár
árum kníðu.
313. Bar straumalda
stýris gota
yfir miðgarðs straum
meginbreiðan.
Tóku rekkar fyrst
róðrar leiði,
því næst byr fagran
bragnar feingu.

# TÓLFTA KVIÐA.

Rann rásvakr
ránga hjörtr
úr miðgarðs straumi
meginbreiðum,
ok inn á víðfarins
víðis bárur
skipum skriðnar
skeiðandi gekk.
2. Komum til Eyjar
á unnar dýri,
þars mær átti
Morginskæra
vegleg inni,
völlu fagra,
opna við ítrar
upprás sólar.
3. Lendum knerri,
er vèr komum þar,
á flæðar strönd
við fjörusanda.
Stigum sjálfir svo
af segla mari,
þar er lagar lá
lèk við steina.
4. Hèr við lögðumst
á lagar ströndu,
ok mjúkt blunduðum
marbeðjum á.
Ok er fullan svefn
feingit höfðum,
mærrar biðu vèr
Morginskæru.
5. En er árrisul,
rósinfíngra
birtist mönnum
Morginskæra,
heim ek senda
til hallar Kirku,
látins Elpenors
lík at sækja.
6. Hjuggu vèr allskjótt
eikarstofna
fremst á útskaga
einum hverjum.
Grófum svo guma
í geði hryggvir,
felldum tíðlega
tár af augum.
7. Ok er liðins manns
lík var brunnit,
ok vopn á báli
vers hins dauða,

ϱ. XI, 638-640.

haug vèr urpum
önduðum hal,
bautastein hávan
á haug settum,
ok reistum ár upp
efst á leiði.
Lètum líkferð svo
lokit gjörva.
8. Fór-a Kirka duld
komu vorrar
heim aptr Hadesar
heimkynnum frá.
Bjó sik í skyndi
skartsöm gyðja,
ok til skips ofan
skrautbúin kom.
9. Fylgðu salkonur
svinnri gyðju,
báru brauðs ok kjöts
birgðir gnógar.
Vín oss færðu
veiga seljur
skært skínanda
í skálum rautt.
10. Gekk fram gyðja
hin göfugláta
mitt á meðal vor,
ok mæla tók:
11. "Heyrit, þèr halir
helzti djarfir,
er kvikir könnuðut
kynni Heljar,
ok tvisvar dóut,
þar sem deyr at eins
seggja hverr
um sinn annarra".
12. "Matar neytið nú,
neytið drykkjar,
drekkit dagleingis
dýrar veigar.

ρ. XII, 14-35.

At morni skulut èr
á mar halda,
þegar er ljós dags
lýsa tekr".
13. "Veg skal ek vísa,
ok yðr vara gera
víti hverju við,
at vanhyggindi
á grund eðr græði
yðr grand nè vinni".
14. Svo nam mæla
margfróð gyðja.
Hneigðist hugr vorr
af hennar tölum.
15. Þannig sátu vèr
þann dag allan,
uns sæl sól
seig til viðar:
gnógt kjöt snæddum,
gott vèr áttum,
drukkum dásætt vín
af drykkjarkerum.
16. En er sæl sól
seig í ægi,
ok rökkr drógst
of rekka sveitir,
halir hvatlega
til hvíldar geingu
hjá skutfestum
skips á ströndu.
17. En háleit gyðja
í hönd mèr tók,
ok fèlögum frá
fjarri leiddi;
hjá mèr settist,
ok mik sitja bað,
ok mik tíðinda
tók at spyrja.
18. Sagða ek svinnri
sögu alla,

svo sem á för minni
farit hafði.
Þá lèt Kirka,
kostsöm gyðja,
orða lögum þeim
at mèr vikit:

---

19. "Þannig er þetta,
sem þú nú inntir,
allt á enda kljáð;
en þú athuga veit
því, er þessu næst
ek þèr vil segja;
mun ok guð sjálfr
þik minna þar á".
20. "Fyrst muntu, frægr
fylkir, koma
sætrómaðra
Sírena til.
Unaðsfullum þær
ómi seiða
fíra hvern,
ef þeirra fund sækir".
21. "Ef einhverr óvörum
at þeim kemr,
ok róm Sírena
sætan heyrir,
honum heim komnum
hvorki munu
börn nè beðja
á bæ fagna".
22. "Því Sírenur
sitja í grasi,
ok seggi seiða
saungva hreimi;
ok há hrúga
hjá þeim liggr
skinna skorpinna,
beina skininna,
seggja, er seiddir
saungvi snjöllum
á foldu þar
fúnat hafa".
23. "Fram um þær, fylkir,
fara þú skalt,
ok hunángs vax vel,
vísir, hnoða;
drep því í eyru
dreingjum þínum
öllum, svo eingi
óm þann heyri".
24. "En ef þik sjálfan,
sjóli, lystir
óm þann á hlýða,
upprèttan þik
við siglufót
seggir skulu
á höndum ok fótum
fastan binda".
25. "Um siglu skal,
siklíngr, þeim
böndum brugðit,
er þú bundinn verðr.
Þá máttu, þeingill,
þèr vel skemta,
ok beggja Sírena
saungvi hlýða".
26. "En ef þú losast,
lofðúngr, villt,
ok bón at brögnum
beinir þínum,
þá skulu þegnar
þik enn fleirum
böndum, buðlúngr,
binda fastan".
27. "En er Sírenum
sætrómuðum
fèlagar þínir
eru fram hjá komnir,

ϱ. XII, 35-55.

munk-a ek, skilfíngr,
skýrt á kveða,
hvora leið skalt leggja
af leiðum tvennum".
28. "Liggja leiðir tvær,
lofðúngr, fyr;
en þú, hilmir, skalt
hyggja sjálfr,
hvora halda vilir,
en hvorritveggju
mun ek leið láta
lýst fyri þèr".
29. "Á hönd eina
hamrar eru
feikna hávir,
fram skútandi;
við björg þau
brimalda gnýr
dimmbláeygrar
Blóðughöddu.
Himinhamra þá
hátt gnæfandi
Sogdránga nefna
sælir guðir".
30. "Þeim hömrum hjá
hvergi megu
fuglar fljúgandi
fram um komast,
ok jamvel ei dúfur þær,
er dýra færa
fæðu ódáins
föður Seifi".
31. "At sèr æ sogar
eina hverja
meitilberg mikit
mærra dúfna,
en æ sendir ofan
aðra dúfu
skjöldúngr skýja,
skarð at fylla".
ϱ. XII, 56-76.

32. "Hefir-a farkostr
fíra nokkurr
heilum húfi
hèðan sloppit;
því óðir eldbylir
ok unnir hávar
bera borðflök jafnt,
sem búka manna".
33. "Eitt var unnar skíð,
er um þar sigldi
heilum húfi,
höldnu liði:
þat var Argó
hin öldum-kunna,
þá er frá Eetes
unnir kníði".
34. "Þó hefði þar
þá gnoð rekit
bystir brimórar
í bratta hamra,
ef hefði-t Hera greidt
hásleipnis för,
sú er Jasoni
jafnan unni".
35. "Á hina hlið
eru hraundrángar tveir,
gnæfir annarr upp
(ógn er at líta)
í himin hávan
hvössum tindi,
byrgðr blásvörtum
bólstrum skýja".
36. "Hula sú hverfr
hèðan aldreigi;
sèr-at heiðríkt lopt
hamars gnípa,
hvorki um svasan
sumars tíma,
nè á frumhausti
frjóleiks mildu".

37. "Feingi aldreigi
fíra nokkurr
upp þar geingit,
nè ofan stigit,
enn þótt hefði hann
hendr tuttugu,
ok jafnmargar
jarka siglur".

38. "Hamarr eggslèttr
upp þar geingr,
líkt sem meitlaðr
meitli væri.
En miðjum í
megindrángi
hverfr hellir inn
helzti dimmr".

39. "Víkr til vestrs
víðr hellir,
ok til niflheims þar
niðr geingr.
Fram hjá helli þeim
halda þèr munut,
ítr Odysseifr,
unnar dýri".

40. "Mun-a maðr fá,
mætti studdr,
upp í hellis hvopt
frá húna ljóni
öru skotið
af ýboga;
svo er hátt upp
at hellis munna".

41. "Hefir Skylla hèr,
ok hvoptum víðum
ýlir ógurlega,
aðsetr sitt;
ýlfrar óvættr
ámáttlega,
hvolpi nýgotnum
næsta glíkt".

ϱ· XII, 77-97.

42. "Er Skylla sjálf
skelfíngar bákn,
feiknlegt ferlíki,
full meinstafa,
augum ægileg
allra manna,
ok geigvænleg
goðum sjálfum".

43. "Hefir lappir tólf
ljótmyndaðar,
hálsa sex
helzti lánga;
en hauss á hverjum
hálsi sitr,
ógurlegr mjök
á at líta".

44. "En í hausi
hverjum liggja
tannir þrísettar,
traustir skaflar;
þèttar 'ro þær,
þeygi sljóvar,
fullar dreyrfáðu
dauðameini".

45. "Hefir sökkt sèr
sjá ófreskja
niðr til miðs
í myrkvan helli,
en hausa teygir
haframlega
fram úr hellis gjá
hræðilegri".

46. "Gægist um gjögra
gríðarlega
vættr voðaleg,
ok veiðum sætir;
tekr höfrúnga,
tekr hákarla,
ok stærri fiska
stundum veiðir,

þeirra er urmul
ótallegan
brimsólgin elr
Blóðughadda".
47. "Eiga aldreigi
unnum tamir
þilblakks ríðendr
því at hrósa,
at heilu ok höldnu
hafi þaðra
flæðar fáki
fram hjá riðit".
48. "Því at þessarrar
þat er venja
illrar óskepnu
á unnum blám,
at úr hlýrroðnum
hesti streingja
sinn hal hverjum
hausi grípr".
49. "Hinn er hraundrángr
hóti lægri,
sem þú sjá munt,
ok sýnu nær,
Odysseifr,
svo at öru skjóta
af drángi á dráng
dreingr mætti".
50. "Þar er á þeim dráng
þeygi lítil
villiviðsmjörs björk
með vænu laufi.
Þar Karýbdis,
kynjuð hála,
sogar blátt bif
und bjarkar rótum".
51. "Þrisvar þeytir upp,
þrisvar í sik
aptr sæ sogar

ϱ. XII, 97-115.

á sama dægri.
Þat er ógrlegt;
eigi þú skyldir,
er hún glæ gleypir,
í grennd vera".
52. "Því at þá mundi
þik jafnvel ei
úr háska frelsat fá
foldar skelfir.
Ráð er ráðlegra,
ræsir, annat,
þá er þú Skylludráng
skæðan nálgast".
53. Ró skipi þínu
sem skjótast þar hjá.
Því at miklu er,
mildíngr, betra,
sex at sakna
á sæ manna,
en ýta allra
í einu missa".
54. Svo mælti Kirka,
kunnug gyðja,
en ek aptr henni
annsvar veitta'k:
"Heyr, herm mèr,
ok herm með sanni,
gyðja goðborin
ef þik greina lystir".
55. "Mun ek meinvætti
móti nokkru
undan Karýbdis
komizt geta,
ok hinni varizt,
ef hún hripsa vill
frá mèr fèlaga
frækna mína?"
56. Svo ek sagða,
en mèr svara vann

Kirka hin kunnga,
kostsöm gyðja:
57. "Stendr þèr enn hugr,
inn stórhugaði,
styrjar starfa
ok stórræða til?
Villtu jafnvel ei,
jöfurr, vægja
ódauðlegum fyr
uppheims goðum?"
58. "Vita skaltu víst,
vísir frægr,
at er-at Karýbdis
af kyni mennsku,
heldr er hún
af himins búa
bergi brotin
ok til böls lagin".
59. "Er hún ógurleg
á at líta,
vond viðreignar
ok volega tryllt;
verðr-at vunnin
í vopna skipti,
nè vörn við komit
vætti þessa.
At flýja frá henni,
er fángaráð bezt".
60. "Því ef þú dvöl hjá dráng
drýgir lánga,
ok býst vörn við
vætti á móti,
óttumst ek, at enn
at þèr seilist
ill ófreskja,
ok aptr hremmi,
sinn með hverjum haus,
hölda þína."
61. "Lát heldr, hilmir,
herða róðr,
ok kalla kröptuga
Krateis á,
móður Skyllu,
er meinvætt þenna
til ófagnaðar ól
alda börnum;
hún mun dýrri
dóttur banna,
at þèr árásir
optarr gera".
62. "Þik mun því næst
til Þrínakseyjar,
buðlúngr, bera;
en þar á beit gánga
hjarðir í högum,
er Helíus á,
fjölmargar uxa
ok feitra sauða".
63. "Þar 'ro nauta sjö
nýtar hjarðir,
ok sauða sjálegra
at sama hófi;
eru í hjörð hverri
höfuð fimmtygi,
æxlast nè eyðast
aldreigi þær".
64. "Gæta gyðjur
gripa þeirra,
landvættir tvær:
Lampetía,
fagrflèttaðar,
ok Faeþúsa;
þær við Helíus,
syni Hýperíons,
nýt námdúks hörn
Neera ól".
65. "En er mæt móðir
meyjar hafði

ρ. XII, 115-134.

í ljós leidt
ok á legg komit,
heiman sendi hún
horskar dætr,
mærar meyjar,
frá móður kynni".
66. "Lángt úr landi
ljúf nam senda
þorna þellur,
til Þrínakseyjar.
Þar skyldu geyma
gullhlaðs freyjur
sauða föðurs
ok fríðra uxa".
67. "Ef þú fè þat
í friði lætr,
ok hyggr, hilmir,
á heimför þína,
þá munu þèr,
enn þótt við þrautir miklar,
til Íþakseyjar
aptr um komast".
68. "En ef þú grandar
gripum þeima,
fari þínu, fylkir,
ok förunautum
tjóni ek spái;
ok þó þèr, tiggi, sjálfum
auðnist ógæfu
undan sleppa,
muntu þó allra missa
manna þinna,
ok aptr heim komast
illa ok seint".

---

69. Kvað svo Kirka,
kunnug gyðja,
ok á ey upp gekk

ρ. XII, 134-151.

af okkrum fundi.
En upp á austra hjálm
ók þá bráðla
glæst gyðja dags
í gullinreiðu.
70. Lèt ek þegar þá
þaðan geingit
fram at flausti,
ok fèlögum bauð
á streingmar stíga,
streingi leysa,
ok skutfestar
skjótt upp heimta.
71. Skatnar skjótlega
á skip stigu,
ok þrekramir
á þóptur settust.
Sat seggja hverr
í sínu rúmi,
ok unnir blár
árum kníðu.
72. Kirka hvíthödduð,
hyggju slúngin,
manna máli gædd,
máttug gyðja,
byr blásanda
á bak oss sendi
eptir stafnblám
streingja mari:
73. Beztan leiðtoga
lagar dýrum,
fríðstan förunaut
fleyvángs runnum.
Sá lèt hátt hafnar
húna blæjur
bólgnar standa
á bylgju ljóni.
74. Ok innan borðs
öllu reiði

hvatt vèr hagræddum
á hlunna dýri;
sátum sorglausir,
sýttum vætki,
á hafskips
hávum þiljum;
sem vindr vildi,
væna lètum
skeið fram skríða,
ok skipstýrandi.

75. Þá nam ek fríðum
förunautum
í áheyrn allra
orð þau mæla:

76. "Vert er, vinir,
at viti allir,
ekki einn maðr
eða einir tveir,
þau er mèr Kirka
kunnug gerði
spjöll, spakvitr
spáleiks gyðja."

77. "Allt skal ek öllum
yðr kynna,
svo oss óvörum
ekki komi,
hvort sem vèr deyjum
eða dómi norna
á auðnast oss
undan sleppa".

78. "Fyrst fróð gyðja
oss forðast bað
saung Sírena
sætrómaðra;
bað oss firrast
blómvaxit tún,
þars seiðmeyjar
sitja í grasi."

79. "Mik kvað hún mega
en manngi annan,
óm þann á hlýða,
en upprèttan þá
mik við siglufót,
seggir, bindit,
svo hvergi haggist,
hörðum fjötri;
en böndum þeim,
er ek bundinn verð,
sè um siglufót
síðan brugðit".

80. "En ef lángar mik
at losast þaðan,
ok yðr bæni til
bönd at leysa,
þá skulut þèr
þess at fleirum
böndum, bragnar, mik
binda fastan".

81. Meðan mínum ek
mál öll gjörva
talda'k ok tjáða'k
tryggum liðum,
bar skip skarfagrt
skjótlega at ey
(því at byrr var brýnn)
beggja Sírena.

82. Þá byrvindr
blástrum hætti,
ok vindlaust varð
á vogi logn;
ok ægis dætr
allar sváfu
(svo vildi guð)
í sjávar djúpi.

83. Risu rekkar upp
á rakka hirti,
ok segl öll
saman tóku;

ϱ. XII, 151-170.

ok lauka voðir
lögðu niðr
seggir sjóvanir
á siglu mari;
settust rösklegir
við róðrs þrömu,
ok bif bleiktu
fyri blöðum ára.
84. En ek vaxköku
vel mikla tók,
ok með eirsaxi
af nam sneiða
beittu bita smá,
ok burðalegum
höndum hvatlega
hnoða gerða'k.
85. Vax bráðlega
vikna mundi,
af handa knúð
krapti miklum,
ok vísis geisla
velgt af skini,
Helíuss, sonar
Hýperíons.
Fór ek síðan,
ok fèlögum öllum,
einum at öðrum,
því í eyru drap.
86. En sjálfan seggir
við siglu fót mik
á höndum ok fótum
fastan bundu
alls upprèttan,
ok endum banda
um siglutrè
síðan brugðu;
settust sjálfir
svo við róðr,
ok unnir blár
árum lustu.
87. Rèru rösklega
rekkar knáir,
hljóp hart snekkja
af hvötum róðri.
Óð þá unnvigg
ey svo nærri,
at hljóð í land
heyra mátti.
88. Urðu varar við
vættir galdra,
at unnskíð örskreitt
allnærri rann.
Hófu þá hvellan
hárómaðar
saung saungmeyjar,
ok svo kváðu:
89. "Kom, ok knerri lend,
konúngr, hinnig!
Okkrum ómi hlýð,
Odysseifr,
lofsæll lofðúngr,
lýða sómi,
ýta akkneskra
ítrlaukr!"
90. "Hefir-a hèr enn
hölda nokkurr
fyrr farkosti
fram hjá liðit,
en hann áðr hafi
eyrum numit
rödd mjúksæta
af munnum okkrum".
91. "Fær skatna hverr
skemtun gnóga,
ok ferr fróðari
af fundi okkrum;
því at gjörvöll við
vita knegum

ϱ. XII, 171-189.

tíðindi at telja
frá Trójuborg".
92. Vitum, þann er vunnu
víl Argverjar
ok verar tróverskir
at tíva ráðum.
Vitum vetna hvat,
er við má bera
um veröld víða
verlýðum hjá".
93. Súngu saungmeyjar
svasum rómi,
ok hreim hljómfagran
heyra lètu.
Þá varð hjarta mitt
heillat næsta,
ok óðfúst mjök
á at hlýða.
94. Brúnum ek benda,
sem ek bezt mátta'k,
ok mik bragna bað
úr böndum leysa;
en þeir áfram
á árar fèllust,
beystu bakföllum
bláar unnir.
95. Þá risu þegar
þegnar vaskir,
ítr Perímedes
ok Evrýlokkus,
ok böndum mik
bundu fleirum,
höpt á lögðu
ok herðu ramla.
96. Knátti fley svo
fram hjá líða
ómfullri ey,
at eigi máttu
rödd rómfagra

ϱ. XII, 189-206.

rekkar leingr,
nè saung Sírena
svasan heyra.
97. Þá sèr úr hlustum
hollir námu
vax þat virðar,
er ek vel fyr stundu
drepit í eyru
dreingjum hafða'k,
ok mik bráðlega
úr böndum leystu.

---

98. En er orum vèr
undan komnir
ey Sírena
svasrómaðra:
reyk sá ek rísa
ok rammar bárur,
ok brimhljóð heyrða'k
breka stórra.
99. Þá urðu felmtraðir
fèlagar mínir,
svo úr höndum þeim
hrukku árar;
ok suðandi óðu
í svölum straumi
allir útbyrðis
öldu sveipar.
100. Þat varð flausti
at farartálma;
stóð, sem steinn, kyrr
steindr nökkvi:
því eingi voru
úti í rúmum
ræði rekka;
róðr var laminn.
101. Þá nam ek gánga
at gnoðar þiljum,

ok á fèlaga
frækna heita;
gekk ek gagngjört
til guma hvers,
ok mjúku máli
mann hvern kvadda:
102. "Höfum-a varhluta,
vinir, farit
ýmiss andstreymis
at undanförnu.
Er-a vá sú,
er vofir yfir
höfðum hölda nú,
hinni meiri,
er oss Kýklópr
hinn kraptasterki
í helli hneppti
hörðum kostum".
103. "Þó vèr úr þrautum
þeima sluppum
fyri hreysti mína,
hugvit ok ráð;
þær munu þeygi,
at þykkju minni,
mannraunir yðr
úr minni líða".
104. "Förum nú fram,
því er ek fyrir legg!
Hlýði rekka sjót
ráðum mínum!"
105. "Þèr skulut, þegnar,
á þóptum sitja,
ok unnir blár
árum ljósta,
ef Seifr oss
sjálfr vildi
frjálsa gera
af fári þvísa".
106. "Þèr læt ek þessa

ρ. XII, 206-227.

(þar á haf gát!),
skipstjórnarmaðr,
skipun gerva;
því at þú heldr
á hjálmunveli
skips skríðanda
um skerja foldir".
107. "Þú við þenna reyk
þvinnils lúngi
ok öldugáng
á útborða halt!
Lát dælu dýri
á dráng miðat,
svo unnar hjörtr
at óvörum þèr
hverfi-t hins vegar
at hamri bröttum,
nè oss í nauðir
náir kasta!"
108. Svo ek sagða,
en seggir hlýddu
allrar tafar án
orðum mínum.
En Skyllu skaðvæna
skötnum nefna,
óvísavarg þann,
vilda'k eigi.
109. Óttaðist ek,
at þá æðrast mundu,
ok af róðri láta
rekkar mínir,
ok hugum horfnir
sik hneppa niðr
undir þiljur
á unnar dýri.
110. En ek Kirku þá
kunnugrar nam,
þeims mèr gazt ei at,
gleyma boðum,

er mèr bannaði
bölvætti gegn
vígi verjast
nè vopnum beita.
111. Nam ek darraðar
dýru skrúði
hervæðast,
ok í hönd mèr tók
lángspjót tvö,
ok lèt um geingit
fram á fleys þiljur
framstafni í.
112. Því ek þess vænta,
at þaðan mundi
fyrir sjónir fyrst
fíra bera
hamrama Skyllu,
er í hamri bjó
ok skaða vann
skötnum mínum.
113. En ek hana gat
hvergi sèna,
þótt ek þrálega
þreytta sjónir,
ok augum rennda
alla vega
upp um dapran dráng,
dimmu horfinn.
114. Lètum krapta val
kvíðafullir
í mjósyndi
mitt fram renna;
var á veg einn
voleg Skylla,
en kynjum kröptug
Karýbdis á hinn;
sú rèð svelgja
salt vatn niðr
(þat var ógurlegt)

ǫ. XII, 227-246.

ála brautar.
115. Í sinn sèrhvert
er hún sæ upp varp,
ok gusu glæspýjur
úr gini hennar,
öll hún ólgaði,
upp vellandi,
sem hver vellr
yfir heitum eldi;
en löðr í lopt upp
lángt nam fjúka,
ok hæst á hamardráng
hvorntveggja fèll.
116. En er svalg hún
salt vatn niðr
í sik aptr
ála brautar,
öll hún innan sást
upp vellandi,
ok dimmum dunum
drundi niðri
(þat var geigurlegt)
í gjáhamri.
117. En svartr sandr
sást í botni,
ok jarðar jarpleitrar
jaðrar neðstu.
Urðu fèlagar
fræknir mínir
bleikir sem bast
af býsnum þeima.
118. En meðan á þau
undr störðum,
ok bana oss þaðan
búinn hugðum,
hripsaði hraustustu
ok handsterkustu
Skylla skatna sex
úr skipi mínu.

119. Ok þá ek aptr
augum vendi
til lagar lúngs
ok liða minna,
höndum fórnandi,
fótum spriklandi
hátt á lopt hafna
hölda ek sá.
Hátt þeir hljóðuðu
í hörmúng sinni,
mik á nafn nefndu,
nú í sinn hinzta.

120. Sem dreingr dregr
á dorg fiska,
kastar út aungli,
stendr á klapparnefi,
varpar á land upp
veiddum fiski,
sprækum, spriklanda,
spöndum úr sæ.

121. Svo svipti þá
seggjum mínum
Skylla skaðvænleg
úr skipi miðju,
höndum fórnandi,
fótum spriklandi,
ok í hamra hátt
hóf at lopti.

122. Hún hölda át
í hellismunna,
en þeir hástöfum
hljóða gerðu;
fórnuðu til mín
feigum höndum
bragnar á grimmu
banadægri.

123. Sú hefir sýn mèr
sárust vorðit
sjóna allra,
er ek augum leitk,
ok sá hvassastr
at hendi borit
harmr harma
hafleiðum á.

ϱ. XII, 247-268.

---

124. En er vèr hömrum
vorum hjá sloppnir,
skaðvænni Karýbdis
ok Skyllu bæði,
þá vèr at ágætri
eyju komum,
þeirri er guði var
göfgum helguð.

125. Þar geingu uxar
ennibreiðir,
sýnum sjálegir,
ok sauðir margir;
þær Helíus
hjarðir átti,
hár hróðmögr
Hýperíons.

126. Heyrða'k af hröðu
húna dýri,
meðan enn á ægi
úti ek vark,
uxa baula,
er inni stóðu
jötur við,
ok jarm sauða.

127. Þá mèr heilræði
til hugar komu,
þau's blindr spámaðr
of spjallat hafði,
þjóðkunnr Tíresías
hinn þífneski,
ok mèr kunn kenndi
Kirka fra Ey.

128. Hafði horsk gyðja
huga fullum
ráð mèr ráðit,
ok ríkt á lagt,
at ek aldreigi
við ey þá lenda,
er ætti Helíus,
hölda kætir.
129. Þá nam ek fríðum
förunautum
í áheyrn allra
orð þau mæla:
130. "Hlýðit, fèlagar,
er harma stóra
ok raunir reynt hafit,
ræðu minni!
Tjá vil ek spádóm
Tíresías
ok orð allvitr
Eyjar-Kirku".
131. "Hefir horsk gyðja
huga fullum
ráð mèr ráðit,
ok ríkt á lagt,
at ek aldreigi
við ey þá lenda,
er Helíus á,
hölda kætir".
132. "Því af þeirri ey
þýngstar hún kvað
mannraunir oss
mundu standa.
Haldit því hèðan
húfi svölum,
ok róit út um ey
ægis hesti".
133. Svo ek sagða,
en seggja minna
hörðum harmi varð

ϱ. XII, 268-287.

hjarta slegit.
Þá lèt þegar
þægum eigi
á mik orðum ort
Evrýlokkus:
134. "Ofdjarfr þú ert,
Odysseifr,
ok hugr þinn
helzti mikill;
ná eigi þrautir
þik at mæða,
sem allt væri í þèr
af ísarni gert".
135. "Þreytu þjáðir
ok þúngum raunum
eru vèr fèlagar,
fýsumst hvíldar.
Ok þó lætr þú oss,
þeingill, bannat,
á fegins foldu
fótum stíga,
at vèr á ey
unnum kríngdri
bergibita oss
búa knættim".
136. "Heldr villtu,
at vèr hèðan rekimst
aptr frá ey,
ok um ægi dimman
í nætr-nepju
villt, niflúngr, oss,
svo sem verkast vill,
velkjast láta".
137. "Hefjast hvassviðri
hörð á nóttum,
dynja dimm èl
um draumnjórun:
þau á sæ verða
siglu mörum

marlíðöndum
at mörgu tjóni".
138. "Hvert skyli höldar
í hæli flýja?
Hve sik frelsta fá
úr fári vísu?
Ef vindbylr
voveiflega
koma kynni
á kaldri nótt."
139. "Ef stórr kæmi
stormr sunnan,
eða hræsvelgr
hvass frá vestri,
þeir er skipa títt
tjóni valda,
án þess guðir því
geti hamlat".
140. "Nú skulum, nýtir,
nóttu hlýða.
Búum til verðar
hjá vazta hreini.
Þegar morni með
á marblakk stíga,
ok um lá skulum
leiðir kanna".
141. Orð þau inna nam
Evrýlokkus;
rómuðu ræðu hans
rekkar aðrir.
Skilda ek þá skjótt,
at oss skaða búa
óhamíngju-guð
einhverr vildi.
Ok aptr þá
at Evrýlokkus
lèt ek vænghröðum
vikit orðum:
142. "Ofríki etið èr,

ϱ. XII, 287-307.

Evrýlokkus,
er bragnar einan mik
bera ráðum.
Heyrit nú, höldar!
Hèr fyri mèr
eið allstyrkan
allir vinnit!"
143. "Ef vèr uxahjörð
eina hverja,
eða hjörð sauða
hitta kunnum,
þá skal þeim eingi
þegn of granda
af ofdirsku
illskufullri".
144. "Eingi skal uxa,
eingi skal sauð,
minna manna
sèr til munns leggja:
heldr í friði
fæðu neytið,
er Kirka ódauðleg
yðr til kostar gaf".
145. Svo ek sagða,
en sóru þegnar
allskjótt eið þann,
er ek á nam kveða.
146. En er svardaga
sagðan höfðu
ok eiðstaf
unnit gjörstan,
vazta vigg
í víkr hvarfi
við lækjar ós
leggja gerðum.
147. Ok fèlagar
fræknir mínir
af streingmar
stíga knáttu;

ok aptansverð
ýtar bjuggu
virkulega sèr
á víðis ströndu.
148. Neyttu matar,
neyttu drykkjar,
svo sem lyst til lèk,
lofðar snjallir.
Þá minntust þeir
þaðra sinna
ljúfra lagsmanna,
er látizt höfðu:
149. Þá er Skylla
úr skipi voru
hafði hremmt fyrr
ok á hol rifit.
Grátnir grètu
guma látna,
uns þeim sætr sveif
svefn á augu.
150. Mundi þriðjúngr
lifa myrkföru,
ok síur múspells
síga at lopti:
þá vakti voldugr
vindbýsna guð
Seifr hvast veðr
með hreggi óðu.
151. Hann hríðfeldum
huldi skýjum
haf umhverfis
ok hauðr it sama.
Af himins hvolfi
hnè þá niðr
svipljótt svartnætti,
sorta þrúngit.
152. En er árrisul,
rósinfíngra
birtist mönnum

ϱ. XII, 307-326.

Morginskæra:
í lægi lögðum
lagar dýri,
drógum húna hjört
inn í hellis skúta.
153. Þar voru þekkileg
í þeima helli
sæti landvætta
ok leiksvið fögr.
Þá með fèlögum
fund ek átta,
ok í áheyrn allra
orð nam mæla:
154. "Gnógt höfum matar
á gnoð vorri,
dýrir dreingir,
ok drykkjar bæði.
Því skulum þyrma
þeima uxum,
síðr í vandræði
vefjast náim".
155. "Er eigandi
uxa þeirra
allægilegr,
ok ítra sauða:
þær á Helíus
hjarðir fagrar
hinn er allt of heyrir
ok allt of sèr".
156. Svo ek mælta,
en af máli þvísa
hugr hneigjast vann
horskra seggja.
157. Rèð heilan mánuð
hvass at blása
landsynníngr,
ok lèt eigi af;
ok upp þaðan
ávallt blèsu

vindar landsunnan
ok veðr austan.
158. Meðan brauðs höfðu
birgðir gnógar
ok it rauða vín
rekkar mínir,
svo leingi seggir
sízt til lögðu
(voru fúsir fjörs)
fríðra nauta.
159. En þá er voru
vistir allar,
þær er hlunnjór
hafði at geyma,
þá urðu veiðum
verar hlíta;
varð þeim víða reikat
til veiðifánga.
160. Fiska þeir veiddu,
fugla þeir veiddu,
með bjúglögðum
beitu-krókum;
veiddu hvatvetna,
er í hendr barst,
því fast sultr at
sverfa gerði.
161. Þá nam ek einn
upp á ey gánga;
vilda'k bæn fella
at blíðum guðum,
at þeirra einn hverr
til ættjarðar heim
vildi vissar mèr
vísa leiðir.
162. En sem ek upp
á ey var geinginn,
ok í hvarf kominn
höldum mínum,
hendr mínar

ϱ. XII, 326-345.

ek hálega þó'g,
þars afdrep var
undan vindi.
163. Gerða'k bæn mína
guðum öllum,
þeim er víðbláin
víðan byggja.
Þá lètu blíð regin
á brár mínar
blíðum blundstöfum
brugðit verða.
164. Þá nam illt ráð
rekkum stofna
Evrýlokkus,
ok til orða tók:
"Heyrit, höldar,
er harma stóra
ok raunir reynt hafit,
ræðu minni!"
165. "Er til sèrhverra
seggjum veslum
daprt at hyggja
dánar kynja.
Þó er fyri húngri
hörmulegast
öndu láta
ok æfi týna".
166. "Ráðumst til, rekkar,
rekum brautu,
þá er á Elíus
uxa bezta.
Slátrum sýslega
sælum goðum,
þeim er víðbláin
víðan byggja".
167. "En ef oss auðnast
Íþöku til,
ættjarðar vorrar,
aptr komast,

brátt munum reisa
ríkulegt hof
Helíus, hróðmegi
Hýperíons,
ok eptir faungum
fögrum guði
margar veglegar
vígja gjafar".
168. "En ef ríkr guð
reiðr gjörist
út af rèttbyrndra
ráni nauta,
ok týna voru vill
vazta ljóni,
ok honum at-fylgja
aðrir guðar:"
169. "Þá vil ek heldr
hefríng gleypa,
ok í einum svip
öndu láta,
en á eyðiey
eiga lángdvalar,
ok heilu þar
húngri svelta".
170. Orð þau inna nam
Evrýlokkus;
rómuðu ræðu hans
rekkar aðrir.
Rèðust þegar til,
ok ráku brautu
uxa, þá er Elíus
átti bezta.
171. Þau voru nýt naut
í námunda þar;
því skammt frá blásteindum
borða mari
uxar bjúghyrndir,
ennibreiðir,
geingu gólegir

ϱ. XII, 346-365.

á grasi þaðra.
172. Slógu hríng halir
um handsömuð naut,
ok bljúgir báðu
til blíðra guða.
Brutu af björk
blöð nýsprúngin
höldar horskir
hálaufgaðri;
því at hvítabygg
höfðu þeygi
firðar á flausti
fagrsessa.
173. En er bænræknir
of beðit höfðu,
svæfðu þeir uxa,
ok síðan flógu;
ok blótbita
at blótsið rèttum
þegnar úr lærum
þegar skáru,
huldu mörlaga
milli tveggja,
ok hèr á ofan
hrátt of lögðu.
174. Var vant brögnum
víns, at dreypa
yfir blótmat,
er brenna skyldi;
vatni vígðu
virðar snjallir
iðrar allar
ok á eldi steiktu.
175. En er blótbitar
brunnir voru,
ok iðrar etnar
ýtar höfðu,
brytjuðu blótkjöt
bragnar annat,

ok á steikara
stúngu teina.
176. Þá nam sjálfum mèr,
þars ek sofinn lá,
blíðr af brám
blundr renna.
Sveif ek sýslega
at sjávarströndu,
þar er hafs hjörtr
á hlunnum stóð.
177. En er skammt eitt
skeið ek átta
at borðrónu
búlka skíði,
þá kom móti mèr
mörblóts ilmr,
ok mik sætlega
sveif í kríngum.
178. Þá nam ek harmandi
hátt upp kalla
ódauðlegra til
uppheims goða:
"Faðir Seifr,
ok sælu gnægðir
aðrir eilífir
uppheims guðir!"
179. "Til meins mikils
mik þèr hafit
svefni svæfðan,
er sízt skyldi.
Þeirs við skip voru,
skatnar, hafa
framit firniverk
furðu mikit".
180. Bar boð skjótla
björtum guði,
Helíus, hróðmegi
Hýperíons,
Lampetía,
langmöttluð dís,
at vèr af látið
uxa hefðim.
181. Þá varð reiðr
röðla jöfurr,
ok í áheyrn goða
þau orð um kvað:
"Faðir Seifr,
ok sælu gnægðir
aðrir eilífir
uppheims guðir!"
182. "Lát á liðum hefnd
Laertessonar
Odysseifs efnda
allmaklega.
Þeir lètu uxa,
er átta ek,
með níðíngskap
niðr drepna".
183. "Gaman hafða'k æ
af gripum þeima,
er ek upp um stè'k
á stirndan himin,
ok þá aptr ek
til jarðar ofan
hverfast lèt'k
af himni niðr".
184. "En ef eigi mèr
uxa töku
bæta bragnar þeir,
sem bóta er vert,
niðr ek stíga
til Niflheims munk,
ok dauðum þar
draugum lýsa".
185. Sagði þá Seifr,
sjóli skýbólstra,
ok honum aptr
annsvar veitti:

ρ. XII, 365-384.

186. "Þú skalt, Helíus,
hjá oss lýsa,
ódauðlegum
uppheims goðum,
svo ok dauðlegum
dagmögum hjá
á fjörgynjar
frjóvu skauti".
187. "En skip þeirra
skal ek bráðum
á dimmblá
drafnar skeiði
meiða, ok mölva
mjölvi smærra
himins hyrfleini
hvítglóanda".
188. Þessa sögu
mèr segja gerði
haddbjört Kalypsó,
kostsöm gyðja;
en hún kvaðst heyrt hafa
af Hermesi,
upphimins ár,
Argusbana.
189. En er ek kom
at kjalar dýri
út við úrsvala
ægis ströndu,
munda'k frá manni
til manns gánga,
ok á alla jafnt
orðum deila.
190. En hjálpráð ekki
hitta knáttum,
alls naut at hvoru
voru niðr drepin.
Ok bráðum birtust
bragna vindum
römm reiðiteikn

ϱ. XII, 385-404.

ríkra guða.
191. Húðir skriðu
ok um hauðr liðu,
umlaði uxakjöt
á oddum teina,
soðit ok steikt;
en sá var ómr
glíkr griðúnga
gauli dimmu.

---

192. Sátu at veizlum
í sex daga
fulla fèlagar
fræknir mínir,
ok uxa átu,
þá er frá Elíusi
höfðu bezta sèr
bragnar tekit.
193. En er loks lèt
á lopt upp renna
Seifr Kronusson
hinn sjönda dag:
lèt hregg-óðr
hræsvelgr af
hörðum blástrum
ok hreti straungu.
194. Þá vèr á streingmar
stigum bráðla,
ok siglutrè
síðan reistum,
dúka dripthvíta
með dragreipum
hófum við húna,
ok í haf lètum.
195. En er eyju vèr
undan vorum
svo lángt liðnir,
at land sást hvergi,

ok unnar elgr
var einni saman
hauðrs gjörð horfinn
ok hjálmi foldar:

196. Þá lèt Kronusson
kolbláan mökk
á lopt upp stíga,
ok staðar nema
yfir húflaungum
hrefnis gota;
varð dimmt á dröfn,
þars hann drógst yfir.

197. Rann-at lángt þaðan
lúng it fríða
(sveipr varð í för)
um saltan ægi;
því at hregg-óðr á
hvínandi brast
allt í einum svip
útnyrðíngr.

198. Svipti í sundr
siglustögum
harðr vindbylr
hvorumtveggjum;
rauk þá reiði
rakka hjartar
allr ofan
í austrúm niðr.

199. Skauzt skips laukr
at skut aptr,
ok í skör skall
skipstýranda,
þess er aptr
á unnar hesti
hendi hèlt
um hjálmunvöl.

200. Brotnaði bein hvert
í baugnjóts höfði,
en hann úr lyptíng

ϱ. XII, 404-423.

út á lög djúpan
kastaðist útbyrðis,
sem kafhlaupari;
var lífi lokit,
leið brottu fjör.

201. Í svip sama
Seifr þrumaði,
ok reiðarslag rak
at ránar dýri.
Snèrist í hríng
hjörtr ránga,
hrundinn hyrfleini
himna jöfurs;
fullr brennusteins
borða jór varð.

202. Hrutu halir
á haf útbyrðis,
ok í bylgjum velktust
vigg umhverfis,
svo sem sækrákur;
en sjóli himna
lèt heimkomu
hölda missa.

203. Lèt ek á flausti
fyrir berast,
uns brimalda
byrðíng leysti
knarar kili frá,
en köld skolaði
röst gjörrúnum
ránga hirti.

204. Braut siglutrè
af sævar ljóni
kólgu kraptr
við kjöl niðri;
en á siglutrè
sjálfu loddi
ráband, rökkvihliðs
reimum tvinnat.

205. Með bandi því
ek binda gerði
kjöl ok siglu
saman bæði;
brá mèr þeim á bak,
ok berast lèt
í fárviðris
feikna byljum.
206. Lèt af óðlátr
útnyrðíngr
hörðum blástrum
ok hreggi straungu,
en lagðist á veðr
af landsuðri
allt í einu,
er mèr ángr um bjó;
átti aptr sá
ættarvindr
mik at Karýbdis
kaldri bera.
207. Hröktumst ek nauðugr
nótt gjörvalla,
en er röðull rèð
rísa úr ægi,
kom ek at skaðvænum
Skyllu-drángi
ok kynjum kröptugrar
Karýbdis til;
sú salt vatn
á samri stundu
í sik óðum svalg
ála brautar.
208. Þá nam ek hefjast
hátt at lopti,
upp til viz hárrar
viðsmjörsbjarkar,
hèlt mèr við hlyn þann
heldr fastla,
ok lafði á lopti,
sem leðrblaka.
209. Stöðug fótfesta
fèkkst þar hvergi,
nè viðspyrnu var
viðkostr þar.
Rætr afarlángt
runnu fjarri,
en hlyns hátt uppi
hreifðust limar,
feikna lángar,
furðu miklar,
ok alla Karýbdis
yfir skyggðu.
210. Hèlt ek mèr fastla
höndum báðum,
ok beið, uns kjaltrè
ok knarar sigla
aptr upp spýttist;
en áðr þau kæmi,
leið laung stund mjök,
lángeygr varð'k.
211. Einmitt er upp ríss
til aptansverðar,
ok geingr gumi sá
greitt af torgi,
er sakar semr
ok setr niðr
ýta allmargar,
þærs eigust við.
212. Kom í þat mund upp
úr kafi aptr
kjölr ok sigla
Karýbdisar.
Lèt ek þá lausar
líða niðr
hendr ok fætr
úr háva lopti.
213. Skall ek mjök niðr
í miðjan svelg

ρ. XII, 424-443.

utan til við trè
þau hin týlaungu.
Fór ek á bak þeim,
ok brá til róðrs
á borð bæði
báðum höndum.

214. Dvalda'k á djúpi
dægr níu,
ok hraktist um
í hávum öldum;
en nótt tíundu
tívar lètu
at Ógýgsey
upp mik berast.

215. Þar bjó Kalypsó
kostum búin,
manna máli gædd,
ϱ. XII, 443-453.
máttug gyðja.
Ok haddbjört
höndum báðum
við mèr tók,
ok vel mik hèlt.

216. Hví skal ek fara
fleirum orðum
enn um atburð þann,
er ek allt í gær
sagða'k sjálfum þèr
ok svinnri beðju,
inni hèr í höll,
harma mína?
Er-a geðþekkt mèr,
þat er ek glöggva hefk
eitt sinn upp talit,
orðum leingja.

# ÞRETTÁNDA KVIÐA.

INTI svo öðlíngr
Odysseifr.
Allir hljóðir,
orð ei mæltu.
Sátu agndofa,
unaðfángnir,
halir í dimmum
hallar sölum.
2. Annsvar veitti þá
öðlíngs máli
Alkínóus,
ok til orða tók:
3. "Alls þú, Odysseifr,
eirfastrar til
ok háreistrar komt
hallar minnar,
hygg ek þik, hilmir,
munu heim um komast,
án þess nauðir í
af nýju rekist;
þó hefir þrautir þú
þola vorðit,
öðlíngr, allmargar
at undanförnu".
4. "En þèr, sem drekkit
dýrar veigar
hversdaglega
í höllum mínum,
ok saungmanns hlýðit
saungvi snjöllum,
yðvarn sèrhvern
ek at þessu kveð!"
5. "Lögð eru klæði
í kistu niðr,
þau er gesti at gjöf
gefin eru,
gull glæsilegt
ok gjafar aðrar,
er formenn Feaka
færðu híngat".
6. "Heilir svo, honum
hverr vorr nú skal
þrífætíng mikinn
ok mundlaug gefa.
Munum á móti
at mönnum þiggja
iðgjöld aptr
of gefins fjár;
því ervitt er einum
örr at vera,
nema gjald gjöfum
í gegn komi".
7. Inti svo öðlíngr
Alkínóus;
líkaði mæríngum
mál þjóðkonúngs.
Ok sèrhverr þá,
svefns of lystr,
heim at húsi
til hvíldar gekk.
8. En er árrisul
rósinfíngra
birtist mönnum
Morginskæra,
skunduðu skatnar
til skips ofan,
ok málm mannsæman
með sèr báru.
9. Gekk um gnoð sjálfr
gumna stjóri,
afli afrendr
Alkínóus.

Kom konúngr
und knarar þóptur
heiðgjöfum öllum,
ok þar hagræddi,
at ekki yrði
árberöndum
trafala til
í tíðum róðri.
10. Aptr at þat
til öðlíngs hallar
viku virðar,
ok veizlu bjuggu.
11. Lèt uxa
einum slátra
afli afrendr
Alkínóus
Seifi til fórnar,
fylki svartskýja,
syni Kronusar,
siklíngi alls.
12. Settust at sumbli,
sèr vel skemtu,
þá er blótbita
brenda höfðu.
Saung þar at samkundu
saungmaðr andríkr,
dýrr Demódókus
dróttar börnum.
13. Vatt opt höfði
vitr Odysseifr
til álfröðuls
alskínanda.
Lángaði lofðúng,
at ljós dags settist,
því heimfúss var
hilmir næsta.
14. Svo sem óðfúss er
aptansverðar,
sá er um ekru
uxa lætr

ϱ. XIII, 21-41.

ristil ramgjörvan
rekkr draga
dumbrauða tvo
dag gjörvallan;
15. Verðr ýtir arðrs
alls hugar feginn,
þá er sólar ljós
sezt í ægi;
knýr knè lúin
kveldverðar til
maðr magnþrota
mjök of orðinn.
16. Svo varð sárfeginn
siklíngr Odysseifr,
þá er sólar ljós
leið í ægi.
Sagði sjóli þá
á samkundu
róðrs framra
Feaka til.
17. Einkanlega þó
öðlíngr vèk
erindi at ítrum
Alkínóus:
"yfirkonúngr
Alkínóus,
skörúngr allra
skatna á foldu!"
18. "Lifit heilir þèr!
Látið mik nú
í friði fara,
at fórn dreyptri.
Er nú allt þat
til enda fært,
er huga minn
helzt til lysti":
19. "Feinginn flutníngr,
sem ek fremst vilda'k,
gefnar gjafar
geðþekkar mèr.

Láti ljúfir þær
til láns mèr verða
guðir gjafar,
þeir goðheim byggja".
20. "Óska vilda'k,
at mèr auðnast næði,
þá er ek heim kem
heimilis til,
beðju hjartkæra
hitta mína,
heila hollvini
hitta mína":
21. "Ok at allir þèr,
sem eptir dvelit
ok í landsálfum
lifit þeima,
eiginkonum
til yndis verðit,
ok til blessunar
börnum yðrum".
22. "Gefi yðr
guðir himneskir
hamíngju, heill
ok hvers kyns geingi;
ok innan lands
ekki verði
yðr til ama
um aldr daga!"
23. Svo kvað siklíngr,
en seggir gjörva
rómuðu ríkir,
þat er ræsir mælti;
báðu grams gera
greiðar farar,
kváðu vísi
vel hafa mælt.
24. Kvaddi kallara
konúngr orðum,
afli afrendr
Alkínóus:

25. "Blanda þú, prúðr
Pontónóus,
vín í skaptkeri,
ok skötnum öllum
deil í höllu
dýrar veigar,
at vèr ákallim
alda föður
Seif, ok því næst
þenna flytim
gest greiðlega
á grund feðra".
26. Gettist þess gramr,
en gómsætt vín
prúðr blandaði
Pontónóus,
gekk til hvers manns,
ok höldum öllum
dýrar veigar
deila gerði.
27. En hölda hverr
hallar innan,
sætum sitjandi
sínum allir,
dreyptu dreypifórn
díum sælum,
þeim er víðbláinn
víðan byggja.
28. Upp reis Odysseifr,
ok Aretu
tvíker fagrt
tiggi frægr
í hendr seldi,
ok at henni lèt
orðum vænghröðum
vikit þeima:
29. "Lif, dýr drottníng,
daga alla
ítrar elli til,
unaðs lífi,

ok svo allt fram
til aldrloka,
er ýta allra
eitt sinn vitja".
30. "Stíg ek af stað,
en þú, stillis beðja,
ávallt yndis njót
at inni þvísa,
bæði af börnum
ok búum lands,
ok af öðlíngi
Alkínóus!"
31. At mæltu þvísa
yfir þröskuld steig
ítr öðlíngr
Odysseifr.
32. Sendi með hilmi
einn herkallara
afli afrendr
Alkínóus,
fylki at fylgja
at flæðar dýri
út við úrsvala
ægis ströndu.
33. Ok Areta þrjár,
öðlíngs rúna,
sendi salkonur
með siklíngi.
Bar ein skjaldsteins skorð
skikkju dýra,
kappsvel þvegna,
ok kyrtil vænan.
34. Enn lèt hún aðra
fylgja öðlíngi,
bar kona sú
kistu læsta.
Þá bar hin þriðja
þeirra kvenna
brauð refla rein
ok rauðleitt vín.
ϱ. XIII, 60-80.

35. En er komu þau
at kjalar dýri
út við úrsvala
ægis ströndu,
fræknir flutníngsmenn
við farángri tóku,
ok í skip niðr
skatnar lögðu
vist gjörvalla,
vín ok fæðslu.
36. Ok dúk glitofinn
gumar breiddu
ok línklæði
lyptíngu í,
undir Odysseif,
í aptrstafni,
at sætt sofa
sjóli mætti.
Stè þá á streingmar
stillir þegjandi,
ok í lyptíngu
lagðist niðr.
37. Settust í röðum
við róðurs þrömu,
seggja hverr
í sínu rúmi;
ok skutfesti
skatnar leystu
úr steins auga,
ok streing upp heimtu.
Rèru bakföllum
bragnar at þat,
ok ægi upp þveittu
á ára blöðum.
38. Fèll sætr svefn
á siklíngs augu,
blundr fastasti,
blíðasta værð;
sá var svefn
sjálfum dauða

svefni sambornum,
samlíkastr.
39. Sem fákar fjórir
fyrir kerru
fara frálega
foldveg slèttan,
bregða allir við
í einu fram,
knúðir knálegum
keyris höggum:
40. Reisa höm hátt
hestar vakrir,
renna reisugir
á renniskeiði;
svo hófst hátt
á hafs bárum
skips skríðanda
skutr á lopt.
41. Ok dröfn dimmblá
dynjanda hafs
buldi at baki
báru hjartar;
en borðjór
brautir humra
rann rakleiðis
á rás fastri.
42. Nè smásmugull
smyrill myndi,
fugla í lopti
lèttfleygastr,
hröðum fylgt fá
flæðar hlyni,
er hann hafs öldur
hlaupandi skar.
43. Bar reið rekk þann,
er í ráðsnilli var
goðum gólegum
glíkr fundinn.
44. Sá hafði fyrr meir
fíra gætir
mörgum mótgáng sætt
ok mannraunum:
orrustur áttar
ok örlög drýgt,
ok kannat hafs öldur
hættulegar.
45. Nú lá hann sofinn,
sik ei bærði;
gleymdr harmr hverr,
er hann hafði fyrr.
46. Brunaði borðjór
báru leiðir,
hljóp hvatlega,
en haf sóttist.
Óð örðugr
ægis hestr
eptir unnum blám
at ey nærri.
47. Þat var í þat mund
er þokast á lopt
fjörnis foldar
fegrst stjarna,
sú er ítrt ljós
árborinnar
boðar mönnum mest
Morginskæru.

---

48. Var víkrhvarf,
virðum kunnugt,
á Íþaksey
einhverstaðar.
Þat Forkunns-vík
fírar nefna,
eptir aldrænum
álfi lagar.
49. Á þeima stað
þvergnýptir tveir
höfðar fram
at flæði skaga,

ϱ. XIII, 80-98.

ok at vog liggja
á vega tvo,
ok haglegt mynda
hafnarmynni.
50. Þeir bægt láta
bárum höfðar
höfgum hvassvinda
af hafi utan;
en fyrir innan
odda bratta
megu festalaus
fley vel liggja,
ef eitt sinn ná
inn at komast
lauka laupmarir
á legusvæði.
51. Er viðsmjörsbjörk
vaxin þaðra,
laungu laufi skrýdd,
við legumynni,
en henni nær
hellir fagr,
helgum hjúpaðr
hulu-myrkva;
sá er hellir
signaðr landvættum,
þeims Vatna-dísir
virðar nefna.
52. Þar 'ru skaptker
sköpt af steini,
ok brúsar
af beinum foldar;
ok þar bú sín
ok bygð í helli
heilagar hafa
hunángsflugur.
53. Þar 'ro vefstaðir,
víðir næsta,
lagar leggjum af;
en þar landvættir

ϱ. XIII, 98-117.

dúka vefa
(þat er dásamleg
sjón at sjá)
af sjávar-pelli.
54. Þar er svalt vatn,
sírennanda,
ok inn í helli
inngángar tveir:
horfir annarr
í ætt norðrs,
gánga menn mennskir
um munna þann.
55. Hinn veit til suðrs
hellis munni,
hinum helgari;
hann ei gánga
verar dauðlegir,
því þar vegr er
ódauðlegra
uppheims goða.
56. Vissu áðr
af vogi þessum
rekkar, ok rèru
þar rakleiðis inn.
Hljóp hvatlega
hjörtr ránga
ok mjök til miðs kjalar
mundi renna
á land þurt upp,
af legi söltum;
svo rèru ræðar
rammlega þeir.
57. Geingu garpar
af græðis hesti
fagrsessuðum,
ok á fold stigu;
ok Odysseif
alls fyrst hófu
upp af húfhveldu
hlunna dýri;

báru dögling
í dúk glitofnum
ok ljósu línklæði
liðar vaskir.
58. Lögðu lofðúng
lofðar snjallir
svefni sigraðan
á sand niðr.
Ok upp úr flausti
fagra tóku
fjármuni, er frægir
höfðu Feakar veitt
skýrum skilfíngi
at skilnaði,
af hvötum Aþenu
innar hugumstóru.
59. Lögðu halir
í hrúgu eina
grams gersemar
gjörvallar þar,
við rót vænnar
viðsmjörsbjarkar,
fjarri alfara
ferli manna.
60. At umfarenda
eingi skyldi
rekkr ráðast til
ok ræna gózi,
áðr Odysseifr
rèði upp at vakna.
Hèldu heim at þat
höldar á leið.

---

61. Gleymdi-t máttugr
miðgarðs skelfir
ógnarorðum þeim,
er hann eitt sinn hafði
haft við Odysseif,
jaðar öðlínga.
ϱ. XIII, 118-136.

Kanna tók hafs drottinn
hugþokka Seifs:
62. "Munk-a ek framar
faðir Seifr,
ódauðlegum með
uppheims goðum
virðr vera,
alls mik virða eingis
menn dauðlegir
mannheimum í,
þar sem Feaka
fírar eru,
enn þótt af bergi sè
brotnir mínu".
63. "Hafða'k þat hugat,
at heim nú skyldi
ítr Odysseifr
endr um komast,
at afstöðnum
ærit mörgum
hafs hrakníngum
ok harma fjöld".
64. Vilda'k aldreigi
vísa frægan
heimferð firra
at fullu ok öllu,
alls þú eitt sinn hans
aptrkomu
heitið hafðir
ok höfði til báknat".
65. "Nú hafa Feakar
fylki snjallan
um sjá sofanda
á sæmeið flutt;
hafa lofðúng lagt
á land í Íþöku,
ok gylva gefit
gersema fjöld,
eirmálm, unnar ljós
ok ofin klæði".

66. "Aðra eins aldreigi
mundi Odysseifr
í Trójuborg
of tekit hafa
gersema fjöld,
þótt of getið hefði
sinn hlut herfángs
ok heill brott komizt".
67. Sagði þá Seifr,
sjóli skýbólstra,
ok honum aptr
annsvar veitti:
"Enn at þú, alheims
aukinn krapti,
miðgarðs skelfir,
skulir mæla slíkt!"
68. "Guðir alls ekki
óvirða þik.
Nè þat hættulaust
heldr myndi,
metnaðarmestan
ok máttkastan guð
illri óvirðíng
á at varpa".
69. "En ef einhverr svo,
at ei þik virði,
á mátt sinn maðr
ok megin trúir,
þá er þèr ávallt
þess um kostr,
enn þótt síðar sè,
sakar reka":
70. "Far því fram,
er þik fýsir til,
ok hugr þinn
helzt til stendr!"
71. Aptr annsaði
æðstum Seifi
máttugr Posídon
miðgarðs skelfir:

ϱ. XIII, 137-156.

72. "Þegar munda ek
þat hafa gert,
svo sem segir þú,
jöfurr svartskýja,
ef ek óttaðist eigi
ávallt þína
reiði, faðir,
ok forðast vildi".
73. "Nú emk lystr,
lúng at brjóta
frægra Feaka,
fagrbúit,
á dimmblá
drafnar skeiði,
er þat á för er
úr flutníngi heim".
74. "At þeir af láti
eptirleiðis
flutníngi fíra,
ok fyrirnemist.
Ok um borg þeirra
vil ek bröttum hlaða
háva í hríng
hömrum bjarga".
75. Sagði þá Seifr,
sjóli skýbólstra,
ok honum aptr
annsvar greiddi:
"Þat lízt sjálfum mèr
sennilegast,
at látir, ljúfr, svo
leik þeim skipat".
76. "Þá bæjarmenn allir
borg sinni frá
líta áleingdar,
at lagar hjörtr
ótt undir árum
at eyju skríðr,
ger hann at steini þá
vid strönd sjálfa".

77. "Veri steinn sá
í streingmars líki,
at hann allir menn
undrazt fái.
Svo skaltu borg þeirra
bröttum gyrða
háva í hríng
hömrum bjarga".

78. En er atkvæðis
orð þau heyrði
máttugr Posídon
miðgarðs skelfir,
fór hann í skyndi
Skereyjar til,
þar er Feakar
frægir búa.

79. Þar dvöl drýgði
drottinn lagar,
uns skeið skarfögr
skreið at landi,
árum knála knúð.
Kneri nærri
gekk þá hinn máttki
miðgarðs skelfir.

80. Laust hann fagrt fley
flötum lófa,
ok streingmar lèt
at steini gjörvan,
rætr ríkt festi
á ránar botni.
Sveif brott at þat
sævar drottinn.

81. Ok halir þá,
hverr til annars,
lètu vænghröðum
vikit orðum,
frægir Feakar,
fleyjum kunnir,
ýtar, unnar dýrs

ϱ. XIII, 157-176.

árum vanir.
Sást til seggir,
sagði hverr öðrum,
náinn nánum,
námu spjalla:

82. "Sè harm ljótan!
Hverr lèt fjötrat
fljótan á hafi
flæðar gota,
þanns híngat heim
hart nam renna?
Sást hann gjörvallr
sjónum nýla".

83. Margr svo mælti,
manngi þat vissi,
hverr var á högum
háttr vorðinn.
Þá orð upp hóf
Alkínóus,
ok mælti mál þat
meðal þeirra.

84. "Eru orðin hèr
undr mikil!
Koma nú fornar fram
föður míns spár:
kvað hann Posídon
prúðan vera
oss of orðinn
afarreiðan,
alls vèr öllum
ýtum farar
greiðum, svo meint ei
manni verðr".

85. "Kvað hann máttkan
miðgarðs skelfi
fyrir Feökum
fley eitt mundu
á dimmblám
drafnar vegum

ljósta á leið heim
úr leiðsögu,
ok borg vora
bröttum gyrða
háva í hríng
hömrum bjarga".

86. "Spakr öldúngr
spá svo rakti;
er þat allt nú orðit
at áhrínsmáli.
Förum nú fram,
því er ek fyrir legg!
Hlýði rekka sjót
ráðum mínum!"

87. "Hættið flutníng
fyrðum veita,
ok fararbeina
ferðamönnum,
þótt til yðvarrar
einhverr komi
fíra farþurfi
frægrar borgar".

88. "Færum fríða tólf
í fórn griðúnga
máttkum Posídon,
at hann miskunni oss,
nè borg vora
byrgi laungum
háva í hríng
hömrum bjarga".

89. Svo kvað siklíngr,
en seggir hræddust,
ok griðúnga
greitt fram lètu.

90. Beindu svo bænir
bragnar göfgir
máttkum Posídon
miðgarðs skelfi.
Stóðu um blótstall
stjórnendr lýðs
frægra Feaka
ok fólknárúngar.

---

91. Vaknaði öðlíngr
Odysseifr,
sofandi á grænni
grundu feðra;
nè hann fóstrfold
fríða kendi,
alls hann úr landi
hafði leingi verit.

92. Brá hulu um hilmi
háleit gyðja,
úngleg Aþena,
alin Seifi,
at yrði jöfurr
ókennilegr,
ok hún mart við hann
mætti spjalla.

93. Síðr vísa mætti
vinir kenna,
beðja blíð,
nè borgar lýðr,
fyrr en buðlúngr
á biðlum feingi
alls yfirgángs
unnit hefndir.

94. Sýndist þá horskum
hilmi vera
allt öðruvísi
en áðr var,
lángar brautir,
leguhafnir,
brattir hamrar
ok blómleg trè.

95. Stökk upp ok stóð,
ok stara gerði
fylkir frægr
á feðra grundu.

ϱ. XIII, 176-197.

þá nam því næst upp
þeingill hljóða,
laust á lær bæði
lófum flötum,
ok þau ángrs orð
alls fyrst um kvað:
96. "Sè harm harðan!
Hverra manna
em ek ættjörð á
aptr kominn?
Munu verar vera
villumenn þeir,
ofstopa fullir
ok órèttvísi;
eða gestbeinir
við gumna fjöld,
ok í hug hræddir
við himins búa?"
97. "Hvert flyt ek fjár þessa
fjöld ena miklu?
Hvert um heims geim
hrekst ek sjálfr?
Betr væri
at vorðit hefði
fè þetta eptir
Feökum hjá!"
98. "Ok ek til einhvers
annarstaðar
voldugs höfðíngja
væra'k kominn,
þess er mèr viðtöku
veitti góða
ok heimför mína
hagla greiddi".
99. "Get ek nú ekki gert
af gripum þeima,
nè ek þá láta munk
hèr liggja eptir,
síðr mèr guma nokkurr
grand of vinni

ρ. XIII, 198-218.

ok gersemar mínar
grípa nái".
100. "Hafa-t þá alls kostar
(er því miðr!)
ráðvandir verit
nè viti bornir
frægra Feaka
fólknárúngar,
þeirs í því landi
þjóðum stýrðu".
101. "Þeir mik fláráðir
flutt nú hafa
í land annat,
en lofuðu þeir;
kváðust mundu mik
til margvíðsýnnar
Íþöku ferja,
en orð ei hèldu".
102. "Vinni Seifr þeim
verðuga hefnd,
hann er lýði verndar
líknarþurfa.
Hann gefr gætur
gumum öllum,
ok verk hegnir
vondra manna".
103. "Nú vil ek fjárhluti
fríða telja,
alla, sem eru hèr,
ok eptir hyggja,
hvort ei Feakar
á fleyi sínu
hafi haft með sèr
hlut nokkurn brott".
104. Þá er þat mælt
þeingill hafði,
katla mjök fagra
ok mundlaugar
tók hann at telja,
torgir linna

ok vofna völundum
væna dúka.
105. Gerði-t gripar neins
gramr sakna,
grèt fold feðra
fögrum tárum.
Vafraði vísir
um víða ströndu
háglymjanda hafs
huga döprum.
Mjök var harms fullr
hölda stýrir.
106. Þá kom Aþena,
þar er öðlíngr gekk;
var hún veri glík
at vaxtarlagi
úngum, ásauða
yfirhirði,
guma grannvöxnum,
sköptum gólega,
sem synir siklínga
sælborinna.
107. Hafði of herðum
háleit gyðja
möttul tvíbrotinn,
mjök vel unninn.
Voru ilsólar
undir fótum
hraustrar gyðju,
en í hendi skapt.
108. Gladdist gramr,
er hann guma leit,
ok til móts gekk
við mann þenna;
upp hóf erindi,
ok orðum lèt
til hans vænghröðum
vikit þeima:
109. "Heill vertu, vinr,
vera fyrstum
stend ek þèr á stigi
á stað þeima.
Lát-attu mik
(emk líknar þurfi),
halr, hitta þik
í hugum illum!"
110. "Frelsa fè þetta,
ok frelsa mik!
Fer ek biðjandi
bljúgum huga,
ok sem værir þú
vea nokkurr,
at knjám þínum
ek kominn emk".
111. "Seg mèr ok þat
í sönnu máli,
at ek fullgjörla
fái skilit:
Hvat er þat hauðrs?
Hvat er þat bygða?
Hverir 'ro halir
hèr innlendir?"
112. "Er þetta ey,
ein af mörgum,
þeim er víðsýnar
í víði standa?
Eða marströnd
af meginlandi,
er í haf út hèr
hverfa nái?"
113. Gegndi Aþena
hin augum-glæja,
ok honum aptr
annsvör veitti:
"Er-attu, gestr,
gjörvitugr,
eða lángt ert at
úr löndum kominn".
114. "Þar sem þú
af þvísa hauðri

ϱ. XIII, 218-238.

spjöll um vekr
ok spurn um leiðir.
Er-a frægðarlaus
fold sjá vorðin,
mjök hana margir
menn um kenna".
115. "Kenna ýtar,
þeirs við upprás sólar
ok dýrrar búa
dagsbrúnar átt;
svo ok aðrir þeir,
er annars vegar
við húms heimi
horfa dimmum".
116. "Hrjóstrug er hún
af hávum klettum,
ok til hestreiða
hent aldreigi.
En þótt vallar vanti
víðar lendur,
er-a þó gæðalaus
grund um orðin".
117. "Þar korn vex,
svo kynjum sætir,
þar vínber vaxa
vel í móum.
Falla regnskúrir
rakar jafnan
ok frjósöm dögg
af foldar hjálmi".
118. "Þar geitfjár
gánga hjarðir
ok yxna
allmikil fjöld;
þar er viðr hvers konar,
ok vatns of gnótt,
þess er í þurkum
þverr aldreigi".
119. "Því hefir af Íþöku
orðstír, gestr,

ϱ. XIII, 238-258.

tekit jafnvel til
Trójuborgar,
þá er lángt þó kveða
liggja brautu
akkneskra ýta
átthögum frá".

---

120. Gettist þess gyðja,
en þá glaðr varð
Odysseifr,
sá er ýmsu vandist.
Feginn varð fylkir
er hann föðurland sitt
heyrði af únglegri
Aþenu nefnt,
dóttur æðsta Seifs
ægisskjalda.
121. Lèt þá at gyðju
inni glóeygu
vísir vænghröðum
vikit orðum.
Nè þá satt sagði
sjóli vitr,
heldr sönnu fjær
sagnir stillti,
meginhyggju
margbrögðóttri
ávallt hreifandi
í hugar fylgsni:
122. "Íþakseyjar nafn
nefnt ek heyrða
í Krítey, er liggr
á kólgu vegum
hèðan hvar fjarri,
en ek híngat emk
kominn nýlega
of kaldar unnir".
123. "Flyt ek á fleyi
fjárhlut þenna,

er ek þar hefi
ok þú mátt sjá.
Annan jafnmikinn
eptir ek lètk
heima at búi
börnum mínum".
124. "Em ek farflótta,
því ek fjörvi ræfida'k
arfa ástkæran
Ídómeneifs,
Orsílokkus,
þann er allra var
fíra frástr
á fæti renna;
ok á Krítarey
knástu rekkum
rann hann rakkara
á renniskeiði".
125. "Því lèt ek felldan
fylkis arfa,
at allt frá mèr,
þats ek árnat hafða'k
ok í hlut minn tekit
í Trójuborg,
ræna af ríki
rekkr vildi".
126. "Hafða ek sökum
hlutfeingjar þess
mjök mannraunir
margar þolat,
orrustur áttar,
örlög drýgt,
ok kannat hafs öldur
hættulegar".
127. "Var mèr ræsis burr
reiðr of þat,
at ek flokki föður hans
eigi fylgja vilda'k
í Trójulandi,
en tók mèr sjálfr
flokk fèlaga,
í fólki at stýra".
128. "Gerða'k fyrisát
fylkis arfa
við annan mann
allskamt frá veg,
þá er af akri gekk
aptr til húss,
ok hann skotspjóti
skaut í gegnum".
129. "Þá var niðmyrkr
af nótt it mesta,
sást-a ljós skíma
á lopti uppi.
Varð-a varr okkar
vera nokkurr,
nè vætr vissi,
at ek hann vegit hafða'k".
130. "En er ek vöskum
vísis arfa
bitrum eirbroddi
banat hafða'k,
þá ek þegar gekk
til þilblakks ofan,
þess er Feníkar
frægir áttu".
131. "Bað ek bragna liðs,
ok bauð til fè,
hlut feingjar míns
sem þeir hafa vildi;
bað þá ferja mik,
ok á fold setja
í borg prúðra
Pýlusmanna,
eða á helgu
hauðri Elea,
þars Epear
yfir ráða".
132. "En vinds megin
virðum bægði,

ϱ. XIII, 258-276.

ok braut rak þaðan
um báru slóðir.
Var þeim þat mjök svo
móti skapi,
því mik seggir sízt
svíkja vildu".

133. "Hröktumst vèr þaðra
um hafs brautir,
uns vèr um nótt hèr
náðum landi.
Magns urðum kosta
áðr mættim draga
árum inn á vog
unnar hèra".

134. "Varð-at oss at vegi
á verð hyggja,
en þótt matþurfar,
mjök svo værim.
Geingum af gnoð,
og á grund stigum,
halir svo haldnir,
ok til hvíldar lögðumst.
Ok mik þreyttan þar
þyrmdi yfir
sætr svefnhöfgi
á sjávarströndu".

135. "En þeir af hveldu
hlunna dýri
færðu fè mitt
ok í fjöru lögðu,
þar sem sjálfr ek
á söndum uppi,
svefni sigraðr,
sofandi lá'k".

136. "Ok seggir aptr
á sætrè stigu,
ok fjölbygðrar til
foldar Sættverja
aptr árnuðu,
en ek eptir varð'k
sefa sárum
á sævarströndu".

137. Brá við brosu,
er þat buðlúngr mælti,
úngleg Aþena
hin augum-glæja,
hendi klappaði,
ok at hilmi lèt
orðum vænghröðum
vikit þeima.

138. Var þá í vexti
vegleg gyðja
ítri áþokkuð
auðar þellu,
sýnum fríðri,
faungulegri,
vænna hannyrða
vel kunnandi:

139. "Slægr at viti
ok slúnginn hyggju
mætti hverr vera,
er í hvers kyns vèlum
yfirstigit þik,
öðlíngr, feingi,
ok þótt einhverr væri
uppheims goða".

140. "Framlyndr þú ert
ok fjölráðugr,
leiðist aldreigi
lævísi þèr!
Ætlar þú eigi,
þóttú átthaga þinna
vitjað, vísir, hafir
láta af vèlræðum,
undirhyggju
ok orðum slægum,
er þú frá bernsku
við brugðinn ert?"

141. "Hèr um meir ei hót
hjala skulum.

Eru vit bæði tvö
við brögð um slúngin.
Framar lángt fírum
á fold öllum
ertú í orðspeki
ok ætlan hverri".

142. "En ek em öllum
uppheims goðum
at kænleik kunnug
ok klókum ráðum.
Máttir-a þú þó,
þeingill, kenna
únglega Aþenu,
alna Seifi".

143. "Þó ek þèr æ stend
í þrautum öllum
á hlið aðra, hilmir,
ok hef þín gætur.
Veitta'k vinsæld þèr,
vísir, öllum
frægðarfullum
Feökum hjá".

144. "Nú em ek, hildíngr,
híngat komin,
at ek ráð með þèr,
ræsir, setja'k,
ok gersema
geyma'k þeirra,
er at forsjá minni
ok fyrirhyggju
feingu þèr Feakar,
áðr færir hinnig".

145. "Segja vil ek þèr,
siklíngr, ok
hugraunir þær
ok harma efni,
er á daga þína
drífa skulu
heima, hildíngr,
í höllu þinni".

ϱ. XIII, 296-317.

146. "Þolugr þreyja
þeingill, þú átt.
Kvenna nè karla
kunnugt gera
innan hallar
nè einum þú skalt,
at þú af hrakníngi
sèrt heim um kominn.
Þú skalt þegjandi
þola margar
móðganir manna
ok meingerð ýta".

---

147. Aptr ansaði
orðum gyðju
fylkir Odysseifr
hinn fjölráðugi:

148. "Eigi er auðvelt,
enn þótt allvitr sè,
manni mennskum,
er þèr mæta nái,
þik, gyðja, þekkja,
alls þú of tekr
iðglíki ýmissra
á þik manna".

149. "Veit ek með vissu,
vegleg gyðja,
at þú vel viljuð
vart mèr fyrrum,
þá er vèr tryggir
í Trójulandi
megir Akkverja
mæki ruðum".

150. "En er vèr háva
höfðum í eyði
lagða Brjáms borg
ok brotið niðr,
ok á streingmari
stignir vorum,

ok Seifr Akkverjum
of sundrat hafði:"
151. "Upp frá því aldreigi
hef' ek þik augum litna,
óskmær Seifs,
nè þess orðit varr,
at þú á unnar
elg minn stigir,
fári nokkuru
til at firra mik".
152. "Fyrir föður þíns
fell ek sakar
at knjám þínum,
ok þik kærast bið,
því ek enn óumst,
at ek eigi muna'k
til víðsýnnar Íþöku
vera kominn".
153. "Munk í landsálfu
lendr vera
einhverri annarri;
ok mik uggir, at þú
við mik af spotti
spjöll þau mælir,
ok gabbir geð mitt
með glysmálum".
154. "Seg nú satt mèr,
hvort ek sannlega emk
ástkærrar kominn
ættjarðar til!"
155. Gegndi Aþena
hin augum-glæja,
ok honum aptr
annsvör greiddi:
"Býr jafnan þèr
í brjósti slíkr
hyggju háttr,
ok í hjarta ríkir".
156. "Því má ek eigi
þik í raunum,

þá allt fer andæris,
einan láta,
at þú hygginn ert
ok hugkvæmr,
ok mannúðlegr
við menn aðra".
157. "Gjarna mundi þess
maðr annarr,
sá er af hrakníngi
væri heim kominn,
óska sèr, heima
í húsi sínu
börn sín líta
ok beðju kæra".
158. "En þik lángar þeygi
þat at vita,
nè enn slíku
eptir frètta.
Viltu þinnar fyrr
freista rúnu
ok horskrar hrundar
hugi kanna".
159. "Þat skaltu vita,
at víf þitt enn
sitr, svo sem fyrr,
í sölum hallar;
en sorgmóð kona,
sútum vafin,
laugar andlit æ
unnum hvarma;
líða svo daprar
dýru sprundi
dimmar nætr
ok dagar ljósir".
160. "Var ek aldreigi
efandi þess,
heldr vissa'k víst
af vitru minni,
at missa mundir þú
manna allra,

áðr til ættjarðar
aptr kæmist".
161. "En þeygi vilda'k
um þínar sakar
við Posídon
prúðan deila,
föðurbróður minn,
er fjandskap lagði
ok heiptar hug,
hilmir, á þik.
Því reiðr var þèr
ránar drottinn,
er þú bur hans
blindaðan lèzt".
162. "Nú skal ek sýna,
siklíngr, þèr
Íþakseyjar bygð,
attú öllu trúir.
Þarna er Forkunns
hin fagra vík,
unnar álfs
aldri vorpins.
Þar sèrðu laufi
laungu skrýdda
viðsmjörsviðar björk
hjá víkr mynni".
163. "Hèr er hellir sá
með hveldu ræfri,
þars þú, fylkir,
á fyrrum tíðum
ljúfum landvættum
laungum færðir
hundraðsfórnir
ok heilög blót.
Hèr Neríton
hreykir tindi,
fjall fjölvarit
fagrlima".
164. Gyðja sagði svo,
ok sveifði brautu
hulinshjálmi,
en þá hauðr of sást.
Þá varð glaðr
gumna stjóri,
Odysseifr,
sá er ýmsu vandist.
165. Feginn varð fylkir
föðurlandi.
Kysti konúngr
kornfrjófa jörð.
Fórnaði höndum
hilmir, ok bað
fríðar landvættir
föðurjarðar:
166. "Hollar í hugum
heyrit landvættir,
dætr dýrsta Seifs,
dísir vatna!
Hafði mèr þat
í huga flogit,
at yðr aldreigi
munda'k aptr sjá".
167. "Heilsa ek yðr
af hjartans grunni,
ástar áheitum
yðr ek kveð!
Gjafar skal ek yðr
gefa fagrar,
ok fórnir fríðar,
sem ek fyrrum gafk":
168. "Ef holl í hugum
hersæl gyðja,
dóttir æðsta Seifs,
ann mèr lífs,
ok hamíngju
hollrar lætr
arfa ástkærum
auðit verða".

---

ϱ. XIII, 340-360.

169. Gegndi Aþena
hin augum-glæja,
ok honum aptr
annsvar veitti:
"Heill sèrtu hugar,
hilmir, nè lát
slíkt þèr at áhyggju,
öðlíngr, verða".

170. "Þína þegar nú,
þeingill skulum
gripi ok gersemar
geymdar láta
í heilags innstu
hellis fylgsnum,
at ekki fari
forgörðum at.
Sjálf skulum svo
samráð hafa,
hversu hverju megi
hátta sem bezt".

171. Gekk þá gyðja,
er þess getið hafði,
inn í hamra sal
húmi dökkvan,
ok fylgsna fyri sèr
fröm leitaði
í hellis hvolfi
harðla víðu.

172. Inn bar Odysseifr
alla gripi,
svalan unnar eld,
eirmálm sterkan,
ok klæði þau
hin kostulegu,
er frægir Feakar
höfðu fylki gefit.

173. Hagræddi hilmir
hverju vandla;
en hellu lagði
fyrir hellismunna
úngleg Aþena
hin augum-glæja,
dóttir æðsta Seifs
ægisskjalda.

174. Settust síðan,
sjóli og gyðja,
við rót veglegrar
viðsmjörsbjarkar;
ráðum rèðu
ríkra biðla
ofgángsfullra
aldrtila.

175. Upphóf erindi
ok þat orð um kvað
Aþena, gyðja
hin augum-glæja:

176. "Lofsæll lofðúngr,
Laertesson,
mærr Odysseifr
hinn margbrögðótti!
Skoða hug þinn um,
hve þú, hilmir, megir
biðlum ósvífnum
bug á vinna".

177. "Þeir í þrjú ár nú
í þínum sölum
hafa þegnar haft
hússbænda vald,
biðja bjarthaddrar
beðju þinnar,
ok brúði brúðgjafar
beztar velja.
En hún harmandi
huga sárum
aptrkomu þreyr
ávallt þína".

178. "Gerir boð brúðr
biðlum þessum,
ok góða von gefr
guma hveim;

ρ. XIII, 361-380.

fögru lofar,
en fljóð allt annat
hefir hulit
í hyggju sinni".
179. Aptr annsaði
orðum gyðju
mærr Odysseifr
hinn margráðugi:
180. "Heyr undr mikit!
Illar farar
víst munda'k hreppa
í höllu minni,
slíkar sem hreppti
at heima sínu
Agamemnon
Atreifs sonr,
nema mèr, gyðja,
gjörva hefðir
sagt, svo sem var,
satt frá öllu".
181. "Heyr, horsk gyðja,
hugsa nú ráð,
hve ek mín á þeim
mega'k hefna.
Statt mèr hjá
við hlið aðra,
ok hugar djörfúng
mèr í hjarta legg,
slíka sem lagðir þú,
þá er leysa knáttum
glæst turna túngl
Trójuborgar".
182. "Ef mèr holl eins
á hlið aðra,
gyðja glæhvarma,
gerðir standa,
munda'k mætt geta
á mækis fundi
með þinni hjálp,
háleit gyðja,

ϱ. XIII, 381-400.

þremr hundruðum
hjálmnjörðúnga,
ef mèr lið lèðir
af ljúfum huga".

---

183. Gegndi Aþena
hin augum-glæja,
ok honum aptr
annsvar veitti:
184. "Víst skal ek, vísir,
vera hjá þèr,
ok af þèr aldreigi
augum sleppa,
þá er vit handa
hefja gerum,
ok sök saltaða
sækja tökum".
185. "Þá margr mun,
at því er mik grunar,
blóði blökku
ok bleikum heila
biðilmanna
bjöð um lita,
þeirra er upp eta
eigur þínar".
186. "Gæt nú at, gramr,
ek þik gera vil
ókennilegan
öllum mönnum.
Láta mun ek
hit litfagra þitt
á hraustum limum
hörund korpna".
187. "Þitt skal ek, hilmir,
hverfa láta
rauðbrúnt hár
af reikar stalli;
í flíkr þik færa,
svo at fyrða skal

hugr rísa hveim
at horfa á þik;
ok ennis ljós,
er áðr voru
dáfögr sýnum,
deprast láta".

188. "Þá muntu ljótr
ok leiðilegr
biðla augum í
allra verða,
svo beðju þinnar
ok burar þíns,
þanns þú heima eptir
í húsi skildir".

189. "Fyrst skaltu fara,
fylkir, þángat,
er svínhirðir þinn
svína gætir;
sá af heilum hug,
hilmir, þèr ann,
elskar son þinn
ok svinna beðju,
Penelopu
ena prúðlunduðu".

190. "Sitr halr sá
hjá svínum þínum;
þar muntu þegn þann,
þeingill, hitta.
Kjarna þau kroppa
hjá Kóraks-hamri
ok við ítra lind
Areþúsu:"

191. "Akörn bíta,
sem þeim bezt þikkir,
ok vatn kolblátt
af keldu drekka;
sú fær fæða
fitu svínum,
sá sællegust
sylgr gerir".

ϱ. XIII, 400-420.

192. "Hèr skaltu, döglíngr,
dvalar eiga,
ok hjá svinnum sitja,
svínahirði,
hann skaltu um hvatvetna,
hilmir frètta.
En ek til Spörtu
vil sporna leiðir,
til at kalla á
Telemakkus,
arfa, Odysseifr,
ástkæran þinn".

193. "Hann hefir leið lagt
til Lakedemonar,
þar er Menelás
mildíngr býr,
fregn at fá
um farar þínar,
ef þú enn kynnir
vera uppi lífs".

194. Aptr annsaði
orðum gyðju
fylkir Odysseifr
hinn fjölráðugi:
"Hví sagðir-a þú þat
þeingils arfa,
alls þú áðr vissir
allt gjörla fyr?"

195. "Eða viltu ok vísis son
velkjast láta
ok hraknímgum sæta
um haf innan,
meðan menn aðrir
mildíngs arfa
eigur upp eta
allar saman?"

196. Gegndi Aþena
hin augum-glæja,
ok honum aptr
annsvar veitti:

"þarft-áttu þó
um þeingils arfa
hugsjúkr mjök,
hilmir, vera".

197. "Sjálf nam ek fylgja
fylkis kundi,
at hann góðan orðstír
of geta knætti,
þá hann þar kæmi;
hefir hann þrautir eingar;
er ekki at ángri
öðlíngs syni".

198. "Sitr hann makráðr
í mildíngs sölum
Atreifssonar
við alls kyns gnægtir.
þó gera fyrisát
fylkis arfa
sveinar nokkurir
á svartri skútu".

199. "þeir vilja bana
buðlúngs syni,
áðr til ættjarðar
aptr komist.
En fyrr mun einhverr
til foldar hníga
(kvíði'k eigi því)
knía þeirra".

200. Inti svo Aþena
hin augum-glæja,
ok spakan hilmi
með sprota snart.
þá lèt hún lofðúngs
hit litum-fagra
á hraustum limum
hörund korpna.

201. þá nam hún hilmis
hverfa láta
rauðbrúnt hár
af reikar stalli.
Ok limu alla
lofða stýris
í gamals guma ham
gyðja færði.

202. Enniljós öðlíngs,
er áður voru
sýnum dáfögr,
deprast hún lèt.
Færði hún fylki
í föt önnur,
verju verga
ok vondan kyrtil.

203. þeir voru rifnir
ræflar báðir,
saurgir, svívirðir
svælu rammri.
Steypti hún stórum
of stillis herðar
hjartkollu feldi
hárrotuðum.

204. þá fèkk hún stilli
stafprik í hönd;
lagði á bak lofðúngs
ljóta skreppu;
sá var malr
marggötóttr;
fest í flèttuband,
fíngrum at halda.

205. þá er þau með sèr
höfðu þetta ráðit,
sjóli ok gyðja,
sundr hurfu.
Hún til heilagrar
hefja nam ferð
Lakedemonar,
til lofðúngs kundar.

ϱ. XIII, 421-440.

# FJÓRTÁNDA KVIÐA.

EN Odysseifr gekk
upp frá vogi
staksteinóttan
ok stíg óslèttan;
fór fylkir yfir
fjalla hæðir,
fögrum fjölsettar
fagrlima.

2. Uns sjóli kom,
þars á svínahirði
Aþena vísi
of vísat hafði;
sá grams gætti
gagnsmuna bezt
þræla þeirra,
er þeingill hafði
eignazt, ágætr
Odysseifr.

3. Sjóli sitjanda
svínhirði fann
fyrir húss dyrum.
Hafði sèr þar
forgarð hávan,
fagran, mikinn,
umhverfis umgeinginn
alla vega,
á svæði víðsýnu
verr um gjörvan.

4. Þann fyrir fè sitt
forgarð hafði
sínum sjálfr gert
svínahirðir
á laun við Laertes
ok lofðúngs rúnu,
meðan öðlíngr
utanlands var.

ϱ. XIV, 1-18.

5. Hafði garð þann gert
gætir svína
af atfluttum
unnar neggjum,
ok allan ofan
umhverfis girt
með hagþorns
hávum viði.

6. En endilángt
at utanverðu
hafði hann staura niðr
í storð rekit,
þykkva ok þètta,
ok þar til birkta
utan eikaboli
alla vega.

7. Forgarðs innan
fæðir galta
svínstíur tólf
tryggr gerði,
hverja hjá annarri;
en þar hvíla skyldu
stillis svín
í stíum þeim.

8. Byrgðir sèrhverri
svínstíu í
fimm tygir svína
á fold lágu;
þat voru gyltur,
er grísi fæddu,
en geltir fyr utan
gerðu liggja.

9. Færri voru geltir,
fættu biðlar
ávallt, ok átu,
ítrbornir;

sendi þeim jafnan
svínahirðir
aligölt, beztan
aldra svína;
voru þrjú hundruð
þeirra galta,
ok tvisvar at auki
tygir þrennir.
10. Lágu við hússdyr
hundar jafnan
fjórir, illdýrum
áþokkaðir,
þá hafði rakka
runa gætir,
öldurmaðr,
upp um fædda.
11. Var at verki
vörðr galta,
reist uxahúð
allvel lita;
skóp sèr skúa,
skæði sèr sneið,
lagaði leðr
ept leista meiðum.
12. Voru sveinar
svínahirðis
til sinnar hverr
sýslu geingnir.
Hirðu halir þrír
hjarðir svína,
fór at boði biðla
til borgar hinn fjórði.
13. Sendi þann með svín
svínahirðir,
biðlum at færa
bölvinnöndum;
vildu vaskir því
til veizlu slátra
ok gott sèr gera
af galtar fleski.
ϱ. XIV, 18-40.

14. Hlupu hundar upp
ok hátt geltu,
er þeir Odysseif
augum litu.
Sá við þeim sjóli,
settist niðr,
lèt á völl varpat
veli bornum,
ok til hauðrs hníga
úr hendi staf.
15. Hefði hilmir þar
í hættan voða
á eignu búi
orðit rata,
ef hefði-t svínhirðir
hart við brugðit,
svo at úr hendi honum
hraut nautsleðr.
16. Hljóp fram á hlað
hirðir svína,
hunda hrakti,
hendi steinum;
þutu þeir undan
í átt sína hverr,
en salvörðr svína
á siklíng orti:
17. "Nú lá nærri,
at þik næði sundr
grey grimm rífa,
gamli maðr,
voveiflega,
en þat víst mundi
mèr at mannlesti
mesta verða".
18. "Hafa gnóg græti
guðir önnur,
ok ángrs efni mèr
annat gefit,
þar sem ek grátandi
geði þúngu

dýran drottinn minn
dapr harma".
19. "Sit ek, ok seggjum
saðníngar til
alisvín el
annarlegum,
meðan má vera
at matþurfi sè
lávarðr minn
hjá lýð ókunnum".
20. "Má, at hann mönnum
með útlendum
ok um bygðir hrekist
bragna ókendra,
ef hann annars enn
er á lífi
ok signat ljós sólar
sjá of getr".
21. "Kom nú með mèr,
maðr inn aldni!
Gaungum til bæjar,
at þú brauðs ok víns
etir saðníng þèr,
en síðan gjörla
hermir, hvaðan sèrt
híngat kominn,
ok hverjar hafi
harms valdandi
drifit mannraunir
á daga þína".
22. Mætr sagði svo
svína gætir,
ok undan buðlúngi
til bæjar gekk.
Siklíng inn leiddi
ok setjast bað,
lèt lim í bíng
laufgat undir.
23. Yfir breiddi þar
blæju þykkva,
ϱ. XIV, 40-59.

gæru af villi-
geit loðinni,
hún var hármikil
ok harðla stór;
þat var hvílbeðr
hirðis galta.
24. Glaðr varð gramr
gestbeina þeim,
er honum veitti
vörðr runa.
Ok orð upp hóf
Odysseifr,
ok salvörð svína
svo nam kveðja:
25. "Þèr, gestgjafi,
gefi Seifr,
ok ódauðlegir
aðrir guðir,
allt hvat allra helzt
þèr æskja vilt,
alls þú við mèr tókt
af vilja góðum".
26. Svaraði Evmeus
svína gætir
aptr öðlíngi,
ok til orða tók:
"Sæmir-a mèr,
þótt þèr síðr væri,
gestr, gesti
á grind vísa".
27. "Því at farandi gestir
ok fátækir menn
undir eiði Seifs
allir standa.
Ljúf er gjöf lángþurfum,
þótt lítil sè;
er-a mikils von
minnar handar".
28. "Því svo er varit
verum ánauðgum,

at þeir ávallt eru
ótta fullir,
þegar er úngir
við yfirráðum
lánardrottnar
í landi taka".
29. "En þess manns hafa
(því er miðr!)
heimkomu hept
horskir tívar,
er mèr af alúð
unnat hefði
ok mèr gefit eign
góða nokkra".
30. "Svo sem margr drottinn
mani sínu
góðviljaðr
gefa náir,
bæði garð gjörvan
ok góða jörð,
ok kvonfángs
kosti væna".
31. "Þegar þræll hefir
þjónat leingi
dyggilega
drottni sínum,
ok blíðr guð
blessan sína
veita virðist
verknaði hans".
32. "Svo sem blíðr guð
hefir blessazt látið
starfa þenna,
er ek stund á legg.
því mundi minn
mörgu góðu
lánardrottinn mèr
launat hafa,
ef hèr hefði
honum auðnazt

aldr ala
til ellidaga".
33. "Hann er (því miðr!)
horfinn brautu! —
Hverfi svo Helena
ok hennar ætt gjörst!
því sú hefir
sverðleiks hvötuði
á knè komit
kona mörgum". —
34. "Því hann vegsmun þann
veita knátti
Agamemnoni,
sem aldrei skyldi,
at hann upp fór
til Ilíonsborgar,
viðr Trójumenn
Týs leik heyja".

---

35. At svo sögðu
svína hirðir
um kyrtil batt
belti skjótla;
ok seggr sveif
í svínstíur út,
þars grísa fjöld lá
í grindum inni.
36. Þar tók hann tvo
taldra grísa,
bar inn, ok báðum
brátt rèð slátra;
síðan svíða nam
ok sundr brytja,
ok stykkjum stakk
á steikarteina.
37. Steikti hann stykki,
ok er þau steikt voru
bar hann heit öll
með hásuðu

á oddum teina
fyrir Odysseif,
ok hèr yfir sèri
hvítabyggi.
38. Ok hunángsætt
hirðir svína
í viðvindils-skál
vín rèð blanda;
sjálfr sjóla gegnt
sess nam velja,
bað gest eta,
ok til orða tók:
39. "Et nú grísakjöt,
gestr inn ljúfi,
þat eitt vèr þrælar
höfum þèr at bjóða;
því alisvín þau,
er upp höfum fædt,
mærir biðlar
sèr til munns leggja.
Þeir goða gremi
gumar ei skeyta,
nè meðaumkun finna
í fylgsnum hugar".
40. "Ofríkisfullar
eigi líka
athafnir sælum
uppheims guðum;
sanngirni hugar
ok siðlætisverk
mest þeir meta
hjá manna sonum".
41. "Jafnvel óvinir
ok ofbeldismenn,
er opt í annarra
ýta löndum
uppgaungur greiða,
ok þeim gefr Seifr
feingjar at fá
fullar hendr";
ϱ. XIV, 77-96.

42. "Þeir feingi fylla
fáka lagar,
ok heim sigla
hlöðnum kjölum.
Þó svífr þeim
í þokka bygðir
rammr ótti
fyrir reiði guða".
43. "En biðlar vita víst
vonir nokkrar,
ok áskynja eru
einnar hverrar
sannfrèttar vorðnir
frá sjálfum guði,
um dapran dauða
drottins míns".
44. "Alls þeir ei vilja
upp, at sið rèttum,
bónorð bera,
ok á braut venda
hverr til heima síns,
en í hófleysi
eigum með ofríki
eyða makráðir".
45. "Því nætr allar
ok nýta daga,
þá er líða lætr
á lopt Seifr,
svínum þeir slátra,
nè seggjum nægir
alinna galta
einn eða tveir;
en vín þamba þeir,
svo til þurðar geingr,
ok tunnur tæma,
svo tekr yfir".
46. "Stórauðgastr var
storðarbúa
lávarðr minn,
nè lofða nokkurr

jafnauðugr
á Íþöku var,
nè mærra manna
á meginlandi".
47. "Nè tveir samtals
tugir manna
auði jafnmiklum
áttu hrósa.
Nú skal ek telja
ok tjá fyri þèr
auðlegð alla,
er jöfurr átti".
48. "Á mæríngr
á meginlandi
hjarðir uxa
ágætra tólf,
jafnmargar sauða,
jafnmargar svína,
jafnmargar geita;
en gæta þeirra
hirðar sjóla sjálfs
ok sveinar leigðir".
49. "En útkjálka á
eyjar þessar
gánga geithjarðir
í grasi stórar,
ellefu allar,
en til yfirsýndar
röskmannlegir þeim
rekkar fylgja".
50. "Ok hafr einn
á hverjum degi,
þann er fríðastr
fundinn verðr
góðra geitsauða,
göfgum biðlum
sendir sèrhverr
seggja þeirra".
51. "En ek þessarra,
er þú mátt líta,
svína geymi,
ok gæti, sem bezt.
Þó verð ek til borgar
biðlum senda
gölt góligstan,
er of geta má'k".
52. Svo kvað svínhirðir,
en sjóli neytti
matar freklega
og mungáts bæði.
Orð rèð hann ekki
upp at kveða,
en hann böl biðlum
bjó í huga.
53. En er matar neytt
mildíngr hafði
ok hrest hjarta sitt
hollri fæðu,
trèskál fyllti
fæðir svína,
ok fylki færði
fulla víns.
54. Var vanr af þeirri
vörðr galta
sjálfr skál drekka,
en sjóli við tók.
Gladdist gramr,
ok at gæti svína
orðum vænghröðum
víkja gerði:

---

55. "Hverr er, vinr,
sá er verði keyptan
fyrir fè sitt þik
fullu hefir?
Hverr er auðmaðr
sá hinn afarmikli
ok rekkr hinn ríki,
er þú ræddir um?"

56. "Þanns þú dáinn hyggr,
er hann dró úr landi
öðlíngi til vegs
Agamemnoni.
Seg mèr, ef mætta'k
mæríng kenna,
þann er þú lýsir
þannig fyr mèr".
57. "Seifr þat veit,
og sælir aðrir
ódauðlegir
uppheims guðir,
ef ek hann sèð hafa,
eða sjálfum mega'k
fregn af færa,
því ek hef farit víða".
58. Annsaði öðlíngi
öldurmaðr,
salvörðr svína,
ok við sjóla kvað:
59. "Leggr-a trúnað
á tölur neinar
burr hans, nè beðja,
brautíngja liðs,
þótt, gamli maðr,
á grund hèr komi,
ok fregn um farar hans
flytja nái".
60. "Því reikunarmenn,
er rekka þurfu
hjálpar annarra
ok atbeina,
skröki opt samna
skeytíngarlaust,
nè sannleik sjálfan
segja vilja".
61. "Ok ef einhverr
í Íþöku bygð
kemr flakkandi
ferðamanna,
drottníngu mína
dreingr hittir,
ok margan hègóma
herma gerir".
62. "Tekr hún blíðlega,
ok beina veitir,
manni komnum,
ok margs um frèttir;
en harmandi
af hvörmum fellir
sorgmóð kona
saknaðar tár.
Sæmir sætu
svo at gráta
ver sinn, andaðan
úti í löndum".
63. "Greitt mundir þú ok,
gamli maðr,
einhverju upp ljúga
æfintýri,
ef þèr kápu
ok kyrtil gæfi
fíra nokkurr
til at fara í".
64. "En hann mun horfinn
hölda sjónum,
ok líf hans liðit
af láði vera.
Hans munu hörund
ok hold nú slíta
hundar fótfráir
ok fuglar illir".
65. "Eða hafa hans
í hafi miðju
fiskar upp etið
aflífat hræ;
en bein á vángi
víðum liggja
sandi vorpin
á sjávarströndu".

ϱ. XIV, 117-136.

66. "Þannig er hann
úr heimi liðinn,
en hollvinum hans
harmar búnir,
mest þó mèr,
því at munk aldreigi
finna jafngóðan,
þó ek fara víða
ok leita leingi,
lánardrottinn".

67. "Nè þótt ek færa
til föður míns
ok minnar aptr
móður húsa,
þar sem ek borinn emk
ok barnfæddr,
ok upp um alinn
á æsku skeiði".

68. "Þeirra ek eigi
þó með tárum
svo mjök sakna,
þó mik sáran lángi
foreldra aptr
augum líta,
ok heim vera kominn
á hauðr feðra".

69. "Sakna'k Odysseifs
alla daga,
þess er leingi hefir
úr landi verit.
Mjök ek blygðumst,
inn blíði gestr,
nafn hans nefna,
þótt hann í nánd sè-at".

70. "Hann unni mèr
öðrum framarr,
ok mèr af hjarta
hjúka gerði.
Því heit ek hilmi
hugljúfa minn,

enn þótt fylkir mèr
fjarvistum sè".

71. Svaraði svinnum
svínahirði
mærr Odysseifr,
sá er mörgu vandist:

72. "Alls þú afhverfist
orðum mínum,
ok tortryggir,
þat ek talat hefk,
nè kveðr hann framar
koma munu
óðala sinna
aptr á vit:"

73. "Skalk-a ek eingaungu
orð við hafa,
heldr orð unnum
eiðstaf festa,
at Odysseifr
mun aptr koma.
Feginsögu laun
vil ek fá þegar,
er hann til húss síns
er heim um kominn".

74. "Þá skaltu fötum mik
fögrum klæða,
kápu vænni
ok kyrtli góðum.
Fyrr skal ek eigi
feginsögu
þó laun þiggja,
at ek þurftugr sjá'k".

75. "Því sá er mèr gumi
geðleiðastr,
þann ek hata hal,
sem Hel sjálfa,
sá er takfæð
sik tæla lætr
hègóma mál
af munni bera".

76. "Viti þat Seifr
vea fyrstr,
viti þat gestaborð
grams ins fræga,
viti þat eldstalli
Odysseifs,
er í nauðum nú
nálægr emk;
munu orð mín öll
allbrátt rætast:"
77. "At á ári þessu,
er nú yfir stendr,
þegar þessi náir
at þverra máni,
ok annarr aptr
upphaf tekr,
híngat í land
mun hilmir koma".
78. "Þá mun Odysseifr
aptr koma
heim til húss síns
og hefndir vinna
á hverjum, er hèr
hans of smánar
eyrarúnu
ok ástfólginn mög".
79. Svaraði Evmeus
svína gætir,
ok þeim orðum hann
aptr kvaddi:
80. "Hvorki mun ek þèr,
maðr inn aldni,
feginsögu laun
lúka þessi,
enda mun enn framar
Odysseifr
eigi heim koma
húss síns á vit".
81. "Sit heldr kyrr
í sæti þínu,
gestr, ok drekk hèr
dýrar veigar,
en at mèr látir
í minni vaktar
(tökum tal annat!)
tvistar raunir".
82. "Því í sinn sèrhvert
er seggja nokkurr
drottins minnir mik
míns hins góða,
verðr hjarta mitt
harmi tekit
ok ángr upp vakt
innan rifja".
83. "Látum eið vera,
þanns inna knáttir!
Óska'k at eins,
at Odysseifr
heim svo árni,
sem ek æskja munda'k,
ok sem prúð æskir
Penelopa,
aldinn Laertes
ok hinn ítrfagri
Telemakkus,
tiggja arfi".
84. "Sárt ek nú harma
svein hinn dýra,
þann er ítr ól
Odysseifr,
Telemakkus.
Þann tívar lètu
rètt upp renna,
sem runn af grundu".
85. "Hugða'k runn þann,
ef roskna næði,
mundu með mönnum
mjök svo verða,
bæði at vexti
ok vænleiks prýði,

ę. XIV, 158-177.

maka frábæran
föður síns".
86. "En einhverr hefir
himinbúa
geð hans glapit
ok góða hyggju,
eða fíra nokkurr;
því hann för upp hóf
til Pýlverja
prýðiborgar,
fregnir at fá
um föður sinn".
87. "Honum á heimleið
horskir biðlar
fyrisát veita,
at verði með öllu
ætt ins ágæta
Arkisíuss
á Íþaksey aldauða
ok orðstírslaus".
88. "Látum hann líða
leiðar sinnar,
hvort heldr verðr,
at hann at velli hnígi,
eða lífs undan leysist
ok láti of honum
haldit Kronusson
hendi sinni".
89. "Heyr nú, herm mèr,
halr inn aldni,
hverjar raunir þú
hafir ratað í".
90. "Seg mèr glöggva grein,
at ek gjörla vita:
Hverr ertu,
ok hvaðan af löndum?
Hvar er borg þín
ok þeirs þik borit hafa?
Á hverjum ertu
hlunna mari
til Íþakseyjar
út hèr kominn?"
91. "Hví þik skipmenn
híngat fluttu?
Hverir látast þeir
lofðar vera?
Vík ek svo orðum,
því víst muntu ei
híngat á fæti
farit hafa".
92. Svaraði svinnum
svínahirði
mærr Odysseifr,
hinn margbrögðótti:
"Ek mun segja þèr
sannleik gjörstan,
vörðr valgalta,
ef þig vita lystir".
93. "En þó tveir vit
í tómi næðim
ok makráðir
at mat sitja
hèr í bæ inni
báðir saman,
hefðim mungáts
ok matar gnógt,
en verar aðrir
til verka geingi:"
94. "Munda'k trauðlega
tali ljúka,
en þótt misserum
mörgum skipti,
ef ek tjá fram
ok telja skylda'k,
þá er mèr hefir mætt
mannrauna fjöld,
þrautir allar,
er ek þola hlaut'k
eptir ráðstofnun
ríkra guða".

ρ. XIV, 177-198.

95. Þat ek, gestgjafi,
mèr til gildis tel'k,
at ek kynjaðr em
frá Krítareyju.
Var ek auðmanni
alinn miklum;
átti sá aðra
arfa marga.

96. Þá hafði auðtýr
arfa skilborna
við eiginkonu
átta sinni;
ólust ok upp fæddust
allir heima,
en ek fæddr var'k
af frillu keyptri.

97. Hafða'k þó ávallt
yfirlát jafnt,
svo sem arfþegar
hinir óðalbornu,
Hýlaks kundi
Kastori hjá;
þeim emk frægum
af föður borinn.

98. Var hann þá virðr,
sem vea nokkurr,
af karskri drótt
Kríteyínga,
sökum auðsældar,
sona geingis
ok hvers konar
hamíngju láns.

99. En daprligar
dauðans nornir
heimtu hal þann
á helvega,
færðu hann Hadesar
heimkynna til;
en arfar hans
eignum skiptu.

ϱ. XIV, 199-217.

100. Eigum hans öllum
arfar skiptu,
hlutum til urpu,
hugumstórir.
Fátt þeir feingu mèr
fríðra kosta,
deildu hús mèr
í hlutskipti mitt.

101. Gekk ek at eiga
gullhlaðs nönnu,
sú var af auðgum
ýtum borin.
Gat ek kost þann
fyrir karlmennsku minnar
ok atgervi sakar
afreksfullrar.

102. Því ek eigi var'k
með auvirðum talinn,
nè í fleinhríð fyrr
á flótta hugða'k
en þótt allt sè nú
þat er ek áðr hafða'k
ágætis til,
at eingu vorðit.

103. Hygg ek þik mega,
ef þú hálm lítr,
til kjarna gizka
af kornstrái;
því at allmikit
af mèr hefir
sút um sorfit
sárra harma.

104. Veitti mèr Ares
orrustuguð
allmikit áræði
ok Aþena,
ok þá harðfeingi,
er ek hildarflokka
bragna böðfúsra
brjóta gerða'k.

105. Í sinn sèrhvert
er ek seggi valda'k
fyrisátr í
ena fræknustu,
ok óvinum ætlaða'k
illt at vinna,
hugðak-at á hel
nè háska nokkurn.

106. Hljóp ek fram lángt
um fíra alla,
hèlt á höggspjóti
í hendi minni,
ok af dólga drótt
drap hvatvetna,
þat er ei gat á hlaupi
haft sik undan.

107. Svo var ek frækinn
at fólkroði,
en eigi unda'k
við akrvinnu,
nè mèr búnaðr
betri þótti,
nè uppfóstr barna
efnilegra.

108. Fley fagrbúin,
fólkorrustur,
bjartir brandar,
bitrar örvar:
þat er ógn býðr
öðrum mönnum,
ávallt æðsta var
unað mitt.

109. Hneigðist hugr minn
at hlutum þeima;
hefir svo geð gert
guð nokkurr mitt.
Maðr lifir hverr
at munum sínum,
ýmissar ýmissum
iðnir láta.

ϱ. XIV, 217-238.

110. Áðr í herför
halir Akkverja
tróðu tröð báru
til Trója lands,
hafða'k níu sinnum
á nausta blökkum
leiðángr róit
ok fyri liði ráðit.

111. Fór ek í víkíng
til fjarra landa,
hernaðr hvervetna
mèr í hag snèrist.
Tók ek at afnámsfè,
þat er ek æskja vilda'k,
ok marga muni fèkk
í minn hlut síðarr.

112. Safnaðist mèr auðr
á svipstundu,
átta'k fjármuna
fullar hendr;
völd ok virðíngu
vann ek mikla
kappfúsum með
Krítarmönnum.

113. En er Seifr,
sjóli loptreiða,
hafði ríkula
ráðna látið
ófagnaðar för
fírum þessa
mörgum manni
af megintjóni;

114. Þá báðu bragnar
buðlúng frægan
Ídomeneif,
ok annan mik,
at höfðíngjar gerðimst
fyrir herskipum
Ilíonsborgar til
at járna leiki.

Var eingi kostr
undanþágu,
því orðrómr almanna
á nam liggja.
115. Áttum þar orrustur
um ár níu,
málmþíngsamir
megir Akkverja.
Lètum Brjáms borg
brotna niðr
alla til jarðar
á ári tíunda.
116. Stigum at þat
á streingja mari,
ok heim á leið hèldum
yfir hafs brautir.
Þá lèt guð,
svo sem gafst, hverjum
sundrat sinn veg
sonum Akkverja.
117. En Seifr mèr,
manni veslum,
raunir ríkar bjó,
hinn ráðvaldi.
Unda'k einn mánuð,
en eigi leingr,
heima í bygð
at búi mínu.
118. Þá nam ek börn mín
ok beðju kveðja,
ok við eignir skilja,
er átta'k þaðra.
Hugr mik hvatti,
hratt at kanna
unnar elgslóðir
til Egyptafljóts.
119. Bjó ek til farar
báru hreina,
ok kvadda til
knía vaska.
Níu bjó ek skip,
en skipmenn bráðla
saman söfnuðust
á sjávarströndu.
120. Sátu at veizlum
í sex daga
fèlagar mætir
marbeðjum á.
Nam ek blótfè mart
brögnum veita,
at guðum gæti
greiddar fórnir,
ok seggir sjálfum sèr
snæðíng búit.
121. Stigum dælu dýr
dag hinn sjönda,
klufum kólgu leið
frá Krítareyju;
blès hvass vindr
úr hánorðri,
sigldum báru braut
í byr fögrum.
122. Geingu greiðlega
gnoðir um haf,
svo sem forstreymis
fara knætti;
lestist ekki mèr
lagar dýra,
voru heilir halir
ok hraustir allir.
Sátum svo,
en súðum stýrði
brýnt byrleiði
ok beitstýrendr.
123. Komu dreingir
dag hinn fimta
at straumi fögrum
fljóts Egypta.
Beitum borðrónum
brátt ek lagða

ϱ. XIV, 238-258.

upp í ármynni
Egypta-fljóts.
124. Þá bað ek mína
mæta liða,
fríða fèlaga,
er mèr fylgðu þángat,
þar hjá öldu jóm
eptir vera,
skyldu skatnar þeir
skipa gæta;
en á njósn nokkra
nam ek senda,
um at sjást
af sjónarhvolum.
125. Þeir voru ýtar
fullir ofstopa,
ok ránsfýst
fylgðu sinni.
Fóru þeir skjótt,
ok fagrsána
akra eyddu
manna egypzkra.
126. Leiddu konur
til kjalar dýra,
börnum ræntu,
bragna drápu.
Barst bráðlega
til borgar upp
hljóð ok háreysti
hernuminna.
127. En er hljóð heyrðu
hernuminna,
komu borgarmenn,
þegar birta tók.
Varð völlr hverr
vagna liði
ok fótgaungumanna
flokkum þakinn,
nam lopt leiptra
ljósum málmi.

ϱ. XIV, 258-279.

128. Þá kom Seifr,
sjóli loptreiða,
illum flótta
í fèlaga lið.
Veittu-a viðnám
virða sveitir,
því til hvorrar handar
hel þeim stóð.
129. Þar drápu marga
mína liða
borgar búar
brandi hvössum,
leiddu lifandi
á land upp suma
ánauð í
ok orku stránga.
130. Þá lèt sjálfr
Seifr himneskr
hjálpráð eitt
mèr í hug koma.
Vilda'k þó heldr,
at ek hefða þar
bana beðit
á bjöð Egypta;
því enn mèr átti,
aumum manni,
böl margs konar
búit verða.
131. Brá ek brátt við,
ok bjartskínanda
hjálm ek hóf
af höfði mínu,
hratt hildar skýi
af herðum mèr,
ok á völl varp
vigr úr hendi.
132. Gekk svo gagngjört
móti grams vagni,
faðmaða'k knè konúngs
ok kyssa gerða'k;

en hann aumr sá
á aumum mèr,
ok mèr grið gaf
af gæzku sinni;
lèt mik vísir
á vagn sinn stíga,
ok mik harmanda
til hallar flutti.
133. Margir þustu þó
þeingils manna
at mèr, ofrandi
eski-spjótum;
hugðu mik í hel
höggva skyldu,
því æfareiðir
þeir orðnir voru.
134. En öðlíngr aptraði
atsókn þeirra,
því hann ríks Seifs
reiði of sást,
gestarèttar guðs,
er greypilega
hvers konar hefnir
hroðaverka.
135. Þar ek samfleytt
í sjö ár dvalda'k,
grædda'k fè mart
á foldu þaðra,
hvervetna hjá
höldum egypzkum,
því mik gjöfum gæddu
gumar allir.
136. En er hverfanda
heimfúsum mèr
kom áttunda
ár at hendi,
þá bar þar at
þegn at landi
feniskan einn,
flærðum kunnan;
ϱ. XIV, 279-299.

sá var seggr
svikum vanr,
ok manni mörgum
mart illt gerði.
137. Hann mik ginnti
með góðum heitum,
með sèr fara
til Feníkalands;
því í því landi
þegn sá átti
góz ok garða
ok gripi marga.
Dvalda'k þar árlángt
hjá dreing þeima.
138. Liðu misseri,
liðu dagar,
leið ár eitt
á enda gjörst,
uns árstíðir
aðrar komu,
ok ný misseri
at mundum bar.
139. Þá lèt mik halr
á hafskip stíga,
til Libýa-lands
leið at kanna;
lèt af lævísi,
sem hann lið mitt vildi,
ok at ek vörð veitta
vörufarmi.
140. Vildi hann mansali
mik þar selja,
ok verðkaup vinna,
sem honum vænst þótti.
Varð ek nauðigr
(vilda ek eigi)
á gnoð hans gánga,
þó mik grunaði mart.
141. Hljóp borðjór
í byr fögrum

(blès hvass vindr
af hánorðri)
yfir haf mitt
fyrir handan Krít.
Þá bjó seggjum Seifr
sýnan voða.

142. Nú sem frá Krít
vèr komnir vorum
svo lángt á lög,
at land sást hvergi,
ok unnar elgr
var einni saman
hauðrs gjörð horfinn
ok hjálmi foldar:

143. Þá lèt Kronusson
kolblán mokk
á lopt upp stíga
ok staðar nema
yfir húflaungum
hrefnis gota;
varð dimmt á dröfn,
þars hann dróst yfir.

144. Í svip sama
Seifr þrumaði,
ok reiðarslag rak
at ránar dýri.
Snèrist í hríng
hjörtr rånga,
hrundinn hyrfleini
himna jöfurs;
fullr brennusteins
borða jór varð.

145. Hrutu útbyrðis
halir allir,
ok í bylgjum velktust
vigg umhverfis,
svo sem sækrákur;
en sjóli himna
lèt heimkomu
hölda missa.

ϱ. XIV, 299-321.

146. Bjó mèr harmr í hug,
hætt var ek staddr,
en Seifr sjálfr
mèr í sinni var,
ok stórsiglu lèt
stafnblás knarar
geisistóra
mèr í gaupnir berast,
at úr lífsháska
leysast knætta'k.
Lèt'k um lauk þann
lagða arma,
ok svo hrekjast nam
í háskaveðri.

147. Dreif ek svo döpr
í dægr níu,
en á tíunda
týstór alda
um svartnætti
mik svífa lèt
úr lagar djúpi
at landi Þesspróta.

148. Þar tók mèr Fídon,
fylkir Þesspróta,
gramr hinn gjöfláti,
fyri gjald ekki.
Kom siklíngs sonr,
þars ek sigraðr lá'k
megnri þreytu
ok morgunkulda.

149. Hann mèr hönd rètti,
hóf á fætr,
ok mik heim leiddi,
uns til hallar kom
föðurs frægа,
ok fèkk mèr bæði
kápu ok kyrtil
at klæðast í.

150. Þar hafða'k afspurn
af Odysseifi.

Sagði Fídon mèr,
at hann siklíng hefði
gistan, og góðan
gestbeina veitt
á heimför fylkis
til föðurjarðar.

151. Sýndi mèr siklíngr,
þær er sjóli hafði
árnat gersemar
Odysseifr:
eirmálm mætan
mèr hann sýndi,
sýndi sól rínar
ok seigunnit járn.

152. Fá mátti fè þat
forlagseyri
manni á tíunda
mannsaldr fram;
svo lá gnóg geymd
gersema fjöld,
þá er í höll hildíngs
hilmir átti.

153. Kvað Fídon
farinn vera
til Dódónu
döglíng snjallan,
ráð at reyna
ens ríka Seifs
undan eik guðs
allaufgaðri.

154. Á hátt hvern
hilmir skyldi
í Íþakseyjar land
aptr hverfa,
eptir útivist
ærit lánga,
opinberlega,
eða öllum á laun.

155. Sór siklíngr,
svo ek sjálfr heyrða,
(dýrt var döglíngs orð)
ok dreypti í höllu,
at fley at flæði
fram væri sett,
fèlagar búnir
til farar ráðnir,
þeir er fylki heim
flytja skyldu
ættjarðar sinnar
ok óðala til.

156. En fylkir för mína
fyrr nam greiða,
því at þá skyldi
þesprótum frá
fara fley eitt
frjófsamrar til
Dúlikseyjar
um drafnar slóðir.

157. Þángat bauð fylkir
at mik flytja skyldi
til Akastus
öðlíngs fræga.
Gerði vísir mik
vel úr garði,
ok virkta bað,
sem vænst hann kunni.

158. En fyrðar við mik,
er mik flytja skyldu,
höfðu með höndum
háskasamt ráð,
svo at í komast
enn ek skylda
meinsamlegar
mannraunir í.

159. Þá er hlunna jór
hafrennandi
mjök var lángt skeið
frá landi kominn,
hugðu skjótt halir
yfir höfuð mèr

ϱ. XIV, 321-340.

dapran draga
dag ánauðar.

160. Flettu mik fyrðar
fötum mínum,
af kápu færðu
ok kyrtli bæði;
í stað þess yfir mik
steypa gerðu
verju vondri,
vondum kyrtli,
rifnum ræflum,
er þú, rekkr, á mèr
sjálfr mátt sjá
ok sjónum leiða.

161. Komu kníar
um kveld at bygðum
Íþakseyjar
allvíðsýnnar;
þá mik bragnar
bundinn gerðu
á fagrsessuðu
flæðar dýri.

162. Kaðli flèttuðum
fast mik bundu,
ok sjálfir síðan
af sætrjám stigu.
Ok sýsliga
seggir tóku
aptansverð
á ægis ströndu.

163. En greiðlega
guðir sjálfir
af mèr fjötr
fastan leystu.
Þá lèt ek veslan
vondum flíkum
Heimdalls hjör
hulinn verða.

164. Þá lèt ek stigit
með stýri ofan
niðr af nýtum
nausta blakki.
Á báru bólstr
brjóst ek lagða,
ok til sunds greip
á söltum ægi.
Títt ek rèra
á tvo vega
höndum báðum,
ok í hvarf þeim svam.

165. Gekk ek af græði
í grænan skóg upp,
þar er vaxinn var
einn viðarrunnr;
þar kraup ek inn
ok í kryppu lá.
En þegnar stundu
þúngu brjósti,
er þeir mistu mín,
mæðilega.

166. Leituðu lofðar
á landi víða,
ef mik fírar
finna knætti.
Þótti-a ráðlegt
reika leingra,
hurfu aptr
at hlunna mari,
ok húfum hveldan
hafvigg stigu.

167. En greiðlega
guðir sjálfir
gátu geymt mín,
ok at garði leiddu
hyggins hals,
því at hóti leingra
á mèr lífs enn
auðit verða.

---

ϱ. XIV, 340-359.

168. Svaraði Evmeus
svínahirðir,
ok honum aptr
annsvar veitti:
169. "Rammar 'ro, gestr,
raunir þínar!
Hrærist mèr hugr,
er ek heyri sagðar
hörmúngar allar,
er hlauztu þola,
hraknínga alla,
er hafa knáttir."
170. "Eitt mik uggir,
attú eigi munir
allt rètt rædt hafa,
þat er ræddir þú
um Odysseif,
öðlíng snjallan;
munk-a ek trúnað
á tal þat leggja.
Hví viltú, verr
svo vorpinn aldri,
hègómamálum
hreifa slíkum?"
171. "Veit ek um farar
fullvel sjálfr,
hversu lot liggja,
lávarðar míns,
at á hann allir
uppheims guðir
hafa ramma lagt
reiði sína".
172. "Alls þeygi þeir
þeingil lètu
lífi týna
með Trójumönnum,
nè öðlíngi
aldrs synjuðu
at háðum hildar leik
í höndum vina".
ϱ. XIV, 360-378.

173. "Þá mundi haug
at hilmi dauðan
alþjóð Akkverja
orpit hafa,
ok sjálfr ágæts
at sik látinn
orðstírs aflat
arfa sínum".
174. "Nú hafa sviplegir
sviptibylir
fylki frægðarlaust
feykt á brautu".
175. "Em ek einn mèr,
öðrum fjarri,
ok sit sídægris
at svínum þeima.
Legg ek aldreigi
leið til borgar,
nema prúð mik kalli
Penelopa".
176. "Kem ek, þá dýr mik
drottníng kallar,
ef fregn frá
frèttist nokkur.
Setjast þá at mèr
seggir þaðra,
tíðinda spyrja
ok spjalla nýrra".
177. "Bæði þegnar þeir,
er í þeli harma
útivist lánga
lávarðar míns,
ok svo gumar þeir,
er at gamni sínu
eigur hans upp eta
utan bóta."
178. "Er-a ljúft mèr
leingr orðit,
frètta forvitnast
ok fyrir spyrjast

sízt mik gabbaði
ginníngum einn
eggleiks hvötuðr
frá Etóla fold".

179. "Sá hafði málmtýr
mann of vegit,
ok fór farflótti
um fjöld landa.
Hann hjálpþurfi
til húss míns kom,
tók ek brands bör,
sem ek bezt kunna".

180. "Kvaðst hann konúng hafa
í Krítareyju
hjá Ídómeneifi
öðlíngi sèð,
þars skip sín
skati bætti,
þau er í bráðviðri
brotnat höfðu".

181. "Sagði hann siklíng
á sumri næsta
eða hausti heim
halda mundu
með fèlögum
fræknum sínum,
ok gnógt með hafa
gripa dýrra".

182. "Nè þú, inn aldni,
ángri mæddr,
alls þik heilög hönd
híngat leiddi,
orkir ástar þèr
með ósannindum,
nè mik flekir
með fagrgala".

183. "Mun-a verðgetum
viðmæli slík
nè metnaði ráða
minnar handar;
lotníng því veldr
fyrir verði gesta,
Seifi, ok sampíníng
með sjálfum þèr".

184. Svaraði svinnum
svína gæti
mærr Odysseifr
hinn margbrögðótti:

185. "Bert er, at býr
í brjósti þínu
helzti tortrygg
tinna hugar,
er ek þèr eigi,
þótt eið við leggja'k,
trúnað telja má'k,
nè þik tölum leiða".

186. "Heill svo! Samníng nú
semja skulum
okkar á meðal,
en undir skildir
vear veri
vottar báðum,
þeirs á Ólympi
uppi búa:"

187. "Komi lávarðr
at lögðum tíma
þinn í þetta hús,
er þú nú byggir,
skaltu mèr föt fá
(emk fata þurfi),
kyrtil ok kápu
til at klæðast í,
ok mik flytja láta,
þángat er fara vil'k,
á dælu dýri
til Dúlikseyjar".

188. "En ef eigi,
svo sem á ek kveð,
lávarðr þinn
hèr í land kemr,

þá skaltu þræla
þína láta
af hávum hamri
mèr hrinda niðr.
þá munu farandmenn
forðast aðrir
með glysmálum
gumna tæla".
189. Sagði þá svinnr
svína gætir,
ok honum aptr
annsvar veitti:
190. "þá munda'k þó,
ef ek þat gerða'k,
lof ok líknstafi
með lýða kindum,
gestr, of geta
ok gott orð fá
þegar í stað,
ok þá stundir líða".
191. "Ef ek í bæ minn
þèr byða'k fyrst,
ok þèr gestgjafir
gefa næða'k,
en þik síðan svo
svipta'k öndu
ok lèta ljúfu farit
lífi þínu!
þá munda'k þó fá
af þeli heilu
son Kronusar
Seif á kallat!"
192. "En nú er mál komit
matverðar til;
vilda'k, at hjarðsveinar
væri heim um komnir,
at vèr í aptan
hèr inni knættim
munntaman oss
málsvörð búa".

. ϱ. XIV, 399-418.

193. þannig skiptust við
skörúngar báðir
Evmeus orðum
ok Odysseifr.

---

194. Komu bráðlega
til bæjarhúsa
svín ok svínhirðis
sveinar vaskir.
Og verðir valgalta
í vanalegum
grindum geymdu
grísa bræðr.
195. Var gnauð mikil,
gegndi furðu,
er í grindr geingu
galta kindir.
þá lèt mætr
máls of kvadda
sveina sína
svína hirðir:
196. "Leiðit gölt híngat,
galta beztan
niðrlags til,
at náim fagna
atkomumanni
hinum útlenda,
ok sjálfum oss
sælgætis til".
197. "Höfu vèr marga
mæðu leingi
haft ok háð
fyrir hvíttennt svín,
meðan aðrir
iðgjaldalaust
súran sveita vorn
seggir eta".
198. Mætr sagði svo
svína hirðir,

ok með eirexi
eldiskíð klauf.
En inn í bæ
allmikinn gölt,
feitan, fimm vetra,
fírar leiddu.
199. Ok við eldstalla
ýtar hèldu
sællegum særimni.
Nè svína gætir
ódauðlegum
uppheims goðum
gleyma gerði,
því hann guðhræddr var.
200. Hann höfuðhár
hvíttennts galtar
í vígðan eld
varpa gerði,
blót hefjandi,
ok bað til allra
ódauðlegra
uppheims goða,
at Odysseifi
auðnast mætti
heim til húss koma
hyggjuspökum.
201. Reiddi til höggs,
ok runa laust
með óklofnu
eikiskíði.
Ok fjörsvæfðan
særimni brátt
sveinar stúngu
ok svíða gerðu.
202. Sundr limuðu
seggir galta;
en af lim hverjum
leggja gerði
hráa blótbita
byrgir svína,
ϱ. XIV, 418-438.

matblóts minnugr,
á mör feitan;
mölnum bygg-grjónum
maðr hinn göfgi
yfir þar sèri,
ok á eld lagði.
203. Brytjuðu blótkjöt
bragnar annat,
ok á steikara
stúngu teina.
Steiktu gumar allt
gætilega,
tóku síðan
ok af teinum drógu.
204. Skatnar skýrir
á skerborð lögðu
allt eldsteikt kjöt,
en upp nam rísa
salvörðr svína
sundr at deila,
því at sann vissi
seggr gjörstan.
205. Sundr hann deildi
í sjö hluti,
ok skamt sinn hverjum
skipta gerði:
lagði hlut einn
fyri landvættir,
ok mög Maju,
mætan Hermes,
áheitsorðum með
ok óskabænum;
ok hinna hverjum sinn
hluta deildi.
206. En til ágætis
Odysseifi
heilan hrygg
hvíttennts galtar
fyrir hilmi lagði
hjartaprúðan,

ok lávarð sinn
ljúfan gladdi.
207. Þá nam orð inna
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
208. "Eins vil ek óska,
Evmeus, þèr,
at þú svo kærr sèrt
Seifi föður,
sem þú mèr ert kærr,
alls þú mik of virðir
veitíng veglegri,
þótt ek vesall sjá'k!"
209. Svaraði Evmeus
svína gætir,
ok hann orðum þeim
aptr kvaddi:
"Gleð þik, ok góðs njót,
gestr inn vesli,
bú við borðhald þat,
er boðit er fram!"
210. "Gefr guð eitt
guma hverjum,
en annars hlutar
aptr synjar,
svo sem sjálfs hans
er sjálfræði til,
því hann einn orkar
öllum hlutum".
211. Brenndi frumfórnir,
at svo fyrir mæltu,
guðum eilífum,
þeim er aldrei deyja,
vörðr valgalta,
ok víni skæru
til dreypifórnar
dreypa gerði.
212. Seldi hann dreypiker
döglíngi í hönd
Odysseifi,
eyði stórborga,
þars við deildan verð
dýrr jöfurr sat.
213. En brauð nam
þeim er til borðs sátu
Messálíus
mönnum deila.
Þann hafði sjálfr
svína hirðir
fyrir eigit fè
forðum keyptan
tírarfrömum af
Taffeyíngum,
á laun við Laertes
ok lofðúngs rúnu,
meðan lávarðr hans
úr landi var.
214. Nú rèttu höldar
hendr sínar
at fram reiddum
rètta gnóttum.
215. En er matar neytt
ok mungáts bæði,
svo sem lyst til lèk,
lofðar höfðu,
brauð af borði
braut rèð taka
Messálíus,
en menn allir
saddir sufls ok brauðs
til svefnhúss geingu.

---

216. Þá kom nótt nöpr,
nið fór í hönd,
Seifr nótt alla
nam at rigna;
blès hræsvelgr
hvass af vestri,

ϱ. XIV, 438-458.

sá verðr vindr
votsamr æ.
217. Þá nam Odysseifr
til orða taka,
vildi hug reyna
hirðis svína,
ef sèr yfirhafnar
unna vildi
ok til láns ljá
um litla stund,
eða sveina nokkrum
sama bjóða,
því um gest honum
gjörhugult var:
218. "Heyr nú, Evmeus!"
(kvað Odysseifr).
"Heyri þat hjarðsveinar
hinir allir!
Einu vil ek orði
mèr til ágætis
at yðr víkja,
alls ek vínreifr emk".
219. "Því vín hefir opt
vitrum manni
komit til at kveða
með keskilátum,
hvatt til at hlægja
af hjarta dátt,
dregit til at drýgja
dans á láði";
220. "Látið mælt mál
um munn líða,
er betr ótalat
orð um væri.
Þó, alls eitt sinn
upp hefir lokizt
málbein mitt,
ek munk-a láta".
221. "Óska vilda'k,
at úngr væra'k,
ok afl mitt óskert,
svo sem áðr var,
þá er fóru vèr
með flokk manna
launsátrs til
at Trójuborg".
222. "Formenn þeir voru,
frægr Odysseifr
ok mærr Menelás,
mögr Atreifs;
þar var ek hinn þriði
með þeim fundinn
formaðr fíra,
því mik fara báðu".
223. "Náðu vèr borg
í nánd koma
ok enum bratta
borgarveggi.
Voru hrísrunnar
harðla þèttir
um borg umhverfis
ymsum stöðum".
224. "Vèr í veitu einni
und vopn krupum,
ok í reyrsefi
rekkar lögðumst.
Þá kom á napr
norðan stormr;
var illt ok ískalt
úti þá nótt".
225. "Hraut hrímkaldr
af himni snær,
jelsvöl úrkoma
yfir oss niðr.
Urðu hildar hjól
herðimanna
utan ísíng lögð
alla vega".
226. "Þar voru allir
eggmóts nirðir

kyrtlum klæddir
ok kápum vörmum;
sváfu seggir
svo í næði,
skjöldu of herðum
til skjóls höfðu".

227. "En ek einn allra
ófyrirsynju
yfirhöfn mína,
er ek upp fór þinnig,
eptir liggja lèt
hjá lögunautum,
því ek fyritók,
at ek frjósa munda'k;
fylgðist ek svo
með fírum öðrum
við buklara einan
ok brynskyrtu".

228. "Mundi þriðjúngr
lifa myrkföru,
ok síur Múspells
síga at lopti.
Þá hnypta'k olnboga
í Odysseif,
hann af liðsmönnum
lá mèr næstr.
Lèt ek mæríng
málum kvaddan,
en orð mín öðlíngr
ótt nam heyra:"

229. ""Lofsæll lofðúngr
Laertesson,
mærr Odysseifr
hinn margbrögðótti!
Munk-a ek leingr
vera með liföndum;
hefir heljarfrost
mik harðla tekit"".

230. ""Em ek með öllu
yfirhafnarlauss,

ρ. XIV, 478-498.

því mik guð einhverr
gabba náði,
at í kyrtli einum
kom ek híngat;
er-a nú ekki
til undanbragða"".

231. "Svo ek sagða,
en sjóla þegar
heillaráð eitt
til hugar kom;
því jafnt var ræsir
við ráð um brugðinn,
sem frækniliga fram
í fólki at gánga".

232. "Þá nam stillir
stilla röddu,
ok mik hljóðlega
hilmir kvaddi:
""Þegi þú! (kvað hann),
þeygi má neinn
ýta akkneskra
orð þín heyra"".

233. "Inti svo öðlíngr,
reis upp við olnboga,
studdi kinn hendi,
en konúngr mælti:"

234. ""Heyrit, vinir,
horskir liðar!
Hefir sjálfum mèr
í svefna borit
draumr guðlegr,
því geingit höfum
heldr til lángt
frá hlunna mörum"".

235. ""Fari nú einhverr
fylki til segja,
Agamemnoni
Atreifssyni,
at fleiri fíra
frá flæðar mörum

láti til hjálpar
híngat senda"".
236. "Svo kvað ræsir,
en reis upp þegar
ágætr Þóant
Andremonsson.
Halr inn hrausti
hart nam við bregða,
ok skarlats varp
skikkju rauðri".
237. "Hljóp halr þegar
hlunnmara til,
en ek í mærings fór
möttul dýran;
lá ek í honum,
ok lá vel á mèr,
uns lýsa tók
á lopti dagr".
238. "Óska vilda'k,
at ek úngr væra'k
ok afl mitt óskert,
svo sem áðr var;
þá mundi margr
mèr valgalta
árr at inni
yfirhöfn ljá".
239. "Þá mundu margir
í metum hafa
vaskan ver
ok vingan sýna.
Nú mik óvirða
allir lýðir,
af því ek klæddr em
klæðum vondum".
240. Svaraði Evmeus
svína gætir,
ok þeim orðum hann
aptr kvaddi:
241. "Góð er saga sú,
seggr hinn aldni,
er þú upp lætr
ýtum sagða.
Hefir-a þú ónýtum
orðum kastað,
nè mál mælt,
þat er miðr sæmi".
242. "Skal-a þèr því
at þessu sinni
klæðnaðar vant,
nè vætkis annars.
Á-at maðr manni,
þeim er mein um standa,
líknar leitanda,
líknar synja.
Verðr þú þik,
þá er mornar,
þeim er sjálfr átt,
sveipa tötrum".
243. "Því hèr er eigi
at húsakynni.
kostr klæðnaðar,
nè kyrtla gnótt,
nè skikkjur margar
til skipta at hafa;
á-at hèr maðr,
nema möttul einn".
244. Reis upp svínhirðir,
at svo mæltu,
förumanni flet
hjá funa setti;
varp hann í rúm þat
rekkjufötum,
góðum geitskinnum
ok gærum sauða.
245. Lagðist Odysseifr
í leg þat niðr,
en ofan á hann
Evmeus varp
möttli miklum,
mjök svo þykkum,

ρ. XIV, 498-521.

er til vara hafði
vörðr galta,
í at fara,
ef eitthvert kynni
óttaligt óveðr
á at koma.
246. Þar svaf öðlíngr
Odysseifr,
ok sveinar úngir
hjá siklíngi.
En svína hirði
sýndist eigi
ból at eiga
þar í bæ inni.
247. Vildi-t hann sofa
svínum fjarri,
út vildi árna,
ok út sik bjó.
Teitr varð tiggi,
er hann trúan þjón sá
í fjarvist sinni
fjár vel gæta.
248. Fyrst nam hann brandi
bitrligum
sèr um hraustligar
herðar varpa,
ok í allþykkva
yfirhöfn fór,
skikkju skjólgóða
í skörpum vindi.
249. Þar utan yfir
því næst hann varp
gæru af stórri
geit, vel aldri;
ok geir hvassan
greipum spendi,
greyjum ok gumum
gegn at verjast.
250. Ok hirðir svína
til hvílu gekk,
þar er hvíttenntir
hvíldu geltir,
undir hvelfdum
hellis skúta,
í hlè við nöprum
norðanblæstri.

---

# FIMTÁNDA KVIÐA.

En únglig Aþena
átti leiðir
Lakedemonar
landvíðrar til.
Vildi hún Odysseifs
arfa frægan
á heimför minna
ins hugumstóra,
ok hvetja hilmis nið
at halda af stað.
2. Fann tignargyðja
Telemakkus
ok Nestors
niðja frægan,
þars halir hvíldu
í hallar svölum

Menelásar
hins meginfræga.
3. Fann sigraðan
svefni mjúkum
gyðja Nestors
nýtan arfa;
en blundr blíðr
brár nam firrast
Telemakkusar
hins tírargjarna.
4. Hèldu vöku
fyrir hjartaprúðum
siklíngs syni
um signaða nótt
höfgar hyggjur,
harmar sárir,
sorgir svarar
um sinn föður.
5. Gekk at grams nið
glóeyg Aþena,
ok öðlíngs son
orðum kvaddi:
6. "Lát-attu leingr,
lofðúngs kundr,
heiman lángt hrekjast
frá hauðri þínu.
Mart áttu hodda
hallar innan,
margir 'ro stórbokkar
í stofu þinni".
7. "Á er mèr uggr,
at ofjarlar þeir
eti allar upp
eigur þínar,
öllum meðal sín
meiðmum deili,
ok verði svo för þín
at fararleysu".
8. "Skora þú skalt,
sem skjótast þú mátt,
á Menelás
hinn málrómsterka:
bið hann för þína
sem fyrst greiða,
at þú megir enn
móður þína
horska hitta
at heima sínu".
9. "Því hana nú hvetja
horskir bræðr,
ok faðir frægr
fast at geingr,
at hún göfugum
gefast láti
til eiginorðs
Evrýmakkus".
10. "Hann biðla mest
meiðmum deilir
ok brúðgjafir
býðr flestar.
Er þá uggvænt,
at innan stokks
fættist fjármunir
at þèr fornspurðum".
11. "Veiztu þat víst,
hve veiga þellu
gjarna gefit er,
er hún giptast vill:
allt vill manni þeim
til muna draga
gullhlaðs gná,
er hana geingr eiga".
12. "Gleymir falda fold
fyrrum börnum
ok ástkærum fyrr
eiginmanni,
nè mörk menja
minnist framar
dögla deilis,
er hann dáinn er".

ϱ. XV, 5-23.

13. "Er því hollara,
at þú heim farir,
ok á hendr felir
hússráð öll
þernu þeirri,
er af þýjum öllum
þykir þèr bezt
þar til fallin,
uns þèr guðir
á gjaforð vísa
sælir síðarr meir,
er þèr sæma megi".

14. "Eitt vil ek enn
orð þèr segja,
haf þat í hyggju
ok á hjarta legg:
Hafa launsátr
lagt með vèlum
fírar fræknastir
af flokki biðla".

15. "Sitja þeir í sundi
er Sámseyjar milli
ok Íþakseyjar
inn um geingr;
vilja bana þèr
bráðan veita,
áðr til ættjarðar
aptr komist".

16. "Gera-t mèr geig
grýlur þeirra;
fyrr skulu gánga
und græna torfu
ok bana bíða
biðlar margir,
þeir er upp eta
eigur þínar".

17. "Út frá eyjum lángt
öllum þú halt
(á nóttum eina sigl)
nausta blakki.
Byr mun á bak þèr
beztan senda
ódauðlegra sá
uppheims guða,
er þín gjörva gætir
ok geymir vandla".

18. "Jafnskjótt ok þú
við jaðra næstu
Íþakseyjar ert
aptr kominn,
þá skaltu borðvigg
til borgar senda
ok fèlaga þína
frækna alla".

19. "En þú sjálfr fyrst
skalt fara þángat,
er salvörðr svína
setr byggir;
sá gætir gumi
galta þinna,
ok ann þèr ávallt
af einlægum hug".

20. "Þar skaltu náttlángt
nema dvalar,
en svínhirði
send til borgar,
fregn at flytja
um farar þínar
hinni prúðlyndu
Penelopu,
at heill sèrt heim
á hauðr kominn
yfir báru braut
frá borg Pýlverja".

21. At mæltu því
máttug gyðja
til Ólymps aptr
upp nam stíga.

---

22. En tiggja sonr
Telemakkus
vakti Nestors nið
af nætrblundi.
Drap dýrr fæti
við döglíngs kundi,
ok orðum þeim
ítran kvaddi:
23. "Vakna, prúðlyndr
Pisistratus,
niðr Nestors,
af nætrsvefni!
Beit fáka frá
fyrir kerru,
at ferðar okkarrar
fara megim".
24. Þá kvað hinn prúði
Pisistratus,
arfþegi Nestors,
ok annsvör veitti:
25. "Tær-a trúliga,
Telemakkus,
þótt vit farar sèm
fúsir næsta,
um dimma draumnjórun
dröslum aka;
mun-a lángt líða,
áðr lýsa taki".
26. "Drýg heldr dvalar,
uns í drasil-reiðu
færðar gestgjafir
geti leggja
ítr öðlíngr,
Atreifs niðr,
mærr Menelás
hinn málmþíngs tami,
ok skýrr skati
at skilnaði
ástríkum orðum
okkr kveði".
ϱ. XV, 44-64.

27. "Því minnast munu,
meðan lifa,
ýtar útlendir
alla daga
gestgjafa þess,
er gestbeinliga
veitir viðtökur
verum ókunnum".
28. Kvað þat döglíngs son,
en Dagmær kom fram
greitt glæsilig
á gullin-reiðu.
Þá til þeirra gekk
þeingils niðja
mærr Menelás
hinn málrómsterki,
risinn úr rekkju
ræsir frægr
Helenu frá
enni hárfögru.
29. En er vísis varð
varr hinn dýri
ítrs Odysseifs
erfinyti,
brá við at bragði
buðlúngs arfi,
ok í kyrtil smó
kostumgóðan.
30. Ok harðvaxnar
sèr of herðar varp
skörúngr skatna
skikkju stórri.
Út nam at gánga
ok hjá öðlíngi standa,
ok hann þeim orðum
alls fyrst kveðja:
31. "Ítr Atreifsson
ástfóstri Seifs,
mærr Menelás,
manna þeingill!

Lát nú för mína,
fylkir, greidda
ættjarðar minnar
ok óðala til,
því nú er hugr mèr
ok hjarta bæði
til heimferðar
harðla snúinn".
32. Aptr annsaði
öðlíngs syni
mærr Menelás
hinn málrómsterki:
"Eigi vil ek þik
at inni mínu
lánga tíð tefja,
Telemakkus,
alls þèr hugr er
á heimför snúinn".
33. "Lái ek gestgjafa,
ef hann gesti fyrst
ofbeina innir,
en um of síðan
óvinveittan sik
verða lætr.
Betra er, hóf hafa
hverju sinni".
34. "Gerir jafnilla
sá er gesti sínum
bandar á braut,
ef á braut vill eigi,
ok hinn, er heldr
at heima sínu
gesti, heimfarar
harðla fúsum".
35. "Drýg nú dvalar,
uns í drasil-reiðu
fagrar gestgjafir
geti'k leggja,
svo at sjálfr þú
sjónum megir
gripi gefna þèr,
grams son, leiða".
36. "Bíð, buðlúngs son,
uns ek bjóða nái
salarkonum
í sölum mínum
dagverð búa
af dýrum gnóttum
alls, er orrar er
innan hallar".
37. "Þat er virðíng bæði
ok vegs frami,
ok endrnæríng
eigi síðr,
dagverðar neyta,
áðr nái fara
lángferð um land
lýða sinni".
38. "En vilir þú vegferð
venda þinni
of hauðr Argverja
ok um Helluland,
bíð, at ek sjálfr
þèr samfylgð veita'k,
ok fyrir farvagn
fákum beita'k,
mun ek þèr leið segja
um lýða bygðir".
39. "Eingi mun oss sleppa
með auðar hendr,
heldr gjöf greiða
gumar nokkra,
þrífót af málmi
eða mundlaug fagra,
ker algullit
eðr ok múla".
40. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok öðlíngs orðum
annsvar veitti:

ϱ. XV, 65-86.

"Ítr Atreifsson,
ástfóstri Seifs,
mærr Menelás,
manna þeingill!"

41. "Erumk meirr í mun
minna þegar
átthaga, öðlíngr,
aptr vitja;
því at eingan ek
eptir skilda'k
hirði hodda,
áðr heiman fór'k".

42. "At öndu sjálfr
eigi týna'k,
meðan frægs föðurs
fer ek á leit,
ok at góðr mèr
gripr eingi
úr herbergjum mínum
hverfi á braut".

---

43. En er orð þau
ítr heyrði
mildíngr Menelás
hinn málrómsterki,
bauð buðlúngr
af bragði þegar
svinnri beðju
ok salarkonum
dagverð búa
af dýrum gnóttum
alls, þeim er oru
innan hallar.

44. Þá gekk til þeingils
þegn göfugr,
Eteóneifr,
arfi Bóeþuss;
hann var úr rekkju
risinn nýla,
því hann í námunda
niflúngi bjó.

45. Bað þegn þann
þá eld kveikja
ræsir Menelás,
hinn raddmikli,
ok steik steikja;
en hann stillis boði,
er þat heyrt hafði,
hlýddi framla.

46. En sjóli sjálfr
í sal gekk niðr
ítr ilmanda,
einn var hann þeygi;
horsk Helena
hilmi fylgði
ok mildíngs mögr
Megapentes.

47. En er öll þau
voru ofan komin,
þars grams gersemar
geymdar voru,
tvíker nokkurt
taka náði
ágætr öðlíngr
Atreifs burr.

48. Bað skaptker eitt
skatna vinr
mög sinn bera
Megapentes,
þat var úr silfri;
en sjálf Helena
at klæðakistum gekk,
konúngs rúna.

49. Þar lágu möttlar
margpentaðir,
þá er sjálf hafði unnit
siklíngs brúðr.
Þeirra nokkurn tók
þeingils mála,

horsk Helena,
hilmir vífa.
50. Sá var glitmestr
gullbókaðra
möttull, ok möttla
mestr allra;
skein, sem stjarna
skær á lopti,
þars hann niðri lá
neðstr allra.
51. Hèldu svo fram
eptir hallar sölum,
uns Telemakks
til þau komu.
Þá nam öðlíngs son
orðum kveðja
buðlúngr Menelás
hinn bleikhári:
52. "Láti Seifr,
hinn er í lopti dunar,
Heru faðmbyggvir,
heimför þína
tállaust takast,
Telemakkus,
svo sem hjarta þitt
helzt til stendr".
53. "Gjöf þá, grams son,
vil ek gefa þèr,
er fegrst ok fjöldýrst
fundin verðr
gjafa þeirra,
er geymdar liggja
mínum sölum í,
sem menjagripir".
54. "Vil ek þèr, skilfíngs son,
skaptker gefa,
allt ítrvandat
ok alsilfrat,
en barmar þess
búnir gulli;
ϱ. XV, 106-127.

þat er hagvirki
af Hefasti gert".
55. "Þann mèr grip gaf
göfugr kappi,
Fedímus, sjóli
Sídonsmanna,
þá er ek hilmi gista'k
á heimferð minni;
þann vil ek grip gefa,
grams sonr, þèr".
56. At mæltu því
í mund fram seldi
tvíker Atreifs burr
öðlíngs syni,
skörúngr skatna;
en skaptker setti
fagrt af silfri
fyrir framan hann
meginkröptugr
Megapentes.
57. Gekk kinnfögr
konúngs beðja
Helena fram
at hilmis kundi,
mundum myndandi
möttul fagran,
upp hóf erindi
ok orð um kvað:
58. "Gjöf þá, er gef ek
af góðum huga,
sè hèr, sonr kærr!
Sú skal vera
minníng Helenu
handaverka.
Þá skal á þreyðum
þín á síðan
beðja bera
brúðkaups degi".
59. "Á meðan skal hún
hjá móður þinni

liggja geymd
í lofðúngs sölum.
En þú far vel,
ok fagnaðar njót,
heim til húss þíns
á hauðr feðra".
60. At mæltu því
í mund hún seldi
gersemi gefna,
en hann glaðr við tók.
En Pisistratus,
prúðlynd hetja,
lèt í kerrulaup
lèntar gjafir,
ok allar undraðist,
er hann á nam líta.
61. Leiddi í höll inn
hilmis sonu
buðlúngr Menelás
hinn bleikhári.
Settust þar síðan
siklíngs arfar
hvílbeði á
ok háva stóla.
62. En herbergismær
handlaug færði
vænum, gullnum
í vazkalli,
ok yfir mundlaug
úr mæru silfri
vatni af hellti
til handaþvottar,
ok hún fágat borð
fram nam setja.
63. Ok heiðvirð
húss matselja
brauð fram bar
ok á borð lagði,
miðlaði matar
mörgum rètti,

ϱ. XV, 128-149.

hugul veitandi
þat fyrir hendi var.
64. Brytjaði slátr
Bóeþusson,
ok skilfíngs sonum
skamta deildi;
en vín byrlaði
buðlúngs niðjum
mögr Meneláss
hins meginfræga.
Rèttu svo halir
hendr sínar
at fram reiddum
rètta gnóttum.
65. En er matar neytt
ok mungáts höfðu
svo sem lyst til lèk,
lofðúngs arfar,
Telemakkus
hinn tírargjarni
ok Nestors
niði frægr:
66. Beittu þeir fyrir
fákum vökrum,
stigu á kerru
stórum glæsta;
ok fordyri frá
fylkis synir
óku, ok ómfullum
öðlíngs svölum.
67. En Atreifs arfi
á eptir gekk,
bleikhárr Menelás,
buðlúngs sonum;
lèt hilmir hægri
hendi sinni
gullker greipat
með góðu víni.
68. Vildi þat vitr,
at vísa synir

dreypifórn færði,
áðr færi af stað.
Gekk hann fram fyrir
fagra kerru,
tók í hönd hvorum
ok horska kvaddi:

69. "Farit vel, sveinar!
færit Nestori,
konúngi lýða,
kveðju mína!
Fann ek hann ávallt,
sem föður, blíðan,
meðan mærir vèr
megir Akkverja
Týs leik háðum
í Trójulandi".

70. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok honum aptr
annsvar veitti:

71. "Gjarna skulu vit
gram aldrænum
orð þau inna,
ástfóstri Seifs,
þessi, þegar er
þángat komum,
öll, er ítr rètt
upp at kveða".

72. "Óska vilda'k,
at mèr eins mætti
auðnast, aptr komnum
Íþöku til,
í höll Odysseifs
hilmis gánga,
ok inna öðlíngi
allt af lètta:"

73. "At ek heim frá þèr
hèðan komi,
ok ástljúfustum
atlotum mætt,

ϱ. XV, 149-168.

ok margar hafa'k
með at fara
gersemar góðar
ok gjafar frá þèr".

74. Þá fugl flaug,
er þat fylkis son kvað
til hægri handar,
hèlt sá í klóm
(þat var örn einn)
afarstórri
heimgás hvítri
úr hallar garði.

75. Eptir erni þeim
óhljóðum með
konur ok karlar
knáir hlupu;
en dreyra nagr,
er hann nálægt kom,
til hægri handar þaut
fyri hesta framan.

76. Sá þat svinnir
seggja vinir,
þá urðu gæðíngar
glaðir næsta;
hýrnaði hverjum
hjarta í brjósti,
hugr lifnaði,
er þat líta knáttu.

77. Þá kvað þat prúðr
Pisistratus,
arfþegi Nestors,
ok til orða tók:

78. "Inn mèr, öðlíngr,
ástfóstri Seifs,
mærr Menelás,
manna þeingill!
Hefir jarteign þessa
jöfurr himna
okkr tveim sent,
eða einum þèr?"

79. Mælti svo mætr
mildíngs arfi,
en hildíngr
hug um leiddi,
mærr Menelás
hinn málmþíngsami,
hve hann af skynsemd
skýrri mætti
eptir atvikum
þá jarteign ráða.
80. En síðfölduð
svara nam fyrr
horsk Helena,
hagaði orðum:
81. "Heyrit spjöll, spakir,
vil ek spádóm rekja,
svo sem í brjóst mèr
blása knegu
ódauðlegir
uppheims guðir,
ok sem ek ætla
at eptir gángi!"
82. "Svo sem fugl sjá
af fjalli ofan,
þar er örn á uppi
únga ok hreiðr,
gandi, ok gás
í garði hremmdi,
þá er heima var
at húsi alin:"
83. "Svo mun ok ítr
Odysseifr,
mörgum afstöðnum
at mannraunum,
ok hundmarga
eptir hraknínga,
heim til húss komast
ok hefna sín;
ellegar hilmir er
þegar heim kominn,
ok yfir bana býr
biðla allra".
84. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok henni aptr
annsvar veitti:
85. "Veiti þat Seifr,
sjóli himna,
lávarðr Heru,
sá er í lopti dunar!
þá skal ek þik,
er ek þángat kem,
göfga, sem gyðju,
með góðum heitum".

---

86. Mælti svo mætr
mildíngs arfi,
ok á lend fáka
lagði keyri;
en gotar ólmir
gegnum borgu
vakrt runnu
ok út á völl þutu.
87. Höfðu okhrínga
á hálsum sèr,
ok allan dag
oktrè skóku,
uns sæl rann
sól á viðu
ok skugga brá
of brautir allar.
88. Ok fylkis synir
til Feruborgar
óku, ok hinnig
til húsa komu,
þar er Díókles
dróttum stýrði
Orsílokksson
Alfeussonar.

ϱ XV, 169-187.

Niflúngs niðjar þar
um nótt áðu,
ok af gram góðan
gátu beina.
89. En er árrisul
rósinfíngra
birtist mönnum
Morgunskæra,
beittu þeir fyrir
fákum vökrum
ok á kerru stigu
stórum glæsta.
90. Ok fordyri frá
fylkis arfar
óku, ok ómfullum
öðlíngs svölum.
Keyrði grams son
gota til hlaups,
en þeir viljugir
út á völl runnu.
91. Komu fljótlega
fylkis synir
prúðir til prýddrar
Pýlusborgar.
Þá nam við Nestors
nýtan arfa
týframr tala
Telemakkus:
92. "Lát mik njóta þess,
Nestors arfi,
at feðr okkrir
at fornu voru
vinir ávallt,
en vit samaldrar
ok gestfèlagskap
góðum teingdir".
93. "Gerir okkr ok
enn þá fremr
samferð sjá
samrýndari.
ϱ. XV, 188-207.

Heit nú at efna,
öðlíngs son, mèr
bæn þá, er bið ek
ok ber nú upp".
94. "Ak-attu kerru
um öldu jó fram;
lát mik heldr þar,
horskr, eptir,
síðr inn aldni
óviljugum mèr
heima haldi
at húsi sínu,
ok mik gjörst gæli
með góðleiks hótum,
alls mèr er hvatrar
heimfarar þörf".
95. Mælti svo mætr
mildíngs arfi;
en Nestors son
nam hug leiða,
hve hann skynsemd með
skýrri mætti
við vinar síns
verða beiðni.
96. Kom þá í hug honum
heillaráð eitt,
er honum vænlegast
vera þótti.
Stýrði hann hestum
hlunna jós til
út við úrsvala
ægis ströndu.
97. Tók þar kostgripi
úr kerru upp,
ok í skutstafn
skips of lagði,
gull ok klæði,
er honum gefit hafði
mildíngr Menelás
hinn meginfrægi.

98. Hann hilmis nið
hvatti farar,
ok hann orðum þeim
ört nam kveðja:
99. "Stíg nú snarlega
á snekkju þiljur,
ok lát líkt gera
liða þína,
áðr en heim ek
til hallar komist
ok inum aldræna
frá öllu segja'k".
100. "Því þess em ek víss
í vizku ranni
ok sannfróðr
með sjálfum mèr,
at þeygi munt þú
undan þeingli sleppa;
svo þekki'k öðlíngs
ákaflyndi".
101. "Heldr mun hann
híngat sjálfr
leggja leið sína
ok laða þik heim;
mun stillir
stórum reiðast,
ok eigi auðum höndum
aptr hverfa".
102. At mæltu því
mildíngs arfi
á faxprúða
fáka keyrði,
ok til prúðra brátt
borgar Pýlverja
heim aptr kom,
ok húsa föðurs.
103. En Telemakkus
tryggva sína
eggjaði liða,
ok til orða tók:

ϱ. XV, 208-227.

104. "Hagræðit, halir,
á hlunna dýri
öllum áhöldum
innan borða.
Stígum sjálfir svo
á sunda mar,
at ferðar vorrar
fara knegim".
105. Svo kvað siklíngs burr,
en seggir hlýddu,
ok boðum hans
at bragði gegndu.
Geingu garpar
á gnoð þegar,
ok þrekramir
á þóptur settust.

---

106. Slíkt nam at annast
öðlíngs kundr,
bað til Aþenu
ok blóta gerði
við skutstafn skips.
En skatna nokkurr
þá kom þar at,
sem þeingils son stóð.
107. Sá var útlendr maðr,
útlægr gjörr
fyrir vegit víg
frá váng Argverja.
Hann var spámaðr,
ok frá spökum Melampi
átti ætt sína
ofan telja.
108. Bjó prúðrar fyrrum
í Pýlusborgar
sauðauðugri sveit
svinnr Melampus,
auðmaðr mesti
með Pýlverjum,

ok háligust bygði
húsakynni.
109. Lagði hann leið síðan
til lands annars,
ok flýja varð
úr föðurlandi
afarúðgum
undan Neleifi,
stórlunduðustum
storðar rekka.
110. Hann heilt ár
hèlt með valdi
spámanns fjármunum
furðu miklum.
En á meðan
var Melampus
í Fýlaks
fylkis sölum.
111. Þar var hann heptr
hörðum fjötri,
ok rammar varð
raunir þola,
sökum námskorðar,
Neleifs dóttur,
ok sökum þúngrar
þeirrar raunar,
er horskum hafði
í hjarta lagit
hvöss hefndarnorn
in harðvítuga.
112. Þó gat hann leyst sik
líftjóni frá,
ok uxa gjallandi
gerði reka
Fýlaksborg frá,
ok þá flytja knátti
til Pýlverja
prúðrar borgar.
113. Þá lèt hann háligs
hefnt of verða
ϱ. XV, 227-247.

níðíngskapar
á Neleifi,
ok bjarta brúði
bróður sínum
heim at húsi
horskum leiddi.
114. Lagði hann leið svo
til lands annars,
til hestauðugs
hauðrs Argverja.
Þar átti frægr
fletjum stýra
ok fjöld Argverja
yfir ráða.
115. Þar gekk hann bjarta
brúði at eiga,
ok sèr höll háva
hátimbraði;
ól mögu tvo,
Mantíus einn,
afli afrenda,
ok Antífates.
116. Ól Antífates
eljunfræknan
Óíkles,
en Óíkles gat
Amfíarás
hinn örleiks hvata;
þeim Seifr unni
ægisskjaldi
ok Appolon
öðrum framarr.
117. Unnu þeir hugástum
hetju dýrri;
elliárum þó
hann ekki náði,
því at í Þífi
þrekramr fèll:
kom honum feigð
af konugjöfum.

118. Amfíarásar
arfar voru
Amfílokkus
ok Alkmeon;
en Mantíus
mögu gat tvo,
prúðan Klítus
ok Pólýfídes.
119. Nam Morginskær
mæran Klítus,
gyðja glóbjört
í gullinreiðu,
fyrir vænleiks sakar,
at hann vera knætti
ódauðlegum með
uppheims goðum.
120. En prúðlundaðan
Pólýfídes
spakr Appolon
spámann gerði
albeztan allra,
þeirra er eptir daga
Amfíarásar
uppi voru.
121. En frægr maðr
föður reiddist,
hóf sik því á braut
til Hýperesíu;
bjó bar búi,
ok brögnum öllum
spakar spádóma
spekjur rakti.
122. Hans var sonr,
sá er híngat nú kom;
Þeóklýmenus
hann þjóðir nefndu.
Hann var þat,
er þá rèð gánga
Telemaks til,
þars hann tæði blóta.
ϱ. XV, 248-268.

123. Fann hann skilfíngs son
hjá skipi sínu
dreypifórn dreypanda,
dýrliga biðjanda;
ok hann at ítrum
öðlíngs syni
orðum vænghröðum
víkja gerði:
124. "Bið ek þik, vinr,
alls at blóti þik
hèr ek hitti
á hauðri þvísa.
Bið ek fyrir blóts sakar,
bið ek fyrir goðs sakar,
bið ek fyrir sjálfs þíns sakar
ok sveitúnga þinna!"
125. "Grein mèr gjörla,
þats ek geri spyrja,
nè leyn mik því,
er mik lystir vita:
Hvat ertu manna?
Hvaðan af löndum?
Hvar er borg þín,
ok þeirs þik borit hafa?"
126. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok orðum hans
annsvar greiddi:
"Glögglega, gestr,
skal ek greina slíkt,
ok upp þèr inna
allt af lètta".
127. "Á Íþaksey
ætt mín stendr;
fylkir Odysseifr
er faðir minn.
Áðr þat var,
er-a leingr svo,
því döprum dauða
hann nú dáinn er".

128. "Þat var þess vegna
at ek þessa mèr tók
förunauta
ok farkost þenna,
at ek föður míns
færa'k á vit,
þess er leingi hefir
úr landi verit".

129. Aptr annsaði
öðlíngs syni
Þeóklýmenus
hinn þjóðmæri:
"Segg lèt ek svelta
samlendan mèr,
fyri því fór ek
úr föðurlandi".

130. "Á maðr sá
marga bræðr
á hestauðgu
hauðri Argverja,
ok kunnmenn marga,
er metorð hafa
mikil á meðal
manna akkneskra".

131. "Þeir vildu frændr
mik firra lífi,
en ek lífi barg
ok land flýða,
alls mèr auðit nú
á at verða
um veröld innan
víða rekast".

132. "Lát mik far fá
á flausti þínu,
alls ek líknar þik
landflótta bið'k,
at mik drepi-a
dólgar mínir,
er á eptir mèr eru
ok elta mik".

ρ. XV, 269-288.

133. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok orðum hans
annsvar veitti:

134. "Vilk-a ek fars þèr
á fleyi synja,
alls þú, maðr, vilt
með oss fara.
Fylg oss, fèlagi,
fá skaltu þar
beina, sem bezt
vèr bjóða kunnum".

135. At mæltu því
mildíngs arfi
tók við af guma
geir eirreknum,
lagði hann í lyptíng
á lagar dýri,
ok stè sjálfr svo
á siglu mar.

136. Ok skilfíngs niðr
í skutstafn settist
hlunna hjartar
hafskríðanda;
ok Þeóklýmenus
hinn þjóðmæra
sèr við hlið setti
siklíngs arfi;
en landfestar leystu
liðar snjallir,
ok skutstreingi
skips upp heimtu.

137. Bauð þá Telemakkus
hinn tírargjarni
seggjum sjódjörfum
til segls taka;
ríkt bað hann þá
á reipum halda,
en halir hilmis nið
hlýddu bráðla.

138. Lyptu furutrè
fírar rakkir,
höndum hófu
ok hátt reistu
stúngu siglufæti
í stall holan,
ok stæðíngum
studdu ramla;
ok með harðsnúnum
hráskinns ólum
dripthvít segl
drógu við húna.
139. Þá lèt Aþena
hin augumglæja
byr blásanda
brögnum sendan
(hvein hvass vindr
í himingeimi),
at skip sem skjótast,
skríðanda leið,
yfir sævatn salt
svífa knætti.
140. Krúnu-lindum
ok Kalkis-ár
fram hjá fóru þeir
fögrum straumi.
Þá settist sæl
sól í ægi,
ok skugga brá
of brautir allar.
141. En beit brunaði
í byrvindi Seifs,
ok hjá Fèborg
fram rèð stefna,
hljóp fram um heilagt
hauðr Elea,
þars Epear
öldum stýra.
142. Þaðan lofðúngs son
lagði stefnu
á útskagandi
eyja klakka;
var hugsandi
hilmis kundr,
hvort lífi halda
eða láta mundi.

---

143. Átu aptansverð
inni í bæ
ágætr Evmeus
ok Odysseifr.
Sátu hjarðsveinar
hjá þeim aðrir,
ok kveldverðar
kátir neyttu.
144. En er matar neytt
ok mungáts bæði,
svo sem lyst til lèk,
lofðar höfðu,
þá nam Odysseifr
til orða taka;
vildi hug reyna
hirðis galta:
145. Hvort salvörðr svína
sèr mundi enn
vilja gott gera
með góðum beina,
ok gistíng bjóða
á bæ sínum þar,
eða til borgar sik
biðja gánga:
146. "Heyr nú, Evmeus
(kvað Odysseifr)!
Heyri þat horsk öll
hjarðsveina fjöld!"
147. "Lystir mik hèðan,
þegar lýsa tekr,
beina at biðja,
til borgar gánga,

ϱ. XV, 289-308.

at ek þeygi þèr
til þýngsla verði,
nè sveinum þínum
með setu minni".
148. "En þú hollt mèr
heilræði legg,
ok fylgðarmann
fá mèr góðan,
þann er veg mèr
vísa knegi
ok leið lánga
leiða vili".
149. "Sjálfr mun ek reika,
sjálfr mun ek hvarfla
(býðr bráð nauðsyn)
um borg innan,
ef víkja mèr vildi
vera nokkurr
munnfylli brauðs
eða mungáts sopa".
150. "Hugr er mèr ok
til híbýla koma
öðlíngs Odysseifs
hins ágæta,
ok sögu segja
siklíngs brúði
enni prúðlyndu
Penelopu".
151. "Fýsir mik ok
fund at sækja
yfirgángsamra
ofdrambs biðla,
ef þeir málsverð mèr
mundi gefa,
alls þeir krása ótals
kosti um eiga".
152. "Mætta'k horskum hjá,
hverngi er vildi,
verknað vinna
bæði vel ok fljótt;



því þèr skal ek segja,
en þú mèr hlýð,
ok athuga veit
orðum mínum!"
153. "Á ek Hermes þat
hollum þakka,
upphimins ár,
Argusbana,
honum er verknaði
veitir hverjum
unað ok ágæti
allra manna:"
154. "At mèr skal eingi
á moldu finnast
hæfari maðr
til hverrar vinnu:
eld á arni
upp vel kveikja,
ok þurr skíð
þveitu kljúfa".
155. "Kjöt at brytja,
bráð at steikja,
ok veigar dýrar
á vínker skeinkja:
verk þau, er vinna
hjá virðum göfgum
menn minna háttar
at mannvirðíngu".
156. Varp þúngt öndu
vörðr galta,
ok honum aptr
annsvar greiddi:
157. "Sè harm ljótan!
Hví, gestr, þèr
hefir hugsun sjá
í hjarta komit?
Nú er þat sýnt,
at þik sjálfan lystir
hinnig at hrapa
í hel opna".

158. "Alls þèr hugr leikr
at hætta þèr
í flokk biðla
fram at gánga;
því ofsi þeirra
ok yfirgángr
jafnt ferr járnföstum
jarðar hjálmi".

159. "Er-at þèr líkir
þeirra sveinar.
Úngir 'ro þeir
ok ítrum búnir
kápum ok kyrtlum,
en kollar þeirra
ok ásjónur eru
æ gljáandi".

160. "Slíkir þjóna þeim
þjónustumenn;
en trapizur
ok týskafin borð,
brauði ok kjöti
kúfuð, svigna,
ok vínberja
vænum legi".

161. "Þèr er hollara
hèr at vera;
amast eingi hèr
af oss við þik,
hvorki sjálfr ek
nè sveinar mínir,
þeirs á heimili
hjá mèr eru".

162. "En er Odysseifs
ástkærr mögr
híngat aptr
á hauðr kemr,
mun hann þèr kápu
ok kyrtil gefa
til at fara í,
ok þik flytja láta,
hvert er hjarta þitt
ok hugr býðr".

163. Svaraði svinnum
svína gæti
Odysseifr,
sá er ýmist reyndi:

164. "Óska vil ek þèr,
Evmeus, þess,
attú svo kærr sèrt
Seifi föður,
sem þú mèr ert kærr,
alls þú af mèr hefir
hrakníngi lètt
ok harmi þúngum".

165. "Er-a hrakníngi
hlutr nokkurr
meinsamligri
manna sonum;
því hölda hverr,
sá er á hrakníngi
meinum ok mæðu
mæta verðr,
húngrs vegna
þess ins vesala,
hugraunir illar
hlýtr þola".

166. "Nú alls þú hèðra
mèr halda vilt,
ok mèr bíða býðr,
uns burr hans kemr,
heill svo, herm mèr frá
horskri móður
ítrs Odysseifs,
jaðars öðlínga;"

167. "Ok frá allvalds
ítrum föður,
er hann hèr eptir
heima skildi,
gamals aldri
at fram kominn,

ϱ. XV, 328-348.

þá er lofðúngr
úr landi fór".

168. "Inn mèr, hvort enn þau
sè uppi á moldu
í sólarheims
sælum bjarma,
eða lífi firð
liðin bæði
í Hadesar
híbýli niðr".

169. Annsaði öðlíngi
öldurmaðr,
salvörðr svína,
ok við sjóla kvað:
"Glögglega, gestr,
skal ek greina slíkt,
ok þèr upp inna
allt af lètta".

170. "Lifir Laertes
með lýðum enn,
en Seif biðr
sjóli jafnan,
at bráðum þar
at buðlúngs heima
líf sitt úr limum
líða megi".

171. "Því sjóli sorgmóðr
svaran grætr
yfir sonar síns
sáru hvarfi,
ok eiginkonu
aldrtila
mannvits mætrar,
er hann missa nam".

172. "Sá var siklíngi
sárastr allra
harmr harma,
er hún of lèzt;
sá lèt harmr
hilmi verða
ellihruman,
áðr honum elli stóð".

173. "En hún lèzt
af helstríði
eptir mög sinn
hinn meginfræga.
Sá var dapr dauði!
Deyja svo eingi
hèr á hauðri
halr um skyli,
sá er mèr unni
ok mart gott veiti!"

174. "Meðan vitrt var
víf á lífi,
enn þótt hún æ væri
ángri bitin,
hafða'k gaman af
hana at spyrja,
ok eptir ýmsu
auðnorn frètta".

175. "Því hún ól mik upp
með eigindóttur
(hèt Ektímena
alfölduð mær):
sú var hraust hrund,
ok hennar barna
ýngst at aldri,
er hún alit hafði;
ólst ek þar upp
ásamt henni
í yfirlæti
ekki minna".

176. "En er ek ok hún
á aldr komumst
fagnaðarfullan
frumvaxta lífs,
giptu þau sætu
Sámseyjar til,
ok brúðfè feingu,
svo furðu gegndi".

177. "En hún klæðum mik
klæddi fögrum,
kápu mèr gaf
ok kyrtil vænan,
fèkk mèr skæði
á fætr mína,
ok upp í sveit senda
síðan gerði,
ok enn meirr unni mèr,
en áðr fyrr".
178. "Þó ek þarnist nú
þessa góða,
láta allt at einu
uppheims guðir
starfa þann,
er ek stund á legg,
blíðir blessast,
at ek bjargast má'k;
opt nýt ek fæðslu,
opt nýt ek drykkjar,
opt gef ek gestum,
er at garði koma".
179. "En frá drottníngu
dugir eigi
vináttu hóta
vætta neinna,
orða hvorki
nè atlota til,
sízt í öðlíngs höll
ofjarlar þeir
ófarnaðar til
inn sèr veltu".
180. "En mansmenn
mjök svo girnast
við drottníngu sína
drjúgum hjala,
margs at spyrja,
at mörgu frètta,
fá sèr at eta,
fá sèr at drekka,
ok glaðníng geta,
til garðs heim bera;
þat gleðr þjóðvel
þræla hjörtu".

---

181. Svaraði svinnum
svína hirði
mærr Odysseifr
hinn margbrögðótti:
182. "Heyr harm sáran!
Helzt til úngr
hefir þú, Evmeus,
orðit vera,
er þú foreldrum frá
ok föðurlandi,
vörðr svína, vítt
um veröld hraktist".
183. "Heill svo, seg mèr
í sönnu máli,
ok mèr inn upp
allt af lètta.
Var borg sú hin breiða,
er byggja knáttu
foreldrar þínir,
af fjandmönnum eydd?"
184. "Eða vartu handtekinn
af heiptmögum,
er þú at uxum ok ásauð
einmana satt,
á sæmeið fluttr,
ok seldr híngat
fullu verði við
veri þessum?"
185. Annsaði öðlíngi
öldurmaðr,
salvörðr svína,
ok við sjóla kvað:
186. "Alls þessa þú,
þegn ókunni,

ϱ. XV, 368-390.

forvitnast vilt
ok frèttir eptir,
þá gaum gef,
ok grafkyrr sit,
skemta þèr skalt
ok af skálum drekka".

187. "Eru nætr nú
næsta lángar,
svo at sofa má
svefn hverr fullan,
ok þó skeyta samt
skemtan sinni
sögusögnum með,
ok sögum hlýða."

188. "Er-a þörf þess,
at þú of gángir
hvílbeðjar til
fyrir háttatíma.
Er-at holl höldi
hvíld til mikil;
illt er ofsvefni
ýta kindum".

189. "Má hinna hverr
hjarðar sveina,
er þess hugr hvetr
ok hjarta beiðir,
út hèðan sinna
ok sofa gánga,
ef hann værugjarn
vera knegi".

190. "En dags næsta,
þá er dagr ljómar
ok hann dagverð
of drýgðan hefir,
skal halr hverr
út í haga sinna,
ok fríðum fylgja
fylkis svínum".

191. "En báðir vit
inni í bæ skulum

ϱ. XV, 390-409.

veigar drekka
ok verðar neyta,
ok hvorr öðrum
hèr vel skemta,
ok sárar raunir
segja okkrar".

192. "Því manni hveim,
er mart hefir reynt
ok um veröldu
víða ratað,
einnig unaðs fá,
þá af eru liðnar,
mannraunir meirr,
þó at miklar sè".

193. "Nú skal inna þèr
allt af lètta,
þaztú forvitnast
ok frèttir eptir".

194. "Sýrey seggir
á sæ nefna,
muntu heyrt hafa
hennar getið,
Ortugseyju
ofar komin;
þar 'ru sólar
sýnileg hvörf".

195. "Er-at allfjölbygð
ey sú vorðin,
þó er henni mart
mælt til kosta:
hagar 'ro miklir
ok hjarðir sauða,
gnótt vínviðar
ok vöxtr hveitis".

196. "Hallæri þar
hvergi kemr,
nè skæð sótt
skötnum grandar.
En ef í bygð
bragna kindir

hárar verða
ok heldr gamlar:"
197. "Svífr svipliga
silfrinbogi
Appolon at þeim
með Artemísi,
ok beimum
bana veitir
hægan hægum með
hvítmýlíngum".
198. "Þar 'ro borgir tvær,
er bygð allri
mjök svo meðal sín
miðlat hafa.
Báðum borgum þeim
með buðlúngs nafni
rèð ríkr faðir minn,
rögna jafnmaki,
Ektesíus
Ormenusson".
199. "Þar byrðíng einn
bar at landi,
stýrðu Feníkar
fleyjum kunnir,
rekkar refjóttir,
ok reiða knáttu
glyss of gnótt
á græðis hesti".
200. "Var fenísk ein
Freyju tára
fögr fold
at föðurhúsum;
sú var væn mær
ok vexti mikil,
kunni hannyrðir
harðla fagrar".
201. "Þá Feníkar
firnum slægir
gullhlaðs gná
of glepja knáttu.
ϱ. XV, 409-430.

þýddist þeirra nokkurr,
er hún at þvotti var,
við skip niðri,
skarlats nönnu".
202. "Við nam beð
ok blíðu deila
hleypir hlunnjós
hildi refla:
þat getr glapit
gullskorð breiska,
enn þótt valit víf
vera kunni".
203. "Frètti farmaðr
falda lindi,
hver hún væri,
ok hvaðan komin;
en þýð mær
þegar vísaði
honum á háþakt
hús míns föðurs".
204. ""Tel ek mèr sóma
(kvað silkinanna),
at ek barnfædd emk
ok borin í Sætt,
setri eirauðgu
Sídonsmanna.
En ek emk
eingadóttir
Arýbants
hins ofrfjáða"".
205. ""Ræntu mik týhraustir
Taffeyíngar,
ernir víkíngar,
er ek af akri gekk,
híngat mik fluttu,
hèr mik seldu
fullu verði við
veri þeima"".
206. "Aptr annsaði
auðar þellu

gumi, sá er gulls eik
of glapit hafði:
""Lystir þik eigi
lýsigulls norn,
heim með oss aptr
til húss venda?""
207. ""At hátimbrat
hús aptr þú
föður ok móður
fáir líta;
ok þau sjálf sjá,
því sannliga þau
eru enn lífs,
ok auðug kallast"".
208. "Enn til orða tók
auðar þella,
ok honum aptr
annsvar greiddi":
209. ""Vel má þat vera,
ef þèr vilit mèr
trygðir vinna
ok trúnað festa,
skipmenn, eiði með,
at þèr skulut mik
heila heim flytja
til húsa föður"".
210. "Mælti svo marglát
menja hildr,
en þeir eið unnu,
sem hún inti til".
211. "En sem þeir svo
svarit höfðu
ok eiðstaf
unnit fullan,
upp hóf erindi
armbaugs þella,
ok þeim orðum þá
aptr kvaddi":
212. ""Hagit hljóðlega
háttum yðrum,
látið allt leynt,
at lofðar nè viti.
Nè nokkurr yðvarr
nokkru sinni
orði nè einu
á mik verpi"".
213. ""Hvort sem mæti mèr
mitt á stræti,
eða hitti mik
hèr at brunni;
síðr guma nokkurr
gángi til húss,
ok aldrænum öðlíngi
uppskátt geri"".
214. ""Því hinn gamli maðr,
ef hann grun í rennir,
mun hörðum mik
hepta fjötri,
ok yðr láta
öllum saman
æfitjón búit
ok aldrtila"".
215. ""Látið at heldr
leynda fara
ráðagerð þessa,
at rekkar nè viti.
Á hitt skulut hyggja,
sem hraðast kunnit,
láta landvöru
til liðs keypta"".
216. ""En er farm hafit
á fley yðvart
fullan feingit
af foldar gæðum,
þá skulut, báru
brjótar, gera
heim til hallar boð
hvatlega mèr"".
217. ""Þá skal ek með mèr
mundum hafa

ϱ. XV, 430-448.

sem ek greipat get
grát Mardallar.
Erumk ok fýst,
yðr farkaup annat
í lófa leggja,
ef ek leggja mætta'k"".
218. ""Hefir horskr jöfurr
mèr í hendr selt
til fóstrs son sinn
í sölum hallar.
Sá er svinnr sveinn,
ok svo frár orðinn,
at mik út eltir,
þá út ek fer"".
219. ""Þann vil ek knapa
til knarar leiða;
ofafè yðr
hann afreka mun,
hvargi er hann
á hauðri vilit
ýtum útlenzkum
aptr selja"".
220. "Nú er siglis Sif
sagt þat hafði,
hún heim gekk
til hallar sala.
En þeir árleingis
með oss dvöldu".
221. "En er hlaðinn var
hlunna fákr
ok fagrt flaust
til farar búit,
þá rèðu þeir heim
þegn at senda,
Bil linnveingis
boð at færa".
222. "Kom kyndugr
karlmaðr einn
heim til föður míns
húsakynna.
Sá í höndum hèlt
á hálsfesti,
rauðum logandi
rínar eldi,
lýsigulls settri
ljósum köflum".
223. "Handlèku húskonur,
handlèk móðir
hálsfesti hagliga
í hallar sölum;
fóru um fíngrum,
fíngrum þreifuðu,
augum á litu
alla vega".
224. "Konur um kostgrip
kaupmánguðu,
en karl í kyrrþey
konu báknaði,
brá við síðan,
er báknat hafði,
ok ofan aptr gekk
at unnar dýri".
225. "En hrund handfögr
í hönd mèr tók,
ok út úr herbergjum
hógt mik leiddi.
Fann flóðhyrs njórunn
í framhúsi
skutla skafna,
skálar dýrar".
226. "Var von gesta
í vorum sölum,
þeirs föður minn opt
finna komu;
en þá voru þeir
til þíngs geingnir,
ok við landslýð
lögðu ræður".
227. "Þreif borðker þrjú
þöll í snatri,

ϱ. XV, 448-469.

ok þeim laumaði
und laf kápu,
bar svo á brott,
en ek brúði fylgða
út í einfeldni,
því ek úngr var'k".

228. "Þá sæl settist
sól í ægi,
ok hnè húm
yfir hauðrs vega;
en auðnorn ok ek
ofan komum
at höfn hvatliga,
því hratt vit geingum".

229. "Flaut þar um festar
fákr lagar
fíra feníska,
flóð rennandi;
lètu lofðar okkr
á lögdýr gánga,
ok sjálfir síðan
á sætrè stigu".

230. "Sigldu seggir þá
súða viggi
(Seifr sendi byr)
of svalar unnir;
sigldum samfleytt
í sex dægr,
dimma draumnjórun
ok dag ljósan".

231. "En er loks lèt
á lopt upp renna
Seifr Kronusson
hinn sjönda dag,
þá nam Artemis
hin örumglaða
skjóta skyndila
skarlats Freyju;
ok hún ofan skall
í austr niðr,

(höfuð varð undir)
sem hafsúla".

232. "Urpu þeir útbyrðis
ormvángs hildi,
selum at bráð
ok sævar fiskum.
En ek einmana
var eptir látinn,
hryggr í hug
af harmi stórum".

233. "En vinds megin
ok vaztir strángar
at Íþaksey
upp þá ráku.
Þar Laertes
lèt mik verði
fyrir fè sitt
fullu keyptan".

234. "Svona, gestr sæll,
sinn hit fyrsta
Íþakseyjar land
ek augum leit'k".

235. Inti öðlíngr
Odysseifr,
ok honum aptr
annsvör greiddi:

236. "Hefir þú, Evmeus,
öllúngis mitt
hjarta hrært
í hugar fylgsni,
er þú tjár fram
ok tínir allar
rammar raunir,
er þú reyna vant".

237. "Þó hefir Seifr þèr
sjálfr lagit
beztu bót
við böli þúngu,
alls þú, at reyndar
raunir margar,

góðs manns heimkynni
hitta knáttir".

238. "Sá þèr gefr
góðlátliga
mat ok mungát
af mildi sinni.
Máttu þakka þat
þessum manni,
at þú lífi knátt
lifa góðu".

239. "En ek híngat em
á hauðr kominn
eptir böl mart,
er ek bera hlaut'k.
Sókt hef ek bygðir
bragna margra
ok um víða vítt
veröld hrakizt".

240. Þannig skiptust við
skörúngar tveir
Evmeus orðum
ok Odysseifr.
Sváfu skamma stund
skatnar at þat,
því fljótlega
fram rèð bruna
glæst dags gyðja
í gullinreiðu.

---

241. Leystu und landi
liðar vaskir
Telemakkusar
trefjur húna,
lögðu lauk skjótla,
ok í lendíng upp
unnar elgviðni
árum rèru.

242. Urpu stjórum
úr stafni framan,
ok skutfestar
skatnar bundu;
stigu sjálfir svo
af siglu dýri,
þar er lagar lá
lèk við sanda;
ok dagverð þar
dreingir bjuggu
ok skírar veigar
í skálum blendu.

243. En er matar neytt
ok mungáts bæði,
svo sem lyst til lèk,
lofðar höfðu,
tók til orða
Telemakkus
mannvits fróðr,
ok mæla rèð:

244. "Þèr skulut beiti
til borgar róa,
en ek fjárhirða
á fold vil hitta.
Mun ek til borgar,
er ek bú mitt hefik
yfir litið,
í aptan gánga".

245. "Skal ek yðr öllum
ár at morni
veizlu veita,
ok yðr vel gæða
víni gómtömu
ok góðu kjöti;
þat skal ferðarkaup
flotna vera".

246. Varp þá orðum á
öðlíngs niðja
Þeóklýmenus
hinn þjóðmæri:

247. "Hvert, sonr sæll,
sinna ek skal?

Hvern skal ek gista
göfgra manna,
þeirra er Íþaksey
allfjöllóttri
yfir drottna
ok dróttum stýra?
Eða gagngjört
gánga ek skal
til eiginna þinna
ok eiðu sala?"
248. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok orðum hans
annsvör veitti:
249. "Ef öðruvíss
ástatt væri,
skylda'k vísa þèr
at vorum sölum;
nè vant þèr
vera skyldi
góðs gestbeina
í garði þeima".
250. "En slíkt mundi síðr
þèr sjálfum gegna
alls ek við staddr
eigi vera má'k;
ok móðir mín
mun eigi heldr
til fundar við þik
fara mega".
251. "Sýnir-a sik
í sal biðlum
með jafnaði
jöfurs rúna.
Firrist fund þeirra,
en fagran vef
vefr í loptsal
lofðúngs beðja".
252. "Mun ek vísa þèr
á ver annan,

ϱ. XV, 509-528.

er þú gistíng hjá
geta megir:
Evrýmakkus,
arfa frægan
Polýbuss
hins prúðlundaða;
á hann allir,
sem einhvern goða,
Íþakseyjarmenn
augum vísa".
253. "Sá er lofða allra
láng-göfgastr,
ok í mun mest
þeim manni leikr,
minni móður
með at gánga
ok mæts Odysseifs
metorði ná".
254. "En einn veit þat Seifr,
hinn ólympski guð,
sá er skatyrni
skíran byggir,
hvort dag dapran
dragast láti
undan brullaupi
yfir biðla höfuð".
255. Þá flaug fugl einn,
er þat fylkis son kvað,
til hægri handar
hilmis kundi.
Þat var smyrill,
smó loptvegu,
allskjótr Appolons
erindreki.
256. Hann í klóm hèlt
hremmdri dúfu;
fèllu fjaðrir,
er hann fiðr reytti,
jarðar til
milli jós blámærar

ok Telemakkus
hins tírargjarna.
257. Þeóklýmenus
þá nam kalla
á eintal öðlíngs son,
öðrum fjarri;
tók í hönd hans,
hugði at máli,
upp hóf erindi,
ok þat orð um kvað:
258. "Flýgr-a fugl sjá
til farvegs hægra,
Telemakkus, þèr
án tíva ráði.
Þekkta ek þegar,
er ek þann fugl sá'k,
at forynju nokkurr
fugl þat mundi".
259. "Eingi ætt stendr
allsendis nær,
en kynkvísl yður,
konúngdómi,
á Íþaksey,
því í yðrum mun
knèrunni jafnan
kóngstign haldast".
260. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok orðum hans
annsvar veitti:
"Gjarna ek vilda,
gestr, at þat
orð þitt yrði
at áhrínsmáli".
261. "Þá skyldir þú,
ef þat yrði,
frá mèr góðs njóta
ok gjafa margra;
þá skyldi þegn hverr,
er þik hitti,

ϱ. XV, 528-547.

ávallt orðræma
auðnu þína".
262. Inti svo öðlíngs son
ok orðum kvaddi
Píreus, svein sinn,
sveina trúastan:
263. "Kæri Píreus
Klytíusson,
þú hefir minna
mèr æ verit
eptirlátastr
allra sveina,
þeirra er á för minni
fylgð mèr veittu
prýðilegri
frá Pýlusborg".
264. "Ver mèr nú enn eins
eptirlátr!
Haf heim með þèr
ok halt þenna gest,
uns sjálfr ek
síðarr til kem.
Tak honum vel
ok virðuliga!"
265. Annsaði aptr
öðlíngs syni
spjótfimr Píreus,
ok spekju vakti:
266. "Þó tefja vilir,
Telemakkus,
lánga leingi
hèr á landsbygð úti,
gest skal ek hýsa
ok honum veita
beina blíðastan,
svo at bresta skal-at".
267. Þá lèt hann þegar,
at því mæltu,
á fley upp farit,
ok fèlaga bað

á streingmar stíga,
streingi leysa,
ok skutfestar
skjótt upp heimta.
268. Skatnar skjótlega
á skip stigu,
ok þrekramir
á þóptur settust.
En Telemakkus
týframr lèt
ilskó fagra
sèr und fætr bundit.
269. Ok lofðúngs kundr
úr lyptíngu tók
atgeir sterkan,
yddan framan
bitrum eirbroddi;
en bragnar leystu
skutfestar skips
ok skjótt upp heimtu.

270. Lofðar lögfáki
frá landi ýttu,
ok unnar elg öttu
inn til borgar,
svo sem tjáð hafði
Telemakkus,
öðlíngs Odysseifs
ástkærr sonr.
271. Fór af stað frægr
fylkis niðr,
ok gekk greiðliga,
uns at garði kom.
Þar voru hundruðum
hjarðir svína;
þar vanr var
vörðr galta
at svínum sitja,
seggr hinn góði,
húsbændum holli
ok hjartaprúði.

---

# SEXTÁNDA KVIÐA.

Upp lètu eld
á arni kveiktan,
ok dagverð bjuggu,
þegar er daga tók,
inni í bæ
þeir Odysseifr
ok salvörðr svína
hinn svinnhugaði.
2. En hirðíngja
horskir sendu
í haga út
með hjarðir svína.

Gekk þá grams sonr
at garði þinnig,
Telemakkus
hinn tírargjarni.
3. Gerðu-t gelta
rakkar geysamir,
díngluðu rófum
at ræsis kundi.
Varð þess áskynja
Odysseifr
(heyrði hljóð fóta),
at hundar flöðruðu.

ϱ. XV, 548-557.

4. Vita þóttist
vísir glöggþekkinn,
at var guma nokkurr
at garði kominn;
ok allskjótt
at Evmeus lèt
vitr vænghröðum
vikit orðum:
5. "Víst, Evmeus,
einhver þinna
kemr kompána
eðr kunnmanna hèr.
Gera-t grey geyja
at guma komanda
(heyri'k hljóð fóta),
heldr flaðra".
6. Voru-t orð þau öll
á enda tölut,
þá inn ástkæri
öðlíngs kundr
stóð við fordyri.
En fæðir galta
upp stökk, af undrun
allr tekinn.
7. Hrutu höndum
hirði valgalta
ölgögn úr,
er hann á nam halda,
þá er skært vín
skörúngr blett;
hljóp hann hvatt út
móti herra sínum.
8. Höfuð kysti hann
hilmis kundar
ok blys bæði
brúna fögr,
svo ok hönd hvora,
en af hvarma ljósum
dundu döggfagrir
dropar kinna.
ϱ. XVI, 7-26.

9. Svo sem fjölfúsum
faðir niðja
ástúðarfullr
örmum vefr,
einka-arfa
ástfólginn sèr,
þann er ól hann um
önn margfalda:
10. Þá er síþreyðr
sonr hefir
útivist alit
ærit lánga,
ok ept tvenna
tugi ára
aptr fjarri frá
foldu kemr;
11. Svo nam tiggja son
tívum líkan
vörðr valgalta
hinn valinkunni
allan umfaðma,
allan kyssa,
svo sem heimtan hefði
af heljar þremi;
ok hjúfrandi lèt
á hilmis arfa
orðum vænghröðum
vorpit þeima:
12. "Sæll emk, svasa ljós,
at ek sè þik aptr,
Telemakkus,
til vor kominn.
Hugða'k aldreigi
munda'k þik optarr líta,
síztú á beiti fórt
til borgar Pýlverja".
13. "Inn þú nú gákk,
ástmögr dýri,
at í geðs grunni
gleðjast mega'k,

er ek augum lít
aptr kominn
þik í húsi heima
frá hálfum fjarrum".

14. "Er-a títt þèr
til hjarðmanna
á landsbygð út
leiðir kanna.
Þikkir betra þèr
borgar innan,
dýrr mögr döglíngs,
dvalar eiga".

15. "Svo er þá orðit,
öðlíngs kundr,
hjarta hagfelt
ok huga þínum:
biðilmanna
bölvafullra
ofríkis urmul
á at horfa".

16. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok honum aptr
annsvar veitti:

17. "Svo skal, faðir sæll,
um sinn vera;
því at þinna vegna
em ek þinnig kominn,
at ek sjálfan þik
sjónum leiða'k,
ok af sjálfum þèr
sagnir nema'k:"

18. "Hvort móðir muni
mín enn dvelja
heima kyr
í hallar sölum;
eða hafi þegar
hölda nokkurr
ítra öðlíngs kvon
eiga geingit,

ϱ. XVI, 26-44.

ok rúmklæðum rúin
rekkja Odysseifs
kaungulvafna vef
vorpin standi".

19. Annsaði aptr
öldurmaðr,
salvörðr svína,
siklíngs kundi:

20. "Víf at vísu
við enn þá hefst,
ok þreyr þolinmótt,
í þínum sölum;
en sorgmóð kona,
sútum vafin,
laugar andlit æ
unnum hvarma;
líða svo daprar
döpru sprundi
dimmar nætr
ok dagar ljósir".

21. At svo sögðu
svína gætir
tók við grams sonar
geir eirreknum;
en stillis son stè
of steinþröskuld,
ok inn í hús gekk
hirðis galta.

---

22. Vèk úr sæti,
þá er vísis son kom,
faðir Odysseifr
fyr arfa sínum.
Tók þá til orða
Telemakkus,
vildi-t gest láta
víkja úr sessi:

23. "Sittú, sæll,
munum sess annan

finna greitt, gestr,
í garði mínum.
Hèr er seggr sá,
er mèr sessa kann
ok sæti velja
í sínu ranni".
24. Inti svo öðlíngs son,
en þá aptr rèð
svinnr Odysseifr
til sætis gánga.
En salvörðr svína
í set nam leggja
undir lim laufgrænt,
lèt efst gæru.
Þar svo settist
siklíngs kundr,
ítrs Odysseifs
ástkærr mögr.
25. Setti svínhirðir
fyrir seggi fram
diska, steikts kjöts
stykkjum fulla;
þat voru krásir,
er at kveldverði
lofðar fyrra dags
of leifðar höfðu.
26. Brá við skjótt
ok brátt fram lagði
karfir hrokaðar
af hveitibrauði,
ok hunángsætt
hirðir galta
í viðvindils skál
vín rèð blanda.
27. Ok svínhirðir sèr
sæti valdi
annspænis ágætum
Odysseifi.
Ok halir þegar
hendr rèttu
ϱ. XVI, 44-64.

at fram reiddum
rètta gnóttum.
28. En er matar neytt
ok mungáts bæði
svo sem lyst til lèk,
lofðar höfðu,
þá nam svinnan
svína gæti
Telemakkus svo
taka máli:
29. "Hvaðan, faðir sæll,
er hinnig kominn
halr inn ókunni,
er ek hèðra sèk?
Hví hafa hann
á hauðr Íþöku
flotnar fluttan
á fleyi sínu?
Hverir látast þeir
lofðar vera?
Vík ek svo orðum,
því víst mun hann ei
híngat á fæti
farit hafa".
30. Svaraði Evmeus
svína gætir,
ok þeim orðum hann
aptr kvaddi:
"Glöggliga, sonr,
skal ek greina slíkt,
ok þèr upp inna
allt af lètta".
31. "Þat gestr sjá
sèr til gildis telr,
at hann kynjaðr sè
frá Krítareyju.
Kveðst hann til margra
manna bygða
hvarflat hafa
á hrakníngi.

þau hefir forlög
fyrir hann lagt
einnhverr eilífra
uppheims goða".
32. "Strauk hann af stúfi
strindar svana,
þeim er þesprota
þegnar áttu,
ok híngat til minna
híbýla kom.
Læt ek nú hal þann
þèr í hendr seldan,
en þú háttum haga,
sem þik hugr beiðir;
læzt hann líknarmaðr þinn,
lofðúngs son, vera".
33. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok honum aptr
annsvör veitti:
34. "Heldr í hjarta
hug minn særir
orð þat, Evmeus,
er þú inna rètt!
Því hversu má ek
í höllu minni
gesti þeima
gistíng of ljá?"
35. "Emk á úngs manns
aldri sjálfr,
nè handmegin hef'k
hvergi nær enn,
málmþíngs móða
móti verjast,
þeim er fjandskap mèr
fyrr of byði".
36. "En móður minni
í munar grunni
hugr á hvörfum
helzt leikr um þat,

hvort beð bónda síns
brúðr skuli
rækja, ok ríkan
róm almanna,
ok hjá mèr heima
hèr svo dvelja
buðlúngs sölum í
bús at gæta".
37. "Eðr skuli hún þegar
með skatna nokkrum
akkneskra gánga
hinna ágætustu,
þeim er brúðar biðr
í buðlúngs sölum
ok flestar brúðgjafir
bjóða gerir".
38. "En gest þenna,
er at garði þínum
er frá útlendum
álfum kominn,
hann skal ek fötum
fögrum klæða,
kápu góðri
ok kyrtli vænum".
39. "Skal ek fá honum
skó á fætr,
ok tyrfíng í hönd
tvíeggjaðan,
ok hann á flausti
flytja láta,
hvert sem hug hans
ok hjarta lystir".
40. "Eða halt honum hèr,
ef þú svo heldr vilt,
ok um hann annast
at inni þínu;
þá skal ek híngat
honum senda
föt at fara í
ok fæði allt,

at þeygi þèr
til þýngsla verði
með setu sinni,
ok sveinum þínum".

41. "Frá vil ek ráða,
at hann fari þinnig
til borgar inn,
þars biðlar eru;
því helzti mikill
hölda þeirra
ofstopi er
ok yfirgángr".

42. "Á er mèr uggr,
at ofjarlar þeir
móðgi meinsyrðum
mann útlendan.
Þá mun af þvísa
þeygi lítil
skapraun skapast mèr
skatna æði".

43. "Bágt er einum,
þótt allvaskr sè,
málmþíngs móða,
er með mörgum kemr
seggjum, nokkut
at sök hafa;
því at maðr eingi má
við marginum".

---

44. Þá nam orð inna
öðlíngs syni
Odysseifr,
sá er ýmist reyndi:
"Vilda ek, vinr,
ef mèr veitast mætti
orlof umræðu,
orð til leggja".

45. "Sárnar mjök mèr
(at ek mæla satt)
hugr ok hjarta,
er ek heyri'k sagðar
óhæfur allar,
er í öðlíngs sölum
frekir ok forsfullir
fremja biðlar,
ok virða vettugis,
vísis son, þik,
mannborligan svo
ok mannvænligan".

46. "Seg mèr, hvort þú
sjálfviljandi
kúgast lætr
ok kiknar fyrir,
eða fjóna þik
firða kindir,
raust rækjandi
ríkra tíva".

47. "Eða hefir þú nokkurt
á hlýrum sambornum
efni ákæru,
at þú eiga þikkist;
því hlýrum til hjálpar
í hildar veðri,
þótt málmhríð magnist æ,
menn treysta bezt".

48. "Væra ek enn
at aldri jöfnum,
ok hug þann hefða'k
er ek hefi nú;
eða væra'k Odysseifs,
hins ítrborna
siklíngs, sonr,
eða sjálfr hann:"

49. "Þá mætti maðr
mèr útlendr
höfuð frá herðum
hjörvi sníða,
ef ek eigi inn
í Odysseifs sal,

arfa Laertess,
árna skylda'k,
ok öllum þeim
innan hallar
skjótan at bragði
skaða vinna".
50. "Ok þó einan mik
ofrliði
bæri biðla fjöld
í buðlúngs sölum,
vilda'k heldr
í húsi míns sjálfs
dauðr á velli
drepinn liggja:"
51. "Heldr en horfa
hverjum stundum
ósóma á
allan þenna,
færða í reikuð
fíra ókunna,
ok salkonur
til svívirðínga
hraktar ok hrjáðar
í hallar sölum".
52. "Út sjá í ógegnd
ausit víni,
ok miklum mjök
matvælum eydt,
etin upp endalaust,
í óhófi,
allfrekliga,
svo aldrei linnir".
53. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok honum aptr
annsvör greiddi:
"Glöggliga, gestr,
skal ek greina slíkt,
ok upp þèr inna
allt af lètta".
ϱ. XIV, 104-124.

54. "Hvorki fjóna ek
firða kindir,
nè alþjóð manna mèr
til miska gerir;
nè á hlýrum heldr
hefi'k nokkurt
efni ákæru,
at ek eiga þykimst:
alls hlýrum til hjálpar
í hildar leiki,
þótt málmhríð magnist æ,
menn treysta bezt".
55. "Því svo hefir einskipat
ættlegg vorum
æðstr uppheims guð,
arfi Kronusar:
ól Arkisíus
einan sona
lofðúng Laertes
í lýða sölum".
56. "Odysseif aptr
ól Laertes
einan sveina
í sölum hallar,
en Odysseifr
mik einan lèt
heima í höll,
ok mín hvergi naut.
Því er nú ótallig
illviljaðra
manna mergð
í mínu ranni".
57. "Því allir þeir,
er eyjum ráða,
dýrir drottnar,
Dúlikseyju,
Sámsey, myrkviði
Sakyntseyjar,
ok Íþaksey
afarbrattri".

58. "Minnar þeir allir
móður biðja,
ok búsifjar
bágar veita.
En hún hvorki
hvimleiðum gerir
ráðahag níta,
nè raun á vinna".

59. "En þeir upp eta
eigur mínar,
ok okkru
eyða búi;
ok meirr mèr
munu sjálfum
bráðum í heima
báða sýna.
En þat mun á ráði
ríkra tíva,
hversu hlutir þeir
í hendi snúast".

60. "Far nú, faðir sæll,
sem fljótast máttu,
ok prúðlyndri seg
Penelopu,
at ek heill ok hraustr
sè heim um kominn
aptr breiðri frá
borg Pýlverja".

61. "Mun ek þín hèr
á meðan bíða,
en þú hverfa skalt
hinnig aptr.
Fær eingum frètt þá,
nema fylkis brúði;
annarr Akkverja
má eingi vita.
Því at margir til mín
málmþíngsamir
illan hug hafa
hlynir vopna".

ϱ. XVI, 125-145.

62. Svaraði Evmeus
svína gætir,
ok þeim orðum hann
aptr kvaddi:
"Veit ek gjörla,
hversu við horfir;
þarf-a segja mèr,
þat er sjálfr skynja'k".

63. "Get enn eins,
grams son, fyr mèr,
ok grein glöggliga,
at gjörla skilja'k:
hvort ek um leið skal
Laertesi,
veslum buðlúngi,
boðskap færa".

64. "Meðan inn aldræni
ángri stóru
hvarf Odysseifs
harma gerði,
fór opt öðlíngr
akrverk sjá,
ok í húsi
með heimaþrælum
neytti matar,
neytti drykkjar,
nærgi er í brjósti
beiddist hjarta".

65. "En upp frá því
at á unnar skíði
klauftu báru braut
til borgar Pýlverja,
kveða-t hann eta,
kveða-t hann drekka,
sem fyrr var vant,
nè um verknað gánga;
sitr með ekka
ok andvörpum
hilmir hjúfrandi,
en hjaðna náir

hold ok hams
á hildíngs líki".
66. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok honum aptr
annsvar veitti:
"Hörð er harmsaga,
en vèr hvergi munum
boð honum birta,
þótt oss böl ángri".
67. "Ef völ ætti
virða kindir
allt at öðlast,
er þeir æskja vildi:
alls fyrst, at faðir minn
til föðurjarðar
aptr heim kæmi,
óska mundim".
68. "Því skaltu, Evmeus,
aptr hverfa,
þá er þú boðskap
birtan hefir
móður minni,
nè til míns afa
leiðir leggja skalt
á landsbygð út".
69. "Seg heldr móður,
at hún senda láti
húss-matselju
sem hvatast á laun;
sú skal aldrænum
öðlíngi láta
boðskap kynntan
um komu mína".

---

70. Svo mælti svinnr
siklíngs arfi,
ok ferðar kvaddi
fæði galta;
en sóla sína
svínhirðir tók,
batt sèr und fætr,
ok til borgar stefndi.
71. Varð Aþena
vís þess bráðla,
at úr garði var geinginn
gætir svína;
ok hún at bæ bráðla
brautir renndi.
72. Var þá í vexti
veglig gyðja
ítri áþokkuð
auðar þellu,
sýnum fríðri,
faunguligri,
vænna hannyrða
vel kunnandi.
73. Stóð hún beint gegnt
bæjar dyrum,
einum sýnilig
Odysseifi,
nè Telemakkus
tíginnar varð
gyðju varr,
nè gat at líta;
því at öllum eigi
uppheims guðir
bersýnt birtast
börnum manna.
74. Sá hana Odysseifr,
sáu hundar
gyðju glæhvarma,
geyja nè knáttu,
heldr ýlandi
annars vegar
innan um bæ
allir þutu.
75. Báknaði brúnum
bjarteyg gyðja;

ϱ. XVI, 145-164.

skildi þat öðlíngr
Odysseifr.
Steig stillir þegar
úr stofu fram,
ok at hávum gekk
hallargarði.

76. Nam staðar stillir
fyrir sterkri gyðju,
en Aþena öðlíng
orðum kvaddi:
"Lofsæll lofðúngr,
Laertesson,
mærr Odysseifr
hinn margbrögðótti!"

77. "Nú skaltu þegar,
þeingill, hefja
orð við arfa þinn,
ok eingu leyna.
Þit skulut báðir
biðlum öllum
bana búa
ok bráða feigð".

78. "Þá skulu þit
at því gjöru
til borgar inn
báðir gánga.
En ek mun eigi
frá ykkr leingi
burtu vera,
því ek böðfús emk".

79. Mælti mál þat
móðug Aþena,
ok spakan hilmi snart
með sprota gullnum.
Lagði hún fyrst
um lofðúngs bríngu
kyrtil ok kápu
kappsvel þvegna,
ok úngligra lèt
öðlíng verða
ok vöxtuligra
á velli at sjá.

ϱ. XVI, 164-183.

80. Dökknaði holdslitr
á hniflúngi,
ok kinnfiskar
í kinnum uxu;
ok kinnskógr
kjálka sterka
buðlúngs blásvartr
breiddist yfir.

81. Aptr hvarf aldýr
uppheims gyðja,
er hún afrekat
allt þat hafði.
Inn gekk aptr
Odysseifr í bæ;
þá varð arfi hans
undrun fánginn.

82. Augum hann vendi
veðrs annars til,
því hann hræddr var,
at hèr of sæi
einhvern eilífra
uppheims goða.
Ok grams sonr
at gesti þá lèt
orðum vænghröðum
vikit þeima:

83. "Sýnist þú, gestr,
at sýn mèr vera
maðr allt annarr,
en þú áðr vart;
ásýnd er önnur,
önnur klæði,
vaxtarlag annat,
en verit hefir.
Muntu vera víst
vea nokkurr,
þeirra er víðbláin
víðan byggja".

84. "Miskunna mèr,
at vèr megim færa
þægiligar þèr
þakkarfórnir,
ok gullnar gjafir,
gervar vandla.
Virztu vægð oss
ok vorkunn sýna!"

85. Aptr annsaði
öðlíngs kundi
Odysseifr,
sá er ýmist reyndi:
"Emk-a ek guð!
Hví mik glíkir þú
ódauðligum
uppheims tívum?"

86. "Emk allr annarr,
emk ái þinn,
sá er fyr hans skuld
með harmi þúngum
þú hefir þreyð
ok þolat margar
móðganir manna
ok meingerð ýta".

87. En er mildíngr
mælt þat hafði,
ástkæran öðlíngr
arfa kysti.
Tár á fold fèllu
af fylkis kinnum,
þau ávallt áðr
hafði inni byrgt.

88. En Telemakkus enn
trúa gerði-t,
at sinn sjá væri
sannr faðir.
Ok endr um lèt
orðum þeima
á hann orpit,
ok inna rèð:

ρ. XVI, 184-203.

89. "Ert-attu faðir minn
Odysseifr,
heldr gabbar mik
guða nokkurr,
at ek enn tíðar
tár um fella,
at ek enn óðar
öndu verpa'k".

90. "Því mennskra manna
mundi-t nokkurr
af sjálfs síns
svinnri hyggju
atvikum slíkum
orka mega:
nema sjálfr guð,
ef hann svo lystir,
getr guma hvern
gert af bragði
úngan ok aldinn
auðvelliga".

91. "Vartu fyr stundu
vorpinn aldri
ok klæðum klæddr
kostalausum;
nú ertu guðum
glíkr orðinn,
þeim er víðbláin
víðan byggja".

92. Svaraði svinnr
svinnum arfa
mildíngr Odysseifr,
hinn margbrögðótti:

93. "Sæmir þèr trauðla,
Telemakkus,
þóttú heima hittir
horskan föður,
attú um of
sèrt undrlátr,
eða kyni þik,
þótt hann kominn sè".

94. "Því aldrei mun annarr
Odysseifr
híngat heim þín
til húss vitja,
utan ek,
er þú nú augum lítr,
þannig háttaðr,
sem þú mátt nú sjá".

95. "Hefir ek ratað
í raunir harðar
ok um veröldu
víða rekizt,
ok nú emk
aptr kominn
ættjarðar til
á ári tuttugta".

96. "En umskiptum þeima
orkat hefir
feingsæl Aþena
furðuligum;
hún, þá er hugnast
henni, bregðr
mèr í mynd hverja,
því hún máttug er".

97. "Lætr mik ýmist
líkan verða
fátækiligum
förumanni;
ýmist úngligan
aptr gerir
skrúði skrýddan mik
skartsamligu".

98. "Því at auðvelt er
uppheims goðum,
þeim er víðbláin
víðan byggja,
veglegan gera
ver dauðligan,
ok óvegligan
öðru sinni".

ϱ. XVI, 204-223.

99. Settist siklíngr
at svo mæltu,
en Telemakkus
tárughlýra
örmum faðmaði
föður góðan,
ok hvarma dögg
hörmugr jós.

100. Brauzt um í brjósti
báðum feðgum
sár sorgarfýst,
syni ok föður.

101. Hástöfum grètu,
hærra þeir lètu,
en sævar-ernir
í sjáskorum,
eða klóbjúgir
í klettum gammar
þegar frá þeim
hafa þegnar tekit
únga fiðrvarða,
áðr fleygir yrði:
þannig báðir tveir
af brám jusu
tárum tíðliga
með trega stórum.

102. Mundu þar gumar tveir
hafa grát magnat,
uns sezt hefði
sól í ægi,
nema föður sinn
fljótt hefði kvadt
Telemakkus,
ok talat þannig:

103. "Hverjum híngat þik,
faðir hjartkæri,
fluttu flotnar nú
á flæðar mari
Íþakseyjar til
aðalstöðva?

Hverir látast þeir
lofðar vera?
Vík ek svo orðum,
því víst muntu ei
híngat á fæti
farit hafa".
104. Aptr annsaði
arfa sínum
Odysseifr,
sá er ýmist reyndi:
"Sannleik skal ek þèr,
sonr, inna,
ok uppskátt gera
allt it rètta".
105. "Fluttu mik Feakar
á fold hinnig,
fjarðelgs förum
frægir höldar.
Veita þeir virðum,
er þeirra á vit koma,
flutníng beinan
ok farargreiða".
106. "Þeir mik á hvötum
hlunna mari
um sæ sofanda
seggir fluttu,
ok á láði þvísa
í land settu".
107. "Gáfu mèr gumar
gersima fjöld,
eirmálm, unnar ljós
ok ofin klæði.
Eru gripir þeir
geymdir allir
í hellum, at ráði
ríkra guða".
108. "Híngat ek em
til húsa kominn
eptir Aþenu
undirlagi,

at einir vit
ásamt mættim
bölvinnendum
bana ráða".
109. "Heill svo, herm mèr nú
hölda meingi,
ok tölu biðla
tjá mèr allra,
at ek meta mega,
hve þeir megi sèr,
ok marka mega,
hvat manna þeir sè".
110. "Ok ek skynja mega'k,
er ek skoðat hefi'k
í hjarta höllu
hug um vandla,
hvort við einir tveir
án ýta geingis
megna munim
móti at standa,
eða skylim vit
skatna annarra
tènaðar leita
ok trúrrar fylgju".
111. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok honum aptr
annsvör greiddi:
112. "Heyrða ek, faðir,
hvervetna þèr
vera við brugðit
af verum jafnan,
jafnt af harðfeingi
í hildar leiki
ok reyndri ráðspeki
í ráðagerðum".
113. "En þú of frekt nú
at orði kvatt!
Stórum undrumst ek!
Því at aldreigi mun

tveim mönnum takast,
törgu veðr
heyja í herfjöld
hreystimanna".

114. "Er-a tugr einn,
ef telja skal grannt,
nè tveir einir tugir
tala biðla.
Meira miklu
er meingi þeirra.
Hèr skaltu heyra
hölda tölu".

115. "Er frá Dúliksey
dreingja vaskra
tugir fimm
ok tveir menn betr.
Þeir 'ro verar
valdir allir,
ok þjónar sex
þessum fylgja".

116. "En frá Sámsey
seggir eru
fjórir ok tuttugu
fundnir snjallir.
Ok Sakyntsey
senda hefir
tuttugu akkneska
tjörgu meiða".

117. "En frá Íþaksey
eru sjálfri
tólf alls týrviðir
tiginbornir.
Medon kallari
með þeim er samt,
ok signdr í hugum
saungvamaðr;
þessum tveir fylgja
þjónustumenn,
þeir kunnu kníar
krásum deila".

ϱ. XVI, 244-263.

118. "Ef vit öllum þeim
urmul móti
halda hyggjum,
þeims heima er fyr,
þá munu hefndir
harma þinna
sárar ok svarar
verða sjálfum þèr".

119. "Hygg at heldr,
ef í hug þèr megi
aðstoðarmaðr
einnhverr koma,
sá er okkr
af einlægum hug
vili vígsgeingi
veita báðum".

120. Aptr annsaði
arfa sínum
Odysseifr,
sá er ýmsu vandist:
"Inna vil ek þèr
ætlan mína,
en þú orð mín heyr,
ok at þeim hygg".

121. "Hygg at, ef sjálfr
Seifr faðir
ok Aþena muni
okkr nægja;
eða eiga ek
annan nokkurn
aðstoðarmann
upp at hugsa".

122. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok honum aptr
annsvar veitti:
"Góðar bjargvættir
eru bæði tvö,
þessi er þú
þar til nefndir".

123. "Hafa þau hásæti
hátt í skýjum,
ok yfir öllum
öðrum ráða,
yfir mennskum jafnt
manna kindum,
sem ódauðligum
uppheims goðum".
124. Aptr annsaði
arfa sínum
Odysseifr,
sá er ýmist reyndi:
125. "Munu-a tvö þau
tíma lángan
fjarri vera
vopna sennu,
þegar er meðal
mín ok biðla
í höll minni
hildr þróast".
126. "Nú skalt þú heim
til hallar fara,
þegar er ljós dags
á lopt upp rennr.
Þar skaltu, sonr,
í sölum mínum
hjá borginmannlegum
biðlum vera".
127. "En sjálfan mik
skal svína hirðir
eptir á leiða
inn til borgar,
aumligum líkan
ok ellihrumum
fátæklíngi
ok förumanni".
128. "Biðlar mjök mik
munu smána,
ok mèr harðhnjaska,
í hallar sölum;
en þitt hjarta
veri þolinmótt
í brjósti innan,
þó ek bágt eigi".
129. "Þó mik garpar
at gólfi hallar
dragi til dyra
djarft á fótum,
ok at mèr kasti
keflivölum,
hjá þèr líða lát,
þóttú lítir þat".
130. "Þó skaltu biðja þá
með blíðum orðum
heimsku háttum
at hætta slíkum.
Munu-a þeir þó
þèr til gegna,
því of skör þeim vofir
skapadægr".
131. "Annat vil ek þik
vita láta,
þat skaltu þèr
í þeli festa,
ef þú sannliga
sonr minn ert,
ok sèrtu borinn
af blóði mínu:"
132. "Eingi maðr má
í máli heyra,
at heim sè Odysseifr
til hallar kominn:
Má-a þat vita
mærr Laertes,
nè salvörðr
svína minna".
133. "Má-a þat þræll
nè þerna vita,
nè prúð in heldr
Penelopa.

ϱ. XVI, 264-303.

Vit tveir einir
vandla skulum
kanna skap kvenna
í konúngs sölum".
134. "Kynnim vit ok
karla ánauðgra
hugi reyna,
ef ráðligt þætti,
hvort í heiðri okkr
hafa geri,
ok beig hafi
af báðum tveim,
eða hvort um okkr
ekki skeyti,
ok þik vanvirði,
svo vænligan mann".
135. Föður svaraði
sonr hinn frægi,
ok hann aptr þeim
orðum kvaddi:
136. "Muntu, faðir,
þá er fram líðr,
þel mitt þekkja
þèr til handa;
því at eigi mun ek
með öllu reynast
hverfr í hug
nè hyggjuvanr".
137. "En hugraun hina
hvorgum okkrum
hygg ek til hags
hverfa munu.
Þó bið ek þik
þat ráð betr
hug um leiða,
ef svo líkar þèr".
138. "Því leingi muntú,
þótt til lítils komi,
um sýslur seggja
svipast verða,
ρ. XVI, 304-322.

ef þú hvers hals
af hjarðar gætum
hug ok hjarta
hyggr reyna".
139. "En biðlar búi
búa á meðan
harðla makráðir
í hallar sölum,
eigum eyða,
svo yfir tekr,
gripum glata
í gegndarleysi".
140. "Þó ræð ek þèr,
at þú um kannir
hugi hrunda
í hallar sölum,
hverjar vettugis
þik virða geri,
ok hverjar af sök þeirri
sýknar eru".
141. "Hitt vil ek eigi,
at vit hölda freistim,
þeirra er hjarðir
hirða eigu,
ok bæ frá bæ
brautir kannim.
Síðar megu vit
sýsla of þat,
ef þú at sönnu
frá Seifi hafir
einhverja jarteign
ægisskjalda".
142. Þannig hjöluðu,
hvorr við annan,
mögr ok faðir
of mál þessi.

---

143. Lagði at landi
lagar fákr

Íþakseyjar við
aðalborgu,
sá er konúngs son
ok kníа hans alla
frá fríðri Pýlusborg
of flutta hafði.
144. Ok þá er voru
á vog inn komnir
málmþíngs meiðar
megindjúpan,
þá á þurt land
þegar settu
húfs gota horskir
hádýrs runnar.
145. En sveinar hugfullir
frá húna mari
herðigögn hildar
heim of báru,
ok fagrar gjafar
færðu þegar
í hús Klytíuss
ins kostum búna.
146. Ok herkallara
halir sendu
til öðlíngs Odysseifs
ítrar hallar,
þann er fregn þá
flytja skyldi
hinni prúðlyndu
Penelopu:
147. At Telemakkus,
tiggja sonr
á landsbygð úti
lèti dveljast,
en beitnárúngum
boðit hefði
á báru bersa
til borgar sigla,
svo at drottníng dýr
af döprum huga
skyldi-t fögr tár
fella af augum.
148. Mættust báðir tveir
í mund sama
herkallari
ok hirðir svína;
báðir ætluðu
beint ena sömu
fregn at flytja
fylkis rúnu.
149. Ok sem komu þeir
til konúngs húsa
ok í dýrs döglíngs
dýrar hallir,
gekk herkallari
til húss ambátta,
ok mál upp hóf
meðal þeirra:
150. "Nú er, dýr drottníng,
þinn enn dýri mögr
úr lángferð aptr
í land kominn".
151. En salvörðr svína
til sjálfrar gekk
Penelopu,
ok prúðri sagði
allt þat er ástkærr
arfi hennar
bauð honum bjartri
brúði at inna.
152. Ok er birt hafði
boðskap allan,
þann er birta bað
buðlúngs kundr,
fór svínhirðir
til svína af stað,
gekk úr garði brott
ok gylva höllu.

---

ϱ. XVI, 322-341.

153. Varð sárt biðlum
í sal hjarta,
hugr þeim hnè,
hnuggnir urðu;
stikuðu þegar
úr stofu fram
ok at hávum geingu
hallar garði.
154. Þar á sæti sik
settu niðr
frammi beint fyrir
forgarðs dyrum.
Ok þat orða þá
alls fyrst um kvað
arfi Polýbuss,
Evrýmakkus:
155. "Hefir tírfylginn
Telemakkus
stórvirki, vinir,
til vegar komit,
at hann för þessa
fara skyldi,
er vèr aldrei ætluðum
hann orka mundu".
156. "Heilir svo, hrindum
af hlunni fram
beiti biksvörtu,
þat er bezt höfum.
Veljum til ræða
í róðrs hömlur
fiskimanna fjöld,
at þeir sem fyrst megi
hinum boð bera,
at þeir sem bráðast skuli
heim aptr híngat
til hallar venda".
157. Var-at orð allt
til enda talat,
þegar Amfínómus
kom auga á skip.
Sá hann úr sæti,
er hann sèr við snèri,
hvar vigg á vog djúpan
var at leggja.
158. Leit hann seggi segl
saman taka
innan borðs,
ok á árum halda.
Þá varð horskum hal
hlátr á vörrum,
ok vini sína við
vakti ræðu:
159. "Er-a brögnum þörf
boð at senda.
Lítið á, lofðar,
þeir 'ro lendir hèr.
Hefir þá annathvort
einhverr guða
vara við gert,
eða verar sjálfir
hafa framhjá fara
fley hans litið,
en náð ei getað
nausta blakki".
160. Svo hann sagði.
Seggir upp risu,
ok ofan at ægi
allir geingu.
Ok á þurt land upp
þegar settu
bræddan báru jó
bragnar snjallir.
En sveinar hugfullir
af hlunna mari
herðigögn hildar
heim of báru.
161. En svinnir biðlar
geingu á samkundu
allir í einu,
ok eingum leyfðu

ρ. XVI, 342-361.

úngra manna
nè aldinna
lofðum út í frá
launstefnu til.
162. Upp hóf erindi
Antínóus,
burr Evpíþess,
í biðla flokki:
"Heyrit undr mikit!
Hve hafa þenna
guðir guma
af grandi leystan!"
163. "Sátu um daga
á svölum hæðum,
nesjum veðrnæmum,
njósnarmenn vorir;
kom ávallt einn,
þegar annarr fór;
gekk svo, uns sæl sè
sól í ægi".
164. "Sváfu vèr aldreigi
svefn um nætr
landjörðu á,
heldr lètum sníða
hlunnjó hraðfara
hávar bárur,
uns dýr Dagmær
drógst at lopti".
165. "Sættum sýsliga
siklíngs arfa,
Telemakkus
at taka af lífi.
En um allt þat
hefir einhverr guða
forðat fylkis nið
ok fluttan heim".
166. "Látum oss nú
í landi þvísa
dapran buðlúngs bur
bana ráða,
ϱ. XVI, 362-382.

Telemakkusi;
má tiggja sonr
oss aldreigi
undan sleppa;
því æva ek hygg,
meðan hann lifir,
at fyrirætlan vor
framgeing verði".
167. "Er vitr vel
vísis kundr,
hyggju hvass
ok horskr í ráðum;
en lands lýðr
leingr ei oss
vingan veitir,
sem verit hefir".
168. "Heilir svo, látum
hann eigi ná
fíra akkneskra
fund at stefna;
því ætlan mín er,
at hann eigi muni
láta svo búit
leingi standa".
169. "Heipt mun hann rækja,
ok hvatt upp rísa
samkundu á,
ok seggjum inna,
at vèr bráðan bana
búa hugðum
öðlíngs arfa,
en eigi náðum.
En fyrir orum
illverkum þeim
illa mælast mun
af mönnum öllum".
170. "Á er mèr uggr,
at menn illt oss geri,
ok úr landi oss
láti ræka.

Verðum vèr þá
vorum hverfa
átthögum úr
til annars lands".
171. "Verðum því, fèlagar,
fyrri at bragði,
orkum honum andráns
utan borgar,
á landsbygð úti
eða á ljóðvegum;
tökum svo bú hans
ok bjartar hnossir".
172. "Jamt skulum öllum
eigum deila
vor á meðal,
sem værim bræðr;
en móður hans munu vèr
ok mann þann láta
húsum halda,
er hennar fær".
173. "En ef yðr ei
öllum líka
vèlaráð þau,
en vilit heldr
láta lofðúngs son
lífi halda,
ok föðurleifð sinni
fullri ráða:"
174. "Skulum-a þá
fyrir skilfíngs arfa
fullsælu fjár
framarr eyða,
nè komur vorar
í kóngshöll venja,
heldr hverr fara
til heima síns".
175. "Hèðan bónorð hverr
hefja þá skal,
ok með brúðgjöfum
brúðfángs leita;
þá skal fljóð fá,
þann er flest gefr,
ok auðinn ver
eiga gánga".
176. Inti svo ágætr
Antínóus,
en ýtar allir
orða bundust.
Þögðu seggir svinnir
á samkundu,
nè mál mælti
maðr þaðra.
177. Upp hóf þá erindi
á ýta fundi
Amfínómus,
ok orð rèð mæla;
sá var niflúngs
Nísuss arfi
Aretussonar,
alda stýris.
178. Hann göfgastr
gilmanna var,
þeirra er heimanför
höfðu gjörva
frá Dúlikseyju,
þars dafna grös
ok hveiti vex
á hverju strái.
179. Þokkum bezt
þess manns ræður
líkuðu prúðri
Penelopu,
því hann vitr var
ok vel at skapi.
Vel hann vildi
virðum öllum,
upp hóf erindi
ok til orða tók:
180. "Fjær er þat, vinir,
vilja mínum,

ϱ. XVI, 382-400.

Telemakkus
at taka af lífi;
þat er óttaligt,
óhæfuverk,
öðlíngs afkvæmi
öndu svipta.
Heldr ræð ek,
at vèr ráða leitim
ódauðligra
uppheims goða".

181. "Ef þá meginspjöll
ins mikla Ssifs
lof um leggja
á launvíg þetta,
þá vil ek sjálfr
sverði bregða,
ok alla aðra
eggja til þess".

182. "En ef eilífir
uppheims guðir
varnendr verða
verka slíkra,
þá ræð ek raunmjök,
at ráðabrot slík
eyðist með öllu
ok at eingu verði".

183. Inti svo ítr
Amfínómus,
líkuðu orð hans
lofðum öðrum.
Risu upp rekkar
ok rakleiðis geingu
til Odysseifs
aðalhallar;
svifu inn síðan,
ok sæti völdu
haglega gervum
hástólum á.

184. Rèð nú ráð annat
ræsis beðja,
Penelopa
in prúðlundaða.
Bjóst til biðla
buðlúngs rúna
ofstopafullra
inn at gánga.

185. Vissi bur sínum
bana ráðinn
inni í ítrum
öðlíngs sölum.
Hafði sjálfri sagt
siklíngs brúði
kallari Medon,
er þau meinráð vissi.

186. Steig til stofu
stillis beðja
þekkilegum með
þjónustumeyjum.

187. En er at sal kom
svanna prýði,
þar er böðsnarir
biðlar voru,
lèt dýr drottníng
við dyrustaf
stofu vel gerðrar
staðar numit.

188. Ok vegligt víf
fyrir vaungum sèr
höfuðblæju hèlt
harðla fagri;
átaldi ítran
Antínóus
hörðum orðum,
ok hóf svo mál:

189. "Þik kveða rekka
ráðvitrastan

ok málsnjallastan
manna jafnúngra
á Íþaksey,
Antínóus!
Er sú virðíng vera
at váljúg orðin,
alls þú at eins ert
ills valdandi,
ofríkis fullr
ok ofstopa".
190. "Ertu ærr orðinn
ok örvita,
er þú bana ræðr
ok bráða feigð
Telemakkusi,
tiggja arfa?"
191. "Þú fir lið lætr
líknbiðjendr,
þeims sjálfr Seifr
sökvörn of tèr.
Er-a þat hæft,
at hverir aðra
bölvi beiti
bragnar samlendir".
192. "Er þèr ókunnugt
at einu sinni
híngat farflótta
faðir þinn kom
af ótta ægum
fyrir alþýðu?
Lá þúngt á honum
þjóðar reiði".
193. "Hafði hann lag lagt
við láviknga,
Taffeyjarmenn,
ok tjón of unnit
þjóð Þesspróta,
en um þær mundir
voru vorir þeir

ϱ. XVI, 419-437.

vinir góðir".
194. "Fyrir þá sök
vildu föður þinn
Íþakseyjarmenn
aldri ræna,
ok auð hinn mikla,
er átti hann,
upptækan allan
ok eyddan láta".
195. "En Odysseifr uppreist
ýta svæfði
ok guma geisíng
gerði stöðva.
Nú þú djarft eyðir
döglíngs búi,
ok eiginkonu hans
eiga girnist".
196. "Arfa hans ætlar þú
aldrs synja
ok mitt harðliga
hjarta særir!
Þess vil ek biðja,
at þú af látir,
ok aðra heptir
af háttum þeima".
197. Annsaði ítr
öðlíngs brúði
arfi Pólýbuss,
Evrýmakkus:
198. "Heyr, prúðlunduð
Penelopa,
ágætum alin
Íkaríus!
Vertu alls óhrædd,
öðlíngs rúna,
slíkt at áhyggju
ei þèr verði!"
199. "Er-a maðr sá,
nè mun vera,

nè híngat mun
á hauðr koma
sá er ástkærum
arfa þínum,
Telemakkusi,
tjón um vinni,
meðan ek á láði
lífs má njóta,
ok heil eru augu
í höfði mèr".

200. "Þat læt ek um mælt
orðum fullum,
þau skulu atkvæði
efndum gegna:
þess skal þegar
þegns of laga
dreyri dökkrauðr
um darri voru".

201. "Því opt mik kornúngan
á knè sèr setti
Odysseifr,
eyðir stórborga,
stakk í lófa mèr
steikar bita,
ok mèr rautt vín
rètta gerði".

202. „Því er mèr týframr
Telemakkus
ástkærastr
allra manna.
Þarf-at hann frá biðlum
bana at óttast,
en forlög ofan at
má eingi forðast".

203. Þótt halr hug svo
hreysti brúðar,
bjó hann þó bur hennar
bana sjálfr.
En grams rúna þá
glæsiligan
upp í loptsal
ljós nam stíga.

204. Ok unnfýrs Eir
at Odysseifi,
hjartkærum ver,
hvarma vætti,
uns blundi blíðum
á brár fljóði
Aþena varp
hin augumglæja.

---

205. Kom til Odysseifs
at kveldi aptr
svinnr svínhirðir
ok siklíngs burar;
Höfðu þeir af látið
ársgamalt svín,
stóðu ok unnu
at aptansverði.

206. En Aþena
at öðlíngi gekk,
arfa Laertess,
Odysseifi;
ok lofsæl gyðja
lypti sprota
ok liðhraustan laust
lofða stýri,
gerði gram aptr
at gömlum manni,
ok í flíkr færði
fátækligar.

207. Síðr svínhirðir
siklíng skyldi
endr um kenna,
ef hann í augu liti,
ok Penelopu
prúðlundaðri

inna aptr frá,
nè yfir þegja.
208. Þá nam týspakr
Telemakkus
fyrri frètta
fæði valgalta:
"Þar ertu, Evmeus,
aptr kominn,
seggr hinn svinni!
Hvat segir þú
frá frægri borg
frètta nýrra?"
209. "Eru til borgar
aptr komnir
biðlar fræknir
úr fyrirsátri?
Eða sæta þeir
siglíng minni
híngat heim enn
í höfum þaðra?"
210. Svaraði svinnr
svína hirðir,
ok þeim orðum hann
aptr kvaddi:
211. "Eigi hirða'k,
er um hlöð borgar
sporum sporna'a'k,
at spyrja slíks.
Hugr mik hvatti
hinnig venda,
er erindi int
upp ek hafða".
212. "Þó nam mèr saman
við sendimann einn
lèttfæran lenda
frá liðum þínum,
herkallara,
hann rèð fyrstr
orð upp inna
eiðu þinni".
213. "Eitt veit ek enn
um at segja,
þats ek sjálfr sá
með sjónum mínum,
þá er ek úr borg
upp var kominn,
þars Hermesar
hvoll um stendr".
214. "Þar sá ek skriðfrátt
skip inn líða
af hafi utan
á höfn vora.
Stóðu mjök margir
á marar blakks
hjörleiks hvötuðir
hávum þiljum".
215. "Var hjörtr húna
hlaðinn skjöldum
ok hræmækjum
hvasseggjuðum.
Hugða'k flugumenn
þar fara mundu;
veitk-a þó vísla,
hvort voru þeir".
216. Sagði svo svinnr
svína gætir,
en hinn týhrausti
Telemakkus
brá við brosu,
ok brúna ljósum
fèkk fljótliga
at föður vísat,
svo at varð-a varr
vörðr galta.
217. Ok er önnum þeir
höfðu af lokit,
ok verð vel reiddan,
at veizlu settust.

ϱ. XVI, 459-479.

Var-a vant nokkurs,
er verar knætti
æskja at jafndeildum
aptansverði.
218. En er matar neytt
ok mungáts bæði,
svo sem lyst til lèk,
lofðar höfðu,
hugðu á hvílu
horskir rekkar,
ok svefnværðir
á sik tóku.

---

# SEYTJÁNDA KVIÐA.

En er árrisul
rósinfíngra
birtist mönnum
Morginskæra,
þá nam ítr
ilskó fagra
forkólfr fíra
sèr und fætr binda,
Telemakkus
inn tíginborni,
öðlíngs Odysseifs
ástkærr mögr.
2. Hendi hnefaði
heldr sterkan
geir greiphæfan
gylva niðr.
Rèð burr buðlúngs
til borgar stunda,
sinn við svínhirði
svo nam mæla:
3. "Nú vil ek fara,
faðir kæri,
ok hèðan halda
hvatt til borgar,
at móðir mín,
mædd af sútum,
ϱ. XVI, 479-481.
fái son sinn
sjónum leiða".
4. "Hykk-at ek horska
harmi tárgum,
nè gráti leiðum
láta fyrr af,
en hún sjálfan mik
sjónum lítr.
En eitt vil ek erindi
um þèr bjóða".
5. "Þú, gætir galta,
gesti inum vesla
til borgar inn
brátt skalt fylgja,
at sèr málsverðar
maðr inn aumi
í borg biði;
munu bragnar honum,
þèr er vel vilja,
víkja góðu,
bita matar
ok mungáts sopa".
6. "Sjálfr mák-a með
móti nokkru
ásjá veita
öllum mönnum.

Svo ber ek marga
mèr í brjósti
harma höfga
ok hugar raunir".
7. "En þó at gesti svo
geri-t líka,
ok hann vonzkist við,
mun hann verr af hafa,
Er mèr hvervetna
hug um leikit,
satt eitt segja
í svinnu máli".
8. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
"Vilk-a ek sjálfr,
vinr, nè heldr
drýgja dvalar hèr
degi leingr".
9. "Betra er fátækum
förumanni
beina biðja sèr
borgar innan
(þar mun guma hverr,
er greiðvikinn er,
líknat mèr láta),
en á landsbygð úti".
10. "Hefi'k of mörg nú
ár á baki,
á útbúm úti
at eiga vistir,
ok hverri gegna,
er hússbóndi kynni
önn ok orku
af mèr heimta".
11. "Far þú af stað,
en mèr af stundu mun
fylgja seggr sá,
er þú sjálfr til kvaddir,

ρ. XVII, 13-32.

þá er við eld mèr
ornat hefi'k,
ok mèr í hamsi
hlýna tekr".
12. "Mjök eru flíkr þær
fornfáligar,
er ek á mèr hefk,
ok uggvænt næsta,
at morgunhèla mèr
mein of vinni,
alls lánga lýðir
kveða leið til borgar".
13. Tiggi svo talaði,
en Telemakkus
út af garði gekk
gætis svína.
Fljótt bar hann fætr
ok fór hraðan,
böl hugði biðlum
brátt at efna.
14. En er öðlíngs burr
allt var kominn
til vel settrar
vísis hallar,
geir sinn grams son
gerði reisa
upp við hágnæfa
hallar súlu.
Inn gekk at þat
arfi gylva,
ok of steinþröskuld
stíga nam.

---

15. Fóstra fylkis son
fyrst nam líta,
Evrýklea,
allra manna;
var þá víf at,
ok vænar breiddi

gærur of glæsta
grams hástóla.
16. Gekk grátandi
grams syni mót
fóstra fagrvarin,
en flykktust allar
þernur Odysseifs
hins þróttarsnjalla
kríngum konúngs son,
er kominn var;
báðu vel kominn
vísis niðja,
kystu höfuð hans
ok herðar bæði.
17. Sveif fram úr sal
siklíngs rúna,
Penelopa
hin prúðlundaða,
áþekk Artemis,
eða Affrodítu,
gulli glæstri
gyðju ástar.
18. Lagði grátandi
gullhlaðs Freyja
um arfa ástkæran
arma báða,
höfuð hún kysti
hjartkærs sonar,
ok brúna blys
bæði fögr.
19. Ok siklíngs kvon
sárt harmandi
orðum vænghröðum
venda gerði:
"Sæl emk, svasa ljós,
at ek sè þik aptr,
Telemakkus, kominn
á tröð feðra".
20. "Hugða'k mik aldreigi
aptr mundu

ϱ. XVII, 32-51.

augum þik líta,
síztú úr landi fórt,
á laun mèr ok móti
mínum vilja,
yfir unnar geim
á ægis hesti
prýðilegrar til
Pýlusborgar,
fregnir at fá
um föður þinn".
21. "Heill svo, herm mèr,
hvat á leiðum
hefir sjálfum þèr
fyrir sjónir borit!"
22. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok henni aptr
annsvar veitti:
23. "Vekj-attu, móðir,
mína harma,
hrær-attu hjarta mèr
í hugar fylgsni;
því at sjálfr ek em
sýniligum
undan sloppinn
aldrtila".
24. "Lát, ljúf, heldr
laugar teknar,
ok þik klæðum klæð
kappsvel þvegnum;
þá skaltu láta
upp í loptsal geingit
með herbergismeyjum
horskum þínum".
25. "Heilum heita skalt
hundraðsfórnum
öllum eilífum
uppheims goðum,
svo framarlega sem
Seifr vili

unna þèr uppreistar
fyrir órètt gervan".

26. "Nú mun ek tafarlaust
á torg út gánga,
heim at bjóða
hal útlendum,
þeim er fylgði mèr
á för híngat
allt í frá prúðri
borg Pýlverja.
Senda'k hann fyrir
á flæðar dýri
mínum frægum með
förunautum".

27. "Bað ek Píreus
gest hinn prúðlynda
heim til húss leiða
ok halda með sèr,
vel honum taka
ok virðíng sýna,
uns ek sjálfr til
síðarr kæma'k".

28. Mælti svinnr svo
siklíngs arfi;
fló-at mál magar
frá móður eyrum.
Lèt lofðúngs kvon
laugar teknar,
ok klæðum klæddist
kappsvel þvegnum.

29. Hún heilum hèt
hundraðsfórnum
öllum eilífum
uppheims goðum,
svo framarliga sem
Seifr vildi
unna sèr uppreistar
fyrir órètt gjörvan.

30. En Telemakkus,
tiggja sonr,
svinnhugaðr sveif
sal ígegnum,
hèlt á hræmæki;
honum eptir
tveir fótfráir
fylgðu rakkar.

31. Jós Aþena
yfir jöfurs arfa
ódauðligum
yndisljóma.
Störðu með undrun
allir lýðir,
er á þíng gekk
þeingils niðr.

32. Flykktist í hríng
um hilmis arfa
bráðliga bjöllr
biðla vaskra;
fagrt þeir mæltu,
en flátt hugðu,
bjó í brjósti þeim
böl hvers konar.

33. En svinngeðr
siklíngs niðr
biðla forðaðist
flokk harðsnúinn;
fór heldr þángat,
er fyrir vóru
Mentor, Antífus
ok Alíþerses.

34. Þeir voru ýtar
frá öndverðu
fornir fèlagar
föður hans.
Þángat hann gekk,
þar nam at setjast,
spurðu spakir hann
spjalla hverra.

35. Þá kom til þeirra
(bjó-a þaðan lángt)

spjótfimr Píreus,
ok spaka hitti.
Gest hinn útlenda
gegnum borgu
fram á torg leiddi
trúfastr þegn.
36. Brá við títt tryggr
Telemakkus,
ok gesti greiðlega
gekk á móti.
En við fylkis nið
at fyrra bragði
mælti Píreus
hinn prúðlundaði:
37. "Sentu sem tíðast,
Telemakkus,
salkonur heim
til húsa minna,
at ek gjafar þèr
greiða'k aptr,
er þèr Menelás
mildíngr gaf".
38. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok honum aptr
annsvar veitti:
"Vitum-a, Píreus,
vissu neina,
hversu mál þessi
muni lúkast".
39. "Ef vinna mèr
vaskir biðlar
bana á laun
í lofðúngs sölum
ok meðal sín
mínum öllum
framlyndir deila
föðurarfi:
þá vil ek heldr,
at þú haldir

ϱ. XVII, 71-90.

gjöfum, ok njótir,
en nokkurr þeirra".
40. "En ef auðnast mèr
aldrtila
ok bana búa
biðlum þessum,
þá skaltu glaðr
glöðum færa
hodda heim mèr
til húsa minna".

---

41. At mæltu því
mildíngs arfi
gest harmveslan
heim nam leiða.
42. En er þeir komu
til konúngs hallar
ok vel settra
vísis sala,
yfirhafnir þeir
af sèr tóku,
lögðu á hástóla
ok hvílu bekki;
stigu at þat
niðr í stórvel skafin
laugarker,
ok sik lauguðu.
43. Ok sem þernur þá
þvegna höfðu
ok smurða
smjörvi viðar,
í skjólgóðar
skikkjur færða,
ok lèttikyrtla
lagt of herðar:
þá stigu lofðar
af laugarkeri,
ok á hvílbeði
horskir settust.

44. Ok herbergismær
handlaug færði
vænum, gullnum
í vazkalli,
ok yfir mundlaug
úr mæru silfri
vatni af hellti
til handaþvottar,
ok þar fágat borð
fram rèð setja.
45. En heiðvirð
húss-matselja
brauð fram bar,
ok á borð lagði,
miðlaði matar
mörgum rètti,
hugul veitandi,
þat fyrir hendi var.
46. Nam móts við mög
móðir setjast
við dyrustaf
dýrligs salar;
sat á hvílbeði
hilmir vífa,
spann smátt band
spök á snældu.
47. Rèttu nú halir
hendr sínar
at fram reiddum
rètta gnóttum.
48. En er matar neytt
ok mungáts bæði,
svo sem lyst til lèk,
lofðar höfðu:
prúð hóf erindi
Penelopa,
ok þat orða
alls fyrst um kvað:
49. "Nú mun ek tállaust,
Telemakkus,
ϱ. XVII, 91-111.
í loptsal upp
láta geingit.
þar vil ek leggjast
í leg mitt niðr;
þats mèr orðit er
at ángrhvílu".
50. "Sá er hvílbeðr
hvarma skúrum
orðinn alvættr
ávallt mínum,
sízt Odysseifr
með Atreifssonum
til Ilíonsborgar
upp um fór".
51. "Þó viltu þeygi,
áðr þróttkir biðlar
inn í sal þenna
sjálfir gánga,
glöggt mèr greina,
ef þú getið hefir
um farar föður þíns
fregn nokkverja".
52. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok mætrar móður
máli gegndi:
"Skal ek þèr, móðir
mæt, at bragði
allan sannleik upp
inna þegar".
53. "Fórum til prúðrar
Pýlusborgar,
ok Nestors aldræna,
alda stýris;
sá mèr í hávum
hallar sölum
veitti viðtökur
vísir góðar".
54. "Tók mèr öðlíngr
ástsamlega,

sem faðir mundi
megi sínum,
þeim er útivist
eptir lánga
er frá útlöndum
aptr nýkominn.
Svo tók mèr öðlíngr
ástsamlega,
ok megir hans allir
hinir meginfrægu".
55. "En hann eigi kvaðst
af ýta nokkrum
fregn hafa feingit
foldbyggjenda
um þeingil Odysseif,
þróttöflgan gram,
hvort hann á lífi,
eða látinn væri".
56. "Þó lèt fylkir
fylgð mèr veitta,
fákum fráum,
fagri kerru,
ok sendi mik
til Menelásar,
öðlíngs oddfima,
Atreifssonar".
57. "Þar sá ek Helenu,
hrund argverska,
þess vífs er vegna
vurðu þola
þrautir týmargar
at tíva ráði
tírkunnir Argverjar
ok Trójumenn".
58. "Mik nam spyrja
spakr at bragði
mæríngr Menelás
hinn málrómsterki,
hvat mik fýst hefði
at fara þángat
á hit helga
hauðr Lakverja".
59. "En er öðlíngi
int ek hafða
öll atvik erindis,
sem orðin vóru,
þá nam orðstafi
upp at hefja
mærr mildíngr,
ok mæla tók".
60. "Undrumst ek, at ýtar
eljanlausir
ok hugum hnuggnir
skuli hafa viljat
bæla sik í bóli
böðvarstyrks manns,
þess er hug harðan
hefir í brjósti".
61. "Svo hjartkolla
áðr í haga rásar,
kálfa nýgotna
niðr bælir
meginþykkum í
myrkviðar runni,
þars dýr it óarga
á sèr fylgsni".
62. "En meðan hún
hálsa kannar
ok lauki grónar
lautir fjalla,
hleypr hrammsterkr
í hreysi sitt,
ok geldr gotúngum
grimmligt víti".
63. "Svo mun þeim biðlum
bráðskeytliga
aldrtjóns orka
Odysseifr".
64. "Gefi þat Seifr,
gumna faðir,

ϱ. XVII, 111-132.

augnskær Aþena
ok Appolon,
at hann orðinn væri,
sem hann áðr var,
þá er í Lesbey
leik nam heyja".

65. "Gekk þar konúngr
í kappsglímu
við Fílomelídes
firnum ramman,
ok jöfri sterklega
jarðvarpaði;
urðu þá Akkverjar
allir fegnir".

66. "Ef Odysseifr,
orðinn, sem þá,
birtist með biðlum,
brátt þeir mundu
feigum fótum
foldu sporna
ok brúðfarar
beiskar geta".

67. "En um spjöll þau,
er þú spyrja vant,
ok úrlausnar um
af mèr beiddist,
munk-a ek vafníngum veifa
nè víðáttu-svörum,
nè þik hègóma
hjali gabba".

68. "Segja skal ek allt,
er mèr sannspár þuldi
unnardjúps álfr
aldri vorpinn;
skal ek eingu þar af
orði leyna,
ok orð þar af
ekki dylja".

69. "Kvaðst hann öðlíng
á ey nokkurri
sèð hafa, hörðum
hörmum spenntan,
þars Kalypsó
kostuligum,
veglig vættr,
veum of ræðr;
sú heldr hilmi
hjá sèr nauðgum".

70. "Kná-at konúngr
komast aptr
ættjarðar sinnar
ok óðala til;
er honum skipa vant,
er skríða kunni,
ok fèlaga vant,
er hann flytja knegi
yfir ægis flöt
afar víðan".

71. "Mælti svo Menelás
hinn málrómsterki,
gramr inn geirfimi,
getinn Atreifi".

72. "En sem erindi
öllu mínu
aflokit hafða'k,
aptr ek fór,
gáfu guðir mèr
góða byri,
ok greiddu för mína
til föðurlands".

73. Svo mælti svinnr
siklíngs arfi,
ok huga hrærði
í hjarta móður.
Þá nam at mæla
meðal þeirra
Þeóklýmenus
hinn þjóðmæri:

74. "Bljúgvirð beðja
buðlúngs fræga,

ítrs Odysseifs,
arfa Laertess!
Er-a sannfróðr
sonr um þat.
En þú eyru ljá
orðum mínum;
skal ek sannleik þèr
segja gjörstan,
ok eingu þik
orði leyna".

75. "Viti þat Seifr,
vea fyrstr!
Viti þat gestaborð
grams ins fræga!
Viti þat eldstalli
Odysseifs,
er ek nú til emk
í nauðum kominn!"

76. "Hefir Odysseifr
með öllu þegar
fót sinn festan
í föðurlandi,
eða flakkar fylkir enn
ok fréttum heldr
um illverk þau öll,
er hèr á gánga,
ok í horskri hefir
hyggju sinni,
böl at búa
biðlum öllum".

77. "Þat rèð fyrrum
fugl sá boða,
er ek sinn eitt sá,
þá er ek sitja vann
flæðar fáki hjá
fagrsessuðum;
birta'k þá tákn þat
Telemakkusi".

78. Spökum spámanni
spjöll nam inna

ϱ. XVII, 152-172.

prúð at mannviti
Penelopa:
"Gjarna ek vilda,
gestr, at þat
orð þitt yrði
at áhrínsmáli".

79. "Þá skyldir þú,
ef þat yrði,
frá mèr góðs njóta
ok gjafa margra.
Þá skyldi þegn hverr,
er þik hitti,
ávallt orðræma
auðnu þína".

80. Þannig ræddust við
rekkar snjallir
ok drottníng dýr
í döglíngs sölum.

---

81. Stórráðir biðlar
urpu steinkrínglum
sköptum skutu,
skemtun jóku,
steingólfi á
fyrir stofudyrum
öðlíngs Odysseifs,
þar er áðr fyrri
firniverka fjöld
fremja vöndust.

82. En er nálgaðist
náttverðarmál,
kom úr hèröðum
hvaðanæva
fènaðar fjöld,
en fè þat ráku,
allir einir
ok áðr var títt.

83. Þá kvað þat Medon
til mætra biðla;

var hann þeim kærstr
af köllurum,
ok vanr var
með vöskum rekkum
at sumbli sitja
sinni hverju:
84. "Sveinar (sagði hann),
síðan þèr hafit
gert yðr gleði
með gamanleikum,
sinnit til sala,
seggir allir,
at til veizlu vèr,
ok verðar búim;
því hollt er hvervitna
hölda kindum
í tækan tíma
at taka verð".
85. Mælti svo Medon,
en mærir biðlar
gegndu orðum hans
ok upp stóðu.
86. En er þeir komu
til konúngs hallar
ok vel settra
vísis sala,
yfirhafnir þeir
af sèr tóku,
lögðu á hástóla
ok hvílubekki.
87. Slátruðu seggir
sauðum þaðra
faunguligum
ok feitum geitum,
alisvínum,
ok uxa, úr hjörð
völdum vandliga,
ok til verðar bjuggu.

---

ϱ. XVII, 172-192.

88. Bjuggust bráðlega
til borgar gánga
gumar göfgir
frá galta ranni,
salvörðr svína
hinn svinnhugaði
ok Odysseifr
aldri vorpinn.
89. Upp hóf erindi
öldurmaðr,
runa ráðvaldr,
ok ræða tók:
90. "Far þú, gestr,
alls þik fara tíðir
til borgar í dag,
sem minn drottinn bauð.
Hálfu heldr þó
hitt ek kysa'k
hèr þèr halda,
húss at gæta".
91. "En ek drottinn minn
dýran virði,
ok óttumst ek,
at hann á mik síðan
drjúgum deili;
eru drottna þúngar
ávítur jafnan
undirmönnum".
92. "Heilir svo, höldum
hèðan af stað,
tekr degi nú
drjúgum halla,
en þat ræðr
at rèttum líkum,
at heldr kólni,
þá er kveldar at".
93. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:

94. "Veit ek gjörla,
hversu við horfir;
þarf-a segja mèr,
þat er sjálfr skynja'k.
Förum af stað,
en þú mèr fylgja verðr,
ok, sem leið er laung,
leið mèr vísa".
95. "Ljá mèr klubbu,
ef þú kannt einhverja
hafa tilhöggna,
at ek í hendi bera'k,
stig mín at styðja,
alls stíg til borgar
heldr hrjóstrugan
halir kveða"
96. Svo kvað skilfíngr
ok skreppu sinni
varp á herðar sèr
herfiligri;
sá var malr
margraufóttr,
fest í flèttuband,
fíngrum at halda.
97. Fèkk Evmeus
fylki í hönd
lurk lagligan,
sem lofðúngr vildi.
Geingu svo báðir
frá bæ af stað,
en hundar ok hjarðsveinar
húsa gættu.
98. Leiddi lávarð sinn
(lítt þat vissi)
gætiárr galta
til gumna borgar,
aumum áþekkan
ok ellihrumum
fátæklíngi
ok förumanni.
ρ. XVII, 193-210.

Studdist við staf
um stíg brattan
fylkir, fádýrum
flíkum búinn.

---

99. Geingu gumar tveir
um grýttan veg,
ítr Evmeus
ok Odysseifr.
Áttu allskamt
inn til borgar,
þá at ljósri lind
lofðar komu.
100. Sú var hlaðin lind
höndum manna;
fagrt vatn þat var,
er hún velti fram.
Hèr var brunnból
borgarmanna,
náðu þar neyzluvatn
nýtir taka.
101. Þrír höfðu hlaðit,
hverr at öðrum,
vatnsból hit væna
verar fornir:
Íþakus einn,
annarr Nerítus,
þriði Polyktor,
prýðir rekka.
102. Var grænn lundr
gróðrsettr
umhverfis lind
alla vega
vatnsöspum af,
en vatn rennanda
blákalt bunaði
af bergi niðr.
103. Var bjargvættum
búandmanna

blótstalli búinn
á bergi uppi;
þar voru vanir,
þeirs um veg fóru,
fórnir at færa
firðar allir.
104. Lendi saman
hjá lind þeirri
dulardöglíngi
ok deili galta
við Melanþíus,
mög Dólíusar.
Hann geitr rak,
þærs af geitfè öllu,
til borðhalds biðlum,
beztar voru;
fylgðu hafra njót
hjarðsveinar tveir.
105. Melanþíus,
er hann menn þar leit
fyrir sèr á för,
fáryrðum ypti;
varp hann af vörrum
vondum orðum,
ægiligum mjök
ok illsæmum,
svo at Odysseifi varð
annars hugar:
106. "Hèr rök forn (kvað hann)
at raunum verða:
at æ fylgir níðíngr
níðíngi heim.
Lætr svo líkan
líkum jafnan
einnhverr samlagast
uppheims goða".
107. "Hvert ætlar þú,
armr svínhirðir
mathák þenna
með at fara,

ϱ. XVII, 210-229.

fúlan förukarl,
fírum leiðan,
vogest váligan,
veizluspilli?"
108. "Mun sú við marga
mannskauð standa
hurðarstafi
ok sèr herðar gnúa,
mælast til mola,
en meiðma þeygi,
mærra mundlauga,
nè mækja bjartra".
109. "Ef þú lèðir mèr
lyddu þessa,
fjárhúsa at gæta,
flór at moka,
kiðjum brum bera,
brátt í lærum
fiskr honum mætti
við mysu vaxa".
110. "En hann eigi mun
áfúss vera
verknað vinna,
þann er virðum gagni,
alls hann óverkum
einum saman
vanizt hefir
með vinnuleysi".
111. "Mun hitt honum
hóti ljúfara,
beina biðjandi
um bygðir hvarfla,
at fyllta fái,
þá er fyllist aldrei,
hít sína hann
af hölda gjöfum".
112. "Eitt vil ek orð þèr
um mælt láta,
mun þat stað sèr
af stundu eiga:

ef dröttr sá
dirfist gánga
inn í Odysseifs
öðlíngs sali:"
113. "Mun um höfuð honum
hendar fljúga
skarir af skötnum,
skella á síðum,
ok rifþærur raums
í ræsis höllu
þeygi fám slíta
fótaskemlum".
114. At mæltu því
Melanþíus
fram hjá fór
fótgángendum,
hljóp í lopt upp,
lypti fæti,
ok í grams mjöðm
líkr gapuxa
hæli sparkaði
hrotti framr.
115. Gat-a þeingli þó
af þraungum stigi
hrundit hraumr,
því hilmir stóð
fastr á fótum,
færðist ei úr stað.
En á gram runnu
grímur tvennar:
116. Hvort hann at honum
hlaupa skyldi,
ok til heljar færa
með harðri kylfu:
eða hefja á lopt
hátt frá jörðu
ok at höfði niðr
við hauðri reka.
117. En þeingill þrautgóðr
þol við hafði,

ρ. XVII, 230-247.

stillti skap sitt
stillir framr.
En gætir galta
í gegn horfði,
mælti móðsyrði
við Melanþíus,
hóf upp hendr
ok hástöfum bað:
118. "Heyrit, landvættir
lindar þessar,
dýrar dætr
döglíngs himna!"
119. "Ef Odysseifr
yðr til lofs
hefir lærbita
látið brennda
sauða ok kiðja
sinni nokkru,
hulda mörlögum:
mèr þá veitið
bón þá, er bið ek,
at buðlúngr komi,
ok guð hann heim leiði
til húss aptr!"
120. "Þá mundi lofðúngr
lægja bráðum
oflæti allt
ok ofsa frekan,
þann er þú nú
af þèr sýnir,
er þú um borg innan
öllum dögum
hirðulauss hvarflar,
en hjarðsveina ónýta
lætr fè þínu
farga á meðan".
121. Aptr mál mælti
Melanþíus,
gætir geita,
ok gegna knátti:

"Heyr á endemi!
Hvat um kjapta
lætr hrekkvíss sá
hundr fleiprat!"
122. "Skal ek á skipi
skálk þann flytja
fagrsessuðu
til fjarra landa
Íþakseyju frá
einhvern tíma,
ok verðkaup fyrir hann
vel mikit fá".
123. "Eins vilda'k óska
at ernir biðlar
af lífi tæki
Telemakkus,
eða dræpi hann í dag
í döglíngs sölum
sjálfr Appolon
silfrinbogi:
sem í útlöndum
Odysseifr
heimkomu sinnar
hefir mist".

---

124. At mæltu því
Melanþíus
strauk brott af stað,
en þeir stikuðu hægt.
Hann gekk hratt
frá hinum báðum,
ok brátt heim kom
til konúngshúsa.
125. Inn gekk hann þegar
í öðlíngs höllu,
sèr í sveit biðla
sæti valdi
annspænis móti
Evrýmakkus,
er hann unni mest
allra manna.
126. Ok borðsveinar,
þeirs um beina geingu,
kjötskamt settu
fyrir kiðlínga vörð;
en brauð fram bar
til borðhalds rekki
heiðvirð matselja,
ok honum bauð.
127. Svinnr á meðan
svína gætir
ok öðlíngr
Odysseifr
í námunda
námu staðar
við gylva garð,
ok glaum heyrðu.
128. Barst ómr fagr
at eyrum þeim
hörpu hveldrar,
því at hefja knátti
fagran saung Femíus:
en fylkir þá tók
hirði svína í hönd,
ok hann svo kvaddi:
129. "Eru efalaust,
Evmeus, hèr
hilmis Odysseifs
hallir fagrar.
Mjök eru auðkenndir
öðlíngs salir,
þótt meðal margra
maðr of sæi".
130. "Eitt hús af annars
enda stendr;
er hallar garðr
horfinn vandla
veggi vel hlöðnum,
vænum bryggjum,

ok tvíhurðir fyrir
traustlokaðar:
mundi-a auðvelt
ýta nokkrum
garð þann vinna,
nè vopnum sækja".
131. "Varr má ek verða,
at veizlu halda
skatnar ófáir
í skata höllu:
stígr í lopt upp
steikar ilmr,
harpa hljómandi
hátt við kveðr;
hana háleitir
himins búar
sumbli sèrhverju
samlöguðu".
132. Svaraði Evmeus
svína gætir,
ok þeim orðum hann
aptr kvaddi:
133. "Glöggþekkinn ertu,
ok góða lýsir
hyggju hèr í,
sem hverju öðru.
Látum nú heilir
hug um leiddan,
hversu háttum nú
haga skulum".
134. "Ger nú annathvort,
at þú gákk fyrri
inn í vel setta
vísis sali,
ok allt þar at,
sem eru biðlar;
en ek úti skal
hèr eptir vera".
135. "Eða, vilir þú heldr,
þá vert hèr eptir,
en ek inn mun
á undan gánga.
Þó ræð ek þèr,
at þú ei lángar
utan dyra
dvalar eigir".
136. "Því við er at búast,
ef þín varr gerist
hölda nokkurr
á hlöðum úti,
at þèr hrindi
eða höggum keyri.
Gef gaum orðum,
gestr, mínum!"
137. Svaraði svinnum
svína hirði
Odysseifr,
sá er ýmist reyndi:
"Veit ek gjörla,
hversu við horfir;
þarf-a segja mèr,
þat er sjálfr skynja-k".
138. "Gakk þú á undan,
gætir svína,
en ek úti mun'k
eptir vera.
Emk-a með öllu
(á'k þess vonir)
höggum óvanr,
nè hörðum skotum".
139. "Hefir ek þróttkan
þrek í brjósti,
því ek marga hef'k
mannraun beðit,
bæði í böðvi
ok bylgjum sjávar.
Má ok þetta þá
þar til koma".
140. "En ask Heljar
óhemjanda

má eingi
maðr buga,
fagnaðarlausan,
þann er fíra börnum
allmargs aflar
ófarnaðar".
141. "Því at hans vegna
hlunna mari
fagrsessaða
fírar skipa,
ok um ófrjóvar
ægis brautir
heiptrækendum
harma vinna".
142. Þannig ræddust við
rekkar snjallir,
ítr Evmeus
ok Odysseifr.
143. Lypti höfði,
lá fyri dyrum,
Argus, ok upp
eyru reisti.
Svo hètu höldar
hilmis rakka,
Odysseifs
hins eljunfrækna.
144. Hafði hund þann
hilmir sjálfr
úngan upp fædt,
en hans ekki naut;
því at fyrr fór
fylkir snjallr
tívum helgrar til
Trójuborgar.
145. Önnur var þá æfi,
er með úngum sveinum
rann at rádýrum
rakki sporhvatr,
hendi hèra,
hljóp upp fjallgeitr:
lá nú svívirðr
í sauri miklum,
sízt lávarðr hans
úr landi fór.
146. Var fyri dyrum
dýngja vorpin
mikil af mykju
múla ok nauta;
þeim skyldu þaðan
þrælar haugi
á braut aka,
buðlúngs at teðja
aðalteig Odysseifs
afarstóran.
147. Hèr lá nú Argus
á haugi þeima,
lítt var hann kominn,
ok kvikr skreið.
148. En er varr varð
vesall rakki,
at var Odysseifr
at kominn þar,
hundr hógliga
hala sveifði,
beygði blöð hlusta
bæði niðr.
149. Mátti þó eigi
meinum borinn
hússbónda sínum
fyri hnè gánga.
150. Viknaði Odysseifr
ok undan leit,
ok hvarmdropa
af hlýrum þerði;
átti auðvelt
öðlíngr með,
harm sinn hylja
fyrir hirði svína.
151. Ok svína gæti
síklíngr þá

ϱ. XVII. 286-305.

einu orði
at nam frètta!
"Allmikils, Evmeus,
undrs mèr fær
hundr, er hinnig
á haugi liggr".
152. "Vænligt mèr virðist
vaxtarlag hans.
Hitt ek veitk-a
með vissu glöggri,
hvort fótfimi
ok fráleikr hafi
vænleik samfara
verit þeima;"
153. "Eða hundr sjá
hafi dasat,
svo sem borðhundar
bragna gera,
þá er glæsimenn
göfuglátir
upp um ala
til ágætis sèr".
154. Svaraði Evmeus
svína gætir,
ok orðum öðlíngs
annsvar veitti:
"Þann hefir hund
halr um áttan,
sá er fjarri lèzt
fóstrjörðu".
155. "Væri viðlíkt nú
vaxtarþrek hans
ok atgervi öll,
sem áðr fyrri,
þá er Trójulands til
tryggr Odysseifr
frá honum fór
í fólk at gánga:
þá mundi þèr,
ef þess hunds litir
afl ok atgervi,
at undri gefast".
156. "Því ekki dýra,
ef hann elta geingi,
fyrir honum falsk
í fylgsnum skógar;
því sjá var rakki
at raun hverjum
spakra sporhunda
sporvísari".
157. "Nú er líf hans leitt,
því lávarð hans
fjarri feðra fold
fjörlát sótti.
En húsþernur
hvergi leggja
rækt við rakka
ræktarlausar".
158. "Eru-a þrælar
þeim hót betri.
Svikult er man,
ef sjálfrátt geingr;
því hálf dáð hverfr
hverjum guma,
þeims allvaldr hefir
ánauð lagit".
159. Hèlt at svo mæltu
svína hirðir
til vel settrar
vísis hallar,
ok gagngjört í sal
gánga nam inn,
þars böðfræknir
biðlar sátu.
160. En bláfölduð
banagyðja
spennti hollan hund
heljartökum,
þá hann Odysseif
hafði augum litið

ρ. XVII, 305-327.

at tvo liðna
tugi vetra.

---

161. Fyrstr allra
fæði valgalta,
þars hann inn gekk
endlángan sal,
Telemakkus leit
hinn tívum glíki,
báknaði bendíngum
ok bauð til sín.
162. Árr alisvína
um litaðist,
ok stól upp tók,
er þar stóð nærri,
þars bryti,
er hann biðlum deildi
sufl at sumbli
í sjóla höllu,
sèr vanr var
at velja sess.
163. Tók stól þann
stýrir galta,
ok hjá borði setti
buðlúngs sonar,
gegnt týfrömum
Telemakkus,
ok sjálfr þann
sess nam skipa.
164. En kallari
kjötskamt deildan
fyri svínhirði
setja rèð fram;
hann hveitibrauð
hóf úr körfu
ok fyri gætivörð
galta lagði.
165. Brátt þar eptir
í buðlúngs höllu
Odysseifr
inn rèð gánga,
aumligum áþekkr
ok ellihrumum
fátæklíngi
ok förukarli.
Studdist stillir
við stafklubbu,
furðu fádýrum
flíkum búinn.
166. Setti siklíngr
sik þar niðr
á eskiþröskuld
innan dyra.
Hallaðist döglíngr
við dyrustaf upp,
sá var af sípres
saminn viði;
hafði slèttexi
slèttan hagla
þjóðsmiðr þann,
ok þráðbeinan gert.
167. Tók hleif heilan
hilmis arfi
úr körf einni
kostuligri,
ok kjötmatar
kost svo mikinn,
sem hann gaupnum gat
greipat yfir;
kallaði til sín
kneyfi runa,
ok þeim orðum hann
á nam verpa:
168. "Gákk, og gef þetta
gesti útlendum,
ok þau boð ber
beinínga njót,
at hallar innan hann
í hríng fari,

ϱ. XVII, 327-346.

ok beina biði
biðla alla.
Seg, at hjálpþurfum
henti eigi
feimnum at vera
förumanni".
169. Svo kvað siklíngs burr,
en svínhirðir fór
brátt at boð heyrt
buðlúngs sonar,
gekk at gesti
ok greitt at honum
orðum vænghröðum
venda gerði:
170. "Þèr gefr, gestr,
gjafir þessar
Telemakkus,
ok þèr tjá býðr,
at þú hallar innan
í hríng farir
ok beina biðir
biðla alla.
Kveðr-at hann gagna
gaungumanni,
feimnum at vera
ok framalausum".
171. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
172. "Lát Telemakkus
á tröð fíra,
Seifr almáttkr,
auðnu hljóta!
Hljóti hann hvatvetna,
er til hags má koma,
ok þats hugr hans
helzt til stendr".
173. At mæltu því
mundum báðum
gramr við gjöfum
grams sonar tók;
ok sjóli sitjandi
sendíng lagði
fyri fætr sèr
á ferligan mal.
174. Var hann at, ok át
alla þá stund,
meðan saungmaðr
í sal nam kveða;
stóðst þat á endum,
at hann etið hafði,
þá er saungmaðr
af saungvi lèt.
175. Höfðu hátt um sik
horskir biðlar
í siklíngs sölum.
En sjálf Aþena
nam þá nálgast
ok nærri gánga
arfa Laertess,
Odysseifi.
176. Bað hún buðlúng
meðal biðla gánga,
beina at biðja
ok brauðmola sèr,
at fundit feingi,
hverir fírar væri
hollir í hugum,
eðr hatrs fullir;
ætlaði hún þó
eingum þeirra
við hefndar hlífa
hörðu víti.
177. Ok buðlúngr biðjandi
gekk til bragna hvers,
vèk sèr frá vinstra
til vegs hægra;
at hölda hveim
hendr rètti,

ϱ. XVII, 346-366.

sem þann leik leingi
of leikit hefði.
178. Aumkuðust ýtar,
ok fyrir aumum greiddu.
Furðaði þá frekt,
ok fannst mikit um;
frètti hverr annan,
hverr sá halr væri,
ok hvaðan úr heimi
hinnig kominn.
179. Þá nam at mæla
Melanþíus,
hafra haldviðr,
í hvirfíng biðla:
180. "Heyrit, hvat ek,
horskir biðlar
meginmætrar
mildíngs rúnu,
veit um ver þenna
virðum ókunna;
því ek hann áðr hef'k
augum litið".
181. "Salvörðr svína
(satt ek mæli'k)
honum til hallar
hinnig fylgði.
En hitt ek veitk-a
með vissu fullri,
af hverri ætt hann
upprunninn sè".
182. Svo hann sagði,
en svína hirði
orðum átaldi
Antínóus:
"Hví þú, illkunni
árr valgalta,
leiddir vom þann
til virða borgar?"
183. "Höfu vèr eigi
helzti marga
landshornamenn,
þó at liði sjá,
ok gaungumenn
gumnum leiða,
er veizluspjöll vinna
at virða sumblum?"
184. "Nægir-a þèr,
at niflúngs búi
ýtar eyði,
þeirs ávallt samnast
híngat í hús,
er þú hefir þeima
hvaðan at hal
hinnig boðit?"
185. Svaraði Evmeus
svína gætir,
ok Antinóus þeim
orðum kvaddi:
"Eru-a orð þín,
Antínóus,
góð nè gegn,
þóttú göfigr sèrt".
186. "Hverr ferr hölda,
ok höldi býðr
inn ókunnum
frá öðru landi,
nema sá sè
seggr fundinn
nýtr at nokkuru
niðjum þjóðar?"
187. "Góðr spámaðr,
græðir meina,
eða tálghagr
timbrstokka,
eðr ok saungmaðr
signdr í hugum,
sá er með kvæðum
kæti lýði".
188. "Laða í land sitt
lofða slíka

um veröld víða
virðar allir.
En gaungumanni
gerr-at, sjálfum
manni til meins,
maðr bjóða".

189. "En þú ávallt ert
öllum fremr
harðsnúnastr einn
hinum biðlum
alla Odysseifs
önnúnga við,
ok mèr þó mest
meingjarnastr".

190. "En ek hèr um hót
hirði'k eigi,
meðan lífs eru
í lofðúngs sölum
prúð at mannviti
Penelopa
ok tívum glíkr
Telemakkus".

191. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok orð at svínhirði
sveigja gerði:
„Þegi þú, Evmeus,
þeirra orða!
Mæl-attu margyrði
við mann þenna!".

192. "Er þat ávani
Antínóuss,
illfeingili'ga
ávallt móðga
meinsyrðum með.
ok menn aðra
upp til ens sama
einnig stæla".

193. At inntu því
til Antínóuss
orðum vænghröðum
venda gerði:

194. "Annastú allvíst,
Antínóus,
mik makliga,
sem mög sinn faðir,
er mann útlendan
mèr þú býðr
hart með heityrðum
úr húsi reka.
Láti verk þat guð
verða aldreigi!"

195. "Tak til gjöf nokkra,
ok gef honum;
minnst meina'k þèr,
mælist til heldr.
Nè þú þarft
at því forðast
móður mína,
nè man annat
þræla þeirra,
er þjóna í sölum
Odysseifs
hins ítrborna".

196. "En þú eigi
eignazt hefir
hugarlund slíka
í hyggju ranni.
Heldr villt einn allt
eta sjálfr,
en manni miðla
matarbita".

---

197. Aptr annsaði
öðlíngs syni
Antínóus,
ok til orða tók:
"Ofrmálugr þú
ok ofskapsmaðr,

ϱ. XVII, 386-406.

Telemakkus, ert,
er þú talar slíkt!"
198. "Ef honum eins mikinn
allir gæfi
biðlar beina
í buðlúngs sölum,
mundi heima hann
hýrast mega
mánuði þrjá,
ok þeygi koma".
199. At mæltu því
mæríngr tók
fram undan borði
fótaskemil,
þann er þar var;
á þá at sumbli
fótskör hann lagði
fætr gljáa.
200. Nú gáfu allir
aðrir biðlar
gjafar gesti,
ok gjörva fylltu
ölmusumal,
er mildíngr hafði,
brauðs ok kjötmatar
kosti gnógum.
201. Ætlaði bráðum
Odysseifr
aptr til þröskulds
þaðan gánga;
hugði sèr til hreifíngs
húngraðr verr,
gjafar Akkverja
til góms at leggja.
Þá nam hann staðar,
þars á stóli sat
Antínóus,
ok hann orðum kvaddi:
202. "Gef þú mèr, vinr,
gjöf nokkverja!
Sýnist-a þú mèr
síztr Akkverja,
heldr at eðli
hinn ágætasti,
alls þú kyni líkist
konúngmanna".
203. "Því er þat sæmt,
at þú of greiðir
meiri gjöf matar,
en menn aðrir.
Þá skal ek þinn,
ef þat lýsir,
veg víðfrægja
um veröld alla".
204. "Því at einnig ek
átta forðum
hamíngjuláni
heims at fagna.
Gnótt var í búi,
gaf ek mörgum
opt ölmusu
umfaranda,
hversu vesall
sem vera kynni,
hverja þörf sem hann
þola gerði".
205. "Þræla ek átta'k
þúshundmarga,
ok mjök marga
muni aðra,
þá er einir eiga
auðlegðarmenn,
ok þeirs fullsælu
fagna knegu".
206. "En svo leizt Seifi
syni Kronusar,
at láni því
linna skyldi.
Hann mik hvatti
til hömlu gánga

með víkíngum,
er víða flækjast,
ok ólánsför
til Egypta fljóts,
lánga leið,
lèt mik fara".
207. "Beitum borðrónum
brátt ek lagða
upp í ármynni
Egypta fljóts".
208. "þá bað ek mína
mæta liða,
fríða fèlaga,
er mèr fylgðu þángat,
þar hjá öldu jóm
eptir vera,
skyldu skatnar þeir
skipa gæta;
en á njósn nokkra
nam ek senda,
um at sjást
af sjónarhvolum".
209. "þeir voru ýtar
fullir ofstopa,
ok ránsfýst
fylgðu sinni.
Fóru þeir skjótt,
ok fagrsána
akra eyddu
manna egypzkra".
210. "Leiddu konur
til kjalar dýra,
börnum rændu,
bragna drápu.
Barst bráðliga
til borgar upp
hljóð ok háreysti
hernuminna".
211. "En þá hljóð heyrðu
hernuminna,

ϱ. XVII, 425-444.

komu borgarmenn,
þegar birta tók.
Varð völlr hverr
vagna liði
ok fótgaungumanna
flokkum þakinn;
nam lopt leiptra
ljósum málmi".
212. "þá kom Seifr,
sjóli loptreiða,
illum flótta
í fèlaga lið.
Veittu-a viðnám
virða sveitir,
því hel þeim stóð
til handa tveggja".
213. "þar drápu marga
mína liða
borgarbúar
brandi hvössum;
leiddu lifandi
á land upp suma
ánauð í
ok orku stránga".
214. "En bragnar mik
í brott gáfu
gestfèlaga,
er þeir gerðu hitta,
Kýpreyjar til;
en sá kallaðr var
jöfurr Dametor,
borinn Jasoni".
215. "Hann Kýprey
með konúngs valdi
ríkuligu
ráða knátti.
þaðan em ek nú
þinnig kominn
eptir hörmúngar
helzti strángar".

216. Aptr annsaði
Antínóus
máli mildíngs,
ok mæla tók:

217. "Hverju hefir híngat
í hallar sali
faraldri farit
foræði þat,
at áti ok öldri
ángrboða,
glaum glepjandi
gumna þjóðar?"

218. "Far framm á gólf,
ok fjarri statt,
brottu lángt
frá borði mínu!
Beiska þú ella
bjöð egypzka
ok Kýprey kalda
kannt at hitta".

219. "Hefk-a sjónum sèð,
sem þik, æva
förukarl frekan,
nè svo framgjarnan.
Stendr þú frammi
fyrir öllum,
einum at öðrum,
en þèr allir gefa".

220. "Gefa þèr allir
í gegndarleysi,
hafa-t hóf á,
nè hlífast við,
eigum annarra
út at bruðla,
er gnógt hafa halir
handa millum".

221. Hvarf sèr hilmir
harðmóðgum frá,
Odysseifr
hinn ítrsnjalli.

ρ. XVII, 445-462.

Ok fylkir lèt
inn fjölráðugi
orðum orpit þeim
á Antínóus:

222. "Heyr undr mikit!
Er-a hjarta þèr
ytri samlagit
ásýnd þinni.
Mundir-a saltkorn
af sjálfs þíns skutli
fátækum miðla
förumanni".

223. "Alls þú eigi
við annarra borð
bita brauðs mèr
býta nennir,
þó at gnóglega
gæða margra
hlít þú hafir
handa milli".

224. Við þau öðlíngs orð
Antínóus
fylltist afarheipt
enn þá meiri;
leit við ræsi
með reiðisvip
ok orðum vænghröðum
venda gerði:

225. "Hykk-a þik nú
úr hallar sali
klaklaust út
koma munu,
alls þú enn dirfist
ofan á þetta
hneykslyrðum hreyta
hneisuligum".

226. At inntu því
Antínóus,
fèkk í fótskemil,
ok at fylki varp.

Kom í hægri herð
hölda stýri
högg, þar er háls
ok hryggr mætist.
227. Stóð stöðugr
stillir, sem bjarg,
ok um þveran fót
þokaðist eigi;
höfuð hristi,
hót ei mælti,
bjó honum í brjósti
böl margs konar.
228. Gekk þeingill aptr
at þröskuldi,
þar nam niflúngr
niðr setjast,
lagði við fót sèr
fulla skreppu;
tók buðlúngr
við biðla mæla:
229. "Hlustið til, halir,
er horskir biðit
meginmætrar
mildíngs rúnu,
meðan ek mæli,
þats mèr um býðr
hjarta í brjósti
brögnum inna!"
230. "Víst eigi verðr
vera nokkrum
sorgmóðr sefi,
nè sárt í hjarta,
þótt högg um hljóti,
meðan hildi vekr
fyrir fjármuni
fríða sína,
hvort sem heyr hann
hjörðum uxa
varnar til
eða vænna sauða".

231. "En mèr eptir varp
Antínóus
fyrir dapran disk
dóttur Loka,
fagnaðarlausan,
þann er fíra börnum
allmargs orkar
ófarnaðar".
232. "En ef eiga at
ýtar veslir
regin rík
ok refsinornir,
þá vil ek óska,
at Antínóus
fyrir brullaup sitt
bana hreppi".
233. Ítrum öðlíngi
annsa gerði
arfi Evpíþess,
Antínóus:
"Seztu, gestr,
ok snæð í kyrðum,
eða brottu vert
til bygða annat".
234. "Munu ella þik
ernir sveinar,
alls þú yppa gerir
orðum slíkum,
á hendi eða fæti
út úr höll draga,
ok húð af hýða
hvast gjörvalla".
235. Ræddi svo inn ríki,
en ríkum orðum
reiddust raunmjök
rekkar allir.
Mæla þá mundi
maðr ok annarr
ofstopafullum
af úngmennum:

ρ. XVII, 462-482.

236. "Illa þú gerðir,
Antínóus,
förumann veslan,
fagnaðarlauss,
höggum at hrekja!
Hverr viti, nema
hapta himneskra
hann sè nokkurr?"
237. "Upphimins tívar,
í ymsum myndum,
glíkir gánga
gestum útlendum
um skatna bygðir,
ok skygnast eptir
manna rèttvísi,
manna ofríki".
238. Inntu svo biðlar,
en Antínóus
virði vettugis
virða tölur.
En harðleikni
við hal útlendan
Telemakki stórs
trega voldi.
239. Þó lèt þeygi
þeingils niðr
á hauðr hrynja
hvarmregn af brám.
Höfuð nam hrista,
hót nam-a mæla,
bjó honum í brjósti
böl margs konar.

---

240. En er þat heyrði,
at hart var leikinn
halr útlendr
í hallar sölum,
prúð at mannviti
Penelopa,

ϱ. XVII, 483-503.

hún við salkonur
svo nam mæla:
241. "Óska'k, at eins
þik örum skjóti
sjálfan Appolon
silfrinbogi!".
Þá nam til orða
Evrýnóma,
húss-matselja
horsk, at taka.
242. "Ó, ef at allar
óskir vorar
at áhrínsorðum
yrði þegar,
mundi manngi þeirra
at morni líta
glæsta dags gyðju
í gullinreiðu".
243. Aptr annsaði
orðum hennar
prúð at mannviti
Penelopa:
244. "Allir 'ro þeir,
því illt þeir hyggja,
leiðir mèr, in ljúfa,
í landi munar,
ok þó allra helzt
Antínóus,
hann ek sem hrafnblá
Hel of leiðumst".
245. "Reikar einnhverr
raunamæddr
halr útlendr
á hallar gólfi,
beina sèr biðr
hjá brögnum í sal,
þrýstir þörf honum
þeygi lítil".
246. "Hafa gumar honum
gefit allir

ok úrlausn gert
einahverja,
nema Antínóus
í öxl ena hægri
fótskemli honum
fleygja gerði".
  247. Drottníng, sitjandi
í sal kvenna,
svo við salkonur
sínar ræddi.
En Odysseifr
át á meðan,
ok sèr gott gerði
á gólfi hallar.
  248. Þá nam til sín trygg
tiggja rúna
svínhirði kalla
svinnan, ok kvað:
  249. "Gákk þú til gests,
góði Evmeus,
bið hann hvatliga
hinnig koma.
Orð vil ek hafa
af útlendum hal,
ok spakan spyrja
spjalla nýrra".
  250. "Ef hann annathvort
af Odysseifi
afspurn einhverja
hafi eljunfræknum,
eða sjálfr sèð hann;
því svo lízt mèr á,
sem hann flækzt hafi
furðu víða".
  251. Svaraði Evmeus
svína hirðir
aptr orðum þeim
öðlíngs rúnu:
  252. "Óska ek, ítr
öðlíngs mála,

ϱ. XVII, 503-523.

at hefði hljótt um sik
halir akkneskir;
þá mundi þèr
at þess manns tali
skemtun þikkja,
því hann skemtir vel".
  253. "Því at þrjár nætr
þann gest hýsta'k,
ok ek þrjá daga
þeim manni hèlt
á bæ mínum,
því af báru hreini
flúinn hann fyrst
á fund minn kom;
ok hefir þó harma
halr sína
enn eigi alla
til enda talit".
  254. "Svo sem seggr
á saungmann starir,
þeims kvæði kveða
kenndu sjálfir
upphimins guðir
ununarfull
fyrir dauðligum
dróttum manna";
  255. "Þeim vilja ávallt
allir hlýða,
svo leingi sem hann
saungva þylr:
svo með sögum mèr
sínum skemti
halr í húsi,
er hann hjá mèr sat".
  256. "Segir gestr sá
sik of vera
öðlíngs Odysseifs
aldaþópta,
kveðst kynni eiga
í Krítarey,

þars ættstuðill Mínóss
eignum ræðr".
257. "Þaðan er hann hèr
á hauðr kominn,
ok harða hefir
harma beðit,
ok um víða vítt
veröld flakkat;
læzt hann af Odysseifi
afspurn hafa".
258. "Kveðr hann lofðúng
á lífi vera
á frjósamri
fold Þespróta,
ok heim til húss síns
hafa margar
gersimar góðar
ok gripi at færa".
259. Svaraði svinnum
svína hirði
prúð at mannviti
Penelopa:
"Gákk þú at kalla
gest þann hinnig,
at sjálfr sjálfri mèr
sögur þyli".
260. "Siti biðlar
ok sèr skemti
annathvort hèr
í hallar sölum,
eða þá frammi
fordyrum í,
alls þeim gleði grær
geðs á reinum".
261. "Því sjálfra þeirra
í sölum heima
liggja óskertir
eiginmunir,
matr ok mungát,
ok matfæðínga
húskarla eina
hafa sína".
262. "Sjálfir venja þeir
sínar komur
híngat í hús
á hverjum degi,
uxum slátra
ok aligeitum,
ok sauð mýmargan
sèr til munns leggja,
gildi gera,
ok í gegndarleysi
skærast vín
af skálum drekka".
263. "Flestr er á förum
forði búss;
því nú er annars eins
ekki kostr
atgervimanns,
sem var Odysseifr,
áfelli slíku
af at lètta".
264. "Ef Odysseifr
væri innan hallar,
heim í föðurland
horfinn aptr,
mundi hann bráðla
á biðlum hefna
margra meingerða,
ok mögr hans".
265. Meðan mælti þat
mildíngs rúna,
hnaus Telemakkus,
tiggja arfi;
kvað við hátt hnerri
í hallar sölum.
Hló þá hin prúða
Penelopa,
ok at Evmeus
allskjótt vendi

orðum vænghröðum
vísis beðja:
266. "Gákk mèr, ok gest
ger at kalla,
at hann á fund minn
fari híngat!
Vart-attu varr,
at við nam hnjósa
hverju mögr minn
mínu orði?"
267. "Því em ek vongóð,
at vöskum muni-t
biðlum gjörvöllum
bani ljúgast;
mun eingi þeirra
undan stýra
dauða döprum
ok dánarnornum".
268. "En ek eitt þèr
um vil bjóða,
hygg þú vel at
ok á hjarta legg.
Ef mèr raun gefst,
at rekkr þessi
segi sjálfri mèr
sannleik allan,
skal ek hann fötum
fögrum klæða,
kápu vænni
ok kyrtli góðum".
269. Svo kvað siklíngs kvon,
en svínhirðir fór,
er hann boð heyrði
buðlúngs málu.
Gekk at gesti
galta vörðr,
ok orðum vænghröðum
venda gerði:
270. "Penelopa vill
við þik tala,



móðir Telemakks,
hin mannvits fróða,
gestr inn göfgi!
Gjarn er henni sefi,
þótt hún víli venist,
um ver sinn frètta".
271. "Ok ef reynir hún,
at þú rekja kunnir,
ok segja it sama,
sannleik gjörstan,
þá vill hún þik,
er þú þarfnast helzt,
kápu ok kyrtli
klæða vænum".
272. "En sult þinn muntu
svefja kunna,
ef þú um bygðir
biðr matar;
mun guma hverr,
sá er greiðvikinn er,
einhverju góðu
at þèr víkja".
273. Svaraði siklíngr
svína hirði,
Odysseifr
hinn eljunfrækni:
274. "Skír vil ek skjótla
skil á gera,
ok sögu, Evmeus,
er ek sannasta veit'k,
prúðri segja
Penelopu,
mey Íkaríuss,
inni mannvits fróðu;
því um ver hennar
veit ek sanna
sögu at segja,
alls við seggir tveir
sætt höfum báðir
sömum raunum".

275. "En mèr all-lítill
eigi stendr
geigr af flokki
grimmra biðla;
því ofsi þeirra
ok yfirgángr
jamt ferr járnföstum
jarðar hjálmi".
276. "Því at nýlega,
er ek nam at gánga
um höll, ok hal eingum
hót rèð granda,
laust seggr sjá
svipliga mik,
svo ek sárra af
súta kenni'k.
Nè því tálma rèð
Telemakkus,
nè nokkurr annarr
í niflúngs ranni".
277. "Bið því prúðlynda
Penelopu,
þótt fundar míns
fús sè næsta,
heima bíða
herbergjum at,
uns sæl sól
sezt í ægi".
278. "Þá skal fregna mik
fylkis rúna,
eptiræsktrar vers
aptrkomu,
er hún í sæti
mèr sissat hefir
eigi alllángt frá
eldi ljósum;
því fornfáligar
flíkr ek hef,
þat veizt þú bezt,
alls ek þik fyrst sótta'k".
ϱ. XVII, 564-583.

279. Svo kvað siklíngr,
en svínhirðir fór,
er hann hilmis boð
heyrt of átti.
Ok er þegn aptr
yfir þröskuld stè
Penelopa hann
prúð nam frètta:
280. "Kemr þú, Evmeus,
eigi með gest?
Hvat hyggst fyrir
halr enn vesli?
Mun hann mann nokkurn
mjök svo hræðast?
Eða þorir-a hann þokast
um þvera höll?
Illt er ófrömum
ölmusumanni".
281. Svaraði Evmeus
svína hirðir,
ok aptr annsaði
öðlíngs brúði:
282. "Rètt hann ræðir
(ræða svo mundi
hölda hverr,
er hlut hans ætti),
er hann firrast vill
fund at sækja
ofstopafullra
ofgángsmanna".
283. "Því er þat,
at þróttka biðla
vill stafkarl sá
af stokki sitja,
ok biðlund þik
biðr hafa,
uns sæl sól
sezt í ægi".
284. "Er ok sjálfri þèr
sýnu betra,

háttum svo haga,
hilmis rúna,
at þú einmæli
eigir við gest,
ok hans á laun hlýðir
horskum ræðum".

285. Svinnum annsaði
svína hirði
prúð at mannviti
Penelopa:
"Er-at halr sjá
hinn útlendi
hyggjuvanr,
hverr sem hann er".

286. "Því einga ek ætla
uppi vera
manna mennskra
fyri mold ofan,
þeir er jafnfrekan
ok firðar þessir
yfirgáng ofri
alda sonum".

---

287. Mælti siðlát svo
siklíngs beðja.
Svinnr svínhirðir
sveif á brautu,
þá er erindi
hafði af lokit,
ok í flokk biðla
fram rèð gánga.

288. Lèt at tryggum
Telemakkus
orðum vænghröðum
vikit þeima;
hneigði höfði
til hilmis sonar,
at eigi heyra
aðrir mætti:

289. "Vil ek nú, vinr,
víkja brautu,
svína at geyma
ok góðs annars,
þinna ok minna
muna beggja;
en þú alls hèr gæt
innan hallar".

290. "Fyrst skaltu sjálfum
sjá þèr borgit;
hygg á, at hvern þú
háska forðist,
því at allmargir
menn akkneskir
illt í hug hafa
til handa þèr.
Svipti Seifr þá
sjálfa lífi,
áðr þeir geig oss
gervan fái!"

291. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok þau svínhirði
svör um veitti:
"Svo skal fram fara,
faðir sæll!
Far þó eigi fyrr,
en ferr at kvelda".

292. "Kom svo á morgun,
ok með þèr haf
slátrfè frítt
til fagnaðar mönnum.
En ek mun öllu hèr
með aðstoð hollri
góðra guða
gæzlu veita".

293. At svo mæltu
svínhirðir aptr
á stól settist
stórvel skafinn.

294. En er á mungáti
ok mat sèr hafði
gert til góða
galta stýrir,
þá sveif seggr
til svína af stað,
gekk úr garði brott
ok gylva höllu.

295. Var buðlúngs höll
borðgestum full,
þeir með sætum saung
sèr vel skemtu,
ok dýrum dansi,
því drógst at lopti
dagr hallandi
dagsetri at.

# ÁTJÁNDA KVIÐA.

KOM þar til hallar
hússgángsmaðr,
umrenníngr
allra sveita;
verðgángi vanr
of váng Íþöku
um bý breiðan
bað sèr matar.

2. Hvergi var hvomr
honum glíkr,
æ nam hann eta,
æ nam hann drekka;
þróttr var eingi,
þrek var ekki,
vöxtr vel mikill
á velli at sjá.

3. Nafn gaf móðir,
nefndi Arneus
getinn mög,
er í grasi lá;
en kenníngarnafni
hann kallaðr var
Írus af öllum
úngum lýðum,

ϱ. XVII, 603-606.

fyrir þá sök
at seggja meðal
þrátt hann boð bar,
ef beiddu fírar.

4. Ætlaði Írus,
er hann inn var kominn,
hilmi brott hrekja
úr húsi sínu;
ýfði illdeilu,
ok á hann lèt
orðum vænghröðum
vorpit þeima:

5. "Dragstu frá dyrum,
áðr dreginn verðir,
fretkarl fjörgamall,
á fótum brottu!
Verð-attu varr,
hve virðar allir
at mèr æstandi
augum depla?"

6. "Biðja mik bragnar,
at ek þik á brott dragi,
en ek skammast mjök
skemdarverks þess.

Rís heldr upp,
at rísi-t deila
milli mín ok þín
at munda lögum".
7. Ræsir hinn ráðsnjalli
með reiðisvip leit
endr við Írusi,
ok orð rèð mæla:
8. „Hvorki ek mein þèr,
maðr, of vinn'k,
nè ángr í orðum
eitt ek geri,
nè ek öfunda,
þótt einhverr þèr
fullum höndum
fyllar deili".
9. "Hèr mun ek sitja,
höfum rúm ærit
tveir á þröskuldi,
þar mun ek sitja.
Átt-attu um þat
öfund leiða,
þó mèr góðir menn
góðu víki".
10. "Sýnist mèr þú
í sjón allri
gaungumanni vera
glíkr, sem ek emk.
En heims þessa
hamíngjulán
munu okkr geymt hafa
guðir síðarr".
11. "Bjóð-attu mèr út
til bardaga;
því ef í hjarta mèr
hleypr reiði,
mun ek gjalda þèr,
þótt ek gamlaðr sják,
blóðgar varrar
ok bríngu rauða".

ϱ. XVIII, 13-33.

12. "Mun ek þá mega
at morni næsta
frið fyrir þèr
fullan hafa;
nè þú munt,
ef ek nærgætr verð,
í höll aptr
hinnig venda
lofðúngs Odysseifs
Laertessonar".
13. Reiðr varð Írus
reikunarmaðr,
ok hann orðum þeim
aptr kvaddi:
"Heyr á endemi!
hve sjá fleiprar
áthvomr óðliga,
sem eldakerlíng!"
14. "Þeim hefða'k gaman
geig at vinna,
berja ok beysta
báðum höndum,
ok sem svíni,
því er sæði grandar,
tennr brjóta
úr báðum gómum".
15. "Búst til bardaga,
at bragnar hèr megi
allir á okkarn
atgáng horfa.
Hversu megir þú,
maðr afgamall,
við úngmenni
afli deila?"
16. "Þannig þjörkuðu
þúngum móði
báðir fokreiðir
förukarlar,
á þreskeldi
þjóðvel sköfnum,

hilmis hallar
fyrir hám dyrum.
17. En er þat heyrði,
at halir deildu,
afli afrendr
Antínóus,
dátt nam at hlægja
dreingja stýrir,
ok í meingi biðla
mál rèð hefja:
18. "Hefir aldreigi
atborizt fyrr
skemtan slík
at skata húsi,
svo sem gaman þat,
er guðir láta
verða, vinir, hèr
í vísa sölum".
19. "Drjúg er deild risin
dreingja í milli,
gests ins ókunna
ok Írusar;
hnefum höggvast
halir ætlast;
þeim skulum seggjum
saman etja!"
20. En er innti svo
Antínóus,
hlupu allir upp
með ofsahlátri;
ok vondum
vædda flíkum
förukarla
flykktust kríngum.
21. Hóf þá mál upp
meðal biðla
Antínóus
Evpíþesson:
"Heyrit, biðlar
harðmóðgastir,
þats ek öllum vil
yðr kynna!"
22. "Hèr geitvambir
of glóðum liggja,
er vèr ætlat höfum
til aptansverðar;
þær höfum vambir
vaskir biðlar
blóði ok mörvi
mjök upp faldar".
23. "Hvarrgi er fátækra
förukarla
berr frá borði sigr
ok betr hefir,
sá skal af vömbum
velja sjálfr,
þá er sjálfr vill
valit hafa".
24. "Sá skal ok ávallt
upp frá þessu
seggr at sumblum
sitja með oss;
munu vèr eingum
öðrum leyfa
brautíngja, at biðja
beina í höllu".
25. Innti svo ítr
Antínóus;
líkuðu orð hans
lofðum öðrum.
Þá nam at inna
Odysseifr,
hilmir inn horski,
af hyggju svinnri:
26. "Eingu móti með,
mínir vinir,
úngum manni má
maðr gamall,
sá er mæddr er
mörgum raunum

ok böli beisku,
berjast móti".
27. "En sárr sultr
sverfr at mèr,
ok mik kaldráðr
und knefa setr.
Því verði þèr,
þegnar allir
eiðstaf inna
allstyrkan mèr":
28. "At eingi yðar
Írusi í vil
skuli harðri mik
hendi ljósta,
nè með hrekkvísi
honum af mèr
afburðar orka
á okkrum fundi".
29. Innti svo Odysseifr,
en allir sóru,
svo sem mildíngr
mælzt hafði til.
30. En sem þeir svo
svarit höfðu
ok eiðstaf
unnit fullan,
þá nam öðlíngs son
orð at mæla
afli treystandi
Telemakkus:
31. "Ef þik knár hugr
ok karlmanns hjarta,
gestr inn ókunni,
gerir hvetja,
þá hritt hal þeima
af höndum þèr.
Þarft-attu Akkverja
at þar hræðast;
því hverr sem þik dirfist
drepa hendi,
hann skal fleirum eiga
fírum mæta".
32. "Em ek gestgjafi
í gylva höllu;
mèr 'ro meðmæltir
mæríngar tveir,
horskir höfðíngjar,
hárrar vitru,
Antínóus
ok Evrýmakkus".
33. Orð kvað þat öðlíngs burr,
en allir guldu
samkvæði sitt
at svo mæltu.
En Odysseifr
um sik gyrði
fátækligum með
flíkum miðjan.
34. Þá lèt lofðúngr
lær til sýnis
fögr álitum
ok furðu mikil.
Þá sást brjóst
ok breiðar herðar,
ok handleggir hilmis
heldr þreknir.
35. Gekk Aþena
til alda stýris,
ok staðar nam
hjá stilli rekka;
hún lofðúngs lèt
limu alla
fyllri verða,
en fyrri voru.
36. Blöskraði biðlum
buðlúngs vöxtr,
stórum undruðust,
er þeir á litu.
Þá kvað maðr
við mann þaðra,

ϱ. XVIII, 53-72.

náinn nánum
náði mæla:
37. "Nú mun Írus
ógæfúngr
bráðum böl sèr
búa sjálfr.
Sjáit, hve sýnir
seggr inn aldni
vöðva vænliga
undan vondum tötrum!"
38. Inntu svo ýtar,
en Írusi varð
geigr í geði
geisimikill.
Gyrðu þjónar þó
þegn með valdi,
ok þeygi viljugan
á váng fram leiddu.
39. Æðraðist Írus:
utan á beinum
hörund pipraði
ok hold af kvíða.
Hræddan hrakti
hörðum orðum
Antínóus,
ok á hann deildi:
40. "Betr væri,
attú værir-a til,
nè í ljós þetta
liðit hefðir,
alls þú æðrast
ok allr skelfr,
gaurr gortsamr,
þótt gánga skulir
móti at berjast
manni aldrænum,
þeim er mædt hafa
margar raunir".
41. "Eitt vil ek þèr inna
af alvöru;
þat skal sagt orð
at sönnu verða":
42. "Ef þessi þegn
yfir þèr sigr
berr frá borði
ok betr hefir,
þá skal ek þèr
á þilblakk kasta,
ok til Eketuss
öðlíngs flytja,
ægis almanna,
þess er allir hræðast
mennskir menn
á meginlandi".
43. "Hann nema mun
nef ok eyru
af þèr eyrmálmi,
afarhörðum,
undan þèr slíta
öll þíng saman,
ok fyr hunda hrám
hreðjum kasta".
44. Mælti svo mæríngr,
en meirr við þat
skaut Írusi
skelk í bríngu.
Var nú fram leiddr,
en förukarla
hóf hvortveggi
hendr á lopt.
45. Þá var hugr
á hvörfum tvennum
öðlíngs Odysseifs
hins eljunfrækna,
hvort hann hart skyldi
hendi ljósta
ok til dauðs drepa
duggu í stað,
eða hægt að eins
hendi blaka

ϱ. XVIII, 72-92.

ok við gólf gauri
grýta niðr.
46. En er hilmir þat
hug um leiddi,
leizt ráðligra
ræsi vera,
af sèr at ætla,
svo eingan skyldi
Akkverja gruna,
hvat hann gumna væri.
47. Hóf nú hvortveggi
hendr á lopt:
laust Írus öðlíng
í öxl hægri,
en hilmir á háls
hnefa sinn rak
ótt Írusi
fyrir eyra neðan.
48. Sprúngu bein sundr
í spreytíngs hálsi,
rann rekk um munn
rauðr dreyri.
Þá rak hljóð upp
húsgángsmaðr,
ok til grundar
grenjandi fèll,
brauzt um á hæli
ok hnakka bæði,
ok bjarta barði
Bölverks rúnu.
49. Hófu upp hendr,
hlógu biðlar,
búnir af hlátri
brátt at springa,
þá er Odysseifr
endlángan gaur
fram úr fordyri
á fæti teygði.
50. Dró hann drösul út
um dyr svölu,
uns í garð kom
gylva hallar.
Þar nam hann sissa
segg dugvana,
ok hrotta hallast lèt
upp við hallargarðs vegg.
51. Hrósaði sigri,
lèt í hönd koma
stafkarli stafprik
stillir lýða.
Ok á Írus
öðlíngr þeima
vænghröðum vann
vorpit orðum:
52. "Hèr skaltu sitja,
svínum varða,
hraumr, ok hundum,
hèr skaltu sitja!
Hirð-attu gesta
nè gaungumanna
konúngr vera,
kjarklaust auvirði!
Hætt er við ella,
at enn af stundu
verri för farir,
en fórtú nú".

---

53. Svo kvað skilfíngr,
ok skreppu sinni
varp á herðar sèr
herfilegri;
sá var malr
margraufóttr,
fest í flèttuband,
fíngrum at halda.
54. Gekk þeingill aptr
at þreskeldi,
þar nam niflúngr
niðr setjast.

ϱ. XVIII, 92-110.

Hlægjandi biðlar
í höll geingu,
heilsuðu hilmi
ok hann svo kvöddu:
55. "Gefi þèr, gestr,
guða faðir
ok aðrir eilífir
uppheims tívar
unað alls konar,
er þú æskir þèr
ok sem hugr þinn
helzt til stendr,
fyrir þat at þú
þessa hefir
vanit af verðgáng
voms um bygðir".
56. "Því at þenna brátt
þrjót vèr skulum
til Ektus
öðlíngs flytja,
almanna skelfis,
er allir hræðast
mennskir menn
á meginlandi".
57. Svo þeir sögðu,
en sjóli gladdist
Odysseifr
af orðheill þeirri.
58. Lèt þá lagit
fyri lofðúng snjallan
iðr allsèligt
Antínóus;
sú var vömb
vel fullmikil
blóði ok mörvi
mjök upp falin.
59. En tvö brauð
tók úr körfu
Amfínómus,
ok fyrir öðlíng setti,

ρ. XVIII, 110-130.

skeinkti skært vín
á skál gullna,
drakk á dýran,
ok döglíng kvaddi:
60. "Heill vertu, gestr
inn heiðrsverði!
Hagsæld hvers konar
ok hamíngju lán
hèr eptir hljóttu,
alls þú híngat til
mörgum mannraunum
mæta knáttir".
61. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
"Svo mèr á þik lízt,
Amfínómus,
sem maðr mjök vitr
munir vera".
62. "Áttu ok kyn
til kosta varit,
fór fagrt orð
af föður þínum;
var Nísuss, drottins
Dúlíkseyjar,
orðlagt ágæti
ok auðsæld mikil".
63. "Þik kveða föður
fæddan slíkum,
ertu vænligr
til vits ok gæzku.
Því vil ek orð eitt
innt þèr láta,
en þú orði því
athuga veit".
64. "Ístöðuminni
er eingi skepna
mennskum manni
fyri mold ofan,

skepna allra,
er skríða um foldu
ok í andfari
anda draga".
65. "Meðan honum geingi
guðir veita,
ok hann krapts kennir
knjáliðum í,
hyggst hann aldreigi
áleingdar munu
mótgángi mæta
í munarheimi".
66. "En er blíð regin
böl margs konar
á daga manns
drífa láta,
þrokar hann þolugr
ok þumbast við,
en hlut sínum
hvergi unir".
67. "Því svo er breytilig
í brigðum heimi
lofða lund
láðbyggenda,
sem dagr, þanns dregr
yfir dróttmögu
gumna faðir
ok guða ríkra".
68. "Eitt sinn ek mátta
með alda sonum
hagsælda njóta
ok hamíngju láns;
en ek ójöfnuð
opt nam drýgja,
ofríki beita,
afli bella:
því ek föður mínum
fullvel treysta'k,
ok ek bræðrum mínum
bezt fulltrúða'k".
ϱ. XVIII, 131-150.

69. "Því skyldi aldreigi
ýta nokkurr
firniverk fremja
með frekri dirfsku,
heldr með spekt
ok spöku lyndi
gjafa njóta
er honum guðir veita".
70. "Sèr ek slík
í sjóla ranni
biðla firniverk
í frammi hafa:
eigum eyða
alda stýris,
ok sjálfa svívirða
siklíngs rúnu".
71. "Hykk-a þó hilmi
hèr í frá leingi
fjarri verða
feðra grundu,
nè hollvinum
horfinn sínum.
Er hann allskammt hèðan
at ætlan minni".
72. "Væri betr,
at vættr nokkur,
síðr hittir hann,
heim þik leiddi,
þegar hann lángt
úr löndum kemr
aptr ástkærrar
ættjarðar til".
73. "Ætlan mín er,
at eigi muni
buðlúngr barr
ok biðlar skilja
orrustulaust,
ef eitt sinn náir
undir húsþak sitt
hilmir komast".

74. At mæltu því
mætr jöfurr
dreypti, ok drakk
hit dásæta vín,
ok öldra ker
aptr seldi
horskum í hönd
hölda stýri.
75. Gekk Amfínómus
endlángan sal,
þá var ángrvært
öðlíngs hjarta;
hann höfði laut
at hauðri niðr,
því hann óa tók
fyrir illu nokkru.
76. Mátti halr þó
hel ei forðast,
því feingsæl Aþena
hann fjötra gerði,
at hann fyr höndum
hníga skyldi
ok dreyrgu darri
döglíngs sonar.

---

77. Þá lèt Aþena
hin augumglæja
hagligt ráð
til hugar koma
mannvitsprúðri
Penelopu,
Íkaríuss
eingadóttur.
78. Vildi blíð brúðr
fyri biðla gánga,
at þeim sem óðast
ástir sylli,
ok sjálf hún yrði
af sínum veri
metin, ok megi,
meirr en áðr.
79. Hló hilmis kvon,
harmi þrúngin,
köldum hlátri,
kalt var í brjósti.
Ræðu tók reisa
ræsis mála,
ok hún þat orða
alls fyrst um kvað:
80. "Erumk innan brjósts,
Evrýnóma,
lyst, sú er aldrei var
áðr fyrri,
inn til biðla
í öðlíngs sali
leið at leggja,
þó mèr leiðir sè".
81. "Svo it sama má'k
syni mínum
gott ráð gefa,
er honum gagn at sè,
at hann með öllu
ávallt skuli
fund um firrast
frekra biðla,
því þeir fagrt
í fyrstu mæla,
en illt í hyggju
hafa síðan".
82. Gegndi matselja
máli dýrrar,
Evrýnóma,
öðlíngs rúnu:
"Hefir þú öll
af efni rèttu
dæmi, dóttir góð,
dregit þessi".
83. "Fara þú skalt
á fund sonar,

ϱ. XVIII, 151-171.

orð honum inna,
ok eingu leyna.
Þó skyldir ljúf fyrst
laugar taka,
ok með krismu þèr
kinnr smyrja".
84. "Skal-attu fara
flóð í tárum,
eins ok ertu nú,
með andlit grátið.
Er-a gott gumum
gráta jafnan,
hættr er harmr,
er hvergi linnir".
85. "Því þinn er á þann
þegar kominn
aldr arfi,
er þú einkum baðst
ódauðliga
uppheims guði,
at frumvaxta son þinn
feingir líta".
86. Svaraði svinnri
selju matar
prúð at mannviti
Penelopa:
87. "Hirð-attu biðja,
þó at, brúðr, sè þèr
um mik all-annt,
Evrýnóma,
at ek laugast
í ljósu vatni
ok smyrslum með
smyrjast láta'k".
88. "Því andlits blóma
öllum mínum
guðir ólympskir
of glatað hafa,
sízt á breiðhúfum
borða mari

ϱ. XVIII, 171-190.

hugljúfi minn
á haf sigldi".
89. "En þú ítra bið
Átonóu
ok Hippodamíu
hinnig koma,
at þær standi mèr,
er stíg ek ofan,
til sinnar handar hvor
í hallar sölum.
Fyriverð ek mik,
þars fyrir eru
ýtar, ein saman
inn at gánga".
90. Gekk úr herbergi
gömul kona,
þá er mála mildíngs
mælt þat hafði,
brúðum at birta
boðskap sagðan,
ok til herbergis
hinnig kalla.
91. Hafði nú annat
með höndum ráð
Aþena, gyðja
hin augumglæja:
blíðum blundstöfum
brá of fagra
Íkaríuss
eingadóttur.
92. Hneig at hægindi
hilmis rúna
á bak aptr,
ok blund rèð festa;
ok lèmagna allir
limir vurðu
þar á bólstrbekk
buðlúngs málu.
93. Gyðja á meðan
málvinu grams

himnesk himneskum
hnossum gæddi,
at biðlum akkneskum
öllum skyldi
starsýnt verða
á stillis brúði.
94. Fyrst hún fágaði
fegrð himneskri
ásjónu ítrar
öðlíngs brúðar,
slíkri fegrð sem
fágaða sik
lindgöfug lætr
lostagyðja,
þá er í þægan
þokkadísa
dansglaum geingr
goð Kýþeru.
95. Lèt hún þreknari
þöll gulls verða
ok vöxtuligri
á velli at sjá,
ok hörundshvítri
hodda gerði
Freyju fílsbeini
fagrsorfnu.
96. Ok hálig
himindísa
gekk braut gyðja
at gjörvu þvísa.
En hvítarmaðar
úr herbergi tvær
þjónustumeyjar
þángat komu.
97. Geingu gulls þellur
með glaumi miklum.
Þá brá blundi
buðlúngs rúna;
nam hlýr sèr
höndum strjúka

ϱ. XVIII, 191-210.

ágætt öðlíngs víf,
ok orð rèð mæla:
98. "Mjök hefir mjúkr
mik svefn vafða,
hörðum hörmum
háða brúði.
Ó, at mær mèr
mjúks eins vildi
andláts Artemis
unna í stað!"
99. "Svo ek af harma
hörðu stríði
leingr ei láta
líf mitt hjaðna,
sáran saknandi
svinnra kosta
ástkærs eiginmanns,
þess er allra var
ýta akkneskra
yfirbátr".
100. Gekk úr loptsal
glæsiligum
ofan öðlíngs kvon,
at inntu þvísa.
Eigi var hún ein,
ítri fylgðu
þekkiligar tvær
þjónustumeyjar.
101. En er þángat kom
þeingils rúna,
bragr brúða,
er biðlar voru,
nam dýr drottníng
við dyrustaf
staðar stofu
stórvel gjörrar.
102. Hèlt vegligt víf
fyri vaungum sèr
höfuðblæju
harðla fagri!

en siðminnug
sín til hvorrar
handar henni stóð
herbergismær.
103. Varð heillaðr
hugr biðla,
kenndu knèskots
karskir rekkar:
því horskra hverr
á hvílbeð vildi
gánga með ljósri
lofðúngs rúnu.
104. Trygg þá tjáði
við Telemakkus,
arfa ástkæran,
öðlíngs mála:
105. "Átt-attu til
Telemakkus,
sett ráð framarr,
nè svinna hyggju.
Horskara bartu
hug í brjósti,
er þú enn rannt
á æskuskeiði".
106. "Nú, — þegar þú
þroska fullan
ok aldr frumvaxta
of feingit hefir;
ok þegar margr
maðr útlendr,
sá er vöxt þinn
ok vænleik liti:"
107. "Segja mundi,
er hann sæi þik,
at sæls manns þú
sonr of værir: —
nú er-a framarr
náms í reiti
hyggja horsk þèr
nè hugar stilli".

ϱ. XVIII, 211-230.

108. "Hvílíkt er hèr
haft í frammi
háttalag höfugt
í hallar sölum!
Er þú útlendan
atkomumann
lætr misverkum
mæta slíkum!"
109. "Hversu veit við,
ef verr útlendr,
sá er á setu
í sölum vorum,
þannig mæta má
misþyrmíngu,
harðlega hrjáðr
ok hrakinn sárla?
Maklegri muntu
af mönnum öllum
sjálfr sæta smán
ok svívirðíngu".
110. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok henni aptr
annsvör veitti:
"Lái ek, móðir
mín, þèr eigi,
þóttú reiðist
af rökum slíkum".
111. "Hefir ek hyggju
í hjarta þegit,
ok skilníng skíran
á skipun allri,
illu sem góðu;
en ek áðr vark
bernskr í breytni
ok barn at aldri".
112. "Má ek þó móti
meðr eingu
hagspeki hafa
í hverjum greinum;

ýtar 'ru þessir
ills til gjarnir,
glepja mik gumnar,
gera mik æran,
ok einn at öðrum
at mèr setjast;
er einngi mèr
til annarrar handar".

113. "Rèðst-a þó rimma,
sú er rekka milli,
gests ok Írusar,
áðan háðist,
eptir ósk biðla,
því efri varð
atkomumaðr
hinn ókunnugi".

114. "Gefi þat Seifr,
gumna faðir,
augnskær Aþena
ok Appolon,
at afdrifum
illir biðlar
sömu sætti
í sölum vorum":

115. "Hèngi nauðnýddir,
niðrlútir,
sumir frammi,
forgarðs innan,
aðrir inni,
í almanna sal,
dugvana allir
ok dáðum firðir;"

116. "Svo sem Írus,
hinn er ósigr beið,
við forgarðs dyr
frammi sitr,
hýmir ok heingir
höfuð niðr,
dauðadrukknum
drjóla líkr;"

ϱ. XVIII, 231-250.

117. "Fær-at fóli sá
á fætr staðit
allr upprèttr,
nè orku hefir
heim at hokra,
hæli at finna;
svo eru limir
lèmagna hans".

118. Þannig mæðgin tvö
mæltust viðr,
mögr ok móðir,
í mildíngs sölum.

---

119. En Evrýmakkus
orðum þeima
Penelopu nam
prúða kveðja:
"Heyr, Íkaríuss
ágæt dóttir,
prúð at mannviti
Penelopa!"

120. "Ef þik Akkverjar
allir liti
um óðal Jasusar,
Argverjaland:
enn fleiri þá
í yðrum sölum
biðlar á morgun
mundu snæða".

121. "Því ein þú lángt
of allar geingr
Freyjur falda
á foldu þessi
at ásýnd allri,
ítrum vexti
ok ráðdeildar
rèttu lagi".

122. Því nam orði
aptr svara

prúð at mannviti
Penelopa:
123. "Atgjörvi mína,
Evrýmakkus,
vænleik allan
ok vaxtar prýði
at forgörðum
fara lètu
ódauðlegir
uppheims tívar:"
124. "Þá er Argverjar
á ægis hestum
til Ilíonsborgar
unnir kníðu,
ok meðr þeim
minn var í för
eiginmaðr
Odysseifr".
125. "Ef heim hann
væri til húss kominn,
ljúfu at líkna
lífi mínu,
þá mundi meiri
minn ok fegri
orðstír verða
með alda börnum.
Nú em ek hörðum
harmi stúngin;
svo hefir mein mörg
mèr guð lagit".
126. "Man ek þat enn,
er minn verr endr
frá mèr fór
úr föðurlandi;
handar innar hægri
hilmir þá tók
úlnlið mèr um,
ok orð nam spjalla:"
127. ""Hykk-at ek, kona,
(kvað hann við mik),
harðbrynjaða
hali akkneska
tírargjarna
frá Trójulandi
alla heim koma
heila munu"".
128. ""Því at Trójumenn
taldir eru
halir hraustir mjök
í hildar leiki,
vigrum at verpa
at vallroði,
örum at skjóta
af ýboga"".
129. ""Þeir fótfrám
fákum kunnu
hagliga stýra
fyri herkerrum;
sköpum skjótast
skipta slíkir
í samfeldri
sverða rimmu"".
130. ""Veit ek því eigi,
hvort auðit lætr
heimkomu mèr
himna jöfurr,
eða ek tírkunnu
í Trójulandi
láta líf mitt skal
í leiðángri þeima"".
131. ""Áttú um allt sjá
hèr innan húss;
minnstu móður
ok míns föðurs:
annast þau, sem áðr,
eðr enn þá fremr,
meðan ek fjarvistum
fer at brautu"".
132. ""En sem þú sèr,
at sonr okkarr

ϱ. XVIII, 250-269.

aldr frumvaxta
feingit hefir,
guma þú gipzt,
er þèr gezt at bezt,
ok í brott búst
frá bústað þínum"".

133. "Þannig nam þeingill
þá at mæla;
mun þat allt nú
eptir gánga".

134. "Þá mun dimm nótt
ok döpr verða,
er berst at bölva full
brúðkaupstíð mín,
fagnaðarlausrar,
er firða hefir
hverri hamíngju
himna jöfurr".

135. "Eitt er, sem ótt minn
ángrar huga,
ok helzti þúngt
mèr á hjarta leggst.
Tíðkaðist eigi
á tíðum fyrrum
með horskum biðlum
háttalag slíkt".

136. "Þeir er göfugrar
gullhlaðs Freyju
ok auðmanns vildu
eingadóttur
gjaforð geta,
gjarna kepptu
hvorir við aðra
höfðíngskap í".

137. "Gjafar þeir gáfu
gersimligar
brúði bjarthaddri,
er þeir biðja geingu,
en uxa færðu
ok alifè
meyjar vinum
til mannfagnaðar.
En sið þann sízt
seggir höfðu,
iðgjaldslaust eyða
annarra fjám".

138. Mælti svo mengóð,
en mildíngr gladdist,
Odysseifr
hinn eljunfrækni,
er hún gjafar ginnti
gilmönnum frá,
ok hug þeirra heillaði
högum orðum;
fagrt hún mælti,
en fljóð allt annat
hulit hafði
í hugar fylgsni.

139. Öðlíngs ástvinu
annsa gerði
arfi Evpiþess,
Antínóus:
"Heyr, Íkaríuss
ágæt dóttir,
prúð at mannviti
Penelopa!"

140. "Tak við gjöfum,
er þèr gefa vilja
halir akkneskir,
ok hinnig færa.
Er-a sæmiligt
synja gjafa,
ok vel boðnu
vant at neita".

141. "Þó munum hvorki
til heima vorra
aptr hverfa,
nè annat nokkut,
fyrr en þú, gullskögul,
gefast lætr,

ϱ. XVIII, 269-289.

guma akkneskra
þeim göfgastr er".
142. Innti svo ítr
Antínóus,
líkuðu orð hans
lofðum öðrum.
Hverr sinn kallara
halir sendu,
gjafar at sækja
siklíngs brúði.
143. Einn færði ítrum
Antínóus
möttul mikinn,
meginfagran,
hann var fjölmörgum
fáðr litum;
ok alls þar
á þeim möttli
tvennir sex krókar
af kláru gulli
fèllu í lykkjur
fagrbeygðar.
144. Annarr nam færa
Evrýmakkus
brjóstfesti, blikandi
birti Rínar,
lýsigulls laugaða
ljósum köflum,
fagrahvels fágaða
fögrum geislum.
145. Evrýdamanti
eyrnagull tvö
fagrmerluð
færðu þjónar;
þar var þrúngit í
þrem gimsteinum,
lýsti þar fegrð af
furðu mikil.
146. Frá Písanders
Polýktorssonar,
göfugláts
gumna stjóra,
hálsfesti eina
hans þjónn færði;
þat var gersimi
geisi fögur.
Ok Akkverjar
allir færðu
gjöf sína hverr
harðla fagra.
147. At loknu þvísa
upp í loptsal gekk
biðkvon buðlúngs,
bragr kvenna.
Herbergismeyjar
henni fylgðu,
ok gjafar báru
glæsiligar.

---

148. Hvörfluðu biðlar
at hjartanliga
sætum saung
ok snúðgum dansi;
gömnuðu sèr,
ok glaðir biðu
þess, at kveldrökkr
kæmi yfir.
Ok glöðum gumum,
gamnöndum sèr,
skuggsýnt rökkr
of skör nam líða.
149. Þá lètu þegar
þrjár upp setja
biðlar blyspönnur
í buðlúngs sölum,
birtu at bera;
en branda lögðu
allt umhverfis
á eldpöllum þeim.

ϱ. XVIII, 289-309.

150. Þau voru skíði
skraufþurr laungu,
eldnæm, eirmálmi
öll nýklofin;
komu þar milli
meðal branda
týrviðar spónum
törgu meiðar.
151. Tendruðu skíð þau
til skiptis þar
þernur Odysseifs
ins þróttöfluga.
Þá nam til þeirra
þeingill mæla,
öðlíngr ítrborinn
Odysseifr,
hinn er ráð hafði
und rifi hverju:
152. "Þernur, er þjónit
þeingli frægum,
þeims leingi hefir
úr landi verit!
Hverfit nú hèðan
herbergja til,
þars dýr drottníng
drýgir setu".
153. "Sitið í sal
hjá siklíngs brúði,
látið snúðgar þar
snældur hvirfla,
eða í höndum
hrína kamba,
skírri skemtið svo
skilfíngs rúnu".
154. "Ek skal þat annast,
at allir fái
birtu biðlar hèr,
svo at bresta skal-at.
Því þó dreingja drótt
dvelja vili
í döglíngs sal
til dags at morni,
skulu-a bilbug
bragnar finna á mèr,
því ek þraut marga
þolat hefi'k".
155. Mælti þat döglíngr,
en drósir hlógu,
ein til annarrar
augum vísaði.
Þá nam kinnfögr
kallsyrðum smá
Melanþó mildíng,
er hún minnst skyldi.
156. Þá hafði Dólíus
dóttur átta,
en prúð upp ól
Penelopa,
lèt hana dátt,
sem væri dóttir hennar,
ok leikfáng lèði,
sem hana lysti til.
157. Bar-a þó sorg sú
í sínu hjarta
prúðrar um sakar
Penelopu,
heldr ást ól
á Evrýmakkus,
ok saurugt við hann
samlag átti.
158. Ok Odysseif
illfús deigja
orðum hrakyrði
hneisulegum:
"Víst er vit þitt,
vesall gestr,
fokit til fjalla
úr fylgsnum hugar".
159. "Vill-attu, seggr,
sofa gánga,

ę. XVIII, 309-328.

ok í smiðjubúð
smeygja þèr inn,
eða í skrafskála,
skreiðast brottu,
heldr slæpist hèr
ok slafrar mart".
160. "Ertu ofkátr,
af því af Írusi bart
í hnefaleik
hússgángsmanni?
Varastu samt,
at ei vaskari honum
annarr upp rísi
innan stundar".
161. "Sá er haus þinn
höndum báðum
beri og beysti
burðalegum,
ok þik ataðan
allan blóði
hèðan úr höll
til hunda reki!"
162. Ræsir hinn ráðsnjalli
með reiðisvip,
Odysseifr,
við ambátt mælti:
163. "Á augabragði
ek skal fara,
tæfa þín, til
Telemakkusar,
þars í sess sitr,
ok segja þegar
honum, hversu þú
hagar orðum.
Hann mun þik þá
þegar í stað
sundr höggva
í sega marga".
164. Innti svo öðlíngr,
ok með orðum tómum

ϱ. XVIII, 328-349.

á dreif dreifði
drumbu jóðum.
165. Hljóp hver, sem gat,
úr höll at bragði,
hræddar voru,
hnjáliðir skulfu;
ætluðu ambáttir,
at Odysseifr
mundi í alvöru
orð þau tala.
166. En Odysseifr
at eldpöllum gekk;
loguðu log þar,
en hann at logum gerði,
ok at blyspönnum
blysum hvarma,
eina sem aðra,
ávallt renndi.
167. En hjarta hans
í hugar fylgsnum
hugsunum öðrum
hreifa gerði.
Urðu þær eigi
at endileysu
hugsanir hilmis
ins hugumstóra.

---

168. Eigi með öllu
Aþena lèt
bitr bölsyrði
biðla dvína,
til þess skapraunir
skyldu gánga
hilmi nær hjarta
hyggjuprúðum,
arfa Laertess
Odysseifi.
169. Tók nú at tala
með teitum biðlum

arfi Pólýbuss
Evrýmakkus;
hann spott um dró
at spökum hilmi,
en hinum biðlum
hlátr vakti:
170. "Hlustið til (kvað hann),
horskir biðlar
meginmætrar
mildíngs rúnu,
meðan ek mæli,
þats mèr um býðr
hjarta í brjósti
brögnum inna!"
171. "Kom-at án ráði
ríkra tíva
í höll Odysseifs
höldr þessi.
Sýnist mèr af höfði
hans upp stíga
rètt sem af blysum
bjarmi ljómandi.
Glitar í skalla
á gesti þeima,
finnst-a hár nè hý
á höfði rekks".
172. Síðan sælíngr
svo nam kveðja
öðlíng Odysseif,
eyði stórborga:
"Mundir þú vilja,
ef ek við þèr tækja,
gestr, á mínum
garði vinna?"
173. "Þar skyldir þú
við þröm túnjaðra
grjót upp grafa,
garða hlaða,
eikr í grundu
gróðrsetja,
ok, sem vert væri,
verkakaup fá".
174. "Skylda'k gefa þèr
gnógt til fæðslu,
átmat allan,
svo at ekki skyrti,
fatnað fullan
til at fara í,
ok ilskó at binda
und iljar þínar".
175. "En þú eigi munt
áfúss vera
verknað vinna,
þann er virðum gagni,
alls þú óverkum
einum saman
vanizt hefir
með vinnuleysi".
176. "Hitt mun þèr heldr
hóti ljúfara,
beina biðjandi
um bygðir hvarfla,
at fyllta fáir,
þá er fyllist aldri,
hvomu þína
á hölda gjöfum".
177. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
178. "Annat þú segðir,
Evrýmakkus,
ef vit tveir við
í vinnu kepptimst
vortíma á,
þá er verða taka
fyri Dellíngs dyrum
dagar lángir".
179. "Skyldim hey slá,
ok í höndum mèr

ρ. XVIII, 349-368.

ljár vel lagðr
leika knætti,
svo ok sjálfum þèr
at sama hófi;
at vèr knáleiks
kynnim freista,
fastandi fram,
uns væri fullrökkvit,
þar er grass grèri
gnótt á velli".
180. "Eða ef ættim tvo
uxa keyra;
skyldu þat afbrögð
yxna vera,
móðugir mjök,
miklir næsta,
hvortveggi fullr
af fóðri gnógu,
báðir jafnsterkir
ok á jöfnum aldri,
ok til áreynslu
óbilugir".
181. "Ættim at erja
alvöllu tólf,
ok jörð auðkleyf
fyrir arðr væri:
þá skyldir þú sjá,
hvort þeigi munda'k
renna fram rakleiðis
ristu beinni".
182. "Eða ef hildi í dag
hèr nokkverja
lèti Kronusson
í landi vakna:
hefða'k á hlið mèr
hlífskjöld góðan,
ok höggspjót tvö
í hendi minni,
hefða'k á höfði
hjálm eirfastan,

ϱ. XVIII, 368-388.

hæfan Heimdalar
hjörvi mínum;
183. "Þá skyldir þú mik
þar mega sjá
í flokki frumherja
fremstan standa;
nè þá þú
þurfa skyldir
mèr um hít mína
mjök at brígzla".
184. "En þú drambs ert
ok dular fullr,
hefir harðhugat
hjarta í brjósti;
þykistu mikill
maðr vera,
ok villt hönd hafa
yfir hverjum rekki,
af því með fám einum
fírum þú ert,
ok eigi hvers kostar
háttagóðum".
185. "En ef Odysseifr
aptr kæmi,
ok heim hyrfi
at hauðri feðra,
þá mundi þèr,
þó þessar sè dyr
raun-rúmligar
ræsis hallar,
þraungvar verða
er þar í gegnum
fram um fordyri
flýja skyldir".
186. Við þau öðlíngs orð
Evrýmakkus
fylltist afarheipt
enn þá meiri;
leit hann við ræsi
með reiðisvip,

ok orðum vænghröðum
venda gerði:
187. "Allbrátt, auvirði,
þèr at illu mun
reifa raus þitt,
ef ek ráða mætta'k,
er þú ósvífum
orðum hreytir
í firða fjöld,
ok eigi fyrir sèst".
188. "Vín mun vit frá þèr
vèlat hafa,
eða sá hugþokki
helzt við þik æ,
at þú ónýtum
orðum geipar,
ok mjök svo mælir
at munns ráði".
189. Ok sem mæríngr
mælt þat hafði,
hann fótskemil
fram nam taka;
en sèr undan ók
Odysseifr
(af Evrýmakkus
honum ótti stóð),
ok hjá knjám
kom sèr niðr
dýrs Amfínómuss
frá Dúlikseyju.
190. En fótskemill
fleygðr lendi
í hægri hönd
horskum byrla:
kanna hrökk um koll,
kvað við í gólfi,
en hann opinn á jörð
æpandi fèll.
191. Höfðu hátt um sik
horskir biðlar
í skilfíngs sal
skuggaríkum.
Sást til seggir,
sagði hverr öðrum,
náinn nánum
náði mæla:
192. "Óskanda væri,
at annarstaðar
gaungugaurr sá,
áðr hann gisti oss,
hefði hel gist;
hefði-t þá slíka
oss í styrjöld steypt
stafkarl þessi".
193. "Nú vèr sennum
ok sakar deilum
um gesti fátæka
ok farandmenn.
Verðr-at unað
at veizlu góðri,
þegar má sèr meirr,
þats meinum veldr".
194. Þá kvað til þeirra
þeingils arfi,
Telemakkus,
sá er trúði afli:
195. "Óðir 'ro þèr
ok örvita,
megit-a mat
nè mungát hvorki,
þess er neytt hafit,
niðri halda;
geisir yðr geð
guða nokkurr".
196. "Nú, alls verðar
vel hafit neytt,
haldit heim þèr,
ok til hvílu gángit,
ef yðr hugr
hèr til stendr;

ϱ. XVIII, 388-409.

vísa ek vera
á veg eingum".
197. Bitu á varrar
biðlar allir,
er svo talaði
Telemakkus,
ok undruðust,
at hann orðum skyldi
dirfast mæla
svo dirfskufullum.
198. Upp hóf þá erindi
á ýta fundi
Amfínómus,
ok orð rèð mæla:
199. "Eingi maðr mun,
mínir vinir,
ræðu rèttsýnni
reiðr verða,
nè orðum aptr
andærligum
undir taka
við öðlíngs niðja".
200. "Hrekit ei, höldar,
hal ókunnan,
nè mein vinnit
manni nokkrum,
þræla þeirra,
er þjóna í höllu
Odysseifs
hins ítrborna".
201. "Byrli dýran drykk
til dreypifórnar
skeinki á skálar,
ok skötnum deili.
Svo skulum dreypa
dýrum veigum,
ok til húss hverfa,
hvíld at fánga".
202. "Gest inn ókunna
eptir munum
verða láta
í vísis ranni.
Telemakkus
honum tènað veiti,
alls hann í hús hans
hjálpir sótti".
203. Innti svo ítr
Amfínómus;
undu allir vel
atkvæðum hans.
204. Þá nam í skaptkeri
skært vín blanda
dýrr dreingr Múlíus
frá Dúlikseyju.
Hann var kallari,
ok knátti þjóna
ítrgeðjuðum
Amfínómus.
205. Hann til hvers gekk,
ok höldum öllum
dýrar veigar
deila gerði;
en dreingir dreyptu
díum sælum,
ok sætt sumbl
síðan drukku.
206. En er dreypt
ok drukkit bæði,
svo sem lyst til lèk,
lofðar höfðu,
þá sèrhverr
svefns of lystr
heim at herbergi
til hvíldar gekk.

ρ. XVIII, 409-428.

# NÍTJÁNDA KVIÐA.

En Odysseifr
eptir dvaldist,
sjóli sóknhvatr,
í sal hallar;
með Aþenu
um nam at hugsa,
hve bana búa
biðlum knætti.
2. Þá lèt þegar
til þeingils sonar
vísir vænghröðum
vikit orðum:
"Öll skulum taka,
Telemakkus,
hervopn úr höllu,
ok hirða vel".
3. "En sakni seggir
úr sal vopna,
ok þik eptir þeim
ýtar spyri,
þá skaltu biðla
blíðum orðum
gæla ok ginna,
at þá gruni ekki".
4. "Hirða ek hervopn
(herma skaltu),
ok úr römmum reyk
rèð at taka;
hefir elds íma
um þau leikit,
farin er hin forna
fegrð þeirra".
5. "Ólík þau eru,
þeim er eptir skildi,
Gunnar gögnum
enum gersimligu,
Odysseifr,
þá er endr of fór
Trójuborgar til,
Týs leik heyja".
6. "Skaut mèr ok guð nokkurr
(skaltu segja)
öðru enn í brjóst,
er alls meirr varðar:
vera má, at verðit
vínreifir þèr,
ok með drukknum dreingjum
deila rísi".
7. "Kynnut sjálfir svo
sár á berast,
veizluspjöll vinna,
ok vansemd gera
bónorði biðla,
því bregzt sjaldan,
at vaknar víghugr,
ef vopn er á þili".
8. Taldi svo tiggi,
en Telemakkus
forsjá föður síns
framla hlýddi;
ok fóstru sína
fram rèð kalla,
Evrýkleu,
ok til orða tók:
9. "Ger þat, móna mín,
mèr til vilja,
húss-ambáttum halt
herbergjum í,
meðan föður míns
in fögru ek legg
hervopn, ok hirði
í húsi uppi".

10. "Liggja í höll hèr
í hirðuleysi,
svívirð af svælu
ok svört af reyki.
Hefir faðir minn
fjarri verit,
en ek í æsku
allt til þessa.
Nú vil ek vopn þau
í vörzlum hirða,
síðr elds íma
at þeim komist".

11. Aptr annsaði
öðlíngs kundi
Evrýklea,
ástkær fóstra:

12. "Óska'k, attú þó
einhvern tíma
feingir, sonr sæll,
svinna hyggju,
heimili hirða,
ok hagsýni með
eigum öllum
umsjá veita".

13. "Bannar þú fljóðum
fram at gánga,
knætti þó lýsa þèr
ok á logum halda.
Hver skal þá gánga
(get þess fyr mèr)
ok blys bera
fyrir buðlúngs syni?"

14. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok henni aptr
annsvar veitti:
"Gestr inn gamli
skal gegna slíku
hann skal mèr lýsa
ok á logum halda".

ϱ. XIX, 18-36.

15. "Munk-a ek leyfa
lofða nokkrum,
þeim er brauð bítr
af borði mínu,
athafnarlausum
uppi at standa,
en þótt hann lángt sè
úr löndum kominn".

16. Mælti svinnr svo
siklíngs arfi,
nè á glæ runnu
grams sonar orð:
gekk fóstra fram,
ok fastla læsti
dyrum vel settrar
vísis hallar.

17. Brugðu við bráðla
báðir feðgar,
Odysseifr
ok hans arfi frægr;
hjálma háseymda,
hvelda skjöldu,
bitra blóðorma
báru at húsi.

18. Pallas Aþena
undan þeim gekk,
hèlt lagar ljóss
á ljósbera,
ok umhverfis lèt
alla vega
bjart skínanda
bjarma ljóma.

19. Þá nam hinn tryggi
Telemakkus
fljótt við föður sinn
frægan segja:
"Firnum furðuligt,
faðir minn, er
undr, er ek hèr
augum of lít'k".

20. "Sèr ek endlánga
salar veggi,
sèr ek sjónfagrar
súlna-hvilftir,
máttar-þvertrè
und miðju lopti,
ok hátt gnæfandi
hallar súlur".

21. "Logar hvervetna
ljóma skærum
allt, er ek á lít,
sem eldr brenni.
Er víst inni hèr
einnhverr guða,
þeirra er víðbláinn
víðan byggja".

22. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:

23. "Haf hljótt um þik,
hugþokka geym
þinn með þèr sjálfum,
nè þar um grenslast.
Sú er siðvenja
sælla tíva,
þeirra er á Ólympi
uppi búa".

24. "Svíf nú braut, sonr,
ok sofa gákk,
en ek einn hèr
mun eptir dveljast.
Ambáttir erta
enn mik lystir,
ok móður þinnar
meirr um freista;
sú margra mun
mik of fregna
nistis njórunn
nýrra spjalla".

ϱ. XIX, 37-56.

25. Tjáði þat tiggi,
en Telemakkus
svinnhugaðr sveif
sal í gegnum,
bar brennandi
blys í hendi,
herbergis til,
hvíld at nema.

26. Þar var hann vanr
værðar njóta,
þá sætr á sjónir
svefnhöfgi rann.
Þar lofðúngs son
lagðist niðr,
ok birtíngar beið
á beði þeima.

27. En Odysseifr
eptir dvaldist,
sóknhvatr siklíngr,
í sal hallar;
með Aþenu
um nam at hugsa,
hve bana búa
biðlum knætti.

---

28. Sveif fram úr sal
siklíngs rúna,
prúð at mannviti
Penelopa,
áþekk Artemis,
eða Affrodítu,
gulli glæstri
gyðju frygðar.

29. Stóð stóll við eld
handa stillis brúði,
á þeim vant var
víf at sitja;
sá var fagrliga
fílsbeini með

horfinn hvervetna
ok handar snævi.
30. Þann hafði smíðat
smiðr forðum
Ikmalíus,
ok undir niðri
fótskör áfasta
fyrir fætr gert;
var þar stór gæra
fyrir stólsetu.
31. Á þann stól
þá nam setjast
prúð at mannviti
Penelopa.
Komu þernur þá
þángat í sal
út af herbergi
hvítarmaðar.
32. Tóku vista gnótt
víf í brottu,
ok borð úr sal
á braut fluttu,
svo ok drykkjarker,
er drukkit nýla
áðr af höfðu
ofrhugar.
33. Ok þær til jarðar
urpu niðr
eisu allri
af eldpöllum;
á hlóðu aptr
ærnum viði,
sal at verma
ok veita birtu.
34. Þá nam Odysseif
öðru sinni
Melanþó móðga
meingum orðum:
35. "Dirfist þú enn,
dreingr ókunni,

ϱ. XIX, 56-76.

um hús hvarfla
hèr á nóttum,
oss ónáðir
illar veita,
ok um hag hnýsast
húss-ambátta?"
36. "Dragstu á dyr út,
dusilmenni,
lát þèr nægjast,
at þú nýtr beina.
Brátt muntu ella
brandi lostinn,
um dyr út dreginn
dragna verða".
37. Ræsir hinn ráðsvinni
með reiðisvip,
Odysseifr,
við ambátt mælti:
"Hví, þín herjans norn,
í heiptar æði
á mik svo anar,
ókunnan mann?"
38. "Er þat af því,
at ek þeygi em hreinn,
ok fátækligum
flíkum vafinn
bið mèr beina
um bygðir manna?
Vit, at mik nauð nemr
næsta mikil;
þá hafa hlutdeild
hlotið allir
farandmenn
ok fátæklíngar".
39. "Því at einnig ek
átta forðum
hamíngjuláni
heims at fagna;
gnótt var í búi,
gaf ek mörgum

opt ölmusu
umfaranda,
hversu vesall
sem vera kynni,
hverja þörf sem hann
þola gerði".
40. "Þræla ek átta
þúshundmarga,
ok muni mjök
marga aðra,
þá er einir eiga
auðlegðar menn,
ok þeirs fullsælu
fagna knegu".
41. "Þó lèt Seifr,
sonr Kronusar,
lán þat linna,
því leizt honum svo".
42. "Má því at bera
auðveldliga,
at einnig, ambátt, þú
allrar missir
fegrðar þeirrar,
er feingit hefir
um aðrar fram
önnúngsþýjur".
43. "Hitt máttu hræðast,
at hússmóðir þín
ríkt þèr reiðast
ok refsa kunni,
eða at Odysseifr
aptr komi;
er-at öll von enn
úti um þat".
44. "Ok þó hilmir væri
til heljar geinginn,
ok hans ei framarr
heimkomu von,
er þó svo Appolons
ást at þakka

ϱ. XIX, 76-97.

at hann arfa á
efniligan".
45. "Því á þann aldr
er þegar kominn
tiggja tírmögr,
Telemakkus,
at dylsk-a fyr dýrum
döglíngs syni
illbrigði ambátta
innan hallar".
46. Innti svo öðlíngr,
en orð þau heyrði
prúð at mannviti
Penelopa;
þá nam hún þúngt
á þernu deila,
upp hóf erindi
ok þat orð um kvað:
47. "Ambátt ósvífin
ok ofdirfskufull!
Veit ek fullgjörla,
at þú fyrir berst
freku fram koma
fólskuverki,
þat er í koll þèr
mun koma síðarr".
48. "Vel þú vissir,
vanntu sjálf heyra
af munni mèr,
at í mínum sölum
vilda'k um ver minn
vitorð geta
(því mèr harmar há)
af hal ókunnum".
49. Mælti svo mengóð,
ok matselju rèð,
Evrýnómu,
þeim orðum kveðja:
"Flyt stól híngat,
ok lát feld nokkurn,

Evrýnóma,
þar yfir breiddan".

50. "Þar skal gestr
hinn gamli sitja
þaðan skal hann sínar
sagnir rekja;
þar skal hann orð mín
aptr heyra,
því ek hann spyrja vil
spjalla nýrra".

51. Mælti svo mengóð
mildíngs brúðr;
en stórvel skafinn
stól fram setti
Evrýnóma,
nam sèr ótt flýta,
ok þar feld breiddi
fagran yfir.

---

52. Nam þar á stóli
stillir setjast
Odysseifr
hinn eljunfrækni.
Ok þat orða þá
alls fyrst um kvað
prúð at mannviti
Penelopa:

53. "Orði einu þik
alls vil ek fyrst,
gestr inn gamli,
gjörva fregna:
Hverr ertú
ok hvaðan af löndum?
Hvar er borg þín
ok þeirs þik borit hafa?"

54. Henni annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:

ϱ. XIX, 97-116.

55. "Drottníng in dýra,
dreingja eingi
mennskra þik má
á moldu lasta,
því at þinn ferr
þjóðum ofarr
hróðr háliga
með himinskautum".

56. "Svo ferr hátt hróðr
hölda stýris,
ágæts öðlíngs,
er óttast guði,
þess er fjölmörgum
fíra dróttum
dáðöfligum
drottnar yfir".

57. "Hann er stoð rèttar
ok stólpi laga;
þá berr græn grund
gróða fagran,
bygg ok hveiti,
en bjarkir frjóvar
af aldinum
ofan svigna".

58. "Þá bera ær
ótt í landi,
ok gánga fiskar
at grunnmiðum.
Ríkisstjórn góðri
rekkar fagna,
lifir landsfólk allt
lífi góðu".

59. "Því skalt þú
í þínum sölum
öllu öðru mik
eptir frètta,
en um ætt mína
eigi spyrir,
nè forvitnist
um föðurland mitt".

60. "At þú eigi mitt
enn þá meira
hjarta fyllir
af hugar ángri,
þá ek þess minnist,
því þeigi fár
mik mannraunir
mæddan hafa".
61. "Sæmir-a sitja
með sorg ok kveini
á annars manns
aðalbóli.
Er-a gott gumum,
gráta jafnan,
hættr er harmr,
ef úr hófi geingr".
62. "Á er mèr uggr,
at ambátta nokkur
mèr á brýn beri,
eða þú, brúðr, sjálf,
at ek vínþrúnginn
velta láta'k
harmdögg höfga
af hvarma steinum".
63. Þeim nam orðum
aptr svara
prúð at mannviti
Penelopa:
64. "Atgjörvi, gestr,
gjörsta mína,
vænleik allan
ok vaxtar prýði
at forgörðum
fara lètu
ódauðligir
uppheims tívar:"
65. "Þá er Argverjar
á ægis hestum
til Ilíonsborgar
unnir kníðu,
ok með þeim
minn var í för
eiginmaðr
Odysseifr".
66. "Ef heim hann
væri til húss kominn,
ljúfu at líkna
lífi mínu,
þá mundi meiri
minn ok fegri
orðstír verða
með alda börnum.
Nú em ek hörðum
harmi stúngin,
svo hefir mein mörg
mèr guð lagit".
67. "Því afreksmenn allir
hinir ágætustu,
þeir er eylöndum
yfir drottna
á dröfn dimmri:
Dúlikseyju,
Sámsey ok myrkviði
Sakyntseyjar."
68. "Svo ok þeirs sjálfri
setr eiga
á Íþaksey
allvíðsýnni,
mín nauðigrar
menn þeir biðja,
ok búi gjörvöllu
glata mínu".
69. "Geri'k því hvorki
gestum skeyta,
nè nauðleitamanni
neinum sinna,
nè hirði en heldr
um herkallara,
þegna þarfliga
þjóðar börnum".

70. "Sakna'k Odysseifs
alla daga,
hjaðnar mèr hjarta
af harmi döprum.
Biðlar brullaupi
brátt fram halda,
en ek allra leita'k
undanbragða".

71. "Fyrst mèr í brjóst blès
bragði nokkru
einnhverr día,
at ek dúk væfa'k.
Vatt ek upp vefi,
í vísis sölum,
ummáls ærnum,
allsmágjörvum.
Var'k at, ok vaf'k,
at vefi þeima,
ok biðlum ávallt
þau annsvör veitta:"

72. ""Sveinar böðfræknir,
biðlar mínir!
Með því ítrborinn
er Odysseifr
horfinn til heljar,
þá hvatið eigi
brúðkaupi mínu,
en bíðit heldr:""

73. ""Uns ek voð fæ
vafna til loks
(at ei verði mèr
veftr at eingu),
náklæði lofsæls
Laertesar,
þegar hann skapanorn
skæð á síðan
flatan leggr
við foldar þremi;""

74. ""At mèr eingi
hèr innan lands
akknesk kona
því kasti í nasir,
at fjölskrúðigr svo
fólknárúngr
umbúðalauss
með öllu liggi"".

75. "Svo voru svör þau,
er ek seggjum veitta'k,
trúðu þeir tryggir
tölum mínum.
Vaf'k svo enn víða
vef um daga,
en á nóttum
við nætrblys
aptr upp rakta'k,
þat's ofit hafða'k".

76. "Þannig vel dulda'k
þrjú misseri,
ok Akkverja
alla ginnta'k".

77. "En er árstíðir
aðrar komu,
ok í fáng færðist
hit fjórða ár,
þá mik þernur
at þessu verki
samvizkulausar
svíkja gerðu".

78. "Inn geingu biðlar,
at þar's ek vaf'k,
ok mèr átölur
ærnar völdu.
Varð ek óviljug
(vilda'k eigi)
loks at voðvirkja
vef byrjaðan".

79. "Nú má ek hvorki
með nokkru móti
undan ráðahag
ráðast þessum,

nè ek annat kná
upp at hugsa
ráð, þat er ráðum
renni þeima".
80. "Fram foreldrar
fast mjök halda,
at ek guma nokkrum
gefast láta'k.
En arfi minn
með ángri lítr
bú af bölvísum
biðlum eyðast".
81. "Því nú er mögr minn
maðr orðinn
færr: föðurhúsi
forsjá veita,
ok sjálfr Seifr
syni mínum
atgervi veitir
ok orðstír frægan".
82. "Þó nú þessu sè
þannig varit,
inn mèr þó ætt þá,
er þú ert af kominn;
því ei muntu af eikum
alinn vera,
nè hömrum heldr,
sem höldar kalla".

---

83. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
84. "Heyr, in heiðvirða
hilmis beðja
lofsæls Odysseifs
Laertssonar!
Ætlar þú enn ei
af at láta
ætt minni ok eðli
eptir frètta?"
85. "Ek skal inna þèr
allt af lètta,
enn þótt sannlega
sárar raunir
fleiri mèr fáir,
en ek feingit hef'k.
Á verr vesall
varit til slíks:"
86. "Hölda hverr,
er hefir dvalizt
jafnleingi sem ek
frá jörðu feðra,
ok hrjáðr hrakizt
hörmum stórum
mörg um bygðarlög
bragna þjóðar".
87. "Þó skal ek allt þèr
inna af lètta,
þaztú forvitnast
ok frèttir eptir."
88. "Liggr land eitt,
nefna lýðir Krít,
mitt á dimmbláu
drafnar skeiði.
Sú er fögr fold
ok frjósöm næsta,
unnum umflotin
alla vega".
89. "Þar er fjöld mikil
foldbyggenda,
svo at tölu má
trautt á verpa;
ok þar á bóli
bygðir eru
níu tugir
nýtra borga".
90. "Þar 'ro fjöltýngdar
firða kindir,

ϱ. XIX, 157-175.

því hölda hverir
hafa sitt mál.
Þar Akkverjar
eiga setr
ok Frumkríteyíngar
fullhugaðir,
karskir Kýdónar,
kyn Pelasga
ok Dóra þrídeildra
dróttir fræknar".
91. "Þar er Knóssus
kappsmikil borg,
þar mildíngr
Mínos ríkti;
sá var málvinr
ens mikla Seifs
öðlínga jaðarr
um ár níu".
92. "Var Mínos faðir
míns föðurs,
Devkalíons
hins djarfhugaða.
Mik Devkalíon
döglíngr ól,
annan Ídómeneif,
öðlíng snjallan".
93. "En lofðúngr
í leiðángr fór
Ídómeneifr
til Ilíonsborgar
á skutbognum
skíðum stafna
yfir ála braut
með Atreifssonum".
94. "Er heiti mitt
herjum kunnugt,
ek heiti Eþon
hjá öllum lýðum.
Ýngri var ek
en Ídómeneifr,
hann mèr eldri var
ok enn hraustari".
95. "Þar sá ek Odysseif
einu sinni,
ok honum gestgjafar
gefa knátta'k.
Þá fór fylkir
ferðar sinnar
Trójulands til
yfir túnvöll reyða".
96. "Þá hafði veðr
vísir feingit
meginmikit
við Malíunes;
þat hregg hrakti
hilmi af leiðum,
ok knör hans keyrði
Kríteyjar til".
97. "Lagði öldu jó
í Amnísus
nær Hjólpar helli
hilmir frægr;
þar komst niflúngr
nauðuliga
inn á hætta höfn
úr hreggviðri".
98. "Brátt nam buðlúngr,
er hann til borgar kom,
Ídómeneifi
eptir frètta;
þann kvað gestvin
gramr vera
hollan sinn
ok heiðrs verðan".
99. "Þá höfðu dagskeið
dagar tíu
eða ellefu
yfir runnit,
sízt bróðir minn
á branda kerrum

upp var ekinn
Ilíonsborgar til".
100. "En ek hilmi heim
til hallar leidda,
ok gram gista
gestbeinlega;
veitta ek vísi
af virktum miklum
allt, er ek átta
innan hallar".
101. "Gaf ek gylva
ok gylva liðum,
þeim er í för
með fylki voru,
byggmjöl, mungáts
mærar veigar
ok uxa mjök marga
til mannfagnaðar".
102. "Lögðu landsmenn til
ljúfmeti þat,
at lifði mildíngs menn
at munum sínum.
Dvöldust svo dýrar
í daga tólf
aldir Akkverja
at orum sölum".
103. "Voru virðar þar
veðrfastir,
stemmdi þeim stíga
stormr norðan;
var-a stætt á storð
fyri sterkviðri,
rèðu gröm goð
gjóstu þeirri".
104. "En á þrettánda
þaðan degi,
fèll vinds megin,
veðri slotaði.
Þá leystu lofðar
lið úr festum,
ok á haf hleyptu
hlunna skíði".

---

105. Mart ýkti mildíngr
í máli þvísa,
sýndist sennilegt,
þó satt ei væri.
Hrundi hvarmdögg,
hlýr vöknuðu,
hilmis rúnu,
er hún heyrði slíkt.
106. Þannig þiðnar
í þeyviðri
snjór á háfjalla
hæstum gnípum,
á váng vorpinn
af vestan gjóstu,
aptr upp þíddr
af austanvindi;
elfr allar þá
af elg ok krapa
bólgnar brjótast fram
bakkafullar.
107. Svo jafnharðan
jöfurs rúnu
fagrar kinnr
flóðu í tárum.
Grèt víf viljalaust
at veri sínum,
meðan dular-döglíngr
hjá dýrri sat.
108. Aumt varð í hjarta
Odysseifi,
er hann sætu sá
sáran harma;
en hvarmlog hilmis
hrærðust ekki,
heldr en stokkar
eða steinar væri.

109. Stóðu staðkyrrar
stjörnur hvarma
buðlúngs und blám
brúna himni,
því konúngr kænliga
kunni fela
ángrdögg innst
í augnakrókum.

110. En sem svalat
sínu hjarta
hafði hilmis kvon
á harmi tárgum,
annsvar aptr gaf
ítrum hilmi
öðlíngs brúðr,
ok til orða tók:

111. "Nú mun ek gjör enn,
gestr, freista,
hvort þat satt sè,
er þú segir nú,
attú lávarð minn
með liðum snjöllum
hafir hýstan þar
í húsi þínu".

112. "Get þess nú, gestr,
at ek gjörva kenna,
hversu klæði þau voru,
er konúngr bar,
hversu í hátt var
hilmir sjálfr,
ok hraustir halir,
þeir er honum fylgðu".

113. Annsaði ítri
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
"Er-a, dýr drottníng,
dælt at lýsa
fylki, at fjarvist
svo furðu lánga".

ϱ. XIX, 211-231.

114. "Því at nú þegar 'ro
þar frá liðin
öll at enda
ár tuttugu,
síðan er siklíngr
sigldi þaðan,
ok mínu fór í frá
föðurlandi".

115. "Þó skal ek þèr
af þessu segja,
þat er hug minn
helzt til minnir.
Var prúðbúinn
purpuraskikkju
tiggi týþjokkri,
tvíbrotinni".

116. "Fèll möttulsylgja
af marar ljóma
hverfð í hríngjur
hagligar tvær.
En framanvert
á fagri skikkju
sást dásamlegt
dvergavirki".

117. "Hèlt þar á flekkóttum,
framlöppum í,
reiðr rakki
rádýrskálfi;
spriklaði kálfr,
sparkaði fótum,
horfði á hundr,
hvesti sjónir".

118. "Eitt undruðust
allir lýðir,
hversu hundr þar
hvesti augu,
kálf kyrkjandi,
en kálfr spriklaði
fótum fast,
at fá sik lausan,

voru þó úr gulli
gervir báðir".
119. "Varð ek ok víss,
at vísir hafði
kyrtil und kápu
kostuligan;
hann var, sem himna
á hnapplauk visnum,
mjúkr, mjök slèttr
ok meginþunnr".
120. "Lýsti svo ljómanda
línkyrtli af,
sem fagrahvel
fleygir geislum.
Undruðust allmargar,
er á litu,
gersimi slíka
gullhlaðs nönnur".
121. "En ek eitt þèr
enn vil segja,
hygg þú vel at
ok á hjarta legg".
122. "Þat veit ek þeygi,
hvort þessi klæði
heiman hafði
hilmir ríkr,
eða hefir hollvina
honum nokkurr
gefit gripi þá,
er hann gekk á skip;"
123. "Eða gestvinr einhverr
gaf honum þau,
alls öðlíngr var
ástsæll mörgum;
því fáir voru
frægum líkir
ýtar akkneskir
Odysseifi".
124. "Gaf ek öðlíngi
eirsverð fagrt
ok guðvefjar
góða skikkju,
tandrauða, fagra
ok tvíbrotna,
ok enn dragkyrtil
ek döglíngi gaf;"
125. "Þá lèt ek vísi
virðuliga
at flausti fylgt
fagrsessa.
Var þar í för
með frömum stilli
herkallari, lítt
honum ellri".
126. "Nú skal ek þèr
frá því skýra,
hve sá í hátt var
herkallari:
sjá var riðvaxinn
rekkr um herðar,
hrokkinhárr,
með holdslit dökkvan".
127. "Evrýbates þann
ýtar nefndu.
Þann virði öllum
Odysseifr
förunautum
framarr sínum,
því hann lyndiskærr
lofðúngi var".
128. Innti svo öðlíngr,
ok enn þá meiri
harmafýst vakti
í hjarta brúði,
er hún mörk þau
mjök við kenndist,
er gramr hafði
svo glögglega lýst.

ϱ. XIX, 231-250.

129. En er svalat
sínu hafði
hjarta hilmis kvon
á harmi tárgum,
annsvör gaf aptr
ítrum hilmi
öðlíngs brúðr,
ok til orða tók:

130. "Eymd eina, gestr,
ek á þèr sá
áðr fyrr, er ek
af þèr spurða'k;
nú skaltu mèr
í mínu ranni
heiðvirðr heita
ok hjartkærr bæði".

131. "Því sjálf nam ek klæði,
þau er segir þú frá,
út úr geymslusal
hin góðu taka;
sjálf braut ek saman,
sjálf ek honum fèkk,
sjálf lèt ek á skikkju
sylgju glófagra,
til búníngs bótar
bónda mínum".

132. "En hann mun ek aldrei
aptr heimta,
lávarð minn
leiðángri úr,
aptr heim kominn
hjartakærrar
ættjarðar sinnar
ok óðala til".

133. "Hefir því hèðan
heilli illu
Odysseifr
á unnar skíði
brunat á brautu,
borg at skoða
illa Ilíons,
er ek ei má nefna".

---

134. Aptr annsaði
Odysseifr
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
"Heyr, en heiðvirða
hilmis beðja
lofsæls Odysseifs
Laertssonar!"

135. "Lát-attu leingr
litarhátt þinn
fríðan fölna
(firna'k þó eigi),
nè hjarta þitt
um hjartkæran ver
af sorg sárri
í siga renna".

136. "Gráta mundi hvert
genginn bónda
sinn, ef missti
mundfagrt víf,
er hún afspríng
alit hefir
legmjúkum á
Lofnar dúni".

137. "Ok ótignari
Odysseifi,
þeim's gumar kveða
goðum líkan;
huggastu nú, brúðr,
harmdögg slegin,
ok hygg at því
er ek herma mun:"

138. "Mun ek sannliga
segja þèr,
ok engu leyna,
lofðúngs beðja:

ϱ. XIX, 251-269.

Spurða'k í Þesspróta
þjóðar landi
frygðarfullu
af fylki lifanda
alls fyrir skemmstu,
ok aptr mun
hilmir brátt
híngat vitja".

139. "Gersimar góðar
ok gripi fagra
öðlíngr flytr
til auðsala;
gáfu honum þjóðir
Þesspróta lands".

140. "Missta hefir knía
konúngr alla,
ok hlýrbjúgan
hrannar gota
á dimmbláu
drafnar hveli,
þá er hann sigldi
frá Þrínakríu".

141. "Reiði því til hans
regin báru:
Seifr ok Helíus
sólar þengill,
því at liðar
lofðúngs hjuggu
yxn, ok átu,
Elíusar".

142. "Fórust þar allir
fèlagar hans
í margdynjanda
marar gjálfri,
en sjálfan hann
á sundfáks kili
hrannir at landi
hávar báru".

143. "Kom hann til foldar
Feakmanna,
þeirra er guðum
glíkir þikkja,
ok heiðr allir
af hjarta veittu
gram, sem væri hann
guða nokkurr".

144. "Gáfu þeir honum
gripi marga,
ok óskaddan
aptr vildu
flytja heim
til fóstrjarðar."

145. "Væri lofðúngr
laungu kominn,
ef hvatt hefði
hugr í brjósti;
en búðlúngi
betra þótti
leiðir at leggja
of lönd víða,
ok óof fjár
at sèr draga".

146. "Því at dauðligum
dróttum kænni
öllum var
Odysseifr;
ok eigi dælt
drengjum mundi
slægð við slúnginn
siklíng deila".

147. "Sagði mèr Fídon
fylkir Þesspróta,
ok at mèr sjáanda
særi framði, —
ok at hásölum
hilmir sjálfr
dreypifórn guðum
dreypa nam:"

148. "At fram væri dreginn
fákr öldu,

ϱ. XIX, 270-289.

liðar allir
til leiðar búnir,
er of flóð
flytja skyldu
fylki frægan
til fóstrláðs".

149. "En mik fyrri
fylkir sendi,
því at dökkr
drafnar blakkr
Þesprótum frá
þreyta átti
til hveitisdrjúgrar
Dúlikseyjar".

150. "Sýndi mèr konúngr
kostgripi þá,
er eignazt hafði
Odysseifr;
ok annan mundi
mildíngr fá
sèrhvern alit
á auði þeim,
tíunda á
aldr manna".

151. "Þá átti buðlúngr
bauga rauða
mikla ok fagra
í fylkis sölum".

152. "Sèr kvað hann frá
sjóla mundu
Dódónu til
dýrrar halda,
at hann fregi ráð
fólkvalds goða,
laufþèttrar úr
lindar stofni:"

153. "Hvort mundi sèr
Seifr of ætla
heimkomu aptr
til óðala

eptir dvöl lánga
í löndum fjarrum,
ok vissi þjóð
þengils komu,
eðr á laun kæmi
lofðúngr heim".

154. "Segi ek þèr svo,
at siklíngr
lifir enn
með láðbyggendum;
brátt mun hann híngat
heimfúss vitja,
ok eigi leingi
frá ástkærri
framarr dvelja
fóstrjörðu".

155. "Vinna mun ek þèr,
vísa kvon,
eið alstyrkan
orða minna:
viti þat framast
faðir Seifr,
efstr ok æztr
allra goða,
ok arinn Oddysseifs
ins eljunprúða,
er ek hjá sit
híngat kominn":

156. "At orð mín öll
munu eptir gánga,
er þèr nú
innt ek hefi,
ok aptr mun
Odysseifr
á árshríng þessum
inni sækja,
mánaði á
umlíðanda,
þeim er eigi
enn er runninn".

---

ϱ. XIX, 289-307.

157. Aptr honum
annsvör greiddi
sú en prúðlynda
Penelopa:
158. "Vilda'k, gestr,
at geingi spár
eptir þínar,
sem um þú mælir;
mundir þú þá greiða
góðan hljóta,
gjafir stórmargar
ok gripi fagra
gefa þèr munda'k,
at guma hverr,
sá er þèr mætti
á manna brautu,
sælstan þik segði
í sólarheimi".
159. "En annat mèr
of muni segir,
spár sè ek kaldar
komandi fram:
munat Odysseifr
aptr snúa,
nè þú fá
fararbeina".
160. "Eru nú eigi,
sem áðr fyr,
forsprakkar öflgir
at fylkis ranni,
sem Odysseifr,
meðan öðlíngs naut —
(mitt er ljós horfit
úr munarheimi!)
gestum heiðvirðum
hús at veita,
ok þeim braut aptr
at beina leið".
161. "Laugit nú gest,
griðkonur,
ok hvílu hæga
honum búit;
glitfagra dúka
ok dýrðleg klæði
á beð blundar
breiðit ofan".
162. "At hann ylvarma
undinn mærum
glæstrar bíði
Gullinstólu;
hann at morgni þèr
munut snemma
viðsmjöri smyrja
ok vatni lauga;"
163. "Svo at morgunverð
megi gestr
taka síðan
með Telemakkus,
í sal sitjandi
at sumbli dreingja".
164. "Illa skal þat guma
gefast hverjum
hann at erta
illri ræðu;
skal-at þeim verk
vinnanda hèr,
þótt hann óðri
ylgist reiði".
165. "Hve máttu geta,
gestr inn heiðvirði,
kosta minna
fyri konum öðrum,
hygginda minna
ok hugkvæmni,
ef þú voðum
vondum búinn
ok óhirtr
at öldri sitr?"
166. "Skammir 'ro dagar
í dvalarheimi,

ϱ. XIX, 308-328.

blandnir bölstöfum;
deyr at aptni
dagr skjótliga —
næðir vindr of ná".

167. "Svalbrjóstuðum hveim
ok svikráðum
kykvum bragnar bölva,
en á haugi
hans of þylr
smánar-æfi sveit".

168. "En gumna hverr
góðu unnandi
lof sèr getr
gesta sinna;
þat munu þeir flytja
of foldar stigu;
lifir hróðr hans
með heims sonum".

---

169. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
"Heyr, in heiðvirða
hilmis beðja
lofsæls Odysseifs
Laertessonar!"

170. "Fjónat hefir ek
fögr klæði,
hafa mèr ok skikkjur
hatrs fengit,
sízt fjöll kvadda'k
Krítareyjar,
snjóvi drifin,
ok sveif ek braut
bifroknum árum
brimdýri á".

171. "Hvíla hyggst ek nú
sem hvílda'k áðr,
blundvarinn lángar

ϱ. XIX, 328-351.

á beði nætr;
hvílda'k margar,
á herfiligu
bólstri laginn,
leiðar stundir,
ok óþolinn
árgeisla beið".

172. "Hirði ek ok sízt,
hilmis brúðr,
fótlaug taka
ok fætr þvo;
ok ekki kvenna
mun á snerta,
nè höndum fara
of fætr mína".

173. "Þeirra er hèr
at höllu þjóna,
nema sè aldin
nokkur kona,
ljúf ok raungóð,
ok í lyndi prúð,
sú er þreyjandi
þolat hefir
slíkar raunir
sem sjálfr ek".

174. "Munk-at ek slíkri
meina konu
forna at snerta
fætr mína".

---

175. Aptr honum
annsvör greiddi
sú in prúðlynda
Penelopa:

176. "Góðr gestr,
er guma engi
vitrari sali
sótti mína,
ok mèr hjartkærri
hölda þeirra,

er foldar leiðir
lángar kanna,
allt því þú innir
af orðspeki,
ok vitrliga
vekr ræðu".

177. "Kona er hèr gömul,
greind ok ráðsvinn,
sú er lávarð minn,
lostinn ógæfu,
mæran í sínar
mundir tók,
ok hann æsku frá
fóstra nam,
svein nýalinn
sinni móður".

178. "Sú skal þína
þerra fætr,
alls þótt hún aldin
ok óstyrk sè".

179. "Upp rís þú, in aldna
Evrýklea,
ok jafnaldra
jöfurs þíns
fótlaug gerðu,
forvitrum hal!"

180. "Eins munu nú
Odysseifi
fætr orðnir
fornir, sem þèr,
ok hendr svo
hrukkum felldar;
því at skjótliga
skatna elli
sækir, er eymd
yfir æfi rís".

---

181. Mælti hún svo,
en mundum sínum
in aldna kona
ásján huldi,
ok tár hrundu
heit af kinnum,
ok hún grátklökkum
kvað við orðum:

182. "Sárt tekr mik,
sonr, til þín;
víst hefir Seifr
sorg þèr skapat
öðrum framarr
alda sonum,
þóttú guðhræddr
ok góðr verir".

183. "Dauðligra nokkurr
dreingja ekki
þrumuglöðum
þæga Seifi
lærbita fleiri
feita lagði
á bál heilagt
at blótstalla,
nè hundraðsfórnir
fleiri efldi:"

184. "En þú góðum
goðum veittir,
at þik ellidagar
knætti yfir líða
sælir ok sætir,
ok siklíngs burr
þrifnað fengi
ok þroska góðan".

185. "Hygg ek nú æsktum
aptrkomu
döglíng frægan
degi numinn;
má ok vera
at manna framandi
í löndum fjarrum
lofðúngi hafi

ϱ. XIX, 351-371.

þýjar hróp
ok þjóst of búit,
er hann til harra
hásala kom;
sem þýjar hunzkar
í höllu þessi
allar þik apa
ok atyrða".
186. "Vilt-attu heyra
hrópsyrði þeirra
ok smánaryrði,
er-a slíks of von;
því viltu ei þær
þýðast at laugu".
187. "Ónauðgri mèr
alls því bauð
sú hin prúðlynda
Penelopa,
Íkaríuss
einga dóttir,
beina þenna
þèr at veita".
188. "Mun ek því þína
þerra fætr,
Penelopu
prúðrar vegna
ok þín bæði,
því at beiskum harmi
svellr mèr hugr
fyrir snót ok þik".
189. "Heyr nú, gestr,
þat ek herma mun'k:
komit hafa margir
mæddir híngat
gestir, ok þúngar
þrautir kannat,
en nè einn leit'k-at
líkari í sjón
Odysseifi:
eins at vexti
sem at málfæri
ok fóta burði".
190. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
191. "Segja svo gumar,
þú in gamla snót,
er augum litu
okkr báða,
at vit at limum mjök
líkir værim,
svo sem sjálf þú hefir
af hyggju sagt".
192. Svo mælti hann,
en hrund in aldna
fágat sótti
fótlaugar ker,
ok vatni köldu
í ker hellti,
ok vörmu at þat
víf blandaði.
193. En Odysseifr
at arni settist,
ok sèr skjótliga
at skugga brá,
því at hilmi rann
í hugar fylgsni:
at hún finna knætti
á fæti ör,
ok yrði ráð öll
uppvís lagin.
194. Gekk síðan nær
nipt in aldna,
ok fylkis síns
fætr þó;
en ör henni
eigi duldist,
hún þegar þat
á þengli kenndi.

ϱ. XIX, 371-393.

195. Þar er óðr göltr
á Odysseifi
ljósri tönn
of lostið hafði:
er hann til Parnassus
áðr of fór
með ítrum niðjum
Avtólýkuss.

---

196. Sjá var mærrar
hans móður faðir,
seggjum öllum
at slægð fremri
ok undirhyggju
eiða at vinna;
sjálfr veitti Hermes
honum þat eðli.
197. Hann því honum
hugumþæga
lærbita lagði
lamba ok geita
á bál heilagt
at blótstalla;
en guð honum
göfgr fylgði.
198. En Avtólýkus
til Íþöku kom,
ítrum feitrar
foldar gróða,
ok nýfæddan
nið of hitti,
dóttur sinni
dýrri alinn.
199. Lèt þá in aldna
Evrýklea
á afa knè
kon of settan,
at aptans verði
ítrum snæddum,
ok mæran afa
orðs um kvaddi:
200. "Nú muntu sjálfr
sveini láta,
niðja niði,
nafn of gefit,
Avtólýkus,
því at inniligr
nýalinn mun þèr
sá niðr vera".
201. Annsaði henni
Avtólýkus,
ok orð til þeirra
aptr um kvað:
202. "Dótturmaðr dýri,
ok dóttir kæra!
gefit heiti nið
þat's ek nefna mun'k:
hef'k mörgum mönnum
meins of valdit,
ok vogestr verit
virðum öllum,
fírum ok fljóðum
á frjófri jörð".
203. "Því skal nafn
niði velja,
ok Odysseif
með öldum kalla,
þeim mun ek glófagra
gefa aura,
ok hann glaðan
aptr senda,
er hann frumvaxta
í fagran kemr
prýddan sal móður
á Parnassus,
þar's fjárgnótt mín
fyrir liggr".
204. Af því fór þinnig
Odysseifr

at hann gjafir
glæstar fengi;
en Avtólýkus
ok ítrir niðjar
Avtólýkuss
alls of fegnir
honum tóku
með handa bandi,
ok fögrum heilsuðu
frænda orðum.
205. En Amfíþea,
ágæt móðir
móður Odysseifs,
mög faðmaði,
kysti höfut
hans ok augu,
ötul ok snör
sem í yrmlíngi.
206. En Avtólýkus
ágætum niðjum
skjótla sínum
skipa nam
dagverð at búa,
en drengir hlýddu
föður orðum
framvísligum.
207. Leiddu þeir forsima
fram at bragði,
fimm of vetr
feitan alinn;
þann þeir flógu
ok for gengu,
síðan vandliga
sundr skáru.
208. Brytjuðu ok stúngu
á steikar teina,
ok kunnliga
kjöt þeir steiktu,
ok síðan deildu
drengjum verði.
ϱ. XIX, 413-433.

209. Dag liði-lángan
drengir snæddu,
unz sæl settist
sól í ægi,
nè vantaði
af verði jöfnum
veizlu kæti
knáa sinna.
210. En er álfröðull
í ægi rann,
ok rökkri brá
of brautir jarðar,
þá gengu rekkar
til reiddrar hvílu,
ok gjafa svefns
góðra nutu.
211. En er árrisul
rósinfíngra
birtist mönnum
Morginskæra,
þá gengu verar
á veiðar út,
en þeim fráir
fylgðu rakkar:
212. Ítrir niðjar
Avtólýkuss
ok ágætr
Odysseifr;
ok á Parnassus
prúðir stigu,
skörðótt fjall,
skógi vaxit.
213. En verar brátt
at veðrnæmum
gljúfrum komu
ok golusvölum,
þá er ylsæla
álfröðull lèt
árgeisla glóa
of grundir allar,

nýliga stiginn
af stöðvum djúpum
enna iðlygnu
jarðar-ála.
214. Komu fírar
í fjalldal nokkurn,
en fur frammi rökðu
fótspor dýra
hundar fráir,
en horskir niðjar
Avtólýkuss
eptir fylgðu.
215. Gekk Odysseifr
ágætr nær
gumnum þeim,
en görmum næstr;
lèt í mundu
leika geir,
laungum skugga
of láð varpandi,
traustr verr
til veiðar búinn.
216. Lá þar í þèttum
þollar runni
göltr mikill
ok geigrligr,
þar's eigi knáttu
úrigsvalra
gegnum þjóta
golur vinda:
217. Nè Helíus
himinskærum
gegnum laufgróða
geislum skjóta,
nè skúr dropa
úr skýi senda;
svo var lim
saman vaxit,
en kríngum lá
laufabíngr,
eikar laufa,
afar mikill.
218. Gerðist þá gnýr
af greyhundum,
fetandi fram,
ok frömum sveitum,
er valglitni
vildu lagðan.
219. Reis hann örðigr
úr runnar skjóli,
ok bust ýfði
ógrliga,
en frekefldr
funi brann
voligum úr
vigris augum.
220. Stóð gríss frammi
fyr vegendum,
en fyrstr allra
Odysseifr
darr of reiddi,
ok runa móti
ótrauðr æddi,
ok imars bróðr
lagðan vildi
leggbíta sjá.
221. Varð þá bragðfyrri
börgr honum,
ok knè ofarr
knátti æfr ljósta,
ok til hliðar
holds of knúði
skæðr þjós
skreivintanni,
en bit festi-t
í beini stað.
222. En Odysseifr
á öxl hægri
gelti lagði
gildu spjóti,

ϱ. XIX, 433-452.

en gegnum fló
geirsoddr fránn;
hrein við hrinnir
ok at hauðri seig.
223. Störfuðu at vargi
at velli lögðum
ítrir niðjar
Avtólýkuss;
ok und bundu
Odysseifs,
ítrs guma,
ens goðum líka.
224. Vandliga bundu,
valdögg stilltu,
galdra gólu
grandi yfir,
ok síðan komu
at sölum hám,
þar's faðir frægr
fleinlauka bjó.
225. En Avtólýkus
ok ítrir niðjar
Odysseif græddu
Avtólýkuss;
gjafir honum
gáfu fagrar,
ok síðan glaðir
glaðan sendu
fylki ástkærrar
Íþöku til.
226. En mær móðir
ok mætr faðir
heim komnum aptr
heilsuðu syni,
alls of frèttu
ok ör sáu,
ok raunir spurðu
runa veiðar.
227. En grannt hann sínum
sagði foreldrum,
er hann á veiðum
ólmr of laust
göltr gómskafli
gagli bjartara,
er til Parnassus
áðr hann fór
með Avtólýkuss
ítrum niðjum.

---

228. Greip in aldna hrund
um örit þegar,
lófa leggjandi
at lofðúngs fæti,
ok mildíngs kunni
merki gersta.
229. Sleppti fæti
framvís kona,
en rót kálfa
við keri skall;
glumdi eirr
ok um veltist,
en vatn um gólf
vítt of rann.
230. Hverfðist hugr
í hrundar brjósti
svásrar gleði
ok sorgar milli,
tár af augum
tróðu runnu,
en þrúnginn ekki
orða geymdi.
231. Fór hún höndu
of hilmis kinn,
ok Odysseif
ávarpaði:
232. "Víst ertu vísi
vegligr minn
Odysseifr,
ástkærr sonr!

þekkta'k þik eigi
fyr en þreifat hafða'k
allan um
öðlíng minn".
233. Mælti hún svo;
ok til siklíngs brúðar
aldin kona
augum renndi;
vildi hún svanna
vísan gjöra
um ástkærs vers
aptrkomu.
234. En þá mátti-t
mildíngs beðja
augum renna,
nè endr skynja:
því at Aþena
hin augumglæja
lund hennar sneri
leiðir aðrar.
235. En Odysseifr
efldum greipum
hægri spennti
hrundar kverkar;
en vinstri hendi
víf it aldna
svo mælandi at sèr
siklíngr dró:
236. "Hví viltu, fóstra,
harm mèr búa,
þú sem mik fyrri
á þínu ólst
brjósti ástsælu:
er ek aptr nú,
margar eptir
móðgar þrautir,
á ári tuttugta
til er kominn
fóstrjarðar
framasællar".
ρ. XIX, 474-493.

237. "Alls nú uppheims
einhverr hefir
góðra guða
þèr í geð skotið:
at þú mik þekktir,
ok þetta sæir,
þá muntu þegja,
er ek þèr svo býð".
238. "Svo at manngi
megi annarr
í höllum orum
hlut þann fregna;
en vita skaltu
þat's verða mun,
ok framast alls
framgáng hljóta:"
239. "Ef guð mèr veitir
at göfgir biðlar
fyrir minni
falli hendi:
þá mun ek sízt
þèr um hlífa,
þó áðr mik á örmum
of alit hafir":
240. "Þá er öðrum
ambáttum húss
í mínu ranni,
rögum þýjum,
dauða ek bý
ok dapra feigð".
241. Aptr honum
annsvör greiddi
sú en ágæta
Evrýklea:
242. "Hvat var þat orða,
hjartkærr sonr,
er þú af hvarfi lèzt
hverfa tanna? —
Minn veiztu huga
meginstöðugan,

brigðarlausan
í brjósti mèr".
243. "Sem jarðfast bjarg
á jarðar barmi,
eðr ísarn grátt,
eimi geingit:
svo mun ek þegja;
en senn mèr heyr,
ok orð mín geym
í geðknerri!"
244. "Ef guð þèr veitir,
at göfgir biðlar
fyrir þinni
falli hendi:
ambáttir allar,
er þik óvirtu,
telja mun'k, ok aðrar,
er þat eigi gjörðu".
245. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
246. "Hví viltu, fóstra,
hrundir telja?
ei gjörist þörf þess,
en þær ek mun
sjálfr kanna,
ok sèrhverja
þýja þeirra
þekkja gerva".
247. "Lát nú hljóðliga
yfir hlutum þessum,
ok fel þá guðum
góðum á vald".
248. Svo mælti hann;
en hrund en aldna
úr sal gekk
glæsiligum,
vazkall at fylla
fótlaugar vatni,
hitt því at steyptist
at hallar gólfi.
249. En er hún þengil
of þvegit hafði,
ok viðsmjörs smurt
viðar feiti,
þá flutti aptr
Odysseifr
stól nær eldi,
yls at njóta.
250. Ör hann vandlega
undir fal
tötrum fornum
ok fátækligum;
mælti þá fram
af munni orð
Penelopa
sú hin prúðlundaða:
251. "Gestr inn ljúfi!
lítils mun ek frètta,
ok þik einn hlut
enn of spyrja,
því nú er komin
kvöldrökkurs stund,
svefns ok værðar
fyrir seggja fjöld;"
252. "Fyrir bragna hvern
er blíðan náir
blund at festa
fyrir bölstöfum;
ek þótt sè öðrum
örlögum háð,
er guð mèr ótalit
ángr veitti".
253. "Svo ek lifi
ljósa daga
sorgmædd ok grátin,
ok sútum undin:
at mèr þat eina
til þreyju horfir

at líta á verknað minn
ok ljósra meyja".
254. "En er nótt kemr,
sú er nipt ok svein
ok sveitir allar
at svefni laðar:
bitrar und blæju
á beði mínum
ok at hjarta mèr
hlaðast sorgir,
sárar sorgir
er mèr sefa stínga".
255. "Sem þá hins prúða
Pandaruss jóð,
saung-lóa, fögrum
fölva búin,
fagrt hljómar,
er fagrahvel
vorgeisla vekr
í vestan blæ:"
256. "Sitjandi í þèttu
þollar laufi,
ok hljómröddum
hellir fögrum
marga vegu,
ok margopt breytir
kveðanda mærum
ok marghljóðuðum":
257. "Er hún sárt harmar
son hinn liðna,
Itýlus,
er hún áðr vo,
öðlíngs Setusar
afspríng fagran,
vilja vana
vinnbjarts eiri":
258. "Svo er á hvörfum
hugr minn
hèðra ok þaðra,
harmi snúinn:
hvort ek með ítrum
arfa skuli
hýrast, ok dvelja
at hilmis sal,
eigur mínar
um hirðandi,
höll ítrfagra
ok önnúngsþýjar".
259. "Bónda míns
beð virðandi,
ok róm alþýðu
um hugsandi;
eðr hvort skuli'k
skatna nokkurum
akkneskum fylgja
ágætustum,
þeirra er mín biðja
at buðlúngs sal,
ok fjöld flytja
festar meiðma".
260. "Meðan úngr var
arfi minn,
ok viti lítt
vaxinn aldrs,
vilgi hann girntist
at giptumst ek,
ok öðlíngs höllu
árnaði frá".
261. "Er nú fulltíða
fylkis niðr,
ok at æsku
enda kominn,
ok þess æskir
at ek út gángi
aptr nú
úr auðsölum".
262. "Leiðr er nú orðinn
lofðúngs kundr
eigur sínar
eyddar at sjá

ϱ. XIX, 514-534.

Akkverjum af; —
en annat heyr:
ráð þú draum minn,
ok draum heyrðu!"

263. "Gæsa á ek tigi
í garði tvo,
þær's bygg vatni úr
eta knegu;
fær mèr unaðar
á fugla sjá,
ok minn þat stillir
á stundum harm".

264. "Sveif af fjalli
fugl einn mikill,
klóbjúgr ari,
kyrru flugi;
beit sjá gæs
á barka hverja,
ok þeim bjó
bana öllum".

265. "En þær liðnar
lágu í ranni
gerst í kös
fyri gaglhata;
en hann aptr
andlángs leiðar
brautir víðar
á burtu sveif".

266. "En ek harmaði
ok hástöfum grèt,
en þótt veri
þetta draumr;
en fagrlokkaðar
flóðelds seljur
akkverskar mik
margar kríngðu,
þar's ek var sorgum
sárum undin,
er mèr ari gjörði
gæss of deyða".

ϱ. XIX, 531-554.

267. "En hann bráðliga
aptr snúandi
á þakskúta
þúngr settist,
ok manns röddu
mælandi svo
ari mik
ávarpaði:

268. ""Huggastu, in horska
hilmis dóttir,
Íkaríuss,
ágæts laungu!
er-at nè draumr,
en andar sjón,
er fram mun koma,
þá er fyrnist tíð"".

269. ""Gæss merkja biðla,
en gaglhati
er ek áðr þaut —
þèr at segja —
aptr kem'k bóndi,
ok illan dauða
flyt ek biðlum
ok feigð dimma"".

270. "Svo mælti hann,
en sjálfri mèr
sætr svefn
sveif af augum;
en ek leit,
lítandi um,
gæss í herbergi
háfu standa,
bygg etandi
úr byggtrogi,
sem þær áðr
eta knáttu".

271. Gegndi henni aptr
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:

272. "Heyr, in heiðvirða
hilmis beðja!
tjár-at þenna
þýða draum
merkjum öðrum,
en manni boðast,
er sjálfr þèr innti
Odysseifr".

273. "Svo munu fram
sjónir koma;
mun biðlum öllum
bani ráðinn,
ok eingi þeirra
mun undan stýra
feigð, ok dauða
dimmu skýi".

274. "Annsaði aptr
ok orð um valdi
Penelopa
sú hin prúðlundaða:

275. "Þúngir ro draumar
þegnum at skilja,
ok markleysa
mönnum, gestr,
fram nè kemr
fýrirboði
dimmra drauma
dróttum jarðar".

276. "Tvenn því eru hlið
tálvísra drauma:
af horni bæði
ok handar snjóvi;
birtast sumir
úr sólfáðu
fílsbeins hliði
hverfir draumar,
sjót tælandi,
nè satt hermandi".

277. "En sumir hverfa
úr horndyrum
hvervetna fáðum
til fíra sveita,
ok satt segja
sofanda hal,
dauðligum hverjum
er drauma sèr".

278. "Mun-at mèr horfinn
myrkr þaðan
draumnjórunnar
drauma svipr;
mèr þótt æskiligt
ok arfa mínum
slíkt mundi vera,
ok vænligt næsta".

279. "En annat mun ek
inna þèr,
en þú geym
í geðknerri:
nú er at morgni
mær rísandi
sól in síðasta,
er ek sali byggi
Odysseifs
ástkærs bónda".

280. "Því nú mun ek efna
til ítrs leiks:
exa tólf,
er jöfurr fyrr
í röð of stillti
at ranni háfu,
sem eikar reingr
ægis ljóna,
ok stað lángan
standandi frá
öru gegnum
allar sendi":

281. "Mun ek nú þenna
þollum branda,
er mik lystir,
leik of setja;

ok þeim's höndum
hægast sínum
álm upp dregr
úrsvignæman,
ok er exa tólf
allra hittir
augu broddi
bifþjótanda":
282. "Þeim mun ek fylgja,
ok þenna sal
unaðar míns
yfirgefa,
þar er úng brúðr
bónda naut;
auðsælan sal
auði fylldan —
mun ek hans of æfi
minnast alla,
ok í lognværum
líta draumi".
283. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
284. "Heyr, en heiðvirða
hilmis beðja
lofsæls Odysseifs
Laertssonar!
Ei skaltu fresta
frægum leiki
í lofðúngs sölum
ljómaskærum;"
285. "Því fyrr mun heim koma
frægr jöfurr
Odysseifr
hinn ítrsnjalli:
en gumar þessir
þryms of fái
gunnarfáins
girni dregit,
ok gegnum exar
öru skotið".
286. Aptr annsaði
ok orð um valdi
prúð í lyndi
Penelopa:
287. "Vildir þú, gestr
virðuligr,
hjá mèr sitja,
ok í höllu skemta,
þá mundi aldrei
á augu mín
værðar blundr
blíðr síga".
288. "En mangi má
moldbyggenda
sífellt með öllu
svefnlauss vera;
því at sèrhverjum
sjólar himna
aldrlög
lofða sköpu
ódauðligir
aldrtila
fírum háðum
á frjófri jörð".
289. "Nú mun ek árna
at inni háfu
lopts, ok leggjast
at leghvíldum
á beð blundar,
er míns ens bitra harms
þegjandi vottr
þrávallt var".
290. „Svell ek saknaðar
söltum tárum,
ok harmdöggvar
á hvílu drjúpa,
sízt Odysseifr
árnaði braut,

ρ. XIX, 577-597.

illa Ilíons
er ek ei má nefna
borg at skoða
með branda laukum".
291. "Þar mun ek hvíldar
hægrar leita;
en þú hvíl
í húsi þessu
á hallar gólfi,
eðr hvílu í,
er þèr búin er
borgar innan".
292. Mælti svo
ok at salar lopti
glæsiligu gekk
göfgr svanni;
var-at hún ein,
en aðrar fylgðu
salkonur horskri
hilmis brúðr.
293. Ok hún Odysseif
ástkæran ver
hátt of grèt,
unz glóeyg dís
blundstöfum brá
yfir brúðar augu.

---

# TUTTUGASTA KVIÐA.

HVÍLDIST nú frammi
í fordyri
öðlíngr hinn ágæti
Odysseifr,
ok öldúngs húð
und sik breiddi,
en þar ofan á
allmargar lagði
feldarröggvar
fríðra sauða,
er slátrað var
at sumbli biðla.
2. En heiðvirð
húss matselja
Eyrýnóma
á hann breiddi
yfirhöfn dýra,
þá er döglíngr hafði
svefns of lystr
til svefns lagizt.
ϱ. XIX, 597-604.
3. Mundu þá renna
mildíngi svinnum,
er hann ei blund
á beði festi,
reginráð
í ríkan huga,
bölráð biðlum
þau er bíta knætti.
4. Geingu nú fram griðkonur
úr garði kátar,
biðlum blíðar,
til beðs lostigar;
fóru þær með glaumi
ok gleðilátum;
hart skar þat mildíngs
hjartað prúða.
5. Mundi þá hugsun
mörg um rísa:
hvort hann skyldi sèrhverri
helför greiða,

eðr skyldi hann
ambáttum leyfa
hinnstar ástir
með oflátúngum.
6. Gnöllraði þá hjarta
í hildíngs brjósti;
sem þá er hundtík
of hvelpínga
urrandi geyr,
er ókenndan
mann hún sèr,
ok henni móðr æsist:
7. Eins mundi berjast
buðlúngs hjarta;
gramdist sjóla hugr
af sjón illverka;
en brjóstið mæra
hann mundu sló,
ok sitt við hjarta
siklíngr kvað:
8. "Hjarta mitt! ber þú
harminn þúnga,
þoldir þú höfugri
þrautir forðum,
er hinn ámáttki
jötna sinni
fèlögum mínum
feigðir bjó;
en þú þreyðir,
þar til ráðsnilli
mín þeim barg
úr bjarga ranni,
en þótt mèr bani
búinn þætti".
9. Þannig stillti
stillir orðum,
ok sjálfs síns önd
ávarpaði;
en með þolgæði
þreyjandi beið
hjarta hans,
ok hugar ró.
10. En hann sjálfr
á ymsar hliðar
snerist í hörðum
hugar móði.
11. Sem þá maðr yfir
eldi brennanda
iðri snýr
á allar hliðar,
blóðmörvi fylldu,
ok bíðr þess,
með óþola,
at þat ótt stikni.
12. Svo veltist hann
á svefna beði
aptr ok fram,
ok at því hugði:
hversu hann hremma mætti
horska biðla,
einn allmarga,
þótt honum eingi veitti.
13. Kom þá til hans,
af himinstöðvum,
Aþena máttug,
ofan stígandi;
konu var hún lík,
ok leið at hægindi,
mælandi til hans
mjúkum orðum:
14. "Hví knáttu vaka?
vesall maðr
öllum framarr
alda sonum!
hèr er hús þitt,
ok í húsi býr
kona þín
ok karskr niðr,
hinn er margir vildu
at væri sinn".

ϱ. XX, 12-35.

15. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
16. "Sannliga, gyðja,
satt þú mælir,
ríkum eru orð þín
rökum skorðut;
en eitt var annat
mèr innan brjósts,
þatz mèr harðliga
í huga býr".
17. "Hversu má ek
hendr á leggja
ósvífna biðla?
einn á marga,
er þeir hèr sitja
alla daga
flokkum saman
í fjölmenni".
18. "Þó er enn önnur
er sèr enn framar
hreifir hugsun
í huga mínum:
fái ek biðlum
bana ráðit
með aðstoð Allföðr
ok umsjá þinni,
hvert skal þá halda?
herm mèr þat, gyðja!"
19. Svaraði honum
senn at bragði
Aþena, gyðja
hin augumglæja:
20. "Ofrkapp mikit
er þèr í brjósti!
því at treysta mundu menn
máttminna vini,
ok þótt dauðligar
dróttir veri,
ok eigi ríkar
at ráðsnilli".
21. "Em'k þó gyðja,
ok guðdóms ríki
mitt þèr hlífir
hvívetna í raunum!
Hreint ok satt
mun ek herma þèr:
enn þó fimm tigir
flokka stæði
okkr á móti,
ok eyða vildu,
þá skyldir þú fá
fénat þeirra
ok búsmala
á braut rekit".
22. "Sigri nú svefn þik,
siklíngr ráðsvinnr!
ill er andvaka
meðan endist dimma;
brátt muntu úr þínu
böli leysast".
23. Svo mælti gyðjan,
ok svefna blæju
breiddi yfir brá —
blundsælan dúk;
sjálf leið hún upp
at salar ljóma,
gyðjan goðmæra,
ok goða hörgum.
24. Þá tók hann svefn
sorgum eyðandi,
limu laðandi
at leghvíldum.

---

25. Vaknaði hin mæra
mildíngs brúðr,
trygð kunnandi
kvennskörúngr,

ρ. XX, 36-57.

ok mædd upp settist
á mjúkum beði,
snerist góðri geð
at grátstöfum.
26. Ok er hafði
á harma stunum
svalat sèr
svanninn mæri:
Artemis framast
örvumglaða
mundi hún biðja
mjúkri bæn:
27. "Tignarlig dís,
er tiggi himna
ól í árdaga,
Artemis mær!
vilda'k at þú skjótt
varpaðir öru
mèr í brjóst,
ok mik muna sviptir!"
28. "Vilda'k at frekir
fellibylir
um dökkar brautir
á brott mik hrifi,
ok at forvaða
farandi strauma
óðir mik bæri
jörmungrundar!"
29. "Sem þá er endr
óðir stormar
Pandaruss dætr
prúðar tóku;
þeirra höfðu regin
ríkum farit
foreldrum báðum
at friðsölum".
30. "En þær báðar
eptir sátu
munaðarlausar
at móður sæng;
ϱ. XX, 58-77.

en hin ágæta
ásta móðir
gulls seljur ól
goða fæðu,
himinveigum sætum
ok hunángs döggum".
31. "Bjó þeim Hera
brosljóma skrúð,
mynd mærasta
í munarheimi,
ok vizku, meyjum
meiri öllum:
en vöxt þeim lèði
ok líkams fremd
Artemis, heilög
himins gyðja".
32. "Kenndi þeim hin kæna
kvennprýðis verk
dóttir Allföðr
Aþena síðan,
unz hin mæra
Afrodíta
upp stè til hárra
Ólymps tinda,
ok Allföðr
eldum slaungvanda
beiddi þess,
at beðjum veitti
giptíngar heillir
ok Gefnar skrúð".
33. "Hann því veit
af hugar vísi
alla gæfu
gumna ok sorg,
þeirra er dauða
dimmu veldi
háðir hittast
of hauðrs flöt".
34. "En þá snúðgar
Sviptinornir

brúðir horskar
á brott hrifu,
ok hræðiligum
Hefndarnornum
seldu þekkar
til þjónustu".
35. "Vilda'k svo
at voldug regin,
þau er á hám
himni búa,
mik brott tæki
frá manna sýn,
eðr haddfögr
í hjarta mèr
Artemis himnesk
öru sendi".
36. "At með Odysseif
fur augum munar
stíga mætta'k
und storð niðr,
ok at lofða eingum
lakari honum
yki faðmlög mín
unaðs bætur".
37. "Sá er harmr
hjarta berandi,
at leiti fram tár
of ljósa daga,
ok þótt harmr þètt
at hjarta þraungvi,
ef veitist blundr
of værðar tíð:"
38. "Sá er lætr
lýði gleyma
gleði ok harmi,
er í hjarta býr,
þá er hann blíða
of brá ok auga
blundstafi breiðir,
ok blæju drauma".
ϱ. XX, 77-96.

39. "En mèr sendu
svefngamans álfar
vonda drauma,
dökkva slúngna:
er hann mèr virtist
í eigin sjón
at mèr standa,
sem áðr fyrri":
40. "Þá er hann geymdi
gráserkjat lið —
hlóg mér þá sælli
hugr í brjósti:
hugða'k nè draumskugga
daufan vera,
heldr versæla
vakanda sjón!"

---

41. Mælti hún svo,
en Morginskæra
gullinstóla
af græði stè;
ok Odysseifr
öll um heyrði
sorgarorð
sinnar brúðar.
42. Hugr var á hvörfum
í hildíngs brjósti,
ok hann grunaði
af geðspeki
at hún sik þekkt hafa
þegar mundi,
ok yfir horfði
höfuðsvæfil.
43. Þreif hann í fáng sèr
feld ok gærur,
ok vandliga
vafði saman,
ok at hallar
hásæti bar,

en oxahúð
at útidurum.
44. Fórnaði hann höndum,
ok herjaföðr
allvaldan bað
af ítrum hug:
45. "Faðir Seifr!
ef fullum vilja
mik þèr guðir leiddut
of láðs vegu,
ok of raðar leið
röstum þrúngna,
at minna landa
mærum stöðvum,
þó áðr mik hafit
harmi lostið:"
46. "Lát mik þá heyra
lofða nokkurn
inni vakanda
orðheill segja;
en úti verði
annat frá Seifi
merki af himni,
mèr boðandi".
47. Sú var bæn hans;
en at bragði heyrði
hann ráðvaldr
ragna faðir;
ok þruma dundi
of dellíngs sal
albjörtum frá
Ólymps tindi.
48. Gladdist þá ítr
Odysseifr,
en inni kvað
orðheill kona
húsi í
hvergi fjarri,
sú er at meldri
síðla stóð,
ϱ. XX, 96-115.

þar's lúðrar stóðu
lýða hirðis.
49. Slaungðu þar tólf
snúðga steini
konur skjótliga,
ok korn mólu —
bygg ok hveiti;
þat er bragna megin.
50. Svefni voru aðrar
of salar kynni,
at þreyttum meldri,
þýjar háðar;
en hún máttminni
megins kostaði
öðrum ambáttum,
ein at lúðri.
51. Stóð hún at stoð,
stöðvaðist hallr,
ok hún orð um mælti;
orðheill þá
öðlíngr nam
göfigr glöðum hug:
52. "Seifr faðir,
er fíra sonum
ræðr, ok rögnum
reginmáttkum!
víst hefir þú þrumu
þúngan gný
líða látið
of ljósan veg,
en þótt himinn
alstyrndr ljómi,
ok ekki ský
andláng hyli".
53. "Nu hefir þú merki
nokkrum gefit;
veit mèr nú ok aumri
þat um ek bið,
ok at orði hygg
er ek inna mun:"

54. "Búi nú biðlar
á borðum gljám
hinnstan ok síðstan
í húsum Odysseifs
verð vegligan
ok veizlu skrúð,
er dagr hallast
at drafnar sæng!"
55. "Farit hefir meldr
úr mínum knjám
mætti, of þúngu
á erviði,
þar's ek stóð
of steðr at lúðri;
njóti nú veizlu
níðíngar hinnstrar!"
56. Svo mælti hún,
en siklíngs hugr
ítrs Odysseifs
af orðheill gladdist,
ok himinþrumu
herjaföðr;
hugðist hann fá mundu
hefnt á níðíngum.

---

57. Kveiktu nú á arni
óslökkgjarnan
ambáttir eld
aðrar vaknar,
hilmis hallar
hásölum at.
58. Þá reis úr rekkju
ræsis kundr
Telemakkus
tívum glíkr;
lagði um öxl sèr
laufa bitran,
ok fagra sóla
und fætr batt.
ϱ. XX, 116-137.

59. Greip hann í hönd sèr
geir eirbryddan,
sterkan, ok stóð
á stað þrepskjaldar,
ok Evrýkleu,
aldna fóstru,
vænghröðum orðum
ávarpaði:
60. "Hvort hefir þú, fóstra,
í herbergjum
gesti vorum veitt
góðan beina,
hvílu ok mat,
sem hæfilegt er,
eðr liggr hann
óhirtr frammi?"
61. "Því at móðir mín,
þó at mjök sè vitr,
ósjaldan virðir
alls ótiginn
mælandi manna,
moldum borinna,
en betra hal
frá húsi braut
árna lætr
með óvirðíngu".
62. Svaraði honum
seljan geðspaka,
ok aptr mælti,
Evrýklea:
63. "Ei muntu henni,
ástkærr sonr,
sakarlausri
sakar gefa,
því at vín drakk hann
sem vili bauð,
ok eigi kvaðst hann
krásir vanta,
er þess hann frètti
fylkis brúðr".

64. "En er hann minntist
mjúkrar hvílu
ok sætligrar
svefna værðar,
sagði hún hraðliga
húss ambáttum
brátt at búa
blundlín gesti".

65. "En hann, aumr,
ógæfu háðr,
vildi-at blunda
á beði mjúkum,
eðr glitblæjum
göfigmenna;
heldr á óeltri
oxahúð
ok sauðar gærum
at sofa gekk
í fordyri,
en forna loðkápu
á hann vèr breiddum
ofan síðan".

66. Talaði hún þannig,
en Telemakkus
hám út gekk
úr hallar sölum;
fleinn var í mundu,
en fráir rakkar
höfðíngja fylgðu
horskum eptir.

67. Þá gekk á þíng
þeingils arfi
ítrbrynjuðum
með Akkverjum.
En Evrýklea
Ópi borin
Písenorssyni,
prúðust kvenna,
ánauðigum
ambáttum bauð:

ρ. XX, 138-160.

68. "Skundit, ambáttir,
ok skjótliga
höll nú hreinsit
hilmis fagrreista,
ok glæsiligra
gullstóla fjöld
glitblæjum stráit,
gulli slúngnum".

69. "En aðrar gljúpum
gjöri fága
skutla vandliga
vöttum Njarðar,
ok gullveiga
glæstar skálar
hreinsi, ok tygi
tvíker fögr;
en sumar árni
at uppsprettu,
vatn at sækja;
verit nú skjótar!"

70. "Því at eigi munu biðlar
úti bíða
höllu frá
hárri leingi,
en þeir munu
árla morgins
híngat koma,
því at hátíð er".

71. Svo mælti hún,
en heyrðu þær
allar, ok hlýddu
Evrýkleu;
geingu þær tuttugu
at tærri lind,
en hinar at fága
fagran sal.

---

72. Geingu nú inn sveinar
seggja akkverskra,

vel ok vandliga
viðum kyntu;
en frá lind aptr
árnuðu konur,
ok með seljum
svína hirðir;
alisvín þrjú
þegn of rak,
feitust þeirra
er þeingill átti.
73. Lèt hann þau reika
leitandi sèr
um fagra garða
fæðu nokkurrar,
ok síðan mælti
mjúkum orðum
við öðlíng mæran
Odysseif:
74. "Vinr, hvort virða
verir akkverskir
framarr þik
en fyr þeir gjörðu,
eðr sem áðr
ósæmd veita
halir þèr
í herbergjum?"
75. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
76. "Vilda'k, Evmeus,
at voldug regin
hefndir vildi gjalda
fyrir hroka slíkan,
er afarmenni
í annarra húsum
hæstan fremja,
hróp ok illsku,
sjá þeir eigi sæmd
nè sjálfir eiga".
ρ. XX, 161-184.

77. Orðum svo annarr
til annars mælti.
Mundi þar at bera
Melantíus
geita vörð,
sá er geitr rak,
þær er beztar
þeingill átti.
78. Búa svo skyldi
biðlum aptans verð;
geingu smalar tveir
með geita hirði, —
þær hann at ómandi
útsvölum batt,
ok lasta stöfum
lofðúng kvaddi:
79. "Ósvinnastr apa,
aumr hvervetna!
hefst þú við enn
at orum sölum
mönnum meinligr?
munt-attu braut halda?
knáumk-a sízt skilja
nema knúum reyndim".
80. "Er-a þèr sæmd
svo at fara
fíkjum biðjandi
fíra hvern —
ok aðrar fleiri
akkverskra standa
veizlur valmeiða
at vegsölum".
81. Talaði hann svo,
en slúnginráðr
eigi annsaði
Odysseifr;
heldr þegjandi
hann höfut skók,
en heipt ok hefnd
í hjarta brann.

82. Kom þá hinn þriði
þegna til:
Fíletíus,
fíra vaskastr,
fór með geldkvígu
ok geitr feitar
framr þegn,
at færa biðlum.
83. Flutt þat höfðu
ferjumenn
yfir sund
at eyjar barmi,
þeir er ok ymsa
ýta ferja,
hvern er liðs
leitar þeirra.
84. Ok hann þat vel
ok vandliga
ómandi at
útsvölum batt,
en sjálfr spurði
svína hirði,
nærri standanda,
nauta gætir:
85. "Hverr er gestr sá,
geymir svína,
kominn híngat
at kynnum vorum?
hverra manna
mundi hann sik kveða?
hvers foreldris,
ok fóstrláðs?"
86. "Ógæfusamr
ok aumligr! —
ok þó at vísu
öðlíngmenni
kveð'k hann líkjast
konúngbornum".
87. "Er-at kyn
þó at uppregin
í mæðu reki
reikunarmenn,
er lofsælum
lýðkonúngum
harm þeir búa
ok bölva fjöld".
88. Talaði hann svo,
ok sinni mundu
hægri heilsaði
hal ókenndum;
hann mildíng frægan
at máli tók
ok hann óðhröðum
orðum kvaddi:
89. "Heill sèrtu, gestr,
gæfu þèr veiti
drottinn himins
daga komandi!
en með ógóðum
ertu nú kominn
oflátum mörgum
at öðlíngs sal".
90. "Eingi goða
er grimmari þèr,
Seifr, faðir
fíra ok banda!
eigi þú aumkar
af einum þèr
menn skapaða,
en mæðu þeim
býr, ok eymd
eljunsára!"
91. "Svitnaða ek
þá er sá ek þik,
ok úrig gjörðust
augu tárum,
er ek eptir munda'k
Odysseifi".
92. "Hykk at líkum
lofðúngr muni

tötrum búinn
með brögnum flækjast,
ef hann enn lifir
ok líta má
einhverstaðar
álfröðuls ljós".
93. "En ef at liðinn
lofðúngr hvílir,
horfinn helsala
Hadesar til —
man ek þik, ágæti
Odysseifr!
er þú mik sima
settir at gæta
á klettóttu landi
Kefalena,
en ek sjálfr var
sveinn lítt vaxinn".
94. "Ótal er nú orðin
öldúnga fjöld,
ok manna eingi
meira hefir
aurgefinna
ennisbreiðra,
er ávallt honum
auki kyn".
95. "En nú mèr skipa
skatnar aðrir
eyxn at reka
til ársala,
ok þeir óvirða
öðlíngs niðja,
ok reiði hræðast
ragna eigi".
96. "Því at þá tíðir
tiggja eigum
fjarlægs laungu
fíkjum skipta;
hverfist mèr hugr
hinnig ok þinnig
opt, er ek slíkan
ójöfnuð sjám'k".
97. "Lízt mèr at vísu
lítt þolanda,
meðan ítr lifir
lofðúngs arfi:
með eyxna hjörð
af eyju braut
manna at flýja
framandi til".
98. "Er þó harmsligra
hèr at dvelja,
ok annarra gæta
eyxnahjarðar
und illu bölvi
afarmenna".
99. "Munda'k laungu
á mildíngs nokkurs
voldugs náðir
vitjað hafa,
er mik hèr hvívetna
harmr þjáir,
ok ei við svo búit
of setið fæ":
100. "Ef ek ei þráði
þeingil mæran,
þeim er örlög
eymd of bjuggu —
at hann knætti
aptr snúa,
ok biðlum byggi
bana ok feigð,
ok hölda hreki
úr höll sinni".
101. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
102. "Hykk nè þik,
hirðir nauta,

mann óvitran
nè illráðan;
knáir-a mèr ok dyljast
kænska þín,
ok hyggindi
í hugar fylgsni.
Mun ek því ótrauðr
inna þèr,
ok eið dýran
díum vinna":
103. "Viti þat Seifr,
sjóli máttkastr;
viti þat gestborð
at vísa sal;
viti þat arinn
at Odysseifi,
hilmi ríkum,
er ek heim sótta'k!"
104. "Meðan þú hèr
í húsi dvelr,
mun aptr koma
Odysseifr;
ok ef þú vill
mun þèr auðnast sjá
eigin augum
öðlíng ríkan,
ok biðla vegna,
sem vísa nú
eigum ráða,
sem eigi sjálfir".
105. Gegndi honum aptr
hinn gildi þegn,
sá er hjörð nauta
hafði at geyma:
106. "Vilda'k, gestvinr,
at guð upphimins
óskir þínar
upp svo fylldi;
mundir þú þá sjá
hvort megin er
mèr, eðr kraptar
knúum í".
107. Hóf þá Evmeus
ok at stundu
til goða allra
glíka bæn:
at Odysseifr
ítrslúnginn
heim at sínu
húsi kæmi.
108. Talaði svo annarr
annars til,
ok of efni slík
orð þeir völdu.

---

109. En Telemakkusi
tjón og dauða
hugat höfðu
horskir biðlar;
en þá fugl þeim
fló til vinstri:
örn, haldandi
hræddri dúfu;
ok Amfínómus
þau orð um mælti:
110. "Munat oss, vinir,
von sú rætast,
at Telemakkusi
tjón vèr búum;
minnumst heldr, vinir,
mærra krása!"
111. Innti þannig
Amfínómus,
en tírum geðjaðist
tala hans.
112. Geingu þeir til hallar
ins goðumlíka
Odysseifs,
ok á lögðu

skafna bekki
skikkjur fagrar;
en aðrir slátruðu
sauðum góðum
ok geitum feitum
at grams sölum;
113. En sumir göltum,
ok geldkvígu,
ok slátri steiktu
síðan deildu;
þá á bikara
byrluðu vín,
en sveinum bar
svína hirðir.
114. En brauð þeim deildi
bragr sveina,
Fíletíus,
úr fögrum körfum:
en vín mældi
Melantíus,
ok halir rèttu
hendr sínar
at fram reiddum
rètta gnóttum.
115. En Telemakkus,
týspakr verr,
Odysseif
orðum hvatti,
ok í húsi
háræfruðu
at stein-þrepskildi
stól einn fornan
ok borð of setti,
bar fram verð,
ok vín skeinkti
í skál gullna,
ok síðan mælti
mærum orðum:
116. "Sitja muntu nú
með seggjum öðrum,
ok veiga njóta
at vegsölum;
en afaryrðum
allra biðla
ek mun afstýra,
ok ofrkappi".
117. "Eru-t því salir
sameign þessir
allra manna,
nè opnir lýðum;
en Odysseifr
á þá sjálfr,
ok hann mèr einum
þá eptir lèt".
118. "En þèr, biðlar,
frá afarmælum
yðr haldit,
ok illum leiki,
svo at eingi
at öðlíngs sal
rísi gnýr
nè gnepju þytr".
119. Svo mælti hann,
en sèr á varrar
snarpir tönnum
seggir bitu;
ok Telemakkus
tírar undruðust,
hve honum einart
orð of fórust.
120. Mælti þá arfi
Evpíþesar
Antínóus,
ok þau orð of kvað:
121. "Tölu skal taka
Telemakkuss,
en þótt oss
hún öndverð sè;
því at ótrauðr
öðlíngs niðr

ρ. XX, 249-272.

hótunum við oss
hörðum mælir".
122. "Því ei vèr njótum
allsvaldanda
konúngs hjálpar,
Kronus-sonar;
þaggat mundi ella
í þeingils nið,
en þótt mæríngr
mælskr of sè".
123. Orð þau mælti
Antínóus,
en sèr eigi brá
buðlúngs arfi.
Kallarar fluttu
of konúngs borg
hundraðsfórn
helga goðum.
124. En fagrhærðir
fóru Akkverjar
at skógarlundi
skuggasælum,
er hinn lángskeyti
lofðúngr á,
Appollon
álmsvaldandi.
125. Ok er þeir höfðu
á hyrteinum
kjöt of steikt,
ok af kyndi tekit:
verði þeir deildu,
ok veizlu góðrar
síðan nutu
seggir glaðir.
126. Deildu matsveinar
matarskamt jafnan
ýta annarra
Odysseifi,
því at svo hafði
seggjum boðit
Telemakkus
tíðr arfi
Odysseifs
hins jólnum glíka.
127. Mundi-t þó Aþena
at öllu varna
meingjörðum biðla
móðhugaðra,
svo at sár
sorg at heldr
of hjarta lèki
Laerts arfa.
128. Því at með biðlum
þegn einn dvaldist,
sá var Ktesippus
seggr of nefndr;
illan bar hann huga
ok ótiginn,
Sámsey borinn
sævi kríngdri.
129. Treysti hann afli
auðs ok meiðma,
ok fylkis kvon
fjarri veranda
mjök of girntist;
ok máls kvaddi
biðla brúðar
bölmóðiga:
130. "Heyrit mèr, sveinar
hugumprúðir,
mun ek segja
af munni orð:"
131. "Nú hefir vísliga
verð of þegit
seggr fyr laungu
er sama mun,
jafnan oss sjálfum —
ok er sízt fagrt
framhjá at gánga
gestum, nè rètt,

ϱ. XX, 272-294.

Telemakkuss,
þá er tíðir híngat".
132. "Víst man ek nú þeim
vingjafar unna,
svo at hann aptr
salkonu veiti
þeirri, er hann laugar,
eðr þýjum öðrum,
þeim er þjóna
at þeingils sal".
133. Mælti hann svo,
ok mundu knárri
þjórsfót mikinn
þreif úr körfu,
ok þann sendi,
en þeingill sveigði
höfut til hliðar,
svo at hæfðist ei.
134. Mundi þá ítrum
Odysseifi
hugr hlægja
hlátri köldum;
en fótr laust
felldan vegg.
En Telemakkus
talaði orðum
til Ktesippuss
kaldhuguðum:
135. "Víst þèr lið
veitti gæfa,
fóli, ok þínu
fjörvi hlífði,
er þú gjörðir
gests at missa,
en hann sjálfr
fur sendíng veik".
136. "Munda'k þik miðjan
mæki lagt hafa
undarsárum,
ok aldri svipt;

ok þinn faðir
í festa stað
mundi þik hafa
til moldar búit".
137. "Sýni því eingi
at sölum vorum
ósvinnu neina;
alls em'k víss orðinn
góðs ok ills,
er ek áðr of var
úngr með dreingjum,
ok óviti".
138. "Hljótum vèr þó
horfandi á
allt at þola:
eyxn of slátruð, —
víni eytt,
ok öllum forða;
má-at einn mörgum
móti rísa".
139. "Gætið nú at,
ok ofrkappi
mèr eigi beitið
móti einum".
140. "Ef nú þèr æskit
ákafliga
mik at leggja
mæki breiðum:
munda'k þat kjósa,
því mjök er dauði
betri, en slíkt
böl at þola:"
141. "Gesti hrundna
ok hnefum barða,
svo ok ambáttir
ok salkonur
til lostasamrar
lagðar iðju
frekjuliga,
at fögrum sal".

ρ. XX, 295-319.

142. Mælti hann svo,
en mönnum setti
hljóð ok kyrrð
í höll þegar;
uns seint um mælti
af munni orð
arfi Damastors
Agelás:
143. "Ei munum, vinir,
vitr rèttmæli
aptr reka
reiði-yrðum,
ok eigi veita
yfirgáng
gesti gánganda
nè griðþýjum,
er at Odysseifs
inni dvelja".
144. "En ek mun segja
orð góðfúsligt
Telemakkusi
ok tiggja brúði,
ef þeim svo báðum
betr líkar,
ok önd þat gladt
getr þeirra:"
145. "Meðan yðr
mundi lifa
von í hjarta:
at heim kæmi
ítrslúnginn
Odysseifr
til hallar sinnar
háræfraðrar":
146. "Þá var eigi
yðr láanda
þó at biðit þèr
buðlúngs komu,
ok biðlum veittið
veizlu gnóttir,
ϱ. XX, 320-340.

uns frètt þèr hefðit
af fylkis æfi".
147. "Því at betra
brögnum þótti,
ef aptr kæmi
Odysseifr,
ok sínum sölum
settist at;
en nú er alsýnt
at hann aptr nè kemr".
148. "Því til móður
muntu gánga,
ok henni segja,
sitjandi hjá:
ver at velja
vænstan okkarn,
er flest flytr
festar meiðma".
149. "Muntu þá sjálfr
mega úr því
föður eigna
í friði njóta:
matar ok víns,
ok munaðar hvers,
er hún annat bú
eignast náir".

---

150. Talaði aptr
Telemakkus,
ok orð of valdi
af vitrum hug:
151. "Sver ek við Seif,
sonr Damastors!
ok míns við föðr
frekar nauðir,
þess er ógnfjarri
Íþakseyju
látizt hefir,
eðr hrekst of fold":

152. "Eigi ek hindra
horskrar móður
gjaforð, at heldr
hvet ek til þess,
at hún veli
sem vill hún sjálf,
ok ek þar til gef
ógrynni fjár".
153. "En ek blygðast
brúði nauðga
braut at reka
frá búandgarði
hörðum orðum;
himna guðir
slíkt láti aldrei
auðnu ná!"

---

154. Talaði þannig
Telemakkus;
en biðlum gjörði
glóeyg Aþena
ofsa hlátr
óstöðvanda,
ok hnekkti þeirra
hyggju gjörvallri.
155. Hlógu þeir helbrosi
hverfðum kinnum;
snæddu þeir bóga
blóði drifna;
en augu fylldust
úrgum tárum,
ok kvíða hrollr
á hjarta seig.
156. Mælti þá við þá
af munni orð
Þeóklýmenus,
þjóðmæríngr:
157. "Veslir sinnar
svalra harma!
hverri eymd
erut undnir þèr!
dökkva hyljast
höfut yðar
ok ásjónur,
en öll of riða
yðar knè —
er-a slíkt of tryggt".
158. "Glymja grátstafir
geystu kveini,
en kinnar sollnum
sveipast tárum;
drúpa veggir
dreyra rauðum,
ok súlnahvolf
svella blóði".
159. "Er ok forgarðr
fullr yggligra,
ok höll fögr,
heljar sinna,
er til draugheima
halda vilja
dökkva undinna,
en dvalins leika
af himni hneig,
ok helmyrkvi
geigrligr
guma hræðir".
160. Svo mælti hann:
en seggir allir
dátt at honum
hlógu görva;
mundi þá orð
Evrýmakkus
Polýbuss arfi
prúðr segja:
161. "Er-a nýgeinginn
gestr híngat
óskertr sá
at orðhyggju;

færit hann því, sveinar,
of sal til dura!
at hann til torgs
árna megi,
er honum sýnist
í sölum nótt".
162. Mælti þá aptr
orðum til hans
Þeóklýmenus
þjóðmæríngr:
163. "Eigi ek þarfnast,
Evrýmakkus,
fylgðar þeirrar,
er fram þèr bjóðit;
augu á ek enn
ok eyru bæði,
flytja mik ok fætr,
ef ek fara vil".
164. "Er mèr ok vit
enn í brjósti
óskert ok heilt,
ok óbrjálat;
því mun ek gánga
gætinn til dura".
165. "Sjám'k því at eymd
ok ógæfu,
er yðar bíðr,
aumir glópar!
þá, er sá eingi
undan stýrir
eðr forðast má,
er í fylkis húsum
goðum glíks
gumnum veitir
ofsa ok frekju,
ok ofríki".
166. Svo mælti hann,
ok úr höllu gekk
háræfraðri,
ok horskr kom

ϱ. XX, 361-382.

Píreifs til
hins prúðlundaða;
sá tók honum
höndum báðum.

---

167. En biðlar horfðu
hverr til annars,
ok Telemakkus
tóku at smána,
ok hans at gestum
glópliga hlógu;
mælti þá einnhverr
afglapa þeirra:
168. "Er-a guma nokkurr
ógestsælli
þèr, enn tigni
Telemakkus!
er þú slíkan
segg faranda
at þèr dregit
auman hefir".
169. "Frekr er hann víns,
ok forða neytir,
en verk ekki
hann vinna má,
máttar vana
ok vætki nýtr
þrjótr, vesall
þúngi jarðar".
170. "Svo var ok hinn annarr,
er áðr reis
upp, at herma
hluti óvorðna".
171. "En heyr nú mèr!
hygg ek þat betra:
fleygja munum vèr
fólum þessum
margþóptaðan
á mar geitis,

ok síðan flytja
til Sikileyjar,
at þú verð fullt
fyrir þá hljótir".
172. Mæltu svo biðlar
en máli þeirra
gaum hann nè gaf
eðr gætti at;
en til föðr
felldi sjónir,
ávallt bíðandi
æsktrar stundar,
er hann legði á
afarmenni
hendr, ok byggi
bana þeim.
173. En Penelopa
hin prúðlundaða,
Íkaríuss
ágæt dóttir,
glæstan sett hafði
gagnvart þeim stól:
á þeim hún sat
ok sèrhvert heyrði
orð, er seggir
í sal mæltu.
174. En þeir veizlu
vegligrar nutu
ok gómsætrar,
gjöllum hlátri,
er gripum mörgum
meginfeitum
til sumbls hafði
slátrað verit.
175. En ei má kvöldverðr
kaldari verða,
en þat feigðar öl,
er hin fólkvalda
gyðja bjó
ok buðlúngr
ófyrirleitnum
afarmennum,
er fyrr höfðu
frekju sýnda.

---

# TUTTUGASTA OK FYRSTA KVIÐA.

En Aþena, gyðja
hin augumglæja,
mundi prúðlyndri
Penelopu
Íkaríuss
ágæts dóttur
í hug skjóta
höfga þrúnginn:
2. Fyrir biðla
boga at leggja,
ok exar miklar,
ísarngráar,
í fylkis sölum,
at feingi þeir
framit leiki,
forspjöll víga.
3. Steig hún upp
stiga háfan,
at sölum sínum,
svölum kríngðan;

φ. XX, 383-394.

tók hún lykil
með listum gjörvan,
sá var fáðr eiri
með fílsbeins haldi.
4. Gekk hún skjótliga
með griðkonum
at innstum klefa
öðlíngmennis,
þar sem at geymdir
gripir lágu
fylkis margir,
meginfagrir.
5. Benlitr eirr
ok baugar rauðir,
ok ísarn mikit
ítrblásit;
var þar ok álmr
úrsvignæmr,
ok örvamælir
oddum fylldr,
þeim er stunur
þjóðum vekja.
6. Voru þat gjafir,
er gestvinr
lofðúngi gaf
at Lakedemóni,
er Ifítus
hann áðr hitti
Evrýtuss arfi,
jólnum glíkr.
7. Bar fundum þeirra
beggja saman
er þeir mættust
í Messeníu,
at fróðhugaðs
Orsýlokkuss;
en Odysseifr
at inni kom
skuld at heimta
er skatna lýðr
gjörvallr honum
gjalda skyldi.
8. því at rænt höfðu
rekkar messenskir
hundruðum þrem
hyrndra sauða
frá hárri Íþöku,
með hjarðsveinum,
á margþóptuðum
marar fákum.
9. þá at heimta
þreytti lánga
ágætr vegu
Odysseifr;
sveinn var hann úngr,
sent hafði faðir
ok öldúngar aðrir
erendis þess.
10. En Ifítus
jóa leitaði,
er braut honum
brugðizt höfðu:
merrar tólf
ok múlasnar,
eljunþolnir,
er undir gengu.
11. Urðu þær merar
Ifítusi
feigð ok tjón,
ok at fjörlesti,
þá er til sonar
Seifs hann kom,
hals, í huga
harðmóðgasta.
12. Var þat Herakles,
hvívetna kunnr
at verkum miklum
ok mannraunum;
sá honum stundir
stytta gjörði

ϱ. XXI, 6-27.

sínum at garði
þótt gestr væri.
13. Grimmr ofrhugi,
er goða reiði
eigi óttaðist,
nè Urðar dóm,
og eigi gestborð
gesti borit;
en hans eyddi
aldrdögum.
14. Átti hann síðan
jóa fráa
ok hófsterka
hásölum at; —
þeirra Ifítus
jóa leitaði
er hann Odysseif
ítran hitti.
15. Lèt hann honum gefinn
gagnþytvaldan
álm, er áðr
Evrýtus bar:
móðhugaðr
hann megi sínum
boga fèkk
á bana dægri
háræfruðum
herbergjum í.
16. Gaf honum aptr
Odysseifr
gram eggskarpan
ok geir dynstinnan:
gjörðist svo upphaf
at gestvináttu
ítrfrægri
fíra beggja,
en at gestborði
guma hvorigr
annan þekkti
of aldrdaga.
17. því þat fyr of gjörðist
at frændi Seifs
Ifítus vó
Evrýtuss mög,
guma glíkan
goðum himins,
er Odysseifi
álm lèt gefinn.
18. þann bar aldrei
Odysseifr
álm í orrostu
ítrfrægr,
þá er hann fór
í fólkjöru
bláfjölluðum
brimdýrum á.
19. þá í herbergjum
hremsu þeytir
minníng gestvinar
mundi geyma;
en er hraustr hilmir
at heima dvaldi
ávallt bar hann
álm þjótanda.
20. Ok er nú hafði
ágæt brúðr
at gripa sal
geingit fögrum,
ok upp á stigit
eikar þrepskjöld.
þann er fyrri
fjölvíss hafði
smiðr telgt
at sima beinum.
ok hurðar stafi
hagliga fellt,
ok dyr fagrar
fyrir látið:
21. Leysti skjótliga
lokuband

ϱ. XXI, 27-46.

hurðar hríngs
hilmis brúðr,
ok lykil felldi
at lásgrópi,
en hleypiloku
hleypti frá,
horfandi fram
fránum sjónum.
22. Gullu við hurðir,
sem graðúngr
sá er á eingjum
úti geingr;
svo mundu glymja
glæstar hurðir
ok fyri svanna
flugu sundr vængir.
23. Steig hún á hápall
í herbergis sal,
þar er kistur
þeingils stóðu,
ok þar's klæði
kostulig lágu,
ilmjurta ángan
undnir dúkar.
24. Seildist upp þaðan
siklíngs brúðr,
ok boga nam
af nagla hám,
álmsliðrum undinn
ítrfögrum,
er hann girt
ávallt höfðu.
25. Settist niðr
siklíngs brúðr,
ok sín á knè
sveig of lagði;
mundu þá glymja
margims tróðu
gjallir grátstafir,
er hún grams boga

e. XXI. 46-65.

dró úr slúngnum
slíðrhlífum.
26. En er á trega
társvellanda
sèr hafði svalat
svanninn mæri:
ofan hún gekk
at glæstum sal,
þar er brúðgjarnir
biðlar sátu.
27. Hafði hún í hendi
harðsvigvaldan
boga, ok mæli
broddum fylldan,
þar er álmdrósir
inni sátu,
þær er stunur
þjóðum vekja.
28. Geingu griðkonur
eptir grams freyju,
ok kistu hèldu
í höndum sínum;
í var þeirri járn
afarmikit,
ok eirr ærinn
er átti hilmir:
þrasar mark
at þryms leiki.
29. En er gulls tróða
gyðjum lík
bráðla var inn
til biðla geingin:
stóð hún upp við stoð
í stillis sal,
hagliga telgða,
húss at durum.
30. Lèt fyri kinnum
leika blæju
smágjörva, ljósa,
lofðúngs brúðr.

síðan at biðlum
beindi ræðu,
ok við þá mælti
af mærum hug:
31. "Heyrit mèr, biðlar
hugumstórir!
þèr er sífelt
í sal þessum
margmennir sitið,
ok matar njótið,
ok dýrra veiga
af drykkjarskálum";
32. "Meðan á brautu
bóndi dvelr,
ok mörg of deyr
dvalins leika;
en þèr ekki
annat hafit
afsakanar
fyrir ofrgángi,
en móðga laungun
mik at hljóta,
ok með mèr brúðar
beð at kanna".
33. "En heyrit nú
horskir biðlar!
nú er aflraun
yðr búin;
því at hèr set ek
siklíngs álm
ágæts mikinn
Odysseifs".
34. "þeim er höndum
hægast sínum
álm upp dregr
úrsvignæman,
ok er exa tólf
allra hittir
augu broddi
bifþjótanda":

ϱ. XXI, 67-86.

35. "þeim mun ek fylgja,
ok þenna sal
unaðar míns
yfirgefa,
þar er úng brúðr
bónda naut;
auðsælan sal
auði fylldan —
mun ek hans of æfi
minnast alla,
ok í lognværum
líta draumi".
36. Talaði hin horska
hilmis brúðr,
ok Evmeusi
ágætum bauð,
svína gæti,
sveig at veita
biðlum, ok exar
ísarngráar.
37. Grátandi Evmeus
glæ við tók,
ok niðr lagði
ljósfáðan grip;
en gagnvart grèt
geymir nauta,
er hann álm vísa
augum of leit.
38. En Antínóus
ofareiðr,
brigzlum bráðr,
beindi ræðu:
39. "Sè þar heimska
sveit-afglapa,
er eigi hugsit
fyrir aptni fram!
Segit drótt,
dusilmenni,
hvat er þat trega
ok társtafa?"

40. "Vekr þat harm
í vífs brjósti,
er hún áðr tárast
trega móðgum,
sízt henni hvarf
sjónum mærum
ástkærr bóndi,
at bölvi snúinn".

41. "Sitið nú kyrrir
ok krása njótið,
eðr hafist á braut
úr hilmis sal
ok fur durum frammi
fleytið tárum!"

42. "Látið hèr boga
liggja eptir,
at biðlar gángi
at geigrligum
álmdrósa leiki;
en uggir mik,
at vilgi slakr
verði dráttar
sveigr sá
seimfágaðr".

43. "Því at mann-gi
á meðal vor
at afli líkist
Odysseifi;
sjálfr hef'k siklíng
sóknharðan litið,
ok sjóla man'k —
sveinn var'k þá úngr".

44. Mælti hann svo,
en muni hvarflaði
hallr í brjósti
at blíðri von:
at hann álm
feingi upp dregit,
ok gegnum exa
augu skotið.

ϱ. XXI, 86-108.

45. En hann sjálfr
seggja fyrstr
álmdrósar skyldi
skarprar kenna
ágætum frá
Odysseifi,
þeim's hann óvirti
áðr í sal,
ok hilmi at hrópa
hvatti aðra.

46. Talaði þá
Telemakkus,
afli helgu
ítrstuddr:

47. "Fyrn eru slíkt,
hve feikna gálausan
mik hefir skapat
mildíngr himna!
mín heitr móðir
mjök ástúðlig,
ok greind geymandi
í geðknerri:
öðrum at fylgja,
ok fögrum sal,
haddfögr brúðr,
á bak at sjá";

48. "En þat mik hlægir,
ok heimskliga
hjarta mitt
ok hugr kætist".

49. "En heyrit nú,
horskir biðlar,
leikr er búinn
brögnum í sal,
konu vegna,
sú er kná-a slík
Akkverja finnast
á ættarjörð".

50. "Eigi í prúðhelgri
Pýlusborg,

nè á jóríku
Argos-láði;
eigi á Mýkenu
nè Íþöku,
nè í myrkum dölum
meginlands".

51. "Slíkt er ok yðr
sjálfum kunnigt; —
hvat þarf móðir mín
minnar loftúngu? —
skorizt nú eigi
skatnar undan,
ok frá álmi
eigi snúizt
toginsveigum,
at tírar sjái".

52. "Mun'k ok sjálfr
sveigs of freista;
því ef ek álm
upp fæ dregit,
ok gegnum exar
öru skotið,
helzt mun þat harms bót
at hvarfi móður:"

53. "Er hún á brautu
með öðrum ver
árnar, ok mik
eptir skilr:
at ek má þá föðr
ítrfrægar
álmskotraunir
eptir leika".

54. Svo hann mælti,
ok af sínum herðum
purpuraskikkju
prúðr lagði,
reis upp at þat
ylfíngs niðr,
ok eggtein felldi
af öxlum breiðum.

55. Stillti exar fyrst
stillis arfi,
ok á ranns gólfi
rauf markaði —
allar í einu
at endilaungu,
ok at sima
setti beinum.

56. Tróð hann moldu
at meitils hliðum;
en alla furðaði
áhorfendr
hve hann hagliga
hyrnur stillti,
er hann slíkt eigi
hafði áðr of sèt.

57. Gekk hann því næst
at þrepskildi,
ok álm freistaði
upp at draga;
þrisvar hann knýði
þrym bölstinnan,
ok upp girntist
ý at spenna.

58. En þrisvar sinnum
þraut hann megin,
er hann í ákafa
eptir girntist
álmstreing harðan
upp at knýja,
ok gegnum exar
öru senda.

59. Hefði hann nú sveigt
seigbendan álm,
er hann fjórða sinn
fast at gekk:
en Odysseifr
augum benti,
ok meginsterkan
móð stöðvaði.

φ. XXI, 77-96.

60. Talaði þá
Telemakkus,
afli helgu
ítrstuddr:
61. "Eru slíkt feikn,
ok uggir mik,
at ragr æ verða'k
ok remivana —
eðr æska mín
enn mèr varnar
mínum at aptra
andvígendum".
62. "En þèr, sem erut
at afli mèr
æðri ok meiri,
upp nú rísit!
freistið bölstinnan
at beygja álm,
at leiki þessum
lokit verði".
63. Mælti hann svo,
ok sveig at jörðu
hóglega lèt
úr höndum síga,
ok at felldum þiljum
fagrsköfnum,
hagliga telgðum,
hann upp reisti.
64. Ok hremsu hraðfleyga
hodda brjótr
at skafna álmlykkju
of skorða gjörði;
síðan horskr veik
at hástóli
er hann áðr
upp af reis.
65. Mælti þá arfi
Evpíþesar
Antínóus
við ýta sveit:

ϱ XXI, 130-150.

66. "Rísit nú upp,
röskir sinnar,
frá hægri hendi
haldandi röð,
ok þeim megin
upp hefjandi:
er gánga frá
gullnar skálar!"
67. Innti þannig
Antínóus,
en orð hans geðjuðust
ýtum snjöllum.
68. Upp stóð þá fyrstr
Oinops' niðr,
Leiódes,
er lofða var
blótspármaðr,
ok á bekkjum sat
ávallt at skaptkeri
innst í horni.
69. Sá einn ýta
óhlutvendi,
ok ofrdramb
allra handa
biðla hataði
herbergjum í,
ok hann einn flokk
fjónaði þeirra.
70. Tók hann fyrstr
fylkis boga,
ok öru skjóta
af jarðar sæti,
gekk á þrepskjöld
þrekinn gumi
ok við álm
af orku streyttist.
71. Fèkk hann þó ei dregit
fylkis boga,
því at afl handa
hans fyr þraut,

er þær óvanar
aflraunum voru.
Mælti hann at þat
við málmþíngs boða:
72. "Munk-at ek, dreingir,
dal þann beygja,
hann nemi annarr
úr höndum mèr;
því sá mun marga
meginhrausta
hölda svipta
hug ok fjörvi."
73. "Er ok hvervetna
hölum betra
feigð ok dauði,
en at fá eigi
þat's vèr híngat
hugðumst sækja,
ok eptir bíðum
alla daga".
74. "Margr nú hyggst
í hjarta sèr
sigr at vinna
ok seimgjöld fá,
ok mjök of girnist
gylfa rúnu
eiga Odysseifs,
ítrfagra,
prúðlundaða
Penelopu".
75. "En er hann hefir
harðan boga
reynt, ok afls
alls of kostað,
mun honum hitt
hollráð virðast:
annarra at leita
hjá Akkverjum
fagrmöttlaðra
fríðra svanna,
ok þeim brúðgjafir
góðar færa".
76. "En þessi mun síðar,
er sólir líða,
guma þann
gánga at eiga,
er flest flytr
fagra meiðma,
ok af örlögum
einn er sendr".
77. Mælti hann þannig,
ok mundum úr
boga seigbendan
á brott of lagði,
ok at felldum þiljum
fagrsköfnum
hagliga telgðum
hann upp reisti.
78. Ok hremsu hraðfleyga
hodda brjótr
at skafna álmlykkju
of skorða gjörði;
síðan horskr veik
at hástóli,
er hann áðr
upp af reis.
79. En Antínóus
ofareiðr
brigzlum bráðr
beindi ræðu:
80. "En at orð slíkt
af þèr skuli,
Leiódes, hvarfi
líða tanna!
illt ok óttaligt,
svo at ægir mèr
þat at heyra
af þinni túngu":
81. "At álmr sá
ágætustum

ϱ. XXI, 151-170.

at bana verði
branda laukum,
ok seggi hrausta
svipti fjörvi,
er þú upp draga
hann eigi mátt".
82. "Gat-at þik móðir
góð ok virðulig
arfa svo
at afli hraustan,
at þú bogvaldr
vaskr yrðir,
ok hvítmylíng
at hjaldri sendir;
en hinir aðrir
munu upp draga
boga skjótliga
biðlar þenna".
83. Mælti hann svo
ok á Melanþíus
hafra vörð
of heita gjörði:
84. "Rístu upp, geita
ragr hirðir,
ok eld kyntu
at auðsölum;
setja skaltu hjá
sæti mikit,
ok á þat feldi
ofan breiða".
85. "Hjá skaltu því
þjokkvan setja
tólgar skjöld
úr skata búri,
at vèr úngir menn
álms of freistim;
at funa skulum verma
ok feiti mýkja,
at leiki þessum
lokit verði".

ϱ. XXI, 170-190.

86. Talaði hann þannig;
en þegar kynti
eld einn mikinn
Melanþíus;
setti hann hjá
sæti mikit
ok á þat breiddi
ofan feldi,
ok setti þar
þjokkvan næsta
tólgar skjöld
úr skata búri.
87. Freistuðu síðan
fírar úngir
álms, at heitum
eldi vermðum,
en eigi máttu
upp hann draga,
því at helzt til afl
hölda skorti.
88. En Antínóus
álms ei freistaði,
nè Evrýmakkus
ítrframr,
framgjarnra sveita
fyrirliðar
ok alls of æðstir
auðkýfíngar.

---

89. Geingu þá úr höllu,
ok hittust saman,
báðir tveir
bragnar at einu:
geymir nauta,
ok gætir svína
Odysseifs
ágæts hilmis.
90. Gekk þá ítr
Odysseifr

þeim á eptir
út úr sal;
ok er þeir voru
utan dura
ok útsvala
allir geingnir,
við þá mælti
mjúkum orðum
siklíngr enn sókndjarfi,
ok svo nam tala:
91. "Geymir nauta,
ok gætir svína!
orð mun ek eitt
við ykkr kveða —
eðr mun ek þegja,
ok máli aptra,
er mèr hugr
hamlar þagnar?"
92. "Mundu þit verja
vísa ykkarn
ítran Odysseif,
ef at hann beri
híngat skjótliga,
ok himna nokkurr
guð hann flytti
til fóstrjarðar?"
93. "Hvort mundu þit heldr
hjálp of veita
biðla sveit,
eðr siklíngi?
Segit mèr, sveinar,
hver senn of býr
ykkr í hjörtum
hyggja búin".
94. Mælti þá aptr
mildíng við
sá er hjörð nauta
hafði at geyma:
95. "Seifr allföðr,
ósk heyr mína,
ok mèr veit
þat's um ek bið:
at ítr siklíngr
aptr komi,
ok hann híngat flyti
himins megin!
mundir þú þá sjá
hvat mèr er lagit
afls ok krapta
knúum í".
96. Ok Evmeus
áheit gjörði
til goða allra
með glíkri bæn:
at Odysseifr
alls of slúnginn
aptr kæmi
at auðsölum.
97. En er siklíngr
ítr hafði
huga þeirra
ok hjörtu kannat,
mælti hann við þá
mærum orðum,
ok þá aptr
ávarpaði:
98. "Sjálfr em'k nú kominn
at sölum mínum,
at mörgum liðnum
móðgum þrautum;
kominn em'k aptr
á ári tuttugta
of fjarrar leiðir
til fóstrláðs".
99. "Ykkr veit ek eina
allra þjóna,
þeirra er hèr eru
innan hallar,
at minnar æski
aptrkomu;

en hina aðra
aldrei heyrða'k
óska þess
at aptr kæmi
til sinna húsa
salar drottinn".
100. "Nú mun ek ykkr
allt of segja
sannleiks orð,
þat er sannast mun:
ef mik stoðar
ódauðligra,
lágt at foldu
at leggja þessi
gífrmenni,
guða nokkurr:"
101. "Þá mun ek báðum
beðjur veita
ykkr ok auð
ítrljósan,
ok höllu nærri
hús ykkr byggja,
en sjálfa ykkr
sem sonar míns
bræðr ok vini
báða halda".
102. "Sjáit nú báðir,
þat ek sýna mun:
sannleik segjandi
sjónar merki
ykkr báðum,
at alls of megit
mínum trúa
mæltum orðum:
103. "Ör er þat, er áðr
ægiligr
laust mik göltr
ljósri tönn,
er ek til Parnassus
áðr of fór

með ítrum niðjum
Avtólýkuss".
104. Mælti hann svó
ok af miklu öri
ofan vatt
illum tötrum;
en er örit þeir
augum höfðu
litið, ok at gætt
ítarliga:
105. Báðir þeir grètu
ok of buðlúng slúngu
ítran Odysseif
örmum sínum;
heilan báðu
hilmi kominn,
ok herðar ok höfut
hans of kystu.
106. Kysti ok ítr
Odysseifr
hendr þeirra
ok höfut bæði;
ok þar fagnaðar
fögrum tárum
til sólar setrs
seggir hellti,
ef Odysseifr
eigi hefði
grátstafi endat,
orð mælandi:
107. "Haldit nú harmi,
ok höfgum tárum,
at manna ekki
megi líta
sá er úr geingr
glæstum sal,
ok öðrum segja
seggjum inni".
108. "Gángi nú inn
einn at sinni,

ρ. XXI, 210-230.

ok annarr eigi
at annars hlið;
sjálfr mun'k fyrst gánga,
en síðarr þit;
þetta skal vort
vera merki:"
109. "Allir þeir
er inni sitja
biðlar horskir
ok brúðargjarnir,
þeir munu eigi
eptir láta
at mèr álmr selist
ok örvamælir".
110. "En þú, Evmeus,
ótrauðr gákk,
álm í hendi
hafandi, of sal,
ok mèr sjálfum
sveig í hendr
síðan muntu selja,
en salkonum tjá
herbergis ramliga
hurðum loka,
þèttliga felldum
ok fjölvísliga".
111. "Ok þótt einhver
inni heyri
stunur eða gný
guma í höllu,
skyli-t þó ambátt
skygnast fram,
en at sínu kyr
sitja verki".
112. "En þèr framast,
Fíletíus,
fel ek ok skipa,
at skulir þú
með loku forgarðs
læsa dyrum,
ok ramliga böndum
reyra hurðir".
113. Mælti hann svo,
ok í sal aptr
háfan gekk
ok hagsmíðaðan;
ok síðan settist
í sæti aptr,
þat er hann áðr
upp af reis.
Því næst geingu inn
þjónar báðir
Odysseifs
hins ítrfræga.

---

114. En Evrýmakkus
álms freistaði,
ok hagsmíði
höndum of lèk,
vermandi ok bakandi
voligan sveig
at báls brennanda
björtum loga.
115. Mátti hann þó eigi
álm of sveigja,
ok hans móðakarn
mjök við stundi;
ok öndu varpandi
af ekka þúngum
mælti rekkr
af munni orð:
116. "Sè þar ógæfu,
ángr vekjandi
sjálfum mèr
ok seggjum öðrum!
eigi brúðar missir
mèr ekka fær,
en þótt harmr
huga þjái".

117. "Því at mörg 'ro víf
vænlig önnur,
afspríngr ágæts
Akkverja kyns,
Íþöku á
ægi kríngðri,
ok í bragna
borgum öðrum".

118. "Heldr hitt mèr sárast
í hjarta svellr:
er vèr eigi orkum
álm of sveigja,
þann er hinn ágæti
Odysseifr
jólnum glíkastr
jöfurr átti.
Sú mun at brigzli
seggjum verða,
ok leingi í minnum
löðrmennska".

119. Annsaði aptr
ok orð um greiddi
arfi Evpíþess,
Antínóus:

120. "Er-a þat svo,
Evrýmakkus,
sem ok yðr er
alls of kunnigt;
nú er með gumum
guði tignuðum
hátíðarblót
heilagt búit".

121. "Hverr mun því reyna
ramman at sveigja
álm í höndum
hlynr skjalda?
Heldr munu vèr
harðan dal
kyrran láta
at lofðúngs sölum".

ϱ. XXI, 251-270.

122. "Hykk ok at munum
hyrnur láta
kyrrar hèr standa
stilltar allar,
því at eingi mun
upp þær taka
sá er í herbergi
hilmis kemr
arfa Laertes
Odysseifs".

123. "En byrlari
bjóði skálar
aptr at nýju
ítrskærar,
at vèr at dreyptri
drykkjarfórn
bjúgan leggim
boga niðr".

124. "En at morgni
Melanþíus
gumar bjóði,
geita hirði,
geitr at reka,
þær er geita allra
beztar eru
í buðlúngs hjörð".

125. "At vèr bóga
brenna náim
Appolloni
álmsvaldanda,
og síðan freistim
siklíngs boga,
ok leiki látim
lokit þessum".

126. Innti þannig
Antínóus,
en tírum geðjaðist
tala hans.

127. Helltu kallarar
á hendr þeirra

vatni hreinu,
en vaskir sveinar
bikara víni
á barma fylldu,
ok öllum deildu
af drykkjarskálum.

---

128. En at dreyptri
drykkjarfórn,
ok huga glöddum
at gullnum skálum:
mælti við bragna
meinvèlráðr
ítrslúnginn
Odysseifr:
129. "Heyrit orð mín,
ítrir biðlar
lofsællar brúðar,
at lofðúngs sal,
at ek megi
yðr of segja
þat's hugr býðr
í brjósti mèr!"
130. "En þó helztan
Evrýmakkus,
ok jólnum glíkan
Antínóus
ek mun biðja,
er beimi slík
orð of fórust
af ítrum hug:"
131. "At þryms leiki
at þessu sinni
hætta skuli,
ok himna goðum
á hendr felast
heimsvaldandi;
en at morgni
mun sá gagn hljóta
ϱ. XXI, 270-290.

er dýrstr vill
drottinn himna".
132. "Látið nú sjá,
ok listum görvan
álm mèr selit,
at ek yðr með
freista knegim
knúa minna,
ok brjóstmegins,
at brátt ek reyni:"
133. "Hvort afl er enn,
þat's áðr of var,
mínum liðugum
limum gefit,
eðr er þat nú
fur eymd ok volki
alls of farit
ok óhirðíngu".
134. Mælti hann svo,
en málma þverrar
allir æptu
ofareiðir,
því uggðu ýtar
ef upp mætti draga
fagrbúinn álm
fleina sveigir.
En Antínóus
þau orð of mælti,
brigzlum bráðr,
í biðla sveit:
135. "Víst er þèr vits
vant hvervetna,
alls of aumr
umrenníngr!
er þat ei nóg,
at í orri sveit
veizlu þú nýtr
ok værrar kyrðar?"
136. "Er þik vettugis
vantar krása,

en þú heyrir
allar ræðr
vorar ok orð,
er vesall eingi
förumaðr
fær at heyra".

137. "Ölr þú gjörist
fyrir ofdrykkju,
svifit hefir á þik
hit sæta vín,
eins ok aðra þá
er um of súpa,
ok eigi hafa
við öldr gæzlu".

138. "Hlaut ógæfu
ítrfrægr
Kentár af víni
kostagóðu,
Evrytíon,
at auðsölum
Piríþóuss
hins prúðlundaða;
er hann Lapíþa
lèt heim sókta".

139. "Ölærr hann varð
af ofdrykkju,
ok örviti
illt of framdi
í háreistum
hallar sölum
göfugs prýðimanns
Piríþóuss".

140. "En hetjum svall
svalbrjóstuðum
móðr grimmliga,
ok görva risu
upp, ok illfeingir
um útsvalir
ölvaðan drógu,
ok út um dyr".

ϱ. XXI, 290-310.

141. "Ok sárum eggjum
síðan skáru
nasar ok eyru
af níðíngi;
en rekkr örviti
ráðlauss þoldi
drjúga sneypu,
ok drógst á braut".

142. "Reis af þessu
rósta milli
Kentára ok manna
mennskra síðan,
en hann fyrstr
fjörtjón of hlaut,
ölærr seggr,
ills um valdr".

143. "Segi ek svo þèr,
seggr inn aumi,
forspár illar
fram komandi,
ef at álm
upp þú dregr;
því at eigi munt þú
með ossum finna
fèlögum hèr
formælendr".

144. "Brátt á dökkum
drafnar blakki
senda vèr munum
sjálfan þik
Eketuss til,
ægiligs grams,
er fíra hvern
fjörvi sviptir".

145. "Þaðan mant-attu,
þrjótr, snúa;
en sezt nú niðr
ok njót með friði
drykkjar, ok deil-attu
dreingi við,

nè þèr ýngri
at aldri menn".
146. Svaraði honum
siklíngs brúðr,
Penelopa,
sú hin prúðlundaða:
147. "Er-a fagrt,
Antínóus,
ok eigi rètt,
at óvirða
gesti framandi,
þá er gánga híngat,
treystandi fulltíngi
Telemakkuss".
148. "Hversu má þèr
í hug koma:
at þó gestr sá
gæti dregit
jöfurs Odysseifs
álm hinn mikla,
höndum treystandi
ok hörðu afli:"
149. "At hann þá muni
at inni sínu
heim mik flytja,
horska brúði;
er-a hugr hans
nè hjarta þeim
eptir væntandi
ítrlaunum".
150. "Uggi því eingan
at eptir gángi
slíkt, nè syrgi
sèr í huga,
eða ölteiti
af sèr dragi; —
er-a slíkt jafnræði
jöfurs brúði".
151. Annsaði henni,
ok orð um valdi,

ϱ. XXI, 310-331.

arfi Polýbuss
Evrýmakkus:
152. "Þú in prúða
Penelopa,
Íkaríuss
ágæts dóttir!
eigi vèr óttumst
at auman segg,
er-a slíkt of snjallt,
eiga gángir".
153. "En orðstír illr
oss um hræðir,
karla mál
ok kvenna hjal,
at illr Akkverja
einhverr segi:
horska beðju,
er átti hraustr verr
vílmegir girntust,
vettugis nýtir,
ok eigi feingu
álm of dregit".
154. "Ok at karl einn
komit hafi,
biðjandi matar
ok beina sèr;
sá hafi höndum
hægt upp dregit
álm, ok gegnum
gnepjur skotið; —
Svo mun sagt,
en sjálfum oss
brátt mun þetta
til brigzlis lagit".
155. Mælti þá aptr,
ok annsvör greiddi
Penelopa
sú in prúðlundaða:
156. "Er-at afspurnar,
Evrýmakkus,

snotrt með lýðum
svo at vera,
ok annarra manna
eigum spilla,
ágætt hvat
óvirðandi; —
hví mun hitt meiri
mínkun þykja?" —

157. "Sjáit nú gest
í sal kominn,
mikinn á velli,
vaxinn styrkliga,
ok sitt hann eðli
segir vera
af ítrum stofni
ættarbaðma".

158. "Fáit nú honum
fagran álm,
at vèr list hans
líta náim;
en þat mun ek eitt
orð um kveða,
ok eigi loforði
láta brugðit:"

159. "Ef at hann álm
upp fær dregit,
ok honum Appollon
at óskum veitir:
gefa mun ek honum
góða kápu,
kyrtil fagran
ok klæði búin".

160. "Gefa mun ek honum
geir oddhvassan,
at hann hundum
hamlat fái,
ok fur mönnum
megi verjast;
mun'k enn til taka
tvíeggjat sverð".

ϱ. XXI, 331-350.

161. "Gefa mun ek honum
hèr at auki
fagra ilskó
fætr undir,
ok flutníng greiða,
sem hann girnist sjálfr,
ok hans of býðr
í brjósti hugr".

162. Talaði hinn horski
Telemakkus,
ok henni aptr
annsvör veitti:

163. "Mín skaltu vita
móðir ynnilig:
at Akkverja
eingi hefir
sveigs of ráð
nema sjálfr ek,
hverjum er veita
vil ek hann,
eðr ok synja
sveina nokkurum".

164. "Eingi þeirra
er á Íþöku
gljúfrum settri
guma ræður,
eðr eyjum þeim
er allnærri
jóríku liggja
Elisláði:"

165. "Mun-at nokkurr
manna þeirra
nauðgan mik
mega knýja;
ok þótt ek vilda'k
ossum gesti
álm til eignar
algjört veita".

166. "En þú gákk
til þinnar dýngju,

ok vandaðra gæt
verka þinna,
vefjarstóls
ok stilltra teina,
ok bjóð ambáttum
öllum at sitja
verkum at,
ok vinnu rækja".
167. "En geira laukum
geigrligr
álmr heyrir,
at annast hann;
ok helzt þó mèr
hann er ætlaðr,
sjálfr því at em'k
í sal ráðandi".
168. Furðaði horska
hilmis brúði
ræða dreings,
ok at dýngju gekk;
ok sonar orð
í sínu fól
hjarta vitrlig,
ok hugsaði gjörla.
169. Gekk hún at loptsal
með griðkonum,
ok Odysseif
ástkæran ver
hátt of grèt,
uns glóeyg dís
blundstöfum brá
yfir brúðar augu.
170. Tók hinn bjúga
boga síðan,
ok hann of bar,
hirðir svína,
en biðlar allir
óðir hrinu,
æpandi hátt
í herbergjum.
ρ. XXI, 350-370.

171. Mælti þá bistr
biðla nokkurr,
ofstopa slúnginn
ok ofríki:
172. "Hvat ber þú bjúgan
boga stillis,
svína hirðir,
seggr örviti?
brátt munu þik rakkar
rífa sundr
ok þik snæða
at svína gæzlu" —
173. "þeir er þú ólst
áðr fyrri —
einmana þik
á eyðimörku,
ef at Appollon
ok aðrir guðir
oss um heyra
ódauðlegir".
174. Mælti hann svo;
en svína hirðir
boga lagði
at bragði niðr,
því hann hræddist gný
gjallan biðla,
er halir höfu
í herbergjum.
175. Hótunaryrðum
frá hlið annarri
kallaði tírargjarn
Telemakkus:
176. "Ber þú áfram leingra
bogann, vinr,
brátt muntu eigi
öllum hlýða! —
ella mun ek,
þótt úngr sè'k,
út um túnvöllu
ótt þik reka,

ok þik hrekja
hnullúngs steinum,
því at aflmeiri
erum'k þèr".
177. "Vilda'k svo væra'k
virðum öðrum
öllum fremri
er hèr inni sitja,
bæði at hörku
ok handa afli;
munda'k þá skjótla
margan senda
hörðum höndum
úr höll minni,
er þeir fírar
flátt of hyggja".
178. Svo hann mælti,
en seggir allir
hlógu nú mjök dátt
at hirði svína,
ok ró gáfu
reiði sinni
týhraustan við
Telemakkus.
179. En svína hirðir
sveig of bar
um höll þvera,
ok í hendr seldi
Odysseifi
ítrslúngnum,
staðar nemandi
at stóli þeingils.
180. Síðan hann fram
fóstru kallaði
Evrýkleu,
ok orð um mælti:
181. "Býðr þèr, ágæt
Evrýklea,
mögr tiggja
Telemakkus:

herbergis ramliga
hurðum loka,
þèttliga felldum
ok fjölvísliga".
182. "Ok þótt einhver
inni heyri
stunur eða gný
guma í höllu,
þá skyli eingi
þar at skygnast,
eða á gægjur
gánga at dyrum,
en at sinni kyr
sitja iðju".
183. Talaði hann svo,
en tölu hans
hún í sínu
hjarta festi;
læsti at svipstundu
svanni durum
fagrbúinna
fylkis sala.
184. Fór ok á laun
Filetíus
úr sal fram
til útidura,
ok rammgjörvum
at ræsis höllu
forgarðs hliðum
fimliga læsti.
185. En í forgarði
festarstreingr
lá af jafnbyrðum
blakki marar,
sá var af basti
brugðinn harðliga,
þeim hann ramla
remmdi aptr hurðir.
186. Gekk í höll aptr
gumi at þat,

ε. XXI, 371-391.

ok í sæti sitt
settist niðr,
þar er hann áðr
upp at reis;
hafði hann augu öll
á Odysseifi.

187. En hilmir boga
með höndum lèk,
ok á alla vegu
ý of sneri,
ok hvervitna
hugði at vandla:
ef ormar hálsa
of etið hefði
meðan buðlúngr
á brautu var.

188. Mælti þá einhverr
annan við,
ok síns til leit
sessunautar:

189. "Víst mun þessi
vera seggr
bogmaðr góðr
ok boga vanr,
eðr hann ok á
annan glíkan
heima tvívið
í húsi sínu".

190. "Eðr ok hann ætlar
eptir þessum
annan at smíða
álm þytvaldan;
þannig handleikr
harðan boga
illu vanr
umrenníngr".

191. Mælti þá annarr
afarmenna
annars til
úngra sveina:

192. "Vilda'k at gæfu
greppr sá
hreppti at því skapi,
er hann skotið fær,
ok upp dregit
ylfíngs boga!"
þannig mundu
mæla biðlar.

---

193. En er Odysseifr
ítrslúnginn
á boga hafði
hendr of festar,
ok hann allan
augum leikit:

194. Sem þá halr
hörpu leikandi,
ok saunghljómi
sætum kunnr,
um streingnagla
nýjan þenr
liðliga streing,
ok línspunnit
girni vindr
á gígju randir:

195. Svo dróg hógliga
hildínga jaðarr
harðan boga
bölþytvaldan;

196. Drap hann mundu
á dals sima
sinni enni hægri
ok hans freistaði;
en sveigr gall
svölu hljóði
sætrómuðu
við siklíngs fíngr.

197. Þá mundi grípa
geigrligr

ótti biðla,
ok þeir bliknuðu;
en þruma reið
frá ragna föðr,
hildíngi merki
háttboðandi.

198. Gladdist þá
inn goðum líki,
ítr, þolgóðr,
Odysseifr,
er hins kænvísa
Kronusar burr
jarteikn sendi
frá sölum himna.

199. Bösl greip hann skjóta,
er á borði lá
hans at hlið,
helzt til nökða —
en hinar lágu
í holum mæli,
þær er Akkverjar
allar skyldu
bráðla kanna
benjum sárar.

200. Bar hann hremsu
at boga rifi,
dróg hann streing
ok streingflaugar,
hægt sitjandi
í sæti kyrr,
sem hann áðr
of setið hafði.

201. Ok hæfíngu
fur hvítmylíngi
beina gjörði
glæs of valdr;
ok síðan lèt
sveigþjótandi
hremsu fljúga
af hörðum álmi.

ϱ. XXI, 412-431.

202. Eigi hann misti
þess hann miðaði at,
en fremstrar hitti
hyrnu auga;
ok þrös of þaut
þúngut eiri
allra gegnum
gnepja augu
dura til;
en Telemakkus
ítr hilmir
ávarpaði:

203. "Gjörir-a þèr
gestr í sal
smán, inn tigni
Telemakkus;
marks eigi missta'k,
nè munda'k leingi
dals til mæðu
drátt of þreyta".

204. "Óskert á ek enn
afl í höndum,
em'k-at ónýtr
nè orkulauss
halr enn,
þótt auman spotti
biðlar mik
ok brigzlum teygi".

205. "Mál er nú komit
kvöldverð at búa
Akkverjum
meðan enn er dagr,
ok síðan skemtunar
skötnum leita:
saungs, ok hörpu
sætra hljóma,
því slíkt er vegligrar
veizlu skrúð".

206. Mælti svo, ok benti
brúnum sjóli,

en Telemakkus,
hins tívum glíka
Odysseifs
ástkærr mögr,
gram sik girti,
gunnarhvössum.
207. Ok gildan geir
greipum spennti;
halr inn vaski
í hallar sölum;
ok at stóli stillis
staðar of nam
hyrbjörtu faldinn
Hildar skrúði.

---

# TUTTUGASTA OK ÖNNUR KVIÐA.

Færðist úr tötrum
fólka jaðarr,
ítrslúnginn
Odysseifr,
ok hátt of stökk
á hurðar þrep,
álmi haldandi
ok örvamæli.
2. Sá var fylldr
fenjum mælir;
ok örvum úr
ylfíngr hellti
fætr fyri,
flugarskjótum,
ok til biðla
beindi ræðu:
3. "Svo er leiki
lokit þessum
ágætum loks
at auðsölum.
Mun ek nú annat mèr
mark of kjósa,
þat's einginn hefir enn
örvum lostið,
ef at hin góða
gæfa stýrði,
ok mèr Appollon
auðnu lèði".
4. At orði mæltu
á Antínóus
hvössum stefndi
hremsu broddi.
5. Sat hinn ítri
Antínóus,
ok höndum sínum
hefja vildi
gullker tvíhaldat,
gullveigum fyllt,
ok af drekka,
öldrsinni.
6. Var-at hans
hels nè dauða
hugsun dimm
huga búin;
því hverr of mundi
at mannboði,
einn í sveit
öldrsinna,

hyggja sèr dauða
dapran búinn,
ok feigð fölva,
þótt framligr sè?
7. Þann laust ítr
Odysseifr
bogadrós
barka gegnum,
en örvar broddr
beittr knýði
mundar-miðjan
inn mjúka háls.
8. Sveigðist til hliðar
seggr hnígandi,
ok hans hraut
úr hendi skál,
en digr bogi
brauzt úr nösum,
manna dreyra,
málma þverris.
9. Hratt frá sèr borði
halr fallandi,
ok fæti spyrndi
at feigð snúinn;
slaungðust krásir
at salar gólfi,
ok brauð ok steik
blóði sveipðist.
10. Gjörðu þá gný
at grams sölum
biðlar háfan,
er þeir hal litu
falla fyri
flaugar broddi;
ok af sætum
seggir þutu,
hvervetna æddu
um herbergi,
hvervetna skygndust
um hásali,
veggjum at
vel of felldum.
11. Var-a gunnskýlir,
nè geirr stinnr,
er náð yrði,
nokkurstaðar;
brugðu brigzlum
buðlúngi þá
halir svarri
heiptar reiði:
12. "Gefast mun þèr illa,
gestr inn aumi!
fíra skotum
fjörvi ræna,
nè þú öðrum
optarr at
gánga munt
með görpum leiki".
13. "Búinn er þèr nú
bráðr dauði,
er þú fremstan
felldir dreingja,
eljunprúðan,
Íþöku lands;
brátt muntu gömmum
bráðir veita!"
14. Þeim mælti sèrhverr
sveina orðum,
er þeir hugðu
at óviljandi
hann hefði drepit
dreing örendan;
en þeir eigi vissu,
óvitrir menn,
at þeim öllum
aldrtila
bjó hann, ok bana
bölvi slúnginn.
15. Brúnölfi þá
beindi ræðu

ϱ. XXII, 13-34.

Odysseifr
við afarmenni:
16. "Hugðut þèr eigi,
hunzkir glópar!
at ek heim munda'k
híngat snúa
leiðir lángar
frá landi Tróju?
ok því þèr eigum
eyðit mínum".
17. "Ambáttum nauðgit
með ofríki,
ok til samræðis
sífelt ginnit;
en at sjálfum mèr
enn lifanda
brúðar minnar
beð of girnist".
18. "Eigi þèr óttist
alheims guði,
er reginvíðum
ráða himni;
nè þèr hugsit
at hrópsverk yðar
níða muni
niðjar seinni".
19. "Er yðr nú öllum
aldrtili
búinn, ok víss
bráðr dauði".
20. Svo mælti hann;
en seggi tók
hræðslu fölvi
ok hrollr dauða;
ok sèrhverr sá
of salar kynni,
ef hann feigð
flýja knætti.
21. Mælti þá einn
Evrýmakkus,
ok hann orðum
ávarpaði:
22. "Sè þat satt,
at sèrtú kominn,
Odysseifr
Íþöku vísi,
þá er þèr ræða
rètt of lögð:
at Akkverjar
ótal hafa
illskuverk framit,
at inni þínu
ok akrlöndum,
ofstopa full".
23. "En sá nú liggr
seggr fallinn,
er valdr var
verka illra;
alls því rèði
Antínóus
fram at fylgja
fólsku þeirri".
24. "Hugðist hann eigi
hjarta öllu
með brúði þinni
á beð stíga;
en ætlun aðra
illráðr fal;
lèt-at þó lánast
lofðúngr himna:"
25. "At hann sveita
siklíngr yrði
Íþakseyjar
allvel byggðrar;
ok nið þínum
níðíngsráðum
bana byggi
ok bráða feigð".
26. "Feingit hefir hann þat
fullu goldit,

er hann at foldu
fallinn liggr;
þínum muntu, þeingill,
þegnum hlífa;
en vèr síðar gjöld
greiða munum":
27. "þíngi á,
fyri þrotnar eigur,
drykkjur haldnar
ok hleifa snædda,
er í herbergjum
höldar þínum
öllu eyddu
at öldrveizlum".
28. "Munum vèr gjalda
graðúnga þèr
tuttugu hverr,
tírar meiðma,
gull fagrglóa,
ok fagran eir,
unz þitt heiptir
hjarta firrist;
því manngi mun,
mildíngr, lá,
þinn þótt hugr
heiptum svelli".
29. Ræsir hinn ráðsvinni
með reiðisvip
aptr mælti,
Odysseifr:
30. "þó at èr allan,
Evrýmakkus!
afa yðvarra
arf of gyldit,
er þèr nú eigit,
ok annat meira
á legðit ofan
ægis loga:"
31. "Munk-at ek þó
mínum stýra
höndum frá
heiptar leiki,
fyrr en ek hef'k
hefndir tekit
ofstopa yðvars
ok ofrgángs".
32. "Búit èr nú yðr
annattveggja:
við mik benkneifum
beita fránum,
eðr ok forðast
feigð ok dauða,
hverjum er hlotnast
heppni slík;
en þó mik uggir
at yðr muni
valkyrjur feigðar
of fölva slá".
33. Mælti hann svo;
en móðakarn
skjálgðust þeirra
fyri skölkvíngs leiki,
ok bifðust knè;
en at bragði tók
aptr til orða
Evrýmakkus:
34. "Eigi mun, vinir,
vogestr sá
hörðum höndum
frá heipt stýra,
er hann nú er vorðinn
valdr boga
ítrskafins,
ok örvamælis".
35. "Hleypa mun hann
hvítmylíngum
hart af þrepskildi
hála sköfnum,
unz hann öllum
aldrtila

búit hefir
ok bráðan dauða;
herðum nú huga
at hildar leiki!"

36. "Bregðum bröndum,
borðum verjum
flaugum fljótum,
at fjörráðum,
ok æðum allir samt
at afarmenni
í sveit saman
salgarðs reynar!"

37. "Þá mætti verða
at þrepskildi
hrykki frá
heljarmenni,
ok vèr í borg út
brjótast knættim,
ok upp vekja
óp í skyndi;
mætti þá verða
at maðr sá
í hinnsta sinni
hremsu sendi".

38. Mælti hann svo,
ok mæki brá
eirfránum, tveim
eggjum vörðum,
ok brugðnum gram
mót buðlúngi
æddi grenjandi
geigrliga.

39. En ótt at bragði
Odysseifr
af ýboga
öru sendi;
varð brjóst fjanda
bölvi lostið
geirvörtu hjá
af gögnflaugu.

40. Lostin var lifr
laungu skeyti;
fèll grindlogi
úr guma mundu,
ok með skutli
skelldist niðr
halr hríngsnúinn
heljar valdi.

41. Slaungðust krásir
at salar grundu,
ok tvíker fagrt
fèll at gólfi;
en skemil lamdi
skarar fjalli
bölsollinn gumi,
at bana snúinn.

42. Hristi hástól
heljar sinni,
ok feigðar afli
fótum barði,
en ógnbrostin
fyrir augu seig
draugheima görva
dökkleit blæja.

43. Æddi þá fram
Amfínómus,
ok bitrum brynþvara
brá á lopt;
hugðist freista
ef fylkir mundi
sókndjarfr hopa
saldyrum frá.

44. En Telemakkus
inn tíreggjaði
honum fyrri lèt
hjörvi skjannat,
lagði hræmæki
í herðar miðjar,
en gunnhvass
gúngnir knýði

gunnúngs brjóst,
ok í gegnum óð.
45. Fèll til jarðar,
foldvegr dundi,
ok gólf laust
garpr feigr
ægis kletti
ennibreiðum.
46. En Telemakkus
inn tíreggjaði
aptr stökk
frá eimnis runni,
ok geir lángskeptan
lèt í sári
eptir standa
á Amfínómus:
47. Því at hann uggði
at Akkverja sik
einhverr mundi
mæki særa,
er hann lángskept
leiða tæki
darr úr dreings
dreyrgri undu,
ok sik höggva
eðr hjörvi stínga.
48. Rann því skjótliga
rekkr sóknharðr
Telemakkus
at tiggja hlið;
ok þá niðr
nærri standandi
föður óðhröðum
orðum kvaddi:
49. "Mun ek nú, faðir,
fagrbláinn
ok geira tvo
gerst þèr sækja,
ok fjörni glæstum
fáðan eiri,

ϱ. XXII, 93-112.

er at gagnaugum
gjöri falla".
50. "Sjálfr mun ek klæðast
Sviðris hami,
vopn fá gríshirði
ok gæti nauta;
tjár ei at vera
vopnlausum hveim
hneitis hlyn
at Hildar leiki".
51. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
52. "Skunda skjótliga
sköpt at sækja;
meðan örvar má'k
af ý senda
munu-t þeir úr dyrum
mik fá hrakit,
þótt sèm allmörgum
óvinum mót".
53. Talaði vísi;
en Telemakkus
orðum hlýddi
ágæts föður;
gekk hann at klefa
þar's konúngs lágu
geirar geymdir,
ok gunnar skrúð.
54. Tók hann hlæbarða
hvelda fjóra,
ok dörr átta
dynstinn hann tók;
föxum faldna
fjóra hjálma,
meginstyrka,
málmi varða.
55. Flutti hann þat síðan
föður sínum,

ok skjótliga
til skjöldúngs kom;
en sjálfr fylkis burr
fyrstr klæddist
Herjans klæðum
hyrblikandi.
56. Klæddust ok báðir
konúngs þrælar
fögrum klæðum
Fjölnis hríðar;
stóðu þeir hjá öðlíngi
Odysseifi,
stilli margráðum
ok meginslægum.
57. En buðlúngr
meðan brodd ei þraut —
mækis mein
til mannvarnar —
hæfíngar gjörði
hörðum álmi,
ok einn í senn
ávallt nísti
biðla hrópgjarnra
at hásölum,
en þeir unnvörpum
óðum hnigu.
58. En er öðlíng
álmsvaldanda
broddar þrutu
benjum sárir:
reisti hann dal
at dyrstöfum
hagliga felldu
á herbergi,
frammi at forveggjum
fagrskínandi.
59. Fjórlagðan hóf
fylkir á herðar
fagrbláinn,
firinbreiðar,
en gullfáinn
gramr setti
sèr á höfut,
sólfagran grip.
60. Sá var faldinn
faxi grana —
grúfði bust
geigrliga;
tók hann geira tvo
gunnarstinna,
ógnblikandi,
eiri fáða.

---

61. Dyrr voru á salvegg
döglíngs nokkrar,
fetum háfar,
fagrbyggðum,
ok at hússgaungum
at háþrepskildi
hallar vegligrar
vegr of lá,
voru vel felldar
fyrir hurðir.
62. Bauð Odysseifr
ágætum hirði
grísa: at gæta
gaungustiga,
ok þar standa,
en þegnar eigi
annan veg þinnig
árna knáttu.
63. Mælti þá ítr
Agelás,
ok til allra biðla
orðum stillti:
64. "Mundi-t nokkurr
mega hölda
hádyrum at
hallar stíga,

ρ. XXII, 112-132.

ok frètt bera
borgarmönnum,
ok upp vekja
óp í skyndi?
mætti þá verða
at maðr sá
í hinnsta sinni
hremsu sendi".

65. Mælti þá aptr
Melanþíus,
ok annsvör greiddi,
geita hirðir:

66. "Er-a þat fært
Agelás,
ítrborinn
öðlíng Seifi!
því at dyrr fagrar
fylkis eru
hallar fremri
helzt til nærri".

67. "Er ok útgángr
at útigaungum
torsóktr næsta,
ok naðreynir
þótt einn veri,
verja knætti
mörgum þann,
ef móðr dugir".

68. "Mun ek nú yðr
málmi varin
vopn of sækja,
vel at týgjast,
úr innklefa,
því at uggir mik:
at Odysseifr
ok arfi hans
borit hafi þángat
brynjur ok skildi,
ok annarstaðar
eigi látið".

ρ. XXII, 132-150.

69. Þannig mælti
Melanþíus,
hirðir geita,
ok of hádyr stè
Odysseifs
at innklefa,
of dyr þraungar
á döglíngs sal.

70. Tólf úr klefa
tók hann skildi,
tólf úr húsi
tók hann geira,
tólf úr inni
tók hann hjálma,
meginfexta,
málmi varða.
Bar hann hervopn
í höll niðr,
ok biðlum fèkk
at bragði þegar.

71. Þá meginmóðgum
magnþrota varð
hnè ok hjarta
hölda stýri,
er hann hali leit
Hamdis skrúði
alblikanda
alla klæðast.

72. Ok falstyrka
fjörnis mána
hart skekjandi
hörðum mundum;
þótti þá vísa
vaxa gunnr
ok mál víkjast
at vandræðum.

73. Mælti þá vísi
vænghröðum orðum
skjótt við týspakan
Telemakkus:

74. "Víst mun ambátta
einhver vekja
ófrið illan
oss á móti
í herbergjum,
eðr halr illr
mein oss býr,
Melanþíus".

75. Talaði inn horski
Telemakkus,
ok honum aptr
annsvör greiddi:

76. "Sjálfr em'k valdr
verks þess, faðir,
ok annarr ekki
ýta nokkurr,
er ek á klofa
eptir skildi
hurð herbergis,
hagliga fellda".

77. "Hafa þeir haft
hölda nokkurn
aðgætinn næsta
í námunda,
en þú, Evmeus,
aptr loka
(ok fram gákk)
felldri hurðu".

78. "Eptir skaltu komast,
at skaltu gæta,
hvort ambátta
er þat nokkur,
eðr, sem mik uggir,
arfi Dólíuss
meinráðr mjök,
Melanþíus".

79. Þannig hjöluðu
hvorr við annan
mögr ok faðir
of mál þessi.

ϱ. XXII, 151-169.

80. En Melanþíus,
mörvarðr geita,
til herbergis
herst rèð gánga,
at hann vopn fögr
flytja knætti,
vígvörn biðla
at Viðris eli.

81. Sá svínhirðir
snöfrmannligan
geita hirði
gánga til klefa;
ok Odysseif
orðum kvaddi,
nærri standandi,
naðels boða:

82. "Lofsæll lofðúngr
Laertesson,
mærr Odysseifr,
hinn margráðugi!
sá er hinn sami
seggr meinráðr,
er oss uggði
at ógagn vynni,
geingr hann nú aptr
at geymslusal".

83. "Seg mèr nú, siklíngr,
satt ok glöggliga,
hvort ek slægfeinginn
segg skal vega,
ef ek vopndrýgri
verða mætta'k".

84. "Eðr hann skal þèr,
hildíngr, færa,
at þú grepp
gjalda látir
illsku margrar
ok yfirgángs,
er hann þèr vann
at vegsölum".

85. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
86. "Hèr mun ek verjast
vöskum móti
biðlum í sal
at sonar hlið,
en þótt allfast
okkr sæki
málmhríngs meiðar
móði þrútnir".
87. "En þit báðir
búa hirðar,
hendr og fætr
harðliga snúit
ok greipiliga
geita hirðis,
ok í geymslusal
grepp of knýit,
ok aptr ramla
reyrit hurðir".
88. "Binda skal hann
brugðnum streingi
síðan, ok slaungva
at súlu hárri,
ok at loptbitum
leiðan draga,
at hann lifandi
laungum kvölum
ýfist, ok lygðar
afráð gjaldi".
89. Svo kvað siklíngr,
en siklíngs þjónar
fylkis orðum
fúsir hlýddu;
geingu at gylfa
geymslusal,
sá-at þá seggr
er hann í sal dvaldi.
ϱ. XXII, 170-189.

90. Leitaði hann vopna,
laufa ok hjálma,
innst í salar
inni fögru,
en halir báðir
biðu at hurðu,
unz hann aptr knætti
úr klefa gánga.
91. Gekk þá yfir þrep
geita hirðir
Melanþíus,
ok í mundu bar
hinni annarri
hjálm skínanda,
en í annarri
afarbreiðan
skjöld, og fornan,
faldinn myglu.
92. Þann hafði áðr
í æsku borit
lofsæll Laertes,
lofðúngs faðir;
en nú lá baugr
böndum slitinn
fetla fúinna,
fyrri styrkum.
93. Hljópu á hrauma,
ok hendr á lögðu
helzt til harðar
halir báðir,
ok aptr drógu
at innklefa
grepp á hári
greypiliga.
94. Slaungðu þeir honum
at salar gólfi,
ok hjarta hans
helþúngi tók;
hendr og fætr
hans þeir bundu

böndum hörðum,
bölvi slúngnum.

95. Hörðum fjötrum
hann þeir reyrðu,
sárla snúðgum,
er siklíngr
Odysseifr
inn eljunprúði,
Laertess burr,
boðit hafði.

96. Bundu þeir hann
brugðnum streingi
síðan, ok slaungðu
at súlu hárri,
ok at loptbitum
leyru upp drógu.

97. Mælti þá við hal
meinligum orðum
gildr Evmeus,
gætir svína:

98. "Nú knáttu vaka
um nóttu dimma,
Melanþíus,
í mærri hvíld,
blundandi á mjúkum
beði drauma,
sem þèr at vísu
samboðinn er".

99. "Mun-at þèr leynast
Morginskæra,
gullinstóla,
er hún af græði stígr,
umrennanda
jórmungrundar,
í þat mund
er at mildíngs sal
geitr þú rekr
at gumna sumbli".

———

ϱ. XXII, 189-208.

100. Lètu þeir þar eptir
leiðan þræl,
hörðum, bölsværum,
hnepptan böndum;
ok sik gunnbjörtum
girtu málmi,
ok hurð aptr
hleyptu brálla.

101. Síðan á vit
siklíngs geingu
Odysseifs,
hins ítrráða,
ok hjá hildíngi
halir stóðu,
voru móðakarn
móði þrútin.

102. Fjórir á þröskuldi
þverrar málma
raunframla beittu
randa laukum;
en í höll innar
ýtar skóku
margir ok móðþrútnir
mistilteina.

103. Gekk þá til þeirra
geirveðrs dís
Aþena, dóttir
día föður;
var at vexti
vegleg gyðja
ok í málrómi
Mentori lík.

104. Gladdist ítr
Odysseifr,
er hann gyðju leit,
ok orð um mælti:

105. "Minnstu nú, Mentor,
mætrar ok fornrar
vináttu, ok mik
vandræðum firr;

vann ek þèr hvervetna
at vina hótum,
ok at aldri jafnir
erum báðir".
106. Þannig mælti hann,
er hann þóttist þenna
dís, vekjandi
darra hríðir;
en biðlar hófu
á annan veg
óp ok háreysti
herbergjum í.
107. Átaldi fyrstr
Agelás
dóttur Allföður,
arfi Damastors:
108. "Mun-at þik ginna,
Mentor ríki,
flærðar orðum
Odysseifr,
at þú biðlum
berìst móti,
ok hann verìr
vinnbjarts málmi".
109. "Hitt því hykk,
þat's hlíta mun,
at ráð vort
rekist framla,
því at þessum
þegnum unnum,
föður ok syni,
ok fjörvi ræntum:"
110. "Þá muntú svika
sjálfr gjalda,
er þú bjóst oss hèr
í herbergjum;
þinn mun falla
í fölvis leiki,
ok skölkvíng rjóða,
ę. XXII, 209-228.

skarar klettr".
111. "En er vèr höfum
yðr fjörvi
eirfránum rænt
eldi viðris:
þá munum vèr saman
siklíngs láta
eigur allar
við eigur þínar,
utan húss allar,
ok innan veggja".
112. "Eigi munum vèr
eptir leifa
sonu nè dætr
í sölum heima,
nè hússfreyju
í hásölum
hvíla láta
hallar þinnar".
113. Mælti hann svo,
en mímúngs Freyju
móðr svall
meginstríðr;
átaldi hún ítran
Odysseif
alda jaðar,
orðum reiðum:
114. "Er þèr nú horfinn,
Odysseifr,
hugr inn forni
ok hetjumóðr:"
115. "Er þú fur Helenu,
hvítarmat man,
þá er áar
ólu frægir,
darr of dúðir,
ok dísar gjóðum
at Trójuborg
bráðir veittir

í ár níu,
naðels boði,
ok margan felldir
mörnis reyni".

116. "Var með þínum,
þeingill, ráðum
unnin Brjáms borg
in breiðstrætaða;
vex þèr nú í augum,
vísi stórráðr,
biðlum at bana
ok beita móði,
er þú at húsi
heim ert kominn,
ok þinna, öðlíngr,
óðala til".

117. "Heyr mèr, vinr,
hjá mèr stattú,
ok Mentors hygg
at heilræðum:
attú alls vitir
hve Alkímus son
þèr ferr at gjalda
góðvinar hót,
er þik umkríngir
óvina grúi".

118. Sagði hún svo,
en at sinni dvaldi
algjörðan sigr
öðlíng veita;
freistaði hún enn afls
ok orku stillis,
ok hins horska
hilmis sonar.

119. En sjálf mundi
mímúngs Freyja
svipliga búast
svölu hami,
ok á sótsvart þak
salar rjáfrs
sveif snarliga,
ok seggjum hvarf.

---

120. Eggjuðu nú æfir
alla biðla:
Agelás hraustr,
arfi Damastors,
Evrynómus,
ok Amfímedon,
Demotólemus
darrum vanr,
ok Písander
Polýktors niðr,
ok enn Polýbus
hinn prúðlundaði.

121. Voru þessir
at vígfimi
öllum fremri
feimu biðlum,
þeirra er eptir
uppi stóðu,
ok fjörvi sínu
forða vildu;
en fyrir óðum
álmdrósa slögum
fallnir voru
fírar aðrir.

122. Mælti þá ítr
Agelás,
ok til allra
orðum stillti:
"Víst mun, vinir,
vogestr sá
heljarhöndum brátt
frá heiptum stýra".

123. "Farinn er Mentor,
er miklu skrumi
ok hraustum orðum
hábrókaðist,

ρ. XXII, 228-249.

en þeir einir
eptir standa
at fremstum dyrum
fylkis hallar".
124. "Skjóti nú eigi
allir í senn
dörrum lángskeptum
dreingir hraustir;
sex skulu fyrstir
fírar senda
geira gjallandi,
ef gerla veiti
happmikinn sigr
himna faðir":
125. "At Odysseifr,
ýta jaðarr,
sviðu lostinn
af sári fèlli;
þurfum vèr hina
þeygi hræðast,
ef sjálfr falla
siklíngr nær".
126. Innti hann svo,
en allir sendu
döglíngi darr,
sem dreingr hvatti;
en Aþena
eyddi skotum
öllum at ónýtu.
alvoldug dís.
127. Laust einn sterkbyggðrar
lofðúngs hallar
dyrustaf
darri laungu;
annarr festi
flein broddhvassan
í hallar hurð,
hála felldri;
þriði laust vegg
í víðum sal

ϱ. XXII, 250-269.

eskivigr,
eiri þúngr.
128. En er þeir höfðu
undan stýrt
guma spjótum
geigrligum:
orð of mælti
ítr hilmir,
Odysseifr
hinn eljunprúði:
129. "Nú munda'k, vinir,
vísla hvetja,
at vèr biðlum sendim
beitta fleina,
þeim er á ofan
illsku freka
nú vilja fíkjum oss
fjörvi ræna".
130. Innti þannig
Odysseifr,
en hræmæki
hraustir sendu
dreingir at bragði
í biðla hóp,
ok hæfíng settu
fyrir sjónum fram.
131. Drap þar Odysseifr
Demotólemus;
en Telemakkus
Evrýades;
en Evmeus
Elatus vó;
en Písandri,
Polýktors nið,
nýtr banaði
nauta hirðir.
132. Fèllu þar laukar
fetilstínga,
ok bjöð bitu
blóðgum tönnum;

en þeir biðla
er uppi stóðu
hopuðu innar
at hallar gólfi.
133. Stukku hinir
at höldum vegnum,
ok úr náum
námu geira.
134. Sendu biðlar
at bragði aptr
fleina flugglaða
fetbreiðs runnum,
en Aþena
eyddi mörgum,
dís alvoldug,
darrsendíngum.
135. Laust einn sterkbyggðrar
lofðúngs hallar
dyrustaf
darri laungu;
annarr festi
flein broddhvassan
í hallar hurð,
hála felldri;
þriði laust vegg
í víðum sal
eskivigr,
eiri þúngr.
136. En á úlnliði
Amfímedon
traustan særði
Telemakkus;
skinni spretti
skölkvíngs oddr,
var-at und djúp
döglíngs arfa.
137. En Ktesippus
öxl mjök nærri
Evmeus laust,
ofar skildi,
laungum geiri,
lèttu sári,
flaug fleinn yfir,
ok á foldu datt.
138. En Odysseifr
ítrslúnginn,
ok kníar mildíngs
hins margráðuga,
aptr dörr
dreingjum sendu;
glóðu gunnbroddar
glæstum eiri.
139. Þar vó Odysseifr
Evrýdamant,
borga brjótr,
beittu darri;
en Telemakkus
Amfímedón,
en prúðr Evmeus
Polýbus vó.
140. En Ktesippus
inn tírarlausa
hæfði harðfeingr
hirðir tarfa;
fló broddbróðir
fyrir brjóst guma,
en hirðir nauta
hróðugr kvað:
141. "Hrópyrtr halr
heyr mèr, Ktesippus
Polýþerses son,
seggr inn háðgjarni!
aldreigi þú skylir
orðum stórum
heimskliga verpa
af vörrum fram".
142. "Fela skaltú goðum
góðum ok máttkum
örlög manna öll
ok aldrlög;

því meginmáttkari
munu þèr vera
uppheims regin
æ verandi".
143. "Sendi ek þèr sendíng,
sendíngu á mót,
fyrir þjórsfót,
er þú fyrrum gafst
Odysseifi
hinum jólnum-glíka,
er hann beina bað
í borg sinni".
144. Mælti svo bragr
bjúghyrndra nauta;
en Odysseifr
arfa Damastors
(rann hann hermila
at hal feigum)
fleini lagði
laungum gegnum.
145. En Telemakkus
inn tíreggjaði
á lagði lenz
Leiokríti,
kundi Evenors,
í kvið miðjan,
ok geirr gegnum
guma stóð.
146. Fèll halr fljótt
til feigðar kjörinn,
á andlit flatt
fram á grúfu,
ok gólf laust
garpr veginn
ægis kletti
ennibreiðum.
147. Brá mannskæðum
mímúngs Freyja
yfir öld á lopt
ægis-skildi,

þar hún á háfu sat
hallar rjáfri;
en feigðar hræðslu
halir skulfu,
ok of hallar sal
hræddir þutu.
148. Eins ok flögrandi
á fögrum eingjum
nístir broddfluga
nauta hjarðir,
ok þeim æðis fær
ok ólmar gjörir,
vortíma á,
er verða taka
fyrir dellíngs dyrum
dagar lángir.
149. En hinir líktust
haukum klóbjúgum,
bjúgnefjuðum,
er af björgum þjóta,
hvatt þeir fljúga
foldu yfir,
ok smáfuglum
fjörspell vinna.
150. Flýja þá fuglar,
fjörvi at bjarga,
ský skatyrnis
skelfdir at grundum;
en hraðfleygir
haukar þjóta
(vörn nè verðr)
at veslum fram.
151. Slá hvassir haukar
hælislausa
fugla smá,
á flótta snúna;
falla þeir unnvörpum
á fold niðr,
en virðar um grundir
veiði fagna.

þ. XXII, 289-306.

152. Þannig geystust
sem grimmir haukar
frækinn Odysseifr
ok fèlagar hans,
en ráðfáir
riðluðust biðlar,
ok í öðlíngs höll
unnvörpum hnigu.

153. En feigðar óp
ferlig glumdu,
er of skarar fjöllum
sköfnúngr hvein,
ok hræs hauka
hallar gólf
rauðu víni
roðna náði.

154. Rann þá Leiódes
lofðúngs til,
ok hilmis knè
höndum spennti,
ok biðjandi
beindi ræðu
vænghröðum orðum
at virða stilli;

155. "Fell ek þèr at fótum,
fylkir Odysseifr,
bið ek þik miskunn
ok björg mèr veita!
hróp nè framða'k
í herbergjum
griðkonur við
verks nè orða".

156. "Aptrað hefi'k biðlum
öðrum í sal
illverkum frá
ok afargángi;
gáðu-t þeir óvitrir
orða minna,
nè fólsku svara
firrast náðu".

ϱ. XXII, 307-327.

157. "Hafa þeir nú allir
iðgjöld þegit
verka vondra:
voliga feigð;
en ek em'k hofgoði,
hvergi valdr
illra athafna
ok óguðligra; —
gefast mætti umbun
góðra verka".

158. Ræsir hinn ráðsvinni
með reiðisvip
aptr annsaði
Odysseifr:

159. "Hafir þú verit
í hóp þeirra
blótspármaðr,
sem þú brögnum segir,
þá muntú hafa
mörgu sinni
heitt þess beðit
í húsum mínum:"

160. "At mèr heimkoma
inndæl ok þráð
úr löndum fjarrum
leingi dveldist,
ok at mín ástkær
eiginkona
með þèr beð byggi
ok þèr börn fæddi".

161. "Því muntú eigi,
þrjótr meinvaldr,
dapra feigð
ok dauða flýja".

162. Svo mælti stillir,
ok styrkri mundu
sverði brá
í sal liggjanda,
þeim hafði laufa
þeytt af hendi

Agelás,
er hann aldrs misti.
163. Mæki hjó mildíngr
meginhraustr
mundar miðjan
hinn mjúka háls;
fèll hauss hjalandi
á hrafnvíns borð,
varð ryki reifaðr
reikar klettr.

---

164. Forðaðist Femíus,
fiðlu stýrir,
dapra feigð
ok dökkvan bana,
Terpías niðr,
en þann neyddan höfðu
seggir at skemta
með saung ok hörpu.
165. Stóð hann, ok hörpu
(hræddr var gumi)
sveipaði mundum
snjallrómaða;
stóð hann nær hurðu
hallar vísa,
ok um gættist
(glúpnaði hugr):
166. Hvort hann úr höllu
hverfa skyldi,
ok at blótstalla
hins æðsta Seifs,
aringoðs
hins alheilaga,
setjast hann skyldi,
ef þar sæti næði.
167. Þar's Laertes
ok lofðúngr
brennda lètu
bóga laungum;
eðr skyldi hann
skilfíngs knè
höndum spenna,
hann biðjandi.
168. En er halr þat
hug um leiddi,
fremst honum leizt
þat fángráð vera,
lofðúng lofsælan
Laertes son
bæn at kveðja,
ok knè um spenna.
169. Setti hann hvatla
hvelda gígju
skaptkers milli
ok hins silfrnaddaða
hástóls jöfurs
at hallar gólfi.
170. Gekk hann síðan
siklíngs á vit,
ok knè hilmis
höndum spennti,
ok biðjandi
beindi ræðu
vænghröðum orðum
at virða stilli:
171. "Fell ek þèr at fótum
fylkir Odysseifr,
bið ek þik miskunn
ok björg mèr veita!
gremi man þèr rísa
í geðknerri,
ef þú saungmann
sviptir fjörvi.".
172. "Hreim vek ek hörpu
hauðrs búum,
ok alsælum
uppheims goðum;
kenndi mèr einginn
íþrótt þessa,

heldr sætan saung
ek sjálfr nam'k".

173. "Vakit hefir vísi
vegsalar heima
hljóma hreimsæta
í hjarta mèr;
skylt er þèr, siklíngr,
sýngja'k kvæði
á gullnum streingjum,
sem guð þú verir".

174. "Lát-attu því, buðlúngr,
þèr í brjósti rísa
fýsn, at týna
fjörvi mínu;
veit þat Telemakkus,
þinn vaskr arfi,
ok hann getr
um þat borit:"

175. "At ek aldreigi
at inni þínu
viljugr ok fúss,
vísi, árnaða'k,
nè góðu geði
glauma vakta'k
vífgjörnum fyrir
at veizlu biðlum".

176. "Kom ek ok eigi
kostar þurfi,
eðr gjafa
góðra at njóta,
en þeir nauðigan
neyddu mik
híngat óðfúsir
með ofrefli".

177. Svo mælti hann
en siklíngs arfi
heyrði tölu hans,
Telemakkus,
ok föður kvaddi
fljótum orðum

ρ. XXII, 347-366.

nærri standandi
naðels boði:

178. "Skal-attu þenna
skata vega!
hefir-a til sakar
halr sá gjört;
munum vèr ok einnig
Medoni hlífa,
kallara kærum,
fyri köldum dauða".

179. "Var hann mèr ætíð
vel unnandi
er ek úngr var'k
á æsku skeiði; —
hafi ei fargat honum
Filetíus,
eðr hinn vígligi
vörðr runa,
eðr þú ei hafir
í heiptar æði
bana honum
búit þegar".

180. Svo mælti hann,
en hygginn gumi
mál hans heyrði
Medon þegar;
hafði hann dulizt
hástóli undir
nautshúð vafinn
nýfleginni,
ok fjörspilli
forðast vildi.

181. Skreið hann skjótliga
undan skrúðsæti,
ok öldúngs húð
af sèr vafði,
rann at týhraustum
Telemakkus,
ok biðjandi
beindi ræðu

vænghröðum orðum
at vísis arfa:
182. "Hèr em ek, vinr,
höndum þínum stýr,
ok bið föðr þinn,
buðlúng frægan,
at hann eigi
af ofa reiði
beittum geiri
mèr bana veiti".
183. "Reiðr er hann rekkum,
er í ranni hans
eigum eyddu
ok ofsa sýndu,
en þèr óvitrir
eigi vildu
virðíngu sýna,
þá er sama mundi".
184. Brosti hinn bragðvísi
buðlúngr þá,
ok orð um kvað,
Odysseifr:
185. "Huga herðu,
hræddr nè ver,
sá hefir þèr borgit
er bjarga knátti,
ok sitt á vald
sjálfr tekit,
attú skilja megir
ok skötnum inna
öðrum útífrá,
jarðbyggendum:"
186. "Hversu góð verk
eru helzt til betri
en illska ill
alda sonum.
Gángi nú af höllu
gumar báðir
ok setist, fjarri
sollnum val,
at dyrum frammi
í forgarði:"
187. "Þú ok ljóðspakr
laukr streingja,
meðan ek sjálfr
í sölum inni
starfa þat's næsta
nauðsyn krefr,
ok mèr þarfast
þykir vinna".
188. Mælti siklíngr,
en seggir báðir
úr höll hurfu,
hans at boði,
ok at stórum
stalla Seifs
settust síðan,
ok sjónum hvörfluðu
hvervetna, ok hugðu sèr
helju búna.

---

189. Hvarflaði augum
hildíngr fránum
sinn of sal,
ef hann sjá knætti
einhvern lifanda
laufa beiti,
er flúit hefði
feigðir bráðar.
190. Sá hann kolblá
í kösum liggja
unnvörpum hnigna
alla saman
biðla vopnbitna
blóði drifna,
lík fjörlostin
í láðryki.
191. Sem sævar fiskar,
er sjómenn draga,

í djúpriðnum
dráttar netum,
ok af gráum
græði komnir
feingsælir fleygja
at flæðar ósum,
þar's bylr á sandi
Blóðughadda.
192. Lángar haflaxa
at legi aptr,
óðfúsir æskja
of unnir at leika,
þar's þeir kasaðir
at kólgu jaðri
líflitlir liggja,
ok lagarvana,
en Helíus
heitum geislum
þeirra fjörvi
fremst um eyðir:
193. Svo lágu biðlar
blóðvörpum undnir,
vinnbjarti vegnir
í vísa sölum;
talaði þá
við Telemakkus
Odysseifr
ítrslúnginn:
194. "Kalla þú, tírargjarn
Telemakkus!
aldna fóstru
Evrýkleu,
at ek orð mæla'k
af munni fram,
þat's mèr helzt
í huga býr".
195. Mælti hann svo,
en mætr hlýddi
föður orðum
fylkis arfi;
knýði hann hurðu,
kallaði fóstru
Evrýkleu,
ok orð um mælti:
196. "Rístu upp, hin aldna
Evrýklea,
þú sem ambátta
allra gætir
vegligri at
vísa höllu;
gakktú fram, in gamla,
gjörir faðir bjóða,
við þik vill hann mæla,
virztu grami hlýða!"
197. Mælti svinnr svo
siklíngs arfi,
fló-at mál menja
frá markar eyrum,
upp lauk hún dyrum
ítrbyggðrar
vísa hallar,
var-at fóstra sein.
198. Gekk senn í sal
selja linnveingis
en Telemakkus
fyri tróðu gekk;
fann hún Odysseif
frægan í val
hjá náum, vegnum
vinnbjarts eiri.
199. Var buðlúngr
blóði stokkinn,
stokkinn gotna
storknum dreyra,
sem ljónvargr
á víðum akri,
er sima gráðigr
solgit hefir.
200. Geingr hann grenjandi
gini löðrandi,

ρ. XXII, 385-404.

fyllum freyðandi
frauðgum dreyra,
ok af brjóstum blóð
bogar niðr
á grundar vargi
geigrligum:
201. Svo var buðlúngr
blóði drifinn,
höndum á ok fótum,
hniginna guma.
202. En er ógrligan
unnelds freyja
leit val veginna
ok valdreyra:
æpti hátt af gleði
aldin kona,
er hún heilmikit
hervirki sá.
203. En Odysseifr
aptra gjörði,
ok hrund óðri
hamla náði;
lèt gramr gunnsnarpr
at gulls selju
vænghröðum þeima
vikit orðum:
204. "Geymdu, in gamla,
í geðknerri,
ok hljóð stilltu,
hugar kæti;
er grunnsæligt
fyri guðum heima
hlægjandi hlakka
yfir hnignum náum".
205. "þeirra hafa hegnt
himna guðir,
skaparáðendr,
skemdar verkum,
því at manngi
moldbyggenda
virðr af þeim var,
vondr nè góðr,
hverr er þá rèði
heim at sækja;
ok eiginn þeim
óverknaðr
háðugliga
til heljar kom".
206. „Seg mèr nú allar
salkonur, þær
er at höll minni
heima þjóna:
hverjar vettugis
mik virða gjöri,
ok hverjar af sök þeirri
sýknar eru".
207. Gegndi því Evrýklea,
geðblíð fóstra:
"Satt mun ek segja þèr,
sonr ástsæli:
fimm' eru tugir
at fólkvalds sal
ambátta, allra
ánauðigra".
208. "Kenndum vèr þeim öllum
kvenna vinnu:
ull at kemba,
allt at starfa
er at vísa sal
vinna þarf".
209. "En alls eru tólf
ambátta þeirra,
er frekju hafa
í frammi hafða;
virða-t þær mik,
nè, vísi, þína
brúði, prúðlynda
Penelopu".
210. "En arfi þinn er
alls nýliga

ρ. XXII, 404-426.

vaxinn orðinn
ok vörpuligr;
nè mæt móðir
megi leyfði
umráð nokkur
yfir ambáttum".
211. "Gánga mun ek nú,
gunnelds valdr,
greitt í loptsal
glæsiligan,
buðlúngs komu
brúði at tjá,
þá hefir svefni gædt
guða nokkurr".
212. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
213. "Ei skaltu vekja
af værðum brúði,
en send salkonur
í sal híngat,
önnúngsþýjar,
þær's áðr lètu
fólskuverk framin
frekjuliga".
214. Svo mælti hann,
en salar freyja
úr höll hárri
hilmis árnaði,
konur at kalla
at konúngs boði
ok eptir at reka,
at til öðlíngs geingi.
215. Kallaði tiggi
Telemakkus,
ok gæti nauta
ok geymi svína,
ok vænghröðum lèt
vikit orðum
öðlíngr til
ítra sveina:
216. "Berit út, sveinar,
blóðga nái,
ok bjóðit ánauðgum
önnúngsþýjum
síðan at hreinsa
salar stóla
fagrglæsta,
ok gljáa skutla,
vatni ok gljúpum
vöttum Njarðar".
217. "En er hvervitna
of höll fagra
allt er í lag
aptr komit:
skulut þèr ambáttir
allar leiða
út úr hagfelldum
hallar sölum".
218. "Ok forgarðs milli
hins fagrsmíðaða,
ok hvolfklefa
ins hátimbraða:
þar skulut þèr
þýjar vega
lángeggjuðum með
mistilteinum".
219. "Unz eingi þeirra
eptir lifir,
ok gleymt þær láta
Lofnar blíðu,
er þær fyr nutu
með fetbreiðs runnum,
ok í leynum
losta drýgðu".
220. Svo mælti hann;
en salkonur

allar komu
at einu hóti;
hrinu þær hástöfum
höfgum gráti,
ok tár heit
títt of hrundu.
221. Báru þær út
blóðga nái,
fránum vegna
vitnis eggjum;
at útsvölum
alla báru
traustsmíðuðum
tiggja hallar.
222. Rak ein aðra,
en ræsir stjórnaði,
yfir standandi
önnúngsþýjum;
eptir rak jöfurr,
en ánauðgar
nauðgar báru
nái úr sal.
223. Þógu þær at þat
þeingils höllu,
ok salar stóla
silfringlæsta;
þógu skutla
þýjar einnig
vatni, ok gljúpum
vöttum Njarðar.
224. En týhraustr
Telemakkus,
ok gætir nauta,
ok geymir svína,
með gólfsnotru
gerla ræstu
gólf gagnstyrkrar
gylfa hallar;
en verga valbleytu
af vegnum náum
ambáttir tóku
ok út báru.

---

225. En er höfðu
alla hreinsat
siklíngs sali
salar þýjar:
þá leiddu sveinar
þær at stundu
út úr þètt felldum
þeingils sölum.
226. Kvíuðu þeir konur
at klefa hveldum,
ok forgarðs milli
hins fagrsmíðaða,
þars eingi mátti
undan komast,
nè ferligan
flýja dauða.
227. Mælti þá mætr
mildíngs arfi
Telemakkus,
hinn týspaki:
228. "Munk-at ek þessum
þýjar börnum
skapligt velja
skapadægr:
þær's hrópyrðum
yfir höfut mèr
ok móður minnar
mærrar jósu,
en biðlum lostsælar
lèðu ástir".
229. Mælti hann svo
ok af marar gota
stafnblám herði
streing allmikinn
máttsúlu kríngum
meginstyrka,

ϱ. XXII, 446-466.

ok hvolfklefa
kríngum slaungði.
230. Hátt nam at knýja
harðsnúinn streing,
vatt hann þar loptkött
leiðum þýjum,
at eingi ambátta
allra knætti
fótum sporna
foldar jaðar.
231. Sem þá vænglángir
villiþrestir,
eðr dúfna sægr
dettr í snöru
í viðar runni,
ok vèlar leyndar,
þá er þær hyggjast
hreiðrs vitja —
en þær una hljóta
illri sæng:
232. Svo hèngu salkonur
á snúðgum streing;
hèngu hátt í röð
hausar knýðir;
voru hálsar snóta
snöru vafðir,
at þær dáligstan
dauða hlyti.
233. Sprikluðu fótum
sprund lítt at þat,
en þær fljótt gleymdu
fótalátum.
234. En Melanþíus,
mörvörð geita,
þeir um forstofu
í forgarð drógu,
ok skáru þar
skæðum eggjum
nasar og eyru
af níðíngi.

ϱ. XXII, 466-485.

235. Undan slitu,
út köstuðu,
at hundar hráar
hreðjar æti;
hjuggu hendr,
hjuggu fætr;
var-a dælligt
dreingjum í hug.
236. Þógu þeir síðan
sínar hendr
ok fætr fírar
framasælir,
ok til Odysseifs
inn of geingu.
Þá var hervirkis
heimtr endir.

---

237. Mælti síðan
mildíngr við
ágæta fóstru,
Evrýkleu:
238. "Sæktu brennistein,
snót in aldna,
sá er til margra er
meina bóta,
ok eld sæktu,
at ek sal megi
háfan hreinsa
hörvis megni".
239. "Kalla síðan prúða
Penelopu,
ok híngat bið
hana gánga
þekkiligum með
þjónustumeyjum;
kalla þú ok ambáttir
allar til stofu!"
240. Gegndi því Evrýklea
geðblíð fóstra:

"Rètt hefir þú, sonr
sæll, at mæla;
nú mun ek þèr kyrtil
kostligan sækja,
ok skikkju fagra,
skrúði glæsta".
241. "Attú standir-a,
stillir, í sal,
ok þreknar herðar
hyli tötrar;
hlýða þèr sízt,
hilmir mætr,
vondslig klæði,
konúngbornum".
242. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
"Eld skaltu fyrst,
fóstra, sækja,
ok mèr hann
í höll bera".
243. Mælti hann svo;
en margims tróða
var-at óhlýðin
orðum þeima;
bar hún eld inn
ok brennistein;
en Odysseifr
allan hreinsaði
hásal, ok framhús,
ok hallargarð,
björtum eldi
ok brennisteini.
244. En hrund hin aldna
of hallir gekk
Odysseifs ágætar,
öllum at segja
hrundum hervirki,
ok í höll kalla.

---

245. Geingu þá úr sölum
gullhlaðs nönnur,
báru blys í höndum
brimelds seljur;
föðmuðu þær hilmi,
ok heilan báðu
heim kominn aptr
til hallar sinnar.
246. Kysstu grátfegnar
gjálfreims dísir
höfuð ok herðar
á hildíngi;
tóku tryggðglaðar
í tiggja hendr;
sú var heilsan hilmi
heim komnum sæt.
247. Mótt nam móðakarn
mildíngs hitna;
geð nam sætri
gleði vikna;
hugr nam at hneigjast
at höfgum gráti,
því at allar þekkti
þeingill tróður.

ϱ. XXII, 486-501.

# TUTTUGASTA OK ÞRIÐJA KVIÐA.

HUGGLÖÐ gekk in aldna
at húslopti,
húsfreyju at herma
heimkomu vers;
magns nam at kosta
ok um megn sèr flýta,
kvað við húsfreyju,
stóð at höfðagafli:

2. "Upp rístu, ástvina,
at augum lítir,
þaztú of allan
aldr þráðir:
hèr er nú Odysseifr
heim um kominn,
seint hann um kom
til salakynna".

3. "Banat hefir hann biðlum
inum borginmóðgu,
þeir's honum búsifjar
þúngar veittu,
hröktu son hans,
en hríngum eyddu".

4. Gegndi því Penelopa
in geðspaka:
"Glapit hafa þik guðir,
in góða fóstra,
taka þeir mannvit
frá margvitríngum,
ok grunnhyggna
gæða vizku.
Vill ertu nú vits,
var-at fyrri svo".

5. "Hví þú mik ginnir
með glysmálum,
ok harmfeinginn
huga særir?

Hví mik af sætum
svefni vekr,
þeim er mèr blundandi
við bólstri hneigði?"

6. "Hefk-a sætan svo
sofnat aldreigi,
sízt minn Odysseifr
úr sölum veik,
þángat sem mák-a
nè munk-a nefna,
Trója bölborgar
bráðfeigr á vit".

7. "Snúðu braut hèðan
til sala þinna.
Elli þú nýtr,
at ek þik eigi kveð'k
hörðum orðstöfum
hèðan á brautu;
leiða munda'k annarri
at leika mik svo".

8. Gegndi því Evrýklea,
geðblíð fóstra:
"Satt ek þèr segi,
nè ek svik mæli:
hèr er nú Odysseifr
heim um kominn,
gestr sá er gumar
á gólfi smáðu".

9. "Vissi þat Telemakkus
hinn vegsvinni,
at inn var kominn
öðlíngr í sal;
en hann föður-ráðum
framliga leyndi,
at ofstopi hefndist
oflátúngum".

10. Fegin varð in fjölvitra
ok af fletjum spratt,
faðmaði fóstru,
felldi tár af brám,
ok hana óðhröðum
orðum frètti:

11. "Inn mèr hit sanna,
ástkær fóstra!
Er sönn saga þín?
er hann í sal kominn?
Hve einn um mátti
ofrmörgum
buðlúngr bana
biðlum í sal?"

12. Gegndi því Evrýklea,
geðblíð fóstra:
"Sák-a nè frák-a,
nema úr sal heyrða'k
víghljóð veginna,
voru hurðir milli:
unz mik sonr þinn
úr sal kallaði,
þinnig at fara
at föður-ráðum".

13. Þá sá ek vígrisinn Odysses,
stóð í val gotna,
en þeir endlángir
umhverfis lágu.
Gaman þætti þèr
um garð at litast,
þar's þeir unnvörpum
allir liggja".

14. "Bál hann kveikti,
brennisteini veifði,
hús at hreinsa,
áðr mik híngat sendi.
Far nú, fóstra,
fögnuðs at ljá
brjóstum ykkar beggja,
bölvi þrúngnum".

ρ. XXIII, 32-70.

15. "Leidd er nú til loks
sú hin lánga þrá:
hann heill heim kominn
til húsakynna,
fundit málvinu
ok mög ástgan,
ok hefnd heima
í húsi sínu
biðlum búit,
er honum böl unnu".

16. Gegndi því Penelopa
hin geðspaka:
"Far þú hægt, fóstra,
fagnattu svo brálla.
Víst mundi hann vel kominn
verða manni hveim,
ok þó mest mèr
ok mög okkrum;
en ek uggi hitt,
at þú ósatt mælir".

17. "Heldr hafa goð
á horskum biðlum
ofríkis hefnt
ok illra verka;
því at einskis þeir svífðust
við alda mögu,
vesla nè sæla,
er þeirra vitja geingi".

18. "Því hefir í hefnd
harðliga þeim
kaldr ofsi
á knè drepit.
En minn Odysses
æ mun vera
andar vanr
ok aptrkomu".

19. Gegndi því Evrýklea,
geðblíð fóstra:
"Hvat er þat máls,
er þèr um munn líðr!

þó ertu tortrygg,
er þú trúir eigi
aptrkomu vers,
er hann hjá arni sitr!"

20. "Skal ek þèr þá jarteiknir
skírar segja:
fann ek ör á fæti.
er ek honum fótlaug gerða'k,
þat's gómfleinn galtar
gjörði forðum.
Segja þèr ek vilda,
en segja nè mátta'k;
hann mèr af hyggjandi
hendi drap á munn.
Láttu lífi farit
(lofa'k þat) mínu,
ef ek svik mæli,
sárum dauða".

21. Gegndi því Penelopa
hin geðsvinna:
"Er-a dælt fírum,
þótt fjölvitrir sè,
ráðs at freista
ríkra guða.
Förum nú báðar
at finna mög,
biðla val sjá
ok bana þeirra".

---

22. Fór úr lopti,
lètti tali,
hugstillt kona,
ok í hug sèr rèð,
hvort skyldi ver sinn
verja örmum,
höfuð kyssa,
eðr á huldu frètta.

23. Steig inn at þat
yfir steinþröskuld,
ok siðlát
sæti valdi,
þar's skærr eldr
skein, við þili,
gagnvart Odysseif,
annars vegar.

24. Sat und súlu,
sá til jarðar,
öldúngmenni,
ok eptir beið,
ef hugsterk kona
mundi hjals of leita,
er hún ver sinn
augum liti.

25. Leingi hún sat,
leingi hún þagði,
fróðhuguð kona,
frá sèr numin:
sá til augum,
þóttist svip kenna,
torkenndu tötrar,
gjörðu tvílráða.

26. Hitt kvað þá Telemakkus
hörðu máli:
"Stöðug ertu, móðir,
in stríðlundaða!
Hví þú föður firrist
ok fjarri um sitr,
vekr eigi máls,
nè ver frèttir?"

27. "Fá munu fljóð,
er svo föstum huga
bægist við bónda,
þann er böli mæddr
eptir vetra fjöld
vitjar húss;
er sem bjarg þèr
und brjósti liggi".

28. Gegndi því Penelopa
hin geðsvinna:

"Hverfr er mèr, sonr,
hugr í brjósti:
mák-a ek mæla,
mák-a ek frètta,
mák-a ek öndverða
ásján líta".
29. "Sè hèr Odysseifr
í sal kominn,
munum bæði vit
betr um kennast;
því þat er til marks,
er munum gjörla,
vitum ein tvö,
nè verr annarr".
30. Þá nam at brosa,
sá er bágu vandist,
svinnr Odysses,
ok við son mælti:
31. "Lát móður í sal
mín of freista,
mun hún bráðla mik
betr kunna.
Slitnir 'ro tötrar,
em'k sauri stokkinn;
því er dælsk hin dýra
ok dylst við mik".
32. "Vits er nú vant,
er vegit höfum
fríðustu dreingi
fóstrjarðar,
fellt styrkva stoð
undan storðar búum.
Muntu ráð sjá
við máli okkru".
33. "Því at hverr maðr,
er hal um vegr
ok á sèr allfá
aðstoðarmenn,
berr á baki
ok björg um horfinn
verðr frændr flýja
ok fóstrjörðu".
34. Hitt kvað þá Telemakkus
inn hugum svinni:
"Sjá muntu, faðir,
sjálfr gjörla:
þik kveða rekka
ráðsnjallastan;
er-a maðr þèr
í mannviti jafn".
35. Ræddi þá Odysses,
við ráð um brugðinn:
"Segja mun ek þá,
þat's mèr sýnist vænst:
Fyrst skulut þvost
ok fötum skipta,
biðja salkonur
búníng taka".
36. "Þá skal saungmaðr,
signdr í hugum,
hörpu hljómfagri
hreifa dansleiki.
Mun þá grönnum,
ok þeim's um götu fara,
heyrast brúðglaumr
í bæ vera".
37. "Mun þá fregn eigi
fyrri berast
um bæ breiðan
af biðla drápi:
en vèr á akr minn
erum út komnir;
vèlum um þar,
sem oss vænst þykir".

---

38. Hlýddu þjóðmærum,
ok til þvottar geingu,
klæddust kyrtlum,
en konur bjuggust;

ϱ. XXIII, 105-143.

ok saungmaðr,
signdr í hugum,
hörpu hljómandi
í hönd sèr tók.
39. Hreifði sá höldum
hug í brjósti
til sætra saungva
ok snotra dansa.
Dundi salr allr,
er dansandi lèku
bragnar á gólfi
ok brúðir ljósar.
40. Þá kvað þat gumi,
stóð fyr grindum úti,
nè hann vel hvat vissi:
"Nú mun biðilsæl drottníng
gefin brúðguma.
Mátti-t aum kona
uppi halda
rausnar búi,
unz bóndi kæmi".

---

41. Þvoði ok smurði
smjörvi viðar
ítran Odysseif
Evrýnoma;
lèt hann ljósu
líni varit,
ok kyrtli vænum
kom of herðar.
42. Lèt þá Aþena
lýða þeingils
skarar fjall sveipat
skærum blóma;
hækka þótti hávaxinn
ok und hendi þrekna;
hrukku hrafnbláir
á herðum lokkar.
ϱ. XXIII, 143-176.

43. Er-a silfr sjáligra,
þótt um sveipi gulli
gumi gjörvanr
gersima smíð,
sá er af Hefasti
ok hagsýnni Aþenu
hagleik hverjan
hefir numit.
44. Þá var gæðíngr
goðum líkr,
er hann af laugu
lèt um stigit;
settist í sæti,
þar's setið hafði,
móts við mengóða
ok at máli hugði:
45. "Hafa þèr í brjóst
himins búar
helzt til hart
hjarta lagit.
Munu fá fljóð
svo föstum huga
bægjast við bónda,
þann er böli mæddr
eptir vetra fjöld
vitjar húss".
46. "Bú þú sæng, fóstra,
vil ek sofa gánga.
Sú er heldr hörð
í hugum snót".
47. Gegndi því Penelopa
hin geðsvinna:
"Er-a metnaðr mèr
nè misvirðíng,
nè innan brjósts
undrlæti.
Man ek þik gjörla,
síztú á mar ýttir
árlaungum elliða
Íþöku frá".

48. "Bú þú beð, fóstra,
er hann bjó til sjálfr
hagliga, utar
af hvílusal;
setið rúm þángat,
látið sæng í koma,
gærur ok feldi
ok glæstar voðir".

49. Mælti þat in mæra,
manns freistaði.
Öndu varp Odysses,
ok við alvitra mælti:
"Heldr særir huga
at heyra slíkt.
Hverr hefir beð minn
á braut fluttan?"

50. "Hugða'k eingum auðvelt,
þótt allhagr væri,
slíku at orka,
nema sjálfum guði.
Er-a þat færi
fíra mennskra,
hvílu haggjörva
hreifa úr stað".

51. "Mark er á hvílu,
hagsmíðaðri,
at ek einn gerða'k,
nè annarr nokkurr:
vóx viðsmjörsbjörk
væn í túni,
græn ok gjörvilig,
gild sem stoð".

52. "Hlóð ek hvílusal
hana í kríngum,
steinum studda'k
stórvel þakta'k,
fellda'k hagliga
hurðir í gætti".

53. "Þá brá ek brumknappi
af björk laufgaðri,
skar stofn frá rót,
skóf um vandla;
beinda við snúru,
bor um rennda;
þann vissa'k rúmfót
ramgjörvastan".

54. "Þaðan lèt ek hvílu
til loks um gjörva:
glæsta'k gulli
ok grá silfri,
fágaða'k fílsbeini,
ok fagrrauða
breidda'k yfir blæju,
þat var bolahúð".

55. "Mark ek þèr sagða'k,
mák-a ek vita,
ef rúm óraskat
á rót enn stendr,
eða hafi heldr
hölda nokkurr
brugðit rót bjarkar,
ok beð um fluttan".

56. Hjartstola varð hamfögr,
ok hendr fèllust,
er hún mörk kenndi,
þeim er maki lýsti.
Hljóp hún grátandi
um háls á ver,
kyssti höfuð,
kvaddi orðum:

57. "Vorkynntu mèr,
alls þik vitran kveða;
höfum bæði böl
beðit sárla:
var-a okkr unnt
yndis njóta
úngum saman
til ellidaga".

58. "Vorkynntu mèr,
þótt vyrði nokkut

ϱ. XXIII, 177-214.

fundir fáligir,
er ek þik fyrst um leit:
æ hefi'k óttazt,
at mik einhverr mundi
(mörg eru meinráð)
beita manvèlum".

59. "Mundi-t Helena
hal útlenzkum,
brúðr goðborin,
á beði gamna,
ef vitað hefði víf,
at sik vígi mundu
heim aptr heimta
halir Grikkja".

60. "Hefði eigi henni
í huga komit
firn þau at fremja,
er oss fyrst um skópu
grimmlig græti,
nema goða nokkurr
brúði því í brjóst
blásit hefði".

61. "Hneigðr er mèr hugr,
er þú hvílu lýstir
okkarri, er eingi
augum leiddi,
utan ein vit
ok Aktoris,
sængrhússmær,
er mèr at skilnaði gaf
faðir, er ek fór
úr föðurhúsum".

62. Viknaði öðlíngr,
vöknaði um augu,
ok konu margdýra
mundum vafði.

63. Glaðr lítr land,
þess er lagar drottinn
skelldi sundr skip,
skipbrotsmaðr:
sveimar at sandi
sjádögg sleginn,
ok fjörvi feginn
í fjöru stendr.

64. Svo varð fegin
sorgmóð kona,
er hún ver sínum
í augu leit;
varði háls hans
hvítum örmum,
hvítum örmum
hèlt æ leingi.

65. Mundi þar mundfögr
morgungyðja
hjón grátfegin
gripit hafa,
ef eigi Aþena
hin augumglæja
hyggiligt ráð
hefði fundit.

66. Hèlt hún lángri nótt
und loptjaðri,
en í mar djúpum
morgungyðju:
mátti-t ljóssfákum
Lýsíng og Glóa,
gyðja rósfíngruð
fyri reið beita.

---

67. Ræddi við konu
ráðspakr Odysses:
"Er-at á enda enn
allar þrautir;
ein er eptir
öllum meiri,
hörð ok hættlig,
hlýt ek þá vinna".

68. "Mèr því spáði,
er til myrkheima komum,

vofa tryggorðs
Tíresías:
þá er ek forðum
at frètta gekk,
hve oss fèlögum
mundi heimför snúna".
69. "Gaungum til hvílu,
hvíld at fánga,
sætan svefn
í sæng mjúkri".
70. Gegndi því Penelopa
hin geðsvinna:
"Sæng er þèr búin,
er þik sofa lystir;
hafa þèr nú guðir
heimkomu unnt,
ok at húsi leidt
hátimbruðu".
71. "En seg mèr þraut þá,
er þú um ræddir
ok þèr í brjóst gaf
guða nokkurr;
betra er, þegar
af bragði vita,
þat er sjálf mun ek
síðar frètta".
72. Ræddi þá Odysseifr,
við ráð um brugðinn:
"Hví þú mik hvetr
at herma slíkt?
Upp skal ek inna,
ok eingu leyna;
mun-a þó gleðja þik,
þat er grætir sjálfan".
73. "Mik bað hann gánga
um gumna borgir,
ok ár allþarfa
um öxl mèr reiða,
unz ek seggi hitta,
þá er sjó nè kenna,
nè bergja mat
blöndnum salti,
nè hlýrroðin
hafskip þekkja,
nè borðvængi
báru gamma".
74. "Sagði hann mark mèr,
munk-a því leyna:
ef ek gaungumann
á götu hitta'k,
þann's mik varpskúflu
vega kvæði,
skylda'k skipsáru
skjóta í jörð";
75. "Ok fórnir færa
fylki hafstrauma,
sauð ok tarf
ok súneytan gölt;
heim svo hverfa,
ok heilagt blót
öllum efna vel
uppheims goðum".
76. "At mun þá koma
ellisöddum mèr
hægr dauði,
nè mèr haf skal granda;
en lönd ok lýðir
um liðnar moldir
fagna fullsælu;
fara mun slíkt eptir".
77. Gegndi því Penelopa
hin geðsvinna:
"Bætt er þá böl,
er þú bart til leingi,
ef þèr guðir
at aldrs lokum
láta elli veitt
ángrlausa".

ϱ. XXIII, 251-288.

78. Evrýnoma
ok aldin fóstra
bjuggu beð upp
við blysa log,
blæjur breiddu,
báðar sèr flýttu;
gekk hin aldna þá
aptr til húss.

79. En Evrýnoma
ástbundin hjón
leiddi til sængr,
ljós brann í hendi;
gekk braut at þat,
en þau bæði komu
fegin á fornan
fagnaðar-beð.

80. Hætti Telemakkus,
hætti nautvörðr
ok gætir galta
gleðidansi;
hættu salkonur,
ok til hvílu geingu
svefnhöfugar
í salar skugga.

81. Glöddu sik góð tvö
gamni munaðar,
glöddu sik góð tvö
gamanræðum:
"Mart beið ek böl
af biðla skara,
þeir mèr búsifjar
þúngar veittu".

82. "Raun var mèr rík,
í ranni líta
ýta ósvinna,
er aldreigi skylda'k:
brytjuðu búfè,
þat er bezt áttum,
ok af tunnum renndu
tærar veigar".

ϱ. XXIII, 289-325.

83. Minntist á raunir
ráðsnotr Odysseifr,
þær's beðit hafði
ok beitt hit sama.
Þótti geðsvinnri
gaman at heyra,
syfjaði-t sætu
und sögu slíkri.

84. "Kosti þraungðum Kíkona,
komumst þaðan,
ok at landi liðum
Lótofaga.
Illr var Kyklópr,
át hann menn vora,
en ek harðar þess
hefndir um galt".

85. "Vorum með Eólus
vel um haldnir,
ok hann farar oss
fullvel greiddi.
Varð-a mèr þó heimkomu
hveldum auðit,
því mik hættlig veðr
í haf keyrðu".

86. "Liðum leið þaðan
til Lestrýgona,
meiddu þeir skip mín
ok menn um deyddu.
Komum þaðan
á Kirku fund,
sú var slæg gyðja
ok slúngin brögðum".

87. "Meirr fór ek þaðan
myrkheima til,
traust at sækja
Tíresías;
þar sá ek móður,
er mik um ól,
ok aldavini
alla mína".

88. “Nam ek eyrum
unaðfullan
saung Sírena
sætrómaðra.
Sveif ek hjá Sogdraungum
ok svipligri Karýbdis
ok Skyllu skaðvænni,
er skipum grandar”.

89. “Slátruðu seggir
nautum Sólargoðs,
skall þá þrumuskot
á skipum mínum;
lètust mínir þar
liðar gjörvallir,
einn komst ek undan
örlögdómi”.

90. “Hèlt mèr Kalypsó
helzt til leingi,
ágæt gyðja,
í Ógygíu;
fæddi hún mik
í fögrum helli,
ok mik at ver sèr
vildi kjósa”.

91. “Bauð mèr lifa
lífi goða
ellivönum
alla daga;
mátti þó eigi
hin munarfúsa
telja hughvarf
heimþreyjanda”.

92. “Fjöld ek reynda,
áðr ek til Feaka kom;
þeir mik göfguðu,
sem guða nokkurn:
gæddu gulli,
gáfu klæði,
ok far feingu
til föðurlands”.

93. Mælti hann orð þat
allra síðast,
er sætr seig
svefn á augu;
sá lætr limu
lèmagna verða,
ok hugar
hverfir sorgum.

94. Lèt þá Aþena,
er henni lofðúngr þótti
fullsofit hafa
í faðmi brúðar,
dagsbrúnar dís
af djúpi stíga,
sú er ljós færir
lýða kindum.

95. Reis þá upp ræsir
úr rekkju mjúkri,
ok kæra konu
kvaddi orðum:

96. “Mart höfum bæði
mein um beðit:
þreyðir þú harmsfull
heimför mína,
en mèr heimfúsum
hnekktu guðir
ættjörðu frá
æ til leingi.
Nú höfum loksins
leingi þráðan
beð at byggja
bæði feingit”.

97. “Mörg hef’ ek mæti
með at fara;
þau skal í húsi
hirða vel.
Farit er fè mitt,
fátt er í grindum,
hafa því bölvísir
biðlar lógat”.

ρ. XXIII, 326-356.

98. "Munu missi þann
mèr um bæta
seggir suman,
sumu mun ek ræna;
unz ek at lokum
öðlazt hefi
fullar grindr fjár".
99. "Út vil ek nú
allskjótt fara:
á akr út
eikum vaxinn,
föður góðan
ef finna mætta'k,
sá er mín vegna
sáran harmar".
100. "Ráð ræð ek þèr,
þóttú ráðug sèrt:
far þú í loptsal
með fylgiþernum;
skaltú á eingan
augum vísa,
nè mann in heldr
at máli frètta:
því at fregn mun fara
af falli biðla,
er í sal svæfðum,
þá er sól upp rís".
101. Herklæddist hilmir,
ok heimti á fætr
son ok svínhirði
ok salvörð nauta:
bað þá búast
böðvar skrúði,
en halir því
hlýddu brálla.
102. Opnuðu hurðir,
út um geingu
lofðar brynjaðir,
ljóst var um foldu.
Undan gekk Odysses,
en Aþena leiddi
hali úr bæ
hulda myrkri.

---

# TUTTUGASTA OK FJÓRÐA KVIÐA.

KALLAÐI Hermes,
Kyllens drottinn,
vofur dauðra fram
drósar biðla,
hafði í höndum
harðla fagran
gullinn sprota,
guða senditívi.
2. Með sprota þeim
mennskra hölda
heillar himneskr
hvern er hann vill:
sjónir of svæfir
sigrvaldenda,
ok af svefni vekr
sofanda hvern.
3. Þeim lèt hann vendi
vofur laðaðar,
en þær suðandi
svifu á eptir.

ω. XXIII, 357-372.

4. Sem leðrblökur
er í launhellrum
umlandi flögra
afar víðum,
er ein úr dragröð
dottið hefir,
en hinar halda
hóp sinn saman:
5. Svo liðu vofur
suðandi fram,
en þeim Hermes
helveg beindi,
hagsælda guð,
of hlömmuðs vegu,
dökkvar, dimmar
drúnga leiðir.
6. Liðu þeir fram hjá
lagar álum,
þeir's um renna
jórmungrundu;
liðu hjá Levkas
ljósum hamri;
svifu hjá hliðum
sólar vísa,
ok of drauma
dökkvar stöðvar.
7. Svifu snarliga
seggja vofur
á gullrótar
grösugt eingi,
þar's skyni skroppnir
skuggar búa,
svipir dáðlausir
dauðra manna.
8. Hittu þeir vofu
hetju gildrar,
prúðlynds Akkils
Peleifssonar,
ok Patróklus
hins prúðlundaða,

ρ. XXIV, 6-27.

ok Antílokkuss
hins ítrsnjalla.
9. Hittu þeir enn
Ajants vofu,
þess er at vænleik var
ok vaxtar prýði
allra Danáa
ágætastr,
þegar prúðan leið
Peleifs arfa.
10. Fylgðu þessir laungum
frægum Akkilles.
At kom ok vofa
vilgi glýjuð
Agamemnons
Atreifssonar.
11. Svifu þar
at siklíngi
vofur vera
vopnbitinna,
þeirra, er bana
of beðit höfðu
í Egists sölum
með jöfri sjálfum.
12. Nam þá mæla
at máli fyrri
prúðlynds vofa
Peleifs niðja:
13. "Hugðum vèr allir,
Atreifs niðr,
at þik Þrumuvaldr
þegit hefði,
helztan kappa
hauðrborinna,
í vinsemd dýrðlega
um daga alla".
14. "Málms vartu meiða
meginvaldr,
styrkra ok stöðgra,
at stöðvum Trója,

þar's vèr Akkverjar
þrautir áttum
ok bana biðum
fyri beittu darri".
15. "En þó hin skæða
örlaga norn
hefir bana þèr
búit skjótan,
þann er eingi
alda sona
flúit fær,
á foldu alinn".
16. "Sæll mundir þú,
siklíngr, verit,
ef þú, alglæstr
aldar lofi,
er þik æ of lèk
á landi Tróju,
fyri bröndum hefðir þar
bana þegit".
17. "Mundu þá allir
Akkverja lýðir,
öðlíngr, haug at þèr
orpit hafa,
ok þú ágætan
arfa þínum
aflat hefðir
orðstír síðar".
18. "En nú hafa Nornir
þá nauð þèr skapat,
dauða at deyja
daprligum".
19. Aptr honum
annsvör greiddi
vofa Agamemnons,
Atreifs niðja:
20. "Sæll, vartu prúðr
Peleifs niðr,
gildr Akkilleifr
guðum líkr!

þú, sem allfjarri
Argosláði
bana beiðst
at Brjáms vígi".
21. "Hnigu þik í kríngum,
halr stórráðr,
Akkverja ok Tróverja
arfar hraustir,
er þik andaðan
eignast vildu,
ok yfir ná þínum
naði skóku".
22. "Lágt þú, ryksveipi
reifaðr görva,
magn meginstærðar
var at moldu snúit,
ok skeiðfrárra
skinfaxa björtum
gleymt þú lèzt
gullintaumum".
23. "þreyttum vèr þrymu
þrotlángan dag,
ok hyrblikandi
hjörva skókum;
nè vèr lètt hefðim
lögðis rimmu
ef el Allföður,
ofsa magnat,
hefði ei öldum
orrustu meinat".
24. "Fluttum þik frá Hildi
at hrannar gotum,
lètum svo lík þitt
lagit á beð,
ok líkam ljósan
lauga gjörðum
vatni vörmu
ok viðar feiti".
25. "Hrundu tár heit
af hvörmum þjóða,

ϱ. XXIV, 26-47.

mörg ok meinsollin,
mildíngr, of þik,
ok fagrlokkaðir
fölvis reynar
rökuðu hár
af reikar fjöllum".

26. "Þín steig móðir
marsölum frá,
með ódauðligum
ægis freyjum,
er hún lát þitt frág;
en at lagar djúpum
harma óp yggligt
hvervetna reis".

27. "Skelfdust Akkverjar
fyrir unnar hljómi,
ok á hlýrbjúga
hrannar fáka
mundu allir
sem óðast runnit,
hefði ei halr þeim
hamlat nokkurr".

28. "Sá var Nestor,
nýtr gumi,
í fornum fróðr
fíra spjöllum;
hans hafði ráðsnilli
höldum dugat;
heill í hugum
hann orð um kvað:"

29. ""Stöðvist, Argverjar!
ok í stað dvelit,
nè á brautu flýit,
fírar Akkverskir!
því at móðir stígr
marsölum frá
með ódauðligum
ægis freyjum,
vill hún fundi ná
fallins sonar"".

ϱ. XXIV, 46-65.

30. "Mælti hann svo,
en móðhugaðir
Akkverjar stilltu
ótta þegar".

31. "Stóðu þik í kríngum,
stillir hinn vegsæli,
Ægis dætr,
aldri vorpins,
grètu sárliga
gýmis freyjur
er klæðum himneskum
þær huldu ná".

32. "Svifu mærar
mærðar gyðjur
námsælar níu
at ná þínum,
ok samstillta
saungva hófu,
harma hljómi
hjartnæmligum."

33. "Nè þú mundir,
mildíngr, hafa
þar nokkurn litið
þureygan hal;
grètu þik garpar
er at gunni hlógu,
saungdís snjallrómuð
þeim sorg um jók".

34. "Syrgðum vèr þik
um sólar hrínga
sjö ok tíu,
siklíngr frægr:
ódauðligir jafnt
uppheims búar,
ok moldbyggendr
und miðgarði".

35. "En er hinn átjándi
álfröðull skein,
lík þitt vèr lètum
at loga snúit".

36. "Hjuggum vèr mörsæla
marga sauði,
ok bjúghyrnd naut,
bál þitt kríngum;
var þá lík þitt logum
leikit, buðlúngr,
skæru, himnesku
skrúði sveipit,
ilmandi smyrslum
hinum ágætustu
ok ánganda hunángi
ítrsætu".

37. "En kappar Akkverja,
kapps um fylldir,
fákum hleyptu,
ok á fæti runnu;
þreyttu vaskir verar
vígfimi-leik
buðlúngs kríngum
bjartan loga,
en gnýr gjörðist
at geirdunum".

38. "En er hyrfáni
Hefestusar
náð hafði þínum
ná at eyða,
mundum vèr snemma
at morguns ári
bein þín, Akkilleifr,
bliknuð taka".

39. "Lètum vèr bein þín,
buðlúngr, at þat
í vín óblandit,
ok viðar feiti;
þín gaf móðir
margblikandi
byðnu gullna,
guða smíði".

40. "Kvað hún þann vera
kostligstan grip
gjöf aldýra
frá Díonýsus,
verk vandaðast
vinduðs dúni
af ítrum drottni
aldrnara".

41. "Þar liggja bein þín,
þeingill, fölnut,
ítr Akkilleifr
inn ógnhvati!
blandin vopnvegins
vinar beinum,
Patróklus, hins mæra
Meníts niðja".

42. "En annarstaðar
Antílokkuss
bleik eru bein
at bjaðar stöðvum,
er þú öllum ofarr
ýtum virðir,
eptir Patróklus
prúðan liðinn".

43. "Urpum vèr síðan
at salgarðs reynum,
herkænna Akkverja
helgr lýðr,
haug vegligan,
háligt smíði;
ok yðr settum
sæmdar merki".

44. "Þar sem at hníga
at höfgum straumi
hálsar hallir
hauðrs randar,
ok hrannir svífa
at Hellusundi".

45. "Sá skal í fjarska
fyrðum sýnast,
þeim er af hafi
at hauðri stefna:

ϱ. XXIV, 66-84.

þeim's alda nú
uppi standa,
ok fírum seinni,
er foldu byggja".
46. "En móðir þín,
mætust gyðja
sigrgjafa beiddi
hin sælu goð;
lèt hún þær at Akkverja
lagðar fundi,
verðlaun vöskustum
virða at leiki".
47. "Vartu, vígvaldr,
at vera margra
erfi liðinna,
ok útför gjörðri,
vartu opt at vísa
vegins haugi,
þar's menn úngir
möttla gyrðu,
ok leiks launa
lángaði til".
48. "Mundir þú þó hafa,
mildíngr, of allt
undrazt sólfagrar
sigrgjafir,
þær er fótfögr
flutti gyðja
Þetis hin himneska
at þínu erfi,
því at goðum vartu,
gramr, þekkastr".
49. "Hefir-a þitt, hilmir,
heiti of farit,
þóttú at foldu
fèllir dáinn:
uppi mun þinn
meðan öld lifir
ítr hróðr,
Akkilleifr!"

ϱ. XXIV, 84-106.

50. "En hvert gagn er mèr
aptr á móti,
at ek til þrautar
þrymu háði?
bjó mèr Seifr bitran
bana heima
af Egists völdum
ok míns ins illa vífs".
51. Þannig áttu hjal
hvor við aðra
vofur, dimmum
draugheimi í.
52. Gekk þá í nánd þeim
inn glöggsæi
Argusbani,
jólna senditívi;
fylgðu honum vofur
vopnbitinna,
er Odysseifr
aldri svipti.
53. Forviða urðu
þeir er fyrir voru,
ok at fram geingu
eptir at skygnast;
þá Agamemnons
Atreifs niðja
vofa þekkti
vofu ins snjalla
Amfímedons,
arfa Melaneifs.
54. Gjörzt hafði sá áðr
gestvinr hans,
ok á Íþöku
átti heima;
mæla þá mundi
at máli fyrri
ítrs vofa
Atreifs niðja:
55. "Hvat er þat undra
Amfímedon,

er þèr í dökkva storð
stigit niðr,
mannval mætasta,
menn jafnaldra? —
ok manngi mundi
mannvali betra
úr borg hverri
boðit geta".

56. "Æsti Posídon
jarðar skelfir
argan áblástr
óðra vinda,
ok þèr, skilfíngr,
á skipi þínu
fjörtál færði
í feikna veðri?"

57. "Eða drap þik
dólga meingi
landjörðu á,
er þú lèzt of ræntar
hjarðir sjáligar
sauða ok uxa,
eða barðist til borgar
ok brúðra ljósra?"

58. "Seg mèr framla
er ek frètta nái,
em'k góðr ek
gestvinr þinn;
eðr mant-attu,
er munda'k forðum
þinnig heim sækja
híbýli þín?"

59. "Þá er ek Odysseif
eggja munda'k:
með inum mæra
Menelási
at á straumgotum
sterkþóptuðum
hann með oss hèldi
at hörgum Tróju".

ϱ. XXIV, 106-129.

60. "Sigldum vèr of sæ —
súðmarir óðu —
sveif mánaðr heill
at sjóferð þeirri,
er vèr loks knáttum
kræfan laða
borgabrjót
á byrðíng stíga".

61. Svaraði aptr
svo at bragði
andaðs vofa
Amfímedons:
"Atreifs arfi,
ýta frægstr,
aldar oddviti
Agamemnon!"

62. "Man ek gjörla
þat's minnist þú,
siklíngr seifborinn,
satt man ek þèr inna,
ok um atvik þau,
er aldrtila
illan vèr hlutum,
atburð telja".

63. "Brúðar vèr báðum
buðlúngs, er leingi
hafði á braut verit
frá borg sinni,
en hún hvorki
hvimleiðum gjörði
ráðahag níta
nè raun á vinna,
en oss bana bjó
ok bráða feigð".

64. "Margar hefir víf
vèlar fundit
sèr í sefa;
sú er einna nokkur:
hafði hún vef uppi
í vegsölum

ummáls mikinn
ok mjök smágjörvan".
65. "Var þar at ok vaf
vísis rúna,
ok þau ávallt oss
annsvör veitti:"
66. ""Sveinar böðvitrir,
biðlar mínir!
með því ítrborinn
er Odysseifr
horfinn til heljar,
þá hvatið eigi
brúðkaupi mínu,
en bíðit heldr:""
67. ""Unz ek voð fæ
vafna til loks
(at ei verði mèr
veftr at eingu),
náklæði lofsæls
Laertesar,
þegar hann skapanorn
skæð á síðan
flatan leggr
við foldar þröm;""
68. ""At mèr eingi
hèr innanlands
akknesk kona
því kasti í nasir:
at fjölskrúðigr svo
fólknárúngr
umbúðalauss
með öllu liggi"".
69. "Svo mælti snotr
siklíngs brúðr,
en vèr tryggir trúðum
tölum hennar.
Vaf hún svo enn mikla
vef um daga,
en á nóttum
við nætrblys

ϱ. XXIV, 129-151.

aptr upp rakti
þat er ofit hafði".
70. "Þannig vèl duldist
þrjú misseri,
at Akkverjar einskis
urðu vísir.
Fram liðu stundir,
kom it fjórða ár:
innti þá ein kona
allt it sanna;
sú vissi vel
vèlar allar,
allar vèlar
öðlíngs rúnu".
71. "Ok þá hittum vèr
hilmis brúði,
er hún vef fagran
var at rekja.
Varð hún svo nauðig
þótt vildi eigi,
loks at voðvirkja
vef byrjaðan".
72. "En er hún vef
of vofit hafði,
ofan tekit
ok allan þvegit:
glóði hann sem máni
yfir meiðum dimmum,
eðr fagrahvels
firingeislar".
73. "Þá nam Odysseif
ill vættr nokkur
af löndum utan
leiða þinnig,
þar er á ökrum
yzt of byggði
svína hirðir
salar kynni".
74. "Kom þar ok arfi
hinn ástkærasti

Odysseifs
hins jólnumglíka,
dökkvum stýrandi
drafnar blakki,
prúðr, frá sendinni
Pýlusborg".

75. "Bjuggu þeir biðlum
bráðan dauða,
ok um gættust
gunnvoða slög:
síðan geingu þeir
til siklíngs borgar,
fór Odysseifr
ýta síztr".

76. "Þeirra fyrstr fór
fylkis arfi,
en siklíngi fylgði
svína hirðir,
var illum jöfurr
orpinn tötrum,
sem gaungugaurr
sá er gjafa beiðist,
gamall ok geinginn
fyri grám hærum".

77. "Knáttum nè vèr
kníar allir
konúng slíkan
kennsl á bera,
er hann görva svo
gekk at sjónum,
nè halir ellri
þeir's í höll sátu".

78. "Mundum vèr mæða
mildíng orðum
illum ok úfnum,
ok at köstuðum,
en at sínum sal
siklíngr þoldi
hróp ok háðyrði
hógværliga".

ρ. XXIV, 151-176.

79. "En er ægisskjalda
upp nam þrútna
móðr í siklíngi,
svella móðakarn:
tók hann tigin vopn,
ok með Telemakkus
hirði í klefa,
ok hleypti lokum".

80. "Bauð síðan brúði
buðlúngr slægr
fyrir biðla
boga at leggja,
ok exar miklar
ísarngráar,
ógæfusömum
oss at leiki,
forspjöll víga
ok firniverka".

81. "Máttum vèr þó eigi
álm upp draga,
nè meginstæltan
streing of teygja,
því at helzt til afl
hölda skorti".

82. "En er álmr barst
at Odysseifi
allir vèr biðlar
óðir hrinum:
at seggr eigi
sveig of feingi,
en þótt mæltist til
mörgum orðum".

83. "En Telemakkus
einn nam bjóða
buðlúngi harðan
boga at rètta;
ok er Odysseifr
hinn ógnhvati
hafði höndum fest
harðan boga:"

84. "Dró tiggi hraustr
tvíviðs sima
hógliga, ok hremsu
höfga sendi
exar allar
af álmi gegnum,
ok hátt of stökk
á hurðar þrep,
hellti fyri fætr
Fenna smíði".

85. "Brunnu blossandi
buðlúngs augu,
ok hann Antínóus
öðlíng skaut;
sendi síðan
seggjum öðrum
hremsur, ok fyrir
hæfíng gjörði".

86. "En þeir unnvörpum
allir hnigu;
var sjáanligt:
at siklíng nokkurr
guða stoðaði
styrku megni".

87. "Ruddust ok hjógu
hildíngs kníar
ok hilmir sjálfr
á hendr báðar;
en feigðar óp
ferlig glumðu,
er of skarar fjöllum
sköfnúngr hvein;
en hræs hauka
hallar gólf
rauðu víni
roðna náði".

88. "Svo vèr týndum öndu,
Agamemnon,
en lík vor liggja
at lofðúngs sölum
jarðar vana,
ok alls eingis
höfum vèr ens hinnsta
heiðrs notið".

89. "Vita nè vinir,
þeir's víða búa,
at þeir dreyra megi
dökkvan af undum
vorum þerra,
ok vökna tárum,
er þeir verpa oss
jarðar moldum,
þat er lofsmark eitt
liðinna þjóða".

90. Mælti þá aptr
mildíngs vofa
Atreifssonar,
ok annsvör greiddi:

91. "Sæll ertu, lofðúngr
Laertesson,
Odysseifr
inn ítrráði!
er þú eignast náðir
eiginbrúði:
dyggðum skrýddan
skörúng kvenna".

92. "Mætr er muni
mærrar beðju,
innar prúðlyndu
Penelopu,
Íkaríuss
ágæts dóttur,
er hún eptir mundi
Odysseifi".

93. "Hennar mun aldrei
hróðr deyja;
munu ódauðlegir
uppheims guðir
moldbyggendum
mæra saungva

ϱ. XXIV, 177-198.

flytja um tryggðir
fylkis brúðar".
94. "Mundi-t sú in tryggva,
sem Tyndars dóttir,
illar vèlar
ok úfgar búa,
sú er eimnis eggjum
eiginbónda
veginn lèt
at vegsölum".
95. "Illr mun óðr
eptirkomendum
hennar verka
hafinn verða;
ok óhróðr
öðrum konum
vakit hún hefir,
þótt vænar sè".
96. Mælti svo vofa
við vofu aðra,
ok hvor til annarrar
orð um stillti,
standandi dimmum
í draugheimi,
jarðar dökkvum
undirdjúpum.

---

97. Hèldu nú hinir
úr hilmis borg,
ok skjótliga
á akr komu
fagran, er lofðúngr
Laertes átti,
þann hafði erjat
ok arði vunnit
öðlíngr sjálfr,
eigin höndum.
98. Bæ átti hann þar;
en bæjar hús
umhverfis lágu
at öllu ranni;
99. Mötuðust þar þrælar,
ok þar of sátu,
ok sváfu þar
siklíngs þjónar
ánauðgir, er vísa
at vilja gjörðu.
100. Var þar snót aldin
frá Sikileyju;
þjónaði sú hilmi
háöldruðum
með virkt mikilli
á víðum akri,
lángt liggjanda
frá lofðúngs borg.
101. Kvað þá Odysseifr
arfa við,
ok við þræla,
þeima orðum:
102. "Gángit nú, gumar,
at garði heim
húsa byggðum,
hagliga gjörðum,
ok gölt hinn bezta
gjörit reiða,
ok borðhald
búit meðan".
103. En ek mun fara
föður á vit,
ok þess freista:
ef mik faðir má
aptr þekkja
ok augum kenna,
eðr knár-at hann mik
kennsl á bera,
er ek leingi hefi
úr landi verit".
104. Mælti hann svo,
ok málmi varin

hervopn seldi
sínum þrælum,
en þeir at bragði
at bæ geingu.
105. En Odysseifr
á akrlendi
it frygðarfulla
frægr of gekk,
at hann föður
freista næði.
106. Gekk hann í garð
gróða þrúnginn,
nè þar döglíngr
Dólíus fann,
nè syni hans,
nè sveina nokkurn.
107. Farit höfðu allir
feðgar ok þrælar
girðíngar grjóti
í garð at safna,
þat's girða skyli
garða frjóa,
en faðir sjálfr
fyri þeim var.
108. Hitti þar fylkir
föður einmana
ágætum í
aldingarði,
þar hann at meiði
moldu gróf.
109. Var konúngs faðir
í kyrtli vondum,
óhreinum, bættum
ok ótèrligum,
fætr voru niflúngs
nautsleðrs hosum
saumuðum sveipðar,
siklíng at hlíf.
110. En á höndum
hafði vöttu

ϱ. XXIV, 219-240.

vísi, at verðist
viðar þyrnum;
bar geitskinns húfu
gramr á höfði;
höfgum hjúfrandi
harmi sleginn.
111. En er mæríngr,
sá er margt of þoldi,
Odysseifr
þar augum leit
ágætan föður,
elli hruman,
ok brjóst megnu
bölvi þrúngit:
þá nam staðar
stillir und nokkrum
apaldri fögrum,
ok felldi tár.
112. Hugr var á hvörfum
í hildíngs brjósti,
ok um gættist
gramr at þat:
hvort hann skyldi kæran
kyssa föður,
ok sínum örmum
siklíng faðma;
113. Allt honum inna
ok eingu leyna,
hve hann aptr færðist
til fóstrjarðar;
eðr fyrst hann skyldi
föður spyrja,
ok framast freista,
freista hvervetna.
114. En er hilmir þat
hug um leiddi,
fremst honum leizt
þat fángráð vera:
orðum skapraunar
öðlíngs freista,

ok hans reyna
höfgan muna.
115. Mót gekk þá mildíngr
mærum föður,
ágætr, svinnr
Odysseifr,
en höfuð faðir
hneigði niðr,
ok um meiðar möndul
moldu gróf.
116. Stóð þá stillir
stundar nærri
öldnum föður,
ok orð um ræddi:
117. "Vantar þik nè vit,
ver inn aldni,
attú garð yrkja
ok erja náir,
eykr þú vel ágætan
jarðar gróða,
er-a neitt í garði
gæzluvana".
118. "Plantan eingi,
nè perutrè,
eigi vínviðr
nè viðsmjörs teinar,
nè fíkja nokkur,
nè frjóreitr
er í garði sá,
er þú gætir eigi".
119. "En eins hlutar
ek mun geta,
reiðst mèr þó eigi
at ek ræði um slíkt:
hirtr ertu sjálfr
helzt til illa,
örvasa af elli
ángrsamri".
120. "Falinn ertú þar at auk
flíkum ljótum,
óþokkaligr
ok óhreinn næsta;
skyli þó eigi
fyrir iðjuleysi
þik láta gjalda
garðs höfðíngi".
121. "Ert-attu glíkr
önnúngsþýjum;
vænn er vöxtr þinn
ok vel í lagi;
svipr þinn ok sjón
sýnir gjörla:
at kappa ertú líkastr
konúngbornum".
122. "Glíkr ertú guma
göfuglegum
þeim's at volga laug
ok veizlu þáða
hæga búa
hvílu skyli,
því slíkt er eðli
öldúngmenna".
123. "Inn mèr nú, vinr,
allt af lètta,
ok með sannindum
seg at bragði:
hverjum þá háðr ert
húsa stýri,
ok hvers reit
þú rækta gjörir".
124. "Seg mèr ok satt,
at ek satt vita:
hvort Íþöku
em'k at kominn,
hvort sè þat hauðr
er ek hèr of treð".
125. "Sagði mèr þat nýlega
seggja nokkurr,
er ek á mannbrautum
mætta'k áðan,

ϱ. XXIV, 240-260.

var-at sá vel
viti borinn,
er hann eigi þorði
allt at segja,
nè á mál mitt
maðr at hlýða".

126. "Frètta'k eptir góðum
gestvin mínum:
hvort hann lifir
ofar hauðrs jaðri,
eðr hann andaðr
undir hvílir
dökkvum moldum,
draugheimi í".

127. "Mun ek þèr inna,
en þú at orði hygg,
ok mál mitt heyr,
halr inn aldni!
gisti mik gestr, —
geingu stundir síðan, —
þá var ek á minnar
móður láði".

128. "Hefir nè annarr
hölda komit
dauðligra dýrri
of dúfu brautir,
sá er mundi mèr
mætari halr,
svifinn leið lánga
at landi mínu".

129. "Kvaðst hann kyn rekja
konúngborinn
Íþakseyjar til
ægi kríngdrar;
arfa kvað hann sik
Arkisíus konar
Laertesar
lofðúngs vera".

130. "En ek hilmi heim
til hallar leidda'k

ϱ. XXIV, 261-281.

ok gram gista'k
gestbeinliga;
veitta'k vísa
af virktum miklum
allt er ek átta
innan hallar".

131. "Gaf ek honum gestgjafir,
gripi fagra,
þá er siklíngi
sæma mundu:
af gulli vel skíru
vættir sjö,
ok enn skaptker eitt
af alsilfri
blómsveig fágat
firingljáum".

132. "Gaf ek honum skikkjur
skrautligar tólf
einbrotnar, ok tólf
tignar dúka,
ok kyrtla tólf
kostuliga,
ok eins margar
yfirhafnir."

133. "Ok fjórar konur
ek konúngi gaf,
þær's verk vönduðust
vinna knáttu,
fríðar ok fagrar,
fagrlimaðar,
mundi sjálfr vísi
velja sèr þær".

134. Mælti þá faðir,
ok máls of vakti —
hrundu harma tár
af hvörmum niðr:

135. "Satt er þat, gestr,
grund Íþöku
ertú á kominn,
sem þú eptir spyrr;

en nú eyju spilla
ofsa seggir
ok afarmenni
með yfirgángi".

136. "Var þat til einkis,
er þú áðr gafst
gestvin þínum
gjafir stórmargar;
en hefðir þú hann hitt
at höllu sinni,
mundi hann þèr beina
mætan goldit,
ok heim sent
heiðri sæmdan,
því svo byrjar
byrjanda hveim".

137. "En inn mèr nú, vinr,
ok inn með sanni:
hvert er þat ár
í ára tölu,
sízt þú gistir þann
gestvin harmþjáðan?
son minn sárgrátinn —
sjám'k-at hann framarr!"

138. "Hafa vinum fjarri
ok fóstrjörðu
fiskar hann etið
á fjarðar leiðum,
eðr hrjóstugu
hauðri ofarr
varð hann bráð varga
vígi frekra".

139. "Mundum vit nè fá,
móðir ok faðir,
þeim er gátum vit,
grátið yfir,
nè hans helkaldan
at hjúpa ná".

140. "Nè hin gjafsæla
gylfa brúðr,
sú in prúðlynda
Penelopa,
grátin náði
gram ástkærum
nábjargir veita
at nábeði;
þat er lofsmark eitt
liðinna þjóða".

141. "Seg mèr enn satt frá,
at ek sannliga vita:
hverr ertú,
ok hvaðan af löndum?
hvar er borg þín,
ok þeir's þik borit hafa?
hvar þú skriðskjótu
skipi brýndir,
þat's þik híngat flutti,
með horskum liðum?"

142. "Eðr ertú farþegi
annarra manna,
er þik á land settu,
ok sigldu á braut?"

143. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
"Allt mun ek þetta
inna þèr,
ok sannliga segja,
seggr inn aldni!"

144. "Liggja óðul mín
at Alýbanti,
á ek þar eignir
ok auðsali;
arfi em'k öðlíngs
Afídants,
Polýpemons
prúðlynds niðja".

145. "Nafn mik ek þèr inni:
Eperítus;

en mik þúngr
þjóstr vinda
híngat svífa lèt
frá Síkaníu,
megnt andviðri,
um Endils leiðir".

146. "Lenda ek knerri
lángt frá borg,
hinnig við hauðr
at hrannar jöðrum;
en nú er it fimmta
faranda ár
sízt Odysseifr
ógæfu háðr
hrannar fáki hèlt
frá heima mínu,
ok fóstrjörð mína
fagra kvaddi".

147. "Heill boðandi þó
hægra megin
spáfuglar flugu
er hann festar leysti;
glaðr lèt ek glaðan
gylfa halda
minni foldu frá,
yfir frètt þeirri".

148. "En hugir okkrir fylltust
hýrum vonum,
at vèr hugglaðir
hittast mundim,
og gestgjöfum
góðum skiptast".

149. Mælti svo mildíngr,
en móðakarn
mært nam at glúpna
mildíngs föður,
ok harma ský
yfir höfuð sveif,
dökknaði dagr
fyri döglíngs augum.

150. Tók hann aurga
jarðar moldu
höndum báðum,
ok of höfuð jós,
stundi hjarta,
stundi muni
andvörpum þúngum
ákafliga.

151. Viknaði þá ágætr
Odysseifr,
dró súg í nösum
döglíngr hryggr,
er hann harða sá
harma föður;
flaug um háls honum,
faðmaði ok kyssti
ítran öðlíng,
ok orð um kvað:

152. "Sjálfr em'k inn sami,
sjálfr em'k kominn,
sjálfr em'k einn
er þú eptir spyrr —
á ári tuttugta
aptr kominn
híngat, faðir,
til fóstrláðs".

153. "Hættu nú trega
tárasollnum,
ok harma hættu
höfgum stunum!
skal ek þèr segja,
því at skunda hlýt'k,
allt af lètta
orðum sönnum:"

154. "Banat hefi ek biðlum
at borg minni,
hefi ek hróps hefnt
hölzti mikils,
ok svívirðíngar
sárar hefndir

ok illverka
allra tekit".
155. Lofsæll lofðúngr
Laertes þá
annsvör greiddi,
ok orð um valdi:
156. "Sèrtú arfi minn,
Odysseifr,
híngat kominn
at hauðri þvísa:
seg mèr merki þá
markglöggt nokkut,
at ek tölu þinni
trúa mega'k".
157. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
158. "Lít á ör þat,
er mik áðr gjörði
gómfleini hvítum
göltr ljósta,
er ek til Parnesus
áðr of fór,
með ítrum niðjum
Avtólýkuss".
159. "Mik þú sendir,
sendi mik móðir,
til móður-afa,
Avtólýkuss,
at ek við tæki
vegligum gjöfum,
þeim's hann mèr heitið
hafði áðr".
160. "Segja mun ek þèr
hvat þú mèr gafst,
en ek þik ávallt
allt um beiddi,
þá er um garða
gróðrsæla
ek þèr úngr
eptir fylgða'k".
161. "Geingum vit í garði —
grundir brostu —
ok þú mèr allt
upp namt telja:
perutrè mèr gaft
prúðr þrettán;
tvenna fimm mèr gaft
trjá-apaldra;
fíkjutrè mèr gaft,
fjóra tugi".
162. "Hèztu mèr fimm tugum
frjóreita góðra,
þar sem at þrúgur
þróast sætar;
þar's fræ frævast
frjósöm á víxl,
blómgast æ eitt
þá er annat fölnar".
163. "Þróast þar vínber
þrúngin safa
ágætra tegunda
allra handa,
þegar gróandi
hins góða Seifs
svífr ofan at
með árstíðum".
164. Mælti hann svo;
en magnþrota varð
hnè ok hjarta
hilmis föður,
er hann alglöggvar
jarteiknir kenndi,
þær's honum innti
Odysseifr.
165. Vafði hann örmum
ástkæran nið,
ok í ómegin
at honum hneigðist;

ϱ. XXIV, 326-348.

en hinn þrekmikli
þeingill honum,
frægðum studdr,
í faðmi hèlt.
166. En er andrúms varð
aptr kostr,
ok fjör færðist
í föður brjóst:
mælti hann máli
mög ástkæran,
ok við Odysseif
orð um kvað:
167. "Sannliga eru,
Seifr faðir!
uppheims regin enn
á Ólymps tindi:
er biðlar hafa
hefndir þegit
ofstopa fyrir
ok yfirgáng".
168. "En nú óttumst ek
ákafliga,
at híngat muni
í hópum flykkjast
almanna sveit
á Íþöku,
ok hvervetna æsa
með orðsendíngum
knáa borgbúa
Kefalena".
169. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
170. "Vertú alls óhræddr,
ástkærr faðir,
nè þèr slíkt áhyggju
auki at neinu;
munum vit nú heim
at húsi gánga,

ϱ. XXIV, 348-370.

þat's hèr garði nær
gestum býðr".
171. "Sent hefi'k þinnig
son minn ok þræla,
geymi nauta
ok galta hirði,
mèr á undan,
at megi þeir
aptans verð skjótla
oss um búa".
172. At mæltu því
mildíngar geingu
heim at fagrsettum
húsakynnum;
þar Telemakkus
ok tiggi runa,
ok hirðir nauta
hjuggu nóg kjöt,
ok eldskært vín
at veizlu blendu.
173. Laugaði síðan
Sikileysk drós
lofsælan lofðúng
Laert móðsnjallan,
ok þeingil smurði
þjónustumey
í sölum siklíngs
smjörvi viðar.
174. Lèt hún skikkju fagra
of lofðúngs herðar;
stóð þá Aþena
at alda stýri,
ok limu öðlíngs
eldfjörgaði:
at meiri vexti
ok vörpuligri
þótti á velli
þjóðhöfðíngi.
175. Gekk hann úr laug;
en lofðúngs arfa

unaðsjónir
undrunar feingu,
er hann vísa sá
vorðinn guðum
sælum ok svasum
at sjónum glíkan.
176. Lèt þá vænghröðum
at vísa orðum
arfi orpit,
ok orð um mælti:
177. "Víst hafa, faðir,
friðsæl regin,
alsæl, ódauðlig,
jörðu valdandi,
fegurð þèr feingit
ok frama aukit,
ok þik vænligra
á velli gjört".
178. Mælti þá við mög
mildíngr ítr,
lofsæll Laertes,
lofðúngs faðir:
179. "Upphimins faðir,
faðir Seifr,
Aþena alvoldug,
ok Appollon!
væra'k nú í gær
at vígfimi
sem þá er Neríkons
námum vígi,
frammi at hafi
á hauðrs jöðrum,
er Kefallena
köppum rèða'k;"
180. "Hefða'k svo í gær
gildr, sem þá,
at hlið þèr
í húsum staðit,
vopnum valdandi
at vígum búinn,

ϱ. XXIV, 370-390.

ok við biðla
barizt með þèr":
181. "Mundu þá margir
málma þverrar
mátt hafa mist,
ok at moldu hnigit;
hýrnat þèr mundi
hugr í brjósti
ok hjarta hafa,
hildíngr, þá".
182. Þannig hjöluðu
hvorr við annan
mögr ok faðir
of mál þessi.

---

183. En er hinir höfðu
hagat erfiði,
ok borð búit
bragnar látið:
settust í röð
á salar bekki
ok hástóla halir
hverr at öðrum.
184. Tóku til verðar,
ok veizlu nutu; —
gekk þá inn gamall
gumi, Dólíus,
en honum fylgðu
hraustir megir,
halir starfmóðir
til húsa komnir.
185. Hafði þá heim kallat
hölda móðir,
snót in aldna
frá Sikileyju;
ól hún þá upp,
ok aldinn þegn
með alúð stundaði
stöðugliga,

sízt elli hann
yfir færðist.
186. Sá þeir Odysseif,
siklíng kenndu,
stóðu undrun fángnir
at feti sama;
en Odysseifr
orðum mjúkum
ávarpaði ýta,
ok orð um ræddi:
187. "Sezt at sumbli,
seggr inn aldni!
ok af undrun lát
ókynniligri;
tíðum'k verð taka,
er tilreiddr er,
leingi vèr biðum,
lángaði oss
verðar at njóta,
en vèr væntum yðar".
188. Talaði döglíngr;
en Dólíus
faðm út breiddi
fylki móti,
gekk at ok tók
í tiggja hönd,
ok at úlnliði
Odysseifs
mundu kyssti,
ok við mildíng kvað:
189. "Nú ertu, mildíngr,
mærr of kominn;
aptr at óðulum
eptir þráðr mjök;
væntum vèr þó varla
vísa komu,
greitt hefir þèr götu
guða nokkurr".
190. "Heill sèrtu, hilmir,
ok þèr heill veiti
sæla og sæta
sigtívar æ!"
191. "Seg mèr enn satt frá,
at ek sannliga vita,
hvort veit in prúðlynda
Penelopa
attú híngat sèrt
heim um kominn,
eðr skulum boð vèr
brúði senda?"
192. Aptr annsaði
Odysseifr,
hinn er aldrei varð
örþrifráða:
193. "Víst hún þetta veit,
ver inn aldni,
þarft-attu framar
þar um sýsla".
194. Mælti hann svo;
en seggr at bragði
settist á hástól
hála skafinn;
en svo it sama
synir Dólíuss
flykktust at þat
fylki kríngum;
báðu heilan
heimkominn vera,
ok í hilmis hendr
höndum tóku.
195. Settust í röð síðan
synir Dólíuss
föður hjá,
hverr at öðrum;
en halir at þat
í hallar sölum
sýsluðu at reiddum
rètta gnóttum.

---

ϱ. XXIV, 390-412.

196. Fór frèttadís
fetum skjótum,
bráðfleyg Ossa,
of borgar inni;
flutti hún fregnir
fyrða sveitum
um biðla dráp
ok bráðan dauða.

197. En er halir heyrðu
harmsögu þá,
áttum öllum úr
þeir allir þutu;
flykktust andvörpum
ok ekka þrúngnir
at hallar dyrum
hilmis þegar.

198. Naðbitna námu
nái úr sal,
ok sifjúng sinn
sèrhverr jarðaði;
en at kominna lík
úr öðrum borgum
lètu þeir flytja
fiskimenn
á skriðskjótum
skíðum marar.

199. Þyrptist á torg
þegna lýðr,
var sorg hvervetna
seggjum í hug;
en er fyrðar
allir voru
safnaðir í sveitir
ok saman komnir:

200. Upp reis Evpíþes,
at ýta móti,
sá er höfgum var
harmi sleginn:
varð-at hann afhuga
arfa dauðum,

ϱ. XXIV, 413-433.

Antínóus,
er Odysseifr
fyrstan biðla
fjörvi svipti.

201. Stóð upp grátandi
garpr á þíngi,
ok við öld mælti
orðum þeima:

202. "Víst hefir, vinir,
vogestr sá
hervirki mikit
með hölum unnit;
færði hann fyrst á braut
á fákum marar,
fjölda fullhuga
af foldu hèðan".

203. "Týndi hann borðbjúgum
báru fákum,
týndi hann liðum
at lagar grunnum,
en heim kominn
at höll sinni
drap hann kappa frægsta
með Kefallenum".

204. "Höldum nú af stað
í hóp saman,
fyr en komast megi
konúngr á braut,
í borg prúðra
Pýlusmanna,
eðr at helgu
hauðri Elea,
þar's Epear
yfir ráða".

205. "At öðrum kosti
munum ávallt vèr
bleyðiorð bera
af brögnum öllum,
ok níð hljóta
af niðjum seinni,

ef vèr hefnum ei
áa vorra,
náfrænda ok vina
vopnbitinna".
206. "Leitt mèr þá væri
at lifa á moldu,
æskja munda'k æ
aldrtila; —
en skundum skjótla,
at skatnar eigi
flýi um sund
farar ossar".
207. Mælti svo grátandi
garpr á þíngi,
en Akkverjar allir
aumkuðust hann.
208. Bar þá Medon
málstefnu at,
ok saungmann,
signdan í hugum;
komu þeir at innan
úr öðlíngs höllu,
ný-vaknaðir
af værum blundi.
209. Stóðu þeir miðjum
mannhríngi at,
en allir urðu
undrun fángnir;
mælti þá Medon
mannvitríngr,
ok til allra
orðum stillti:
210. "Heyrit orð mín,
Íþökumenn!
hefir-at hilmir
hervirki framit,
án þess ódauðlig
uppheims regin
honum öflgar hafi
hjálpir veittar".
ϱ. XXIV, 434-456.

211. "Ek sá einnig sjálfr
ódauðligan guð
eigin augum,
er Odysseifi
stóð við hlið
í Hárs veðri;
var sá Mentori
at vexti glíkr".
212. "Ýmist stóð hann framan
at Odysseifi,
ok hann orðheillum
eggja náði;
ýmist þaut hann
þegnum móti,
biðlum búandi
bráðan dauða;
en þeir unnvörpum
allir hnigu".
213. Svo mælti hann,
en seggi tók
hræzlu fölvi
heljar svalr;
mælti þá at móti
mannvitríngr
framsýnn, forspár,
ok forvitri,
arfi Mastors
Alíþerses;
heill í hugum
hann orð um kvað:
214. "Heyrit orð mín,
Íþökumenn!
er ek á þvísa
þíngi mun ræða;
vorðin eru, vinir,
verk in illu
af vonzku yðvarri
ok völdum sjálfra".
215. "Gæta þèr nè gjörðut
góðra ráða

minna, nè Mentors
manna stillis,
er vèr yðr rèðum:
yðrum niðjum
hrópsverkum frá
at halda slíkum".
216. "Frömdu þeir fjölda
firniverka,
illri heimsku
ok óframsýni:
eigum eyddu,
öllu spilltu;
brosfagrar brúðar
beð of girntust
vísis þess, er var
vaskastr alinn".
217. "Hugðu-t þeir heimkomu
hilmi auðnast,
en nú er öðlíngr
aptr kominn;
en hlýðit nú, halir,
heilráðum mínum:
fari einginn fet!
at ei fíra nokkurr
ógæfu hljóti
ok illa smán".
218. Mælti hann svo;
en mannagrúi
upp reis æfr,
með ópi miklu,
meirr en helmíngr
hölda allra,
en aðrir þar
eptir sátu.
219. Hinum því eigi
at hugum voru
orð Alíþerses,
en Evpíþesi
hlýddu böðfúsir
bragnar allir,
ok hervopn hermila
í höndum skóku.
220. En er klæðzt höfðu
halir allir
málmi blikanda,
málmi eirvörðum:
söfnuðust seggir
at siklíngs borgar
virkjum víðrar
á völlum úti.
221. Var þar Evpíþes
verum fyrir,
halr heimskr
fyrir heimskíngjum;
hugðist hann magar síns
mundu hefna;
en hann átti sízt
aptr snúa,
heldr skyldi hann þar
helju bíða.

---

222. Mælti Aþena
in augumglæja
við upphimins föður
allsvaldanda:
"Heyr vor faðir
himinbúa,
æztr öðlínga,
arfi Kronusar!
Seg mèr, faðir,
er ek frètta nái,
hver er ætlan þín,
æztr tíva?"
223. "Mantu vopnveðr
vekja geigrligt,
heipt ok hatr
með hölum þeima;
eðr mantu sætta
mærum friði

ϱ. XXIV, 456-476.

seggi seimvalda
salkynnum í?"
224. Sagði þá Seifr,
sjóli skýbólstra,
ok henni aptr
annsvör veitti:
"Hví viltu, dóttir,
dýrst, of spyrja,
ok mik sóknráða
slíkra frètta?"
225. "Hafðir-a þú sjálf
í hyggju áðr
ráðit ráð þat:
at ræsir skyldi
Odysseifr heim
aptr um koma,
ok sinna harma
hefnd of vinna?"
226. "Bú sem þèr býðr
í brjósti hugr!
en ek þèr segja mun
endir mála:"
227. "Er nú Odysseifr,
inn ítrsnjalli,
biðlum hefir banat,
ok böls of hefnt:
Skyli allir þeir
eiðum bindast,
en hann ríki ráði
ok rekkum stýri."
228. "En vèr munum allra
arfa ok frænda
víg láta gumum
í gleymsku falin.
Unnast skyli allir,
sem áðr fyr;
auðr ok sæla
með seggjum verði."
229. Mælti hann svo,
ok mímúngs Freyju



eggjaði, áðr
ákafa mjök;
fór brunandi
fram af háfum
Ólymps tindum
Allföður jóð.

---

230. En er lýðir
lystíng höfðu
úti byrgt
áts ok drykkjar:
mælti mildíngr
sá er margt of þoldi,
Odysseifr,
ok orð um kvað:
231. "Gángi nú fram
guma nokkurr,
ok skygnist at:
hvort skatnar muni
hinnig allnærri
heim at komnir".
232. Mælti hann svo;
en mögr Dólíuss
út nam gánga,
sem öðlíngr bauð;
gekk hann á þrepskjöld
ok þyrpíng sá
húsum allnærri
heim at komna.
233. Mælti hann at bragði
mildíng viðr,
ok vænghröðum orðum
vísa kvaddi:
234. "Nærla eru fjandr,
fylkir, þegar,
búumst at vígveðri,
ok í vopn förum!"
235. Mælti hann svo;
en seggir risu,

ok Viðris voðum
vaskir klæddust,
fjórir með fylki,
ok fríðir arfar
sex Dólíuss,
seggs ins gamla.
236. Mundu ok málmi
mætir klæðast
Laertes döglíngr,
ok Dólíus,
voru snjófgir seggir
fyri silfrhærum,
en neyð neyddi
naðels boða.
237. En er klæðzt höfðu
halir allir
málmi blikanda,
málmi eirvörðum:
dyrr þeir opnuðu,
ok út geingu;
fremstr gekk öðlíngr
Odysseifr.
238. Gekk þá til þeirra
geirveðrs dís
Aþena, dóttir
día föður;
var at vexti
veglig gyðja
ok í málrómi
Mentori glík.
239. Gladdist þá ítr
Odysseifr,
en hann mæra leit
mímúngs Freyju;
ok við ástkæran
arfa sinn
öðlíngr mælti
orðum þeima:
240. "Nú muntu brálla
ná at líta,

ϱ. XXIV, 495-516.

Telemakkus
hinn tíreggjaði!
naðels boða,
nöðum beita
ok háfu hefjast
Hildar lofi".
241. "Munt-attu, mögr,
meinlig smán
verða frægs föður
fólkdjarfrar ættar;
er vort ætíð hefir
of aldar boga
frægðar lof farit
fetilstíngja".
242. Annsaði aptr
ítrum föður
Telemakkus
inn tíreggjaði:
243. "Sjá muntu, faðir,
ef þú sjá girnist,
at ek ættar eigi
ættleri verða'k,
er mèr nú muni
móði svellr;
þarf-at um slíkt
við son ræða".
244. Mælti hann svo;
en mildíngr
gladdist Laertes,
ok til guma mælti:
245. "Dag mèr veitið þèr,
vísar himna!
góðan ok glaðan,
er gunnarfúsir
arfi bæði
ok arfa niðr
um hreysti keppa
at Hildar leiki".
246. Gekk at öðlíngi,
ok orð um mælti

Aþena þá,
in augumglæja:
"Arfi ágætr
Arkisíuss,
er ek framast ann
allra manna!"
247. "Heit á iðleiks mær
ina augumglæju,
ok heit á Allföður
allsvaldanda!
veifa vígdarri,
ok of vígþrumu
láttu skjótt sendan
lángskeptan flein!"
248. Mælti svo Aþena
in augumglæja,
ok mildíngs móðakarn
móði fylldi;
hèt hann á Aþenu,
Allföður jóð,
veifði vígdarri,
ok of vígþrimu
lèt skjótt sendan
lángskeptan flein.
249. Laust hann Evpíþes
ofdjarfan hal
ægi gegnum
eiri varðan;
nè fleinn of beið,
en fjörnis hlífar
mundi sárbeittr
sundr kljúfa.
250. Hlammaðist niðr
halr lostinn,
ok við hríngluðu
Hildar klæði;
en Odysseifr
ok arfi hans
fram úr ruddust
fylkíng görva.
ϱ. XXIV, 516-537.

251. Lètu þeir lagða
laungum geirum,
ok hræmækjum
hvasseggjuðum
fíra, ok felldu
at foldu niðr.
252. Hefðu þeir þar látið
lýði gjörvalla
hníga til foldar,
ok heimkomu firrt,
ef ei Aþena,
dóttir ægisskjalda,
herjaföður,
hrópa næði,
ok alla stöðva
eimnis reyna:
253. "Hættið harðmóðgum
Hildar leiki,
Íþökumenn!
ok af látið,
at manndrápum
megi linna,
ok sættir semjast
seggja í millum"!
254. Mælti þat Aþena;
en alla hreif
heljar hræðsla
hölda þegar;
fèllu til foldar
úr fíra höndum
hervopn hræddra,
er herdís glumði.
255. Snèru bragnar heim
til borgar allir,
ok fjörvi sínu
forða vildu;
en Odysseifr
inn ógnarsnjalli
gunnar ópi gall
geigrliga.

256. Rann hann hermila
höldum eptir,
sem haukr harðeygr
ok háfleygr.
Slaungði þá Kronusson
kynjabjörtum
þrumu-blossa
at bjaðar jaðri.
257. Þaut hann at fótum
þremjars Freyju,
dóttur þeingils
hins þrumuglaða;
en Aþena
in augumglæja
Odysseif kvaddi
orðum þeima:
258. "Lofsæll lofðúngr
Laertesson,
Odysseifr
inn ítrráði!
stöðvastu, stillir,

ϱ. XXIV, 538-548.

ok frá stórræðum
heptu þik, hilmir,
hermiligum,
at þèr ei ýgr
upphimins guð
reiðist Seifr
inn reginvaldi!"
259. Mælti svo Aþena,
en mætr heyrði
hilmir, ok hlýddi,
ok í hug gladdist.
260. Liðu stundir fram;
en stórráð gyðja
Aþena, dóttir
Ægisskjalda,
sáttmál setti
seggja í milli;
var þá at vexti
veglig gyðja
ok í málrómi
Mentori glík.

# NAFNARÖÐ.

# ORÐARÖÐ.

[mk. þýðir "mannkenníng"; kk. þýðir "kvennkenníng".]

---

A í samsetníngum aptanvið sagnir = eigi; var-a, var eigi, I, 10.
Ábrýði, ásthræðsla. — 2) rígr, öfund, V, 55.
Aflendr, líðandi, eigi mjök brattr, V, 198.
Ái, forfaðir, VIII, 115.
Ak-jór, vagnhestr, IV, 11.
Aldr, elli; aldri vorpinn, gamall, IV, 175.
Aldrnari, eldr; drottinn aldrnara, eldguð, Hefastr, XXIV, 40.
Aldrtili, aldrtálmi, bani, I, 5.
Álfröðull, sól. — 2) sólguðinn (Ἥλιος), I, 3.
Álfr sjávar, sjávarguð, Próteifr, IV, 177.
Allfaðir, Óðinn; el Allföður, orusta, XXIV, 23. — 2) Seifr, XX, 18.
Álmdrós, ör, XXI, 27.
Álm-lykkja, boga-lykkja, krókr á enda bogans, XXI, 64.
Álmr, bogi, XIX, 281.
Álmslíðrar, boga umgjörð, XXI, 24.
Álmsvaldandi, bogvaldr, XX, 124.
Álmtýr, mk., VII, 25.
Alls, af því, þareð (á þjóðversku er als = þá er), I, 64.
Andrán, lífsviptir, bani, II, 148.
Andvígendr, fjandmenn, XXI, 61.
Áni, sá sem er án einhvers; alls áni, allslauss, X, 179.
Andærligr, mótstæðiligr; andærlig orð, mótmæli, XVIII, 199.
Apaldr, eplatrè, V, 30.
Arðr, plógr, XVIII, 181.
Arðrjárn, plógjárn, IX, 60.
Arfþegi, erfíngi, sonr, III, 50.
Árgeisli, morgungeisli, morgunroði, XIX, 171.
Aringoð, altarísgoð, goð sem fórnir eru færðar, XXII, 166.
Arinn, eldstó; at arni, á heimili sínu, III, 110.
Armvitugr, brjóstgóðr, nærgætinn, V, 91.
Árna, fara, I, 33. — 2) óska, VI, 7.
Árr, þjónn, V, 35; árr alisvína, svínahirðir, XVII, 162.
Askr, trè, staurr, IX, 188.
Askr Heljar, sultr, XVII, 140.
Ástfóstri, ástkærr fóstrsonr, IV, 17.
Ástmögr, ástkærr sonr, IV, 10.
At í samsetníngum aptanvið sagnir = eigi; vill-at, vill eigi, I, 22.
At, eptir; at þat, eptir þat, IV, 18.
At hvoru, þó, samt, I, 28.
Auðr, dauði, V, 147.
Austri, dvergr; austra hjálmr, himinn, XII, 69.
Auvirðismaðr, duglauss maðr, varmenni, IX. 253.
Áviljaðr, fúss, V, 106.

Bákna, benda, XV, 224.
Barr, laúf, IX, 61; varra barr, skegg, XI, 161.
Baugr; láta verða uppi á baugi, láta framkoma, I, 84.
Beðja, eiginkona, I, 40.
Beit, skip, VI, 123.
Beitnárúngar, skipstjórar, mk., VII, 22.
Bella, viðhafa, fara einhverju fram, VII, 94.
Benkneif, sverð, XXII, 32.

ings dyrum, á loptinu, XVIII, 178, Dellíngs salr, himinn, XX, 47.
Díar, guðir (á latínu: dii), III, 155.
Diskr Loka dóttur, diskr Heljar, sultr, XVII, 231.
Dólgmegir, fjandmenn (dólg, fjandskapr; megir, menn), V, 147.
Drasilreiða, vagn, XV, 26.
Draumnjórunn, nótt, XIX, 278.
Dröfn, sjór, XIX, 88.
Dúfa, alda, XXIV, 128.
Dul, þótti, XVIII, 184.
Dugga, dugleysíngi, XVIII, 45.
Dvalins leika, leiksystir Dvalins, sól, XXI, 32.
Dýja, sveifla, veifa, II, 4.
Dæll, auðveldr, hœgr; er-a dælt þat er eigi hœgt, I, 84.
Dögla deilir, mk., XV, 12 (eigandi fleirtölunnar dögla eða daugla finnst einúngis í 79. kap. Njálssögu; í orðaregistrinu aptan við latínsku útleggínguna af Njálssögu er getit til, at þat sè dauggull (dögg-ull) í gjöranda eintölunnar ok þýði fíngrgull eða armhríng).

Eðli, göfugt ætterni; eðli borinn, ættstórr, konúngborinn, IV, 8.
Eik, skip, III, 38.
Eimnir, sverð, XXII, 46.
Eimr, eldr; eimi genginn, herðr í eldi, XIX, 243.
Eineiríngr, allr úr eiri, úr tómum eiri, VIII, 190.
Einna (eigandi fleirtölunnar af einn, sem hèr er = stakr, framúrskarandi); einna nokkur, ein af þeim konum, sem nokkut láta til sín taka, ein af kvennskörúngunum, II, 43.
Eir, ein af Ásynjum; unnfýrs eir, kk., XVI, 204.
Elgviðnir, björn; unnar elgviðnir, skip, XV, 241.
Elri, viðartegund (á dönsku *Elle*); elris rakki, vindr, II, 191.
Elrir = elri, V, 30.
Emka ek, ek em eigi, III, 11.
Endill, sækonúngr; Endils leiðir, sjór, XXIV, 145.
Endr, áðr, forðum, II, 82.
Eptirgerð, útför, greptran, V, 148.
Èr, þèr, III, 34.
Erumk, er mèr, XVIII, 80.
Eskivigr (μελία), spjót með eskiskapti, XXII, 127.
Eyrarúna, eiginkona, XIV, 78.

Fáðr, fægðr, III, 189.
Fagrahvel, sól, XVIII, 144.
Fagrbláinn, skjöldr, XXII, 49.
Fagrfár, fagrljómandi, IV, 16.
Fagrlimi, skógr, V, 189.
Fagrmerlaðr, fagrskínandi, XVIII, 145.
Fagrsessaðr, með fögrum sætum, þóptum, XVII, 77.
Fákr, hestr; flæðar fákr, skip, XVII, 77.
Far, skip; vínlagar far, borðker, III, 24.
Farkostr, skip, IX, 167.
Farland, skipaland, sjór, V, 169.
Farir; vera á förum, þverra, eyðast, II, 28; hið fjórða ár er senn á förum, er nærri liðit, II, 41.
Farleingd, ferðalag (hve lángt einhverr er kominn á ferðinni), III, 113.
Fenja, ör, XXII, 2.
Fennar, Finnar; Fenna smíði, örvar, XXIV, 84.
Ferk, fer ek, III, 38.
Fetbreiðr, sverð; fetbreiðs runnr, mk., XXII, 134.

Fetilstíngi, sverð; laukr fetilstínga, mk., XXII, 132.
Fíkjum, ákafliga, XX, 80.
Fimbultrè, stórt trè, IX, 159.
Firin- í samsetníngum eykr merkíngu orðsins ok táknar eitthvat mikit eða furðuligt, t. d. firinbreiðr, ákafliga breiðr, XXII, 59; firingeislar, miklir geislar, XXIV, 72; firingljár, XXIV, 131.
Firna, lasta, ámæla, IV, 84.
Firr, fjær; firr um farinn, fjærstaddr, IV, 71.
Fjallgeiguðr, jötunn, IX, 167.
Fjarðelgr, skip, XVI, 105.
Fjarr, fjarlægr, XIV, 111.
Fjón, hatr, IV, 351.
Fjóna, hata, III, 99.
Fjölnir, Óðinsheiti; Fjölnis hríðar klæði, herklæði, XXII, 56.
Fjöltýngdr, sem talar margar túngur, XIX, 90.
Fjörgyn, jörð, VI, 92.
Fjörleystr, lífi sviptr, III, 208.
Fjörnir, hjálmr; fjörnir foldar, himinn, V, 115; fjörnis máni, spjót, XXII, 72.
Fjörvaltr, lífi firðr, III, 125.
Flaust, skip, IX, 237.
Fleinlaukr, mk., XIX, 224.
Fley, skip; fleyja völlr, sjór, II, 99.
Fleyvángr, sjór, XI, 5.
Flóðeldr, gull; flóðelds selja, kk., XIX, 266.
Flóðhyrr, gull; flóðhyrs njórunn, kk., XV, 225.
Fofnir, ormr; fofnis beðr, gull, III, 26.
Fólkdjarfr, orustudjarfr, XXIV, 241.
Fólkjara, fólkorusta, XXI, 18.
Fólknárúngr, fólkstjóri, konúngr, II, 47.
Fólkroð, orusta, XIV, 107.
Forkólfr, foríngi, XVII, 1.
Forsimi, uxi, XIX, 207.
Fótskemill (á dönsku: *Fodskammel*), fótskör, IV, 57.
Frenja, kýr, **III**, 208.
Freyja, ein af Ásynjum; hamra Freyja, tröllkona, X, 55; töfra Freyja, galdrakona, Kirka, X, 144; Freyju tár, gull; Freyju tára fold, kk., XV, 200; = hodda Freyja, XVIII, 95; ægis Freyjur, sægyðjur, XXIV, 26.
Freyr, einn af Ásum; funa Freyr, eldguð, Hefastr, VIII, 142.
Frjóverpr (*ὠλεσίκαρπος*), sem kastar ávexti sínum, X, 244.
Frumferill, sem ferr eða kemr í fyrsta sinni (sbr. vegferill = ferðamaðr; Rómferlar), I, 64.
Frygðarfullr, frjósamr, I, 69.
Fylkir, konúngr; fylkir hafstrauma, konúngr sjáfarins, sæguð, Posídon, I, 9.
Fætta, fækka, gjöra færra, **XIV**, 9.
Fölvir, sverð; fölvis leikr, orusta, XXII, 110.

Gagl, gæsarúngi, XIX, 227.
Gaglhati, örn, XIX, 265.
Garmr, hundr; Garmr viðar, eldr, IX, 158.
Gautun, álas (sbr. *Ordgyderi* á dönsku), VI, 127.
Geðknörr, skip, hýbýli hugarins, brjóst, **II**, 41.
Geðsnjallr (*ταλασίφρων*), þrautgóðr, I, 46.
Gefn, nafn Freyju; Gefnar skrúð, gjafir ástagyðjunnar, XX, 32.
Geinginn, látinn, dauðr, III, 90.
Geirr, spjót, I, 37.
Geirstokkr (*δουροδόκη*), spjóta hirzla, I, 46.
Geirveðr, orusta; geirveðrs dís, orustugyðja, XXII, 103.
Geitir, sækonúngsheiti; Geitis marr, skip, XX, 171.

Gerr, fullgjörr, heill, allr; gerstan morgun, allan morgun, II, 195.
Gerr-at, gerir eigi, XVII, 188.
Geta (á ensku: *to get*), fá; geta orð, taka til orða, III, 10; geta mikla gulls gnótt, III, 139.
Geysamr, geltinn, XVI, 3.
Gilmaðr, biðill, XVI, 178.
Ginnheilagr, mjök heilagr, III, 126.
Ginnreginn, hinn mikli guð, Seifr; ginnregins mær, dóttir Seifs, Aþena, III, 64.
Ginnregin, hin miklu goð, IV, 220.
Ginnsterkr, afarsterkr, IV, 232.
Gjálfr-eimr, sæeldr, gull; gjálfreims dís, kk., XXII, 246.
Gjallr, gjallandi, hvellr, X, 98.
Gjalti; verða at gjalti, verða smeikr, VI, 63.
Glapinn, hryggðr (ἀνιηθείς), I, 49.
Glenr, maðr Sólar; Glens beðja, kona Glens, sól, IX, 29.
Glíkr, líkr, I, 38.
Gljúpr, mjúkr, linr, holóttr (πολύτρητος) I, 40.
Glóhaddaðr, glóhærðr, X, 151.
Glýjaðr, glaðr, XI, 76.
Glysmál, fögr orð, ginníngarorð, III, 123.
Glysmálugr, sem talar fagrt (en hyggr flátt), II, 41.
Glæhvarmr, glóeygr, XVI, 74.
Glær, bogi, XXI, 37; glæs valdr, bogmaðr, XXI, 201. — 2) sjór, II, 195.
Gnegg, hjarta, I, 122; gnegg foldar, grjót, VI, 124.
Gnepja, öx, XXI, 154.
Gnoð, skip, III, 73.
Gólega, fagrlega, XIII, 106.
Gólegr, góðr, vænn, X, 219.
Gómfleinn, tönn, XXIII, 20.
Gómskafl, tönn, XIX, 227.
Gramr, sverð, XXI, 16.
Gremi, reiði, XIV, 39.
Gríma, nótt, XI, 167.
Grind, dyr, XIV, 26. — 2) svínastía (συφεός), XIV, 35. — 3) fjárhús (ἔπαυλος), XXIII, 98.
Grindlogi, sverð, XXII, 4.
Grómlauss, grunlauss, IV, 111.
Græti, grátsefni, IV, 168.
Gullskögul, kk., XVIII, 141.
Gúngnir, spjót, XXII, 44.
Gunnarfáinn, orustufagr, fægðr til bardaga, XIX, 285.
Gunneldr, sverð; gunnelds valdr, mk., XXII, 211.
Gunnskýlir, skjöldr, XXII, 11.
Gunnúngr, heimskíngi, XXII, 44.
Gæla, ginna, lokka, XV, 94.
Gælíng, ginníng, I, 21.
Gæti-árr, þjónn sem gætir einhvers; gæti-árr galta, svínahirðir, XVII, 98.
Gætibót, ábót, viðbót, V, 127.
Gögnflaug, ör, XXII, 39.

Haddbjartr, hárbjartr, bjarthærðr, XII, 215.
Haddfagr, hárfagr, XX, 35.
Hádýr, skip, XVI, 114.
Hafstrauma guð, sæguð, Posídon, I, 28.
Hafviggr, sæhestr, skip, XIV, 166.
Haldviðr hafra, svínahirðir, XVII, 179.
Hallr, steinn, XX, 51.
Hamdir, sonr Jónakrs konúngs ok Guðrúnar Gjúkadóttur (Snor. Ed., Skáldsk. mál 42. kap.); Hamdis skrúð, herklæði, XXII, 71.
Harðverkr, jötunn, IX, 226.
Harmdögg, tár, XIX, 62.
Hauðna, geit, IX, 80.
Hefríng, alda, XII, 169.
Heima, heimili, II, 59.
Heimdallr, einn af Ásum; Heimdalls hjörr, höfuð (því Heimdallr

var lostinn í hel með manns höfði), XIV, 163.
Heiptmegir, fjandmenn, III, 57.
Herðigögn hildar, vopn, XVI, 145.
Herdís, orustugyðja, Aþena, XXIV, 254.
Herjaföðr, mannafaðir, Seifr, XX, 44.
Herjan, Óðinn; Herjans klæði, herklæði, XXII, 55.
Hernám, herfáng, bráð, III, 125.
Hildirammr, hraustr í orustu, IV, 62.
Hildr, Högna dóttir; Hildar leikr, orusta, XXII, 50. — 2) orusta, I, 5.
Himinveigar, himneskt vín, XX, 30.
Hinnig, híngat, I, 139.
Hirðíngi, hirðir, XVI, 2.
Hissig, á hinum staðnum, þar, XI, 303.
Hjálmr jarðar, himinn, XVII, 275.
Hjálmunvölr, stýrissveif, III, 129.
Hjarni, heili (á dönsku *Hjerne*), IX, 175.
Hjúfra, gráta, IV, 116.
Hlautrjóðendr, fórnfærendr (eiginlega þeir sem rjóða stalla goðanna í fórnarblóði; hlaut = fórnardýra blóð), III, 3.
Hleifr, brauð, XVII, 167.
Hlít, nægð, XVII, 223.
Hlíta, viðhafa, X, 16.
Hlunnmarr, skip, IV, 185.
Hlynr, tré (á dönsku *Lön*), XII, 208; flæðar hlynr, skip, XIII, 42.
Hlýr, hlið. — 2) kinn; skógr hlýra, skegg, X, 134.
Hlýrbjúgr, borðbjúgr, XIX, 140.
Hlýri, bróðir, III, 19.
Hlýrroðinn, með rauðum borðum, IX, 61.
Hlömmuðr, vindr, XXIV, 5.
Hlæbarðr, skjöldr, XXII, 54.
Hnefi (= nefi), frændi, sonr, IV, 357.
Hneitir, sverð, XXII, 50.
Hniflúngr (= Niflúngr), konúngr, XVI, 80.
Hnjósa (hnýs, hnaus, hnusum, hnosit), hnerra (á dönsku *nyse*), XVII, 265.
Hnóf, skar, særði, XI, 3.
Hnossir, kostgripir, XVI, 171.
Hnugginn, sviptr; hnugginn viti, sviptr viti, vitlauss, II, 111; hugum hnuggnir, huglausir, IV, 148.
Hoddar, fjársjóðir (á þjóðversku *Hort*), III, 144.
Hógreið, hægt sæti; hógreiðar hleypiskúta, vagn, IV, 16.
Horskr, vitr, II, 60.
Hrafnvín, blóð, XXII, 163.
Hreinn, hreindýr; stála hreinn, skip, IX, 53.
Hremsa, ör; hremsu þeytir, mk., XXI, 19.
Hrinnir, göltr, XIX, 222.
Hrjóðr, brjótr; hrjóðr háborga (*πτολιπόρθιος*), IX, 259.
Hróðmögr, frægr sonr, VII, 157.
Hrótgarmr, eldr (hrót, þak, hús; garmr, hundr), IV, 190.
Hrymr, jötunn; hafdjúps hrymr, Próteifr, IV, 189.
Hræsvelgr, jötunn í arnar ham, er sitr á himins enda; undan vængjum hans standa vindar, V, 185.
Hrönn, alda; hrannar goti, öldu hestr, skip, XIX, 140.
Húflángr, borðlángr, IX, 268.
Húfr, skipsborð; húfs goti, borðhestr, skip, XVI, 144. — 2) skip, III, 132.
Hugborð, áræði, IX, 160.
Hvaðanæfa, úr öllum áttum, XVII, 82.
Hvarmdögg, tár, IX, 198.
Hvarmlog, augu, XIX, 108.
Hvarmregn, tár, XVII, 239.
Hvarmsól, auga, IX, 220.

Hvarrgi er, hvorr sem, XVIII, 23.
Hvata, flýta, II, 45.
Hveðrúngr, jötunn, IX, 152.
Hveim, hverjum, XIII, 178.
Hvel, hjól, IX, 116.
Hveldr, hvelfdr, íhvolfr, III, 132.
Hvíthaddaðr, hvíthærðr, XI, 4.
Hvítmylíngr, ör, III, 129.
Hvötuðr, sá sem hvatar, flýtir einhverju; hjörleiks hvötuðr, mk., XVI, 214.
Hyggjandi, hyggindi, VI, 53.
Hyrbjartr, eldbjartr, ljómandi, XXI, 207.
Hyrblikandi, eldblikandi, skínandi. XXII, 55.
Hyrfleinn, eldfleinn, reiðarslag, V, 60.
Hyrteinn, eldteinn, steikarteinn, XX, 125.
Höfugr, þúngr, IX, 148.
Hölzti, helzt til, of, XXIV, 151.
Höpt, goð, XVII, 236.
Hörgr, goðahús; goða hörgar, goða bústaðir (Ὄλυμπος), XX, 23.
Hörmugr, sorgbitinn, XVI, 99.
Hörn, eitt af nöfnum Freyju; námdúks Hörn, kk., XII, 64.
Hörvir, eldr; hörvis megni, (með) afli eldsins, XXII, 238.

Iðgjöld, endrgjald, umbun, II, 34.
Iðleikr, iðnaðr, íþrótt; iðleiks mær, Aþena, XXIV, 247.
Imarr, úlfr; imars bróðir, göltr, XIX, 220.
Ímun-tívi, orustuguð, Ares, VIII, 115.
Ísarn, járn, XII, 134.
Ísarngrár, járngrár, XXI, 2.
Ísarnhríðir, járnhríðir, orustur, XI, 299.
Ítr, ágætr, I, 11; í samansetníngum = mjök vel, afbragðs, t. d. ítrborinn, ættgóðr, ættstórr, II, 8; ítrgóðr, afbragðsgóðr, III, 47; ítrlaukr, afbragð, III, 37; ítrspakr, stórvitr, I, 18.

Jaðarr, foríngi, oddviti, VI, 54.
Jarðmen, sjór, III, 134.
Jólnar, goðin, XX, 126.
Jöfurr, konúngr; himna jöfurr, Seifr, XVIII, 130.
Jörmungandr, miðgarðsormr. — 2) sjór, XI, 80.
Jörmungrund, hin mikla jörð, XX, 28.

Kallarar (κήρυκες), einskonar þjónar, sem gengu um beina, I, 40.
Karmr, ker; veiga karmr, vínker, III, 182.
Kaungulvafa, kónguló, XVI, 18.
Kinnskógr, skegg, XVI, 80.
Kjörskamtr, valinn skamtr, betri en annarra, IV, 25.
Klífa (klíf, kleif, klifum, klifit), klifrast, X, 49.
Knapi, dreingr, XV, 219.
Knėfánga, taka um knė einhvers ok biðja hann fulltíngis, VI, 65.
Knega (kná, knegum; knátta, knátt) geta; knega eyða, geta eydt, eyða; kná-a vera, getr eigi verit, er eigi, I, 80.
Kneyf, sú sem slítr eða eyðir (sbr. á engilsnesku *cneóvan*, eyða, slíta); kneyf gullþráðar, kk., XI, 163.
Kneyfir runa, sá sem fer með eða hirðir um gölt, svínahirðir, XVII, 167.
Kníar, menn, I, 66.
Konr, kynsmaðr, ættíngi, IV, 24.
Kostsamr, vænn, frábærr, III, 123.
Krisma (χρῖσμα), smyrsli, XVIII, 83.
Krjúpa (á dönsku *krybe*), skríða, VI, 59.
Kunna, ámæla, finna at, V, 104.
Kveita, þeyta, fleygja, IX, 41

Marr, hestr; siglu marr, skip, III, 5.
Meiðmar (á engilsaxnesku *máðmas*), fé, dýrgripir, II, 164.
Meiðr, trè, IX, 158; leista meiðar, fœtr, XIV, 11.
Meitilberg, hvasst ok þvergnýpt berg, III, 135.
Meitilstapi, hvass stapi, V, 196.
Meldr, mölun á kvörn, XX, 48.
Mèlgreypr, mèlgrimmr, sem tyggr járnmèlin (um hesta), IV, 7.
Mella, tröllkona; mellu kundr, jötunn, IX, 114.
Miðgarðr, jörð (á engilsaxnesku *middangeard* = jörð, heimr), miðgarðs vörðr (γαιήοχος), um Posídon, I, 26; und miðgarði, á jörðu, III, 1.
Miðjúngr, jötunn, IX, 137.
Miðlúngi, litlu; miðlúngi síðarr, litlu síðarr, III, 78.
Milska, sætr drykkr, mjaðar blanda (*mulsum* á latínu), X, 115.
Milsku-drykkr, blandaðr sætr drykkr, X, 114.
Mímúngr, sverð; mímúngs Freyja, orustugyðja, Aþena, XXII, 113.
Mjörkvi, myrkvi, VIII, 265.
Móðakarn, hjarta, II, 41.
Móðugr, hugaðr, IV, 120(?), XVI, 79. 2) sorgligr, XI, 42.
Mund, hönd; munda lög, handalögmál, áflog, XVIII, 6.
Mundilföri, faðir Sólar; mær Mundilföra, sól, IV, 182.
Munr, vili, óskir; honum lèk at munum, lèk í hug, kom til hugar, II, 17. — 2) ást; vera á munum við, leita ástar einhvers, III, 98.
Munuð, ástir, V, 56.
Múspell, heimr ljóss ok heitr (Gylfaginníng); múspells síur, stjörnur, XII, 150.
Myrkfara, nótt, XII, 150.
Myrkviðr, skógr, IV, 149.
Mærr, fagr, skírr, VII, 82. — 2) frægr, III, 78.
Mögr, sonr, II, 25.
Mörnir, sverð; mörnis reynir, mk., XXII, 115.

Naðbitinn, sverðbitinn, XXIV, 198.
Naddaðr, negldr; silfri naddaðr, silfrnegldr, VIII, 191.
Naðel, orusta; naðels boði, mk., VI, 94.
Naðreynir, mk., XXII, 67.
Naglfari, skip, XI, 80.
Námdúkr, einskonar kvennfat, VI, 24.
Námskorð, kk., XV, 111.
Nanna, kona Baldrs; siglis nanna, kk., XI, 120.
Nauðleytir, tengdir, X, 213.
Nè, ekki, I, 7.
Nema, taka. — 2) svipta; nema aptrkomu degi, leyfa eigi at koma heim aptr, I, 3.
Nipt, kk. XIX, 194.
Níta, neita, I, 90.
Njórunn, ein af Ásynjum; nistis njórunn, kk., XIX, 24.
Nokkverr, nokkurr, XVIII, 182.
Nýsast, hnýsast, III, 33.
Nærgi er, hvenær sem, í hvert skipti sem, XVI, 64.
Nökkviðr, nakinn, VI, 101.

Óarinn, óplœgðr, IX, 60.
Óargr, óragr; hið óarga dýr, ljón, IX, 142.
Oðgöfugr, frægr af saunglist sinni; óðgöfugr halr, saungmaðr (ἀοιδός), III, 125.
Ofdyri, dyratrè, VII, 41.
Ofa-reiðr, ákafliga reiðr, XXI, 79.
Ofraðar, mjök; ofraðar bezt, miklu bezt, lángbezt, IV, 363.

Óglaðnir, jötunn, IX, 180.
Ógndjarfr, orustudjarfr (ógn = orusta), IV, 3.
Ómanfullr, ymjandi, glymjandi, VII, 168.
Ona, vona, VIII, 148.
Ormvángr, orms jörð, gull; ormvángs hildr, kk., XV, 232.
Orr, vorr, III, 63
Óskmögr, óskasonr, IV, 58.
Oss (á þjóðversku *unser*), vorr, III, 79.
Óvísagestr, óþarfr, skaðvænn gestr (gera óvísu = gera óskunda, Fornm. s. VI, 201), II, 79.
Óvísavargr, spillvirki, III, 35.

Pentaðr, málaðr, III, 205.

Ráða einhvern, ráða einhverjum bana, XI, 165.
Rádýr, skip, III, 84.
Ráhjörtr, skip, II, 192.
Rán, kona Œgis; Ránar brúðir, Ránar dœtr, öldur, III, 137; vellir Ránar, sjór, IV, 328; Ránar drottinn, Posídon, XI, 53.
Rann, hús, IV, 70.
Refill, sækonúngr; Refils stigar, haf, III, 35.
Regin, goð, I, 98.
Reginvaldr, afar máttugr, XXIV, 258.
Reið, vagn; reiðarstjóri, vagnstjóri, III, 32; þilju reið, skip, IV, 328.
Reiða, flytja, III, 94. — 2) hrekja, V, 154.
Reiðfar, hestr; gætir reiðfara, reiðmaðr, ríðari (ἱππότα), IV, 69.
Reik, rák á höfðinu, sem skiptir hárinu frá enni til hnakka; reikar stallr, höfuð, XIII, 187; = reikar klettr, XXII, 166.
Reikuðr, hrindíng; fœra í reikuð (στυφελίζειν), hrekja, hrjá, XVI, 51.
Remivana, aflvana, XXI, 61.
Riðvaxinn, þrekinn, þéttvaxinn, XIX, 126.
Rín, ár heiti; Rínar birti, gull, XVIII, 144.
Ript, klæði, IV, 137.
Rúna, eiginkona, II, 44.
Runi, göltr; vörðr runa, svínahirðir, XIV, 21; = runa ráðvaldr, XVII, 89.
Ræði, rœðari (sbr. Fóstbrœðra s. Khm. 1852, 100. bls.: "Egill var góðr ræði ok vel syndr"), I, 103.
Röðull, sól; sára röðull, sverð, XI, 50.
Röggvar, loðit skinn eða loðnan á skinninu; faldinn feldar röggum (κεκαλυμμένος οἰὸς ἀώτῳ), sveipaðr loðnum skinnfeldi, I, 177.
Röggvarfeldr, loðinn skinnfeldr, gæra (κῶας), III, 19.
Rökkvihliðr, uxi; rökkvihliðs reimar, reimar af uxahúð, XII, 204.

Safi, vökvi, II, 152.
Salgarðr, sverð; salgarðs reynir, mk., XXII, 36.
Salvörðr svína, svínahirðir, XVII, 181.
Sè (þú), sjá (þú), III, 90.
Sefi, hugr, II, 43.
Segi, hluti, partr, IX, 35.
Seigbendr, seigbeygðr, (um boga) sem illt er að benda, XXI, 77.
Seimfágaðr, gylltr, XXI, 42.
Seimvaldr, gullauðigr, XXIV, 223.
Senditívi, sendiguð, Hermes, V, 21.
Senna, þrefa, þjarka, XVIII, 193.
Serak = sáða ek, XI, 15.
Sessmegir, borðgestir, IX, 4.
Sessrúmnir, skip, IV, 365.
Sía, gneisti, XII, 150; sbr. múspell.

Sif, ein af Ásynjum; siglis Sif, kk., XV, 220.
Sifjúngar, ættíngjar, III, 222.
Sigli, men, XI, 120, sbr. Nanna.
Sigtívar, guðir, XXIV, 190.
Simi, þráðr, XXI, 120.
Simir (ok simi), uxi, XX, 93.
Silfrnaddaðr, silfrnegldr, XXII, 169.
Sinn, ferð; ein í sinni, ein á ferð, VI, 40.
Sinni, fèlagi, XX, 8.
Sinna, fara, II, 162. — 2) taka þátt í, III, 123.
Sják, sè ek, II, 101.
Sjálfgi, eigi sjálf, VII, 143.
Sjást, óttast, I, 172.
Sjóli, konúngr; sjólar himna, himinkonúngar, himinbúar, guðir, XIX, 288.
Sjónepli, auga, IX, 220.
Sjót, safnaðr, III, 69.
Skammbragðs, á skömmu bragði, á stuttum tíma, III, 68.
Skaptker (κρατήρ), blöndu ker; í því blönduðu menn vatni í vínit ok skeinktu úr því á bikarana, I, 40; skaptkers lögr, vín, II, 146.
Skatyrnir, himinn, VI, 22.
Skipast, breytast, III, 68.
Skollvíss, svikull, XI, 184.
Skreivintanni, göltr, XIX, 221.
Skutill, borð, I, 40.
Skynda, skunda, flýta sèr, II, 2.
Sköfnúngr, sverð, XXII, 153.
Skölkvíngr, sverð, XXII, 33.
Skör, höfuð, I, 168. — 2) höfuðhár; skarar fjall, höfuð, X, 85.
Snotr, vitr, II, 48.
Sólargoð, sólguðinn, Helíus, XXIII, 89.
Sónarblót, friðþægíngarblót III, 2.
Spáfygli, fuglar, af hverra kvaki eða flugi spáð er, II, 75.
Spenja (spen, spanda, spanit), draga, XII, 120.
Spjalli, sá sem spjallar, talar við einhvern; spjalli guma, mk., VIII, 223.
Sporna, stíga, troða, I, 97.
Sprotvaldr, sem hefir veldissprota (σκηπτοῦχος), konúngr, II, 107.
Stál, stefni; stála hreinn, skip, IX, 53.
Stalli (eða stallr), altari, III, 126.
Steðr, stoðir, XX, 55.
Steindr, málaðr, XII, 100.
Steinn, litarefni; dreginn blám steini, blálitaðr, III, 138.
Straumgoti, skip, XXIV, 59.
Strind, jörð; svana strind, sjór, svana strindar stúfr, skip, XVI, 32.
Stund; stundar fagr, forkunnar fagr, III, 223; stundar feitr, velfeitr, IV, 25.
Stúfr, uxi, XVI, 32; sbr. strind.
Súðmarr, skip, XXIV, 60.
Sufl (á dönsku *Suul*), kjötmeti, sem borðað er með brauði, III, 222.
Sumbl, öl, vín, veizla, I, 44.
Sumblsamr, drykkjugjarn, III, 16.
Sundfákr, skip, XIX, 142.
Súneytr, sama um gölt sem kúneytr um tarf (sýr = gylta), XXIII, 75.
Svaran, sárliga, XV, 171.
Svarr, dýrr; svarr svardagi, V, 89. — 2) þúngr; svarar sorgir, XV, 4.
Svaslega, sætlega, unaðlega, V, 29.
Svass, sætr, kærr, XVI, 12.
Svefja, sefa, XVII, 272.
Sveigr, bogi, XXI, 36.
Sveipr, sá sem snýr, rótar upp; öldu sveipr, ár (*remus*), VI, 125.
Sveiti, blóð, XI, 196.
Svelta (á gotnesku *sviltan* = deyja), deyja, V, 146.
Sviðrir, Óðinn; Sviðris hamr, herklæði, XXII, 50.

Svima, (svam, svámum; á dönsku *svömme*), synda, V, 153.
Svörðr, hársvörðr, húð, II, 133.
Syn, synjun, neitun; setja syn fyrir, neita, III, 123.
Sýnu, auðsjáanliga, mjök, miklu; sýnu fjarri, V, 136; sýnu betra, XVII, 284.
Sylgr, drykkr, XI, 196.
Sýsliga, fljótt, III, 195.
Sæfa, svæfa, stínga til dauðs, slátra, I, 39.
Sælíngr, ríkmenni, höfðíngi, XVIII, 172.
Sæmeiðr, sætrè, skip, XI, 2.
Særimnir, göltr, XIV, 201.

T í samsetníngum aptanvið sagnir = at = eigi: voru-t, voru eigi, V, 192; vildi-t, vildi eigi, XVI, 22.
Tafn, fórn, I, 23.
Takfæð, fátœkt, XIV, 75.
Tamsvöndr, vöndr sem tamit er með, töfra sproti, X, 143.
Tandrauðr, eldrauðr, XIX, 124.
Targa, skjöldr, XVIII, 150.
Tárughlýra, með tárugum kinnum, grátinn, XVI, 99.
Tènaðr, aðstoð, fulltíngi, XVI, 110.
Tiggi, konúngr; tiggi himna, Seifr, XX, 27.
Tírargjarn, framagjarn (tírr, frami, frægð), II, 170.
Tírmögr, frægr sonr, XIX, 45.
Tírr, frami, frægð (sbr. þjóðverska orðið *zier*), III, 124.
Tívar (á latínu *divi*), guðir, I, 11.
Tjarga = Targa; tjörgu meiðr, mk., XVI, 116.
Tregi, hindrun; færa í trega, tálma, II, 120.
Tvíker, tvíhvelft ker með botni í miðjunni (*δέπας ἀμφικύπελλον*), III, 30.
Tvistr, dapr, sorgbitinn, I, 41.
Tvíviðr, bogi, XXI, 189.
Tý- í samsetníngum = mjök, vel, t d. týframr, II, 118; týhraustr, III, 78; týmargr, III, 48; týskipaðr, IX, 156; týspakr, III, 220; tývel, IX, 157; týværn, III, 159; týþjokkr, XIX, 115.
Týja, hjálpa, III, 101.
Týr, einn af Ásum; Týs leikr, orusta, III, 122.
Týrviðr, mk., XVI, 117.
Týrviðr, tjöruviðr, XVIII, 150.

Undirdjúps-álfr, sjáfarguð, Próteifr, IV, 182.
Unnardjúp, sjáfardjúp; unnardjúps álfr, = undirdjúps-álfr, XVII, 68.
Unneldr, gull; unnelds Freyja, kk., XXII, 202.
Unnvigg, sjáfar hestr, skip, XII, 87.
Uppheimr, himinn; uppheims guð, Seifr, XVI, 55.
Úr, regn, V, 73.
Urðr, örlaganorn, XXI, 13.
Úrigr, votr, XX, 91.

Vagn, vagninn á himninum, V, 130.
Vagna, hvalfiskr, X, 221.
Valbassalegr, svínslegr, X, 116.
Valdögg, blóð, XIX, 224.
Valglitnir, göltr, XIX, 218.
Valir, Gallar, Frakkar; Vala málmr, gull, IV, 54.
Vallroð, orusta, XVIII, 128.
Vángr, jörð, II, 162.
Varpskúfla (*ἀθηρολοιγός*; á þjóðversku *Worfschaufel*), verkfœri til at hreinsa korn með, XXIII, 74.
Varra, alda, sjór, X, 64.
Varrdís, sædís, sægyðja, V, 167.

Ve, heimkynni, bústaðir, II, 88.
Vear, guðir; Vea nokkurr, nokkurr af guðunum, IV, 331.
Veðurr, hrútr, IX, 209.
Vega, flytja, VI, 19.
Veigar, vín, I, 94.
Veorr, vörðr; miðgarðs veorr, jarðar vörðr, Posídon, VIII, 151.
Vergr, óhreinn, VI, 41.
Verr, eiginmaðr, I, 6. — 2) mk., I, 123.
Víðbláinn, himinn, V, 82.
Viðrir, Óðinn; Viðris el, orusta XXII, 80.
Vígdarr, spjót, XXIV, 247.
Vigg, skip, IV, 365. — 2) hestr; unnar vigg, sjóar hestr, skip, VII, 121.
Vigr, spjót, XVIII, 128.
Vigrir, göltr, XIX, 219.
Vígveðr, orusta, XXIV, 234.
Vilgi, eigi vel, eigi mjök; var vilgi mikils vant, vantaði eigi mjök mikið á, IX, 264.
Vílmegir, vesalir menn, XXI, 153.
Vilnast, œskja, III, 80.
Vindker, himinn; vindkers botn jörð, XI, 10.
Vínferill, vínker, IV, 97.
Vinnbjartr, sverð; vinnbjarts málmr, sverðmálmr, XXII, 108.
Virvill, sækonúngr; virvils völlr, sjór, IX, 122.
Viz, mjök; viz hár, mjök hár, XII, 208.
Voðvirkja, enda, ljúka við, II, 50.
Væddr, klæddr, XVIII, 20.
Vætki, eigi neitt, IX, 39.
Völundr, þjóðhagi, hugvits ok hagleiks maðr; vofinn völundum, ofinn af högum mönnum, ofinn með mesta hagleik, XIII, 104.
Vözt (vaztir), fiskimið; vazta blakkr, skip, I, 118.

Ýmir, jötunn; ýmis hold, jörð, VI, 75.
Yr, bogi, XXI, 187.

Þanns, þann es, þann er, II, 59.
Þars, þar es, þar er, I, 9.
Þats, þat es, þat er, XVII, 49.
Þeims, þeim es, þeim er, V, 93.
Þeirs, þeir es, þeir er, XVII, 103.
Þella, viðartegund; armbaugs þella, kk., II, 54.
Þelli-málfeti, hestr úr þellu eða þöll, tréhestr, IV, 124.
Þinnig, þángað, III, 198.
Þjóðmærr, mjök frægr, III, 76.
Þjórr (á dönsku *Tyr*), tarfr, graðúngr, I, 10.
Þóptar, félagar, II, 183.
Þremjarr, (eða þremjar), smiðrim á sverðblaði; þremjars Freyja, orustugyðja, Aþena, XXIV, 257.
Þrúðgelmir, jötunn, IX, 120.
Þrúðhugaðr, stórhugaðr, hugstórr, XI, 135.
Þrúðvaldr (Óðins heiti), afar sterkr; þrúðvalds dóttir (*ὀβριμοπάτρη*), Aþena, I, 37.
Þruma, dveljast, hafast við, V, 172.
Þrumuvaldr, þrumuguð, Seifr, XXIV, 13.
Þrymr, bogi; þryms girni, boga strengr, XIX, 285.
Þrömmúngr, fiskr; þrömmúngs slóðir, sjór, II, 165.
Þröm, rönd, yzti hluti; leggja við foldar þröm, leggja at velli, II, 46.
Þrös, ör, XXI, 28.
Þvá (þvæ; þó, þógum, þvegit), þvo; þógu = þvoðu, X, 88; þó = þvoði, X, 176.
Þveita, öx, III, 206.
Þveita, þeyta, kasta, VII, 159.
Þvinnill, sækonúngr; þvinnils leið, sjór, VIII, 266.

---

**PRENTVILLUR:** III, 79. Múnanti, *l.* Mímanti. — IV, 5. Aktors, *l.* Alektors. — XVI, 181. Ssifs, *l.* Seifs. — XXII, 106. þenna, *l.* kenna. — XXIV, 123. þá, *l.* þú. — XXIV, 247. mær, *l.* mey.

